# MINNINGARRIT

ALDARAFMÆLIS

## JÓNS SIGURÐSSONAR

1811—1911

17. JÚNÍ





REYKJAVÍK — MCMXI

# Bréf Jóns Sigurðssonar

— Úrval —

---

Gefið út af báðum deildum

Hins íslenska Bókmentafélags

Reykjavík — 1911

# Formáli.

Á fundi 27. apríl 1906 samþykkti deild hins íslenzka Bókmenntafélags í Reykjavík tillögu frá stjórn deildarinnar um að heita verðlaunum fyrir æfisögu Jóns Sigurðssonar, „er innihaldi ýtarlega lýsing á hinni pólitísku og hinni vísindalegu starfsemi hans, og sé að öðru leyti gagngjör lífssaga hans“. Skyldu ritgjörðir vera komnar til stjórnarinnar fyrir lok janúarmánaðar 1910. Þessi frestur leið þó svo, að engin slík ritgjörð barst stjórninni. Þá hugkvæmdist okkur, sem höfðum um nokkurn undanfarinn tíma búið yfir þeirri fyrirætlun að safna saman og reyna að forða með því við töpun því er eptir kynni að vera enn af bréfum Jóns Sigurðssonar, að stinga upp á því við Bókmenntafélagsstjórnina, að hún gengist fyrir því, að félagið, í stað æfisögu Jóns Sigurðssonar, sem ekkert útlit var lengur til að fengist rituð og útgefin fyrir aldarafmæli hans, tæki það ráð upp, að gefa út sem minningarrit á aldarafmæli hans úrval af bréfum hans, og buðum við félaginu aðstoð okkar við söfnun bréfanna og útgáfu þeirra. Félagsstjórnin tók vel undir þetta og var síðan tillaga hennar um að fela okkur þetta starf fyrir félagið samþykkt í einu hljóði á félagsfundi 16. apríl 1910, en Hafnardeildin samþykkti síðar, á ársfundi 20. ágúst 1910, sömuleiðis í einu hljóði, að greiða allt að helmingi af útgáfukostnaðinum.

Í fyrstu var svo ráð fyrir gjört, að ritið myndi eigi fara fram úr 30 örkum prentuðum alls, að meðtöldum skýringum eða athugasemdum og nafnaskrá, en þegar til kom, þótti ekki fært að takmarka svo útgáfuna, og varð safnið sjálft sem næst 40 arkir, auk athugasemda og nafnaskrár. Þetta leiddi til þess, að bókin varð ekki fullbúin fyrir aldarafmælið, svo að framhaldshepti varð að koma síðar á

árinu, og eins hafði það eðlilega einnig í för með sér mikinn kostnaðarauka fyrir félagið, frá því sem upphaflega var til ætlazt, en þar bætti alþingi nokkuð úr, því að það veitti félaginu í notum þess 500 króna aukinn fjárstyrk þetta ár, á fjáraukalögunum fyrir árin 1910 og 1911.

Úrval það af bréfum Jóns Sigurðssonar, er birtist í safni þessu, er aðeins lítill hluti af öllum bréfum hans. Í meira en heilan mannsaldur skrifaðist hann á við marga menn í hverjum landsfjórðungi, að við ekki segjum í hverri sýslu, og mundu bréf hans skipta þúsundum, ef þeim væri öllum til skila haldið. Mikil eptirsjón er að því, að engin bréf Jóns Sigurðssonar til Steingríms biskups Jónssonar, Þorsteins kanselliráðs Jónssonar, Jóns yfirdómara Johnsens, Bjarna rektors Jónssonar, Bjarna amtmanns Thorsteinssons, Oddgeirs Stephensens, Hannesar prófasts Stephensens og síðast en ekki sízt, til Eiríks Magnússonar bókavarðar í Cambridge finnast í safni þessu. Það er og meinlegt, að svo fá bréf Jóns Sigurðssonar til Sveinbjarnar rektors Egilssonar og Jóns ritstjóra Guðmundssonar hafa varðveitzt. Og fleira kynni það án efa að vera, sem sakna mætti í safni þessu, þótt við kunnum ekki það að nefna. Einkum er mikil eptirsjá að bréfunum til Jóns Guðmundssonar fyrir stjórnmálasögu Íslendinga frá árunum 1845—1859, því að hann var einmitt þessi ár mesti trúnaðarvin og samherji Jóns Sigurðssonar. En enda þótt úrval þetta sé engan veginn eins fjölskrúðugt og við hefðum óskað, þá ætlum við þó að safnið, eins og það nú er, gefi ljósa og áreiðanlega mynd af Jóni Sigurðssyni og samtíð hans, og að í því felist dýrmæt drög til lífssögu Jóns Sigurðssonar, nokkurn veginn jafnt dreifð yfir allan aðalstarfstíma hans, sem hljóta að verða ómissandi uppspretta fyrir þann eða þá, er síðar munu gefa sig að því að semja æfisögu Jóns Sigurðssonar eða stjórnmálasögu og menningarsögu íslenzku þjóðarinnar um hans daga.

Það hefir verið meginregla okkar að fella ekki burtu nokkurt bréf Jóns Sigurðssonar, sem við höfðum handa á milli, sem skipti nokkru um æfi hans eða íslenzk mál. Hinsvegar höfum við í mörgum bréfum fellt niður atriði um erindagerðir Jóns Sigurðssonar fyrir einstaka menn og sumt annað, er hefir þótt mega missa sig, einkum

hafi það verið endurtekning á því er áður var komið, enda höfum við og, einkum síðast í bréfasafninu, orðið að taka mikið tillit til rúmsins, og því verið ósparari þar en ella á úrfellingum heilla bréfa, og atriða úr þeim er tekin voru. Úr hinum dönsku bréfum Þorgeirs prests Guðmundssonar tókum við og aðeins þau atriði upp í safnið, er við töldum varða almennt Ísland og Íslendinga.

Í fyrstu bréfum Jóns er réttritun á bréfum hans enn nokkuð á reiki, en við töldum réttast að hafa þá réttritun á bréfum hans öllum, sem hann fylgdi sjálfur í ritum sínum og bréfum lengst af, allan seinni hluta æfi sinnar. En það er hvorttveggja, að réttritunin á bréfunum sjálfum, jafnvel þann tímann, er ekki ætíð sjálfri sér samkvæm í sumum atriðum, enda verðum við og að kannast við, að ef við hefðum gætt þess í tíma, þá hefðum við ef til vill getað verið þar fastari í rásinni en við höfum verið, og biðjum við lesendur velvirðingar á því, sem þar kann að hafa mistekizt.

Athugasemdir og skýringar við bréfin hefir Þorleifur H. Bjarnason samið að mestu leyti, en hefir þar, einkum að því er snertir bréfin til Halldórs yfirkennara Friðrikssonar og Jóns Guðmundssonar, og Gísla Hjálmarssonar að nokkru leyti, notið aðstoðar meðútgefandans Jóns Jenssonar. Nafnaskrána hefir Jón Jensson samið einn, en á þar að þakka hr. alþingismnani Hannesi Þorsteinssyni yfirlestur handritsins og nokkrar mikilsverðar upplýsingar. Sakir þess að safnið varð, eins og áður er sagt, $^1/_3$ stærra að vöxtum til en forseti Reykjavíkurdeildarinnar hafði samið um við útgefendurna, neyddumst við til að færa athugasemdir og nafnaskrá eins mikið saman og frekast mátti verða.

Að lokum viljum við tjá mönnum þeim, sem hafa léð okkur söfn sín af bréfum Jóns Sigurðssonar, alúðarþakkir okkar, en nöfn þeirra eru tilgreind í athugasemdunum við hvert einstakt bréf, er þeir hafa léð okkur. Þó er þess þar eigi getið um bréfin til Guðbrands Vigfússonar, að þau höfum við fengið léð fyrir vinsamlega milligöngu dr. W. A. Craigie í Oxford. Þá hefir landsbókavörður Jón Jakobsson og aðstoðarbókaverðirnir Jón sagnfræðingur Jónsson og Halldór Briem aðstoðað okkur á ýmsan hátt við eptirgrennslanir okkar í landsbókasafninu, og Björn prófessor Ólsen, forseti Reykjavíkurdeildar-

innar, hefir stutt okkur með ýmsu við valið og útgáfu á bréfunum og lesið 2. prófórk af öllu safninu.

Í fjarveru Þorleifs H. Bjarnasonar, annars meðútgefandans, hefir adjunkt Jóhannes Sigfússon lagt smiðshöggið á undirbúning athugasemdanna undir prentun og lesið prófarkir af þeim, og kann hann honum beztu þakkir fyrir þann greiða.

Reykjavík og Kaupmannahöfn, í ágúst 1911.

*Jón Jensson.* *Þorleifur H. Bjarnason.*

## 1.

## Til dr. Sveinbjarnar Egilssonar. 1836.

Þér segið í yðar góða bréfi af 17. Aug. f. á. að »framburður sé aðalgrundvöllur réttritunarinnar«, og að maður einúngis »hér og hvar verði að hafa hliðsjón af orðauppruna«. Jeg vil játa, að þið sem fylgið Rasks meiníngu um þetta mál, hafið mikið fyrir ykkur, en mér finnst það færa til Conseqventser, sem ekki mundu leiða til nota fyrir málið, ef þeirri reglu væri fylgt. Það sem þér segið, að *réttrit(un)* ætti að vera réttur framburður gerður sýnilegur með teiknum, er vissulega að miklu leyti satt, en hvað er *réttur* framburður? Þó — jeg vil byrja á öðru fyrri, sem mér finnst sé augljóst.

Það getur víst enginn neitað, að þegar skript fyrst var uppfundin hefir viðleitni verið höfð til að fá sýnileg teikn sem, eptir því sem bezt varð, skyldi merkja öll hljóðföll í málinu, og að framburður liggur að því leyti til grundvallar fyrir allri réttritun, en það er líka, að mér finnst, eins auðsjáanlegt bæði að menn ekki allt í einu hafa getað fundið teikn fyrir öll hljóðföll og þeirra óendanlegu breytíngar og líka að menn hafa orðið að koma sér saman um að láta teiknin vera sjálfum sér samkvæm eða conseqvent og án efa slá skyldum hljóðföllum saman, því annars hefðu teiknin orðið eins margbrotin og hjá Kínverjum. (Um þær svokölluðu Hieroglypher tala jeg ekki, því það hefir fljótt sést hvað þær voru ófullkomnar og óviðráðanlegar). Nú var þá með þessu móti komið einhvers-

konar system eða föst regla, sem líka varð að vera sjálfri sér samkvæm, að svo miklu leyti sem mögulegt var, í réttrituninni, en þó að þetta system væri í upphafi bygt á framburði, eða réttara sagt þó framburður hefði verið orsök til að það kom upp, þá tæmdi það þó ekki allar mögulegar hljóðsgreinir í málinu í eiginlegum skilníngi, og þar það ekki varð, fékk maður bókmálið, sem þannig varð systematiserað, við hlið daglega málsins, og það er víst enginn efi á, að fljótt hefir orðið munur á þessum tveimur síðum málsins. Nú fylgdi hér af, að bókmálið, sem maður hafði uppteiknað fyrir augum sér, lagaðist og jókst sjálft fyrir sig, og gat líka lagað og aukið hið daglega málið, því þegar maður hafði það uppskrifað, varð það fastara og hægra að gera það sjálfu sér líkt. Það hlaut líka að verða aðgreint frá hinu, því þegar það var komið upp, var það konst, sem að sönnu ætíð hefir grundvöll sinn í náttúrunni og á að líkjast henni, en getur þó aldrei orðið náttúran sjálf.

Út af þessu vildi jeg þá leiða*, að sönnunin fyrir að framburður sé aðalgrundvöllur réttritunar ekki geti byggst á uppruna bókmálsins, að öðru leyti en því, að daglega málið er til á undan hinu og hitt hefði [ekki] getað orðið til án þessa.

Hvað nú áhrærir Conseqventser sem fylgdu af því, ef maður ætlaði að skrifa eins og talað væri, þá er það fyrst, að maður kemst í bágindi með *rétta framburðinn*, því hann verður annaðhvort að grundvallast á bókmálinu ellegar á heyrnargáfu (Gehör) þeirra sem málið tala eður heyra. Eigi hann að grundvallast á bókmálinu, þá verður hann nokkuð stirður, því þá missti maður líklega mikið af þeim fínu hljóðsbreytíngum, eða Nuancer sem hið daglega málið hefir svo mikið af, svo það yrði eins og að sýngja með tómum heilum nótum; líka missti þá daglega málið mikið af sínu frelsi, sem því er ómissandi, þar það á að verka nokkuð til

hins fullkomnunar. — En ef heyrnargáfan ætti að greina rèttan framburð, þá kæmist maður ekki betur af, því þá hefði hver rétt til að skrifa einsog honum heyrðist, og þó allir gerðu það eftir beztu samvizku, þá yrði réttritunin samt býsna ósamkvæm, sem von væri, ekki einúngis milli útlendra, sem legðu sig eptir málinu, og innlendra, heldur einnig innlendra sín á milli, og jafnvel lærðra, þó þeir einir ættu að verða dómarar yfir hver réttur framburður væri, — frá þessari síðu yrði það þessvegna varla kljúfandi að fá réttritun, sem menn gætu botnað í, ekki að tala um, að eptir kannske 50 ár væri bókmálið orðið sjálfu sér öldúngis ólíkt, og ómögulegt að finna neina málabyggíng í því fyrir þann, sem legði sig eptir því á bókum, sem þá kæmu út, því hvað bókmálið, þegar því er haldið við, gjörir til að geyma kjarnann úr málinu, er vaxið upp úr allri efasemd, og þegar þess missti við, þá er í rauninni kjarnanum tapað, en einn hyrningarsteinn bókmálsins er réttritunin.

Auk þessa er enn nú spursmál, hvort öll hljóð í málinu verða afmáluð með teiknum, án þess að teiknin yxi svo mjög, að maður yrði feginn að brúka daglega málið heldur; jeg tek til dæmis *n* hljóðið í *steinn* og *l* hljóðið í *allur*, því engum sem ekki þekkir framburðinn dettur í hug að úttala það, einsog við gerum, við hliðina á öðrum orðum t. d. *kann*, *kinn*, *grunn* o. s. frv. Maður sér líka, að þeir hafa verið að rembast við að fá það útúr *rn* og *rl* (lint *ll* man eg ekki nema í útlendum orðum, t. d. ball, Gallia), en það er eins ónýtt. Dönskum heyrist það optast vera *tn* og *tl*, og þeir sem jeg hefi sagt hér til í íslenzku hafa átt einna bágast með það af öllum hljóðum. Næst hafa þeir komizt, þegar jeg hefi skrifað t. d. *steiddn*, *addlur*. En hvernin færi nú, ef þetta væri tekið í réttritun okkar? Þá dytti naumast mörgum í hug, að það væri nominativus af *steins*, *als* (ɔ: *alls*) o. s. frv., og svona væri um fleira.

Sama er að segja um aðgreiníng á ólíkum orðum, sem hafa eins framburð, að eg ekki tali um mun á framburði hljóðstafa, sem maður naumast tekur eptir í daglegu tali, og þessvegna einmitt gefa mest efni til þrætu, þegar dæma skal eptir heyrn.

Mér finnst nú að hér af leiði, að framburður geti ekki orðið aðalgrundvöllur réttritunar, þar það mundi leiða til of mikils sjálfræðis, og með tíðinni svipta málið sínum mesta styrk. En það er samt ekki mín meiníng, að framburður skuli að engu metast, því hann leiðir til að staðfesta Etymologien á mörgum stöðum, og gefur henni margt nýtt og merkilegt efni, og að því leyti finnst mér, að okkar meiníng sé ekki ólík í öðru, en að þér viljið gera meira úr framburðinum, en jeg meira úr Etymologien, og það ætti þá að afgjörast með því að sýna, hvort af þeim ætti að ráða, ef kæmi það tilfelli, hvar þau stríddu einmitt hvort á móti öðru, svo annaðhvort yrði að ráða; því það er auðvitað að þegar báðum *verður* fullnægt, þá á að gjöra það, hvar uppá mér sýnist þér hafa fært ljóst dæmi í *supino pass(ivi)* af *verbo* skemma (skemzt).

Mér sýnist ekki heldur það verði fullkomið collisionstilfelli í orðinu maður, af því við vitum, að í gamla málinu hefir verið svo opt skipt um *ð* og *nn* í uppruna-samstöfu (Stammen) (t. d. *muðr—munnr*, *guðr—gunnr* ofl.); en t. d. þegar maður skrifar *hyrndr* af *horn*, en framburðurinn heyrist mér vera *hindr* (einsog jeg get ekki heyrt mun á *rn* í *horn* og *nn* í *beinn*), þá sýnist mér vera Collision, og þó skrifa jeg heldur *hyrndr* en *hindr*. Þarmeð vil jeg raunar ekki hafa sagt, að allstaðar muni svo vera, því það þarf ítarlegri rannsóknar, en víða hvar held jeg það verði, og ef svo væri, þá yrði Etymologie eo ipso aðalgrundvöllur. Eins er um orð, sem komin eru í vana af latmæli og öðru þessháttar, t. d. *Norlíngur* (Norðlíngur), *Bássendar* (Bátssandar) o. s. frv. — Í neutro af adjectivis er það einna helzt sem

maður verður að laga sig eftir framburði, en það stríðir engan veginn móti Etymologien, þegar réttritunarfræðin getur um uppruna þeirrar undantekníngar, einsog [*ttt*][1] í *bratt* verður hreinn óþarfi. Og þær reglur verða yfirhöfuð færri, þegar Etymologie er lögð til grundvallar, heldur en þegar framburður er lagður það, jafnvel eins nærgætnislega og þér viljið.

Réttritun þeirra í Fjölni er nú sprottin af þeirri meiníng, að framburður einn eigi að ráða réttritun (nefnilega sá *rétti*), og þessvegna verða þeir náttúrlega að merkja með einhverju allar þær smábreytíngar, sem heyrast í framburði eða sem *manni heyrast* í framburði. Þannig fá þeir Gjíslason, kjirkja, því *g* tómt getur það ekki verið, af því maður segir *gapa* og ekki *gjapa*, en jeg vildi gera enda á þessu *gj*-i (sem augljóslega er einúngis til að létta framburð en ekki etymologiskt), með því að segja frá í framburðarreglunum, að *g* og *k* á undan *e*, *i* og *æ* úttalaðist sem *gj*, en annars heyrðist ekki *j*-hljóð. Conseqvent þar með skrifa þeir eínn, hreinn; því þar er annað *i*-hljóð en í *steinn*, en líkast (því varla er það eins) *i*-hljóðinu í *fill*. Að þetta sé nú óþarfi er jeg öldúngis á yðar máli með, og það því heldur sem þessu systemi er lítt fylgt í Fjölni þar fyrir utan, því það er eins og einhver religio aptri þeim frá að steypa allt í form framburðarins. Jeg skal ekki neita það væri gaman að sjá bók, sem væri skrifuð öldúngis eptir framburði, og fullkomlega conseqvent í að láta 2 hljóð aldrei hafa sama merki í öllu málinu.

## 2.

### Til dr. Sveinbjarnar Egilssonar.

Kaupmannah. þann 17. Juni 1837.

Elskulegi herra Egilsen.

Nú fer jeg þá fyrst að þakka yður fyrir elskulegt tilskrif með póstskipinu, og þó það verði seint, þá hugga

[1]) útgef.

jeg mig við að betra sé seint en aldrei, þér eruð nú líka búinn að fá allar fréttirnar á undan, svo jeg þarf ekki að hafa neitt fyrir þeim.

Undir eins og jeg þakka yður fyrir bréfið, má jeg með öllum rétti þakka yður fyrir sendínguna, ɔ: programmið, jeg hefi lesið það með ánægju, og lært af því að virða djúpsæi höfundarins; það er víst eitthvað það fyrsta sem hefir komið út til að reyna eptir innvortis kennimerkjum að fastsetja aldur Eddu kvæða svona hérumbil, og það þætti mér mikið á ríða að væri gert við fleiri, en ekki einsog híngað til allt tekið fyrir góða og gilda vöru sem stendur í þessum corporibus eddicis, sem auðsjáanlega eru safnaðir af handahófi (þeir sem nú eru kunnir). Þaraf hefir líka komið samsteypan í guðasögunum, að allt hefir verið tínt til og borið í búnka, þó það eiginlega ekki ætti saman nema nafnið, og það er meiníng mín, að í þá stefnu mundi enn mega gjöra mikið við guðafræði Norðmanna. Ekki skil jeg hvernin nokkrum hefir getað dottið í hug að taka saman Hrafnagaldur og Vegtamskviðu, mér sýnist það ekki nær en að setja hann saman við Völuspá, og það undrar mig, að Magnusen skyldi hafa getað gert það á móti svo ljósum röksemdum sem Magnæus færði. Mér hefir annars fundizt — þó jeg mikillega heiðri Magnusens lærdóm — að hann vilji vita of mikið víst og eins og fyrirverði sig að segjast ekki komast lengra. Annars má ekki annað segja en hann hefir gert mikið við Edduna og guðafræðina yfirhöfuð, einkum með tilliti til samburðar við aðrar, þó hann stundum hafi ætlað að verða of granskygn á líkíngarnar, að jeg held.

Jeg er nú nýbúinn að skrifa af Snorraeddu brot nr. 748. 4to sem liggur saman við Sæmundareddu brotið, og mun yður þykja það merkilegt að sumu leyti — mér var einkum nýstárlegt, hvað það líktist hinu brotinu, sem áður hefir verið haldið eitthvað það elzta sem

til er af Sæmundareddu, en þér kunnið kannske af ritshætti þess að geta getið til aldursins, því um hann þori jeg ekkert að segja; jeg ímynda mér hann sé frá 14. öld, og mér finnast líkindi til að hann sé kannske eldri en regius einkum vegna tilvísananna fram í bókina, sem gefa til kynna eftir minni meiníngu, að maðurinn hafi safnað meiru en áður hefir verið komið, og bætt aftan við það sem áður var safnað, en þar nú reg(ius) hefir í samfellu flest þetta sem hinn hefir aptanvið, meina jeg, að þá hafi þetta líka verið tekið í safnið. Jeg sé mikið vel, að þetta Bevis er á veikum fæti byggt, en kannske þér annaðhvort getið bætt við það, eða hrundið því öldungis og þá væri ekki skrupulerað um það framar.

Leiðarvísan, nýja og aukna útgáfu, fáið þér nú frá mér, og held jeg hún hafi nokkuð batnað, þó er mér sumt ekki ljóst ennþá, og held jeg það sé fært úr lagi. Þér þekkið víst *lesnis* stofn sem fyrir kemur í Landnámu II, 30, bls. 117 í seinustu útgáfu. Annarsstaðar hefi jeg ekki séð lesni. Ef jeg verð búinn með Líknarbraut, þá fáið þér hana með, en annars kemur hún með seinna skipinu, hún tekur við þar sem hin hættir á skinnbrotinu og er heil, og þriðja kvæðið Harmsól er líka heilt, en svo koma brot, sem eru nokkuð dimm álits; aðgætandi er, að allt blaðið er uppskafníngur, en ekki sé jeg hvað á því hefir verið fyrri. Mig vantar vatnið hans Angelo Mai að bera á það. Hafið þér Íslendíngadrápu Hauks Valdísarsonar? Brot af henni er aptanvið Eddufragm(entið) nr. 748 með nýari hendi en brotið sjálft. Það liggur tvennt fyrir mér núna, og er hvorugt gott, það er að skrifa af Eddubrot nr. 757 (framanvið kvæðin), sem Rask hefir líklega ekki þekkt eða ekki viljað reyna við, Jón Ólafsson kallar það A í hinni stóru skræðu sinni, en nr. 748 kallar hann C. Þar eru nú nokkur göt á þessu 757 og reykjarlitur á stöfum, svo ekki er von á því svo fljótt, en jeg er líka

hræddur um það sé ekki sérlegt við það. Annað verkið er að fara að rusla i Diplomer, dönskum (það bætir nú ekki um), því Vísindafélagið ætlar að gefa út danskt Diplomatarium. Það væri þó skemtilegra að fara með þau íslenzku, en jeg held öll Diplomer séu horfin sem eru í originali, jeg hefi ekkert séð nema á pappír — muni þér eða Hr. Scheving eptir nokkrum íslenzkum á skinni? og hvar voru þau? Magnusen segist ekkert vita, og jeg veit að líkindum enn minna. Þessi tvö verk eru nú nokkuð ískyggileg, einkum það seinna, en mér mun ekki farast að kvarta, einkum þar jeg nýlega hefi fengið allar Comm(issions-) útgáfurnar gefins og Sæmundareddu incl(usive) sem þeir verða sjálfir að kaupa af Gyldendal. Próf. Magnusen var mér þar góður haukur í horni, einsog hann alltaf hefir verið mér sérlega ástúðlegur í öllu; Rafn hefir víst ogsvo gjört hvað hann gat. Þér sjáið að jeg [er][1] farinn að koma upp bibliotheki í íslenzkunni.

Það er einkum tvennt sem mig langaði til að tala við yður um: 1. um Bókmentafélagið; mér þykir það ekki fullnægja skyldu sinni sem það ætti, og kenni jeg það stjórn þess, en við höfum engan nema Þ. Guðmundsen til að vera forseta, því Magnusen vill það ekki, sem annars væri sá eini sem væri í standi til þess, og að öðrum [kosti][1] gæfi félaginu bjartara útlit. Mér finnst einkum það að stjórninni, að ekki er rekið betur eptir því sem prentað er, að of fáir umboðsmenn eru heima, svo ekkert verður selt, að of lítið er lagt upp af bókunum, svo félagið getur ekki selt með nógu góðu verði, og það hindrar bókanna útbreiðslu í landinu, og gerir þær landflótta fyrir Andrarímum og öðrum ófreskjum, að ekki er prentað árlega hvað eptir er af forlagsbókum félagsins, og ekki vakið fólk til að athuga, að það eigi þó það í félaginu sem betra væri að við halda en að

---

[1]) útgef.

kollsteypa, því ekki sé jeg annað fyrir en visnan, ef ekki er bráðum gert við, og það kröftuglega; en nú þekki jeg ekki nema yður af þeim sem eru í stjórn félagsins heima, og því væri mér stærsta gleði, ef þér vilduð styrkja þá í trúnni, ef yður finnst sama ábótavant og mér, eða þá segja mér, hvað yður þætti vanta meira, því jeg skal ekki víla fyrir mér að garga á fundum þángað til annaðhvort verður betra eða verra. Jeg hefi drepið á það sama í bréfi til biskupsins.

2. Hitt annað sem mig lángar til að tala við yður um, er það að jeg óskaði einhver vildi gangast fyrir að safna gersimum íslenzkum, bæði fornaldarleifum og gömlum bréfum og skræðum, eins og allra handa nýrri Excerpter til Íslands sögu og annars fleira, svo alt þvílíkt ekki kæmist í útlendra hendur, eða menn gætu ekkert vitað um Ísland nema hér. Mér finnst einmitt heppilega tiltakast núna, þegar Bókmentafélaginu er boðið safn Espólíns sáluga, og þannig eru fleiri sem að líkindum gæfu eða seldu heldur því innlenda safni en hinum útlendu. Afskriptir héðan mundu allir landar með ánægju hjálpa til að fá, og mundi ekki verða lángt að bíða þángað til nokkuð safnaðist, sem bæði væri nytsamt fyrir mál og sögu Íslendinga, en peninga ætla jeg fyrst Bókmentafélaginu að leggja til, til að mynda þá sem það á heima, en Locale er fyrst um sinn kannske nóg í stiptsbibliothekinu. Að ekki sé til neins að fara að safna þessháttar héðanaf, held jeg þér segið ekki, svo jeg byrja ekki á að svara því, en mér finnst jeg vera sannfærður um, að gott mætti af því leiða, þegar fram líða stundir og Íslendingar færu betur að hugsa um sjálfa sig, því þar að kemur, að þeir líklega mega til með það nauðugir viljugir.

Nú er Fjölnis þriðja ár komið í ljós og fer nú heim, hann mun betur tala fyrir sér en jeg get það og því orðlengi jeg ekki um hann; þó finnst mér fyrir mitt leyti flest í honum vera magurt og ekki sízt um Sunn-

anpóstinn ɔ: Svarið til Árnabjörns. Það er eins og þegar dónarnir segja: Þú meinar sjálfan þig lagsmaður! Annars minntist jeg vísunnar: ‚Rétt er von að reiðist þú', þegar eg las bréf yðar seinast, því ekki verður Sunnanpóstinum neitað um conseqvent Inconseqvence, en Fjölnir er naumast frí frá því heldur, og hvað skyldi þá Skírnir. Hlífist þér ekki við að segja mér bitran sannleika um hann í haust, en seinasta stykkinu, um meðlimina, verði þér að sleppa, því það er ekki mitt verk eða okkar Magnúsar.

Af Merlinus spá er membran nr. 544. 4to. og á pappír nr. 281 og 597$^{\rm b.}$ í ÁM. safni, en í Kongsbibl. nr. 1151$^{\rm d.}$ (Ny kongel. Saml.) er afskrift af skinnbókinni, sem jeg nefndi. Annað hefi jeg enn ekki fundið af henni.

Lestrarmátinn: ‚baug skildir' staðfestist af nr. 748 sem jeg gat um.

Forlátið elskul(egi) Herra Egilsen! þetta hjastur

yðar auðmjúkum elskandi vin

Jóni Sigurðssyni.

P. S.

Hérna eru nú öll kvæðin með sem eru á skinnblöðunum (5 að tölu) í sömu röð og þau. Þar mun þurfa Conjecturalkritik — eins í því sem púnktað er undir.

3.

Til Sigurðar Bjarnasonar frá Tjaldanesi.

Kaupm.h. 26. Apr. 1839.

Bezti vinur!

Hafðu ástkærar þakkir fyrir bréf þín og allt ástríki þitt og trygð við mig. Ekki veit jeg nema þér þyki skrítilegt að sjá, hvernig jeg skrifa núna; þér mun þykja það nokkuð tilgerðarlegt, en svona segja lærðu mennírnir að skrifa eigi íslenzkuna með stúngnum *d*jeum

o. s. frv., enda veit jeg þú hefir lesið sögubækur vorar og þekkir það. — Jeg ætla nú að hætta að skrifa íslenzku með fljótaskrift og hafa tóma latínuhönd, og þannig vil jeg hafa bækur allar, en engar bænabókareinglur; enda hefir þú sjálfur hálfsett letur og er það miklu fallegra — að segja vel skrifað — en þér mun þykja sumt ekki mjög frítt hérna. Jeg er nú hættur að vanda mig og læt hlaupa sem mest verður, til að koma sem mestu af. Það er slæmt að sonur þinn er ekki næmur, en betra er þó í efni, að þú heldur hann muni skilja vel; — jeg er að ímynda mér, hvað hann muni bera svip af Hvidsteni og Önnu — og að sjá hjartans barnið vera að stauta. — Heldurðu hann geti skrifað eftir þessu, sem jeg læt nú fjúka? — Svendsen veslingur fer nú heim, hvað sem þá verður úr; mikið væri mér gleði að því hann kæmist á fót, því varla mun vera velviljaðri maður Íslandi en hann er, þó margir kannske hugsi annað.

Okkur bræðrum líður vel og Jens gekk vel til lærdómsprófs síns bæði í haust og núna; hann fékk *bezta* vitnisburð (laudabilis) í öllu í haust, og núna 4 laud. og 1 præceteris (öðrum fremri) eða ágætlega. Nú á hann að taka annan hluta þess prófs í haust, og síðan tekur hann til að lesa til embættisexamens. Ekki veit jeg hvað hann stúderar ennþá. Mér gengur nú þetta svona með embættisexamen; jeg get kannske aldrei fengið það, en jeg læt mér þá það segjast; það gjörir ekki svo mikið í okkar lærdómsgrein til embætta. Ef jeg yrði kennari við skólann heima, þá mundi jeg ekki láta hjá líða að ferðast um Vesturland, og allra sízt að koma vestur til Önnu.

Þú getur látið drenginn þinn skrifa eftir því sem hér fylgir með, þó það vanti *þ* og *ð*. En það skaðar ekki þó þú kennir honum að skrifa dönsku meðfram. Annars má nota stafina eins og þú sér til hvorstveggja. Naumast mun Hvidsten skrifa eins vel, að eg held, þó hann

vildi senda þér höndina sína, samt getur þú borið það saman við bréf þetta.

Vertu nú blessaður Siggi minn! og gleymdu ekki einlægum vini þínum

Jóni Sigurðssyni.

4.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Kaupm.h. 29. Juni 1840.

Elskulegi bróðir minn!

Jeg get ekki staðið af mér að rispa þér línu um leið og jeg sendi þér tímarit Péturs svarta, Jur(idisk) Tidsskr(ift) og Folkebl(adet) til Vigfúsar Thorarensens etc. Morsk(abs)læsning liggur hjá mér — mesta gersemi, eins og vant er! . . .

Nú var jöfur krýndur ígær. Finnur hélt á grallaranum og smyrslabauknum, en fékk ekkert nema demantahríng, svo stórhreinlegan, að hann væri handa Ými sáluga eða Örgelmi. Bardenfleth varð kammerherra og Hoppe á Vöðlum. Lector Johns(en) riddari. . . . Merkilegasta fregnin er samt, að Kr(istján) 8$^{di}$ gaf oss Íslendingum von um fulltrúaþing heima. — Nú er tíð til að vakna og bera sig að taka á móti eins og menn, ef menn vilja ekki liggja í dái til eilífðar! Fyrir alla muni taktu nú eftir Stemningen etc. og segðu okkur, því jeg vona þó að sjá þig í haust, elsku bróðir! hvað sem gengur. Jeg læt slæðast með nokkur númer af Pumpunni, ef þú vilt lesa að gamni þínu; aðdragandann færðu að sjá líka. Vænt væri ef þú gætir spennt upp einhvern röksaman mann til að safna datis um höndlanina, því það held jeg sé eitthvert mest áríðandi landinu til viðreisnar, að hún verði frjáls. Knudtz(on) sparar víst ekki að gjöra hvað hann getur til að svipta Island því,

en ekki er enn komið svar móti þessu seinasta í Póstinum. Nú kemur bráðum í »Föðurlandinu« að eg held klausa um höndlanina líka, en ekki er nú að búast við, að svo búið hrífi, og ríður því framar öllu á, að menn heima safni datis, því það er hægt, ef höfð er alúð á því, og málið má til að vinnast hjá oss, ef ekki vantar fylgi og áhuga, því *kaupmenn* drepa okkur ekki nauðuga. Þar til kemur að konúngur er okkur án efa velviljaður, og princípið er okkur meðmælt, því allir vita að kaupverzlan er líf hverrar þjóðar og verzlunarófrelsi dauði. Við sendum deputation (Finn, Repp, sr. Pétur) að þakka fyrir resol(utionina) um stöndin. Annars er Stemning hér skitin, og smá óróar við og við, en nú er kannske heldur í bata, hvernig sem seinna ræðst. Stöndin koma nú saman og þá verður eitthvað kannske lagað. Jeg mundi skrifa þér lengra um þetta, ef jeg ekki vonaði þín aptur í haust. — Settu svart strik í almanakið þitt! Paganini er dauður. — Hvítt geturðu sett, ef þér sýnist nokkurs vert, að Fritz er sagður lofaður elztu dóttur *bóndans* í Meklenburg-Strelitz, en Olga Nikulásdóttir *bóndanum* í Nássá. — Þú kemur nú líklega sem annar »Revolutionens Sön« frá Íslandi — þú veizt hvað eg meina! Bróðir þinn Thiers — fils de la revolution líka — stendur sig eins og skrambinn ennþá og hefir fengið út leifar Napóleons sál. frá St. Helena. En — apropos! — hvað heldur þú um að stofna styrktarfélög — Filialselskaber — handa Bókmentafélaginu heima? Er það ekki fært í fólkríkustu héruðum, t. a. m. Árnessýslu? eða eru menn ekki ‚modne‘? hvað segir faðir þinn um það, eða aðrir skynsamir menn? og hvernig á að fá menn til þess? Jeg held það glæddi félagsandann og hresti félagið við.

Heilsaðu Vigfúsi frá mér kærlega, og segðu honum að jeg hafi ekki orðið var við neinn pennahníf hér eða lykla, og hafi jeg þó skygnzt eftir því; finni eg það, skal það sjálfsagt koma til skila, eða jeg skal spyrja að

því annarstaðar, ef hann man annarstaðar stað, sem hann hefir skilið það eptir á. Þú verður að forláta, þó bréf þetta sé svona í sundurlausum þaunkum; það kemur af því, að jeg tek allt einsog mér dettur það í hug. Lifðu sæll og blessaður ætíð! Jeg er þinn einlægur

elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

Hallgrímur er uppi og fær líklega laud. Ef þú hittir Halldór Jónsson og Magn(ús) Hákonars(on) þá heilsaðu þeim og þakkaðu Magn(úsi) bréf hans, en jeg nenni ómögulega að skrifa fleiri bréf núna en allra minnst.

5.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn 23. Juli 1840.

Bedste Herr Pastor Gudmundsen.

. . . Vi höre nu at Bardenfl(eth) vil hjem igjen, i det mindste til næste Sommer, det siger han er ganske vist, men han tager ikke sin Familie med, og gjör altsaa kun Regning paa at blive der en kort Tid. Han gjör grumme meget af Island, og siger han tager derfra kun for sine Börns og Familles Skyld, og jeg troer han siger det oprigtig. De spörger om Forfatteren til Stiftamtm(ands) Artiklen i K(jöben)h(avns) posten, men jeg kan ingen Oplysning give der om. Man udtömmer sig i Gisninger, og jeg har havt den Ære at være anseet for Forfatter(en), da man vidste at jeg omtrent har de samme Anskuelser som udtales i Stykket. Man har ogsaa gjættet paa O. Stephensen, Briem, Havsteen, O. Paulsen o. s. v. ligesom det gaaer ved saadanne Lejligheder. Men bagefter er man lige klog. Formodentlig vil Endeel dog i Grunden troe at jeg har skrevet den,

og jeg bryder mig ikke om at fralægge mig det, skjöndt jeg ikke er Forfatteren, da jeg i Hovedsagen er enig i det Fremsatte og finder det saa skaansomt fremsat som vel er muligt. Det fornöjer mig at Knutz(ons) Artiklen har gjort Sensation, bare den vilde skaffe Island Handelsfrihed, som jeg troer det trænger til fremfor alt andet, men desværre er der ingen som sympathiserer saa meget med de islandske Sager, at han gider fremsat noget som det er værd at gjendrive. Jeg kan gjerne sige Dem, at jeg har skrevet denne sidste Artikel, da jeg syntes at det var en stor Skam að lade Kn. debitere en saadan Masse Usandheder, som Gud og hver Mand veed er hvad han siger i Svaret mod β, uden at tale et eneste Ord derimod, og da ingen andre Landsmænd havde Lejlighed dertil. Jeg synes ogsaa de Danske kunde have godt af engang i mellem at faae noget at höre om deres faderlige Omsorg for Island, andet end den evige personlige Jammerklage, thi kun forsaavidt som Knudtzon mest af alle repræsenterer den danske Nation som Tyran over den islandske Handel fortjener han at komme i Betragtning. Han har ellers ikke svaret endnu, og skal have sagt til Etatsr(aad) Johnsson, at han holdt meget af Island(!), Islænderne burde handle selv. Der var sandelig mange Misbrug der i Handelen, men hvad hans Handel angik, da var det hans Faktorers Skyld (Bravo!). Nu har han vist skrevet Faktorerne for at samle Data til en Gjendrivelse, men en saadan kan næppe være farlig, naar man tager Sagen som Principspörgsmaal, thi ellers, i det Enkelte er det vist noget Indbyggernes Skyld, som ved det evige Handelsslaverie ere blevne nedkuede, mistroiske, egennyttige og smaalige, og det er næsten Underværk, at de ikke ere döde i Elendighed, og viser dette netop at Landet absolut maa kunne hæve sig betydeligt. Men nok om dette nu. . . .

J. Sigurdsson.

## 6.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Kh. 26. Aug. 1840.

Bedste Herr Pastor Gudmundsen!

. . . Hvad synes De om vore Deputerede? Er det ikke fortræffelige Folk til at forsvare de Betrængtes Rettigheder. Vi oversætte nu Uddrag af de islandske Sager paa Islandsk, og Johnssons Propos(ition) in extenso samt Resolutionen om Stænderindretn(ingen) for Island af 20. Mai, og sende hjem med Postskibet en Pjece paa fælles Bekostning af alle islandske Studerende her er i Staden.

Saa skal vi see hvad de gjöre der hjemme: om de synes ikke det er Tid at gnide Öjnene lidt og see sig for.

Matth(iesen) fortalte mig at De ikke havde noget af Subskr(iptions)planerne til Rasks Monumentet. Jeg tager mig derfor den Frihed at sende Dem eet. Islænderne har givet 100 Daler til det Monument, uberegnet hvad Etatsr(aad) Magnusen gav, og Repp. Selsk(abet) gav nemlig 50 Rbd. og Studenterne skjöd sammen i andre 50. Det var mere end $^{1}/_{3}$ af det Hele som kom ind. Men Rask fortjener det sandelig, uagtet Skjæbnen vilde, at vi ikke kunde enes med ham til Enden. Saadanne Ting bör glemmes, og jeg troer ogsaa de ere glemte paa Vores Side. Som sagt — jeg anbefaler Dem Planen til bedste Understöttelse. — . . .

Deres hengivne

J. Sivertsen.

## 7.

### Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Kaupmannah. 8. Sept. 1840.

Hjartkærasti vin og bróðir!

Ástsamlegar þakkir fyrir bréf þitt elskulegt með Hemmerti. Jeg má nú segja, að Biblian sé sem böglað roð, því jeg veit ekki glöggt hvar jeg á að byrja við þig ruglið, og er jeg þó viss um, að eitthvað verður eptir, því ekki er heldur viljugleikinn meiri en guð gaf til að skrifa, hver sem í hlut á . . .

Sr. Pétur er að semja framhald af Historia ecclesiastica, 'og ætlar að láta Bókmentafélagið prenta. Það sýnist mér vel til fallið. Konráð og Brynjólfur eru að búa til íslenzka orðabók á kostnað Englendíngsins, sem Konráð las með, og ætla Engl(endíngar) að gefa hana út á sinn kostnað. Þeir lifa vel nú. Fjölnisfèlagið veit jeg ekki um, og þarf þó að grafa í því, því reynandi væri að skrifa eitthvað um alþing, ef vera mætti, að einhver tæki eftir því, en það hittist illa á, að bölvaður ísinn skuli drepa niður allt og eyðileggja. Við gefum nú út bækling sem segir frá standasamkomunni núna og hennar aðgjörðum. Þar hefir komið fyrir að kaupmenn skuli ekki mega hafa nema eina búð í sama kaupstað, og er það nú við tekið. Grímur Jónsson hefir gjört Íslendingum þann greiða, að proponera að tvöfalda tíundina á öllu Íslandi, en láta skatt og gjaftoll falla burt. Þar með fær hann 14,500 dali meira af landinu en nú. Síðan vill hann leggja skatt á kaupmenn 1—2 dali af komm(erce)lest og meira á spekulanta, sem verði hér um 3000 dalir. Og veiztu hvað hann er að rembast við? — að fá 20,000 dali, sem hann segir sé Íslands *»aarlige Underballance«*. Jeg segi þér ekki lengra, en sendi þér númer úr Khafnarpósti og Föðurlandinu, og fær hann þar nokkuð svona fyrst um sinn, en málið er ekki kljáð enn. Finnur okkar er eins og vant er

of meinlaus, og segir ef til vill annað en hann meinar. Verst er að jeg get ekki sent þér standatíðindin sjálf, en þú fær það in extenso í bækling okkar, og jeg segi þér það satt, að ekki er of hermt á Grím á hvorugum staðnum. Nú hugsaði jeg, að þetta kynni þó að sperra menn dálítið þar heima, svo þeir sæi, að nokkuð ríður á að hafa mál fyrir sér, og vita hvað hag landsins líður; því eptir því sem Danir vakna, eptir því fer okkar hagur versnandi, ef við vöknum ekki líka. Ekki fyrir það — þessi uppástúnga Gríms hefir verið höfð að athlátri allstaðar, og hefir ef til vill Khafnarpóstur gert nokkuð til þess. Þá sendi jeg þér líka nokkuð um verzlunina á Fróni, og hefir það æxlast útúr $\beta^{s}$ grein, sem þú last áður þú fórst. Knudtzon og Wulff svöruðu og færðu kannske að sjá það, en þeim var svarað í þessu sem jeg sendi þér, og svo er skrifað á ný »Bör Islands Handel frigives«. Greinir þessar, einkum sú fyrri, móti Kn., hefir vakið nokkra eptirtekt, og Kn. hefir ekki svarað henni. Allir eru hér nema kaupmenn á því, að Íslendíngar fái frjálsa verslun, og að vísu held jeg ekki þyrfti annað en góðar petitionir frá þeim, um allt land, hvarí þeir segðu fyrir hversu lina ætti verzlunarokið eða létta af með öllu. Hvað getur verið að óttast um það nema ekkert? Einúngis þurfa menn Kommunikation og skóla. Þið fáið nú ágrip af þessu í kveri voru. Snöggur munur er á hvernig sumir tala um verzlun Íslands nú á standaþíngi eða seinast, þó nokkrir kalli hana frjálsa. Einkum segir Commissarius nú að hún sé »saa bunden« og »til en vis Grad monopoliseret«, og það kalla jeg mikið. Spanaðu Austfirðínga, og leggi þið framar öllu fast Plan, sem þið gangið eptir: fastar samgaungur og reglulegar og samkomur, samtöl um málefni þau sem mest varðar, agitation við alþýðu, petitionir. — Kanske þú getir komið á félagsskap milli manna, annaðhvort styrktarfélagi, sem stoði Bókmentafélagið (filialfélag þess) eða félag sem útvegi sér bækur

og tali um alþjóðleg málefni, sem Ísland getur haft gagn af. En varla má minna vera en þeir lesi það sem út kemur og hugsi dálítið um það. Forknythed dugir ekki, þó örðugt gángi, og einkum ættu menn að aðgæta veraldlegan hag sinn, þegar þeir eru materialistar, eins og þú segir, og margir munu vera.

Bardenfleth er hér nú, og fer þó út aptur að vori, en ekki verður hann lengi á Íslandi héðanaf, því kona hans verður eptir. Hvort við fáum nú Grím eða ekki, er eptir að vita, en ekki lízt Khafnarpósti illa á það, þegar litið er á konúngskassann. Jeg held hann verði varla stiptamtmaður. . . .

Þú talar um að þú hafir mig í hyggju með bækurnar, og skaltu hafa mikla þökk fyrir. Jeg óska raunar að eiga allar íslenzkar bækur og Íslandi viðkomandi, eins og þú veizt, en jeg skal þó tiltaka: Alþingisbækurnar, Gretlu, Búasögu etc. Hóla útgáfuna, Gustavs sögu og Bertholds, Vísnabókina gömlu, Túllins kvæði, rímur allskonar, guðsorðabækur, en einkum þær eldri, frá dögum Guðbrandar biskups og þaðanaf t. d. Guðbrandsbiblíu, grallara o. s. frv. Allskonar handrit, þó ekki sé nema bréfasöfn, ef það er eftir nokkurn merkismann. Nákvæmar get jeg ekki sagt þér, en ætíð er betra meira en minna, ef það fæst. Þá er: Annálar Björns á Skarðsá, fjórði partur Finns kirkjusögu, útlendar ferðabækur ef til væri. Ef þú yrðir var við eitthvað interessant af fornmenjum eða þvílíku, þá blessaður haltu því saman og annaðhvort sendu hingað eða geymdu vandlega. . . .

Kaupmenn studera mikið upp á Khafnarpósts höfundinn, einkum Pétur kaup(maður), en nú megum við segja eins og Mad$^{m}$ Hemmert: ‚Nu er Hjalmarsen borte, nu veed man ingen Ting!‘ Þú sér að þín er saknað, og einkum þar Páll kemur ekki heldur, en Sigurður kemur aldrei þángað, til Hemmerts.

Kristján konungur er nú í Jótlandi og heldur til í Plöen um stund, þar ætlar hann að halda afmælisdag sinn, og koma aptur í Oktober. Hann er mikið reiður þessum constitutionelle, og kallar þá »Nogle« og »Enkelte«, sem séu að vekja óánægju og »Mistillid mellem Konge og Folk«. Petitionir um Skattebevillingsret hafa komið margar, og var reiðuglega tekið við þeim af mörgum í Hróarskeldu, en enginn hefir verið eins conseqvent reiður þeim einsog Magnusen; hann sagði, að stöndin væru ekki competent þar, og þessi bæn væri sama einsog um Constitution, og því vildi hann ekki einusinni taka þátt í að stemma, hvort velja skyldi nefnd til að rannsaka málið eða ekki. Hann fékk líka kleimu fyrir það í Kh.pósti, en það var ekki eptir Íslendínga. Grímur hefir haft vit á að þegja þar; það lítur út einsog hann sé að reyna að þóknast Dönum og konúngi — konúngi með skattana og Dönum í Reykjavíkur málinu, þar sem beiðst er að Reykjavík fái viðtöku í félag danskra kaupstaða til brunabóta (Assurance). Þar segir Grímur, að það sé kaupstöðum hér skaði, og bjóða þó Reykvíkingar $^1/_8$ meira en hér í tillag, ekki að leggja inn fyrir meiru enn $^2/_8$ verðs eignanna og láta virða þriðja hvert ár. Örsted er allstaðar á okkar máli, einkum móti Grími, og tortryggir Grím um allt. Grímur er líka farinn að gleyma Fróni, svo hann man ekki betur, en messað sé á hverri kirkju á Íslandi á hverjum sunnudegi eða að minnsta kosti annanhvorn. Annars hvað viðvíkur þessari Assurance, þá læt jeg vera þó ekki yrði úr því, en það er ætíð viljann að virða.

Jeg get sagt þér, að Sunnlendíngar ætla að fara að gefa út fjórðúngarit, og á Hákon að vera forstöðumaður eða Redaktör. Sr. Thómas og assessor Johnsen eru höfuðmennirnir.

Blessaður vertu, taktu eptir hvort nokkuð er að segja um verzlunina fyrir austan, og sendu mér það;

jeg skal vera discret, og koma því á framfæri; þú mátt byggja uppá það, að sá sem ritað hefir í Kaupm.-hafnarpóstinum er *minn bezti vin*(!) sem ekki svíkur, og það er óhætt að byggja á hann kallinn um öll leyndarmál, þó þau komi frá þriðja manni. Geturðu ekki spanað þá upp til að biðja um verzlunarfrelsi, eða vilja þeir það ekki? . . .

Eins verð jeg að geta, og það er að amtm(aðurinn) í Færeyjum hefir gefið út kver og er það lýsing á Hjaltlandseyjum. Hann sýnir þar hve mjög Færeyjar standi þeim á baki, og veiztu hversvegna hann heldur það sé? — verzlunaroksins, sem drepur alla atvinnu. Þar eru 60,000 manna á sama svæði sem 6000 í Færeyjum. Eptir því geta verið nokkrar 60,000 á Íslandi. Ekki er svo ólíklegt, að kver þetta gjöri nokkra verkun og Opsigt hefir það gert. En einkum riði það undir, ef Íslendíngar beiddu um fullt verzlunarfrelsi, og motiveruðu þörf sína til þess.

Engin Adresse kemur frá ykkur að heiman — ólukku skussarnir! Þið munuð ætla til, að Sunnlendíngar fari á undan.

Ekkert er gert um skólann, nema lektor er orðinn riddari í sumar fyrir lánga þjónustu — gott er að verða gamall, þegar maður vill fá heiðursmerkin!

Æ! mikið h. er nú að þið skulið vera svo fjærri, og svo örðugt að ná til ykkar. En hvað tjáir um það að tala. Það er verst, að hver visnar upp þar sem hann er kominn. Liggðu aldrei á góða fiðrinu! og hafðu hart undir þér, svo þú sofnir ekki. En ef þú sofnar, þá vona jeg þó, að þú gleymir ekki félaginu og það er jeg viss um þú gleymir aldrei

þeim sem aldrei skal gleyma þér

honum bróður þínum Jóni Sigurðssyni.

P. S.

Heilsaðu föður þínum frá mér með þakklæti fyrir skemtilega viðræðu í Laugarnesi, ef hann hefir ekki

gleymt því. Láttu hann spenna með þér — en fyrir alla muni, vendu hann af íslenzkunni hans Sveinbjörnsens, því hún er í sannleika ekkert munstur!

8.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Kaupm.höfn 29. Sept. 1840.

Elskulegi bróðir minn!

Blessaður vertu fyrir tvö bréf þín sem eg hefi fengið. Þú segist nú hafa ásett að verða heima, og veri það lángt frá mér að dæma um það, því eg veit að ástæður þínar hafa verið í mörgu tilliti mikilvægar, og dómar annara eru í slíkum tilfellum ekki virðandi mikils. Samt má eg segja þér, að stórum lángaði mig þú kæmir, því nú er eg kominn nokkuð á fót aptur, þó eg sé ekki að öllu albata, og margt hefði nú mátt tala um, ef tíminn leyfði, en þessi sendibréfaskript er svo sein að þánkarnir eru komnir út um allt áður en eitt orð er komið á bréfið. Sigurður segist vísa þér til mín um politíkina, og er það þá að segja um hana, að allt er á huldu um frið eða ófrið.

Hèr gengur mest á fyrir Sibbern að politisera í Adresseavísnum, og Lindberg hefir gengizt fyrir að skrifa petitionir um, að allt sé í status qvo, móti þeim sem biðja um Skattebevill(ings)ret og Constitution. Finnur okkar var þar daufur, hann vildi ekki votera og áleit Monarchiet hreint noli me tangere, og fékk hann eammir sem nærri má geta í Kh.pósti fyrir það, og kki að ósekju. Grímur var þar klókari og þagði, en hann kom annarstaðar fram, í skattamálinu sínu, og vísa eg þér til standatíðindanna um það, en eg sendi þér ofboð lítil innlegg, sem hann fékk fyrir frammistöðuna — hann hefir gott af því. — Við leggjum nú upp dálitla skýrslu um hvað farið hefir fram á standa-

þinginu, á íslenzku, og væri vænt þú kæmir því einhvernveginn við, að skrifað yrði móti Grími fyrir alþýðu, svona commentar yfir þetta, sem hann hefir gjört, því við höfðum ekki tíð til að skrifa athugasemdir við það. Vera má eg geti sent þér kverið með póstskipi eða annarhvor okkar Sigurðar. Við kostum það allir saman og ætlum að gefa piltum sitt exemplar hverjum. Eitt vil eg gjöra þig varan við, og það er um Íslands Underballance, að hann er enginn eða svo lítill sem enginn, að allir segja, ekki einusinni directe. Þar verður að aðgæta: Peníngar fyrir seldar jarðir eru einúngis færðir til inntektar það ár sem þeir koma, en síðan aldrei rentur þeirra sem inni standa; lieutenantar þeir sem mældu hjá okkur hafa pensiónir af Íslands peníngum alltaf; náttúruskoðararnir, sem safna fyrir Dani, fá laun af Íslands sjóði, og svo er mart fleira lagt á Ísland, af því svo stendur á peníngaviðskiptum, sem aldrei væri annars gjört. Þetta viðurkenna sjálfir »Kammer«þrælarnir, Kofótur og aðrir, og gæti verið, að því yrði hreift, ef um þetta yrði skrifað.

Blessaður, safnaðu datis um höndlanina fyrir hamíngju skuld, bæði frá fyrri og seinni árum, og láttu mig fá, til að bera fram, það skal ekki verða þér að vanda, og ef eitthvað væri auðkennilegt frá þér, þá skal það ekki koma fram, ef þú mælir svo fyrir. Þá þarf á annan bóginn petitiónir — petitiónir — petitiónir til Nefndarinnar (Næturstyttínganna), og ekki að trénast þó seigt gangi. Jeg hefi nú nýlega manað kaupmenn, því eg heyrði að Kn(udtzon) ætlaði að fara svo að, að skrifa ekki, en segja að allt væri slaður, sem stæði í blöðunum, þetta mana jeg þá að sanna, og in specie að Ísl(and) eigi ekki nú að fá verzlunarfrelsi, en ekki svara þeir að heldur. Nú ríður á, að menn haldi saman, ef nokkru þykir varða um málið, því ekki er þar að óttast neinn, allrasízt nú sem stendur. Þetta er

mál sem Islendíngar *hljóta* að vinna, ef þeir vilja og nenna.

Gott er að þú hefir félagið in petto, það er eitt með öðru. Jeg geng nú held eg í Fjölnisfélagið, en reyna vil eg að fá nafninu breytt, ef mögulegt er og ritunarhættinum líka. Maður verður þar einskonar Actiehaver, þó þær gefi ekki 25$^{0}/_{0}$ einsog þær í Pakettunni, að Siemsen segir.

Bækur þínar skal eg geyma — eg flyt þær nú á morgun með mér niðrí Svertugötu, nr. 120, 1ta Sal . . . Bókaskápinn þinn vil eg gjarnan eiga, ef þú villt selja hann; mig minnir þú gæfir 4 dali fyrir hann eða var ekki svo? Morsk(abs)læsn(ing) skal eg afsegja það bráðasta verður. Eg verð að biðja þig að gjöra svo vel að koma fyrir mig lyklum og pennahnífi til V. Thorarensens, sem hann skildi eptir hjá mér, og skila heilsun til hans.

Þá er nú að biðja þig, elsku bróðir! að fyrirgefa risp þetta þínum

hreinskilnum elskanda bróður

Jóni Sigurðssyni.

9.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn d. 23. Marts 1841.

Bedste Herr Pastor Gudmundsen!

. . . Hoppe, Kammerjunkeren, skal være designeret Stiftamtm(and) hos os, Bardenfleth er bleven ‚briti' hos Kronprindsen. »Litlu betra er líf en hel«, kan man sige derom. Jeg vilde önske at vi havde kunnet stille en bedre Candidat, skjöndt jeg veed at Hoppe er et godt Skrog . . .

Jón Sigurðsson.

10.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Kaupm.höfn 29. Marts 1841.

Elskulegi bróðir minn!

Innilegar þakkir fyrir elskulegt bréf þitt með póstduggunni etc. Þarnæst óska eg þér allrar farsældar og blessunar í hússtjórninni, og ætti það raunar að fara á undan öllu.

Mikinn óræstis seðil færðu frá mér núna, bróðir minn! og ætti þó fyrsti seðillinn að vera skárstur, en eg hefi nú svo ári mikið að gjöra, að eg sé ekki útúr því, einkum þegar slarka skal meðfram, einsog lög gjöra ráð fyrir. Við erum nú að láta prenta kver, og verður í því grein um alþíng eptir mig, en undir er að eiga, hvernig henni verður tekið; eg get sagt þér það, að þar er haldið fram Reykjavík, en þó svo, að ef mönnum þyki von, að þíngið verði betur sótt á Þíngvöllum, skuli hafa það þar fyrst um sinn, en byggja þar ekki hús. — Það er nú ekki vert að segja þér úr því meira fyr en eg hefi þá æru að senda þér bókina sjálfa. Það er raunar saga að segja frá, hvernig hún er orðin til, og munu fara sögur af því nógar, ef eins fer og vant er, en svo þú hafir nokkuð að halda þér til, þá ætla eg að segja, hvernig hún er eptir *minni* eptirtekt, sem eg veit sannast og réttast. Þú manst eptir Fjölnisfélagi í fyrra og var það viðtekt þeirra, að engin skyldi vera lög, nema ῥῆτρα einsog í Spörtu. Þá var eitt, að enginn mætti koma í félagið, ef eitt atkvæði væri móti. Nú sluppu samt nokkrir inn, og þaráméðal eg; gjörði eg það þessvegna, að eg vildi eitthvað þarflegt rit gæti haldizt við, og þyrfti ekki að falla niður. Eg útvegaði nokkra í félagið fleiri og nú gekk allt vel, ritgjörð séra Tómasar um verzlunina var tekin fyrir og debatterað um hana, og síðan var farið að búa til lög. Nú vildum við ekki láta ritið

heita Fjölni, af populære Grunde, en því settu þeir sig á móti Konr(áð) og Brynjólfur, og fengu með sér Jón Pétursson og Hannes, en við vorum 8 sem á móti vorum. Nú þótti okkur hart að $^1/_3$ partur skyldi ráða smámunum þessum þvert móti vilja $^2/_3$, og sögðum okkur því úr félaginu nokkrir (en NB það var ein af þeim greinum sem áttu að hafa verið við teknar, að þegar lögum skyldi breyta, ætti $^3/_4$ að fallast á það). Þegar við gengum úr félaginu, tókum við okkur saman að gefa út kver samt, svo þessi óeiníng yrði ekki að skaða því, sem gjöra skyldi, og svona er nú ritið til komið. Nákvæmar fær þú að heyra hjá ferðamönnum, og svona eitt og annað smálegt, sem fyrir féll innanum þetta. Nú kemur uppá hvernig þér fellur bók okkar, þegar hún kemur, hún er gjörð í hraplaða, því ekki var ritaður einn stafur til hennar fyr en eptir miðjan Februar; en eg vona hún geti orðið betri, eða ekki lakari seinna, ef hún vinnur nokkra kaupendur. Margir lá okkur líklega, að við ekki vildum hafa neitt við þá að sælda Fjölnismenn, eptir að sundrúngin var komin á, því þá buðu þeir að fyrra bragði samlag aptur, og vildu líklega fella nafnið, en okkur þótti slíkt nokkuð hvikult, að bjóða næsta dag það sem maður vildi ekki slaka til hinn fyrra dag, og tókum því ekki. Þeir hugsa án efa það sé fjandskapur, einsog optast er vant, sem þú veizt, en það er þó í raun réttri ekki, eða í öllu falli hjá fáum.

Kristján 8di er nú farinn að síga í böndunum við prentfrelsi og þessháttar. Orla Lehmann er nú undir fiscalstiltali, og núna í gær tók hann við að redigera Föðurlandið, því Kristensen er dæmdur í 300 dala múlkt og 2 ára censur við Hof & St(ads)-réttinn fyrir ræðu, sem hann hélt og prentuð var í Föðurlandinu. Khafnarp(óstur) var nú settur tvisvar fastur núna fyrir nokkrum dögum; annar var með eitthvað um aðalsmenn, og var drepið á að Bardenfleth hefði farið að heiman

býsna snemma (nú er sagt Hoppe koparhlúnkur sé orðinn stiptamtmaður) þarsem hann hefði átt að vera 10 ár á Íslandi. Líklega kann mönnum að detta í hug, að Íslendíngur, og in specie kannske eg hafi skrifað þessa klausu, en það er öldúngis ekki, hana hefir Grüne skrifað sjálfur, og þaraðauki hefir, að sagt er, sækjandinn látið sér um munn fara, að hann vissi ekki, hvað hann ætti að segja um þá klausu (ɔ: artíkulann) henni til áfellis. Það væri annars illt, ef menn hugsuðu á Íslandi að artík(ulinn) væri eptir Íslend(íng) því eg ímynda mér þeir legði manni það út til töluverðrar skammar að hafa samið artík(ula) sem væri lagður í stóru kistuna censors, og heigluðust menn því enn meir en nú er, því hvergi eru nú höfðíngjar, og kannske flestir, konúnghræddari en hjá okkur. Dálitla klausu um skólann sendi eg þér, hún er ekki mikil, og enn síður góð, því það vantar svo margt sem til ætti að færa, en það er ekki gaman að rita nærri tómhentur; allt er í andsk. direktionum o. s. frv. sem maður þarf að hafa, og þessir vesalíngar, sem þar eru, þora ekki annað en halda öllu sem heimuglegast. Eg er nú að semja dálitla skýrslu um Bókmentafélagsins afreksverk, til að vekja Interesse fyrir því og fá menn til að stofna styrktarfélög; henni verður líklega útbýtt gratis. Mest hefi eg annars haft að gjöra við Landnámu, og kemur nú af henni makalaus(!!) útgáfa í broddi fyrir Íslendíngasögum. Tvær arkir eru prentaðar, og er það góður vísir fyrir svosem 12 bindum.

Mér þykir deildin heima hafa mannað sig með veðurbækurnar; það er líka einsog forsetinn og skrifarinn hafi ekki trúað augum sjálfra sín, og hafa þessvegna skrifað undir bréfið til okkar hér »deild etc. *í Kaupmannahöfn*«; fyrirtækið er að vísu ágætt, en ekki neita eg því, að mér finnst það vera nokkuð sangvínskt, einkum að byrja það með svo stórum mælikvarða. Eg ímynda mér, að í hverri sýslu hefði verið nóg, ellegar

á merkilegustu stöðum í klímatisku tilliti, og hefði það orðið kannske 20 staðir. Hver safnar nú og ber saman þetta sem gjört er? til hvers er að vera að kakka saman þessum söfnum, þegar enginn gengur þau í gegnum, meðan þau eru ný og interessant. Þetta eru nú raunar spidsborgaralegar efasemdir, en þær eru þó ekki að öllu ógrundaðar, einsog þú sjálfur veizt. En — superflua non nocent, getur maður sagt í öllu tilfelli, einkum er mikið unnið, ef mennirnir fást til að halda veðurbækur fyrir félagið, en það mun verða skammvinnt, nema þeir sjái skemtileg resultöt af því, sem þeir gjöra, og það ætti Jónas minn að útvega okkur sem allrahelzt, og rita um alt það sem gæti hvatt menn til að gjöra þvílíkt með lyst. Eg er nú bráðhræddur um hérna sóknarskýrslurnar — inter nos — að það verði sk.... úr öllum hrognunum með bókaritunina, en það er samt, að mér finnst, rétt að fylgja því fram, því það *getur* farið allt vel.

Fyrirgefðu mér, elsku bróðir! rugl þetta, og lifðu með öllum þínum svo farsæll sem eg vildi óska sjálfum mér.

Þinn einlægur elskandi vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

P. S.

Erindi þín skal eg bera mig að reka sem eg get bezt. Eg sendi þér Kollegialtíðindi (og hefi tekið þau nýu þín vegna) og Vrövle-Tidskrift svarta Péturs.

## 11.

### Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Kaupm.höfn 16. April 1841.

Hjartkæri vin og bróðir!

Litlu verður þér nú raunar goldið fyrir elskuleg bréf þín bæði í haust og vetur, að fá ekki nema svo

lítinn miða fyrir, en þú veizt, að eg er ekki mjög viljugur á að skrifa bréf, og þess gjalda margir sem sízt skyldi. En það er þó bezt að koma til efnisins, og byrja fyrst á sjálfum sér. Eg hefi verið frískur í vetur, enda hefi eg líka farið varlega með mig, svo eg held eg sé nú orðinn góður. Störfin hafa verið þessi gömlu, þó hefi eg sett saman dálítið um alþing, og er það nú prentað í kveri nokkru sem við hér smælíngjarnir höfum tekið okkur saman um að gefa út. Halldór Sigfússon og þeir aðrir sem eiga hér kunningja fá líklega frásögn um það, og þú raunar án efa líka, en það sakar samt ekki þó fleiri segi, og þó vil eg biðja þig að halda ekki sögunni á lopt, ef ekki gjöra það aðrir. Þú manst víst að í fyrra vor var stofnað einskonar Fjölnisfélag, eða félag til að halda áfram Fjölni, en lítið varð úr þegar allir voru komnir heim, svo það lá í dái í fyrra sumar. Lög þess voru engin nema einhverjar munnlegar viðtektir. Nú hugsaði eg, að enginn vegur mundi verða til að koma út riti, að minsta kosti ekki eins góður, ef ekki væri tekið þetta félag, og mundi kannske heppnast að modificera það nokkuð, svo það gæti orðið populært. Sumpart þessvegna, og sumpart af því Brynjólfur bauð mér, kom eg í félagið, og útvegaði því þá meðlimi, sem eg gat fengið. Ritgjörð eptir séra Thómas um verzlun á Ísl(andi) átti að taka fyrir, og var nærri komið að, að eg tæki við henni til að hafa til styrktar til nýrrar ritgjörðar um verzlunina. Síðan átti að búa til lög, og vorum við Briem og Brynjólfur í nefnd til þess. Þegar kom til umtals ritsnafnið vildum við Briem breyta því, þareð við héldum það spillti fyrir bókinni, og væri félagslimum óhentugt; og svo af því nafnið stæði á engu, og ætti ekki að vera í lögum; þá átti einnig að skipta bókum upp. Nú þegar kom til fundar, sögðu þeir að nafnið á ritinu væri lögtekið, að skyldi heita Fjölnir, og önnur viðtekt væri sú, að engu því sem lögtekið væri mætti breyta nema $^3/_4$ voteruðu

fyrir því. Nú voru 12 á fundi, og voteruðu 8 ámóti en 4 (Konr(áð), Brynj(ólfur), Hannes, Jón Péturss(on)) með; það er raunar einsog maður voteraði sjálfur um sjálfs síns sök, en hvað sagði það. Þannig var þá nafnið *lögleitt*, það er að s(egja) ritið *varð* að heita Fjölnir, þángað til ekki fékkst $^1/_4$ partur til að vilja það. Nú vildum við hinir fá breytt því, að $^3/_4$ mættu breyta lögunum, svo að aldrei skyldi þurfa nema einfalt Pluralitet, og vildu það 8, en 4 vildu það ekki, hinir sömu. Þetta þótti okkur nú nokkuð hart »for Principets Skyld«, og sögðum við okkur því úr félaginu: Hjaltalín, sr. Páll, Bjarni Sívert(sen), Ólafur Pálsson, Jón Sigurðss. nafni, og jeg. Briem vildi ekki segja sig út, en Jóhann ætlaði, en hefir ekki orðið af. Nú tókum við okkur til og stofnuðum félag fyrir okkur, og erum við 12 í því; þessir sem eg taldi, að sögðu sig úr (6), Magnús Eiríks-s(on), Oddgeir, Þorsteinn á Ármóti, Jóhann (sem er í báðum), Guðmundur frændi og Sigurður Melsteð. Við höfum það nú svo, að við veljum nefnd til að standa fyrir ritinu, og skiptum síðan bókunum fyrst um sinn, svo allir taka kostnað og ábata jöfnum höndum eptir því sem selst. Í þetta sinn reiknum við ekkert honorar. Nú höfum við þó komið út 9 örkum síðan í Februar miðjum; þá var ekki farið að skrifa einn staf. Í ritinu er um prestaskóla á Íslandi; um blóðtökur, um alþing og svo dálítill fréttakafli með vörulista. Nú kemur uppá hvernig ykkur sýnist um, þegar til kemur, eg veit þér þykir eitt að alþínginu og það er, að eg vil hafa það í Reykjavík, sem þú bölvar, og eg bölva raunar líka að svo stöddu, en bótin er, að eg er ógnarlega móderat og læt allt koma uppá alþýðuvilja; eg vil að alþýða láti rigna petitionum yfir þá í sumar í nefndinni, svo þeir þori ekki að svíkjast um, því ef nú sleppur, þá er ekki sagt hvenær halda kann. Konúngur hefir gefið svo gott leyfi sem hann gat, og það eigum við að nota. Nú kem eg með bækur til að biðja þig að

sjakkra með fyrir mig, en ekki kem eg þeim enn, því bókin verður ekki búin fyr enn í næstu viku. Já — satt er það! eg gleymdi rúsínunni sem átti að fara í endann: Þegar við vorum komnir út og búnir að stofna félag okkar, þá skrifuðu þeir okkur til, og vildu ganga á akkorð, en flestra meiníng hjá okkur var, að það væri ekki vert að svo komnu, svo nú urðu þeir reiðir sumir, og þú mátt nærri geta hver pottur og panna er til allrar þessarar tvídrægni, að það er enginn nema — eg(!?) og þó voteraði eg jafnvel fyrir sameiningunni, jafnvel þó eg væri sannfærður um að hún mundi verða til lítils. En nú kemur önnur rúsína: Eg trúi þeir ætli nú *ekki* að kalla ritið Fjölni, eptir að allur þessi ‚bruit‘ er gjörður ‚pour une omelette; í því [eiga][1] að verða ritgjörðir séra Thómasar: önnur um verzlun, önnur um alþíng, og kvað þessi seinni vera ágæt, því hún vill hafa alþíng í öllum sínum forna blóma frá 12$^{\underline{tu}}$ öld eða fyrri, með goðorðum og fimtardómum um allt land — geturðu ekki fengið þér goðorðssnepil? — En alvarlega að tala, þá hefi eg ekki lesið ritgjörðina, og ekki heyrt nema — að því eg ímynda mér — partiska dóma um hana. Það gleður mig annars, að hún kemur út, svo allir eigi kost á að dæma og velja hvað bezt er, því það vona jeg enn, að alþýða á Íslandi hafi ‚sund Sands‘ svona hérumbil, þegar hún heyrir ástæðurnar. En hvernig á að kveikja meiri lyst hjá mönnum til að kaupa bækur og skipta sér af pólitík? Með góðum ritgjörðum, segir þú líklega, og að þeir styðji til að prakka þær út, sem heima eru. Já, það er gott, en djöfullinn er, að maður sveltur meðan maður er að koma þeim út, bæði að búa sig undir og svo rita, því ekki er hlaupið að því. Allir hér hafa nóg að gjöra að hugsa fyrir examine, og þegar heim er komið, þá yfirbugar spidsborgarinn mann strax eftir nokkur ár. —

---

[1]) Útgef.

Eg hefi frappant dæmi á séra Thómasi, vesælíng. — Er það raunar af því, að ekki er fast fyrir þegar maður byrjar, því þú veizt að hér gefur enginn gaum að neinu nema að komast í veg, og það er von til. Pétur Havstein fekk laud í haust, Eggert Briem er nú uppi og stendur ekki rétt vel, en fær þó víst laud, eða að minnsta kosti á hann það skilið, og ef hann fær það ekki, þá er það ljósast dæmi hvað vitlaust examen er. Veslíngs Oddgeir var veikur, og gat ekki farið upp. Nú er Kristján áttundi seztur á laggirnar: Allt er fullt af Trykkefriheds processum, Grüne og Balthazar Kristensen eru komnir undir margfalda censur, og múlktunum rignir, en verst er samt, að nú vofir yfir, að farið verði með þá, sem settir eru undir Tiltale fyrir þvílíkt, einsog stórbrotamenn; áður hafa þeir fengið að skrifa fyrir sig og leggja út orð sín, en nú verða þeir kallaðir fyrir Kriminelkammeret líklega. Orla Lehmann er settur undir Generalfiscals Tiltale fyrir það hann hafi haldið ræðu fyrir bændum og prédikað þeim, að stjórnarlögunin hér væri ekki eins góð og vera ætti, og einvaldskonúngarnir hefðu ekki verið neitt hnossgæti fyrir landið, eða þeirrar meiníngar. Danir lúra samt þetta af. Nú er Feddersen dauður, kabinetssekreteri, og er sagt konúngur hafi drepið hann með næturvökum, Tillisch, Færeyjaamtm(aður) gamli og standaprumpur, er kominn í stað hans, servíl aptur í rass, hann hefir tekið það að sér upp á eitt ár. Í almæli var að Algreen Ussing ætti að verða það, og sagt er það hafi verið undirskrifað af konúngi sjálfum. Krónpr(insinn) er nú lofaður prinsessu frá Meklenb(urg) Streliz, Carólínu, og ætlar nú að fara að sækja hana í Maí, en hann er illa veikur nú, svo hann kemst kannske ekki af stað svo fljótt. Bardenfleth á að verða Hofchef hjá honum, en Hoppe porra fáum við aptur; hann [er][1] víst góðmenni, en

[1]) Útgef.

hamíngjan má ráða hvort þeir ekki hríngla með hann; hann er Knudtzons maður enn sem stendur. Nú er komið upp um falsanir þeirra í Borgarf(jarðarsýslu), að það er Kn(udtzon) (og Pétur) sem hefir fengið dónana til að gánga í sig móti fullmöktum, sem þeir höfðu gefið séra Hannesi; en þar skulum við sjá hvað þeir eru lifandi þar uppi, að nú sendir enginn forhörið sem tekið var í vetur, svo að það verði auglýst í blöðunum, svo nú heldur Kn(udtzon) að enginn þori að láta hann vita, hvernig á stendur — það er nú Kristján sem tekið hefir forhörið. Þið hafið líkt mál móti Hemmerti, og eg veit með vissu, að hann hefir farið fögrum orðum um það í rentukammerinu, hvað áreiðanlegar sé nafna undirskriptir þeirra heima. — Er það ekki ágætt? — Þú segir þeir geti ekki byrjað neitt, því þeir verði að trúa Dönum; en er það nokkur hlutur fyrir ríkan mann að fara híngað, og vita hvernig kastast kann, eða senda strák sinn vaxinn híngað til að læra nokkuð til verzlunar? Hér hefir nú verið einn í vetur frá Flatey; hann kom umkomulaus til Schevíngs, var þar assistent nokkur ár, keypti sér þiljubát og hefir haldið honum úti; nú fór hann híngað í haust og hefir lagt sig privat eptir þýzku og reikningi og fer nú heim sem Cargadeur fyrir H. P. Hansen; þarna er vegurinn! einkum ef menn færi til Hamborgar í stað bölvaðrar hittunnar sem hérna er í öllum kaupskap, og segðu mér til, ef maður fengi ekki nóga til að fara fyrir, ef maður væri nokkur maður. En til þessa er nú ekki hugsað, af því það er ekki venja, en héðan gengur útgjörðin dræmt, því margir verða til að níða verzlun á Íslandi, þó aldrei væri nema til að æsa ekki uppá sig ofmikla Concurrence. Ef guð lofar mér að lifa til árs, þá held eg eg reyni til að bagla saman einhverri ritgjörð um verzlanina á Íslandi, ef bók þessi gengur sæmilega út sem nú kemur, og við verðum ekki drepnir ofmikið, og þarnæst ef nokkur vill taka þátt í útgáfunni

með mér. Þorst(einn) Kúld og Matthías í Hafnarf(irði), bróðir sr. Páls, ætla nú að fá vörur heim í sumar með Sveinbirni; Principal hans hefir farið á hausinn, af hrekkjum, að menn halda, og tekur mágur hans við, en þeir kenna íslenzku verzlaninni um allt, og fara svo heim eptir sem áður, og eru aldrei öruggari en nú, einsog von er, því kaupmenn hafa ekki þurft að klaga í ár. Þessi Salomon var að láta byggja nýtt skip, og svo fær hann skip sitt að heiman, og selur vörurnar úr því, og nú gefur hann upp bú sitt og býður 20% og narrar skuldheimtumenn sína til að taka því, en mágur hans tekur við, og síðan hjálpast þeir allir, Sveinbjörn og mágarnir, til að breiða út, að allt þetta sé íslenzku verzl(aninni) að kenna, hún sé svo bölvuð. En rétt áður skrifar Sveinb(jörn) kunníngjum sínum, hann sé vel ánægður. . . .

Eg drap á við þig áðan um Servilismen hérna, en eg bæti því við, að Fribert er farinn að redigera Daginn, og er ólmur, og aldrei hefir Dagurinn verið eins illmannlega servil og nú, Trojel (Víga-) er frá honum samt, því hann var dæmdur fyrir skammir móti »Föðurlandinu«; en litli Trígill skrifar í hann, og er, að eg held, farinn að hallast, þó hann væri ultra í fyrra. Sem sagt, reactionin er töluverð, því konúngur hefir allar klær frammi, og konúngar geta mikið, þegar þeir vilja vel. Tillisch yngsti er nýlega orðinn Sorenskr(iver) á Færeyjum, framyfir Petræus, 10 ára gamlan laudabilista. Þórður var líka heppinn að fá Gullbríngus(ýslu) framyfir Magnús Stephensen, og marga aðra. Það hefir aldrei verið eins gott að vera á hillunni eins og nú, og bezta ráðið til þess er að skrifa móti oppositionsblöðunum, held eg. Sagt er að Dagurinn hafi verið í 3000 dala undirbal(ance) þegar Fribert tók við, en stjórnin hefir nú tekið hann uppá sína náðararma, að sagt er, og heldur honum við. . . .

. . . Mér finnst að amtm(aður) gæti mikið vel gefið þeim hugvekju um að upphvetja Íslendínga til að leggja sig fleiri eptir læknisfr(æði) en þeir gjöra, og til þess þyrfti þó ekki mjög mikið: 1—2 ár á Regensi meir en aðrir væri víst nokkur upphvatníng, og svo stípendíum með um þann tíma.

Eg nefndi við Hjaltalín um lepruna, og lofaði hann að skrifa þér um það; líka er drepið á það í klausunni »um blóðtökur« í riti okkar; það er eptir því sem hann hefir sagt mér, gengið út frá perversitate í blóðsysteminu, að blóðæðablóðið vex um of en slagæðablóðið mínkar, en mig minnir hann brúki mikið Jodoreter (Bravó! kallar þú víst, sikken Fusker! — eg nefnil. ekki Hjaltalín —). Þegar eg er orðinn ríkari en eg er, skal drottinn vita að eg skal senda þér myndina mína, elsku bróðir! því ekki er skjanninn ofgóður til að vera hjá þér, ef þú vilt nýta að horfa á hann! en hvort guð lofar okkur að sjást framar, er bágt að segja, þó er eg ekki vonlaus um það enn; en hvort sem er, þá veit eg það víst, að við gleymum hvorugur öðrum, og víst held eg við sækjum saman í hinu lífinu, ef við getum.

Allt það sem eg sendi þér núna er eitt númer af Khafnarpósti. Lestu það þér til trúarstyrkíngar og hressíngar, og eg get sagt þér líka, að konúngur hefir ánafnað skólanum 13000 dala, *með því skilyrði* hann verði fluttur til Reykjavíkur — hvað sýnist þér? Verst er að peningarnir eru of litlir, en það vilda eg guð gæfi, eg gæti riðið, með skrápskóm, þeim sem eru á móti að bæta skólann (því um flutnínginn er Bispörgsmaal), þangað til þeir yrði að láta undan. Þeir hafa af sér alla guðsblessan með hræðslunni og heimtuleysinu, en þegar þeir fara af stað ætlar allt að rifna, þángað til þeir eru reknir aptur tvöfaldir og svo liggja þeir þar, í staðinn fyrir að leggja fast Plan og moderat, en færa sig alvarlega upp á skaptið ef á reynir. Þá er eg

viss um að Íslendingum tækist mikið, ef svo væri að farið, en við megum til að byggja á Civilisations Forudsætning, en ekki reyna til að leiða umbæturnar fram í gegnum barbarí, eins og mér finnst, að þeir vilji hér kompánar vorir margir. Þessi barbaríis gullöld er nú einu sinni liðin, og kemur aldrei aptur, og að vilja reproducera hana er fásinna mesta og *ómögulegt*, en hún á að vera til samburðar og viðvörunar, og finnst mér hún geti jafnvel vakið þjóðernistilfinníngu, en eg vil heldur ekki hafa [hana][1] til annars en til að sýna að *til sé* og *til hafi verið* íslenzkt þjóðerni.

Jæja! elsku bróðir! nú er efnið á enda og kveð [eg][1] þig með konu þinni ástsamlega; eg bið líka að heilsa föður þínum hjartanlega.

Eg er þinn einlægur elskandi vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

Grímur biður að heilsa þér, og sagðist vona eptir bréfi frá þér og hafa vonað.

12.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn d. 18. Mai 1841.

Bedste Herr Pastor!

. . . Jeg kommer til at rejse til Stockholm og Upsala i næste Uge eller anden Uge herfra for Oldskriftselskabet for at undersöge nogle af Haandskrifterne der, fornemmelig Eddaen. Briem og Matthiesen rejste i Morges (lige för jeg fik deres Breve) med Örebak Skib. Brynj(olf) Petersen rejste i Gaar til Tydskland og England med

[1]) útgef.

Engelskmanden Cleasby, som vil udgive det islandske Lexicon. . . .

Deres inderlig hengivne Ven

Jón Sigurðsson.

13.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Kaupmannah. 29. Sept. 1841.

Elskulegi bróðir minn!

Sikken en! að vera ekki búinn að skrifa mér eina línu enn, og komið fram að vetri, eg kominn aptur úr heilli utanlandsreisu og allt[1]; eg skal lofa þér góðu líka, að bréf þetta skal verða eptir því, því eg hefi ekkert að skrifa heldur nema um sjálfan mig. Það vilda eg þú ættir eins marga efnilega syni handa Íslandi, einsog eg hefi óskað að þú værir kominn í sumar, því opt man eg eptir þér með glöðu bragði og elskulegum í viðmóti, en aldrei varstu eins jafn-upplagður einsog í Svíþjóð. Svo hefi eg líka verið í sumar, eg hefi aldrei fundið meins á mér, og verið svo tindilfættur innan um Svíasker einsog versti víkingur. Mikið gaman er að sigla inn skergarðinn þar sem þeir lágu víkingar enir fornu, þar er líka lægi, sem skapað er handa víkingum, og er það ergilegt, að svoddan staðir skulu nú vera ónotaðir vegna þessa sem menn kalla Civilisation. Eg var í Karlskrónu og sá flota Svía, og skotvígi þeirra fyrir utan í víkinni með 400 eldpípum; það eru réttgóðar tennur handa Dönum! Á innsiglíngunni til Stokkhólms gegnum 18 mílna langan skergarð, það er að segja eyjaklasa allan smáskógi vaxinn, er Vaxhólmskastali við svo þraungt sund, að hjólin á skipinu

---

[1]) svo.

okkar [rökuðu][1] nærri ströndina. Þar var Krúsenstolpe geymdur í kastalanum þangað til 20. Juli i sumar, að hann fékk lausn. Stokkhólmur er einhver sá fallegasti staður hvað plázinu viðvíkur, hann er allur byggður á eyjum með duglegum brúm á milli, og eru öll hús byggð á stöllum upp eyjarendurnar. Slotið þar er dægilegt, það er sjálft stærra en Kristjánsborgarslots ferhyrníngurinn, en garðarnir eru ekki eins stórir, þó hefir það það framyfir, að þar er dálítill Have, þar sem snýr að sundinu og þar leika þeir sér Óskarlíngar, og róta þar í moldinni með krukunum[2] og dálitlum rekuspöðum, sem þeir hafa að leika sér að. Bibliothekið er þar í annari floyinni, og þar höfðum við herbergi, sem snýr inn að garðinum, því get eg sagt þér kunnuglega frá öllu. Greifi Hamilton sem er Hofcavaler prinsessunnar sýndi mér híbýli þeirra Óskars og hennar, og sá eg þar að Óskar les og málar, og voru tvö málverk hans á Kunstudstilling Svía, og voru ekki slæm. Gamli skrjóður liggur í bólinu nema þegar hann ekur út á slot sín fyrir utan bæinn, en aldrei gengur hann í garðinum. Hann er í hærra lagi meðalmaður, illa limaður að lærum og fótum, en rétt laglegur að ofanverðu, hann hefir nokkuð álútan höfuðburð en þó einarðlegan, og lítur nokkuð fast fram fyrir sig eða einsog blínandi líkt og Repp, og þeir eru ekki að öllu ósvipaðir í framgaungu. Hann hefir ógna mikið um hálsinn og sett à la Napoleon. Í frakknesku marskálka uniformi gengur hann opt. Margir bölva honum Svíar, en ekki held eg hann eigi það skilið. Það er kröptugur maður og forsjáll þarmeð, og vill Svíum án efa vel, einsog sjá má á því, hvað bæði sonur hans og öll hans börn eru öldúngis svensk, þó kallskepnan sjálfur kunni ekki málið. Kríngum Stokkhólm eru lystislotin: Haga með mikið stórum Park; Rosendal, mikið prýðilegt, en lítið; Drottningholm,

---

[1]) Í handritinu: rakaði. [2]) svo.

stórt slot í líkum stíl og höfuð-Façaden á Friðriksbergi, en miklu stærra. Þar er nálægt slot eitt, sem Gustafur þriðji byggði í kínverskum stíl. Frá Stokkhólmi gánga dampskip útum allt, því Svíar hafa eitthvað 70 af þeim, þaráméðal eitt úr járni, makalausa pílu. Á þeim ferðuðumst við til Uppsala, og er þar á leiðinni Skokloster, sem Brahe á, eitthvert það fallegasta slot sem eg hefi séð, byggt af Wrangel eptir 30 ára stríðið í sama stíl og Aschaffenburg og eptir því. Í Uppsölum er sú guðdómlegasta kirkja, sem eg hefi séð, og fleiri byggíngar fallegar. Milli Uppsala og Stokkhólms gánga 2 dampskip á víxl 5 sinnum í viku, og hafa mikinn ábata, ferðin kostar 2 Banco (9 mörk) aðra leiðina. Í Uppsölum kynntumst við helzt við prófessóra, því fáir stúdentar voru heima, einkum voru það júridískir prófessórar, sem við kynntumst við, og sá sem kennir íslenzkuna próf. Schröder, hann er Universitetsbibliothekar. Frá Uppsölum fórum við til járnnámunnar í Dannemora, og sé eg þar í stampi járnbentum, bróðir minn! einsog kóngurvofa niður í 90 faðma djúpa gjá, og er standberg hreint niðrí botn, sem ekki getur fugl staðið í. Hestur vatt mig upp og ofan. 3 vorum við í stampinum í einu, námumaður, bókakaupmaður einn og eg, en Ólafur gat ekki sígið fyrir svima. Það er ekki eins og við Höganæs, að maður þurfi fataskipti, hér er allt hreint, en þaraðauki er gjáin, sem maður fer niðrí svo víð, viðlíka og Gamlatorg, en einmitt þessvegna ógurlegri, því maður sér endalaust gin það sem augað flytur, og eygir ekki botn, nema þegar bjart er yfir. Á botninum gekk eg á klaka; ekki var þar heitara en svo. Á leiðinni aptur vorum við í Öhrbyhus, þar sem Eirekur $14^{\text{di}}$ sat í fángelsi. Við vorum líka í gömlu Uppsölum og drukkum mjöð á Óðinshaugi, og þar sem Björn sálugi að Haugi sat komum við, og gengum á haug hans;

það er skammt frá Uppsölum. Að fara upp Fyrisá er gaman, hún rennur niður sléttar grundir og er skógur öðrumegin og holt, en öðrumegin slétt með hólum það sem augað flytur, en áin er svo mjó, að bylgjurnar undan skipinu sleikja báða bakka og víða má stökkva í land á bæði borð; þegar maður er niðri, þá sér maður ekki öðruvísi en einsog maður flögri yfir engi. Veginn til baka fórum við yfir Gautaborg, allan Kanalinn, þar er víða ógnar fallegt, en eg hafði nú ímyndað mér svo mikið um það áður, að það gat varla gert betur en vera eins. Þó er Tröllhettan nærri meiri en eg gjörði mér í hugarlund, það er makalaust verk, og ekki gott að vekja ímyndun um það í stuttu máli. Þar er grafinn kanall til að komast fyrir iðufoss í Gautelfi, og hefir verið sprengt einlægt berg gegnum lángt holt, lengra en frá Brekku og suður að Görðum, og gegnum það fara skipin, svo djúpt að það er 60—80 fóta niðrá dekk, þegar maður stendur á barminum þar sem hæst er holtið. En nú þykir þetta ofmjótt, og er nú þegar búið að sprengja annan kanal við hliðina, sem er svo breiður, að hlaðinn verður veggur innaní það sem sprengt er, og verður það bæði hentugra og hættuminna, því skeð getur að sprínga kynni úr berginu. 2. September komum við til Hafnar. Hvað við höfum útrétt hefi eg skrifað Egils(en) og segir hann þér af því það sem þú villt vita.

Héðan er ekkert markvert nema þetta gamla þauf í prentmálum etc. Hvað segirðu um Félagsritin og félagið. Þess[1] bið eg þig lengst orða að gleyma því ekki, hvað sem annað hefir. Briem vona eg vilji styrkja til að koma því á, sem betur má fara, og svo ættu þið að geta fengið fleiri meðlimi. Við skrifuðum nú í vor um contingent félagslima og ýmislegt annað, en höfum ekkert svar fengið, því ekki er gert ráð fyrir bréfa-

---

[1]) Það hndr.

skript nema einu sinni á ári. Gæti félaginu vakist Sympathie, þá væri von að ýmsu færi fram,

Fyrirgefðu mér bróðir minn góður! þetta magra rugl (það sem þú átt af Kollegialtíðindum og Tidsskr. fylgir í pakka sér) og nyt jur(idisk) Tidsskr. sem faðir þinn getur sent aptur, ef hann vill — óuppskorið að ofan. —

Heilsaðu þeim sem minnast mín — og vertu alla tíma blessaður

þinn einlægur elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

14.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn d. 9. Oct. 1841.

Bedste Herr Pastor!

Mange Tak for 2 nylig modtagne gode Breve; det förste fik jeg 2$^{den}$ Oct. omtr(ent) Kl. 4 om Eftermiddagen, convoluterede Deres islandske Breve i störste Hast og rendte ned til Toldboden, da jeg troede endnu man kunde naae Postskibet; men da jeg kom der, hörte jeg at — Postskibet var væk, Kl. 8 om Morgenen, og Brevene maa altsaa blive. Det var en Fandens Historie. Imidlertid er vi dog ikke værre farne end selve Rentekammeret, det vil jeg sige Dem til Tröst og Husvalelse, for det var ikke færdigt med alle dets Breve i rette Tid og maatte kjönt stikke dem ned til Foraaret. . . .

Jón Sigurðsson.

15.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn d. 5te Dec. 1841.

Bedste Herr Pastor Gudmundsen!

. . . M. Eir(íksson) tænker jeg vil skrive en Recension over den islandske nye Bibel, og den troer jeg vi trykke i »Ný Félagsrit«. — Apropos! Hvad siger De om dem; jeg troer jeg sendte Dem dog 1 Exemplar. De ere ikke gaaet godt af i Sommer, men have dog faaet temmelig favorabel Dom, af en ny Bog at være; jeg troer derfor vi fortsætte dem, skjöndt vi ikke engang have faaet vort Udlæg dækket, meget mindre Honorar. Det er som mig synes en Pligt man skylder Island, netop medens dette Vendepunkt med Stænder-Institutionen og Skolereformen staaer paa, at söge at gjöre de Meninger gjældende, man er overbevist om ere de rigtigste, og forsöge om det ikke kunde være muligt at vække Discussion. Jeg mener man fremfor alt maae söge at vække etslags offentlig Mening grundet paa faste Principer, og jeg lover mig af den, efter min Mening, ikke almindelige sunde Sands som findes blandt den islandske Almue, at det vil lykkes, naar man bare havde Raad til at holde Pinen ud. Commissionen i Reykjavik er kommen til det Resultat i Sommer, at Althinget skal være der, men den skal have været noget illiberal med Hensyn til Valgloven (10 Hdr. Jords Eje eller 20 Hdr. Fæste som Minimum for Valgret og Valgbarhed; Embedsexamen giver eo ipso Adgang til Valgret og Kudske-Examen med bekvem!! men stakkels candidati philosophiæ faldt igjennem cum ignominia. — Derfor er jeg naturligvis saa opbragt!). — Nu hörer jeg at Melsted har udarbejdet Forslag til en ny Valglov, hvori Basis skulde være at af hver 10 Indb(yggere) vælges 1 Valgmand, og disse vælge igjen

1 for hvert Syssel. Skattespörgsmaalet blev skudt hen til det forventende Althing.

Etatsraad Johnsson er nu kommen hertil og söger maaske til gamle Island igjen, jeg har heller ikke for min Deel noget imod at han bliver Amtmand, og vilde enddog önske ham Vesteramtet for at rumstere nogle Aar i Regnskaberne der, som sikkert trænge til et ordnende Princip. Jeg hörer at hans Sön, som i nogen Tid har været hjemme, skal nu studere Jura, men partout uden Manuducteur. . . .

Landsoverretten i Island fik nylig en rigtig en. — De har vel læst det i K(jöben)havnsposten og Dagen. — Tænk Dem! der var Disput om i Höjesteret at dömme den pro meliori og dette er alene paadraget for Sveinbjörnsens Chikaneri mod Melsted eller Finsen — eller Gottsvein, som er Broder til Röveren Sigurd Gottsveinsson som blev halshuggen her for nogen Aar tilbage. Men desuden paastaaes der (privat) at andre Facta have fundet Sted som Sveinbjörnsen maatte önske at ikke kunde bevises, at han nemlig skulde have nægtet afg(aaede) Etatsr(aad) Einarsen, der var Justitiarius dengang, at see Retsprotokollen, og denne, som ved den Tid laa paa sit Yderste, ikke havde vidst hvorledes Dommen var falden, og maaskee aldrig stemt i Sagen. Hvis denne Færd skulde være sand, da var den mindre kjön for en överste Dommer i Landet. Et Forsvarsindlæg fra Sveinbjörns(en) til Höjesteret i denne Sag vakte almindelig Spot i Retten under dets Oplæsning, især da han protesterede »mod alt Ansvar« — for sine egne Gjærninger!! . . .

Deres meget forbundne og hengivne

J. Sigurðsson.

16.

Til Páls Melsteðs, síðar amtmanns.

Kaupmannahöfn 26. Marts 1842.

Hæstvirti elskulegi herra kammerráð!

Bréf yðar í haust var elskulegt og svo fræðandi í mörgu, að eg fæ yður það ekki fullþakkað, og allrasízt verður miði þessi nokkuð endurgjald þess. Það er svo gleðilegt að vita, að þeir menn sem mikils eru megnugir, og sjálfkjörnir til að taka þátt í lands-málunum, hafi bæði skynsemi og frelsi andans til að taka í þann strenginn sem einmitt *þarf* að taka í, og geti varast þá afvegu, sem skammsýni og vangætni á tímanum og *sannri þörf* þjóðarinnar leiðir á, og sem nógir vilja verða til að hvetja mann að halda frammá. En það er víst, að auðnist manni að sjá hina réttu leiðina, og að standa af sér villu-leiðtogana, þá er skynsemin svo sterk að hún ræður smámsaman allflestum frá villugötunum og teymir þá eða hrekur á hina réttu þjóðbraut. Eg er nú hálfvegis að vona, að þér munið líka rita eitthvað um málefni landsins sem svo mjög ríður á, þó eg viti þér séuð mörgum önnum kafinn. Að taka menntun Norðurálfunnar, að því leyti sem hún er góð — því það verður aldrei varið að með allskonar menntun fylgja annmarkar, sem henni eru eiginlegir, einsog mér sýnist að hverjum kosti fylgi Tendents til einhvers ókostar — og hafa hana til eptirbreytni að því leyti sem hún á við á Íslandi, það er að eg held það eina rétta, og því hafa allir vorir skynsömustu menn fylgt bæði í eldri og nýjari tíð; en að taka eptir án greinarmunar hvort heldur gamalt eða nýtt, það er heimskulegt, og, þegar að er gætt, ómögulegt, því það ónýtir sig sjálft. Mér er nú svo heitt innanrifja um þetta, því eg hefi nýlega verið að skrifa dálitlar athugasemdir móti alþingisþætti séra Tómasar í fyrra, og svo um

undirbúníng alþýðu til þíngsins, og ætlum við að hafa það í Félagsritunum; svo verður þar dálítill þáttur um skólann og svo sitt hvað smávegis, en ekki þarf að vænta mikils af því í þetta sinn, því er miður, vegna þess að eg hefi orðið að sinna ymsu öðru, og kastað því fram í hreytíngi, svo það eru mestpart deklamatiónir — en þær eru líka kannske »mest populære«, og þegar ekkert kemur út á móti, þá eru þær til að árétta, og kannske hvetja hina til að leita að fleiri og sterkari ástæðum en þegar eru komnar fram, en þær munu ekki vera auðsóttar. Til skólamálsins ætti eg að hafa nokkurn efnivið, því Rosenvinge hefir léð mér allar »Betænkninger« um það, bæði héðan og að heiman, og eg segi yður satt, að það er »difficile satiram non scribere« þegar kemur fram annað eins og þér kannske hafið lesið frá amtm(anninum) sál. og lector, og er það bágt, ef sannleikurinn þyrfti þesskáttar málsfærslu, en það er bót í máli, að það er nærri auðgengið að lakara málstaðnum þar sem þvílík »Product« standa.

Eg legg hér hjá Kollegialtíðindin og Tidsskrift Péturs, og svo »Nyt juridisk Tidsskrift«, og hefi eg leyft mér að demba uppá son yðar að taka nú við stjórninni, en eg bæði vona og bið að eg mætti njóta þeirrar ánægju að sjá bréf frá yður samt sem áður um merkismálefni lands vors og hvað annað, fyrst eg gat orðið svo heppinn að ná að kynnast við yður dálítið, og viðleitni mín miðar að því sama takmarki og er í líkri stefnu og sú sem þér haldið réttasta. . . .

Fréttum öllum sleppi eg, enda eru þær ekki mjög merkilegar, nema helzt frá Englandi um stjórn Roberts Peels, og um tjón Englendinga í Afghanistan.

Fyrirgefið, elskulegi herra kammerráð! risp þetta óvandað

yðar einlægum heiðrara og elskara

Jóni Sigurðssyni.

17.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Kaupm.höfn 26. Marts 1842.

Hjartkæri bróðir minn!

Miklar þakkir áttu skildar fyrir bréf þitt elskulegt með póstskipinu og í haust, og eg veit ekki hvað, en það stendur nú svo illa á, að eg á litla tíð til prívat bréfa, því það loðir laungum við mig að taka allt í nösunum og vera svo fjandi flegmatiskur. Já, ekki skaltu þó segja, eg sé svo flegmatiskur fyr en þú ert búinn að lesa það sem kemur núna um alþíngið aptur, því nú vil eg setja alla dónana á ferð og flug að debattera málin, fyrst í sóknum eða hreppum, og síðan á sýsluþíngum, með kosnum fulltrúum; svo koma miklar deklamationir með tilheyrandi upphrópunar-, spurníngar- og athugateiknum etc etc. útaf alþíngisþætti séra Tómasar sál. og síðan það sem tólfunum kastar, um skólann. Heldurðu það verði nokkuð? — Vaba! — Heyrt hefi eg fleygt, að ekkert komi út hjá þeim í hinu félaginu í vor. Við höfum haft samkomur í okkar félagi hjá Ferakuti annanhvorn laugardag, en ekki hefir þar verið annað en skemmtan, tafl og spil og matur og drykkur, og gamanræður, en nú er Ferakut dauður og kneipan lokuð. Gaman hefði verið þú hefðir verið horfinn til okkar bróðir minn! til að hressa þig á heilags Stephani víni eptir vikunnar þrautir.

Blessaður vertu fyrir barnaskólann þinn, það var fallega stofnað, og eg held, eptir því sem eg hefi heyrt, að enginn hafi vogað að glefsa í það með ónotum; svona er að gjöra vel, það verður enginn til að lasta það. En það hefir víst líka verið þörf á, og væri víða, guð hjálpi mér! að fá krökkunum nokkra tilsögn, sem eru margforskrúfuð og rángskrúfuð framaneptir allri æfi, og það er vonanda að dæmi þitt verði nokkrum til upphvatníngar.

Eg tek það seinast, sem eg ætlaði að taka fyrst, að biðja drottinn að hugga þig eptir barnsmissirinn; en eg vona þú látir ekki hugfallast og búir nú til dreng til að reyna hvernig *það* fer.

Eg ætla að skrifa þér betur seinna, bróðir minn! og senda þér félagsritið, með Rykker-bréfi til að koma í félagið okkar, eða »Hverver«-bréfi, ef þú villt það heldur. Allir skólar eru pólitískir í raun og veru — og skólamenn pólitískar persónur, félagið er líka pólitískt, ergo eiga allir skólamenn að vera í því. Geturðu rekið þennan syllogismus?

Heilsaðu hjartanlega!

Þinn elskandi bróðir
J. Sigurðsson.

18.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Kaupm.höfn 30. Apr. 1842.

Bróðir minn góður!

Hérna koma nú hríngarnir rauðu og hvítur vír!

Félagsritin eru ekki búin, en þau koma þegar þau koma og verða hvergi lin á hjarninu. Þú munt signa þig, bróðir minn! aðrir munu reiðast, þriðju bölva, og fjórðu hlæja — enginn mun verða neutral, og þá væri eg bættur ef svo væri, því ef nokkuð hrærðist í lygnunni heima, þá væri nokkurs von, að ekki fúlnaði allt í sundur. Eg sendi þér 5 ex(emplör) af »Hófsemisfélagssögunni« til eignar og gefins útbýtíngar meðal hófsvinanna í þínum connaissances; þeir munu varla verða *fleiri* en 5 á Álftanesi?

Eg er nærri vitlaus, bróðir minn! í korrektúrum, en allt skal eg gjalda á endanum.

Vertu í guðsfriði með öllum þínum.

Þinn einlægur elskandi bróðir
J. Sigurðsson.

19.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Kaupmannah. 12. Juli 1842.

Elskulegi bróðir minn!

Hafðu ástkærar þakkir fyrir bréf þitt elskulegt nýfengið. Ekki hefi eg nú mikið að skrifa þér þó eg sé að bera það við, nema að eg lifi við þetta gamla. Það er ekki til neins að skrifa þèr fréttir, því þær segir Ólafur Pálsson, og sumar hefir þú heyrt áður. Það ætla eg samt að segja þér, að gamli Ryge er hrokkinn uppaf og varð bráðkvaddur; dóttir hans er nú með þeim beztu á kvennhöndina við leikhúsið. Í ráði var að Cetti ætti að fá fararleyfi og Kirchheiner, en ekki veit eg hvað af því verður. Heiberg er að stríða við publicum og þeir eru að höggva í hann; Grímur kom núna í dag út með pjesa móti honum og held eg sé góður, að því leyti eg hefi vit á um að dæma, en þú munt segja: hvað skulu börn í bát við Björn; þú skalt samt ekki segja hvað verða kann úr Grími með tímanum, ef hann hefði nóg til að koma sér fram með, en það er vont þegar maður er of fátækur, og er hann þó að vísu ekki meðal þeirra fátæku af okkur til, en maður þarf meira enn lítið, ef maður ætlar að verða classiskur ritsmiður og einkum skáld; er það nú þar sem eins stendur á og hér, að publicum er svo lítið og í mörgu smekklaust.

Ekki get eg sagt þér mikið af mér eða mínum störfum, nema það að eg hángi alltaf í Landnámu ennþá, en hún er nú líka á seinasta hlunni. Eg hefi í hyggju, ef eg get, að skrifa »Nationalöconomie« handa Íslendíngum, og skrifa núna Þorsteini, hvort hann hafi lyst að koma henni út, og svo er eg að safna til sögu Íslands, einkum verzlunarsögunnar, en það mundi eiga lengra í land, þó drottinn gæfi mér líf og heilsu. Eru engin ráð að stofna historiskt archiv heima t. a. m. við

stiptsbibliothekið? AMagn. nefndin ætti að borga afskriptirnar af skjölum hennar og senda Dubletter af handritum &c., en landið afskriptir af því sem í kollegiaarchivunum er. Eg skyldi með stærstu ánægju styrkja til þess, og er viss um að Rafn og Magnusen mundu vilja gjöra það sem í þeirra valdi stendur til þess það yrði framgengt. Eg drap á það einusinni í bréfi til b[isku]psins og Egilsens og svo í fyrra í alþíngisþættinum, en því hefir ekki verið gefinn gaumur; og hversvegna? — Það er þó *nauðsynlegt* og það er *mögulegt*, en það kostar raunar nokkuð, það er sjálfsagt, og þó óvíst hvort það yrði meira en 2—3000 dalir, sem jafna má á mörg ár. Kannske þú gætir lagt á einhver góð ráð, ef þér finnst nokkuð í þetta varið. Að þú skrifir mér dálítið um meiníngar manna um félagsritið, vona eg víst; eg þykist vita það muni þykja ekki allskostar gott, og heyrt hefi eg niðrí, að þeim líki ekki *hér* summum alþíngisþátturinn, og muni ætla að skrifa á móti honum (sumir segja *Mosjö*), en eg læt þarvið standa og bíð átekta. Jeg skal *nokk* forsvara mig, segja dónarnir, og það gleður mig, ef eg fengi að sjá skýrlega hversu þeir vilja í *praxí* koma á gamla þínginu, en það hefi eg ekki getað séð ennþá, né heyrt í samræðu nema *tóma* undrun og enthusiasme fyrir Þíngvöllum, sem eg er hræddur um dragi skammt á götu í reyndinni. Ef eg sæi að institutiónin sjálf hefði gott af, að samkoman væri á Þíngvöllum, þá skyldi hamíngjan vita, að eg skyldi ekki vera seinastur að fylgja þeim fram, því þeir eru æruverðasti staður, sem við eigum til, en hvað dugir það eins og tímunum er nú varið, þó menn komi saman annaðhvort ár á afviknum stað — sem menn NB. með miklu meiri hátíðleik geta sótt á öðrum tímum eða í öðrum tilgángi — til að tala þar í landsins nafni málefni þess, þau sem mestrar umhugsunar og aðgæzlu þurfa. Eg sé ekki annað en það hljóti eflaust að leiða til kappþrætu um hvert eitt mál, þar sem flestir verða

að búa við það sem þeir muna utanað, en varla er fært að færa sönnur á neitt, nema þær sem hver einn yrði að taka gildar, og slíkar sannanir eru ekki í hverju máli á hraðbergi.

Hafðu Bókmentafélagið í hyggju, bróðir minn góður! bæði nær og fjær; það kemur til með tímanum að verða að gagni, ef því veitist lið núna til að reisa rönd við. Eg veit þú hefir alltaf verið því hliðhollur, og þú getur saxað í þá landa vora með tímanum. Eg vænti deildin skammi okkur núna fyrir, að við buðum Jónasi híngað, enda kannske hann þiggi það ekki sjálfur og þá er ekki um að tala. Við höfum annars heyrt slæmar fréttir af lifnaðarháttum hans, líkar eins og þið heyrið um háttu okkar hér, en það kann að vera logið, og verður kannske eignað kröggum hans veslíngs, hvort sem það hverfur nú með þeim eða ekki.

Vertu nú blessaður og sæll bróðir minn! með konu þinni elskulegri og öllum ástfólgnum.

Eg er ætíð þinn einlægur elskandi
vin og bróðir
Jón Sigurðsson.

Eg bið ástsamlega að heilsa föður þínum og svo á eg að heilsa þér frá lagsmanni mínum P. Havstein.

## 20.

### Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Kaupm.höfn 29. Sept. 1842.

Elskulegi bróðir minn!

Hafðu ástarþakkir fyrir bréfið þitt, en skömm lægi mér við að segja fyrir speciuna, því eg hafði ekki önnur ráð við hana en fá hana Mjóna fyrir brennivín, og drekka þar heilt kvöld og hafði svo þórshamra í höfð-

inu daginn eptir, en það gengur út yfir þig, því nú er eg orðinn of seinn með bréfin mín. Eg hefi aldrei verið svo óforskammaður að senda þér Félagsritin fyrir kaup, en eg vildi gjarnan þú þægir af mér eitt exemplar að gamni okkar beggja og í bróðernis skyni.

Þú nefnir mart í bréfinu þínu til að skrifa um, og það er víst, að eg sé þú hefir fullkomlega rétt fyrir þér, en eg segi fyrir mig, eg er ekki fær um að semja tíðindi frá Íslandi einsog séra Tómasar, því eg er ekki svo kunnugur detaillinu einsog hann, og þesskonar veiztu sjálfur maður fær ekki í bréfum. Einn fullur dóni í krambúð í orðakasti við kaupmann er betri en nokkur fréttabók, og þessu lýsa menn ekki. Mér er skrifað af sumum verðlag á vörum útlendum og innlendum, en ekkert um aðalviðskipti landsmanna og kaupmanna, um það hverjir mestu ráða í öllum viðskiptunum, einn kaupmaður eða fleiri, hvort nóg er vara, hvernig hún er, hvenær hún kemur, o. s. frv. mart og mart. Þeir hafa margir þetta detailauga (nálarauga í vissum skilningi) en auga fyrir princípum hafa þeir ekki. Þetta er nú því merkilegra, sem [til][1] nokkurra einkennilegra annmarka hefir verið bent t. a. m. bæði hjá séra Tómasi og í artíkulunum móti Knudtzon, og meðan þeim annmörkum ekki léttir, þá er verzlunin til ills hjá því sem hún gæti orðið. — Til að bægja annmörkunum þarf að halda þeim alltaf skarpt fram og sýna hvað skaðlegir þeir sé í alla átt. — Með því næst um síðir það sem maður vill, en þögnin heldur öllu in statu quo — og status quo vitum við er apturför. Taktu þig til, bróðir minn! og farðu að semja, þú getur það vel, ef þú bara annaðhvort af forvitni eða laungun eða þörf tekur þig fram í fyrstunni. Byrjunin er hálft verk. Þegar maður er fyrst kominn út í að vera rithöfundur, þá kemur einurðin fram og vex og breiðist út í öllum

[1]) útgef.

málum. Þess þurfum við með, því einurðarleysið er þjóðlöstur okkar, af illu eða réttara sagt raungu uppeldi, hleypidómum og vesældarskap, inngrónum og eldgömlum.

Vel megum við vona nokkurs þegar skólinn kæmi og alþíng, en allt verður að hafa sinn fót og undirbúníng, hvernig sem menn ætti að geta vonað að sumt hvað kæmist á óðar en það væri nefnt, þá sýnir reynslan að um flesta hluti sem fram koma má segja þeir komi af sjálfum sér eins og einn hlekkur dregur annan.

Hvað bókaskoðun viðvíkur, þá höfum við þær ekki hér allar sem útkoma, og eg segi fyrir mig, eg hefi raunar staðið berhöfðaður með herðarblað í hendinni, mykjugur upp til axla í skítahaugi og á fjósflór, en eg vil það heldur en moka þann literære Augiasstall sem í Viðey er, jafnvel þó eg játi það væri mesta nauðsynjaverk, og ef vel lægi á mér, þá finnst mér eg væri einmitt vel upplagður núna, af því mér datt í hug mykjan og flórinn, svo þú sér strax, að þar er einmitt hin rétta sphæra. Það held eg líka að vel þurfi að liggja á manni, því ef manni tækist vel að draga það allt í sundur í háði, þá væri eg viss um, að nokkuð batnaði, því enginn er eins andskoti spéhræddur og Íslendíngar og Norðmenn; en það er ekki gaman máttu trúa að hugsýkjast ekki, þegar maður sér þennan fjanda eitraðan aptur í sporð skríðandi á sálir manna og tínandi hvern sem lærir að stafa, en ef maður hugsýkist og fer að dreifa í kvíðyrðum, þá fer allt útum þúfur með hláturinn og þá er konstin á enda. Það væri raunar nógu gott, ef fyrsti þátturinn í félagsritinu í vor væri um prentverkið. Eg skal hugsa um það betur.

Hjaltalín held eg skrifi eitthvað um spítalana kannske , en ekki veit eg hvort eg skrifa nokkuð um alþíng. Magnús Eiríksson var hálfvegis að lofa að skrifa recension yfir biblíuna íslenzku, en hann hefir nóg að

gjöra með að skrifa móti heimspekíngum og öllum trúarinnar mótstöðumönnum núna sem stendur.

Eg hefi lesið í stjörnufræði Jónasar og er hún góð og mörg orð ágætlega valin, en sum eru varla rétt, heldur en tvíloptað hjá mér (eg held annars það orð sé eptir þig þegar við vorum í Klausturstræti, en rétt hefir þú, að orðið er ekki gott). Ljósvaki er ógnarlega fallegt og einmitt skáldlegt, en það er fremur prædicat en subject. Meira man eg ekki að segja. En skýrsla lectors míns er fjandi simpel og enn verri en í fyrra að málinu til og þánkakirkínginum, svo eg sé að þegar aðrir fara að tala frjálslega, þá skríða þessir menn upp í hrútshorn. Njóla er víst góð, en ekki hefi eg lesið hana enn; bara Gunnlaugsen vildi sleppa sér betur, því hann þarf alls ekki að fara með veggjum og vera að styðjast við biblíuna og þesshattar; það biður hann enginn að vera að sanna með henni, því hún sannar ekki meira en hvað annað. Helduröu annars að séra Jón gamli snúist ekki öndverður, þegar allt er orðið jafnt, gott og illt, himnaríki og helvíti, djöfullinn orðinn að sjálfheimskum dóna, sem allir skynsamir menn geta hlegið að, og syndin ekki nema klaufadómur.

Um alþingismál okkar færðu bréf og blöð frá Sigga bróður okkar.

Með kærri kveðju til konu þinnar elskulegrar og þín sjálfs er eg ætíð

þinn af hjarta elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

## 21.

### Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Kjöbenhavn d. 6. Nov. 1842.

Bedste Herr Pastor Gudmundsen.

. . . Med de sidste Skibe er Intet nyt. Vi have hört at Jónas Hallgr(ímsson) skulde være bleven syg

og ligge hos Beldring i Mule-Syssel, men ikke kunnet komme videre. Han skal have Saar paa Legemet som ved Strabadser og Forsömmelse have udbredt sig og lugte fælt. Gud veed om han kan komme sig. Ifald han döer, saa falder der endnu een af Islands bedst begavede yngre Mænd. Jeg har vist skrevet Dem, at G. Hjálmarsson er kommen herned med sin Kone for at læse til Examen, og har 1200 Rbd$^s$. Collect fra Östfirdingerne. Der kan man see, at der er dog Nogle som kunne bruge vore gode Landsmænd, skjöndt man ikke just löber ned i deres Pengekister naar man önsker det. . . .

J. Sigurðsson.

22.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Kjöbenhavn d. 30. Dec. 1842.

Bedste Herr Pastor Gudmundsen!

. . . Vi tænke halvt om halvt at skrive Kongen en lille Adresse naar Althingssagen kommer for, men om der bliver noget af er endnu ikke ganske afgjort, thi naar *Enstemmighed* ikke kan erholdes, i det mindste *næsten ganske*, kan det ikke nytte at forsöge det. Etatsr(aad) Johnsson er her nu i Byen og vil sikkert rejse hjem til Foraaret, men nogle siger han rejser alene. . . .

J. Sigurðsson.

23.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Kh. d. 28. Febr. 1843.

Bedste Herr Pastor!

. . . Vi have hele denne Maaned været aldeles begravne i noget som man ikke tör nævne — Politik.

Igaar gik Petition (paa *Islandsk* med dansk Oversættelse) til Kongen om Althinget, hvori vi bede om, at de samme Poster som vi skrev Christensen om i Sommer maatte blive bevilgede, og motivere dem udförlig. Kongen var meget naadig, og vi have noget Haab, skjöndt næppe om Offentlighed for Danskernes Skyld. Idag gaaer en Deputation til Kronprindsen med en Adresse (ogsaa paa *Islandsk* med Overs(ættelse)) for at faae hans Understöttelse. Sagen skal forhandles i Statsraadet i Morgen (öskudaginn sjálfan). Begge Breve have 41 Underskrifter: Etatsraaderne, Repp, alle Studenter og Candidater med Undtagelse af Doctor Hjaltalin, som forunderlig nok! skiftede Sind, ligesom i Sommer, flere Kjöbmænd (Clausen, Pétur á Búðum, Sigurður Jónsson úr Flatey, og Jón Jónsson af Ísafirði og Örum) og enkelte Haandværksmestere. Svende og Drenge turde vi ikke tage med. For mig har hele denne Maaned gaaet i politische Umtriebe, og det er just ikke kjönt, men det faaer at gaae naar det er forbi. De skulde see hvor Pokkers parlamentariske Möder vi kunne holde. Paa eet af Möderne holdt jeg en Tale som varede i 3 Quarteer, om at Valgbarheden burde være fri i Island, og det glædede mig at Landsmænd syntes den var brav nok, og over Forventning af mig, min Mening blev ogsaa vedtagen næsten eenstemmig, med Undtagelse af Etatsraaderne og nogle af Kjöbmændene. . . .

J. Sigurðsson.

24.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Kaupmannah. 15^da Juni 1843.

Elskulegi bróðir minn!

Nú hefi eg svikizt um illa, að láta dragast svo lengi að skrifa þér, en eg vona þú hafir sèð og lesið

verzlunarþáttinn í Félagsritunum og það er mest það sem eg hefi að segja. Eg ætla nú bráðum í cancell(i)- og rentuk(ammer)archivin til að safna til Íslandslýsíngar, og hvað sem kynni að hrjóta að mér annars. Eg skal segja fréttirnar ef eg sé nokkuð gott.

Ekki skil eg í föður þínum núna, að vera [að] spenna sig móti okkur, sem höfðum hlíft honum allt hvað við gátum og hælt honum fyrir það sem lítils hóls var vert í rauninni, því hefðum við viljað vera »órimilegir«, þá hefðum við ekki þurft að dást að, þó hann hefði fundið »indirecte Valgbasis« á Íslandi, þegar hann var kominn heim til sín. Eg held þeim hefði verið eins nærri að taka atriði þau sem eg þegar hafði stúngið uppá í Félagsritunum og láta sér enga skömm þykja, einsog að vera í eilífri grautargjörð. Það þykir mér líklegt, að menn líði ekki að karlskepnan komist upp með slíkan ósóma, og þola það með þögn og þolinmæði, þó við séum nú úngir og illa ráðnir, candidati philosophiæ og þaðanaf verri. Eg sè ekki hvern fjandann Íslendíngar vilja vera að díngla aptaní öðrum eins tudda einsog Örsted er orðinn, þar sem hann er að skamma landa fyrir sakleysi og níða, af þvi við ætluðum að bera okkur hér að gjöra hvað við gátum, og collideruðum við hans fjandans mall og bull. Það má vera lítil tilfinníng þjóðernis síns hjá þeim mönnum, sem heldur vilja þola skammir og lúðra fyrir geheimeráðum heldur en samlaga sig löndum sínum sem hæla manni svo sem þeir geta. Eg er nú grófari hérna, en í bréfinu til föður þíns sjálfs, en sagt hefi eg honum meiníngu mína, og eg veit hann muni sannfærast um að hann hafi farið rángt að, þegar hann hugsar betur eptir. Samt er eg honum ekkert reiður fyrir mitt leyti, en popularitet sitt meðal Íslendínga hefir hann misst um stund öldúngis, og er það illa. Það er ofmikið unnið til hylli annars eins karls og Örsted er, sem væri eins viljugur til að forsvara það versta

einsog það bezta, að missa fyrir það velvild nokkurs eins mannsbarns af Íslendíngum.

Eg vona þú agiterir, bróðir minn! það sem þú getur, því nú ríður á fyrsta þínginu. Stjórnin er í spenníngu um það, og allt respekt okkar um nokkur ár er byggt á því. Eg hefi, okkar á milli að segja, látið setja mig á kjörskrárnar í Vesturamtinu, til að verða kandidat í Ísafjarðarsýslu (þar á eg jörð, skal eg segja!). — Nú kemur uppá Ísfirðínga, hvað þeir segja, en þeir verða líklega svo hyggnir að vara sig á mér og velja mig ekki. Eg verð þá naturligviis snögglega reiður og þykist þeim ofgóður.

Ef þú hefir oflítið af boðsbréfum, bróðir minn! þá skal eg hjálpa þér hérna um nokkur. Skyldi svo vera að Jón Bjarnason í Laugarnesi safnaði fyrir engan, þá tæki hann víst af mér, ef þú vildir heilsa honum frá mér. Ef við fáum nú nokkuð töluvert af áskrifendum þá sláum við líklega öllu saman og veljum nefnd til að standa fyrir sendíngunum, en látum ritið bera sig sjálft. Við erum núna 21 í félaginu, og contingent í þetta sinn var 6 rbd. á mann rúmir, en við höfum ekki heldur getað borgað neitt honorar ennþá, og það getur aldrei staðizt til lengdar. Hver veit nema þetta litla félag geti orðið Íslandi eins gagnlegt með tímanum, einsog »Selskabet for Norges Vel« var Noregi, og það gæti orðið það, ef Íslendíngar *vilja* — ef *nokkrir* Íslendíngar vilja. Gæti maður fengið svosem 2000 manna um allt land til að gjalda svosem tvo dali fyrir bækur á ári, þá mætti gjöra mikið á fám árum, sem nú þarf við, og það gæti þó varla drepið neinn.

Nú fer heim nokkuð af seinni hluta kvæða séra Jóns Þorlákssonar, og nú geturðu lesið að gamni þínu kvöldvers úr greppaljóðum þeirra prestanna.

Eg vildi þú værir vel upplagður að skrúfa föður þinn til að skrifa um skattana á Íslandi og senda okkur til Félagsritanna. Eg hefi ritlíng frá séra Guttormi í

Vallanesi, og er margt gott í honum, en bæði er hann stuttur og svo varla hentugur nema fyrir austan. Um skatta á Íslandi þarf maður margar ritgjörðir, sína úr hverju héraði, því mart er breytilegt í ýmsum lands álfum að þessu til. — Þarnæst óska eg þú verðir vel upplagður að skrifa mér lángt bréf og snjallt í haust, og ekki gleymdir verzluninni, því nú er líklegt kaupmenn gjöri eitthvað til. Hver sem segir mér til synda þeirra fær af mér mikla syndalausn sjálfur.

Heilsaðu hjartanlega öllu húsi þínu og vertu ætíð blessaður.

Þinn einl. elsk. bróðir

Jón Sigurðsson.

25.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn d. 28. Aug. 1843.

Bedste Herr Pastor!

. . . Fra Island komme Skibene nu hver Dag, men jeg har endnu ingen Breve faaet endskjöndt jeg har sögt efter dem. Man hörer derfra, at en svær Sygdom har grasseret paa Vesterlandet, ikke dog just saa farlig for Livet som for Folkets Erhverv, paa mange Steder har alle Folk været syge, saaledes at man ikke har faaet Kreaturerne malkede. . . .

Embedsmændene have ikke været samlede, men Althingsforordningen circulerer, hvad enten man nu kan faae Valgene satte igjennem nu eller ikke. Jeg har ladet sætte mit Navn paa Valglisterne i Vesteramtet, hvad enten jeg muligviis kan blive valgt eller ikke; De har Aarsag til at ansee det for en Dumdristighed, men det forekom mig, at det var min Pligt at forsöge det, og maaske man befrier mig fra det derved,

at ingen giver mig sin Stemme. Jeg behöver ikke at sige Dem, at jeg naturligviis har Ejendom i Ise(fjords) Syssel. De synes at Melsted bliver for haardt medtaget og jeg vil ikke modsige Dem deri, skjöndt jeg forsikrer Dem, at det er saa mildt som det kunde være, og i Artikelen mod ‚Vennen‘ er som De seer Melsted endnu mere skaanet. Det er aldrig nægtet at hans Valgsystem er bedre end Commissionens, men hvorfor vil han saa for Cancelliets Skyld indskrænke det, uden at have nogen Opfordring til at gjöre dette eller noget Haab om at bringe nogen Forandring tilveje? Hvorfor vil han skjænde paa os som Drenge? Hvorfor vil han söge at forsvare Commissionens vrövlagtige Fremgangsmaade og sin egen ikke mindre kraftlöse og svævende Fremfærd? — Vi havde ikke alene skaanet ham mere end han engang havde fortjent (thi hans Slövhed i Forsamlingen kunde i sig selv ikke undskyldes), men endog rost ham, og saa benytter han det Stykke Renommee **vi netop** havde skaffet ham, til at ville slaae sig til Ridder paa os. Saadant fortjener Modstand, og en Smule Fortjeneste kan *der* ikke være nok. Han har forresten ogsaa faaet Lön for Ulejligheden, idet Kongen har efter *sikker* Relation givet ham 300 Rbd., som skulde have gaaet af Islands Kasse, naar ikke Modartiklen var kommet i det samme; nu betaler rimeligviis Danmark det. Vi tvivle ikke om at Bardenfleth er den, der har forsvaret Melsted i Berl(ingske), men det lader til han önsker ikke mere end han fik i Fædrelandet igjen. Nu er der fra Österlandet indlöbet en Deduktion mod Forsamlingen i R(eykja)vigs Behandling af *Hævdssagen*, saa De kan see at man har i Almindelighed de samme Tanker om Forsamlingen som der er ytret af ‚Íslendingi‘ og hvordan det end gaaer i Fremtiden vil en Debat om disse Sager ikke være uden Frugter. Jeg lover Island med Guds Hjælp, at det vil komme op efter Haanden, naar dets Sönner

ikke ville svigte det og dem selv, men hver bidrage sit efter ringe Kræfter til for det förste at sætte vore Hovedanliggender i en nogenlunde god Form. Fra Sönderlandet hörer man at Handelen har været meget slet for Indbyggerne, og Knudtzon har gjort en udmærket Handel og domineret i alle Henseender, saa han kommer vel paa Benene igjen; paa Österlandet er Affairerne derimod slette for Kjöbmændene, thi medens Speculanterne komme ganske spækkede derfra, komme hine næsten tomme, og De kan tænke Dem, at Islænderne nu ere lutter Kjeltringepak. Jeg hörer at jeg ogsaa har den Ære at være forbandet af dem, og at Hemmert og Christensen (vor gamle Ven) ville söge at skrive mod Artikelen i Félagsrit; dette er mit ivrigste Önske, thi jeg er overbeviist om, at de ville komme udaf det som Koe paa Glatiis, men det skal ogsaa være mig den störste Glæde at see dem i Gabestokken. Frihandel faae vi ialtfald næppe uden Debat ogsaa her i Bladene, men det værste har været hidindtil, at ingen af Kjöbmændene har havt Courage eller Talent til at före *Argumenter*, men kun til at skjændes som i ældre Tid, hvoraf intet godt kan komme. Jeg har nu Adgang til Collegiernes Archiver, og har samlet ikke lidt til dette Spörgsmaal, saa at jeg vel nok tör maale mig med *dem*, ligesom jeg ogsaa har læst og hört Nationaloeconomie, og troer i det hele snart at være Kampen nogenlunde voxen, især mod saadanne ‚búðaraptar‘ som desværre næsten ere for usle, og ialtfald for dumme (for störste Deelen) til at spilde en fornuftig Argumentation paa. Det værste er at man har saa ondt ved at faae nogen *mærkelige*, interessante og *slaaende* Data fra Island selv, idet man almindeligviis der ikke fatter hvad der egentlig kommer an paa; dog faaer man altid noget. . . .

J. Sigurðsson.

## 26.

### Til Páls Melsteðs síðar amtmanns.

Kaupmannahöfn 12. Sept. 1843.

Hæstvirti elskulegi herra kammerráð!

Eg ætlaði að hripa yður dálitla línu um daginn, en eg varð of naumt fyrir og gat svo ekki látið það heita neitt, en sonur yðar hefir sent yður 'corpora delicti', sem eiginlega hefði orðið bréfsefnið, og verða líka efnið hér. Eg veit að hvernig sem öllu líður þá verðum við ætíð samdóma í því, að málefni föðurlands okkar hafi ekki skaða af, hvernig sem meiningar okkar sjálfra kynni að liðast, eða lenda saman hverri móti annari, og til þess held eg sé bezta ráðið, að við vitum hvor hvað annar fer, og getum þannig lagað það í hendi, sem lagað verður; eg treysti því nefnilega ennþá, að þér viljið koma alþingi og hverju öðru þjóðmálefni í sem bezt horf, og þjóðlegast, og að þér þessvegna takið öllum tilraunum í þá stefnu vel, þó þér yrðið að lasta aðferðina, því þegar menn ná ekki saman, kann mart að verða ekki nógu vandlega hugað. Mér fannst grein yðar þurfa svar, og mér líkaði mikið illa, að þér höfðuð farið að typta okkur ena ýngri menn og svo að mæla móti atriðunum um málið, fulltrúafjöldann og »Offentlighed«; eg vissi til að grein yðar var tekin sem mikil styrktarstoð fyrir þá sem ekki vilja Íslandi vel, hata allt frelsi og hafa fallið úr tölu þjóðernisvinanna að maklegleikum, eg vissi jafnvel til, að yður þótti vera fest, og svo mætti vera til ætlað sem þeir peningar mætti verða að enum 30 silfurpeníngum, ef þér vildið svo gjöra sem þeir vildi. Mér fannst vegna þessa að svarið til yðar yrði jafnvel að vera snarpt, og þessvegna vildi eg koma því af mér og á aðra, en enginn vildi taka það að sér. Nú viti þér að jeg er »skömmóttur«, en samt vona eg þér játið, að eg hefi ekki verið nærgaungull, og að eg hefði einkum í svarinu til Bs getað farið nær, en eg gjörði það

með vilja, að gjöra það ekki, því eg óska ekki að krita, og allrasizt við landa mína, og eg vil vona að mér takist að sneiða hjá því betur og betur. Við erum ekki svo margir, að við þurfum að leita hver upp annan til að berjast við, og við megum segja hver við annan, eins og Úlfur hinn rauði: »skjóttu þángað sem meiri er þörfin!« — En af því að meiningamunur er óumflýjanlegur, þá ætti hitt að vera reglan, að sjá til að komast sem fyrst í lag aptur, svo *málin* sjálf missi einkis í. Það kann nú að vera að þér þykist þurfa að taka í lurginn á »Íslendingi«, og mælist eg ekki undan því, þegar þessa er gætt, og einkum er ekkert að þó hann sé ávítaður fyrir hvað hann sé frekyrtur, en hins vilda eg gætt væri, að málið sjálft liði ekki, því eg hefi reynt til, og því vona eg þér takið eptir, að halda atriðunum sem opnustum, svo sem hægast mætti verða að sameina sig þegar til kæmi. Um kosningarfrumvarp yðar er meining mín í stuttu máli sú: að eg tek það fram yfir frumvarp nefndarinnar, en eg vil heldur einfaldar kosningar *með yðar kjörstofni*, og eg er ekki á því enn, að þeim verði ekki komið við. Kjörgengi er eg fastur á sé frjáls (frá öllum eignakostum að segja eða svonefndum reelle Qualificationer). Um þetta atriði munum við eiga bágast að verða samdóma, og þar verður atkvæðamunur að skera úr. Um hin atriðin er eg aptur að vona að þér komið á vora meiningu, og ekki sízt um opnar dyr, því þar finnst mér þér enda tilleiðanlegur, og svo hafi þér fært röksemd, sem varla getur verið nema utanvið yður. Kostnaður fyrir 48 fulltrúum má víst verða minni — og því heldur fyrir 36. Mín ‚individuelle' meiníng er sú um fulltrúafjöldann, að nefndarinnar sé allt of lítill, en að 36 mætti nægja eða þarumbil, en eg vil ekki gjöra að álitum að fallast á 48, þegar sú tala er eins vel motiveruð eins og Kristensen hefir gjört, og það liggur við, að styrkja meiníngu þá sem er góð þegar hún er einusinni komin á lopt. Eg er

hérumbil viss um að 36 hefði unnið í Hróarskeldu, ef það hefði verið tekið, en fyrst hin talan varð fyrir því, þá er hún og góð, og að vísu betri ef ekki væri í kostnaðinn að sjá. Nefndin hefir og, að eg held, gjört Diæter of ríflega, og þér gjört of mikið úr að forsvara það. 1837 hafi þið ekki látið þurfa nema 9 mörk.

Nú læt eg fullrætt um þetta, og vona að allt jafni sig. Kaupmenn er sagt sè að leggja upp ráð sín að semja rit um verzlunarokið, til að hrekja Félagsritin, og bíð eg átekta með það, því þeim má hafa farið mikið fram, ef þeir eiga að geta komizt vel frá slíkum málstað. Verst er að maður fær svo lítið að vita um framferðir þeirra á Íslandi, og væri þó nóg til ef vel væri leitað. Eg les íslenzku með Klausen kaupmanni og lesum við verzlunarþáttinn eptir ósk hans; eg læt mér jafnkært hvort hann ætlar að hafa það til að hafa meiníngu mína skýlausa eður ekki, en híngað til hefir hann engu hreift að rengja.

Eg bið yður nú, elskulegi herra kammerráð! að fyrirgefa hrip þetta

yðar einlægum elskandi vin og heiðrara

Jóni Sigurðssyni.

## 27.

### Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Kaupmannah. 30. Sept. 1843.

Elskulegi bróðir minn!

Hafðu ágætar þakkir fyrir bréf þín elskuleg og allt bróðurlegt. Lítið er nú frétta nema þetta daglega gutl, og svo myglulyktin úr kansellíinu, sem er búin að grómtaka mig svo, að eg er nú andalaus hreint, og get heldur ekki drukkið, þú sér þessvegna að eg er physice in absurdum redactus. Vel segir þú um alþing,

en nú kemur upp á hvort því getur orðið framgengt. Eg vona þú verðir ekki reiður mér fyrir Íslendíngs-artíkulana í Föðurlandinu, og lítir á málið sjálft, enda er eg viss um það, því þú þekkir mig svo, að það er ekki til að velta sér inn á menn, sem eg annars hefi mikið respekt fyrir í allan handa máta, heldur til að reyna hvort þeir mundi ekki spanast upp. Eg hefi hugsað svo: Nú er einusinni vitleysa gjörð af venjulegri deyfð en ekki af óhollustu við landið; þessi vitleysa verður ekki bætt nema með því að setja þá í klemmu, því það sá eg á meinlausa þætti mínum fyrsta í Félagsritunum, að þeir hafa ekki kært sig meira um það en hundur gelti; nú er þeim annaðhvort að gjöra, að ganga í sig aptur og finna sér ástæður til þess, sem hægt er, eða að prostítuera sig, því ekki hlífist eg við þá með neinum hætti, þó þeir springi, nema þeir verði góðir, því þá skal eg hæla þeim fyrstur manna einsog maklegt er. En snúi þeir ekki aptur, og eg geti ekki jafnað á þeim, þá verður þó einhver til að bera þeim orðið, því enginn hefir enn sloppið á Íslandi sem hefir verið landinu óhollur. Þú efast um að menn verði valdir héðan eptir 13. §, en væri það meiníngin, þá yrði 4. § 5. membrum meiníngarlaus að mér skilst, og á nefndartíðindunum má sjá að meiníngin hlýtur að vera, að *eignirnar* skorði við amtið, en ekki *vera* manns. En nú er fjandinn laus með konúng að vera að arga í kosníngunum til sumars eptir því sem á stendur, þar b... kansellíið sveikst svo um, að senda allt svo seint. Hræddur er eg nú um, að faðir þinn hafi fengið það verra fram, að Bardenfleth skyldi verða konúngsfulltrúi, hvernig sem það fer; faðir þinn er heldur ekki öfundsverður af því starfi sem hann á að hafa, því allt það illa fær hann sök fyrir en B(ardenfleth) æruna fyrir allt hið góða, ef eitthvað yrði. Það eitt væri til, að faðir [þinn] brúkaði alla sína Indflydelse á B(ardenfleth) til að fá hann til að starfa fyrir okkur, en annars verður

að gjöra allt til að prostitúera, ergja, sprengja Bardenfleth útúr þínginu. Við höfum byrjað á að aftala að enginn skyldi segja honum til í íslenzku. Það þykir mönnum víst háskalega vitlaust, ef það vitnast, en rétt er það ef menn vilja vera samtaka; það er ekki mikið fyrir Íslendínga að stínga undir sig öðru eins subjecti og Bardenfleth, brjóstveikum og með blóðspýtíngi. Blessaður hugsaðu til alþíngisdyranna og fáðu föður þinn til að spenna þær upp; fáist það ekki strax með alvöru og harðfylgi, sem búið sé undir vel en leynilega, þá veit hamíngjan hvenær það fæst.

Mikið vel líkar mér að þú ert að æfa þig í málinu, en mér líkar ekki rétt vel að það kemur niður á Kofod, því eg held hann sé ekki áreiðanlegur, og heldur ekki populær á Íslandi, en það máttú samt vita betur.

Við höldum hér fundi almenna í vetur, að eg held, til að skýra fyrir okkur málefni Íslands og bera þau undir alþíng. Við skrifum án efa bænarskrár.

Vertu nú blessaður bróðir minn og kysstu konu þína og börn frá

þínum elskanda bróður
Jóni Sigurðssyni.

28.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn. d. 6. Febr. 1844.

Bedste Herr Pastor Gudmundsen!

... Landsmænd befinde sig vel, med Undtagelse af at Jóhann Halldórsson er ulykkelig kommen af Dage, han forsvandt Nytaarsaften og först for en Uge siden fandtes hans Lig i Canalen ved Nybrogade. Om han har taget sig selv af Dage eller er ved ulykkeligt Tilfælde omkommet er os en Gaade, men desværre synes det

som han har været beskjænket om Aftenen og at han enten i Forvildelse eller Afsindighed har styrtet i Canalen. Han var rigtignok i en vanskelig Stilling, men næppe i nogen fortvivlet, saavidt andre Mennesker kunne skjönne; derimod var han legemlig meget nedbrudt og kunde ikke finde sig i Maadeholdsselskabet, skjöndt han var Medlem deraf for en Tid. Smith har kjöbt Keflavík, men de andre Jens' Etablissementer ere endnu ikke solgte. Nylig sagde man at Knudtzon var ved at accordere paa $70^{0}/_{0}$ i 3 Aar, men at det gik snavs, og han skal være gnaven. Rodemesteren er i Island og bliver nok der. Sr. Pétur arbejder paa sin Disputats eller har nok sendt den ind allerede. Brynjólfur faaer vel Nordermule Syssel, og maaske Borgen eller Laurus Rángárvalla Syssel. Stranda Syssel faaer vel en af de yngre. Steph. Gunnlaugsson er her nu for at söge, men har endnu Intet faaet, ifald han kommer her söges hans Embede af Melsted og De kan tænke han söger ikke forgjæves. Det er behageligt for mig at have den Ære at söge for en slig Candidat — ikke sandt?

Vi debattere vore Sager nu paa maanedlige Möder, og udnævne Comiteer. Handelssagen og Sagen om Medicinalvæsenet samt om Præsternes Kaar og en særlig Localregjering i Island ere endnu vore vigtigste Sager. Var vi formuende nok og kunde opoffre vor hele Tid, saa skulde vi nok vise Bardenfleth, at han var i det mindste ikke den eneste der kunde styre alle islandske Sager efter sit Hoved, og maaske han kunde faae det ligesaa broget som Örsted. . . .

J. Sigurðsson.

29.

Til Páls Melsteðs, síðar amtmanns.

Kaupmannahöfn 18. Juni 1844.

Hæstvirti elskulegi herra kammerráð!

Auðmjúkar og innilegar þakkir fyrir bréf yðar með póstskipinu, og það að þér látið mig skilja meiníngu yðar þó þar sé vægilega til orðs tekið. Þið eigið gott, þessir nettu og lipru menn, sem getið sagt allt hvað þið viljið án þess að neinn geti þykkst við, en eg og mínir líkar erum svo ambögulegir, að við annaðhvort þegjum eða tölum af okkur eða yfir okkur. Það eina sem eg vildi óska væri það, að þér vilduð heldur hafa komið með snarpari hríð, þó þolrifin í mér hefðu bognað allt að broti, og átt svo ekkert eptir, heldur en að vera vægari og erfa kannske lengur; eg segi þetta helzt af því sem þér segið, að þér sé hræddur um að djúp sé staðfest milli okkar, því það held eg ekki sé eða þurfi að vera nema við setjum það sjálfir, og það væri fremur fautalega gjört af mér fyrir mitt leyti að vilja halda því opnu, sem einkis óska heldur, margra hluta vegna, en að eg gæti orðið svo heppinn að missa ekki vináttu yðar, einsog eg hefi getað haldið vináttu, og eg þori að segja bróðurlegri ástsemd, við sonu yðar báða. Það er reyndar mér að kenna að eg gaf yður nokkra ástæðu seinast til að misskilja mig, og taka orð mín svo sem eg væri ofsalega ultra, og fyrir handan alla opposition nærri því, en það var ekki meiníng mín heldur sagði eg yður beint það sem eg hugsaði einsog fyrri, og vonaði þér tækið það einsog þá. En það er meiníng mín, að hvort það er eg eða aðrir sem eru sannfærðir um einn hlut og vilja að honum verði framgengt, þá vil eg þeir gjöri allt hvað í þeirra valdi stendur, og leyfilegt er, til að koma honum fram, og sá sem minnst forsómar í þessu tilliti, þann virði eg mest. Það er nú um opposition þeirra Schouws, Clau-

sens, Hvidts og Lehmanns að segja, að því sem mér er auðið að sjá, að þeim hættir við að fara fram með hálfvelgju margopt, og dreifa sér, eða láta fleka sér, einsog t. a. m. um standanefndirnar. Eg vil nú ekki tala um hversu Lehmann hefir nýlega hleypt sér inní discussion um embættiseiðinn, og komist óheppilega frá. Að þessir menn sé í mörgu vænir menn og einkum Schouw einhverr hinn ráðvandasti maður sem er til og manna bezt að sér, játa eg þarhjá fullkomlega. Hvað því viðvíkur að taka Partie, þá hafi þér einnig misskilið mig þar, því það er svo lángt frá að við Íslendíngar eigum þátt í neinu með oppositioninni hér, að við vörumst að telja okkur með Dönum eða fylla flokk þeirra á hvoruga hönd; og við gaungum svo lángt í þessu, að það mætti henda að við yrðum að gá að okkur ef breytíng yrði á, og einkum ef oppositionin sigraði, sem eg tel nú víst að verði fyr eða síðar. Þér sjáið nú á þessu, vona eg, að djúpið er ekki svo stórt þarna — en af þessu leiðir að við verðum að láta sjá umhyggjuna fyrir sjálfum okkur í því, að koma öllum högum landsins á þann fót að við getum smámsaman nokkurnveginn haldið vorri ferð og skipt okkur um Dani svo mikið eða lítið sem við viljum, en ekki eiga undir hvað mikið þeir vilja eiga við okkur. Þartil heyrir, einsog þér segið, að koma alþíngi vel á stofn, en til þess verða þá *allir* að hjálpa hver eptir sínu megni; að emancipera verzlanina, og það svo að hún verði frjáls á eptir, en ekki bundin; að ná landstjórn á Íslandi sjálfu, sem þér viðurkennið »að sé ei órétt í Principet«, en hérumbil »ubetimeligt«. Eg leyfi mér að ætla, að það sé *rétt* í Principet, og þar mætumst við, en eg held líka að nú þegar mætti gjöra til þess nokkuð, með því [að] láta stjórnarráðin hafa nokkuð minna að gjöra, ef menn treystist ekki til að fá hæfilegan Governor. Þér eruð hræddir um Partiskhed, og eflaust ekki án orsaka, en hver er betri, óréttur af Partiskhed eins Íslendings móti öðrum, eða Dana móti Íslendingum? Er

betra að verða að láta danskan mann óverðugan t. a. m. fá embætti fyrir sér, án þess að því sé slegið upp, en að Íslendíngur fengi það eftir uppslag, þó lakari væri? Um dómana má víst mart segja, og eg vil ekki með neinu móti afsaka landsyfirréttinn, en hitt er eg eins viss um, að hæstiréttur veður opt í villu og svíma, nema kannske þar sem hann hefir lagastaði danska fyrir sér, einsog í criminelmálum, og kalla eg þá tvísýnt, þegar dómarnir verða lotterí, einsog verður þegar dómendur eru öllum landsháttum ókunnugir, þó þeir vilji vel. Mér finnst og líkindi að batna mundi ef bætt væri tveimur við í yfirrétt vorn. En aðalatriði er það, að fá upp »offentlig Mening«, og það þarf til þess, að hver sem getur skrifi um málefni þjóðarinnar fyrir alþýðu, og segi fram álit sitt. Þá fær hlutdrægnin það sem hún þarf með, og flæmist smámsaman úr landi, að svo miklu leyti sem hún er ekki samfara mannlegri náttúru og viðgengst í öllum löndum.

Ef Ísfirðíngar kjósa mig, þigg eg það að vísu, þó ekki verði kannske neinn fögnuður að, og allra sízt fyrir mig. Mér fannst skylda mín að bjóða mig fram, og kæra mig ekki, þó sumir kynni að nefna það dramb, eða eigingirni, en kannske Ísfirðíngar verði forsjálli en eg, og uni eg því einnig. Það þykir mér alllíklegt, að mart takist ófimlega í fyrstu, en svo fer hvenær sem byrjað er, og við megum ekki óttast það. Okkur fer víst annars ekki ver en öðrum, nema ef svo væri að við værum hræddir við mynd sjálfra vor, er eg þó vona að ekki verði.

Ekki þurfti í þetta sinn að halda á að sækja um landfógetadæmið, en það var öldúngis rétt af yður að koma því í betri hendur en mínar, þó eg reyndar hefði viljað reka erindi yðar svo vel sem eg gat.

Fyrirgefið nú risp þetta

yðar einlægum heiðrara og elskara

Jóni Sigurðssyni.

P. S.

Getið þér ekki vísað okkur á eða útvegað okkur mynd af tengdaföður yðar sáluga Stepháni amtmanni Þórarinssyni?

30.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Kaupmannah. 18. Juni 1844.

Elskulegi bróðir minn!

Skömm er nú hvað eg hefi dregið lengi að svara elskulegu bréfi þínu frá í vor, og þakka þér fyrir allt bróðerni og svo það að þú reiddist ekki pésanum í haust, heldur tókst í málið einsog það var í sannleika meint frá okkar, eða að minnsta kosti minni hendi. Þú mátt vera viss um, að eg æski einkis framar en að allir gæti orðið samdóma, og vil gjarnan stuðla til þess hvað eg get, en maður má ekki þegja þegar svo ber undir að sannleikurinn ætlar að berast ofaní mann, og hefði eg þó haldið að betra hefði verið að skrifa linara eða getað það, þá hefði eg gjört það. Hvenær sem til kemur skal eg verða manna fúsastur að velja vægari veginn, ef eg held hann leiði til nokkurs, en eg held það verði ekki hér, þegar um viðureign Íslendínga við stjórnina er að gjöra. Þeir hafa nú reynt svo lengi að þakka og biðja, að það mun nú þegar fullreynt. Hefði alþíng verið í sumar, hefði eg komið heim, en nú get eg það ekki; ekki veit eg nú samt hvort Ísfirðingar kjósa mig. Eg vona þú verðir til taks, bróðir minn! þegar til kemur, að hjálpa til, svo við fáum að heyra hvað fram fer, og kannske litli Páll fari með pápa sínum, svo þú dragir út með allt lið þitt, en ef þú verður búinn að fá brauð vona eg þú komir með öll þín sóknarbörn sem vetlíng geta valdið.

Það er ágætt að heyra að þú ert að koma upp Kýrfæti; Íslendíngar hafa lengi þurft þess við að eiga kennslubók í sagnafræði, og þessi verður þeim víst að góðu gagni, því eg trúi þú hafir líka aukið hann og lagað nokkuð. Kannske eg rífi í þig, bróðir minn! í Félagsritunum, hvort þá liggur nú vel á mér eða ekki, en eg vona þú látir ekki þarvið lenda og skrifir nú meira og meira fyrst þú ert kominn á rekspölinn. Störf mín eru lítil, og gánga mest í að snudda niður í rentukammeri og cancellíi eptir ymsu, jafnframt og eg er að bera mig að safna til Íslands lýsíngar. Ef við sjáumst skal eg segja þér betur frá hvernig gengur, en opt hefi eg óskað eg ætti hendur þínar og annarra góðra liðsmanna til hjálpar, því eg hefi offáar sjálfur.

Kristján áttundi er að bræða Norðurmúlasýslu, en ekki er samt víst að Beder fái hana, þó ólíklega hafi áhorfzt stundum. Krist(ján) veit að við höfum tekið okkur saman að kenna [ekki][1] Beder íslenzku, en hann segir það sé »urimeligt« af okkur. Dönum þykir það ónotalegt, og verða svona einhvernveginn »flóir« við, en við hlæjum að þeim, og óskum við værum nokkru fleiri, og að menn heima væri ekki hræddir eða meinlausir, þá mundi losast um okkur smámsaman. Briem er nú settur í Ísafjarðarsýslu, en Þorkell á að dansa frá. Sumir halda Kristján fái Múlasýslu.

Magnús bróðir okkar Eiríksson er að berjast fyrir guðs kristni, en það eru aumir hundar þeir porthundar kristninnar í Danmörku, því þeir hvorki geyja né gelta, svo sem Magnús hefir rotað þá. Eg vona þú leggir þér til bók Magnúsar, einkum ef þú fer að verða klerkur. Hann er nú farinn að byrja á nýrri bók kallinn og ætlar nú víst að hella logandi biki og brennisteini yfir prestana, ef hann hefir ekki gjört það nægilega fyrri. Sumum þykir hann annars ágætur, sumum of

---

[1]) útgef.

margorður, sumum lausmáll og uvidenskabelig. Konráð er kominn til Þýzkalands, til að leita sér lækninga við augnveiki, sem hann var þjáður af, og verður á Saxlandi þángað til í haust. Árna Magn(ússonar) nefndin gaf honum 300 dali til ferðarinnar. Brynjólfur kallinn er í kammercancelliinu og er þar einskonar Contoirchef, þó sem Fuldmægtig að nafni; hann á nú að fá alþingismálin, og vænti eg að þau hafi gott af að komast í hans hendur, ef meðferðin á Íslandi verður ekki lakari.

Hjaltalín er nú að búa til vatnsböð og sjóböð og járnláarbrunna úti í Dýragarði og hefir fengið actíur nógar, svo nóg er fyrir hendi. Gángi honum þetta vel getur hann orðið stórríkur maður. Hann hefir sjálfur búið til lögin handa Actionærerne, líkt einsog Friðrekur 3. handa Dönum, og nú stynja Danir undan, að þau séu svo örðug og hann ráði svo miklu, en hann treður þá því fastara.

Fyrirgefðu mér nú, bróðir minn! mas þetta og vertu ætíð blessaður með konu og börnum.

Eg er ætíð þinn heitt elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

31.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Kaupmannah. 1. Aug. 1844.

Hjartkæri bezti bróðir!

Nú ætlar skútan að fara aptur heim, og til Norðurlands, en þó ætla eg að eiga undir að hripa þér fáeinar línur, ef Gæsinni kann að detta í hug að leggjast fyrir í Noregi aptur á ný. Eg þakka þér fyrir bréf þín elskuleg, og eg gleðst af því að heyra þið eruð komin farsællega á land. Guð gefi við höldum þér nú

bæði vel og lengi, enda veit það ekki á illt, að Beldring veik svo hnyttilega úr sæti, að hann dó seinasta daginn sem þú varst uppi til examens. Það held eg reyndar þú fáir kotið, og það hefi eg heyrt eftir Bang annars, en ofboð stuttur var hann í svörum við mig. Eg spurði hann ráða, en hann sagði, að það allt sem hann gæti sagt væri það, að sækja. Eg spurði hvort colleg(iið) ekki vildi constituera þig; hann sagði það væri amtmannsins sök. Eg sneri að honum rassinum og hann að mér og svo var »Audiencen hævet«. Eg er nú hræddur um þér þyki við, og eg þá helzt, hafa verið linir sóknum í um ansögníngarnar, en okkur hefir komið saman um, fyrst nú t. a. m. svo stendur á, að Beldring er dauður, að ekki lægi á, og væri bezt að búa allt út sem rammlegast heiman frá þér; þessvegna sendi eg þér nú uppkastið:

1) til ansögningar um embættið, sem Lorents Trojel og Oddgeir og eg höfum samið, þar hugsuðum við skyldi fylgja attest sem til eru greind og kannske meira, ef fyrir hendi væri; allt það sem styrkt getur enn meira er gott, og ef amtmaður hefir constituerað þig, þarftu að bæta því við. Kannske Voigt gjöri svo vel að leggja á góð ráð líka; charakterseðla ættir þú kannske að hafa NB. til seinasta examens.

2) til bréfs til kansellíisins um leyfi að taka meððöl héðan eða hvaðan sem vill, en þar í er tvennt hábölvað: annað kansellíbréf 9. Marts 1841, sem vill gjöra það að reglu, að allir taki hjá íslenzkum apóthekurum; það er eins og þú veizt, eftir fyrirgaungu Odds Thorarensens og fyrir meðmæli Bjarna heitins, en það heyrðist mér á Simony, að kannselliið mundi vilja halda það sem almenna reglu og láta hitt heita undantekníngu sem Beldring fékk. En nú er komið annað í spilið, og það er, að dóni nokkur, sem heitir Hellmann eða þvíumlíkt, hefir sótt um að setja apóthek fyrir austan, og það hefir verið sent til Gríms amtmanns til erkleríngar, og er nú

allt undir honum komið. Jón landfysikus sá eg að hefir verið mikið mótmæltur apóthekum, fyrir læknanna hönd, og kallaði Beldring heimskingja, hann vildi líka halda, að eldri löggjöfin hefði leyft læknum fríar hendur, t. a. m. instruction þeirra, en ekki er það reyndar ákvarðað þar beinlínis, þó maður geti hángið í því, og eigi að gjöra það, því kansellíið getur ekki breytt lögunum með sínum bréfum. En Sundhedscollegium er makalaust, að það segir að landfysikus hafi »ekki fráráðið« apótheki fyrir austan, og þó hefir hann fært allt móti því nema hann hefir ekki sagt þessi orð, að hann «maatte bestemt fraraade« eða þvíumlíkt. Þegar nú svona stendur á, og Beldring er dauður og þú sækir um embættið og ert að eg vona constitueraður af amtmanni, þá finnst mér uggvænt að sækja um þetta sem stendur; eg sé ekki betur en þú sem constitueraður komir inn í Beldrings réttindi, eins í því leyfi og öðru, en þá er tvennt til: annaðhvort að þú fáir embættið eða þú fáir það ekki, og meðan það er ekki afgjört, held eg kansellíið mundi ekkert gjöra við slíka ansögníngu, nema ef það neitaði, og þá væri ver farið en heima setið. Fáir þú nú aptur embættið, mundir þú fá leyfið, ef ekkert apóthek yrði sett, og í þeirri von gætir þú óhræddur haldið áfram, en yrði annar settur héraðslæknir og þú værir þar samt, en ekkert apóthek, yrði þér varla neitað, ef héraðslæknirinn fengi slíkt leyfi, og fengi þið það þá líklega báðir. En hitt er eg hræddastur við, að apóthek verði sett, og við það getur þú ekki gjört með því að gefa inn ansögníng þessa — að eg held, og Oddgeir líka — heldur einúngis með því, að skrifa Grími og kannske Kusa, og fá að minnsta kosti af þeim að draga það mál eða fá það dregið þángað til embættið væri veitt — þér, ef hamíngjan vildi svo veita — síðan að fara í kansellíið með sterkum áhlaupum, að mæla móti apótheki, og ná meðalasölunni sjálfur. Að leiða Grími allt fyrir sjónir sem þú

getur fyrst um sinn, og skrifa Bang, Eschricht og hverjum sem nokkuð hefir að segja í Sundhedscollegio, og svo vinum og kunníngjum *sem connexionir hafa*, og þannig *privatim* verka móti að apóthek verði sett, eða því frestað, það er það eina sem ráðlegt mun vera um sinn. En — nú gjöri eg ráð fyrir, þú kunnir ekki að fallast á þetta, þessvegna sendi eg þér uppkast það sem eg nefndi, og getur þú þá haft það, hvort sem þú villt til að skrifa það nú þegar, ef þér þykir það ráðlegt, eða til að taka úr því til annars, hvað þér þætti nýtilegt. Það eitt vil eg biðja þig hugleiða, að bæta við eða leiðrétta um Jósep, ef það er rángt eða mishermt, þó þarf varla að gjöra við það, ef þú veizt ekki um það, því þá er ekki sagt glöggvara frá en svo, að það verður engin lygi þó það standi. Vegalengdir eru teknar eptir landfysicus. Annars muntu sjá, að eg hefi verið að rembast við að komast á þitt Standpunkt, hvernig sem það hefir tekizt. Víst væri gott, ef bréfið færi, að Voigt væri þar í ráðum með, ef hann er þér samdóma, annars ekki; þó kemur það undir þér.

Komi ekki hin ansögníngin (um embættið) hér í tíma, skulum við passa svo uppá, að þú mátt vera ugglaus, hvernig sem fer um það, en um apóthekið verður þú að hafa allar klær úti, því eg er ári hræddur um það, af því eg veit ekki hvernig í Grími liggur, en ef hann er fastur með þér, og fastur í orðum (»paa det bestemteste fraraade« eða þvíumlíkt), verður líklega ekkert úr. Vittu sem fyrst að þessu.

Héðan er fátt í fréttum. Kalt sumar með útnyrðíngum. Jótar eru að nabbast við Örsted og hafa verið djarfyrtir nóg, svo enginn fríar þeim hugar, en grunaðir eru þeir um vit, aumíngja greyin; þar sér maður hvað er að vera út úr öllu og engar skýrslur að hafa um, hvað fram fer í stjórnarmálefnum innanlands. Professor Larsen og præsidentinn, hæstaréttarassessor Bruun, eru

beztir og reyndar góðir. Við þegjum nú allir einsog fiskar, og eg er að synda einsog »Sude[r]« uppi í fúapökkum þeirra í rauða húsinu, einsog þú manst, og það deyfir að vera í því lopti sem þar er. Landar hafa legið í mislingum, en er nú batnað. Jens minn er heldur skárri og hefir verið úti á landi í sumar, einsog eg trúi ætlað væri áður þið fóruð. Einn tuddi hefir skrifað móti Magnúsi bróður okkar, ógnarlega skúrríl skepna, og er að apa eptir Holberg og skamma Magnús, að hann sé ekki einsog aðrir menn, nefnil. þrælar kanselliis og politiis og allra þeirra þræla. Grímur ætlar að gefa honum uppá. Þú fær þetta með Gæsinni ef vel fer. Prentlög er Örsted að burðast með í Viborg, og eru verri en áður, en þykjast vera ógnarlega liberale; þar er nóg af fángelsum og sektum og cautiónir teknar upp eptir Frökkum en Reiersen haldið. Það eina er að vissu leyti frjálsara, að pólitíkin er jafnfrí fyrir alla, eða réttara jafn ófrí. Heyrt höfum við það um alþingismannakjör, að assessor Johnsen væri kosinn í Árness(ýslu), Jón halti í Skaptaf.sýslu, Ólsen ýngri á Þingeyrum í Húnavatnssýslu og eg í Ísafjarðarsýslu, en ekki er það nema flugufregn enn, og marka eg það meðfram á því, að þú skrifar ekki að Guttormur Vigfússon væri kosinn, en það var sagt um leið; þó er satt um Johnsen og Jón halta. . . .

Heilsaðu öllum góðum vinum og lofaðu öllum bréfi sem eg get mest með þessu optnefnda makalausa skipi Gæsinni; eg á að heilsa þér og ykkur báðum hjónunum frá mörgum. Í mínu nafni verðið þið nú specielt að kyssast.

Guð veri hjá ykkur alla tíma og annist ykkur. Þess óskar af hjarta ykkar hreinskilinn

elskandi vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

32.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Kaupmannah. 26. Aug. 1844.

Hjartkæri bróðir minn!

Nú fer þá Jörundur stýrimaður af stað, og vona eg að hann komist nú lengra en seinast, svo þú fáir bréf þetta að minnsta kosti um veturnætur. Eg þakka þér fyrir bréf þín elskuleg og allar sendíngarnar og á nú Jörsi að færa þér það sem þú baðst um. Peníngahagurinn er svo, að þú hefir sent mér: . . . Frá Holm áttu að fá spiritus og lýsi, en um hálfankerið það í vor mun hafa farið svo, að það mun hafa verið tekið; eg heyri að skip það, sem það fór með, hafi komizt í Noreg í Haverie og þar hafi hálfankerið verið slegið upp og lýsið drukkið, og sagt að nóg væri lýsi á Íslandi. Mér þykir líklegt, að þó þú sért svo mildur að draga ekki þjófana fyrir dóm, meðfram vegna þess, að ekki mun mega hæglega án vera að fá flutt með skipum Wulffs, þá munir þú þó spyrjast fyrir, og muni þeir borga þér skaðann og sjá betur um sig eptirleiðis. Mér sýnist þú og aðrir hafa þolað slíka siði nógu lengi, þó þeir færi að leggjast af hvað af hverju.

Í bréfinu sem eg skrifaði þér um daginn, sendi eg þér uppkast til ansögníngar um meðalasöluna, sem við höfðum talað um, og sagði þér hvernig á stæði, að dóni hefði sótt um að mega stofna apóthek fyrir austan, og að eg héldi þér til einkis að senda ansögninguna fyrri en þú hefðir fengið embættið, þar eð þú hefðir nú Beldrings réttindi, sem líklega constitueraður, en ef þú gætir með nokkrum ráðum privatim stælt upp t. a. m. amtmann eða landfysicus eða Sundhedscollegium eða kansellíþrælana t. d. Dalström, þó aldrei væri annað, þá væri það reynanda, því verði þar sett apóthek, er hætt við þú fáir ekki söluleyfi, þó þú fengir

embættið, en fengir þú það fyrri en apótekið yrði sett, væri rétt að sækja um leyfið hið bráðasta og þá er ekki ólíklegt að kansellíið gjörði nokkuð að ósk þinni sem embættismanns. Haldir þú samt, að ansögníng gæti gagnað nokkuð sendi eg þér uppkast um daginn og til vissu annað núna. Embættinu er slegið upp 4. Aug. og upp á 6 vikur. Við höfum ansögnínguna á reiðum höndum, og líklega getur verið, að embættið yrði veitt áður póstskip fer, svo eg gjöri ráð fyrir þú þurfir ekki að kæra þig um að senda neitt, nema ef þú hefðir eitthvað makalauslega sterkt meðal til að gefa þeim inn, þegar þeir væri að veita, og þú þyrðir að senda það með kjötskipunum.

Eg var uppi hjá gravörnum, en hann var ekki búinn með signetið og vissi ekkert hvað á því átti að vera. Eg held því að bezt sé annaðhvort að sleppa honum eða þá, að þú verður að segja mér, hvernig signetið á að vera og hverir stafir á því eiga að standa og hvernig.

Fréttirnar eru ekki miklar héðan. Landar eru frískir nema Brynjólfur Snorrason hefir legið og er enn á spítalanum veikur af blóðspýju. Finnur litli er með bölvaðri kröm og lifrarveiki og er daufur yfir því aumíngja tetrið að tarna. Aðrir eru frískir. Um Konráð hefir heyrzt, að hann væri frískari í kroppnum en fyndi ekki enn batna augun; hann beiddi Bókmentafélagið um lán, 300 rd. og var það veitt, þó samt með nokkuru veði, þó ekki væri það svo víst sem eg vildi fyrir mitt leyti, en óvissara mundi það samt hafa orðið, ef eg hefði ekki komið fram til bölvunar, eins og vant er, með mína Tyrkjalund; — en hvað skal segja, segi eg, þó eg vildi aldrei svo feginn að K(onráð) væri hjálpað, og það voru margar orsakir til fyrir mig að mæla fram með því, þá finnst mér óforsvaranlegt að taka til þess peninga félagsins, sem við eigum ekki, án þess að sjá því borgið, og þó eg verði kallaður sá versti Tyrki,

skal það ekki viðgángast mótmælalaust meðan eg heyri til.

Að heiman hafa heyrzt þíngmannavölin: Í Húnavatnssýslu Runólfur Ólsen á Þíngeyrum, í Strandasýslu Asgeir Einarsson Kollafjarðarnesi, í Ísafjarðarsýslu ego og Magnús Einarsson aukafulltrúi með resp(ektive) 50 og 27 atkvæðum, í Barðastrandarsýslu Eyjólfur í Svefneyjum, aukafulltr(úi) séra Ólafur í Flatey, í Dalasýslu Þorvaldur í Hrappsey, aukafulltr(úi) Jón kammerráð á Melum, í Snæfellsnessýslu Árni Thorlacius, aukafulltr(úi) Kristján Skúlason sýslumaður, í Mýrasýslu Helgi Helgason í Vogi.

Sagt er að einhver vitleysa sé frá sýslumanns hendi í kosníngunum í Ísafjarðarsýslu, og muni verða að kjósa um aptur, svo ekki er reyndar sopið kálið fyrir mér þó í ausuna sé komið, heyrt hefi eg líka að amtmanni þyki ekki eignarskjal mitt svo gott sem skyldi, og segi að það sé í það hæsta ekki annað en makaskipti milli föður míns og mín (einsog makaskipti forudsetji ekki eignir á báðar hendur, sem skipt sé?), en segir þó að annað sé hitt, að enginn, og allra sízt hann (Gud bevares!), muni mæla móti mér á þínginu. En vertú viss, bróðir minn! eg skal velgja þeim undir uggum einhverntíma ef eg lifi og verð ekki því óheppnari í öllu tilliti, og þó eg komist ekki í þíngið í þetta sinn, þá er ekki loku fyrir skotið samt.

Annað þykir mér líka ágætt, og það er að eg hefi líklega verið sá eini þíngmanns-candidat, sem talað var á móti, því eg trúi séra Arnór kallinn í Vatnsfirði hafi haldið dálitinn ræðustúf og varað við að kjósa mig; en til allrar bölvunar fékk eg 50 atkvæði samt. Þorkell sýslumaður er nú á förum, og kemur Eggert Briem í stað hans; það þykir mér vænt um. Annars læt eg vel yfir kosníngum að vestan, og það eru einmitt þeir sem eg vildi hafa kosið. Það liggur ekki eins vel í þér um kosníngar eystra gizka eg á, og sama heyrist mér á prófastinum, en hver veit nema það ráðist nógu vel. Ef það er satt, að Þórarinn sé sálaður, geti þið

þá ekki fengið ný kjör? Eða hvað kemur til þess þeir hafa kosið svona? Þú hefir ekki verið nærri núna, það sé eg, því þá hefði líklega annað orðið ofaná. Heyrt hefi eg því fleygt, að sumir héldi Bardenfleth mundi ekki fara heim, og mundi þá Hoppe verða Commissarius; það væri ekki síður þó svo yrði, mér lízt ekki svo illa á kapaltetrið, allra sízt til þeirra hluta. . . . Christián 8$^{\text{di}}$ er á Föhr og ferðaðist gegnum Slesvík, var honum fagnað þar vel, og hann hélt ræður einsog vant er og lofaði hinu og þessu. 11$^{\text{ta}}$ Juli skipaði hann amtmönnum að leggja út á dönsku lagaboð og skipanir til enna dönsku héraða, meðan ekki yrði komið við að semja þær á dönsku í stjórnarráðunum. Þar er enn dæmi fyrir oss með allar dönsku tilskipanirnar og dönsku bréfin, og þætti mér líklegt því yrði hreift á þinginu, svo svívirðilegt sem það er og óþolanda. Alltaf er nóg af málum móti blöðunum: Föðurlandið fer þetta annanhvern og þriðja hvern. Nýlega hafði það tvö Actions-innlegg móti sér, og var þar sagt, að sóknarar málsins kváðust ekki vita hvað saknæmt væri í blaðinu sem þeir áttu að sækja; fyrir þetta skipar kansellíið að setja aðra sóknara, en tiltala þessum, og er það gagnstætt allri venju og lögum, því aðgjörðir sakfærslumanna standa undir dómurunum en ekki kansellíinu. Klerkar nokkrir beiddu um nýja sálmabók; þeir fengu fyrst ávítur eptir kansellíisins skipun fyrir það þeir sletti sér frammí það sem þeim komi ekki við; þá skrifar einn þeirra, Birchedahl, forsvar sín vegna, sem er mikið vel samið og skorinort; hann er nú stefndur fyrir prófastsrétt fyrir það hann hafi talað ósæmilega um yfirmenn sína. Jótar í Viborg eru nú orðnir daufir mjög, svo Commissarius getur vafið þeim um fingur sér, nema Larsen einn, hérna frá universitetinu; hann er ágætur, að mér finnst, og þó moderat svo mikið sem má. Ekki gjöra Jótar neitt í þetta sinn og þá má nærri geta hvað þeir Eydanir

muni gjöra. En til þess að sýna hvað Danir eru lítilþægir þá hafa þeir þakkað Jótum bréflega fyrir að þeir hafa sagt konúngi að »Misstemning herskede i Landet«. Það var líka nokkurnveginn hetjudómur að voga að stynja slíku fram, og síðan að leggja niður rófuna og daðra henni um kinnarnar á Commissarius.

Eg gleymdi að segja tengdaföður þínum að nú er búið að regla niður kollectuna gömlu, og svo skólasjóðinn. Kollectan á að vera 28000 dalir, og mjölbæturnar c. 8500 dalir. Skólasjóðurinn verður svosem 150,000 dalir, eða sem því svarar, og verður nú líklega fríaður við biskupslaunin 1200 rd. árlega og smápínkla til póstgaungu og lækna. Til skólahússins á að brúka mjölbæturnar og nokkuð af kollectunni, alls c. 12000 dali. — Pension Borns, 700 rd. árlega, fer af kollectunni yfir á Finantserne. Þetta fer nokkuð nær hæfi en það sem nefndin okkar lét vera, en ekki verður það nema minimum, að því sem eg hefi reiknað niður, og má þar að auki mart segja, einkum um kollectunnar meðferð og reikninga; lofi guð, kann því og að verða hreift einhverntíma, þó ekki verði kannske neins árángurs af því að vænta. Eina og aðra smánabba hefi eg fundið um það til að stínga að þeim ef svo bæri undir.

Eg held nú sé komið nóg af svo góðu, en bótin er að eg held við gætum altaf verið að masa án þess hvor yrði leiður á öðrum. Með hjartanlegri kveðju til ykkar beggja er eg ætíð

ykkar trúfastur vin og bróðir meðan eg lifi

J. Sigurðsson.

33.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Kaupm.höfn 27. Sept. 1844.

Elskulegi bezti bróðir!

Innilegar þakkir fyrir bréf þín mörg og góð, m. m. Ekkert er nú öðru nýrra sem frásagnar sè vert nema

öllum löndum líður sæmilega, og er það ekki nýtt einsog þú veizt. Brynjólfur Snorrason hefir verið lasinn en er nú orðinn betri; þó liggur hann úti á spítala enn, en gengur út. Gísli Magnússon fer nú heim með póstskipi, líklega vegna fátæktar, því hann hefir víst ekki fengið neitt að heiman, en er hættur að vinna fyrir Pál frænda sinn við lexikonið. Grímur er búinn að láta prenta mestpart af dispútazíu sinni, og fer upp til conference líklega í vetur. Guðmundur frændi er nú uppi til examens og Þorsteinn Jónsson, en ekki veit eg hvernig þeim gengur. Magnús Eiríksson er seztur við aptur og farinn að klóra sig upp eptir þakinu á heilagri kirkju, eins og þú manst hann dreymdi einusinni. Bókin hans hefir áunnið marga, svona til þess að gjöra, einkum meðal leikmanna, en heimspekíngarnir láta minna yfir henni, að eg held. Í tímariti á Fjóni hefir hann fengið recension eptir Helveg nokkurn, sem skammar hann óhæfilega, en það er nú undir handarjaðrinum á Faber. Þú fær líklega að sjá pjesann, sem eg gat um seinast og svar Gríms, og nenni eg ekki að segja þér annað um það en að eg held að Grímur hafi ónýtt mál fyrir hinum, ef ónýta þurfti. Eitthvað hefir verið tekið úr bók Magnúsar í þýzkt missíonsblað. Um mig er sama að segja og áður, að eg ligg í rentukammerinu, og er vel ánægður um þessar mundir yfir því, að nú hefi eg náð í það sem okkur vantaði í fyrra vetur, ɔ: forestillíngarnar um verzlunarfrelsið á Íslandi 1786 og 1787, og er það gott fyrir okkur, en andskoti er það lángt að skrifa það upp. Hvað segirðu um þá klausu í formála fyrir tilskipun 1787, að »nú megi konúngur láta passa enn betur uppá Íslendínga en áður, þegar verzlanin verði frjálsari, því það sé mart sem útlendir geti selt þeim betur og með meira hagræði en þegnar Hans konúnglegu Hátignar sjálfs, og þó gömul trygð og föðurlandsást(!!) kunni að halda þeim við Dani og Norðmenn framar hinum, þá kunni þó aldrei örgrannt

að vera, að ábatavonin og hagnaðurinn verði ekki yfirsterkari með tímanum«; þess vegna verði maður **nærri því** neyddur til að fara með Ísland í þessu atriði einsog *nýlendu*, þó menn unni því annars alls hagræðis sem kostur sé á(!!). Hvað segir þú um þessi princip? — Eptir því sem eg hefi komizt næst er þetta mest úr Colbjörnsen, þessum nafnfræga lagamanni, og leiði eg það af því, að hann kom í nefndina eptir Jón Eiríksson, en á þessu principi ber varla neitt í þeirri forestilling sem búin hefir verið til meðan Jón lifði, og sjálft placatið frá 1786 er bezt og frjálslegast af öllum íslenzku verzlunarlögunum. Nú kem eg til þín um verzlunina, og verð eg nú að biðja þig að sjá um, að skrifaðar verði um verzlunarfrelsi bænarskrár, allstaðar að austan. Við skrifum um það einhverjum manni í hverri sýslu privatim, eptir því sem við höldum bezt gegni, og bið eg þig ástsamlega að heilsa tengdaföður þínum og bið hann að vera í góðum ráðum með, sem eg og veit hann vill vera, og svo vona eg að aðrir góðir menn og frjálslundaðir vilji styðja að enu sama. Eg bið þig þessa lengstra orða, því eg hefi ekki tíma til að skrifa neinum öðrum fyrir austan. Mundu in specie eptir séra Birni á Stafafelli. Bænarskráin má vera svo almenn sem vill, og eg held ekki þyrfti meira en að biðja um ótakmarkað verzlunarfrelsi, án þess að taka nákvæmar fram nein önnur atriði specialiora, því það gjörir alþíng, en ef ykkur lízt að taka eitthvað til, að lýsa annmörkum verzlunarinnar sem nú er, eða þesskonar, þá má það og vel. Sveitaverzlunarfrelsi ætti þið ekki að gleyma, vegna þess höfðíngjarnir munu líklega vera því mótfallnir. Á alþíngi hugsa eg ætti að fara svo, að tekin væri fram atriði þau sem mest ríður á, og stjórnin beðin að semja tilskipun eptir þeim, en boða strax með opnu bréfi frelsi í þeim atriðum sem nú má við koma. Þeir hafa sent mér bænarskrár að vestan um alþíngislögin og sumir geta um verzlun og fleira,

en það er galli á, að þeir stíla það til mín og blanda málunum saman, en bezt er að stíla til alþíngis og hafa hvert mál sérílagi, en ekki er nein þörf að hafa bænarskrárnar lángar eða margbrotnar, þegar þær aðeins kveða skýrt á hvað menn vilja.

Eitthvað hafa þeir verið mér mótfallnir höfðíngjarnir þar vestra, amtmaður, sýslumaður og sr. Arnór, en ekki gátu þeir varnað því að eg væri kosinn, og hafði eg 52 atkvæði af eitthvað 80. Ekki hefi eg fengið neitt bréf officielt ennþá, og amtmaður segir eg fái það kannske ekki, því Þorkell sé alltaf fullur, enda er hann nú líka afskediget i *Naade* og með 50 rd. pension. Amtmaður og fleiri eru nú á því að engan megi kjósa nema þann sem sé í amtinu, og þeir úr Reykjavík hafa spurt sig fyrir um það í kansellíinu, helzt eptir tilstilli Kristjáns okkar Kristjánssonar, sem var einskonar kjörstjóri í Rvík meðan fóvetinn var í burtu. Assessor Johnsen, Melsteð og flestir, að eg held, sem læsir eru, halda þó að heimilt sé að kjósa hvern þann sem er »i Kongens europæiske Lande« (ef Danmörk heyrir þar til?) og hefir verið þar í 5 ár, þegar hann aðeins á eign í því amti sem um er að tala. En hvað sem kansellíið segir, getur það ekki ónýtt gjörðar kosníngar og reynir það víst heldur ekki; hitt er annað mál að alþíng sjálft kann að gera mig rækan ef svo vill til vegna formfeila hjá sýslumanni, sem amtmaður segir hafi verið óheyrilega margir og mestir í Vesturamtinu, þó allstaðar væri að hans ætlun eitthvað rángt, en eg hugga mig við það, að ef þíngmenn vilja vera conseqvent, munu þeir geta fundið formfeil í öllum kosníngum á landinu. Amtmaður hefir skrifað mér til og er þar mikið góður, og fagnar naturligviis kosníngunni, en drepur samt á hitt, en ekki á það, að svo standi á eign minni, að eg muni ekki vera kjörgengur, sem eg heyri hann hafi haft í frammi vestra. Þú skalt ekki láta mikið á þessu bera, því eg segi þér það að gamni

mínu, og ekki í neinu þykkjuskyni, enda held eg líka það gjöri mér engan skaða, og þó þeir gjörði mig rækan úr þínginu, set eg það ekki fyrir mig, því eg get þá komizt þángað í annað sinn, ef eg lifi, og lesið get eg aðgjörðir þeirra og skrifað um þær til huggunar og trúarstyrkíngar eptir sem áður. . . .

Þó ekki sè reyndar sopið kálið, þá held eg eg megi gratulera þér með læknisdæmið, því eg veit ekki betur en þú sért einn innstilltur. Guð gefi við megum njóta þín lengi og vel, og mundu mig um það, elskan mín góð, að fara ekki ofilla með þig, gáðu að því að Austfirðíngar og við allir höfum svo bezt gagn af þér hér í lífi að þú deyir ekki fyrir tímann, og í hitt lífið liggur þér ekki á fyrri en mörgum öðrum, það hleypur ekki undan. Þegar þú ert nú seztur að, þá fer eg að heimsækja þig einhverntíma og sjá hvernig ykkur hefir tekizt að koma upp þessum 1000 kúm sem alltaf er verið að berjast við.

Það er ekki til neins að orðlengja þetta, því eg get ekki úttalað við ykkur hvort sem er. Eg bið þessvegna hjartanlega að heilsa öllum góðum vinum, og kveð þig og konu þína elskulega ástar kossi.

Eg er ætíð ykkar hreinskilinn elskandi vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

34.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Kaupmannahöfn 1ta Okt. 1844.

Elskulegi bróðir minn góður!

Ástar þakkir fyrir bréf þitt ástúðlegt að vanda, og hvað þú hefir gyllt fyrir mér Flóann, svo mig lángar nú til að sjá hann og horfa upp í Hestfjall, enda vona

eg, ef guð lofar, að komast svo lángt að sumri, en fyrst verð eg að skoða surtarbrandsfjöllin á Vestfjörðum og heilsa uppá landa mína þar, en ekki fer eg svo, að eg komi ekki til þín, bróðir minn, ef eg get með nokkru móti, og fyr legg eg á tvær hættur að krókna á Hellisheiði. En ef eg verð rækur úr þíngi, þá hefi eg góðan tíma, og þá hefi eg tímann til að spránga um Árnessýslu og Rangárvelli o. s. frv. Eg heyri sagt ýmislegt um meiníngar um mína Competence, og svo um kosníngarmeðferð Þorkels sýslumanns, en eg tek því öllu með þögn og þolinmæði eptir því sem enn er komið.

Getur þú ekki stillt svo til, bróðir minn, með neinum ráðum, að gjörðar verði bænarskrár úr Árnessýslu um verzlunarfrelsi, því eg er að vona að bæði sért þú á því máli, og faðir þinn og fulltrúi sýslunnar, assessor Johnsen, en hvort þeir vilja gjöra nokkuð til að koma því í gáng, er annað spursmál, og það veiztu bezt. Bændur munu vera eptir því sem þeim er skipað, einkum um þesshátttar málefni. Hugsaðu um þetta og sjáðu til, hvort nokkuð verður gjört við það.

Eg þakka þér ástsamlega fyrir bókina þína, og þykir mér hún vera nett leyst af hendi frá þinni síðu, eptir því sem þú hefir haft fyrir þér, og einkanlega þykir mér seinni hlutinn betri, þar sem þú hefir verið friari. Það er merkilegt hvað öllum ykkur feðgum er gefið að skrifa lipurt og nett; það er ætterni og skyldi maður þó ekki hugsa það gæti verið, en láttu það nú líka ásannast og haltu áfram að skrifa meira og meira. Við tækjum víst með ánægju í Félagsritin t. a. m. sögu góða, helzt ef hún væri ekki kunnug á Íslandi, og svo hvað helzt annað, og ef við fáum kaupendur, eins og nokkur líkindi eru til, þá færðu honorar, svo mikið sem við getum og kannske ríflega það sem annars er gefið, ef svo stendur á við getum það. Mig langar til að recensera þig, bróðir minn, hvort sem nokkuð verður af því eða ekki. Grímur hefir verið að tala um líka, að hann

ætlaði að gjöra það, svo kemur Fjölnir líka og hann tekur stafsetnínguna, svo vona eg þú getir ekki kvartað yfir, að þú hafir ekki gjört Opsigt í líteratúrnum. Þeir segja að eg muni eiga þennan makalausa ‚douceur' í formálanum og þakka eg þá ‚ærbödigst' ef svo er, og mig hefir lengi lángað til að eiga hann, en því er miður, að eg er enn ekkert kominn á veg, og því meira sem eg safna því meira nýtt berst að hendi, en ekki hefi eg nú svo lítið safn, eptir tímalengdinni, og ef eg mætti gefa mig allan við því og hafa aðgáng að skjalasöfnunum eins og síðan í fyrra, þá gæti eg gjört nokkuð eptir ein 5—6 ár, því saga Íslands er reyndar einföld, en hitt er vont að fontes eru svo dreifðir. Eg held að saga Íslands gæfi ekki lítið verdenshistorisk Udbytte ef hún tækist vel, ekki vegna þess að tilburðirnir sé svo stórkostlegir, miklu framar eru þeir mikrokosmiskir og jafnvel mikroskopiskir, en þeir verða raktir miklu betur inn í innstu taugar margvíða heldur en menn geta annarstaðar, og svo er þetta merkilega fríveldi svo undarlegt einhvernveginn og originalt, og allt það sem þar með fylgir, að það getur ekki annað en vakið eptirtekt hjá hverri skepnu sem auga hefir fyrir historíu.

Eg heyri svo sagt að katalógsrecensíónin hafi þótt svæsin eptir »lærðan« mann, en hvað ætli þeir hefði sagt, ef það hefði komið í blöðunum hér, á dönsku, og það áttu þeir skilið, og skyldu hafa fengið ef það hefði ekki verið stiptaninni sjálfri skaði, og eg þessvegna ætlað að fara vel að þeim. En illt er nú sem er með röðina og all[an][1] þesshátttar litterær óþverra, en hitt er verst hvað vantar af bókum eptir gamla katalógnum, og ætti það ekki svo til að gánga að það vitnaðist ekki betur. Eg er nú að smábera saman og búa mér til lista yfir það sem vantar, og svo skulu þeir eiga von á enn betra, ef þeir bæta sig ekki. Rafn aumínginn

---

[1]) í hndr. allt.

er skælandi yfir trassadómi þessum, og það er von, því ekkert er sorglegra en að vera að berjast við að safna í höndurnar á þeim, sem maður sér feygja og svívirða það alltsaman viljandi, og geta svo ekkert við gjört. Eg vissi ekki neitt um þessa ófreskju fyrri en eg fékk hana hjá Rafni, og vissi ekki einusinni hver höfundur var þegar eg skrifaði próduktið, nema eg heyrði gizkað á Jónassen; eg hefi ekki heldur tekið neinn fyrir nema höfundinn (ignotum), en eg hefi gaman af, að Jón(assen) kvað segja, að hann eigi fyrst eptir pag. 80 o. s. frv. Njálu hefi eg ekki séð.

Um allar fréttir vísa eg þér til Gísla Magnússonar, og brýt eg svo í blað með hugheilustu kveðjum og óskum

þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

35.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

[August 1845].

Elsku bróðir!

Eg þakka þér hjartanlega fyrir tvö elskuleg bréf. Alþing er á enda, og eg er ekki vonlaus, mér þykir enda hafa tekizt vonum betur. Svo mikið er víst að eg er ókúgaður enn, og eg sé að hér er nokkuð af rót í mönnum, ef margir gengi að til að lífga. Eg vona til þín það sem eg get bezt. Guð gefi þér einúngis líf og krapta. Ef guð lofar, þá held eg að eg muni gipta mig nú og fara með stúlku mína til Kaupmannahafnar. Hún er eins og hún hefir verið, trúföst og elskuleg, en það er miður, að eg get ekki verið henni svo mikil aðstoð sem hún verðskuldar, því embættið er ekki feitt einsog þú veizt. Guð gefi þú getir nú haldið út nokkuð; þó seigt gángi, vona eg að læknaskipanin batni nokkuð,

og Skúli hjálpaði ekki svo lítið uppá sakirnar í því máli, þó ekki yrði það á enda kljáð. Sveinn segir þér helztu fréttirnar, og eg vona að geta skrifað þér dálítið, þó aldrei verði fyr en frá Höfn. Það sem þú hefir borgað framyfir á Félagsritunum hefi eg tekið til mín og reiknað frá.

Kysstu konu þína elskulega og fáðu þér nú son, eg kyssi ykkur bæði af heitu hjarta og er ætíð elskandi bróðir meðan eg lifi.

Jón Sigurðsson.

Sveitaverzlanin gekk með 13 móti 10.

36.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Til sr. Þorg(eirs) 2. Dec. 45.

B(ardenfleth) er — af en dansk Mand at være — ikke nogen daarlig Commissarius; han har kun een Hovedfejl og den er slem, at han ikke kan tale Isl(andsk), men han forstaaer det tem(melig) godt og derfor er han den bedste Comm(issarius) af danske Mænd. Han er en dreven Forretningsm(and), af klar Forstand og i det hele et lyst Hoved, men efter mit Skjön uden nogen af de höjere Ideer, som er min Fordring til en Statsmand. Han er vistnok en meget god Amtmand men næppe en god Minister. M(ed) H(ensyn) t(il) Island er han ikke uvenlig stemt, men han vil at vi skal nyde de Fordele som *Danm(ark)* kan afsee, men ikke dem vi kunne modtage. Det er altfor dansk for mig. — Alle Althingsmændene uden Undtagelse saae i ham en *Dansk*, og det mener jeg er ikke politisk rigtigt. De har vist strax tænkt: Nu taler han om sin politiske Modstander. Oja, saamæn, vi harmonere ikke i de politiske Synsmaader, men jeg holder meget af ham alligevel

som *dansk* Mand, men jeg gjör mig ikke nogen store Forventninger om ham som »Ven af Island«. — Jeg vilde önske han vilde i Fremtiden vise at jeg tager ganske fejl.

## 37.

### Til Gisla læknis Hjálmarssonar.

Kaupmannahöfn 7. Marts 1846.

Elskulegi bróðir minn!

Þó miði þessi verði nú ekki göfugri en vant er, þá verð eg þó að heilsa uppá ykkur með einni línu. Það er þá fyrst að segja, að við lifum vel og höfum lifað í vetur. Við giptumst í haust fyrst í September og fórum frá Íslandi 13. Okt(ober) og komum til Altóna eptir 12 daga ferð; við höfðum hvassviðri með okkur alla leið, en nærri Englandi manndrápsveður, sem margir týndu talinu í, og hefðum við verið lengra komin, hefðum við aldrei sól séð. Frá Altóna fórum við á járnbraut til Kílar, og þaðan á gufuskipi híngað, og komum híngað fyrst í November. Þú mátt nærri geta, að konunni hefir þótt þetta nýstárleg ferð, það má reyndar heldur ekki segja, að hún sé fjarska dýr, en þó hefir hún kostað okkur bæði hér um 100 dali alls frá Íslandi. Við búum nú í Admíralgötu á horninu á Fortúnstræti, en eg held við förum á annan stað í vor, ef kostur er. Eg hefi síðan í haust verið við einskonar bóka- og skjalasafn, sem samtengt er Fornfræðafélaginu, og erum við þar þrír »arkiv-sekreterar« kallaðir (Strunk, Sorterup og eg), og hefi eg 200 dali um árið, en þeir 100 hvor. Eg get því slegið mér í gegnum, því konan er sparsöm og í öllu kemur okkur æskilega saman. Opt höfum við óskað, að guð gæfi þið værið komin til okkar til að

drekka tevatn, sem þér þykir svo vænt um og mér líka(!) en hvenær ætli það verði? Ekkert er útgjört um skólann enn, en sagt er, að Egilsen eigi að verða rektor, — fjöldi sækir, eg líka einsog fyrri, og ætla eg að láta þá gjöra við það hvað þeir vilja, en einkis vænti eg samt. Þó hefi eg heyrt að Egils(en) vilji ekki hafa Bjarna Jónsson. Aðjúnktsembætti þigg eg ekki, ef eg fæ ekki meira, því eg sé, að mér er því aðeins komanda til Íslands, að eg geti nokkurnveginn lifað sultarlaust; eg er ekki heldur vonlaus um, að eg gæti í stöku tilfellum, ef svo ber undir, gjört dálítið gagn hér Íslandi.

Ekkert er farið að gjöra við alþingismálin enn, en þó er ekki alls ómögulegt, að nokkru verði framgengt, en reyndar er það ekki alls að marka. Þeir eru tilleiðanlegir til að veita verzlunarfrelsi, en vilja hafa tolla. — Lad dem det, segi eg, því þar reka þeir án efa nefið í nóttina. Svendsen er nú á förum úr íslenzka contoirinu og er orðinn Directeur í grænl(ensku) og fær(eysku) verzluninni, en Kofoed kemur líklega í staðinn; hann er einsog þú veizt meinlaus og gagnslaus. Nú er búið að boða, að stiptamtmannslaust verði á Íslandi haustið 1847, og er Dönum, sem ætla að sækja, skipað að læra íslenzku. Sumum þykir líklegt að Rosenörn nokkur, frændi Stemanns, og committeraður í tollkammerinu, muni verða nærri því; eg þekki hann ekki, en hann er sagður dugandi maður, og hann hefir vit á verzlun og vill verzlunarfrelsi, en hvað nú verður úr, þegar til kemur, veit eg ekki, því til er reyndar, að hann sé ekki mikill ákafamaður að berjast fyrir okkar hönd. — Eg vænti þú munir ekki verða einn á bandi um það, að þykja við hafa verið nokkuð lágir á lopti á alþingi, en eg get þó ekki sagt annað, en að mér finnst alþing í þetta sinn hafa reynzt framar öllum vonum, og ef alþingismenn láta ekki nudd alþýðu drepa úr sér kjarkinn, en bera sig að bæta sig og búa sig undir sem þeir geta

bezt, þá hefi eg beztu von um, að smámsaman gangi nokkuð, því ekki þarf að ætla að allt fáist strax í fyrstu; en það er nú undir komið, hvort að landsmenn láta það lina sig, eins og vant er, að þeir geta ekki fengið allar óskir sínar í einu.

Mikill fjandi er það, að þér hefir ekki líkað útréttíngar mínar, en eg gat ekki betur; eg skal bera mig að verða betri seinna. Reikníng skal eg senda þér með seinna bréfi, og þú mátt vera óhræddur að þú átt inni í búðinni hjá mér ennþá, meira en minna.

Heilsaðu góðum kunníngjum, og lofaðu bréfi seinna; eg bið þig einkum að segja séra Einari Hjörleifssyni, að eg hafi reynt að sýna lit á því sem hann beiddi mig um, en ekki veit eg hvernig það fer.

Aumíngja Pólakkar eru enn að brjótast um, þar er allt í loga, og flugufregn er, að það sé búið að drepa Nikulás, en þeir lifa lengst sem hjúum eru leiðastir. Upphlaupið er byrjað í Kraká, og er sagt að prestar hvetji alþýðu, og sé mikill liðsdráttur, en upphlaupsmenn sé 17,000 þegar seinast fréttist, og alltaf að fjölga.

Heilsaðu kærlega tengdaföður þínum og Havstein, og séra Stepháni og kysstu konu þína og litla nafna bróður- og systurkossi frá okkur.

Þinn elskandi bróðir til dauðans

Jón Sigurðsson.

38.

Til Eggerts Ó. Briems sýslumanns.

Khöfn 18. Apr. 1846.

Elskulegi Eggert minn!

. . . Bölvað póstskipið kom svo seint, en skipin fara svo snemma og Félagsritin drepa mig, því eg er að recensera Alþíngistíðindin. Eg trúi þið fáið »codex juris

civilis« að raga í hjá nefndinni í sumar; blessaður vertu, láttu þá ekki leggja of mikið uppúr dönsku lögunum, og sjáðu um að allt verði auglýst sem gert verður, ef kostur er á, áður en það kemur á þíngið, annars »prótestera eg öldúngis í þessu tilliti«.

Eg sendi Magnúsi Einarssyni til jarðabótafélagsins í Önundarfirði ný verkfæri til að skera þúfur og skurði og til að taka uppúr skurðum með. Sjáðu um að þau verði kunnug, ef ykkur þykir nokkuð til þeirra koma. Í Fèlagsritunum kemur lýsing á þeim með uppdráttum.

Eg man ekki meira að sinni, nema að kveðja ykkur ástsamlega og heilsa frá konunni minni.

Þinn einlægur elskandi vinur

Jón Sigurðsson.

39.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Kaupmannah. 12. Mai 1846.

Elsku bróðirinn minn bezti.

Nú þori eg ekki annað en taka stóra pappírinn, þó eg viti varla, hvað segja skal — ekki af því að nóg er til að slabba við þig, heldur af hinu, að naumur er orðinn tíminn, og eg í rassi, einsog vant er, með prívatbréf mín. Eg hefi rétt núna lokið við Félagsritin, og talað við Reiersen, og fór allt í himnalagi okkar á milli; svo verð eg að vera við umbúðirnar, og svo klára bókmentafélagsbréfin, en Rafn stendur hinumegin með reidda öxi, og svo *lífið* sjálft, því ekki er gróðinn á þessum tveimur verkum. En samt á eg ekki að telja tormerkjur til að afsaka mig frá að skrifa þér, og það gjörði eg optar, ef eg væri ekki eins makalaus letíngi að skrifa bréf, eins og eg er, og það veiztu líka.

Eg þakka þér innilega fyrir bréf þín elskuleg, og skammirnar verð eg að þola, því eg á þær skilið, þó meira hefði verið.

Já, satt var það, að eg komst frá Íslandi um síðir, hvort sem kaupmenn hafa ætlað að bola mig frá fari eða ekki (sem eg þó varla held verið hafa), og var það 12. Okt.[1] — Ferðin gekk ágætlega en var stormasöm, og komum við til Hafnar seinast í Oktober[1]. Ekki kynjar mig það þó kostnaðurinn ægi mörgum, sem orsakaðist af mér, en eg get svei mér ekki við því gjört. Þú veizt bezt, að eg þarf allra minna muna með, það er líka sama, að þó eg gæti kannske verið sparsamari í sumu, þá er eg þó ekki töluverður eyðslumaður, og eg þykist þaraðauki hafa unnið hlutverk mitt eins og hver annar. Hefði eg verið ríkur skyldi eg hafa tekið það sama en gefið þá heldur til einhvers, sem eg vildi styrkja, og það hefi eg í hyggju, ef guð gefur mér nokkurntíma nokkurn afgáng, að verja því svo, sem mér hefir verið sent gefins frá Íslandi, og eg veit mikið vel upphæð á því, þó ekkert kunni kannske að verða úr þessum ásetníngi. Eg skal segja þér hvernig eg hafði reikníng minn, einúngis til þess *þú* sjáir, að hann var ekki hærri en eg átti rétt á. Reikníngur minn var alls eitthvað 529 dalir. Eg reiknaði mér 30 dali fyrir ferðina frá Höfn, og 30 þángað aptur og 29 dali fyrir ferðina að vestan, og svo 3 dali um daginn frá því eg fór héðan 4. Maí og þángað til 30. Sept. að eg gizkaði á, eg kæmist híngað aptur, en nú komst eg ekki aptur fyr en mánuði seinna, og það ekki fyrir neina handvömm af mér, og svo var sú ferð c. 50 dali fyrir mig einn — þetta var allt minn skaði, og hefi eg einkis beðizt fyrir. Þann tíma sem eg var í Reykjavík vann eg í þíngsins þarfir, að búa tíðindin undir prentun og corrigera þau, nema hvað eg ruslaði dálítið í skjala-

[1]) sbr. þó fyrra bréf.

söfnum landfógeta og stiptamtmanns. Vesturferðina álít *eg* nauðsynlega, hvað sem aðrir segja um það, og ef eg get, fer eg þá ferð í hvert sinn, og tala við kjósendur mína á almennum fundi einsog í fyrra vor, og svo skýri þeim stuttlega frá þíngstörfum á eptir bréflega, ef eg get ekki komið sjálfur, meðan tíðindin komast ekki fyr til þeirra. Þessu held eg meðan eg verð þíngmaður, hvað sem hver segir og hvort það gjörir nokkur eða enginn. Þess held eg líka að gæta mætti með sanngirni, að eg vinn mér *nokkuð* inn þann tíma sem eg er í Höfn, og því slökk eg niður meðan eg er á þessari ferð, svo ef Rafn vildi missa mig, þá yrði hann fljótur til að þakka mér fyrir allt vel gjört og gefa mér fararleyfi, að fullu og öllu, þegar eg væri svona í burtu annaðhvort ár. Hitt tala eg nú ekki um, að það bætir ekki fyrir manni til að komast til embætta, að vera þíngmaður og mótmæla konúngsfulltrúa í flestum málum þarsem nokkur mótmæli verða, og það sjá allir, að ekki er að ætlast til að fátækir menn gefi sig svo fram fyrir alls ekkert, þegar þeir gjöra það ekki sem ríkir eru. Eg játa gjarnan, að eg hefi ekki gjört mikið, og kannske ekki einusinni það sem af mér var heimtanda; eg játa, að landsmenn hafa nærri því allir sýnt mér meiri velvild og miklu meira traust en eg á skilið, eða get nokkurntíma gjört mig verðugan til að njóta til lengdar, þar sem svo margar hindranir eru til að ryðja úr vegi, en gjafir þær sem eg hefi þegið, eru þó enganveginn *svo* miklar, og eg get heldur ekki vænt að þær haldist *svo* stöðugt við, að eg geti þessvegna sleppt því sem eg á með réttu. Um laun þíngmanna hlýtur að fara svo, yfirhöfuð að tala, að þau verða að vera fast ákveðin, því ómögulegt er að meta gagn hvers eins og úthluta honum eptir því; menn verða að álíta, að hver gjöri hvað hann getur eptir því sem honum er lagið, og kjósendur einir geta straffað mann með því að kjósa mann ekki aptur, en meðan maður er við á maður með réttu það sem honum er veitt.

Þeir úr Múlasýslu fengu mest laun, næst mér, og veit eg að þeir munu ekki sjálfir eigna sér að þeir hafi gjört meira en aðrir, þó þeir gjörðu það sem þeir gætu, og vildu gjarnan hafa gjört meira; þetta fylgir af fjarlægð sýslnanna og örðugleikum þeim sem eru á að sækja þaðan þíng; þar á móti fengu þeir úr Reykjavík ekki nema c. 100 dali, og meira fengi enginn þaðan, hversu duglegur sem hann væri. — En nú er nóg um þetta.

Um þíngstörfin sér þú nú að síðustu þíngtíðindin og dóm minn um þau í Félagsritunum, mér þykir sjálfsagt, að ekki verði allir mér samdóma, en það verður að hafa það; eg held dómurinn sé réttur.

Nú er búið að koma skólanum í horfið fyrst um sinn, en ekki veit eg fullkomlega hvernig það verður, þegar allt er búið, þó hefir Hansen talað all-líklega um það. Egilsen er nú rektor, Schev(ing) yfirkennari, Gunnlaugsen $1^{\text{ti}}$ adjúnkt og Konráð $2^{\text{ar}}$, og sagt er að S. Melsteð eigi að verða constitueraður. Egilsen hefir mest verið í skinnbókum í vetur og líkar mörgum það illa. Sagt er að kenna eigi nýju málin og náttúrufræði, og standi þau pláz opin um sinn. Prestaskóli er sagt eigi að koma að ári með 2 kennurum auk dómkirkjuprestsins. Verði þetta, þá er nokkuð á unnið og heldur von um meira, ef við rekum eptir, en nú kemur uppá hvort þessum kennurum heppnast að bæta skólann og gjöra hann vinsælan. Um það eru tvær meiníngar, og tíðin gefur það að vita. Eg sótti, en samt með því skilyrði að eg yrði yfirkennari, því minna en 800 dali get eg ekki gert mig ánægðan með, hvernig sem fer; eg lifi ekki af minna ef eg á að geta gjört nokkuð.

Séra Ásmundur í Odda er orðinn dómkirkjuprestur, og þykir öllum sr. Pétur orðinn hart úti, en það er líklega vegna fyrri ávirðínga. Það er á allar síður mesta óhapp, og sóknarfólki í Reykjavík verður það til mikillar óánægju, því það vill hafa góðan prédikara, eins og von er.

Eg þarf að spyrja þig um Félagsritin, einkum í fyrra. Það má ekki svo til gánga, að þú standir fyrir borgun pappírsins og takir skil einsog verða vill af kaupendum. Í hitt hið fyrra borguðu þeir okkur einir, sr. Stephán á Valþ(jófs)stað, séra Benedikt í Ási og sr. Ólafur Indriðason, trúi eg, en aðrir ekki, sem standa á áskrifendalistanum. Í fyrra hefir sr. Steph(án) og sr. Benedikt borgað okkur. Í vor hefi eg fengið pappír uppá mitt nafn hjá Wanscher. Ritin borga sig nú, ef allt heimtist,[1] þó ekki, verði borgað honorar. Þú verður að segja mér hvort þú villt reikníng fyrir ritin, eða hvort þér er nóg að hafa áskrifendalistann, því eptir honum er reyndar sent og annað ekki nema til þín. Þú hefir nóg þegar þú mælir með ritunum, þó þú hafir ekki meiri kostnað en þarf. Gaman þætti mér, ef þú nenntir að segja mér dóma manna um alþíng og um Félagsritin, nú þegar allt kemur. Smátt miðar áfram ymsu en miðar þó, og ekki stoðar að gefast upp, bróðir góður! heldur bera sig að bæta sig það sem verður. Gaman væri að fá afskript af því sem þú skrifar Sundheds-Collegio um læknamálið, og nú fylgir nefndarálitið þíngtíðindunum; eg held það mál vinni sigur á endanum, hvort sem það líður lengur eða skemur.

Eg ætlaði að skrifa lengra, en eg get ekki haldið það út, og of fáum get eg enn skrifað austur. Þú verður að forþýða það. Eg vona að Þorsteinn okkar verði þér kær gestur. Við konan mín kyssum ykkur öll ástar kossi.

Þinn af hjarta heitt elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

---

[1]) í hndr.: heimtast.

## 40.

### Til Eggerts Ó. Briems sýslumanns.

Kaupmannah. 15. Mai 1846.

Elskulegi Eggert minn!

Þakka þér kærlega fyrir bréfin þín, þó þau sé rækalli þur og hörð til meltíngar, en fyrst þú ert svo mikill í búskapnum, þá ætla eg fyrst að gjöra þér reikníng fyrir erindagjörðunum. . . .

Allt þetta er sent svona smámsaman með Clausens skipum mest, en fari það bölvað, ef eg finn gömlu bækurnar þínar, hvorki Schlegels Encyclopædie né Bangs Rómarétt né fyrstu 10 partana af Schou, og ekki veit eg nema eg hafi sent þér ofmikið af forordníngum (1840—45), og misskilið þig, en þá remitterar þú — með einhverjum sem ekki drepur sig samt, ef eg má biðja. Á Félagsritum verður engin fyrirstaða, en á Fjölni get eg ekki náð í þetta sinn, því hann hefir forföll í vor. Máldaganna skal eg hugsa til, en eg get samt líklega aldrei látið þig fá neitt að gagni, því eg hefi þaraðauki svoddan moldviðri af bónarbréfum um þessháttar, að þó eg væri heilt ár að skrifa, yrði eg varla búinn. Eg er nú að gegnumgánga Árna Magn(ússonar) safnið fyrst, og leita að hvað eg finn, og notera allt hjá mér, holt og bolt, en síðan fer eg að bera saman hvað eg hef, og þá vona eg að geta expederað þig. Það hastar annars ekki meðan Jónsbókin stendur.

Eg þarf nú líka að biðja þig bónar. Eg rispaði bréfið til Ísfirðínga án þess að hafa afskript af því í fyrra. Nenniröu ekki að láta hripa það upp handa mér? Ef eg lifi til, ætla eg að bera mig að koma vestur eins og í fyrra, annaðhvort beint héðan eða úr Reykjavík. Þú verður, elskan mín góð! að hjálpa til að búa undir bænarskrár, og vera forráðamaður, því annars fer líklega sumt í ólestri. Eg þarf

ekki að orðlengja þetta, því eg treysti þér til hins bezta í því einsog öðru.

Þú fer nú á nefndarfundinn í sumar, og þætti mér ógn vænt um, ef þú vildir skrifa mér nákvæmlega um það og instrúera mig. Nú er orðið margfalt verra en áður að eiga við rentukammerið, síðan Svendsen fór og Kofoed er orðinn »Skeifur« í contoirinu, og því verst þegar nú er enginn Íslendíngur í contoirinu nema Sivert Hansen einn, sem extraskrifari. Eg fæ því ekkert að vita nú, nema á stángli, því Kýrfótur er bureaukratiskt naut og asni, sem gengur með hjartað í höndunum eða á verri stað. Mér væri þó nauðsyn að vita dálítið hvernig á stendur, og einkum þar eg hefi heyrt, að þeir nefndarmenn hafi gengið öldúngis útfyrir commissorium sitt og farið að búa til civil codex, naturligviis eptir dönsku lögum. Þetta vil eg nú nauðugur hafa, og eg gjöri líklega hvað eg get til að gefa þeim það aptur, en bezt væri þeir fengi að læsa það niður sem fyrst. Við vorum samdóma um það í sumar, að nauðsyn væri að publicera aðgjörðir nefndarinnar áður en þær yrði lagðar fram á þíngi, og jafnvel áður en þær kæmi til stjórnarinnar. Á því er eg enn, og eg trúi varla öðru en að þú getir fengið nefndarbræður þína til að fallast á það. Hér er í sjálfu sér ekki periculum in mora, og sízt þar mörg spursmál eru enn myrk og ógreidd, t. a. m. um status landsins. Þaraðauki er enda vafasamt, hvort skattalögin yrði ekki allt öðruvísi löguð, þegar menn færi að sjá afleiðíngar verzlunarfrelsisins. Það sem menn gætu haft gott gagn af væri það, ef menn fengi nú nokkuð greinilegt statistiskt undirlag, og einkum að menn gæti séð að landið getur vel borið sig sjálft. Bang er ekki fjarri að láta okkur hafa reikníng sjálfa, og reiknast á, en kansellíið vill hafa gamla grautinn, — vegna Statseenheden!! — Það er jafnvel farið að detta uppúr rentukammerinu að gjöra ráð fyrir »Opgjörelse«, og

kom það fram nú þegar bóka- og handritasafn biskupsins sál. var keypt, að það skyldi vera »definitivt« fyrir ríkissjóðsins reikning, *þó* reikníngur Íslands yrði gjörður sérílagi. Þú verður, elskulegi vin! að taka þátt í með okkur, og það þó þér líki kannske ekki allt við mig, því það er ekki svo hægt viðgerðar, þegar maður er opt einn síns liðs og verður að gjöra eitthvað, en enginn til að ráðfæra sig við.

Þú heyrir nú um skólann og þarf eg ekki að segja þér frá því. Eg sótti um yfirkennara embætti, en hér er fylgt anciennitets-reglunni og þá var ekki að búast við eg fengi það; samt lángar mig til að vera heima, ef það gæti heppnast, en hamíngjan veit hvort það verður, eða hvenær.

Eg held eg hætti nú að rugla meira í þetta sinn, og bið þig fyrirgefa. Við kveðjum þig og konu þína hjartkærri kveðju.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

41.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Kaupmannah. 26. Maí 1846.

Elskulegi bezti bróðir!

Eg læt miða þennan hlaupa til Vopnafjarðar, en ekkert man eg nú almennilega hvað eg skrifaði þér um daginn, og verður þú að fyrirgefa, þó eitthvað verði jetið upp aptur.

Eg ímynda mér að þér þyki eg hafa tekið býsna grunnt í læknasetningarmálið, og eg játa það gjarnan, en þegar svo stendur á, að maður verður að fá öllu breytt frá rótum, þá verður maður, að mér finnst, fyrst að taka aðalatriðin, sem allt byggist á, og detaillera

ekki of mikið fyr en hitt er fengið. Eg fékk, einsog þú sèr af nefndarálitinu aptan við tíðindin, nefndina til að fallast á grundvallaratriðin, og átti Skúli að verða framsögumaður til þess að gefa því meira autoritet. Hann hafði verið fastur á Kaldaðarnesi áður, en hann féllst á, að ekki yrði regluleg kennsla nema settur væri einskonar central-spítali, og hann verður að vera í Reykjavík. Þegar maður er laus við háskólann og hefir fengið læknaefni, þá fer að koma til að fjölga læknunum, fyrst þar sem svo frábærlega fátt er og lengst til lækna. Um jarðirnar handa þeim er eg reyndar deigastur að fylgja þínu máli. Eg finn mikið vel, að læknirinn verður að hafa jörð, og maður getur heldur ekki skuldbundið hann til að búa á hentugasta stað nema jörð sé þar handa honum, en það er líka betra þegar innlendir eru læknar, að þá verða kannske jarðir sjaldan *eins* níddar; samt sem áður er eg hræddastur við þetta,' því við vitum dæmin, hvernig farið er með allar slíkar lénsjarðir; sumir vilja ekki búa á þeim, annaðhvort af því þeir hafa annað víst, eða þykjast geta komið sér betur fyrir öðruvísi; þá lenda jarðirnar hjá leiguliðum uppá óvissa tíð og með margvíslegum kjörum, og læknirinn fer þá einsog sumir sýslumenn, sem hafa lénsjarðir og aldrei búa á þeim. Skúli hefir Þjóðólfshaga í Holtum, en býr á Móeiðarhvoli, Eggert hefir Kjarna en býr á Akureyri. Af þessu hafa jarðirnar illt, og því fleiri sem þannig eru byggðar, því ver, því enginn er ónýtari landsdrottinn en embættismaður, sem ekki á jörðina sem hann byggir öðrum. Þú segir að þetta eigi stjórnin og lögin að passa, en það er ekki hægt að blása eptirsjónarseminni og reglunni í dauða belgi.

Um launin er eg þér vel samdóma, og það mundi ná góðum framgángi. Um apóthekin eins, en við því tjáir ekki að hreifa að svo stöddu, fyr en hitt er fengið, en þá held eg það jafni sig, því þá er Sundhedscollegium út úr leiknum. Þessvegna held eg sé rétt

fyrst um sinn að gjöra það svo ljóst sem mögulegt er, hvað læknaþörfin sé stór, og hversu illa úr henni bætt; allan þann skaða sem landið líður við það; að ómögulegt sé að bæta úr því svosem nú stendur á með því að heimta kennslu á háskóla í Kaupmannahöfn; að þetta verði bæði óhollara og margfalt kostnaðarmeira, og sýna sem bezt alla þess annmarka — vartpeníngarnir, 200 dalir handa hverjum, eptir nokkur ár, unnu mest á þingmenn, því þeir sýta í skildínginn; — sýna á aðra síðuna nauðsyn spítala í Reykjavík og víðar annarstaðar, og að kennsla gæti orðið þar allgóð; leggja niður kostnað til þess. Yfirhöfuð að tala concentrera argumentation sína um það atriði, að emancipera þessa grein frá háskólanum, nema eptir því sem hver vildi, og hafa það þá sem meðmæli, ef nokkuð væri þar gjört að gagni sér til framfara. Það verður vænti eg ekki mögulegt að fá afskript af því sem þú skrifar Sundhedscollegio um þetta, en það vildi eg gjarnan hafa, því eg skal sarga í málinu það sem eg get, þótt smátt gángi. Kanselliið hefir verið að lesa málið, og eg held það sé ekki illa stemmt, en líklega er þess versta mótbára sú, að menntanin verði ekki eins góð og við háskólann, og það er eg ekki fjærri að nokkuð sé tilhæft í, vegna þess við höfum svo fáa, og fátæktin er svo mikil. Þetta þarf sterklega að gjöra ljóst, og í þessu atriði þarf eg helzt styrkíngar, vegna þess mig vantar þar Sagkundskab. Af Kusa gat eg ekkert gagn haft, því hann var svo fúll útúr stiptsbibliótheks catalognum, en Skúli greyið var góður, það sem hann gat, og batnaði alltaf, en hann er svo kaldur og skeytíngarlaus, eins og þú veizt, að hann tekur ekkert að sér með fjöri. Væri það mögulegt, að fá alla lækna á Íslandi til að mæla fram með þessu, eða meiri hluta þeirra, þá væri málinu því betur borgið. Um gjöld þau til þessa sjóðs, sem þú hefir stúngið uppá, er það eina athugavert, að maður veit ekki hvað þau hlaupa, og mætti bíða nokkur ár þáng-

aðtil, en annað er líka, og það er, að það stendur í sambandi við skattamálið, og skattamálið aptur við reikníng landsins, en eg vil fyrir mitt leyti setja mig móti öllum skattgjaldaauka, og einúngis fallast á að jafnað sé það sem nú er, meðan ekki fæst reikníngur um fjárhag landsins.

Félagsritin eru nú send í sömu umbúðum og þú sagðir fyrir, en það er nauðsyn þú sendir okkur reikníng um hvað þú hefir fengið hjá áskrifendum, svo þú standir ekki í skuld fyrir okkur alla. Við höfum ekki fengið annað híngað en frá sr. Stepháni og sr. Benedikt í Ási og sr. Ólafi Indriðasyni að eg meina í hittið fyrra, en nú hefir hann í haust skrifað Magnúsi Eiríkssyni, að hann vildi ekki hafa þau til sölu; góði maður! hann hefir þykkzt við recensiónina í fyrra. Í vor hefi eg tekið pappír hjá Wanscher undir mínu nafni, og fyrir í hittið fyrra hefi eg tekið við nokkru, eins og eg skrifaði þér, til að kvitta það sem við *vissum* þú hafðir lagi út um of, en frá í fyrra er reikníngur ókláraður. Það er bezt, ef þú getur útvegað okkur umboðsmenn, og kannske sjálfur haft nokkur exemplör við hendina, að þú látir þar við lenda, því þá ertu útúr öllum óþægindum, og skömmin skellur á ritunum sjálfum. Við höfum annars fengið mestallt það í hittið fyrra inn, en vantar frá í fyrra fjandans mikið. Samt stöndum við okkur nokkurnveginn, þegar ekkert honorar er borgað, en það kemur uppá hvað lengi nokkur fæst til að rita fyrir ekkert, einkanlega ef ritin fara að gánga lakar út, og víst er það, að eg fyrir mitt leyti treð ekki uppá þá ritgjörðum, ef þeim er um og ó að þiggja þær. Það verður nú líklega stofnað tímarit á Íslandi, þegar Konráð kemur til skólans, og þá verður án efa þrengra um fyrir okkur, þó er það samt ekki allshendis víst.

Ekkert er að frétta öðru nýrra, nema Grímur hefir fengið 1200 dali um 2 ár (ɔ: tvenn 600) til Reisestipen-

dium, sömuleiðis kunníngi hans gamli P. L. Möller og ungi Molbech. . . .

Biskupinn vor er kominn upp úr mislíngum og á að vígja hann í Júlí. Egilsen er að búa sig á stað á sunnudaginn, hann hefir farið bezta ferð fyrir sjálfan sig, karltetrið, því eg trúi hann fái 1200 dali í laun og og 300 í húsaleigu, og svo hefir hann líklega ferðakostnað frían, en í vetur hefir hann unnið sér góð daglaun með skinnskræðu-verkum fyrir Rafn. Nú kemur uppá hvað hann gjörir og þeir þegar til skólans kemur. Nokkuð verður hann aukinn, en ekki til hlítar, og er það — það er mér óhætt að segja — mest Egilsen að kenna, því hann hefir latt allra bóta nema að kenna íslenzku, en kennara vill hann ekki hafa nema þá gömlu og vill hlaða öllu á þá. Konráð hefir líklega einn haft lag á honum, og það væri gott, ef það héldist vel og lengi, svo skólinn hefði gott af.

Nú held eg komið nóg af svo góðu. Heilsaðu kærlega frá okkur öllum þínum ástvinum.

Þinn af hjarta elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

## 42.

### Til Einars prests Thorlaciusar.

Kaupmannah. 30. Maí 1846.

Hæstvirti elskulegi herra pastor!

Ástar þakkir fyrir alla þolinmæði yðar að skrifa mér þó ekki komi úr mér bops nema einstöku sinnum. Það var illa farið hvernig tókst viðleitni mín í fyrra að útvega ykkur spekúlant, og hefir það án efa orðið ykkur nokkur bagi, þó eg gæti ekki að því gjört, en það er svona þegar maður verður að ætla uppá aðra. Ef frammá þetta ætti að fara optar, þá væri án efa bezt,

að nokkrir málsmetandi menn tæki sig saman og gjörðu tilboð, t. a. m. að þeir vildu hafa svo og svo margra lesta skip með þeim og þeim vörum, og skuldbyndu sig til að kaupa farminn með því eða því verði, fyrir vörur þær og þær með því eða því verði aptur á móti. Því skýrara sem þetta allt væri ákveðið, því vísara væri að spekúlantinn kynni að verða útvegaður, en eptir munnlegum óákveðnum óskum er valt á það að gizka, því þá fara þeir eitthvað út í buskann og setjast að þar sem þeir koma fyrst, ef þeim lízt þar á. Verzlunarfélögin mega geta ákveðið með vissu hvað þau geta lagt til af vöru, og það væri líklegt að í þau gengi alltaf fleiri og fleiri. Eg get vel skilið að Bornhólmararnir muni geta verið búnir að læra svo mikið að þeir taki til sín sjálfir mestan ábata þann sem þeir geta haft á ymsu af því þeir eru ekki héðan frá Khöfn, þar sem mart er hér dýrara; en því megið þið búast við, hverja sem þið fáið til að skipta við, og er það einúngis keppni þeirra sjálfra, sem að sækja, sem aptur er komin undir fjölda þeirra, sem á að hjálpa ykkur. Concurrencen er líf kaupenda, einokunin er líf seljanda. En Concurrence fái þið aldrei að gagni fyr en verzlanin fæst sem frjálsust.

Það er gott að þér eruð búinn að lesa þessa nýju »postulanna gjörníngabók«, þó yður líki ekki sumt í henni eins vel og það væri eptir sankti Pál. Við megum nú búast við því, sem segjum eitthvað á prenti eða á þíngi, að ekki verði allt samþykkt i hverju horni, og þó að þér leggið vægan og helzt of vægan dóm á það sem eg hefi gjört sérílagi, þá er eg ekki svo blindaður, að eg sjái ekki í huga mínum marga öðruvísi dóma um það, og viti líka sjálfur, að það mátti ekki lakara vera. Eg get reyndar annars ekki neitað því, að mig furðar að heyra meðmæli mín með skólamálinu dæmd harðast, og eg þoli ofboð vel þessháttar dóma; ef mér yrði auðið að vinna nokkuð álit meðal landa minna

væri mér reyndar minnst sorg að missa það fyrir meðmæli með öðru eins máli, en vegna landsmanna sjálfra væri það að mínu viti sorglegt factum. — Eg heyri þér munið vera okkur samdóma um hefðina, og þér munið ekki vera fús á að játast undir það lögmál sem ekkert kærir sig um dolus malus, eins og danska hefðin er. Hitt finnst mér þér dæma nokkuð hart, um alþíngiskostnaðinn og um prestatekjurnar, þegar þér lítið með sanngirni á allar kríngumstæður og setjið yður í þíngmanna stað, og það eigi þér að gjöra. Það er hægt fyrir Barða og hvern annan að finna að því sem aðrir stínga uppá, og þegar það eru nýjar álögur þá fær hver sá meðhald sem mælir móti þeim. En *ef* ekki verður hjá álögunni komizt, og í því finnst mér að öll alþýða hafi verið þeim samdóma sem í nefndinni voru (eg segi *þeim*, því eg vildi reyna að koma þessari álögu af okkur og á stjórnina, eptir því sem nú er ástatt, en eg komst ekki fram með það og finn líka að mikið mælti móti því), þá sé eg ekki neinn betri útveg meðan öllu hagar svo sem nú er. Eg sé með engu móti að fasteignin sé eins þúngt skattlögð einsog lausaféð. Eg þekki marga stóra maurapúka, sem setja allt í jarðir og eiga hundruð hundraða, og fari bölvað ef þeir eru í skatti. Þó þeir gefi vættar virði til fátækra er ekki að telja; fasteignartíund borga landsetar og gjalda fullan leigumála eigi að síður. Það er satt, gjaldið er nokkuð þúngt, en ekki sé eg það sé áttfalt í neinu tilfelli sem skaðar; það er einmitt áttfalt í kaupum, þ. e. að menn skulu gjalda $4^0/_0$ fyrir $^1/_2{}^0/_0$, en hitt er ekki tvöfalt ɔ: $8^0/_0$ í stað $4^1/_2{}^0/_0$ þegar um úterfðir er að gjöra. Eg held varla, eptir því sem eg þekki til, að menn gjöri 20 speciur að frágangssök þar sem maður vill kaupa jörð fyrir 1000 dali, og svo er um hvað annað eptir því. Eins er um útarfa. Fátæka munar reyndar um hverja 8 dali, en eptir því sem eg held vilja þeir heldur 92 dali en ekkert, og vilja varla verða af þeim, þó þeir

ætti að gjalda þessa 8. Þetta er ekki svo að skilja, að eg sé viss um að stjórnin fallist á þetta frumvarp þíngsins, heldur en önnur, því henni mun hafa þótt þíngið í flestu heldur liberalt, eptir því sem eg heyri, en rétt held eg það væri að fylgja þvi til reynslu, sem margir af helztu ríkismönnum landsins hafa fallizt á. Stjórnin finnur að svo stöddu ekki annað betra. Um prestatekjurnar sýnist mér margir játa það sem satt er, að þær þurfi bóta við, að þetta frumvarp bætir þær ekki, en ekki finnst mér það sanngjarnt, að ætlast til að alþíngismenn geti gjört meira í því máli, en einmitt gjört var, með tilliti til virkilegrar bótar, og eg er viss um, að mín uppástúnga, að kasta frumvarpinu, til að neyða stjórnina til að koma fram með reglulegt frumvarp til að bæta kjör prestanna, mundi hafa mætt miklum mótmælum eins utan þíngs og á þínginu. Séra Halldór, sem fylgdi máli prestanna af öllum mætti, gat ekki farið lengra en hann fór, og að skipta þessum 1000 dölum upp, meðan allt lendir í smásmökkum hér og hvar eptir óáreiðanlegri skiptíngu, sýnist mér ekki ætti að vera vilji prestanna sjálfra; það eykur kostnað án þess hans sjái nokkurn stað. Hvað kemur til að prestarnir fara ekki að halda fundi, til að tala um málefni stéttar sinnar, og einkum um að endurbæta alla umsjón á kirknagózunum, sem er í mestu óreglu á mörgum stöðum? Það er einsog umsjón gózanna, sem er fótur undir öllu líkamlegu uppheldi prestanna, sé einkis metin, þar sem prestar fá víða hvert brauð af öðru, og niðurníða jafnóðum. Þeir sem aldrei hafa getað búið skammlaust á litlu koti í þíngabrauðum fá stærstu staði, með miklu gózi, til meðferðar, og, einsog vænta má, er allt komið í flag á 5—6 árum, svo eptirmaðurinn, ef hann er duglegur, hefir nóg að gjöra um 10 ár, að koma öllu í samt lag, en ef hver trassinn tekur við af öðrum er allt fordjarfað þángaðtil að bezta brauð er ekki orðið lífvænt lengur. Þetta held eg sé aðalatriði í málinu,

og úr því geta prestarnir sjálfir mikið bætt, ef þeir vilja taka sig saman um það, og gánga undan öðrum í að bæta stjórnina og meðferðina á því jarðagózi sem þeim er trúað fyrir, annars verður endirinn að góz þessi verða seld og prestar settir á föst laun, og sjáum hvort það verður þeim hollara en hitt gæti orðið með góðri stjórn, en stjórnina geta prestar skamtað sjálfir ef þá vantar ekki samheldið. Ekki finnst mér það ósanngjarnt að lækka legkaupin einsog gjört var, en hin atriðin þótti mér ekki eiga að mínka, og það verður varla gjört, en ekki finnst mér þér geta kennt bændum um það örlæti að menn fái 3 dali í dagpeninga á þingferðum, því þeir hefði ekki ákveðið svo mikil laun ef þeir hefði ráðið. Annars má eg segja yður fyrir satt, að hvað mér viðvíkur, og voru mín laun gífurlega há að öllum virtist og með réttu, þá hefi eg ekki á endanum unnið mèr meira inn en með því að sitja hér kyr í Höfn, því það er ótrúlegt hvað massast upp, að minnsta kosti fyrir mér, í þessum ferðalögum. Að öðru leyti finnst mér, að ekki þyrfti, eptir því sem nú stendur á, að ákveða hærra gjald en til 2 dala daglega, og er viss um að þíngmenn mundu fallast á það. In summa: eg vildi óska að þínginu færi svo fram, og Íslendíngum, að þetta yrði það lakasta alþíng þeirra.

Ekki finnst mér þér ættuð að sleppa Hlíðarhaganum, því þegar rentuk(ammerið) concederar, að hann hafi verið eign kirkjunnar, þá er allt unnið, að mér skilst; því kemur ekkert við hvort kirkjan þarf jarðarinnar við eða ekki, og að minnsta kosti ætti kirkjan að fá andvirðið sem rentuberandi sjóð með leigum frá dato sölunnar. Eg trúi að til só eitthvert lagaboð frá 1780—90,[1] sem bannar að sundra jörðum frá kirkjum. Þér megið ekki kippa yður upp við þó vöflur verði á

[1]) Það er rescr. 30. Juni 1786, prentað í P. Péturss. Hist. Eccl; er það reyndar um Skálholts góz, en princip þess er almennt, og in specie má það gilda um Hólagózið. (Aths. bréfritarans).

rentukammerinu, því það er ekki verra en vandi. Hafi þér farið í kansellíið? Það er eiginlega yðar forsvar; fyrst samt stiptsyfirvöldin. Ef það dugir ekki, sem mér skilst af bréfi yðar, þá er ekki annað en sækja um beneficium processus gratuiti, og verður kirkjunni varla neitað um það. . . .

Um hitt erindið, að taka skuld yðar hjá búi Jónasar sál., hefi eg ekki gjört neitt. Bókmentafélagið hefir ekki fengið fyrir útfararkostnaði hans, því hann átti ekki 20 dala virði, því síður meira; eg hefi þessvegna sleppt þessu, því eg þykist viss um, að þér viljið ekki gefa í orðinu einu saman, þegar ekkert getur verið annað, þó það sé söm yðar gjörð, og eg veit þér vilduð ekki láta geta yðar að slíkri gjöf, þegar svo á stendur.

Eg vildi gjarnan biðja yður um hverjar skýrslur sem þér gætið útvegað mér um verzlunina og hvernig hún gengur, og hverra annmarka þið verðið varir. Að því getur orðið gagn, ef til þess þarf að taka, sem uggvænt er.

Nú er eg búinn að gánga hreint framaf yður með þessu masi, en eg vona þér forlátið mér það.

Yðar hreinskilinn vinur og heiðrari

Jón Sigurðsson.

43.

Til Stefáns alþingismanns Jónssonar.

Khöfn 30. Maí 1846.

Elskulegi vin!

Kærar þakkir fyrir allt gott, og seinast bréf yðar elskulegt með skólareikníngnum. Eg hafði hann áður, og þessvegna sendi eg yður hann aptur. Það er satt,

að þegar talið er allt til 1834 verður summan fyrir Hólagózin með leigum 140,000 rúmar, en það er ofmikið að telja svo, sem sjóð, því ekki er að gjöra ráð fyrir að skólinn hafi ekki þurft meira en Skálholtssjóðinn einn til þess 1834; hann hefir ekki hrokkið til lengur en þángaðtil svosem 1809, til stríðsins hérumbil, en síðan hefir gengið miklu meira í súginn. Í þessu máli kemur annars mest undir því, að fá stjórnina til þess að gjört verði úr skólanum það sem við þurfum með, og láta svo gánga í þessa blönduðu reiknínga, fyrst stjórnin vill ekki, að við höfum reikníng okkar, eða *meðan* hún vill það ekki.

Ekkert er farið að gjöra við alþíngismálin enn, nema það sem gjört er við skólann, en í haust hefi eg heyrt að eitthvað eigi að koma, hvað sem það verður. Eg er hræddur um, að ekki veiti af þó þíngmenn taki djarfara til að ýta undir í næsta sinn en í sumar, því þetta gengur aldrei.

Vænt þætti mér ef þér vilduð taka nákvæmlega eptir verzluninni og öllum annmörkum hennar, og skrifa það upp, svo eg gæti fengið það, því ekki er sagt nema meiri áróður þurfi áður en verzlunarfrelsið fæst, og er þá gott að hafa á reiðum höndum það sem uppá er að kæra. Um alþíngismálið vona eg þér hafið bænarskrár til næsta þíngs, því við megum með engu móti hleypa því máli framhjá okkur optar, hvað sem í skurðinn gengur. Um fjárhag landsins er líka mesta nauðsyn að hugsa, og ekki held eg sé ráð að gjöra neitt við skattana, nema ef þeim yrði jafnað niður, meðan ekki fæst reikníngur fyrir landið, sem sé réttur og skýlaus. Eg þykist vita, að sá sami sem styrkti tilbúníng þessara bænarskráa í fyrra muni gjöra það enn, og væri gott að þér bæruð yður saman við hann nákvæmlega um það efni, og fengið öll þau skýrteini sem þér gætuð og svo hans meiníngar um það, því

ekki er manninn að ugga ef hann vill vel styðja málið, sem eg vona, því hann sér bezt að það varðar miklu. Mér þætti afarvænt um að fá að heyra álit hans um það í helztu merkisatriðum.

Forlátið mér þetta flýtisrisp og verið kærlegast kvaddur.

Yðar skuldbundinn elskandi vinur

Jón Sigurðsson.

44.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Kaupmannah. 10. Juni 1846.

Elskulegi bróðir minn!

Mikið máttu þola af mér, að fá aldrei ærlegan miða, svo sem þú ruslar þó í mig rétt góðum bréfum opt, en ekki verður þessi seðill til að bæta úr skák. Þú sér hvar komin er lýsíngin þín um Heklugosið, og er eg að vona, að Félagsritin okkar hafi gagn af þessum Hekluritum, en ekki gátum við grafið neitt upp um hin fyrri gos, því pláz var ekki í ritunum, og urðu þau enda of stór. Hér er samt á Kóngsbibliotheki eitt og annað um þau efni, og í því gref eg ef eg get, en eg hefi samt ekki tíma til þess nú almennilega. Nú vona eg þið fáið tímarit, þegar skólinn er kominn á laggirnar, því nú er fyrst kostur á því, og hlakka eg nú til að sjá hvað frá ykkur kemur. Ekki komst það svo fyrir, að við gætum orðið við skólann, bróðir minn! og verðum við líklega að hafa þolinmæði, en kannske við verðum líka nábúaprestar, því ef mér líkar ekki hér til lengdar, ber eg mig að fá brauð, eða eg fer að búa á herragarði mínum fyrir vestan. Þú verður þá að koma þángað, og stofnum við nýlendu á Vestfjörðum.

Já, satt er það, stjórnin ætti að senda menn um ýms lönd til að sjá og skoða. Norðmenn senda á hverju ári eitthvað til einhvers, og núna sendu þeir einn til að læra Tachygraphi til að rita á stórþínginu. Þeir hafa sent menn til Skotlands, Nýfundnalands o. v. til að skoða fiskiveiðar og fiskiverkun; hann[1] dó á leiðinni, en menn væntu að ritgjörð kæmi út um ferð hans og eptir henni lúri eg. En það er eins um það og annað hjá stjórninni hérna, það sem Ísland snertir, og er það mikið því að kenna, að þeir sem mega sér mest í okkar flokki eru svo meinlausir að þeir gjöra sig ánægða með allt okkur til handa, þegar þeir hugsa, að ekki eigi að skaða okkur meira en híngað til. Vaninn er þeim nóg ástæða, á hverju sem hann er byggður, og þeir eru svo miklir í lítillætinu, að þeir þola að landið og landsmenn sé skoðað sem undirlægja. Væri allir samtaka í alvarlegum og stillilegum kröfum (þó enginn ofsi væri), þá sæi fljótt muninn.

Það verður gaman að heyra um nefndina í sumar, og feginn vildi eg eiga bréf frá þér um það sem gjört verður, því þú veizt það allt. Getur þú ekki komið því til leiðar að aðgjörðir nefndarinnar verði prentaðar. Það er bæði synd og svívirðíng, að slíku máli skuli vera kastað í menn einsog hunda, og þegar menn segja vitleysu, vegna þess enginn getur sett sig inn í málið, þá er mönnum talið það til skammar einsog von er, og kannske sama málið látið hrekjast á 2—3 þíng. Eg er ekkert áfram um nema ef vera skyldi að *jafna* skattgjaldið, meðan verzlan er ekki orðin laus og enginn reglulegur reikníngur fæst, sem sýnir hvað til landsins gengur. Eg vil ekki að við eigum nein eptirkaup við stjórnina.

Sumir eru að segja að Barði verði *ekki* konúngsfulltrúi í næsta sinn. Það veiztú betur. En hvað sem verður, þá vona eg þú verðir á næsta þíngi, og þar hittumst við aptur.

---

[1]) svo.

Með kærri kveðju konunnar minnar og minni til ykkar allra er eg ætíð

þinn heitt elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

Með bréfinu fylgir flaska og litunarefnið sem þú baðst mig um.

## 45.

### Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Kh. 26. Aug. 1846.

Elsku bróðir!

Kærar þakkir fyrir bréf þitt elskulegt, sem eg fékk í gær, það er svo mart í því, sem eg get ekki skrifað neitt svar uppá núna í snatri, því skip er nú á förum, en eg sendi þér einúngis í eskju það sem þú segir þér liggi mest á. . . .

Veslíngs bróðir, að missa drenginn þinn, og ekki síður með ýmislegt annað bágt, en það gengur svona í þessu lífi, og það er einsog sá hafi bezt úr býtum, sem getur verið einsog járn eða stál. Eg vil vona að guð gefi þér að konan þín hressist að fullu og öllu, og þú verður að hafa dálítið vit fyrir þér, að þeir drepi þig ekki fyrir okkur, því engum er það til gagns né góða, nema það skyldi vera sjálfum þér, og þú veizt það, að þér til eigin gagns áttu ekkert að gjöra. Mikill fjandi er að vera svo aumur að geta ekki komizt til að slaðra eina dagstund við ykkur, því eg vona, að eg gæti þá elt úr þér dálítið og við hvor úr öðrum, eptir góðum gömlum vana. Eg er líka stundum fjandans samvizkumórauður yfir því, að ekkert gengur, og allt er einsog fari gegnum greipar manni; úngir menn sem maður hugsaði mundi gera nokkuð, gera ekkert, o. s. frv., en

á aðra síðuna sé eg að þetta er commune fatum. Ekki fellur tréð við fyrsta högg. Þó það sé logn á þeim nú, þá verða þeir neyddir til að gera eitthvað með tímanum, og eg hefi góða von um að verzlunarfrelsið komi, og komi undir þá fótunum á einhvern hátt. Eg þegi nú hreint, en eg safna í r(entu)kamm(erinu) einsog áður, og vona að verða búinn að ná nokkru til muna í vor, en vel finn eg það, að eg er í illu dilemma, og skyldan býður mér að fara varlega, þó það sé af egoisme. Eg vildi eg ætti 50—60 þúsund pund Sterling einsog Cobden, þá skyldi eg sýna þér hvort þú yrðir ekki ánægðari með mig en þú ert núna, því fullir kunna flest ráð, en mér finnst vera nokkuð hált að byggja uppá, að menn fái fullkominn og fastan styrk af Íslendínga hendi, meðan þeir eru ekki komnir lengra en nú, og ef nokkuð ætti ágengt að verða eptir þeim methode þyrfti ærið fé og svo mikið, að maður gæti keypt nokkra menn til þess sem gjöra þyrfti, bæði að rita og ferðast heima og hér og í útlöndum. Heldur þú að fram á þetta sé faranda, að svo komnu, eða ertu ekki mér samdóma í því, að láta fyrst sjá hverju fram vindur, og reyna að leiðbeina dómum manna, pota smátt og smátt, og koma því áfram, sem er lykill hins — það er að minni hyggju verzlunarmálið. — Annað er það, að meðan það er ekki unnið má maður fara varlega að stjórninni, því ef hún verður alvarlega mótsnúin, þá er ekki styrkur á okkar síðu til að halda fram í, heldur mundu flestir heykjast, og það einkum þeir sem eiginlega mega mest hjá henni. Þessvegna verður að fara varlega fyrst í stað, og ef mögulegt er halda sem mestu saman. — Þér þykir nú þetta kannske vitlaus pólitík, og hrædds manns merki, og verð eg þá að þola það. Eg vona þú ætlir mér ekki, að meiníng mín sé breytt eða vilji til að gjöra hvað eg get.

Þetta máttu engum segja, nema þeim sem eru trúir sem gull, og þó því aðeins að þér þyki nokkurs vert að hugsa um það, annars vil eg gjarnan biðja þig að brenna miðann, en setja á þig efnið og skrifa mér um það eitthvað. Eg vona þaraðauki eptir því sem þú lofaðir mér um læknasetníngarnar.

Kysstu konu þína elskulega frá okkur, og verið þið öll guði falin.

Þinn af hjarta elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

## 46.

### Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Kaupmannah. 7. Sept. 1846.

Elskulegi bróðir minn!

Eg var að hugsa að geta ennþá bullað einhverju uppá þennan miða, hvernig sem það fer; þú fékkst seinast frá mér lúsaseðil, með því sem þú beiddir um nema bókunum, og kemur það af því, að þær eru svo fjandans dýrar, brúkaðar fyrir 8 dali, að mér þótti það ofgefið og vildi sjá hvort eg fengi þær ekki billegri, eða að minnsta kosti bundnar; kannske þú segir mér til þess, af því mér skilst þér liggi ekki á þeim svo mikið.

Mikill andskoti er að vita um mislíngana, hvernig þeir hafa eytt og drepið landið í sumar, og ekki skil eg annað en það sé merkileg handvömm að geta ekki stansað þá, þar sem þeir komu í fyrstu, en það gengur svona með allar sóttir heima, að þær ganga um allt land, þegar þær ná festu á einum stað, af því engin tilsjón er með neinu og allt hyskið gengur sjálfala einsog kindur í skógi. Það er nú kannske ópraktiskt hugsað af mér, en eg held að gjörlegt væri, að hindra útbreiðslu sóttarinnar, með því að stoppa hana þar sem

hún brýzt út og hindra samgaungur milli sjúkra og heilbrigðra. — Nú er Sundhedscollegium komið í ginklofann. Það á að setja á stofn »Födsels- og Pleje-Stiftelse« á Vestmannaeyjum, og senda þangað lækni, sem á að vera þar 1—$1^1/_2$ ár, með 100 dala launum um mánuðinn, og ferðakostnað ríflegan að auki, til að skoða ginklofann og semja »medicinsk Topographie« yfir eyjarnar. Jarðabókarsjóðurinn á að borga að nokkrum hluta, en Finantserne að nokkru. — Þú segir það satt, að ef ætla á til kennslu í Reykjavík fyrir lækna, þá má búast við kostnaði til þess, en það er líka tilætlun mín, að sjóðir spítalanna yrði til þess nægilegir, þegar þeir safnast um nokkur ár, og þeir hafa líklega frið til þess þángaðtil nokkru verður komið í kring. Það er meðfram þessvegna, að mér finnst mest á ríða þeirri grundvallar-endurbót, að kennsla fáist á Íslandi, því þegar þar er kominn læknaskóli á stofn, þá vænti eg að umbætur á sjálfri læknaskipuninni fylgi eptir, en að hafa danska lækna 3—4 ár og síðan gefa þeim 200 dali uppfrá því, þykir mér hart, því mér finnst þeir gæti verið kyrrir, ef þeir annars vildu til Íslands fara. Hitt er sanngjarnlegt að auka laun allra læknanna, einkum með áratölunni, og láta þá ekki þurfa að drepa sig á svo fráleitlegu ferðalagi einsog þeir mega nú hafa, ef þeir vilja hjálpa nokkrum manni. Þér er kannske ekki um kennslu í Reykjavík, en hvar á að hafa hana? Það er þó annað hvort að vilja eða vilja ekki, annaðhvort enga kennslu eða þá þar sem henni verður hægast komið við. Því verðum við að halda fast, að sameina okkur um aðalatriði, sem við viljum hafa fram, og fylgja þeim síðan í einíngu, hvort sem lengur er eða skemur, þángaðtil þeim verður komið fram; að gánga strax í frumvarpi til stjórnarinnar inn á detail, verður ekki til neins annars en til að gera mótstöðuna því meiri, einkum þareð stjórnarinnar hugmyndir eru svo gagnstæðar því sem Íslandi er hagkvæmast, að okkar hyggju.

Annað er það, þó þú skrifir Sundhedscollegio, ef þú bara getur sannfært það, en það held eg samt reyndar, fyrir mitt leyti, — það máttú samt betur vita, — að ekki væri vert að detaillera ofmikið við Sundhedscollegiið, heldur framfylgja því aðalatriði, að læknishjálp sé engin í landinu til hlítar, og hún fáist ekki nema stofnaður sé þar læknaskóli einhverstaðar, ef þú kannt þér ekki geð til að mæla með Reykjavík. Því sterklegar og betur sem með þessu er mælt, og hrundið helzt þeirri ástæðu Sundhedscollegii, að það leiði til »Halvdannelse« og þessháttar, sem Bardenfl(eth) hafði frammá, því betra. Helzt væri von á að einhverju yrði komið fram, ef Sundhedscollegium og kansellíið fengi sömu meiningunа allstaðar að, en það er hætt við, að það yrði ekki, ef farið væri meir í detail, og spilltist svo grundvallaratriðið fyrir það sama. Eg hrósa nú Skúla fyrir það, að hann lét leiðast inná það, sem eg kalla grundvallaratriði málsins, og það er að stofna læknaskóla og spítala á Íslandi sjálfu, á þeim stað sem helzt er nokkur bæjarmynd, og nokkur concentration, í Reykjavík, en ekki uppí sveit á einstökum bæ, úti á eyðimörku. — Ef þessi skoðunarmáti minn er vitlaus, bið eg þig fyrir alla muni að sannfæra mig sem fyrst þú getur, og í öllu tilfelli gefa mér svo ríkt og gott materiale sem þér er auðið, því eg kem með málið fram á þínginu alltaf, hvað linlega sem það verður, þángaðtil að minnsta kosti verður rituð um það bænarskrá.

Illa láta þeir af rektor fyrir sunnan. Samt hafa stiptsyfirvöldin veitt 60 piltum skóla, og trúi eg það væri móti hans vilja, síðan voru 11 eptir og vildu fá leyfi að vera í tímunum, en rektor setur sig móti því, og segir kennarar hafi svo mikið starf; en á hina síðuna vill hann ekki samt láta setja mann í vetur í stað Konráðs. Þessir kunna að spara. Það er annars merkilegt, að þeir skuli sækja um skólann í Reykjavík, því

eg trúi bæði Bjarni sál. Thorarensen og fleiri spáðu því, að enginn mundi sækja ef skólinn yrði fluttur þángað. — Þú talar um kostnaðinn og hvað hann muni leiða til að skattar hækki. Eg sé ekkert vandræði í því. Okkur er gefið nú sem stendur að velja um tvennt: annaðhvort að hafa reikníng fyrir okkur og bera okkur sjálfir, en þá jafnframt hafa atkvæði í hvernig peníngum landsins er varið; það stendur í sambandi við að við fáum landstjórnarcentrum á Íslandi, og losumst við rentukammerið og hin collegia, en höfum einúngis Statssecretær hér, og eina skrifstofu okkur, sem hefir referat til konúngs. Til þess leiðir verzlunarfrelsið, að minni hyggju, að þetta verður ‚uundgaaeligt' seint eða snemma. Annað er hitt, að hafa allt einsog híngaðtil, í graut, saman við Dani, og það vill stjórnin einmitt, svo þeir sem eru hræddir við hitt, að losast, þareð þeir halda að landið geti ekki borið sig, þeir mega vera glaðir, því stjórnin stendur því streyttari við að halda öllu í grautnum, sem beðið er um hitt af þeim, sem hún heldur vilji draga Ísland undan. Þegar svona stendur á, verður mér ekki illt, þó Danir gæti sagt með sanni, að þeir skyti til svo sem 20—30,000 á ári, er það nú meðan þeir hafa verzlunina, hvað þá nú einsog er, þegar þeir gefa ekki einn skildíng. Fyrir þá sök er eg óhræddur, og vil helzt að allir sameinuðu sig til að heimta og heimta, án þess að hugsa neitt um kostnaðinn. Eg held rétt að fylgja þeirri pólitík, að heimta að reikníngarnir sé skildir að á aðra síðuna, og á aðra síðuna heimta allar umbætur sem þarf, með þeim kostnaði sem nauðsynlegur er, ekki gífurlegum og ekki heldur nirfilslega tilteknum. Það fyrra vill nú ekki stjórnin veita, en telur þó eptir allt hvað hún getur, og þykist gjöra okkur vel til, við þökkum það að engu, en bjóðum að bera okkur sjálfir, og segjum okkur vel færa um það, einsog við vissulega erum, ef vel er á öllu haldið, þó ekki væri hækkað

neitt, nema eptir því sem landinu heldur færi fram; en meðan stjórnin heldur þessu taki, þá heimtum við, því í fyrra tilfellinu getum við staðizt, og í seinna tilfellinu getum við áunnið nokkrar skaðabætur að líkindum, ef við erum ekki of meinlausir.

Eg skal sjá betur um reikninga okkar, og ef mér er mögulegt bæta úr skömm minni, sem er helzt of mikil; en þú ert líka andskotans órímilegur með sumt, t. a. m. að skamma mig fyrir 10 dalina til varða sr. Tómasar, þar sem þú hefir sjálfur með eigin hendi skrifað þig fyrir 10 dölum, sem sjá má á listanum, og eg get sent þér notarial Attest uppá ef þú vilt, því eg skoðaði það nú aptur hjá Brynjólfi Péturssyni, til enn meiri vissu. Þó eg sé makalaus gapi með peninga, þá er eg ekki svo vitlaus, það veiztu, að eg fleygi *þínum* peningum útí aðra en sjálfan mig svona að raunarlausu.

Hvernig á eg að fara að því, þar sem þú kvartar yfir klysteerpípum óbrúkanlegum sökum formsins — hvernig eiga þær að vera? Eg get ekki tekið þær öðruvísi en eg hitti þær, því eg hefi ekki skyn á betra formi. Eins er með brokböndin. Olsen bölvar sér uppá, að enginn maður brúki hér brokbönd öðruvísi, og það sé bölvuð vitleysa að hafa þau stífari, því þau drepi mann. Hvern fjandann á eg að segja? Eg segi, að Gísli bróðir megi vita það betur, læknirinn. Hann segir að Larsen á almenna spítala taki þessi og vilji ekki önnur hafa, og Gísli bróðir megi vera makalaus hrossalæknir, að bjóða nokkrum stífari bönd, þarsem þessi sé svo, að sumir hér þoli þau ekki vegna þess þau sé of stíf. Þó maður skammist og haldi hörkunni verður maður reyndar undir samt. — Selskinn Mad$^{m}$ Menne hafðir þú sannarlega beðið um, því það stendur í bréfi þínu, en skammirnar hefir hún fengið og skinnið aptur, og vona eg þú apturkallir hvorugt héðanaf. — Þess gat eg ekki, að Olsens böndin voru öll útdjöfluð og fordjörfuð, þegar þau komu að heiman.

Lítið er mér kunnugt um athafnir Gunnlaugs, nema eg trúi hann legði út bók eptir Levy, sem ætluð var til prentunar, það var yfirsetukvennafræði; hvað honum líður til examens veit eg ekki, og það held eg enginn viti, nema ef hann veit það sjálfur. Jónas Guðmundsson sem híngað kom í fyrra, hefi eg heyrt muni ætla að leggja fyrir sig læknisfræði; hann er iðnisgrey og fátækur, eptir því sem út lítur, væri hann hjálpar verður, hver sem gæti, en Gunnlaugi hefi eg minni trú á, og er hann þó án efa gáfaður, og ekki er hann schofel í framgaungu né útliti, heldur er hann mikið nettur og sómasamlegur. Eg verð þessvegna að játa, að það er meira einskonar grunur og ýmugustur sem eg hefi til að anda á móti honum, heldur en að eg geti fært til þess nokkur áreiðanleg data. Fyrirgefðu mér, elsku bróðir minn! þessa romsu svo leiðinlega og ljóta. Kysstu konu þína elskulega frá okkur báðum. Guð veri hjá ykkur æfinlega.

Þinn af hjarta elskandi bróðir.

Jón Sigurðsson.

47.

Til Eggerts Ó. Briems sýslumanns.

Kaupm.h. 28. Sept. 1846.

Elskulegi vin!

Eg vona þú hafir fengið bréf og reikníng frá mér þegar þú komst heim, og þessvegna repetera eg það ekki . . . Ekkert heyrist úr nefndinni hjá ykkur, nema að komin eru veiðilögin og kveðst Þórður Sveinbjarnarson hafa samið; það máttu bezt vita.

Ef eg lifi til vors og ekkert óvænt fyrir fellur, þá kem eg vestur fyrir þíng (nema þið frábiðjið ykkur mitt Besög vegna kostnaðarins fyrir landið?!) og er þá

víst bezt við höfum það einsog seinast, ef þér sýnist ekkert móti því. Eg er hálfpart að vona þú verðir þíngmaður af konúngs hendi núna, og þá getum við orðið samferða. Þú gjörir víst svo vel að styrkja þá með bænarskrár einsog seinast. Magnús Einarsson treystir þér eins og auganu í sér, og eg líka, en blessaður vertu ekki of moderat, því ekki hækkum við tóninn þegar til þíngs kemur ef eins fer og seinast. Það er helzt alþíngismálið sem mér liggur á hjarta, ef því yrði komið fram, og svo læknamálið. Gæti eg fengið nokkrar línur um þetta í þinni makalausu Tacitus stíltegund (þú sér eg vil hafa laung bréf), þá væri vænt, en það er líklega ómögulegt að fá það lengra en svo sem tíu línur?

Vertu ætíð blessaður og sæll
þinn elskandi vin
Jón Sigurðsson.

48.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Kaupmannah. 28. Sept. 1846.

Elsku bróðir!

Stór koppur skal mat drýgja, segja menn, og svo ætla eg til að þetta blað verði þó bréfið verði stutt. . . . Héðan er ekkert öðru nýrra. Konráð er kominn frá Þýzkalandi, en fer ekki heim nú, og sumir segja ekki síðar. Grímur er í París. Hannes er að fara upp til theologisk, og vildi eg óska hann yrði nú heppinn, því það er tóm óheppni sem honum hefir baggað, og kannske ólag. Fréttirnar heima fær þú. Það var vænt að Jens komst að skólanum, og trúi eg sé séra Árna að þakka, eins og hitt að svo margir fengu skólann. Það er þó betra en ekki. Illar fréttir fáum við um

sölu á Félagsritum vorum, og er það slæmt, en hvað á að segja? Það mun verða að mínka þau aptur og reyna það fyrst, eða er hægt að fá fleiri áskrifendur? Séra Einar Hjörleifsson hefir ekki fengið sín, þegar hann skrifaði mér, því þú hefir ekki komizt fyrir nauði og og ös ofaní kaupstaðinn til að fara í pakkann, svona gengur, og nú var þó búið um, einsog þú sagðir fyrir.

Séra Markús í Holti hefir fengið Oddann, og Blöndahl sálugi fær bréf með póstskipi, að hann sé orðinn kansellíráð, svo það kemur sér vel; líklega á hann að fara til þíngs líka í næsta sinn.

Jöfur er harður við Holseta, og typtar þá með höggormum. Nú segja menn að þýzka sambandið hafi ályktað eitthvað í því máli, og eitthvað má það vera ógeðfelt Dönum, því Berlíngur vill ekki segja frá því, og þykist ekki viss um það enn.

Nú, nú, þarna hefir þú þetta bréf. Kysstu konu þína elskulega frá okkur

og verið þið bæði ætíð blessuð.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

## 49.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Kaupmannah. 28. Sept. 1846.

Elskulegi bróðir minn.

Kærar þakkir fyrir tvö bréf þín, elskuleg að vanda, og Gísli Thorarensen hefir borgað mér 30r. fyrir töfluna. Það er gaman að þú verður nú húseigandi næst, ef guð lofar við hittumst, svo maður hittir þig ekki sem fugl á »kvisti«. Ef þú gætir komið prentsmiðjunni dálítið til, þá kynni kannske að mega hafa gagn af henni, en annars er eg hræddur um að prócenturnar verði

litlar. Þú ættir að hafa $33^1/_3$ procent einsog bókakaupmenn hér, því þú mátt vera viss um, að sendíngar og umboðslaun taka þér gróft upp, og þegar sölumenn vita þú hefir prócentur, þá vilja þeir hafa þær allar handa sér. Þú ættir að sjá um, að accorð þitt væri ekki kunnugt, ef þú ætlar að hafa nokkurt gagn af því, annars verður prócent-reikníngurinn, að eg óttast, þér til skaða í bókasölunni. Hér gefur hvert félag sem hefir bókasölumann $33^1/_3\,^0/_0$ og það má Bókmentafélagið gefa Höst. En einkum verður þú að spana upp stiptsyfirvöldin að skaffa aðra pressu nýja, og duglegt fólk, og svo letur smásaman; gotneska letrinu þarf að eyða, eptir því sem það gengur úr [sér][1], en fá latínuletur í staðinn, og það ríflegt. Það er augljós sparnaður, því nóg er að hafa þrennslags letur (cicero, corpus og petit) fyrir utan titlaletur. Ef þú kemur þér vel fyrir, ættir þú að fara híngað og til Altona og vera hér einn vetur, til að sjá hvernig prentsmiðjum væri hagað. Þó Helgi sé vænn drengur, þá er hann ekki fær um að stjórna prentsmiðjunni, sem ekki er von til, og því framar sem þú gætir átt þátt í að drífa hana áfram og stjórna henni, og svo fá hana í gott stand, því betra gagn getur hún gjört bæði þér og öðrum.

Það er tilhlökkun, að fá blað frá ykkur. Eg skil það vel að það muni verða góðlynt, en ef það segir það sem rétt er með hógværum anda, þá getur það borið góðan ávöxt. Það er ekki svo gott heima, að rita mikið oppositionelt, þegar maður er umkríngdur á allar síður af ymsum og ymsum, allrasízt meðan blaðaliteratur er ekki komin þar lengra en nú er; en það ætti að vera fræðandi sem í blaðinu stæði auk fréttanna, því satt að segja erum við ekki komnir lengra enn, en að við þurfum helzt fræðslu, við þurfum að fá vit á að hugsa, tala og dæma með skynsemd; við þurf-

[1]) útgef.

um að fá »offentlig Mening — public spirit« eða hvað þú vilt kalla það; meðan það er ekkert nema í þoku og palldómum, þá er ekki við að búast að málameðferð og málaúrskurðir eða fyrirtæki heppnist eða verði að sérlegum notum. Það verður tekið í lurginn á öllu og nú gjört þetta nú hitt, rétt eptir því sem stjórnin eða einstakir menn geta komið fram í það skiptið, dettur svo allt niður, þegar einstakir menn falla úr, sem haldið hafa einhverju á lopt. Þessvegna er allt svo áríðanda, sem getur glætt félagsanda og samheldi, og sýnt hvað gott af því leiðir.

Það var þó gott, að piltum varð fjölgað, þó lítið vinnist á annars. Eg vona að það verði ýtt undir frá fleirum síðum að meira vinnist á með tímanum, og eg vona þú stælir upp þá Jens og Sigurð til að ýta undir, það sem verður, og þá vona eg að rektor láti tilleiðast. Það er skandale að piltum skuli vera neitað um pláz á *sinn* kostnað í þeim eina skóla sem til er, og sé ekki pláz til handa svo mörgum sem sækja þá *á* það að vera til, þó piltar yrði hundrað, hvað þá heldur. Þetta er svo augljóst, að enginn getur móti því mælt, og eg er viss um að stjórnin mælir ekki eitt orð móti því, ef það kemur fyrir. Rosenvinge var sem himinfallinn, þegar hann heyrði, að ekki fengi allir skóla sem sækti, og sagðist ekkert hafa vitað um það, og svona gengur, að þeir heima segja ekki til neins því þeir hugsa ekkert stoði, en þeir hér í stjórninni gjöra ekkert, af því ekki er látið hlymja yfir þá allt hvað menn vilja óska að gjört verði.

Reiðir munu þeir hafa orðið Félagsritunum, eptir því sem mér skilst á Jónassen, einkum vegna Bardenfleths. Eg sé þó ekki betur en að þar sé ekki harðir dómar, hjá því sem hann hefði mátt búast við annarstaðar. Það er því miður svo, að beztar áhrifur hafa dómar hér í blöðunum, jafnvel á þá heima, þar sem við viljum þó skrifa á íslenzku einmitt til þess að

bera okkur ekki meira fram en við þurfum, í þeirri von að þeir dómar verði til að laga mart, en þegar það stoðar ekki, þá verður maður neyddur til að fara til blaðanna hér, og verða þá dómarnir að vísu ekki vægari, ef þeir þykja nú harðir.

Eg hefi nefnt við Rafn um fornfræðafélagsbækurnar, en hann segist ekki geta á neinn hátt slakað til með verð úr því sem er, nema mjög margir væri áskrifendur. Eg sé ekki heldur, að verð geti verið lægra en 2r fyrir fyrsta bindi af Íslendínga sögum, með facsímilia og korti. — Þó að fengist svosem 50 áskrifendur fleiri, þá er maður ekki skaðlaus að heldur, og meira fæst nú ekki að líkindum, og svo er það venja heima, að þegar mönnum dettur í hug að kaupa ekki, ef illa liggur á manni, þá svíkst maður undan úr áskrifendatölunni, þegar minnst varir, og vill ekki taka við því sem hann hefir sjálfur skrifað sig fyrir. Íslendíngar eru mestu óþokkar í bókakaupum, miklu fleiri en ætla skyldi, það megum við sanna með Félagsritin, og líklega neyða þeir okkur til að hætta, einsog aðra góða menn, þegar minnst varir.

Eg sendi þér að gamni mínu Berlíng og Föðurlandið, og bið eg þig að lofa Jens og Sigurði að njóta þess með þér.

Heilsaðu hjartanlega föður þínum, ef eg ekki get skrifað honum, konu og börnum og tengdamóður þinni frá okkur báðum, og lifðu ætíð blessaður.

Þinn elskandi vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

50.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn d. 15. Jan. 1847.

Bedste Herr Pastor Gudmundsen.

. . . Jeg har hört að Baldvin Einarssons Portræt, meget godt truffet, skulde være i hans Kones Eje, er

det ikke muligt at faae fat paa det, og kan De ikke give os Bidrag til hans Biographie? Vi samler som De veed paa saadant noget til Ný Félagsrit, og om der var flere Landsmænd som vi kunde faa Oplysninger om, var det os saare kjært. Hav den Godhed at huske paa mig med denne Sag, og sige mig hvordan jeg skal bære mig ad, og om De vilde skrive til hans forhenværende Kone over i Ditmarsken, var det os en stor Tjeneste, vi skal indestaae for Portrættet, og gratis Exemplarer af Lithographien kan vi overlade.

Herfra er Intet særdeles Nyt. Alle Landsmænd have det godt. Konráð arbejder paa sit dansk-islandske Lexicon, og Magnús Eiríksson staaer efter Slaget og venter paa hvad der skal gjöres. Han er Pokker ikke gal, med mindre det skulde være, at han er altfor begejstret for Troen. Jeg synes Martensen er en daarlig Makker, hvis han lader saadant noget sidde paa sig, thi har end M. E. været grov, saa har han sgu dog anfört væsentlige Grunde, og naar en lærer eet af Cathedra og et andet i Kirken, synes jeg at det er en Dobbelthed som er uforsvarlig. Det er saamæn heller ikke fordi M. E. har været grov, at han slipper, men fordi at Gejstlighedens Hoveder ville undgaae Spektakler, og nogen paastaaer, at Clausen vilde ikke sidde stille, naar M. Eir. blev trukken for Dommen. . . .

Jón Sigurðsson.

51.

Til Finns Magnússonar prófessors.

Reykjavík 3. Juli 1847.

Hæstvirti elskulegi herra etazráð.

Þegar eg skrifa línu til Hafnar á annað borð, get eg ekki með neinu móti neitað mér um að senda yður

miða, þó fréttir sé ekki allmerkilegar. Harðæri er hér mikið í verzluninni, til skamms tíma hafði Petersen einn rúg hér, og seldi ekki nema sínum mönnum, hvað sem í boði var. Nú er komið alls svosem 800—1000 tunnur til allra kaupstaða hér, og er ekki mikið undir lestirnar. Verðið er 12$^{r}$ tunnan. Bótin er, að bezta ár er uppá land og sjó, nema óþerrasamt, en, einsog maður lifir ekki af einu saman brauði, eins lifir ekki sjávarbóndinn af einum saman fiski, og sveitabóndi er ekki áfram um að selja, þegar svona stendur á, enda hafa margir menn við sjó, og fá fisk til búsnauðsynja. Komi nú harður vetur má drottinn ráða. Á Vesturlandi var ekki til tjara, ekki færi, ekki salt (nema sumstaðar 4$^{r}$ tunnan), ekki timbur. — Nú opnast augu margra, að kornlandið Danmörk sé ekki einhlítt, og vilja fegnir vita hvað stjórnin gjörir. Af alþingi er ekki sérlegt enn að frétta. Okkur Bard(enfleth) kemur saman líklega líkt og áður, og hann er enda allur vægari, enn sem komið er. Bænarskrár koma ótæpt. Ekki kemur nein Adresse frá þinginu í þetta sinn. Sveinbjörnss(en) er forseti, Johnsen varaforseti, Jónassen og séra Halldór skrifarar, en við Jón Guðmundsson »tíðindamenn«(!) Eg skrifa Brynj. Snorras(yni) nokkrar línur, og þar stendur sumt smávegis, sem hér er ekki, en hér aptur sumt sem hann hefir ekki.

Eg veit með vissu, að öllum yðar líður vel eptir hætti.

Fyrirgefið, elskulegi herra etazráð! risp þetta, yðar auðmjúkum og einlægum elskara

Jón Sigurðssyni.

Konan mín biður innilega að heilsa yður.

52.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Reykjavík 9. Aug. 1847.

Elskulegi bezti bróðir.

Nú er þá þetta þing úti og á enda, og eg er að búa mig til ferðar aptur þann 12. ef guð lofar. Guttormur getur sagt þér allt af létta um þíngið, einkum um spítalamálið, það gekk svo vel, að það er ekki fallið, en það er varla meira, þú fær að sjá að eg hefi gjört það sem eg gat, að minnsta kosti vona eg þú gefir mér þann vitnisburð, en líklegt er að eg hafi farið vitlaust sumstaðar. Kusi fékk þó dálitlar ágjafir, og sumir óska í hans stað að hafa aldrei til þings komið. . . .

Heilsaðu Þorsteini okkar sýslumanni ástsamlega og biddu hann að vera góðan.

Kysstu konuna þína frá okkur.

Þinn ætíð elskandi bróðir
Jón Sigurðsson.

53.

Til Eggerts O. Briems sýslumanns.

Khöfn 28. Sept. 1847.

Elskulegi Briem minn.

Ekki færðu nú lángt bréf en gott verður það, það get eg sagt þér fyrir. . . .

Eg er að bíða eptir riklíng, og er makalauslega gírugur, en skipin koma seint. Bjarni amtm(aður) er kominn fyrir svosem rúmri viku, og Withusen hefir verið að reyna við hann, en ekki veit eg hverja von hann hefir. Borgen í Eyjafirði er nýbúinn að fá em-

bætti, svo fallin er ein sýsla enn, samt skaltu ekki taka það svo, að eg vilji þú sækir um hana, heldur segi eg það i fréttaskyni. Hugsaðu eptir mér með gamlar skræður, og þar á meðal um æfisögurnar sem eg nefndi við þig i sumar og lögþíngisbækur (1704—1714, 1748, 1750—52, 1757, 1759, 1760, 1768, 1770, 1772, og hvað fleira, einkum af þeim sem eru eldri en 1772), eg skal vera makalaust þakklátur, og enda gjöra þér greiða aptur, ef þú kemur og heimsækir mig.

Feginn vil eg biðja þig gjöra það bezta að sjá um að alþíngistíðindin komist út, til þess þeir geti fengið þau, sem óska, en ekki mun eg þurfa að vænta þess, að þú leysir frá skjóðunni og segir mér nokkuð í fréttum. Þegar eg hugsa til þess, að þú skrifar mér helmíngi styttra en þetta, þá segi eg öllu lokið. Ekkert í fréttum nema mannheilt og ósjúkt og búið er.

Fyrirgefðu mér masið og kysstu konu þína elskulega og krakka. Eg bið líka kærlega að heilsa öllum góðum vinum og kunníngjum.

Þinn ætíð elskandi vinur

Jón Sigurðsson.

54.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 28. Sept. 1847.

Elskulegi bróðir minn góði.

Ekkert hefi eg nú að skrifa þér nema slúður, en eg læt samt hlaupa tvær línur til að segja þér, að eg lifi við þetta gamla, sæmilega. Við höfðum beztu ferð að heiman og eg er seztur við Snorraeddu á ný. Þú fær víst að heyra hvernig Magnúsi Eiríkssyni gengur, hann segir þér það sjálfur, Trojel er málflutníngsmaður hans, og heyrist mér ekki vera gott hljóð í honum;

sleppi M(agnús) með fángelsi kalla eg hann heppinn, og væri það betra en hann væri fríkenndur vegna fix Idee. Eg vil halda honum væri bezt að fara til Ameríku. Mér þótti ekki ómerkilegt að sjá þennan bækling sem hann hefir gefið út fyrir sr. Ólaf; hvernig lízt þeim hann eystra? — o, góður? — Nú er Gísli Thorarensen, að sagt er, settur til kennara við skólann í vetur, þvert á móti rektor og stiptsyfirvöldunum, en allt er in suspenso með Konráð enn, þó fer hann án efa ekki heim, en hann á góða vini og vill hjálpa þeim. Skúli Thorlacius gekk nú upp til tentamens í náttúrufræði í sumar, en það fór ekki feykilega vel, svo eg held hann eigi bágt að fá kennaraembættið í náttúrufræðinni, þó skal maður ekki segja hvað tekst. Hannes Árnason sækir um Staðastað.

Bókmentafélagið varð fyrir illu tjóni nýlega, að bækur þess óseldar brunnu allar, og var það af voðaeldi sem kom upp hjá manni sem bjó í sama húsi. Etazráð Finnur Magnússon er mikið lasinn, og þetta tilfelli tekur uppá hann meðfram, því hann hefir víst Nervesvækkelse í öllum kroppnum. — Það mun ekki vera til mikils að ota á þá Félagsritum þarna eystra, meira en þú gjörir, og það er líka leiðinlegt að standa frammi fyrir þeim, en vel gætum við þegið fleiri áskrifendur ef þeir vildi koma.

Heilsaðu kærlega gamla prófastinum og sr. Einari, Guttormi Vigfúss(yni), sýslumönnunum o. s. frv. öllum góðum kunníngjum; eg veit eg ætti að skrifa, en fari eg þar eptir sem eg nenni því núna. Kysstu konu þína elskulega frá mér og okkur.

Þinn elskandi bróðir æfinlega

Jón Sigurðsson.

55.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Khöfn 28. Sept. 1847.

Elskulegi bróðir minn.

Þökk og æru fyrir bréf þitt seinasta og Alþíngistíðindi. Eg vænti eptir þeim jafnóðum og þau losna, því nú mega gánga skip frameptir öllum vetri, annaðhvort úr Reykjavík eða Hafnarfirði. Ágætt væri, ef þau næðist öll með seinustu skipum. Hér er eptirspurn eptir þeim, en enginn fær neitt, því ekkert er sent. Getur þú ekki séð um að sent verði híngað nokkuð, það veitir ekki af 50 af þessum og 30 af 1. ári, — Pétur Guðjónsson sendir líklega ekki, af því það er utanvið akkorðið.

Ferðin híngað gekk æskilega og allt er í góðu lagi, nema bókaleifar félagsins tók Loki um daginn, einsog þú fær að heyra. Það var ill tilviljan og skaði félaginu töluverður. Um Magnús Eiríksson fær þú að heyra, og bréf Repps sér þú í Föðurlandi nr. 180. Mér lízt illa á þeirra Affairer, hvað sem úr því verður. Oddur Hallgrímsson ætlar ekki að gánga upp í haust, hann hefir líka einhverjar vitranir, svo eg er farinn að hugsa, að þjóðin sé annaðhvort að verða vitlaus, eða að verða skáld. Þeir voru uppi Jónas og Stephán um daginn og gekk sæmilega, svo og Benedikt Gröndal í mathematik, en Árni amtmannsson er nú að herklæðast undir artium. Kallinn er kominn og er farið að káka eitthvað við hann, hvort sem það stoðar nokkuð eða ekki.

Sjáðu til með Félagsritunum okkar, bróðir minn! eg hef skrifað Sigurði um þau, og fáðu okkur nóga áskrifendur.

Heilsaðu kærlega og kysstu konu þína elskulega og Siggu litlu og lifðu ætíð vel með öllum þínum ástfólgnum.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

56.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn 19. Oct. 1847.

Bedste Herr Pastor Gudmundsen.

I Island har Sommeren i det hele været god, men Tilförsel og Priser i Handelen slette. Alle Bekjendte leve godt. Althinget gik saa og saa; jeg kan ikke sige jeg er godt tilfreds, men jeg er heller ikke ganske utilfreds. Petitioner ere indsendte navnlig om en Revision af Althingsanordningen, for at faae udvidet Valgret, offentlige Forhandlinger, Dansk udelukket o. s. v., derimod vilde de ikke stemme for flere Medlemmer, saa det faldt igjennem. En anden Petition er om at Kongen vil underskrive den islandske Text af alle de Lovbud der emanere for Island; den er *eenstemmig* og det er ikke uvigtigt. En tredje er om Nedlæggelsen af Hospitalerne og Opsamlingen af Capitalen indtil videre; Landphysikus satte sig imod det hele Plan om Oprettelsen af en Dannelsesanstalt for Læger i Reykjavig og Indretningen af et Hospital der, men uagtet han fik dröjt paa Hovedet og ikke lidet prosituerede sig, fik han dog forhindret alle active Skridt, saa man kan kun sige, at Spörgsmaalet er aabent. Disse vare de vigtigste Sager fra Thinget selv. Bönderne var oppe at snakke meget mere end för, og jeg vil ikke nægte at Discussionen er undertiden endel bedre end förste Gang; men naturligviis mangler der meget i en oplyst Debat og dygtig Holdning. Præsident var Justitiarius Sveinbjörnsson, en meget daarlig Præsident, og næppe saa god engang som Thorsteinson, Assessor Johnsen Vicepræsident, Jonassen og sr. Halldór i Glaumbæ Sekretærer, Jón Guðm(undsson) og jeg Redaktörer. Præsteskolen er nu sat paa Fode med sr. Pétur og Sigurð Melsted til Lærere; der er 12 Elever. Ved Skolen er Gisli Thorarensen constitueret af Direktionen i Konrads Sted, tværtimod Egilson og Stiftsövrigheden, som vilde

have Halldór Friðriksson. Min Broder hörer jeg nu vil fra Skolen og söge Staðastað.

Jeg rejste i Sommer til Isafjord Syssel og var 3 Uger paa Touren. Fader og Moder leve endnu, Gud være lovet, ret godt.

Herfra er Intet mærkeligt nyt, med Undtagelse af det slemme Ulykkestilfælde som rammede det islandske Literære Selskab, at hele vores Bogloft brændte, og dermed alle de usolgte Böger, Breve fra ældre Tid, Regnskaber o. s. v. — Mange havde der ogsaa betydeligt og deriblandt var Deres Papir og en hel Deel Mynsters hugleiðíngar, som have ligget der siden jeg modtog dem fra Bogtrykkeriet, da jeg ikke kunde faae Plads for dem paa Loftet i Mönten. Alle de ældre Aargange af Fjölnir brændte der ogsaa. Min Broder havde der alle sine Böger og de er væk. Det eneste altsaa man kan tröste sig med, det er commune naufragium. Etatsraad Magnusen er meget ærgerlig over dette, og det er saameget værre som han er bestandig grumme svag, saa man endog frygter for at han ikke holder det længe ud. Man har talt om at Gislason (Konrað) kunde vente snart at blive Lektor i Islandsk ved Universitetet. . . .

Jón Sigurðsson.

57.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Kaupmannahöfn 18. Marts 1848.

Elskulegi bróðir.

Þökk fyrir elskulegt tilskrif í haust. Eg hripsa þér þetta til að láta það eitthvað heita en ekkert verður samt gagn í því, þó nógar sé fréttirnar, en Berlingur og Föðurlandið . . . . . . . . . . . . . . . . . ., sem

hér fylgja verða að bæta úr. Þú veizt að margir hafa fundið á sér árin fyrirfarandi einsog veðurboða, en nú er það komið fram, þvi gamla Europa er nú þegar í loga. Fyrst kom heilagur páfinn, einsog þú veizt, og veitti frelsi hjá sér, og gjörði Ítali hamslausa; svo komu Sikileyíngar og gjörðu uppreist, og svo Neapólsmenn, og píndu constitution útúr kóngi sínum; þá komu nú Frakkar, og þótti leiðinlegt að þæfa lengur við Guizot, þeir ætluðu að halda sér fund og tala um kosníngafrelsi og safnast þar saman grúi, til þess að sýna stjórninni, að þjóðin vildi hafa meira kosníngafrelsi. — Stjórninni var ekki um þetta og kreppti að um fundinn en þá komu hinir í óeyrðir, þá var skotið á þá, þá orguðu þeir »à bas Guizot«; þá lét konúngur segja, að Guizot væri úr völdum og aðrir frjálslyndari settir; þeir sefast; en í því er skotið á hóp nokkurn við hotel Guizots; þá orga þeir af gremju, og segja að þetta sé allt svik um ministraskiptin og orga »à bas Louis Philippe«, og eptir tvo tíma er »Loðvík Philippus ljósast nafn« settur af og kominn með kerlíngu sína gángandi til Englands. Frakkar urðu bráðir og ætluðu að segja til sín, en þeir vissu ekki af sér sjálfir fyr en öllu, var kollsteypt óvart. Hvað var nú að gjöra? — Republik — og á einu augabragði þá er orgað upp »la republique Française — la liberté — l'égalité — la fraternité« — Eh bien, monsieur, það er komin republik á Frakklandi aptur, og Lamartine er utanríkisherra. Thiers er nú hreint apturúr, því hann er ekki nærri nógu frjálslyndur. Nú er kviknað í Þýzkalandi, og í flestum stöðum láta stjórnirnar undan, nema gamli Ernst í Hannóver, hann biður þá að hafa á höfðinu, hann segir þeir eigi nógu gott, þeir sé ekki soltnir. Þá er nú Danmörk. Kristján $8^{di}$ dó 19. Januar, og Friðrik $7^{di}$ kom upp daginn eptir; hann byrjaði með því að boða constitution, sem þú sér af blöðunum, en lítil er hún og sultarleg, og rifrildið þó mest um hvernig

henni verði komið við; hún á nefnilega að ná til Danmerkur, Slesvíkur og Holsetalands en ekki víðar, en nú biðja Slesvig-Holstenerne Dani vel að lifa, og segjast ekki vilja hafa neitt með þá að sýsla. Danir biðja margir Holseta að fara í rass, en Slesvík segjast þeir eiga, hinir segja að Slesvík fái þeir aldrei. — Nú er rifist, og hver verður endirinn? — að Slesvík fer sína leið held eg.

Finnur Magnússon sálaðist á aðfangadagskveld jóla. Brynjólfur Pétursson er forseti Bókmentafélagsins, Oddgeir féhirðir, eg skrifari sem fyr. Launaviðbót fékk eg um nýárið svo eg hef nú 600 r. sem archivar við íslenzku deildina í þessu nýja archivi, að sönnu er það aðeins ætlað um tvö ár, en eg vona það standi, þó mörgum leiki nokkur öfund á því. Það bezta var, að eg sótti ekki um það, svo eg hefi ekki betlað það út. Nú stendur til að kjósa skrifara í Árna Magn(ússonar) nefndina, og vona eg að verða það, hvort sem það lukkast eða ekki, Konráð sækir af öllum kröptum, svo það verður líklega ný saga ef eg yrði drjúgari. Eg vinn annars ekkert í launum við það, því eg get reiknað mér eins 300 r. sem fyrsti stipendiar, en eg vil það heldur samt einsog þú getur nærri. Við Oddgeir höfum fengið 600 r. árlega í 3 ár til að safna íslenzkum tilskipunum m. m. — Svo hefi eg fyrir það sem eg vinn fyrir Fornfræðafélagið. Eg stend mig því vel ef þetta stendur, en skuldirnar eru nú miklar fyrst um sinn.

Við erum nú að bíða póstskipsins, að heyra stjórnarbyltíng frá Íslandi, en ef hún er ekki komin þá kemur hún þegar fregnirnar koma héðan, það veit eg. Konan mín biður ástsamlega að heilsa þér.

Þinn af hjarta elskandi bróðir
Jón Sigurðsson.

Eg bið að heilsa öllum kunníngjum.

58.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Kaupmannah. 16. Maí 1848.

Hjartkæri bróðir.

Kærar þakkir fyrir bréfin öll, í haust og í vor. Já, satt er það að kominn ertu að skólanum, og mér þykir það vel farið, en það manstu, að aldrei var eg neitt áfram um að þú værir þar, ef þú þyldir það ekki heilsunnar vegna. En mér finnst þú þá geta valið um brauð hvenær sem þú vilt ekki vera þar lengur, og kannske þú getir gipt þig enda uppá 5—600 dali, en knappt mun það vera til að lifa af í Reykjavík. Nú er þessi nýi minister að bræða skólann, hann *vill* án efa vel, en það er illt fyrir þá sem ekki eru kunnugir, því ymsar sögur berast þeim og undir að eiga hverju trúað verður. Konráð er nú orðinn lektor hér í Norðurlandamálum og fer ekki heim, nú er Halldór að sarga, og einhver mun geta um Gísla Thorarensen; Monrad vill fá Grím í þýsku og frönsku og ensku, en Grímur er dýr; Grímur vill fá mig með, en eg á líka bágt með annað en vera dýr, og er enda bundinn í báða skó, af því eg hefi neyðst til að róta mér inn í ýmislegt hér, en á Íslandi vildi eg helzt vera, og í ykkar hóp væri mér kært ef eg gæti verið við skólann. Nú veit eg ekkert hvernig fer um þetta alltsaman. Það held eg víst að Hannes fái Staðastað, og vildi eg honum yrði það til gæfu, en eg hefi ekki góða trú á honum til búskaparins og með danskri konu veit hamíngjan hvernig allt getur gengið. Eg hefði nú viljað hafa hann að skólanum líka, en það gengur nú ekki að svo komnu.

Eg verð að biðja þig að sjá um Félagsritin. Við höfum adresserað þau til Sigurðar Melsteðs, en hann mun nú hafa mikið að hugsa og þá væri gott þú hlypir undir bagga með honum. Það væri ekki vanþörf

á að fá nokkuð inn af andvirðinu og dettur mér í hug Helgi prentari sem ekki hefir borgað okkur neitt, en fengið 7 ex(emplör) á hverju ári. Hvað þú getur gjört í þessu er gott. Annað er um pólitíkina, að þú ættir að spana þá upp núna til að semja bænarskrá, og gánga þar sjálfur í flokk með, um stjórnarfyrirkomulagið á Íslandi. Eg er á því sem í Félagsritunum er framsett, og hefi eg skrifað Jóni Guðmundssyni dálítið um það, ef þú vildir koma þér í kast við hann um það.

Eg fékk frá þér 5 dali, og hélt eg það væri fyrir Félagsrit, en frá hverjum? — Það verðið þið að segja okkur glögglega, því annars verður allt vitlaust. Pétur þorpara hefi eg talað við og skal eg borga honum þegar eg get. Biblíu sendi eg þér núna, en seinna skal eg senda þér fleiri bækur, sem Jónas liggur út fyrir að fá. Blöðin sendi eg þér að gamni mínu, svo þú sjáir hvernig stendur. Danir eru ennþá brattir, en ekki sé eg hvernig þeir geti komizt betur af en að leggja niður rófuna — að minnsta kosti mega þeir þá hafa leyndar-kosti, eins og Hrólfur sagði. Blessaður páfinn er í beiglum, og hefir verið fánginn og kvalinn til að byrja stríð við Austurríki. Enginn veit hvernig nú fer, það getur orðið friður bráðum, en það getur líka orðið almennt stríð, og getur þá orðið margvíslegt útfallið.

Fyrirgefðu, elsku bróðir, óræstis miða þennan. Konan mín biður ástsamlega að heilsa þér.

Þinn heittelskandi bróðir
Jón Sigurðsson.

P. S.

Það er satt, það er meira en tóm heilsanin til þín frá konunni minni; hún biður þig að taka að þér hann Einar litla, ef hann lifir, og sjá hvort honum sé kennandi, og ef svo er, þá að leggja við hann beizlin. Henni þykir mikið undir því komið að Einar læri, og hún

ætlar víst að styrkja til þess. Þú gjörir svo vel að hugsa eptir þessu ef kríngumstæðurnar falla svo, og skrifa mér um það við tækifæri.

## 59.

### Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Kaupmannah. 16. Maí 1848.

Elskulegi bróðir minn.

Mikill fjandi er að vera latur, þegar maður þarf að eiga tal við þig, bróðir minn, í 300 mílna fjarlægð, því þú ert drjúgur nokkuð, það sé eg þegar eg fer að lesa upp bréfin þín aptur.

Hér er nú róstusamt núna, barist á tréskóm og flúið svo glamrar í klaufunum, en er það ekki hæðilegur fjandi, að Þjóðverjar geta ekki komizt á sjó, heldur standa þeir í fjörunni og sjá þessa smyrla á floti, geta svo ekki annað en spangólað. Nú ætla þeir að reyna að taka Als, skiplausir, og það þætti mér nýstárlegt, ef þeir gæti það, en Halti-Kett (Halkett) foríngi þeirra Hábakka-manna(?!) er harðsnúinn gamall snáði, sem hefir verið lengi með. Sæmundur frændi fóveta hefir barizt með Dönum, og er í varðhaldi, svo hann hefir »die goldene Freiheit verloren«, en líður annars vel. Jón Þórðarson er annar íslenzkur kappi, stendur albrynjaður á Als. Ólafur Schevíng í skorpnum skinnstakki á flotanum. Annað lið held eg ekki þeir hafi fengið af Íslandi, nema Mad$^{m}$ Hemmert hefir sent 13 duggarasokka, til að vaða með á flóttanum, og þykja þeir þúngir utanyfir tréskónum þegar hart þarf að fara. Svíar og Norðmenn eru ólmir, og eru að þyrpast híngað smásaman til liðs við Dani.

Nú er Monrad kominn til skólastjórnarinnar, hann hefir gjört Konráð að lektor í norrænu málunum, hvað

sem hann gjörir nú um skólann. Nú þyrfti þið að skrúfa ykkur upp með bænarskrá um alla stjórn á íslenzku málunum, því allt fer það í klúðri ef Danir eiga að verða einir um hituna. Þú ættir að tala við föður þinn og fá hann til að gángast fyrir því, og útvega menn til þess, eg trúi varla öðru en hann verði okkur samdóma í því, að ónýta ekki alþíng með`því að senda híngað menn á þessa almennu ríkissamkomu, og að reyna til að útvega þínginu sömu réttindi í íslenzkum málefnum, einsog þíngið í Danmörku fær í dönskum. Eg ætla að skrifa honum um það, og eg skrifa um það Jóni Guðmundssyni og séra Hannesi; láti þið nú nokkuð til ykkar taka!

Ekki sé eg til hvers skólaplanið er þarna nyrðra. En hvað mennirnir skyldi þá ekki heldur sjá til að reisa sér bændaskóla, og gefa góða jörð til þess, undir forstöðu duglegs búmanns og stúdents eins eða tveggja til kennara. Af því vænti eg mikils gagns, ef það kæmist á. Það er ergilegast með Íslendínga, þessar andskotans subjective gönur sem þeir fara í; það kemur af einsetunum, og að þeir nenna ekki að fylgja með eða hugsa nema hver um sig eptir því sem honum dettur í hug, og hræddur er eg um, að þetta sé í rauninni ekki nema uppþot einstakra, sem hafa kannske horn í síðu Reykjavíkur og skólans þar. Það væri nokkuð fyrir Reykjav(íkur)póstinn að taka þetta mál fyrir og skýra það nokkuð, en vera ekki að taka þoku-hugmyndir Jensens í Flensborg. Það er synd að þú skulir láta Jónassen ráða svo miklu, að taka þá bölvaða vitleysu og selja hana sem vísdómsins smyrsli.

Eg er líka reiður við Reykjav(íkur)póstinn útúr sjálfum mér, því mér þykir hann hafa tekið kátlega til máls um þíngkostnaðinn, að því leyti mér viðvíkur. Eg þykist þekkja markið, hver samið hafi, en þú veizt sjálfur að sérhver redaktör á rétt á að breyta orðum í nafnlausum greinum, eða að semja um það við höfundinn,

og þegar það er ekki gjört, þá gjörir redaktiónin þau orð að sínum. Nú þykir mér það skríngilegt, að taka svo til máls, að menn *þurfi* það eða það, þegar menn *eiga* það, að minnsta kosti eptir lögunum, þó menn hafi ekki unnið fyrir því, þegar peníngarnir eru eins dýrmætir einsog hjá sumum á Íslandi, þegar á að meta einhver immateriel gæði móti þeim. Eg hefi ritað grein um þetta, sem eg vona þið gjörið svo vel að taka í Póstinn, því eg þykist skyldur til að bera hönd fyrir höfuð mér, þar sem mér finnst liggja nærri að eg sé ásakaður fyrir ágengni og dónaskap.

Eg hefi selt mikið af Póstinum þeim í fyrra, en nú hefir þú sent mér meira, og get eg ekki sett það í Skandinav(isk) Boghandel vegna þess það er hvorki heilt né hálft; hugsir þú til þess, gætir þú reynt að senda 20 af fyrsta ári og skal eg þá bæta við 20 af öðru ári. Reikníng skal eg gjöra þér og kaupa bækur þær sem þú nefnir, þegar þú hefir fengið sýsluna, sem eg hefi reyndar von um að verði, en eg sé samt hálfvegis eptir, að þú farir á Strandir. —

. . . Nú slæ eg í botninn, með hjartkærri kveðju okkar til þín og allra þinna ástfólginna.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

60.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Kjöbenhavn den 6. Juni 1848.

Bedste Herr Gudmundsen.

. . . Tillige sender jeg Dem Baldvin Einarssons Portræt, som De var saa god at skaffe os, tilligemed et Exemplar af Ný Félagsrit 8. Aar, og 2 af Einarssons Portrætter paa chinesisk Papir, som maaskee hans Enke

kunde ville modtage. Hvor er hans Sön? kunde det interessere ham at faae Pjecen skulde vi med Fornöjelse sende den; jeg veed at han kunde Islandsk i sin Tid, men det er nu maaskee tabt igjen.

Herfra er ikke synderlig Nyt for Öjeblikket. Konráð er bleven Lector i Islandsk ved Universitetet og Sysselernes Bortgivelse har De seet i Bladene. Man taler stærkt om et islandsk Departement her, hvor alle islandske Sager skulle concentreres, for af Departementschefen at refereres for alle Ministrene hver i sin Branche. Brynjólfur Pétursson bliver udentvivl denne Departementschef. Det hele Arrangement er kludderagtigt, men eet Skridt er vundet, at Sagerne concentreres til en vis Grad. Jeg vil have en Statssekretær for Island, med direkte Referat i Staatsraadet eller for Kongen, og det bör og maa vi have naar alt skal gaae med Skjel. At Althing(et) vil andrage derpaa troer jeg indtil videre. — Jeg tillader mig at henvende Deres Opmærksomhed paa den förste Artikel i Ný Félagsrit, hvori jeg kort og löst har antydet mine Anskuelser, som jeg ogsaa haaber vil blive de gjeldende i Hovedsagen, enten för eller siden. —

Confer(entsraad) Thorsteinson er rejst tilbage, desværre uden noget heldigt Resultat med Hensyn til hans Öjensvaghed, han er ganske eller saagodtsom ganske blind. Hannes Árnason fik Staðastað, og er nylig rejst med en dansk Kone, som han tog med sig — en Fröken Anthon — hvorledes troer De hun kommer udaf at »búa uppi sveit«. Det var ellers efter Udseendet at dömme en rar Pige og ret fornuftig. Det er den förste, troer jeg, som har forsögt at gaa direkte herfra med en dansk Kone til Oplandet i Island.

Nu husker jeg ikke mere. — Jo, det er sandt, min Broder er ansat fast ved Skolen, Gísli Thorarensen, som var constitueret, hörer man skal bort og Halldór Friðriksson ansættes istedet. Grímur Thomsen troer jeg

næsten ansættes der i de levende Sprog. Mere veed man endnu ikke, men Monrad lader dog til at interessere sig for Skolen. . . .

Jón Sigurðsson.

61.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Kaupmannah. 5. Juli 1848.

Elskulegi bróðir.

Kærar þakkir fyrir bréf þitt seinasta, og fréttirnar, við konan mín óskum þér af hjarta til farsældar með stúlkuna þína. Með bréfi þessu sendi eg þér blöðin og er þar innaní böggull sem mad$^{m}$ Thorgrímssen á, frá konunni minni, það verð eg að biðja þig að senda strax. Svo fylgja bækur frá Hannesi, Gesenius og Brockhaus m. m. og í þriðja pakka Finns Historia ecclesiastica frá mér, sem þér er velkomin að eiga ef þú vilt, þó það sé ekki nema þrír partarnir, en ef þú vilt hana ekki sjálfur, bið eg þig að geyma hana þángaðtil seinna. Þú verður að hugsa eptir að útvega mér og senda mér *allt* hvað prentað er, hver fjandinn sem það er: blöð, vísur, grafskriptir, boðsbréf og sérhvað eina; Helgi prentari gjörði víst svo vel að sjá um þú fengir það, ef þú vildir mælast til þess við hann. Kvöldvökurnar, nýju útgáfuna, á eg ekki, Gest ekki nema fyrra árið, Snorraeddu ekki og svona er mart, en eg vildi gjarnan safna íslenzkum bókum. Eins er um vísur, boðsbréf etc. — Gamlar bækur ættir þú að hugsa til að fá og ná í. Ef þú fer að safna þessu sjálfur kæri eg mig ekki um nema það sem þú vilt ekki eða þarft ekki, því tilgángur minn er sá að halda þessu saman, svo það tapist ekki. Fréttir hér eru nú sem stendur ekki nema sama hjakk, hvorki reyndar friður né stríð. Ekki

lítur neitt betur út fyrir Dönum en áður, og kraptaverk er það ef þeir halda hertogadæmunum að nafninu til enn um stundarsakir. Nýtt upphlaup var í París, en varð kæft með mesta blóðbaði; það voru iðnaðarmennirnir og fátæklíngarnir, líklega stæltir upp af Bourbonistum og Bonapartistum. Þjóðverjar eru búnir að taka af sambandsþíngið, og líklega kemur þar bráðum demokratisk revolution. Þegjum við, eða segjum við nokkuð? —

Vertu nú sæll og blessaður, heilsaðu öllum kunníngjum og kysstu stúlku þína.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

62.

Til Eggerts Ó. Briems sýslumanns.

Kaupmannah. 24. Sept. 1848.

Elskulegi Briem minn!

Þú ert ekki betri en eg með bréfaskriptirnar, lagsi góður, og á endanum held eg að þú verðir lakari, því nú sezt eg þó niður til að skrifa þér, en þú sést aldrei með línu til mín, og það komst eg hæst í sumar að fá frá þér ávísun á skotspæni. Eg skyldi gratulera þér með Eyjafjarðar sýslu, ef mér væri ekki mikið illa við að missa þig frá okkur, en svona er það, Vestfirðíngsnáttúran í þér er ekki nógu sterk til þess að yfirvinna norðlenzkuna. — Fréttirnar héðan eru á reiki, vopnahlé er samið uppá 7 mánuði, og allt sýndist ætla að jafna sig tvisvar í sumar, en reyndin verður á að Þjóðverjar vilja ekki eiga saman við Dani. Konúngur sendi 3 menn af sinni hendi til að stjórna í hertogadæmunum, en »provisoriska« stjórnin þar hefir skipað að taka þessa þrjá karla fasta, og nú vita menn ekki hvað hér gjör-

ist. Í Frankfurt, á aðalþingi Þjóðverja, urðu menn uppvægir útúr vopnahlénu og steyptu því, en af ótta fyrir Preussum varð því þá aptur svo breytt, að viðurkenna það að nokkru leyti; útúr þessu varð aptur upphlaup og tveir þíngmenn voru myrtir af alþýðunni. Í Berlín lítur út fyrir upphlaup. Hér er allt í spekt nú, nema mikill gángur er i Dönum með kosníngar til ríkissamkomunnar, sem eiga að fara fram 5. Oktober. Eg hefi skrifað þeim Gísla Ívarssyni og Magnúsi Einarssyni útúr fundum í vor, og vilda eg gjarnan að þú værir með í góðum ráðum, en eg veit nú ekki hvernig högum þínum kann að verða varið í vor. Nauðsyn væri mikil, að þið kæmið ykkur saman um góðar og öflugar bænarskrár, sem gengi um kríng sem bezt að kostur væri. Eg vona þú sért okkur samdóma í því, að bezt væri að við værum okkur um hituna Íslendíngar, en að senda 5 fulltrúa á þjóðsamkomu Dana lízt mér lélega á. Aptur á móti vil eg hafa repræsentant í ráði konúngs, sem hafi öll Íslands málefni undir sér, svoleiðis að hann sé milligöngumaður milli alþíngis (og landsins) og konúngs. Alþíng vil eg hafa aukið og bætt, svo að það geti farið með málefni landsins á sinn hátt eins og ríkissamkoman í Danmörk. Þarmeð vil eg hafa stjórn á Íslandi sjálfu. Þessi efni held eg væri gott að menn ráðguðust um, og fengi bænarskrár gjörðar á þá leið sem menn yrði á sáttir og vona eg það yrði ekki áhrifalaust á alþíng.

Hefir þú hugsað nokkuð til mín, góðurinn minn, með alþíngisbækurnar, og með æfisögurnar? kannske þar fylgi þá eitthvað annað með af góðum hlutum; eg skal setja þig inn í landstjórnina í staðinn, að því leyti sem eg á með.

Heilsaðu hjartanlega Markúsi ráðsmanni þínum og konunni hans og kysstu konu þína elskul(ega) og krakka.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

63.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Kh. d. 9. Jan. 1849.

Bedste Herr Pastor Gudmundsen.

. . . Herfra er kun lidet mærkeligt. Rigsdagen gaaer langsomt, og jeg troer slet ikke den kan blive færdig för i Mai.

Vore (islandske) Sager har jeg endnu ikke noget daarligt Haab om, vi gaae langsomt og sagte, men — som jeg troer — sikkert frem. I de danske Sager blande vi os (af Princip) slet ikke. Pétursson er i Grundlovs-Comiteen. Vor Plan gaaer ud paa at faae en Grundlov for Island forelagt Althinget i Sommer, samt en ny Valglov til et Althing med Skattebevillingsret og lovgivende Myndighed saavidt Island angaaer. Vi ville en concentreret Regjering i Landet selv, og een Mand her, med ministeriel Competence for Islands Vedkommende. Derimod önske vi ingen Repræsentation paa den danske Rigsdag, og jeg haaber vi sætte dette igjennem allerede nu, derimod ville de förste Punkter langsommere, men jeg haaber ligesaa sikkert komme frem. Jeg veed at De benytter dette med Discretion, thi om De end dömmer uden Partiskhed, kunne dog muligen andre ansee saadanne Yttringer for Separatisme, skjöndt de i sig selv ikke er andet end hvad ganske simpelt fölger af Forholdene. Melsted kom hertil förs i December og reiser op i Foraaret som Commissarius, han er enig med os, saavidt jeg kan skjönne, og vil hjelpe os hvad han kan, navnlig er han meget ivrig mod Repræsentation paa den danske Rigsdag.

Oddgeir Stephensen er bleven Kammerraad og Contoirchef i Expeditionscontoiret, og nu have vi desuden to Assistenter (Vilhjálm Finsen og Sigurð Hansen) og een Skriver (Gunnlaug Þórðarson), men Fuldmægtigen alene er dansk. . . .

Jón Sigurðsson.

64.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn d. 26. Marts 1849.

Bedste Herr Pastor Gudmundsen.

. . . Formodentlig kommer jeg til at rejse herfra i Mai 1—15de, men endnu er intet bestemt derom. Rigsforsamlingen giver jeg Goddag naar det skal være, faaer den en naturlig Död kan den blive ved til i Juli eller August; bliver den slaaet ihjel, skader det ikke man er borte. . . .

For Althinget i Sommer skal forelægges Valglov for et nyt og forstærket Althing, bestaaende af 40 Medlemmer, hvoriblandt 6 kongevalgte, for at raadslaae om et Forfatningsudkast for Island. Valgene blive indirekte, men frie, hvorledes Forfatningen bliver kan man ikke vide, men vise vi os nogenlunde faste og udholdende, haaber jeg den tilsidst kan blive nogenlunde god i Tidens Længde. Hvad man sparer i Kraft, maa man anvende i Tid. . . .

Jón Sigurðsson.

65.

Til Friðriks prests Eggerz.

Kaupmannah. 26. Sept. 1849.

Hæstvirti ættbróðir.

Vel var það gjört af yður að senda mér »Búatölurnar«, og ekki fari þér skakkt í því, að mér þykir vænt um að sjá meiníngar skynsamra manna um öll málefni lands vors, ekki sízt þau, sem eru svo mikils áríðandi og jarðamatið hefir verið að minni hyggju og mun verða; en annað er það, að ekki er auðhlaupið að fyrir mig að finna að ritgjörðinni eða setja annað í

staðinn, og sízt er að ætlast til að eg setti það sem yður líkaði betur, því til þess við yrðum fullkomlega samdóma í fleiru en því að slá jarðamatinu á frest, þyrftum við líklega að talast við nokkuð töluvert; og þó er mér nær að halda, að meiníngamunurinn kunni ekki að vera svo mikill, sem út lítur fyrir í sumum greinum. Mér virðist þér líta heldur mikið á hina myrku hlið, og setja fyrir yður draum Odds okkar sáluga, en þó mart mistækist meira en jarðamatið, þá er eg ekki hræddur um landauðn af því, — brattara Grana boðizt hefir! — Við megum ekki búast við öðru en að mart mistakist fyrir okkur viðvaníngum í fyrstu, bæði í stjórn og löggjöf, það mistekst daglega fyrir hinum voldugustu og vitrustu þjóðum, lángvönum þesskonar störfum, en það er regla, sem við eigum að læra, þó hún sè vönd, að taka okkur einmitt fram á því, gjöra okkur villurnar ljósar til að varast þær, en ekki hugsa til þarfyrir, þó mart mistakist, að kasta út barninu með lauginni. Það var það sem helzt hefir hneixlað mig í ritinu, að það lítur svo út, sem þér æskið heldur hinna fyrri konúngslaga aptur, án alþíngis, en þar get eg alls ekki verið með yður, því engin »fluga« verri gæti flogið í munn stéttum Íslands, en ef það yrði ósk þeirra. Eg ætla ekki að fara lengra en í jarðamatið sjálft; hver hefir tekið upp á því nema stjórnin? hefir hún ekki um aldamótin kastað þar út 20,000 dölum til alls einkis? — hefir hún ekki búið til frumvarp til alþíngis, svo að þíngið er einúngis vítavert fyrir það að reka ekki frumvarpið margfalt aptur? hefir hún ekki sagt fyrir reglunum fyrir matinu, sem fáir skilja eða enginn, ef hún þá skilur þær sjálf? Þó ekkert þíng hefði verið, þá hefði þetta allt komið samt, og það verra, að þá hefði jarðamatið vaðið yfir einsog sinueldur og dáið út aptur einsog fyrri, án þess nokkur maður lærði af því hvað varast skyldi, en nú verða gallar þess augljósir, og án

efa smámsaman bættir svosem auðið verður. — Þér viljið láta meta jarðir eptir afgjaldinu; svo hefir verið gjört í Danmörku að nokkru leyti, og hefir þó ekki heppnazt, en vel lætur það sig heyra að hafa þá aðferð; eg verð samt einlæglega að játa, að mér þykir framtala á jarðafgjöldum árlega, og breytíngar dýrleikans eptir því vera allísjárvert, einmitt vegna jarðræktarinnar, og eg sé þér hafið með miklum sannindum viljað gæta hennar, því ekkert er hættulegra þegar hún er farin að batna, en hvikulleiki dýrleikans. Eg hafði hugsað, að breyta hefði mátt öllu sem þurfti með því að hækka og lækka jarðir eptir því sem viðkomendur æsktu, t. a. m. tíundatakendur öðrumegin og gjaldendur öðrumegin, og láta þar við standa, því eg get ekki að því gjört, að mín sannfæríng er sú, að færri af jörðum á Íslandi sé svo hátt metnar, að þær geti ekki framfleytt miklu meira en þær [eru][1] metnar til dýrleika, ef þær væri svo vel ræktaðar sem þær gæti verið, og þá höfum við einmitt þann kost, sem Englar hæla sér af, að hvað jörðin beri meira það sé ábúandans hagur. Hvort jarðirnar eru lágar eða háar í hundraðatölu, kemur annars ekki uppá mjög mikið, því aðalspurníngin verður, hvernig skal jafna sköttunum niður og hvað mikið þarf landið? — Það sem annars getur bezt greitt jarðamatinu veg, þegar það nú annars er komið á gáng, er það, að menn hjálpi því við sem bezt, hver hjá sér, því mestan skaða gjöra menn sjálfum sér og landinu með því, að spilla fyrir því í framkvæmdinni.

Þér eruð mikill fornfræðavinur, og kvað eiga mart fágætt og fróðlegt; ef eg mætti vera svo djarfur að mánga til við yður, þætti mér gaman að heyra hvað þér hefðið helzt af þesshátttar t. a. m. handritum eldri og ýngri, fornkvæðum, rímum o. s. frv.

---

[1]) útgef.

Nú ríður mönnum á, að hafa nokkurn viðbúnað til næsta þíngs. Rosenörn er nú nýorðinn ráðgjafi, og líklega kemur nú til hans kasta að búa til frumvarp um stjórnarlögun Íslands, en þó eg hafi gott traust á honum einum, þá er hann ekki einn um hituna, þar sem Barði er með, og eg er hræddur um hann láti undan þar sem sízt skyldi. Þetta kann nú vera ótti einn, en veri þið viðbúnir, ef þið viljið ekki hafa þar »flugu« upp í ykkur!

Fyrirgefið rispið yðar elskandi frænda

Jóni Sigurðssyni.

## 66.

### Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Kaupmannah. 29. Sept. 1849.

Elskulegi bróðir.

Ástar þakkir fyrir öll bréfin þín, hvaða trassaskap sem eg sýni í að skrifa þér aptur, en allt hvað eg hefi að skrifa er eiginlega idem per idem. Eg lifi vel fyrir sjálfan mig og hafði 14 daga ferð híngað, en lítið verður ágengt með res publicas, eg er farinn að læra að láta »vatn í blóðið«, og pjakka svona smámsaman í hægðum. Gutta cavat lapidem, non vi, sed sæpe cadendo. En satt er það að kýrin getur drepist meðan grasið er að gróa, en þá koma aðrir í staðinn sem taka við. Eg vildi eg gæti kennt þér þetta sama phlegma, en það gæti eg víst, ef við kæmumst enn í nánd hvor við annan, og hver veit nema það verði ef við lifum lengi. Nú koma kosníngarlög til þíngsins í sumar, og væri nú áríðandi, að vel yrði kosið, og þar hjá væri nauðsyn að hafa fundi á undan sem fjölmennasta til að gjöra sér ljóst málið sem fyrir á að koma. Frumvarpið er nú ekkert komið á veg, og eg er hálfhræddur um það

verði magurt, því viljinn er ekki sérlegur hjá herrunum, þeir vilja nú reyna fyrst og fremst að halda saman þessum skæklum sem eptir eru af ríkinu, en það fer einsog þegar maður heldur með báðum höndum í ónýtan garm, að hann rifnar sundur milli fíngranna á manni, en ef maður héldi ekki eins fast, þá lyddi hann saman; svo fer með okkur, því fastara sem þeir ætla að reyra okkur að sér, því meira losnum við. Bang er nú frá innanríkisstjórninni en Rosenörn er kominn í hans stað. Dönum þykir það kátlegt, en eg er glaður við það, þó ekkert verði kannske unnið við það fyrir okkur, því hann er þó sá skársti, en líklega lætur hann Barða hræra í sér. Það skrítnasta var að hann valdi Bjarna Þorsteinsson blindan til þíngs, og Þórð Sveinbjarnarson, sem hafði sagt af sér, — er það ekki Rangforordn(ingen) gamla? — Eg heyri svona ávæníng um að Brynjólfur muni kannske verða sendur af stjórnarinnar hendi, og væri það vænt. Eg hefi boðið mig Ísfirðíngum, og heim fer eg, þó það verði nú fýluferð, og þó þeir hlæi að mér, þá ætla eg að bera mig að halla ekki höfðinu fyrir það. Aldrei vænti eg þú fáir frið til að fara suður, og þyrfti þó þarna hjá ykkur menn til þíngs, því þið hafið ekki of marga; þú ættir að ala þér upp vicarium, þó lítil sé verðlaunin fyrir það, þá gætir þú þó heldur strokið um frjálst höfuð, að minnsta kosti þarftu þá sjaldnar að fara þángað sem lengst er.

Hálfskitið er með Félagsritin, því við fáum ekki inn nema frá sumum; getum við ekki fengið hreinan reikníng við þig, það er að segja, hafa þeir borgað þér, sem ekki hafa borgað okkur á þessum reikníngi sem þú fékkst í fyrra? Það gekk yfir mig, að þú skyldir ekki skilja þann reikníng, eptir því sem þú skrifar Magnúsi. — Eg sá þar líka lektíu til mín fyrir leti að skrifa þér, en fyrir rángri sök hefir þú mig um orsökina, og skulum við bítast um það seinna, ef guð lofar okkur að lifa.

Danir eru að böglast við Slesvigholst(eina) en geta ekki almennilega haldið þeim undir sér, þó vopnahléð sé, og hætt er við að stríð komi aptur, því sjálfir Danir eru sundurþykkir í því, hvort skipta eigi Slesvík eða ekki. Föðurlandið vill skipta, en sumir aðrir ekki. Nú stendur hnífurinn í kúnni.

Kysstu konuna þína elskul(ega) og dóttur frá mér og konunni minni, og heilsaðu frá mér öllum góðum vinum.

Þinn heittelskandi bróðir meðan eg lifi

Jón Sigurðsson.

67.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn den 22. Apr. 1850.

Bedste Hr. Pastor Gudmundsen.

. . . Nu rejser jeg snart til Island og skal jeg da levere min Beholdning til den De bestemmer.

Med Postskibet kom mange Passagerer, deriblandt en uventet Gjæst, Rektor Egilsson paa Grund af en Uorden i Skolen, som greb om sig saaledes, at Disciplene raabte Pereat for Rektor, og hele Övrighedspersonalet, Stiftsövrigheden, Lærerne og Dr. Pétur, kom til den ubegribelige Beslutning, at erklære al Skoledisciplin for ophævet, Rektor protesterede ikke, men ophörte at komme i Skolen i sine Timer. Nu gjorde Discíplene sig lystige tilgavns, som De nok kan begribe, og der ere foregaaede de frygteligste ‚Sold‘, da en hel Deel gik ud af Afholdenheds-Selskabet, og hele Affæren egentlig fra först af var foranlediget ved at Rektor vilde tvinge nogle ind igjen. Hvad nu Regjeringen gjör, veed man ikke, men saa meget er vist, at »Noget maa der

gjöres«. Stiftsövrigheden undgaaer vist næppe en lille Næsetip.

Et andet ubehageligt Tilfælde er, at der er indkommen Petition fra en heel Deel af Reykjavig Sogns Indvaanere, hvori de bede om, at den bittre Kalk — deres Præst, sr. Ásmundr maa fratages dem; eller en Capellan antages som kan prædike hver 4de Söndag. — Præsten er stiv og lader sig ikke rokke, og har ogsaa nogle eller de fleste Honoratiores med sig. Aarsagen er, at Menigheden paastaaer ikke at höre ham, men Honoratiores sige det modsatte — fordi de sidde nærmest. Dette er ogsaa, som De seer, en delicat Sag.

De kan begribe, at disse Historier udbredes her, og faa Tilsætninger i Mængde, som jeg ikke engang kjender eller agter værd at anföre. Mest udbredt er, at der er proclameret Republik, naturligviis socialistisk og demokratisk, at Repp er valgt til Konge (han har virkelig faaet Majoritet ved et Prövevalg i Reykjavik, som Thingmand for i Sommer) o. s. v. o. s. v.

— Der vil blive et stort Möde, antager man, paa det gamle Althings Sted, förend Thinget samles i Reykjavig. — Det Sande er, at der er virkelig meget Röre blandt Folk, netop fordi de ansee den tilstundende Forsamling for et afgjörende Vendepunkt i hele Folkets Tilstand og Landets fremtidige Forfatning og Velfærd. Embedsmændene ere ikke alle begavede med behörig Conduite, eller engang den nödvendige Agtelse for at kunne styre og lede en sindig og bestemt Optræden, Almuen mangler Ledere og törner derfor paa en Maade over paa Embedsstanden, denne er ikke vant til Röre, og seer noget Ulovligt i alt, fordi den mangler moralsk Overvægt eller endog Ligevægt, og herved fremkaldes megen Uro, som kunde være forebygget. Jeg har ellers ingen Grund til andet, af de Yttringer jeg har hört, end at ansee Folket for det samme sindige og hæderlige Folk som för, som i alt Fald kun ved slette Ledere kan

forvilde sig til at gjöre dumme Streger, naturligviis dog med den Betingelse, at Regjeringen ikke forsöger paa at nægte dem billige og retfærdige Fordringer eller Friheder. . . .

Jón Sigurðsson.

68.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Kaupmannah. 10. Mai 1850.

Elskulegi bróðir minn.

Kærustu þakkir fyrir bréf þitt með póstskipinu. Eg held menn megi nú fara að segja um ykkur þar heima, að þið leyfið ekki mönnum svefn fyrir ólátum, ekki síður en þér þótti sleifarlag á hjá okkur hér 1848. Mönnum brá í brún, þegar sást framaní rektor okkar, og kaupmenn báru fyrstir allar fréttir, því skipið lá í Noregi nokkra stund og kom híngað seint. Ekki brá mönnum minna við, að sjá framaní Þjóðólf kallinn, og heyra meðferð stiptsyfirvaldanna á honum. Ekki skil eg hverjar stjórnarreglur þar hafa drottnað í höfuðborginni okkar í vetur, og skaði er það mikill, þegar Íslendíngar gæta ekki að sér, þá skjaldan þeir eiga að sjá um nokkuð sjálfir, því þegar klaufalega fer, þá verður margur til að segja, að þeim sé ekki trúandi fyrir stjórn á sjálfum sér, Danir verði að vera fyrir framan hjá þeim ef vel eigi að fara. Og að vera nú að bægja frá Þjóðólfi! Það er svo fávíslegt, og er einmitt einsog stælt til að koma Þjóðólfi sem mest fram, og lakast er að eg veit ekki hvort Þjóðólfur er maður fyrir að bera það lán, greyið, því eg er hræddur um hann láti bera sig af hverjum vindi lærdómsins, og einkum ef hann kemur úr múganum. Eg hefi séð grundvallarlagafrumvarp, og er það ekki á marga fiska, að

minni ætlan, en eg skil ekki hver lyst er yfir sumum mönnum að verða fyrstir bæði í tíma og ótíma, þar sem þó hér mætti vera, að: si tacuisset, philosophus mansisset, að minnsta kosti í sumra augum. Mér sýnist, svo eg sé grobbinn líka, að það eina sem þar sé af viti, sé þær greinar sem teknar eru eptir Félagsritunum, og þær sem eru beinlínis íslenzkaðar úr dönsku og norsku grundvallarlögunum, og eru þó ekki vel orðaðar. Eg nenni ekki að skrifa þér mína krítík hér, enda þarf þess ekki, því vitleysurnar eru ekkert augnagróm, en eg hélt dálítinn lestur fyrir séra Sv(ein)b(irni) um þær, og féllst hann að mér virtist á sumt, en engu mælti hann móti eða færði ástæður fyrir. Hæc inter nos. — Mér þætti nú rétt gert, að menn hefði Þíngvallafund, veldi þar centralnefnd, og síðan nefndir í hverri sýslu til að tala sig saman um aðalatriði í lögum þessum, en eg er minna fyrir að menn fari að fjalla um heilt frumvarp. Eg álít það ekki annað en malum quid, að menn fari að búa til heilt lagasystem sem grundvallarlög, en eg játa þó, að við munum verða neyddir til þess einsog aðrir nú á tímum; eg vildi hafa »articles of rights«, sem menn yki smásaman eptir því sem reynslan sýndi nauðsyn til, en ekki óðar en svo, því þessi apriorisku grundvallarlög verða skjaldan haldin. Það held eg, að Rósaörn sé velviljaður, svona ut est captus Danorum, en það verður að fylgja sér að öllu ef nokkuð á að fást, og skömm er að því, að ekkert skuli vera enn komið út frá alþingi því í fyrra, þar sem ekki voru vandari mál sum heldur en að koma mátti þeim út á einum degi. Hér er eina ráðið, að Íslendíngar segi dálítið til sín, en með greind og góðum samtökum verður það að vera. Eg fer ekki heim í vor fyrst ekkert þíng verður, svo eg þarf þá ekki að vera hræddur við fýluferðina. Mér þætti gaman að sjá skammarskjalið sem eg trúi þeir hafi heiðrað mig með, ef það væri til og ekki logið upp frá rótum. Það

er vel gert af ykkur að búa til bústjórnarfélag vestra og fjölga póstgaungum, því þess þarf með.

Hana, hafðu nú þetta rugl og fyrirgefðu það

þínum einlægum elskanda bróður

Jóni Sigurðssyni.

69.

Til Páls amtmanns Melsteðs.

Kaupmannah. 13. Maí 1850.

Háttvirti elskulegi herra amtmaður!

Kærustu þakkir fyrir elskulegt bréf með póstskipinu, og fyrir þau »óumræðileg orð«, sem þú hefir haft fyrir Ísfirðíngum. Hvað þykir þeim við mig? eða er það satt, að skammabréf um mig hafi circulerað vestra og suður á land? eg hefi reyndar frétt þetta frá beztu vinum mannsins okkar í Nesi, því þeim er einhvernveginn kunnugast um uppruna og ferðalag þessa bréfs, eptir því sem út lítur fyrir, svo eg hefi verið að ímynda mér, að það sé eitthvað vesaldar krit úr þeirri átt. Nú geta menn annars hugsað sig um, því ekki verður af þingi heyri eg sagt fyr en að sumri. Okkar í milli að segja, þykir mèr þetta hræmuglega vesælt og illa farið, og sannarlega er það von, þó Íslendíngar yrði ybbnir við, þegar þeir eru búnir að bíða í voninni 2 ár forgefins, og allir höfðu gjört hvað þeir gátu til þess að nú yrði þíng, og þá er slegið úr í miðju kafi — og það þegar verst gegnir, því hefði nú orðið slegið á frest kosníngum, þá hefði heldur borið minna á, en nú þykjast menn víst hrapa að kosníngum og sitja svo og rorra heilt ár á eptir með þessi fulltrúaefni, sem ekki kunna að verða allstaðar að allra geði. Þú getur annars nærri um orsakirnar: a, að ekkert frumvarp var samið fyr en í ótíma, og þá kom upp ágreiníngur lík-

lega milli Br(ynjólfs) og R(osenörns). — b, óttinn um Slesvíkurmálið, að það præjudicerist við, ef slakað er til við okkur (— og: að verra sé að snúast við okkur meðan það mál er óklárað? — grunar þig það ekki líka? eða *má* þig ekki gruna það?) — c, hræðsla við óeyrðir á Íslandi, sem eg heyri sagt að ymsir hugprúðir og háttstandandi herrar þar hafi gefið ávæníng um. d, ýmisleg smáatriði í öðrum efnum, sem menn vona að tíðin jafni þangað til að vori. Engin af þessum ástæðum er gild, nema Litr. *a*, að svo miklu leyti sem menn segja: »taki þeir það sem ekki er til«.

Skólamálið er nú að klárast. Eg trúi þeir styðji rektor og reki Arnljót út, og svo gjöra þeir nokkuð lítið við stundaklukku skólans! — setja hana aptur *um eitt ár*, svo að þessi umliðni vetur er ætlazt til verði *sem enginn vetur*, svo skólapiltar mega kalla þetta ár það mikla júbilár, sem er vetrarlaust sumar og stanslaus gleði og ununar saungur fyrir utan alla lestrarþjáníng og skólaskrúfun. *Hér* álasa menn stiptsyfirvöldunum fyrir mikla handvömm og undarlega, og eg má játa, að eg sé ekki hvernig heilvita menn komast til þeirrar ályktunar *á fundi*, að sleppa allri skólareglu, og láta alla drengina gánga sjálfala. Nú verður líklega Gísli Magnússon settur til skólans en annað verður ekki bætt í þetta sinn, að því leyti eg heyri sagt . . .

Danir eru að bagsa við Slesvík-Holseta og fellur hvorugur. Preussen vill nú smokka sér úr og láta þá eigast eina við, en Danir sleppa þeim ekki. Bonin er farinn heim, en kominn í hans stað Willisen nokkur, fjandi gleiður og grobbinn, svo Dönum rennur kalt vatn milli skinns og hörunds að heyra til hans. Danir hafa tekið nýtt lán (hjá Hambro), 6 mill(iónir) netto, og hinir þvíngað lán heima hjá sér, 4 mill(iónir) trúi eg. Eg segi einsog mikill stjórnspekíngur — Det seer ud til allehaande! —

Fyrirgefðu rugl þetta og vertu með öllum þínum ástfólgnu kærlega kvaddur.

Þinn einlægur elskandi vin

Jón Sigurðsson.

70.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Kaupmannah. 15. Maí 1850.

Elskulegi bróðir.

Eg þakka þér fyrir bréfin þín elskuleg. Ekki veit eg nú hvernig þér lízt á útfall skólamálsins, og er kannske ekki séð fyrir endann á því enn, en óvænt kemur mönnum þó líklega sumt, og nokkuð held eg sé gert, þó ekki sé gert til hlítar. Það kemur nú mest uppá hvað piltar gera, ætli þeir sefist ekki? — Halldór segir þér annars málalokin, en um mig get eg sagt þér það, að stiptsyfirvöldin höfðu stúngið uppá að eg skyldi vera konrektor með rektors myndugleik og svosem yfirkennara launum, en rektor skyldi vera samt við með rektors nafni og launum, og subsidialiter ef rektor færi frá, stínga þeir uppá að eg verði rektor. Að vera konrektor með þessum kjörum ber eg nú ekki við, því maður kemur þar beint inn í anarchisk princip, og hafi ekki þurft nema tvo steina til að drepa rektor, þá má geta nærri hvernig þrír eða fjórir fara með konrektor. Þar hjá eru peníngar lífsspursmál skólans, þ. e. ekkert verður gert við hann án þeirra, og þess þarf þó sem bráðast, t. d. leikvöll góðan og duglegan kennara í gymnastik, þó aldrei væri meira. Eg tæki því ekki í mál annað en rektorat, og þó því aðeins að eg fengi að fara frá mér að skaðlausu, og svo að skólabót væri lofað töluverðri og eg skyldi »nok passa« að reka eptir snáðum. Kennsla mín yrði nú samt ónýt, og verst

væri ef þið kennararnir yrðið óánægðir með mig, því þá vildi eg ekki vera. Eg bendi nú líka á Bjarna Jónsson og Konráð, því eg viðurkenni gjarnan að þeir standi fyrir framan mig í því efni, en í ýtrustu nauðsyn vildi eg reyna mig, því eg viðurkenni að mín meiníng er, að rektorsembættið sé núna sem stendur það vandasamasta á Íslandi en undireins mesta frægð að geta stutt að því að skólinn komist upp. — Eitt er það, að ef eg hefði tekið yfirkennara pláz, eða réttara segja fengið það, þá hefði eg flæmt þig frá að avancera og það vil eg alls ekki. Nú vona eg svo verði að þú verðir fyrsti aðjúnkt, og Gísli Magnússon þriðji, en Gunnlaugsen yfirkennari, og þá er heldur viðunanda fyrir þig. Rafnseyri getur þú nú ekki tekið, því 100 dala tekjur eru of litlar þó bújörð sé með. Eg vona nú, að þegar kennarar bætast við þá batni. . . . Nú verður ekki þíng í sumar, eitt er það bölvað með öðru. Orsakirnar eru sjálfsagt fyrst og fremst bölvað drollið, þarnæst hræðslan í Rosenörn, því eg held þeir hafi skrifað honum einhverjir að það mundi verða hreint upphlaup í sumar. Nauðsyn er að gjöra eitthvað og halda áfram, en varlega á að fara. Halldór konfererar nú við þig. Maklegt væri þó menn beiddi konúng að taka Íslands stjórn nú þegar af dönsku mínistrunum og fá hana Íslendíngi í hendur.

Eg verð að segja þér nokkuð um mig; eg held mínum launum híngaðtil, en hefi ekkert að gera. Ríkisþíngið dró þau samt út nýlega, en það gjörir mér heldur ekkert, því á öðrum fundi settu þeir þau inn aptur, samt ekki lengur en til nýárs eða til Marts loka næsta ár, en Madvig stendur með mér hvað hann getur og hefir lofað að sjá um mig, en einkum, segir hann mér seinast, að maður verði að fara að hugsa fyrir framtíð minni »for Alvor« um næsta nýár. Þú sér þá að eg er ekki á flæðiskeri staddur, og þó nokkuð kreppti að, þá máttu vera viss um, að meðan guð gefur mér heilsu

skulu þeir ekki leiða mig sem sauð til slátrunar þángað sem þeir vilja, heldur þángað sem mér er ljúft að fara. Þú segir mér nú kannske hverju fram vindur í skólanum. Annars er eg ekki vonlaus um að hér verði kannske sett skjalasafn við íslenzka Departement, og eg stæði fyrir því um tíma, og það kynni eg vel við, en bregðist annað vona eg að geta komist að Geheimearchivinu. Eg hefi verið að hugsa um að fara til Svíþjóðar eða Noregs, en eg get varla fengið mig til þess, svo eg held eg yrði heldur, ef í illt færi, bóndi úti á Íslandi. En guð ræður.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

71.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Kaupmannah. 27. Maí 1850.

Elskulegi bróðir minn.

Kærar þakkir fyrir bréfið þitt með póstskipi, þar okkur gat ekki auðnast að sjást í sumar, en það verður þá að sumri, ef guð lofar, því allir segja þú sért viss og Havstein fyrir Norðurmúlasýslu, en ekki þykir mér það vel byrja, ef þú ert farinn að verða hræddur við verzlunarfrelsið áður en við sjáum framan í það. Dönum mun líka verða eitthvað til, og kannske Íslendíngum líka, að núa af því skörpustu hornin áður en það kemst á, því ef allir ætti t. a. m. að fara á Seyðisfjörð og í Reykjavík, þá verða þeir líklega búnir að tapa mestu forvitninni á ferðinni þángað, svo það mundi varla líða yfir þá, þó þeir sæi framaní verzlunarfrelsið á þessum stöðum einum. Eg held nú aptur á móti að þú hafir rétt í því, að »þetta fólk eigi að brennast«, því eg er sannfærður um, að sá eini máti til að lífga það er að

fá því nóg að gera, og það var okkar beggja sannfæring hér áður, en nú sem stendur hefir það of litlar hvatir, og gamall slóðaskapur allsháttar er svo ríkur, að einstakra manna gætir ekki, heldur drepa þeir sig til einkis gagns með því að láta sér of annt um að brjóta ísinn, því allt á sér tíma. Verst er, að stjórnin er nokkuð dauf í dálkinn, og embættismenn vorir ekki sterkir á svellinu, hræddir þegar nokkuð bjátar á margir hverjir og sýna lítið conduite. Í þessum spekálum í Reykjavík sýnist mér þeim hafa yfirsézt mjög mikið, og það er auðséð að fáir af þeim vita hvað þeir vilja, en færri hafa einurð til að gjöra það sem gjöra þarf, heldur fara þeir hver aptur fyrir annan, og sleppa heldur öllu lausu, en að reyna að halda í horfinu. Þeir misskilja tíðarandann, því hann er ekki anarchiskur af því hann vilji enga stjórn hafa, heldur af því hann vill duglega, ötula og skynsama stjórn; en reyndar getur það verið, að menn kynni að heimta meira af stjórnendum en ætla má mönnum svona yfir höfuð að tala, en til hvers er að taka öllu eins og allt sé hið bezta? menn hafa séð hvernig þá hefir farið, að allt fúnar niður bæði stjórn og þjóð, og verður bezt að bera hvorttveggja á hauginn. Eg sendi þér nú nokkrar lagaskrár til að hlaupa í að gamni þínu, þá þarftu ekki að lesa ríkistíðindin, nema ef þú vildir sjá ástæður fyrir einhverju í grundvallarlögum Dana, en eg held það sé varla ómaksins vert að moka í þeim haug — eg þekki hann nokkuð því eg var í honum — fyrir ekki meira. Þú fær að sjá uppkast sr. Sveinbjarnar til grundvallarlaga Íslands; hann sýndi mér það hér, og las eg það, en ekki hefði eg hugsað þeir væri þau fífl að fara að prenta það óbreytt. Þú sér þegar þú les það, að það er tekið sumt úr dönsku lögunum sumt úr þeim norsku. Kannske eg taki upp nokkur atriði til að launa þér fyrir skýrsluna um Austfirði, en ekki tek eg nema aðalatriði og eg sleppi því sem kynni

mega polemisera móti niðurröðuninni. Mínar Ideer veiztu af niðurlagi þáttarins »um stjórnarhagi Íslands« í Félagsritunum í fyrra.

Í 16$^{du}$ grein segir að það skuli vera lög sem 3 þíng samþykkja, það er að konúngur hafi einúngis suspensivt veto. — Í Danmörk hefir hann absolut veto (§ 29). Eg held nú þetta sé kannske rétt, að láta hann hafa einúngis suspensivt veto á Íslandi, en þó kemur það uppá hvernig sambandið milli stjórnarinnar og þínganna verður lagað. Hafi menn parlamentariska stjórn, einsog á Englandi, þannig nefnil(ega) að ministrarnir yrði að fara frá, þegar þeir gæti ekki fengið samþykki þíngsins í merkilegum málum, en stjórnarforseti á Íslandi (jarlinn) hefði svo mikið vald, að hann gæti samþykkt lög konúngs vegna, þá kynni vera menn gæti gefið absolut veto, einsog Englendíngar hafa. En verði einsog í Noregi, að stjórnin og þíngið viti varla hvort af öðru, svo þíngið geti farið sínu fram og skammað stjórnina svo sem það vill og herrarnir sé þó eins fastir eptir sem áður, þá kemur þetta suspensive veto fram, það lítur vel út, en þó eru hánkar á því, og það er að menn koma strax til þess spursmáls, hvernig kemur það fram í praxis. Á einu þíngi er fallizt á frumvarp, konúngur neitar að samþykkja, menn vita ástæðurnar. Á næsta þíngi kemur það fram aptur, nú vilja þíngmenn breyta einhverju, en þó ekki svo sem konúngur vildi, heldur á annan veg, og það gengur, nú samþykkir konúngur ekki. En hefir hann nú neitað að samþykkja hið sama og fyrri, eða nokkuð annað? Án efa nokkuð annað, ef atriði eru breytt, og þá er ekki frumvarpið lengur hið sama, heldur yrði nú hið nýja frumvarp að gánga gegnum 3 þíng. Með þessu kemur maður til að kveða á, hvað frumvarpið skuli hafa til að bera, ef það á að geta notið suspensivs vetos; það verður að vera óbreytt. En þá fer nú að vandast málið, því þíngið fellst kannske á, að breytíng hefði

verið nógu góð í sumu, en getur þá ekki vel breytt til þess það geti notið réttindanna. En þegar nú er samanborin 41. grein og 59. grein við þessa $16^{du}$ sr. Sveinb(jarnar) þá þarf hvert smáskitt 6 ár til að verða að lögum, og það gildir einu hvort konúngur samþykkir eða ekki, því það verður samt ekki lög, þó hann samþykki, nema eptir 6 ár. Þetta er vitleysa, og það er að gjöra konúng þýðíngarlausan sjálfum sér til óhagnaðar.

Í $17^{du}$ grein er biskupi ætlað að vera einn af stjórnarherrunum, það stoðar ekki, því hann er embættismaður, og enginn stjórnarherra ætti um leið að hafa embætti á hendi. Sem biskup getur hann komizt í collision við sig sem stjórnarherra, og hann gæti verið settur frá sem stjórnarherra, þó hann væri bezti biskup. Að stjórnarherrarnir hafi sitt [starf][1] hver, er nú mikið gott, en ekki verður því fylgt svo strángt í praxis, að þeir beri sig ekki saman, þessvegna held eg þeir geti haft t. a. m. 3 Departement: 1, forsetinn hið almenna og lögstjórnina; 2, einn kirkju- og skólamál; 3, veraldlega stjórn og fjárhagsstjórn. Ætti ekki að skilja alla gózastjórnina frá kirkjumálunum? svoleiðis, að prestur sem búandi maður og landsdrottinn væri undir 3. en sem prestur undir 2. Mér sýnist nefnilega prestar, prófastar og biskupar mjög forsóma alla veraldlega umhyggju fyrir geistlegu gózunum, og ekki gæta þess það eru þjóðeignir, en ekki prestanna sérílagi, þó þær sé lagðar til andlegra þarfa. — Annars vantar allar ákvarðanir um hvert vald stjórnarherrarnir skuli hafa.

§ 19. Það þykir mér vera mikil compliment, að stjórnarherrann í Danmörku ráði hvort hann mæti eða eigi, þegar honum er stefnt fyrir landsdóminn.

Helftarþíngið sé eg ekki hvað á að gera, og lítið er bætt úr með því að alþíng segi því hvað það skuli gjöra. Það er auðvitað, að helmíngi þíngmanna verður

[1]) útgef.

varla trúað fyrir því sem allir eiga að gjöra. Konúngi er bannað að hleypa upp þíngum (§ 25), það er með öðrum orðum, að þíngin geta setið alltaf, hvað sem hver segir, nema þau sé barin burtu. Þau þurfa ekki annað en votera eptir § 23 að það sé »sérleg nauðsyn« til þau sé saman, og þá má enginn segja neitt að lögum. Þetta er nú hætt við yrði einmitt til að gjöra þíngið óvinsælt, og koma því til að blanda sér í alla stjórnarathöfn, sem það á ekki að gjöra.

§ 31. er að eg held of góður við kosníngarlögin þau í haust, því nokkurrar viðgjörðar þurfa þau.

§ 32. að hafa konúngkjörna menn stoðar ekki, því það er sama og að gefa stjórnarherrunum þessi atkvæði. — Vilji menn hafa nokkuð þessháttar, þá er að láta sum embætti veita alþíngissetu, því þá eru þeir þíngmenn eiginlega engum háðir.

§ 36. að hafa alþíng á Þíngvelli er eg nú eins á móti og fyrri. Það er mikið gott að hafa svipfundi 1—2 daga á Þíngvöllum, en að hafa þar mánaðarþíng, það er að fordjarfa fyrir sér staðinn, eptir minni meiníngu.

§ 49. Að ekki megi leggja mál fyrir þíng nema fyrir hönd einhvers stjórnarherra, er merkilega ófrjálslegt í því lagafrumvarpi sem auðsjáanlega ætlar að láta þíngið ráða öllu. Þar með er stjórnarherrunum, ef þeir eru refar, gefið vald yfir öllu, því hvar fyrir skyldi þeir ekki neita að leggja fram þau lagafrumvörp sem þeim væri ekki um. Það eina sem þíngmenn geta þá eptir þessu, það er að skora á stjórnarherrana að gefa upplýsíngar og leiðbeiníngar(!?), en hver skuldbindur þá til, að maður skuli hafa nokkurt gagn af því sem þeir segja? Þessi grein er einhver hin ótækilegasta í öllu saman.

§ 52. Að láta sýslumenn sitja í landsdómi væri víst fjarstætt. Þeir dæma þar lagsmenn sína og yfirmenn og hver hrafninn kroppar skjaldan augun úr öðrum.

Eg játa að það er vandi að koma fyrir landsdómi, en þetta er ófært. Hvað stjórnarherrum viðvíkur, þá væri hægast að komast hjá öllu með því að hafa parlamentariska stjórn, því þá þyrfti mjög skjaldan að koma til málsókna, þingið setti þá af með votis. Þetta er annars kannske eitt af því, sem ætti að jafna sig eptir reynslu.

§ 56. Amtsprófastur held eg gerði lítið gagn, en eg sé ekki því biskup geti ekki látið prófasta visitera á víxl í prófastsdæmum í sínu umboði, og væri umsjón kirknagózanna lögð undir veraldlega tilsjón, þá lægi minna á þeim sem visiteruðu.

§ 58. Það er misskilníngur að vilja láta fjárhag skólans vera saman við Danmerkur skóla, því hann hefir aldrei verið það, heldur alltaf aðskilinn, einsog þú getur nærri fyrst ekkert var á honum að græða. Það var einmitt direktionin sáluga að rembast við, að láta ríkissjóðinn leggja til hvað þyrfti, en ekki taka það frá dönsku skólunum.

Það væri ógn vænt ef þú gætir tekið drengi til að kenna, því með öndina í kverkunum geng eg alténd um þig, af því eg veit þú ætlar þér ekki af, og þó er það einmitt með því að þú farir dálítið varlega með þig, að guð getur geymt þig hjá okkur, annars held eg honum sé það — með bezta vilja — ómögulegt. Þó það sé lítill styrkur, gætir þú þó fengið 200 dali árlega fyrir það úr jafnaðarsjóðnum, þegar þú ert einn sem kennir, og eg vona Havstein verði þér þar hlynnandi. Eg hefi nefnt lán, en nú er ekki fram á það faranda, en hitt kynni heldur að vera, ef þú gætir mælt fyrir að Höfða væri skipt fyrir Brekku, og gjört að lénsjörð lækna, með sæmilegum kjörum, en færir þú ekki fram á það, sýnist mér þú ættir með krapti að sækja um launaviðbót. Havstein og Oddgeir og Brynjólfur eru allir með þér, og einkum svara eg fyrir Oddgeir einsog mig. Eg hlakka samt til að umfaðma þig á þíngi að

ári ef guð lofar, þó það yrði ekki í sumar, en á meðan kyssi eg ykkur í anda.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

Þorsteinn sýslumaður sendi 50 dala ávísun uppá Örum & Wulf, hana lét eg til Félagsritanna. Nú er status svo, að við erum í nærri 300 dala skuld, þegar ritin þessi eru fullprentuð, en útistandandi eigum við reyndar miklu meira. Það er verst að vera að sjakkra með bækur sjálfur, og hálfvegis ybbi eg mig stundum, að heyra að menn á Íslandi haldi eg lifi af alþingi og Félagsritunum, því ef satt skal segja, þá hefir þetta hvorttveggja gjört, að eg get enga fasta stöðu fengið eða þegið. En eg vil nauðugur hætta meðan eg innbyrla mér sjálfur, að nokkuð gagn sé í ritunum, og þau geta borið prentunarkostnaðinn. Kæra menn sig um myndirnar? Við slepptum þeim núna til að spara.

72.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Khöfn 26. Juni 1850.

Elskulegi bróðir.

Þó ekkert sé í fréttum læt eg samt miða þennan hlaupa til þín með blöðunum, og einkum með hér innlögðum seðli, sem eg bið þig að láta prenta, fyrst og fremst í Lanztíðindunum, ef það fæst, en þá í Þjóðólfi, ef það fæst ekki. Þurfi að skrifa greinina upp, vil eg biðja þig að láta gjöra það, og það væri án efa bezt, jafnvel þó reyndar standi á sama þó hönd höfundarins þekkist; þú lætur gjöra það ef þér er hægt um hönd, annars ekki. Allt er hér við sama eins og þegar eg skrifaði þér seinast, en nú segja menn Danir vænti

fullkomins svars frá Prússum á fimmtudaginn (á morgun), samt tel eg ekki uppá það verði uppbyggilegt, og eg held Dönum megi hérumbil standa á sama, því vinni ekki hertogadæmin mál sitt í ár, þá vinna þau það einhverntíma. Eitthvað er stjórnin að bræða skólareglementið og það held eg víst að prestaskólinn verði skilinn frá. Er ekki mesta nauðsyn að fá leikvöll handa piltum, og kennara góðan í gymnastik? — Nú er mikil eptirvænting að heyra hvernig fer þegar rektor kemur með resolutionina um skólann, og hvað svo skerst í framvegis, en kannske það þurfi ekki nema danskan stiptamtmann til að koma öllu í lag. — Brynjólfur Snorrason er mikið veikur og liggur úti á spítala síðan fyrir nokkrum dögum. — Við lifum við þetta sama og búum nú í Store Kongensgade nr. 49 B $1^{ta}$ Sal (ekki er það svo slorlegt), en það mun ekki vera til neins að segja þér það, því kríngumstæðurnar leyfa þér ekki að skoða hvar það er. Eptir því sem eg kemst næst, þá mun eiga að setja Gísla Magnússon fyrir aðjúnkt, Gunnlaugsen verður yfirkennari og þú avancerar, en hvernig fer um launin, veit eg ekki, eg heyri undir væng, að þeir ætli að skipta jafnt með ykkur Halldóri, en það veit eg ekki með vissu; þú vinnur nokkuð við það samt, og svo getur þú í öllu falli sótt aptur um viðbót, því í rauninni er engin ástæða til þess að lækka þau laun sem embættinu fylgja, og ekki sé eg betur en þeir verði að viðurkenna það. Undir öllum kringumstæðum ertu, að eg held, og fleiri með mér, ómissandi við skólann.

Heilsaðu öllum góðum vinum og kunníngjum og kysstu konu þína elskulega og litlu mömmu bæði frá konunni og mér.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

73.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Kaupm.h. 12. Sept. 1850.

Elskulegi bróðir.

Kærar þakkir fyrir bréfið þitt, og eg gratulera með þíngmannsdæmið, því eg held þú hafir gott af því, og spanist upp meira til að verða activ og óhræddur eða réttara sagt ódeigur. Eg hefi nú skrifað Halldóri um skólann svo nákvæmlega sem eg get að svo stöddu gjört, og reynir nú á ykkar conduite, að þið getið haldið í okkar ágæta rektor. Mér sýnist ekki svo mikil völ á duglegum mönnum, að kasta eigi burt öðrum eins mönnum og honum einsog ónýtum, og þó Trampe hafi lofað einhverju, þá er líklegt að þið getið fengið hann með lagi til að lofa upp aptur. Hann getur leitt hina af sér með því að segja að ministeríið hafi ekki viljað fallast á loforð sitt, og það mun satt vera, því hann hefir líklega lofað að rektor skyldi fara frá ohne weiter, en ministeríið vill ekki nema Egilss(en) sæki um lausn. Þið verðið nú að vera samtaka, og sýna conduite og dugnað ef duga skal. Þú getur lesið Halldórs bréf og sett svo fyrir oblátu. —

Þú talar um atriði í stjórnarmálunum. Það er nú fyrst og fremst að Þíngvallafundurinn líkar mér allvel, nema það, fyrst, að ekki var beðið einskorðað um að frumvarpið yrði sent með póstskipi, heldur »sem fyrst«. Það er barnaleg bæn og hlægileg nema til stjórnar sem ekki þarf að biðja. Þar næst var það malconduite að velja Trampe í nefnd. Hann á ekki að sitja í þesskáttar nefndum, því það heyrir ekki stétt hans og á ekki einhvernveginn við eðli málanna. Hann verður ófrjálsari á því, þó hann vildi vel. Það hefir annaðhvort verið gjört af hræsni fyrir honum og Dönum, eða af hrekkjum til að deyfa landsmenn. —

Þú talar um dómsvaldið, það er einsog þú segir flókið spursmál, en einmitt þess vegna eigum við að fara hægt í það, láta stjórnina brjóta þar ísinn og stínga uppá, og kritisera það sem hún gerir ef við getum. Það er meira *form* en realitet með þessa ábyrgð ministranna, og eg held að parlamentarisk stjórn (ɔ: byggð á því að engir stjórnarherrar geti verið við sem ekki hafa majoritet á þínginu í öllum merkismálum) og suspensivt veto geti gjört mikið að verkum. En ef það yrði ekki, þá yrði að eg held jurydómar að verða grundvöllurinn fyrir dómum yfir stjórnarherrum einsog öðrum. Það er að minni meiníngu réttast að setja í grundvallarlögin ekki annað en ábyrgðarprincipið (nema stjórnin stíngi uppá einhverju, sem menn gæti fellt sig við, hvað varla mun verða), en skuldbinda stjórnina til að leggja fyrir frumvarp um hvernig það yrði framkvæmt. Yfir höfuð að tala eigum við helzt að taka það fram og brýna það, sem öllum ætti að liggja á hjarta, og hægast er að koma sér saman um, en varast að fara að hlaupa í hitt, sem er svo vafasamt og þar að auki reyndar framar theoretiskt en praktiskt. Hinir sem eru á móti, eða tregir, vilja reyndar helzt hafa fram þessháttar spursmál, því þá fá þeir fremur höggstað á mönnum, en þeir eiga ekki að fá vilja sinn fram í því, heldur á að slá þá af laginu með einhverju sem öllum kemur saman um. Þess er annars ekki að vænta, að fá öll atriði svo regluleg, að ekki þurfi neitt við að gjöra. Þjóðin verður alltaf að fylla út þetta schema, sem grundvallarlögin gefa, og þar með halda lífi í öllu saman, annars verða lögin dauður stafur.

Kysstu elskulega konu þína og dætur frá okkur.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

Ætli þið gætið ekki eða ættið ekki að semja grein í blöðunum, til að sýna, að það væri ekki eiginlega vel

ráðið að óska mín fyrir rektor. Væri það svo að mitt nafn væri indirekte hvöt fyrir suma til að óska rektor frá — og það kynni að vera af því menn hafa nú fengið þær grillur kannske um stund, að eg sé allra bezti [og][1] frjálslundaðasti rektor, sem þó mundi annað reynast — þá kynni það að gjöra marga rólegri, ef þeir sannfærðist um að eg ætti að vera heldur laus.

74.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Kaupmannah. 29. Sept. 1850.

Elskulegi góði bróðir.

Ekki lætur þú þitt eptir liggja heldur en fyrri að skrifa bæði fljótt og rækilega og þakka eg þér ástsamlega fyrir bréf þitt, ekki alls fyrir laungu meðtekið. Þú setur mér efni fyrir, sem er vont við að fást, hvað þú eigir að gjöra við alþíngisferðina. Eptir minni meiníngu ertu nú góður alþíngismaður, og að vini okkar amtmanninum ólöstuðum, vil eg kjósa þig til, en hann frá, einsog fór, ekki af því að eg viti ekki hann sé hreinskilinn maður og bezti prívat-kunníngi, en hann hefir stokk-júrista skoðun á svo mörgu og bureaukrat er hann aptur í sporð, en þessháttar menn þykir mér ekki sérlega vel fallnir til þíngmanna, enda er þeim optast samfara að þeir gera lítið úr þesskonar samkomum, og því er auðsèð þeir eiga þar ekki heima. Væri eg í þínum sporum, þá færi eg öldúngis eptir mínum hentugleikum og því sem eg vissi sýslubúar felldi sig við, og til þess finnst mér amtmaður hafa bent. Þú þarft ekkert yfirvaldsleyfi til að taka við kosníngu eptir kosníngarlögunum, ef eg man rétt, og því hefir þú ekk-

---

[1]) í handritinu: að.

ert annað að gera en að ábyrgjast amtmanni embættið, ef honum þykir þörf að setja annan, og ef hann heimtar borgun af þér, þá að protestera og segja, að þú hafir rétt á að taka við kosníngu skilmálalaust, enda sé það ósanngjarnt, að þú af þeim litlu launum skulir verða að missa handa manni sem amtmaður setji kannske að þarflausu, o. s. frv. sem andinn gefur þér inn, og vera gallharður; með því móti hlýtur þú að minnsta kosti að komast undan að borga fyrir constitutionina, í versta lagi með því að sækja um það. Nú stendur því betur á, sem amtmaður hefir lagt þér í sjálfs vald, hvort þú viljir fara eða ekki, enda gat hann ekki vel annað, því hann átti ekki með að banna þér það. Viljir þú nú fara mildara veginn, þá verður þú að hafa amtmann góðan, svo annaðhvort verði enginn settur, eða hann hjálpi þér til að fá mann uppá alþýðlegan kostnað en ekki þinn. Summa summarum er, einsog þú sér, að tilfellið er ekki beinlínis lögákveðið; þú mátt, sem sagt, eða hver embættismaður, þiggja kosníngu; þyki amtmanni þörf að setja mann, á hann að sjá um það, og þá getur þú líklega ekki haft fullan rétt á að neita að *sá* hafi lögákveðinn hluta launanna, sem settur er, en þú getur gert það annaðhvort vafasamt með stífni og kjapti, eða fengið hlífð á því eptir sanngirni og með góðu. En þá kemur nú til amtmanns, að hann sé ekki stokk-júristi, og það veit eg ekki glöggt hvernig fer, jafnvel þó eg voni, að Pétur sýni sig ekki ósanngjarnari en amtmenn eru hér þegar líkt stendur á, því ekki veit eg betur en þeir greiði fyrir þíngmönnum sem bezt, að þeir geti gegnt köllun þjóðarinnar, og svo mun andlega stéttin gera á Íslandi, eg gizka á án þess að prestur missi í sem til þíngs fer. Það er þaraðauki skylda þín og hvers þess sem þíngmaður verður, að styrkja til þess, að gjöra köllunina til þíngs sem tignarlegasta, til að sýna mönnum, að fyrir þjóðgagni verði allt annað gagn að víkja, og ef í harðfjörur fer, getur maður

leitt þesskonar í orð á þínginu sjálfu, og þá verður amtmaður að fara nokkuð eptir því, ef ekki á að verða kannske verra af, að minnsta kosti óþægilegar umræður, og það er ekki þægilegt — þó sumum þyki nú reactionin vera að sækja í sig veðrið — að vera kallaður þröskuldur fyrir leyfilegu frelsi þjóðar sinnar og réttindum hennar, sem eg kalla það, ef þjóðfulltrúi er neyddur til að sitja heima vegna smámunasemi amtmanns. Allt annað mál er það, ef þú værir viss um þú hefðir skaða af að fara til þíngs, og að heilsa þín og kraptar hefði ekki heldur gagn af því — en eg held þú hafir gott af því — því þá væri heldur spursmál hvað þú ættir að gjöra, og kæmi það þá ekki heldur amtmanni við. Eg fýsi þig til að koma, og gefa amtmanni gráða, og í það heila tekið þá vildi eg drottinn gæfi þér styrk til að láta þér ekki vera eins innilega annt um kynslóðina eins og þér reyndar er, því þú verður að játa, að það er inconsequent, að þykja hún öll saman óræsti, og að taka svo sárt til hennar að þora ekki að hleypa henni á forvaðana. Eptir minni meiníngu er ekki svo lítið moralskt afl í Íslendíngum, en það kemur ekki fram nema þar sem um lífið er að tefla, og því held eg rétt sé að hleypa þeim svona með gætni en þó feilnislaust út í veröldina, og láta heldur neyðina kenna naktri konu að spinna, heldur en að reyna að stjórna þeim með neinni föðurhendi. Ekki er eg meiri patríót en þetta.

Nú veit eg ekki hvernig fer um skólamálið. Trampe hefir stúngið uppá alternative að gjöra mig að rektor, eða að setja sr. Pétur yfir báða skólana, og haga svo eða svo með kennara. Eg segi nú fyrst og fremst, að meðan Egilss(en) ekki segir af sér þá er ekki spursmál um neitt, en verði svo að hann fari, þá fer eg ekki fet nema skólinn verði nokkuð bættur. Eg læt nú svona já og sjá, því þó þeir setti mig af þessu litla skítti sem eg hafði þá gjörir það mér ekki svo mikið, nema það er því betra, að eg ný þeim því um nasir, og læt þá

lofa mér aptur og aptur öllu fögru, hvort sem þeir halda nokkuð af því eða ekki. Ef Egilss(en) færi frá, þá væri annars mart sem drægi mig til skólans, en uppá mín eigin býti vinn eg ekkert, því núna get eg haft hérumbil annað eins uppúr með því að vera hér, skipta mér svo mikið og lítið af Íslands efnum sem eg vil, og þannig sem eg vil, njóta af gamla málshættinum að fjörður sé milli frænda — því fara mundi fljótt af mér gyllingin þegar eg væri seztur að sem rektor — og geta þó kannske gert nokkuð gagn við og við — enda stundum meira en ef eg væri meira meingaður við daglegt slabb og querelas þeirra Reykvíkinga. En væri mèr viss von að skólinn batnaði framar fyrir það, og eg hefði heppni til þess, þá sé eg reyndar að mikils er það vert, en eg mistreysti mér til þess, og er deigur að hleypa mér að nauðsynjalausu útí það. Eitt er það, að ef eg kæmist að skólanum kæmi eg austur til þín eitthvert sumarið, og hver veit nema okkur auðnaðist að búa í nágrenni ef þú yrðir landlæknir, því þú mættir til að sækja um það þá ef við ættum ekki að rífast.

Ekkert er nú gjört við stjórnarmálefnið okkar, því Brynjólfur Pétursson er nú lasinn þaraðauki, og guð veit hvort hann réttir við. Það er að vísu skaði mesti að missa hann, því bezti drengur hefir hann ætíð verið, en dugnaður og framkvæmd hans í málefnum Íslands hefir verið nokkuð sljó, þó viljinn hafi verið sá bezti. Mér hefir fundizt hann vera að digna smásaman, og verða innlífaðri dönskum hugsunarhætti, hérumbil einsog Lanztíðindin. Oddgeir tæki víst við ef hann dæi, og það er víst sá bezti sem við eigum völ á, hann er hreinn og beinn, óhlutdrægur og samvizkusamur í því sem hann á að gjöra, og frásneyddur andskotans drættinum, sem er okkar versta átumein.

Kysstu nú konu þína elskulega og dóttur.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

75.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Kaupmannah. 29. Sept 1850.

Elskulegi bróðir.

Kærar þakkir fyrir bréf nýmeðtekið, en ekki get eg neitt gert við Reykjamáldagann Brunnastaðamannsins, því eg hefi ekkert fundið um þá jörð; þess þyrfti líka að nefndar væri jarðirnar í kríng, og enda greinilega sagt um hvað þrætan væri, því annars veit maður hvorki út né inn, og er kannske að hafa ómak fyrir að skrifa upp það sem ekkert gagn er að, en borgun dettur mér ekki í hug að taka, enda held eg þeim þætti nóg um ef þeir ætti að borga ómak fyrir bréf sem svo væri ónýtt á eptir. Eg skrifaði þér um daginn um skólann og lagði þar í bréf til rektors og Halldórs, sem þú áttir að lesa og fá þeim síðan. Annað veit eg ekki glöggvara, nema að Madvig þykist ekki um sinn hugsa til annara en mín ef Egilss(en) fari frá, en eg læt nú sjá fyrst og fremst hvort nokkuð fæst bætt, þ. e. að budgettið verði samþykkt, og þar næst hvort ekki verður allt gott í vetur. Eg vona þið gerið allt til þess að halda Egilss(en). — Vel kann það vera satt, að mér stæði eins opinn vegur þó eg yrði rektor, en bæði er það, að eg vildi síður hlaupa frá skólanum ef allt gengi vel, heldur en koma þángað aldrei, og svo er eg hræddur um eitt, og það er að þíngið í sumar fallist ekki á stjórnarfrumvarpið, en þá þyrfti að senda menn af þíngsins hendi eða þíngmanna til að fylgja því fram sem þíngið vildi, — að minnsta kosti kynni það koma til álita — þá þyrfti líklega að skrifa hér í blöð, tala við ríkisdagsmenn, og í það heila fylgja fram þjóðsambandi voru og setja í gegnum vilja þess, hvað sem stjórnin segði, eða kenna henni að sjá, að við hefðum líka vilja og ráðdeild til að fylgja honum fram. Yrði eg nú rektor,

þá yrði eg fastur, hvað sem fyrir kynni að koma, og að minnsta kosti er það líklegt. En þú segir að þá mætti setja annan, og það er satt, en lengist þá ekki þetta hálfklúður við skólann? — Ekki held eg þeir kaffæri mig svo að eg viti ekki af, því hingað til hafa hrekkir landa verið mikið einfaldir og smábrotnir, en satt er það, að þeir geta orðið meinlegir til lengdar. Annars held eg, að geti manni heppnast að fá samhenta kennara, og að innræta hjá piltum interesse fyrir skólans framför, jafnframt og maður sýnir að hann geti komið nokkrum bótum á, þá muni allt slarka nokkuð. Nú er verst, að lítil völ er á góðum kennaraefnum. Hvernig er Gísli Magnússon? Ætli honum væri mikið um að eg yrði rektor? — Jæja, það er nú það sama, eg vona þið reynið að halda í Egilss(en) ef það er kleift, og að þið haldið í hann án alls tillits til stjórnarinnar, en ef það tekst ekki þá sést hverju fram vindur. Eg segi hvorki já né nei fyrst um sinn. Mér hefir dottið í hug, að séra Halldór Jónsson væri gott rektorsefni. Hvað segir þú um það?

Þú verður að segja Jóni Árnasyni landamerkja-manni, að hann hafi sína beztu vörn í praxis; hafi Reykir haldið átölulaust um 20 ár eða lengur því sem menn nú vilja ásælast, þá á hann að hafa það, og enginn getur gjört honum neitt nema með gildum skilríkjum, hann á að fyrirbjóða landið innan þeirra ummerkja sem haldið hefir verið, og verja það, lögfesta og framfylgja lögfestunni með dómi o. s. frv. — in summa, vera gallharður, þá þarf hann engin skjöl, nema hinir hafi skjöl á móti sem hann getur ekki vefengt, en lengi má vefengja ef ekki »skortir skilnínginn«. Ef hann vill nokkuð meira, þá getur hann sagt mér eða þér efni þrætunnar nákvæmlega (hann má engu skrökva, og þarf þess ekki, því ekki tek eg af honum neinn rétt), senda mér uppskript af skjölunum sem þeir hafa, o. s. frv. sem nákvæmlegast, en eg ætla annars einhlítt fyrir hann að

stappa stáli í landseta sína og þá mun duga, ef þeir eru ekki ónýtir, en sé þeir það, þá á hann að reka þá burt. Nú er þeim manni víst borgið.

Með ánægju vil eg taka þátt í kostnaði »Undirbúníngsblaðsins«, og vil eg biðja þig að annast það tilboð af minni hendi. Eg trúi Rosenörn ætli að skrifa Trampe eitthvað um stjórnarmálefnið, og ætti þið nefndarbræður hans að fá að sjá það, og kannske prenta, því það ætti ekki að vera launungarmál. — Séð hefi eg bréf Tr(ampes) um skólamálið og er það reyndar satt, að hann hefir principaliter stúngið uppá mér til rektors, en hann hefir samt ítarlega lagt niður um laun og allt með því að séra P(étur) yrði það, svo það sýnist sem hann hafi látið undan einhverri »offentlig Stemme« með tilliti til mín, og yfir höfuð sé eg ekki betur en ymsir dómar hans sé ekki byggðir á öðru en hugmyndum og kannske umtali fólks. Ekki fær Arnljótur að ganga upp, en Magn(ús) Eiríksson ætlar að dimittera hann að ári. Það var skaði að Egilss(en) hefir af góðmennsku sinni lagt með að hann fengi að ganga upp nú, því hér er það tekið til marks um gúnguskap og Inconsequents, því bæði væri slíkt móti öllum reglum, og svo er það gagnstætt öllu, að láta hann nú fá það sem allir kennararnir hefðu í vetur er var lagt hreint á móti. Ef öðrum á að verða ónýtt árið, þá ætti hann þó ekki að fá premíu fyrir það hann hafi orðið svo frægur að vera rekinn út af ministeríinu, cum unanimi consensu. Eg segi ekki þetta af því, að eg vildi [ekki] gjarnan hafa óskað að aldrei hefði til slíks komið með Arnl(jót) því eg ætla hann mannsefni, en það stoðar ekki að slá á sinn eiginn munn.

Nú er bréfið á enda; vertu blessaður með öllum þínum.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

76.

Til Páls amtmanns Melsteðs.

Kaupmannah. 29. Sept. 1850.

Hæstvirti elskulegi herra amtmaður minn.

Eg lifi í voninni um bréf frá þér og læt því línu hlaupa til að segja þér að við lifum við þetta gamla. Um málefni Íslands fer líkt og þegar þú vissir til seinast, nema Brynjólfur hefir verið mikið veikur um tíma, og við erum hræddir um hann; það getur annars verið að það hafi fremur flýtt en seinkað fyrir erfðalögunum, því þau koma nú loksins, og lagaboðið um þínghöldin í Norðurmúlasýslu eptir lánga útivist og erviða, en ekki kemur rekaplakatið enn, og ekki sést til grundvallarlaganna, nema eg hefi heyrt sagt þau muni liggja með sömu ummerkjum og í vor, og sagt er að Rosenörn muni skrifa Trampe huggunargreinir til þjóðarinnar, og muntu fá að sjá þær, og kannske að communicera þær þar vestra. —

Eg hefi fengið communication um að eg sé kosinn í Ísafjarðarsýslu, og má eg víst þakka þér það, því án þinnar vinsamlegrar frammistöðu hefði það líklega verið tvísýnt, jafnvel þó eg viti ekki hvað eg hafi syndgað móti löndum mínum enn sem komið er, nema þetta gamla: »ónýtir þjónar erum vér.« — Nú er eitthvað í bruggi með skólann, og á aðra hönd hefir mér verið hálfvegis boðið rektoratið; eg bíð nú í öllu falli í þeirri von, að Egilss(en) geti komið öllu í lag, og haldið sér, en verði það ekki, og hann sæki um lausn, þá eykst vandinn. Nú um sinn segi eg hvorki já né nei, en eg er reyndar í ólukkans miklum vafa um hvort eg ætti að vogast í það ef til kæmi. Mér þætti mikil sæmd ef mér gæti auðnast að koma skólanum til, en getur mér auðnast það? — Sá hefir ekki sem ekki hættir, segir þú, en þú átt ekki að freista drottins, segi eg, að mæla ekki vel krapta þína á undan. — Biddu fyrir mér ef svo lángt kemst, að mér stendur það til boða, og einkum ef eg segi já.

Alltaf er í þrefinu gamla við þá í hertogadæmunum, og naumast held eg það ætli að heppnast, að koma þeim á þurt áður en farið er að eiga við okkur; konúngur og erfðaprinsinn eru nú þar fyrir handan snögga ferð. Þjóðversk blöð eru full með það, að konúngur vor segi af sér og Pétur af Oldenborg verði hér konúngur, í laun fyrir liðveizlu Rússa, og sumir trúa því hér. Allt getur skeð, og því held eg sé þess betra, sem við værum lausari við »garðana þar í Gröf«.

Forláttu mér þennan efnislausa miða, konan mín biður ástsamlega að heilsa öllum þínum ástfólgnu, einkum frúnni þinni elskulegri, og þar með tek eg undir. Eg bið líka að heilsa kærlega Thorlacíusi, ef eg fæ ekki tíma að hripa honum línu, sem mig þó lángar til.

Þinn elskandi vin og heiðrari

Jón Sigurðsson.

## 77.

### Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Kaupmannah. 29. Sept. 1850.

Elskulegi bróðir minn.

Eitthvað gengur þér, bróðir minn, að koma þér vel við gamla Bárð á Jökli, að þú ert orðinn þíngmaður Snæfellínga, eg gratúlera og vona þú snúir út loðfeldi þínum, þegar til kemur og á þarf að halda. Allvel líður hér, nema að við misstum Brynjólf Snorrason í sumar, og Brynjólfur Pétursson er hættulega veikur, svo við erum hræddir um hann, veiki hans er lángvinn en þó engu betri fyrir það. Hann hefir ekki getað neitt gert núna í mánuð, og menn hafa tekið eptir því í sumar, að hann var orðinn málstamari en fyrri, og er einsog hann gleymi orðunum jafnframt og hann talar. Einhver óregla er í heilanum og í blóðinu, því það stígur honum til höfuðsins, kvíði og hræðsla er því

samfara. Deyi nú Brynj(ólfur) þá er eg að hugsa að Oddgeir þauli á okkur í sumar, eða greifinn, en eg vona þar verði við ramman reip að draga sem við verðum Íslendingar, því við verðum víst magnaðir nú, og í vor gjöri eg ráð fyrir fundur verði í hverri krá, áður til þíngs er farið. Ekki hefi eg séð neitt til stjórnarlagafrumvarpsins, og ekki kemur það með póstskipi, en hvort Tr(ampe) skrifar þjóðinni nokkrar huggunargreinir frá Rosenörn veit eg ekki, því það er ekki sagt hann geti miklum huggunum lofað. Ef Íslendingar geta orðið fastir á að vernda réttindi sín og láta ekki draga sig inn í Danmörk, þá mega þeir eiga mest undir sjálfum sér, því frumvörp stjórnarinnar munu miða að því, að tengja þá til sem fastast, því alltaf er að fréttast að Íslendingar sé að brjótast um í böndunum, og rífa og rykkja í, en þeir segja að Trampe þurfi ekki annað en hasta á þá, og hóta þeim ennþá stærra herskipi en Díönu, þá verði þeir á augabragði góðir. Munur er það eða Holsetar, því þeir eru alltaf vopnaðir á landamærum, og ráðast á þegar minnst varir, svo ekki er allt fullséð enn. — Hugsaðu til mín, bróðir minn, ef þú sér merkileg handrit, eða gamlar bækur vel um gengnar. Eru ekki til kvæði séra Sæmundar Hólms? Þau eru víst skrítin og ekki ómerkileg. Eru ekki til kvæði eptir Odd Hjaltalín? Mikið er á ferð af dönskum júristum, Finnur litli og Árni Gíslason eru uppi, Erlendur Þórarinsson að austan er að yrja það, Þorlákur Blöndahl og Jóhannes einhver, nýkominn í lausamágsemd við frænda þinn á Enni, eru nýkomnir, svo nú sér ekki í jörðina fyrir studiosis juris, en eitthvað 11 eru að stúdera latínsk jura. Jón Guðmundsson er á leið í koffortinu grósserans, og kemur líklega þá og þegar.

Heilsaðu kærlega frá okkur öllum þínum ástfólgnu.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

78.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

[Ódagsett, en mun vera skrifað fyrir nýár 1851].

Kjære Herr Pastor Gudmundsen.

. . . Jeg vedlægger ‚Undirbúningsblað' for at De deraf kan see en Pröve paa den politiske Agitation hos os; den er som De seer meget tam og fredelig, som det sömmer sig for de smaa Magter, imidlertid troer jeg, at hvad man tilgavns bliver enig om i Island, det lader man sig næppe afdisputere, men Concentrationspartiet her er ligesaa urimeligt som Oplösningspartiet, naar det kommer til Stykket. —

Alle Landsmænd leve her ved det Gamle, kun stakkels Br. Pétursson er meget daarlig, og har ligget ude paa Klampenborg henved en Maaneds Tid. Han lider af en meget betænkelig Nerve-Svækkelse, som betager ham meget af hans Aandskræfter, gjör ham forknyt og Tænkningen saa langsom, at han næppe kan holde sine Tanker samlede, endnu mindre anstrænge dem. Han er rigtignok nu bleven noget bedre, men ikke meget. . . .

I Rigsdagen er man nu ifærd med at indlemme Færöerne, men Færingerne vil grumme nödig, og jeg troer de vil protestere. De vil have deres ‚Lagthing' og holde deres Menage for dem selv. (Ligesaa hos os!). . . .

Jón Sigurðsson.

P. S.

Egilsen har resigneret som Rektor, men hvad det nu bliver til er uvist. Sagen staaer uafgjort til Foraaret. Alle Drengene i överste Klasse, paa tre nær, blive borte fra Skolen, saa at kun tre ere i överste Klasse. Ialt ere 40 Disciple i Skolen nu. Disciplinen skal nu være meget stræng; to af Lærerne skiftes til at holde Opsyn, og ingen Dreng faaer Lov at gaae ud uden Tilladelse. Spisetiden er bestemt til en Time, og

5—10 Minutter frie mellem hver Læsetime. Bare nu ikke det igjen gaaer for vidt. — Scheving har resigneret, i hans Sted er Gísli Magnússon constitueret.

79.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn den 2. Jan. 1851.

Kjære Herr Pastor Gudmundsen.

... Brynjólfur er bedre men ligger dog paa Klampenborg endnu, som vist ogsaa er rigtigt, thi der kommer han bedre til Kræfter igjen; Gud veed dog om han kan blive saa rask, at han kan overtage sine Forretninger for det förste. . . .

Er der ingen i Nærheden af Dem som vil handle paa Island. Jeg kunde anvise Dem en Cargadeur, som har været ved Handel der: Jón Jónsson Broder til Sigurð Jónsson paa Flatö. I tilkommende Sommer vil det vist blive godt der ovre, fordi vi faae vel næppe mange Speculanter, de brændte dem i afvigte Sommer. Derimod trænger man som De veed i Island til nogen Hjelp for de faste Kjöbmænds Plagerier. . . .

Jón Sigurðsson.

80.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Kjöbenhavn den 8de April 1851.

Bedste Herr Pastor Gudmundsen.

Jeg gaaer nu som De veed til Island i Sommer; der var i Efteraaret Tale om at jeg skulde være Rektor, og Stiftsövrigheden foreslog alternative at sr. Pétur

skulde tage hele Bestyrelsen baade af Pastoralseminariet og Skolen, eller at jeg skulde tage Rektoratet, da Trampe havde faaet Egils(en) til at resignere, tvertimod alle hans Venners Raad, som vilde holde paa ham. Nu skriver Stiftsövrigheden igjen, at det er »naturligviis ikke Meningen, at indstille mig hvis andre mere qualificerede skulde melde sig(!!)« — ligesom den var bange for at blive misforstaaet. — Heldigviis havde jeg selv gjort Trampe allerede i fjor Foraar opmærksom paa Bjarni Johnsson i Horsens, som jeg troer kunde blive særdeles god Rektor, og som navnlig har baade Övelse som Lærer og Kundskab i de nyere Sprog, som netop er det svageste Punkt nu. Men dengang strandede det maaskee paa Brynjólf Pétursson, som ikke vilde ham, men maaskee, i Mangel af andre bedre, heller mig.

Nu venter jeg paa ‚vatnsins hræríngu‘, jeg tilbyder mig slet ikke, thi jeg er ikke begjærlig efter Posten, men hvis den bliver mig tilbudt, tager jeg mod den kun paa Betingelser, först at Skolen sættes i Stand efter mine Ideer, og dernæst at jeg faaer den samme Lön som de yngste Rektorer her. — Jeg er vis paa De synes dette er storsnudet af mig, men jeg synes ikke jeg kan andet, naar jeg skal paatage mig Ansvaret, og det er jeg villig til, naar jeg kan have Lov til at raade, men ellers ikke; saa kan de gjerne tage den förste den bedste Nathue. De kan ogsaa troe at Skolevæsenet er i de senere Aar endeel forfusket, Bestyrelsen i Reykjavík er ikke saa simpel som paa Bessastad og kræver derfor mere Driftighed og Conduite, Huset er slet og kostbart bygget, og derfor bliver Institutionen forhadt hos mange, thi som De veed, saa er man meget nöjeregnende med saadant, selv der hvor man selv igrunden intet betaler til. Nu gjælder det at kunne hæve Skolen, rette efterhaanden Feilgrebene, gjöre Institutionen populær, og i det samme lægge Grund til noget Varigt og Solid, ikke alene i aandelig men ogsaa i legemlig

Henseende, hvorved jeg tænker paa selve Huset, som er saa slet, at det overgaaer alle Regjeringens Mesterværker i den Genre i Island, og nu er paa Tapetet at spendere en 3000 Rbd. paa et nyt Tag og Forandring af Værelser, efter min Mening uden al sand Nytte. — Af disse og flere Aarsager synes jeg, at enten maa man trække sig tilbage, eller vegetere der som en Mæhæ, naar man ikke itide stiller Betingelser. De seer heraf, at jeg er omtrent fri for Rektoratet.

Brynjólfur er hele Tiden syg, og jeg kan ikke see, at han kan være istand til at være Commissarius, men hvem det bliver, veed man ikke endnu. Det fornuftigste efter min Mening var at tage Oddgeir, og sætte Kofoed for begge Contoirerne i Sommer, men muligen bliver Trampe sat. Han synes ikke at være synderlig vel skikket til sin Post. Han er munter og selskabelig, og velvillig, men lös, snakkelysten og uden Bestemthed i Planer og Udförelse. Han har ogsaa uvorne Drenge, som ikke gjöre noget godt.

. . . Fader er nu en gammel Mand og næsten blind. — Man siger at Amtmand Melsted skranter af og til.

Det politiske Liv er paa Farten, og naturligviis blive nogle ængstelige; det er jeg ikke endnu, thi jeg troer at vore Landsmænd ere meget besindige, naar det kommer til Stykket . . .

Jón Sigurðsson.

81.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Reykjavík 2. Juli 1851.

Elsku bróðir.

Nú er þá híngað komið, og fórum við konan mín 15. Maí frá Höfn, lágum í Noregi 15 daga og komum

híngað með heilu og höldnu 22. Juni. Eg var á Þíngvallafundi og var þar skrifað ávarp til þjóðfundarins og honum falin ábyrgð á frelsi og réttindum vorum og að kjósa menn, ef þyrfti, til að fylgja málum vorum til Danmerkur. Menn vilja halda áfram aðalnefnd og sýslunefndum fyrst meðan á máli þessu stendur, til að vaka yfir því, og held eg þar til beri full nauðsyn, einsog nú er ástatt. Stjórnarfrumvörp eru engin komin enn, og hefir nú stjórnin brennt sig í þriðja sinn á þremur árum á seinlætinu. Greifinn hefir lagt hér mikið undir sig, en lægir nú seglin smásaman, og svo mun verða þegar tekið er á móti honum með greind og alvöru. Á þínginu vona eg verði spurt um ymsar lögleysur, sem fram hafa farið. Allvel lízt mér á anda þíngmanna, þeir vilja auðsjáanlega gjöra hið bezta, en hamingjan lands vors ræður hvort viljinn getur stuðzt við nokkurt afl. Eptir minni meiníngu þá er seiglan okkar bezti bjargvættur, og þá þarf ekki að kvíða ef hún er óbilug. Mér er nú ekki til neins að minna þig á þetta, því þú sér það eins vel og eg; eg ætla heldur ekki að tala um þíngferð þína, því eg sé, að eg má hafa það svo búið, en ekki get eg neitað því, að það hryggir mig innilega, að mér sýnist þú ekki geta vel tekið veröldina einsog hún er, og að þú vilt einsog ekkert eiga við hana að sælda þegar hún gjörir ekki hvað gott er. Mér hefir aldrei verið svo ant um hana, að eg hafi vænzt eptir því, og það hefir gjört mig rólegan. Ekki skil eg í hinu, að þú skulir ekki heimta hvað þú átt fyrir kennslu, því þó lítið sé, þá er það þó það það er, og mér sýnist óþarfi að kasta því frá sér og engin niðurlægíng að heimta það. En eg sé, að þú vilt ekki fylgja minni skoðun í þessu, og því er ekki til neins að tala um það. Hitt veit eg, að því að eins ræður maður nokkru við veröldina, að maður hafi tökin á henni, og hvorki elski hana né forsmái um of.

Nei, heyrðu, nú ætlar að fara að slá útí fyrir mér og brýt eg í blað með ástkærri heilsun til þín og þinna ástfólgnu.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

82.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn 22. Sept. 1851.

Kjære Herr Pastor Gudmundsen.

For nogle Dage siden er jeg kommen hertil og har nu for Öjeblikket nok at bestille med at drage de islandske Forhold frem. Da jeg kom her var Stemningen temmelig slem imod os, men jeg troer den er bedre siden man saa Sammenhængen. Ministeriet er naturligviis imod os og det er mægtigt, saa at det er tvivlsomt om man vinder andet end at blive fri for det lumpne Forslag, som Bardenfleth og Sponneck havde lavet til os. En Adresse til Kongen, som vi skrev og som en Deputation (Jón Guðmundsson, Eggert Briem og jeg) blev valgt til at overbringe, kan ikke publiceres endnu, da de to ikke ere komne, og den kan ikke afgives för; jeg har kun underhaanden givet Kammerraad Stephensen Oversættelse af den. Jeg og min Kone kom med en Speculant Gram til Ballum, kjörte derfra til Flensborg og saa herover med Dampskibet. Reisen gik heldig, saa vi var kun ialt 14 Dage til Kjöbenhavn. I Island var ellers alt godt, men Stemningen mod Trampe og hans Soldater og 5 af de höjere Embedsmænd som var med ham var ikke god. Trampe er vel hidsig og despotisk, naar det griber ham, og aldeles uskikket til at debattere undtagen maaskee med en Forsamling, som er af hans Meninger. Han og hans Familie er

ikke lidt, han selv dog ellers bedst som privat Mand. Bjarni Jónsson var kommen som Rektor, og jeg vil haabe det gaaer godt, imidlertid kunde man mærke, at han havde været for længe borte fra Island. Man er nu i Island meget national i det Hele, men han er bleven Cosmopolit. . . .

Jón Sigurðsson.

Hafi þér fengið nokkuð frá Bókmentafélaginu? Eg er nú orðinn forseti og langar mig til að félagið haldi sér nokkuð til við góða menn. Þér ættið að fá kortið gratis, og svo Skírnira, og það skal eg sjá um, ef eg veit hvað yður vantar.

## 83.

### Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Kaupmannah. 29. Sept. 1851.

Elskulegi bróðir.

Fátt er í fréttum nema ferðin gekk okkur vel híngað, og eg er að hríngla í blöðunum, þó tregt gángi, því þú veizt að þegar á á að reyna, þá er nóg villa og vanþekkíng á okkar málum. Þó er publicum nokkuð sanngjarnt en ministrarnir eru bölvaðir, því þeir þykjast ekki hafa komið á okkur múlnum í þetta sinn. »Föðurlandið« er einna sanngjarnast, og Madvig meðal ministranna, en hvorutveggi eru nú í kröggum og ráða engu. Þessir vilja láta okkur hafa frjálslega nýlendustjórn og eg er heldur á því en á að þætta sig inn í Danmörk. Kristján er nú settur af, og er slegið til að hann sé ónýtur pólitímeistari, þ. e. hann segir ekki fréttir nógar. Jón Guðmundsson á ekkert embætti að fá. Við sjálft lá að sr. Hannes, sr. Halldór á Hofi og sr.

Ólafur frændi yrði settir af, en Madvig vildi ekki. Eg átti að fara eins og Jón Guðmundsson, en eg slapp held eg, þó einúngis í orði að öllum líkindum. Eg sæki nú um embætti í Geheimearchivinu og hafði loforð fyrir því, en fæ það líklega ekki nú. Þetta væri nú ekki nema gaman, ef menn þyldi það, og vissi að alþýða væri einbeitt á manns máli, en efinn um það gjörir mann deigari. Svari uppá aðalmálið er lofað í vetur, og Tr(ampe) er sagt að fara varlegar, því smeikir eru þeir í aðra röndina, einkum við alþýðu, því embættismenn kæra þeir sig bölvaðan um, af því þeir vita þá undir okinu. Eg vona að menn haldi fundi því fjölmennari um almenn efni sín, og stofni bænarskrár því almennari, sem líkindi eru til að eitthvað vinnist með tímanum. Eg vona við getum gefið einhverja vísbendíng í vor hvort nokkuð verður ágengt, því líklega kemur málið á ríkisþíngið, einkum ef ministrarnir halda að þíngið verði með sér.

Eg er orðinn svo naumt fyrir að eg get ekki nú skrifað sr. Sigurði Gunnarssyni né sr. Hallgrími né Guttormi, en eg bið þig heilsa þeim kærlega og segja þeim málavöxt og biðja þá ekki láta hugfallast heldur styrkjast, því ef við gjörum það, þá gengur eitthvað einhverntíma, en annars föllum við í sömu gryfjuna sem áður, og sem við sluppum við í sumar. Við getum seiglast ef við nennum því, og tekið okkur fram í mörgu, því við erum enda ekki undir frelsi búnir fyr en við höfum gengið nokkuð í gegnum.

Kysstu konu þína elskulega og dóttur og berðu kæra kveðju tengdaföður þínum og sr. Einari og öllum góðum vinum.

Þinn elskandi bróðir ætíð

Jón Sigurðsson.

84.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Khöfn 10. Okt. 1851.

Elskulegi bróðir.

Síðan um daginn er nú það að frétta að ríkisþingið er komið saman. Ekki er þar enn hreift okkar málum, og óvíst er hvort það verður, því við höfum flokk með okkur, og vegna Slesvíkurpínunnar þykir þeim ekki gott að hreifa við okkur, því þýzkir eru nú farnir að taka í þann streng, að sýna, að þeir fari með okkur einsog þýzka þar, svo allir sjái þeirra ójöfnuð; þessvegna vilja þeir nú skjóta okkur framhjá meðan pínan stendur, en þeim tekst það naumast, því bæði mun hún standa nokkuð lengi, svo vona eg þið haldið áfram að láta til ykkar heyra. Eptir því sem nú stendur á, þá er sú önnur orsök að þeir koma ekki fram með okkar mál, að þeir játa, að loforð rescr(ipts) 23. Sept. 1848 sé ekki uppfyllt, því við höfum verið stoppaðir ólöglega í miðju kafi. Um ástand Dana er nú tvennt til, annaðhvort að þeir láta undan Austurríki, og þá kemst allt í gamla horfið, með provindsialstönd (Austurríki heimtar það handa Holstein og Slesvík og bannar Dönum að incorporera Slesvík), og þá má Tillisch og Sponneck líklega fara frá og Madvig, eða þeir láta ekki undan, og þá fer Reedtz og líklega gamli Moltke, en þá getur farið svo að stríðið byrji; það getur líka verið, annaðhvort að ríkisþingið verði sprengt eða það sprengi Reedtz og hans flokk, og verði það síðara þá er stríð opið, sem »Föðurl(andið) kallar »anden slesvigske«. Þú sér þessvegna, að tíðin er enganveginn slæm fyrir okkur ef við herðum að, helzt frá Íslandi, því þessir deputeruðu ykkar (Jón og Eggert eru ekki komnir) eru álitnir agitatores og vinna lítið nema kannske ef allt kæmist í uppnám. Miðnefndin verður að starfa, þó leyni-

lega og með gætni, skipta niður með sér þíngmönnum, og skrifast á við þá, aftala plönin, og skrifa okkur híngað, skora á að halda fundi og rita bænarskrár og gjöra ályktanir, en þó jafnframt ekki forsóma allt það sem snertir það daglega praktiska og framför í því, og þá einkum verzlunarmálið, því það er það fyrsta og aldrei fáum við pólitiskt frelsi fyr en verzlanin hefir verið laus nokkur ár. Alþíng missum við nú alls ekki, og þjóðfund megum við til að fá aptur í annað sinn, til að ljúka við. Eptir því sem nú er sagt, þá á að kalla Trampe heim í vor, því hann þykir klaufi, og þeir eru hræddir um hann í vetur að hann verði skelldur — quod Jupiter bene vertat! — En mál okkar reyna þeir að draga ef þeir geta, til þess þeir hafa lokið sínum málum, og það er það sem við ættum að sporna við, og miðnefndin ásamt okkur að leggja plön til. — Ef þú skilur nokkuð í þessu rugli, þá segir þú miðnefndinni það pólitiska úr því, og þið sjáið um það útbreiðist. Þið megið til að skipta niður þíngmönnum milli ykkar til að skrifast á við; er ómögulegt að þingmenn komi á privat póstgaungum sín á milli t. a. m. 1 sinni í mánuði? — Fjölmennan Þíngvallafund þurfi þið að undirbúa, og láta nú bændur eða embættislausa menn vera mest forsprakka, ef ekki *allir* hinir eða allflestir fást með; annars verður mönnum því síður neitt gert, sem agitationin verður almennari og áriðameiri. — Miðnefndin má fara að hugsa til að safna peníngum til kostnaðar, t. a. m. að gera við á Þíngvöllum, að koma á samgaungum, blaði etc. etc. Kannske maður ætti að stofna félag, »hið íslenzka þjóðfélag«(?), og setja víst contingent, gefa út smárit, senda menn til funda etc.

Heilsaðu Kristjáni og segðu honum, að ef hann ekki fallist á það sem eg stakk uppá um daginn, þá ætti hann að koma híngað í November með póstskipinu og vera hér í vetur. Hann þarf ekki að óttast neitt, því ef hann lætur ekki hugfallast, þá getur þetta orðið

honum lukkuvegur. Þegar maður er á sjó, þá eys önnur en önnur fyllir, og það dugir ekki að setja slíkt fyrir sig. Ef hann fer að stúra og verða forknyt, þá er fyrst fjandinn laus. Blessaður stappaðu í hann stálinu, því hann megum við ekki missa. Ef hann kæmi hér, gæti verið hann yrði contoirchef í ísl(enzka) Depart(ementinu), og Oddgeir Departem(ents)chef, því Brynjólfur aumínginn er nú kominn út á Bidstrup.

Þú veizt að Tr(ampe) hafði beðið um krossa handa sínum mönnum (nema séra Þórarinn hefir líklega ekki verið með) en hann fékk ekkert nema handa Melsteð, og það gerði bréfið okkar, því hann var slúnginn og þóttist ekki hafa vitað af neinu sem Tr(ampe) ætlaði að gera, en hann og þeir gættu ekki að því að hann *átti* að vita það. Hans frásögn hafði verið okkur enn meinlegri en Tr(ampes), því Tr(ampe) var reiður en hinn lézt vera mesti sakleysissauður. Tr(ampe) vildi setja af Briem og Jósep auk prestanna 3gja og Kristjáns og Jón Guðm(undssonar) og líklega hefi eg verið sá 8di á listanum, því 8 höfðu þar verið.

Kysstu konu og dætur og heilsaðu öllum góðkunníngjum.

Þinn elskandi bróðir
Jón Sigurðsson.

## 85.

### Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn den 15. Nov. 1851.

Kjære Herr Pastor Gudmundsen.

. . . Det De siger om Althingets Forslag, især at Kongen skulde optage Island i Titelen, kan jeg vel forstaae, men det er dog kun en simpel Konsekvents af det övrige, og naar Islands Vaaben kan optages blandt

de övrige i Rigsvaabenet, saa kan Kongen ligesaa godt være bekjendt at tage Navnet i Titelen. De kan forresten nok tænke, at vi ikke videre gjorde Regning paa at faae vort Plan igjennem, men Grundene kan jeg ikke i Korthed udvikle for Dem, jeg haaber at kunne gjöre det mundtlig engang At behandle Island som Colonie, eller som en Commune i Danmark, gaaer aldrig an, og i det mindste bör Islænderne selv aldrig sige ja dertil. Nu for Öjeblikket gjöres intet, og hvad Udfaldet bliver, veed jeg ikke; jeg haaber det bliver godt med Tiden. Brynjólfur Péturssons Dödsfald har De seet i Bladene. Jeg haaber at Oddg(eir) Stephensen bliver hans Eftermand, uagtet man ofte hörer yttre, at Tillisch skulde ville inddrage Posten. Boets Status er vist ikke saa slet, kun troer jeg at meget af Activa bestaaer i udestaaende Laan hos temmelig usikkre Folk.

Den forrige Landfoged Stephan Gunnlaugsson er kommen hertil, han söger nu sikkert om at blive Direkteur for det islandske Departement, thi man siger han finder den Stilling ret behagelig. Jeg vil da rigtignok haabe, at han hverken faaer det eller noget andet end et Syssel, thi han maa prise sig lykkelig ved at have 800 Rbd. i Pension, naar Scheving maa nöjes med 600 efter en saadan Tjeneste i over 40 Aar. . . .

Jón Sigurðsson.

86.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

[Khavn 29. Marts 1852].

Bedste Herr Pastor Gudmundsen.

Melsted fik Tröst i Efteraaret i det lille Kors, og hans Indberetning skal lyde paa, at man i hans Amt er höjst tilfreds med alt, undtagen at Regjeringen ikke

gjör nok af deres Amtmand, og hvis det ikke bliver gjort, saa skal det see ud til Uroligheder i det Amt. Nu maa da vist Regjeringen see til at gjöre noget for ham, hvis den vil være populær! — Herfra er ikke synderligt nyt. Oddg. Stephensen er nu temmelig vis med at blive Departementschef, og det glæder mig, thi jeg stoler paa ham som en redelig Mand og oprigtig Fædrelandsven. Jeg önsker ikke og bryder mig ikke om, at han i sin Stilling handler anderledes end ganske moderat, der er allerede meget vundet, naar man har en Landsmand i den Stilling. . . .

$^{29}/_{3}$ 52 Jón Sigurðsson.

87.

Til Sigurðar Gunnarssonar, síðar próf. á Hallormsstað.

Khöfn 22. Maí 1852.

Ástkæri vin.

Kærar þakkir fyrir bréfin þín í haust, og ekki sízt fyrir þúunina, sem var mér eins kær og þér, því »þérugheitin« eru mér reyndar ekki hjartgróin, þó maður megi því miður opt sanna, að hvorugt standi á miklu. Mér þykir þú lýsa vel þeim eystra, og eg gjöri reyndar ráð fyrir svo sé flestir, að þeir hafi reyndar ekki fullljósa hugmynd um hvað eiginlega í húfi er, en vilji þó illa hafa Dani — hvern einn danskan seppa — til konúngs yfir sér. Nú er búið að semja Plakat handa okkur, og hefi eg snuðrað um það svona ofan af og neðan undan. Þar er öllu neitað, sem við viljum, en hreift því að alþing standi og að ekki skuli gjöra neitt án þess það sé heyrt. Þá á að kjósa í haust. Mér sýnist þetta hérumbil vera sem vænta mátti, eptir því sem tíminn er nú, því allt er svosem í einveldisstefnu, en okkur tjáir ekki annað en láta sem ekkert sé, rita

bænarskrár um verzlunina og til þíngs að sumri um allt, og að öðru leyti taka saman sem bezt og reyna að koma okkur í það horf, að okkur megi einu gilda, hver rassinn upp á þeim er, og það getum við þegar verzlunin er orðin laus, ef við þá ekki látum samtökin vanta. — Gæti maður ekki fengið hvern bónda til að neita að borga skatta, ef ekki fengizt t. a. m. verzlunarfrelsi? eða t. a. m. stjórnarlögun byggð á uppástúngum þíngsins? Yrði það gjört um allt land í einu hljóði, þá gæti eg vitað hvað stjórnin gerði.

Eg hefi sent sr. Halldóri skýrslu okkar Jóns Guðmundssonar, og beðið hann senda ykkur, því eg þorði ekki að prenta hana, þó hún sé í mesta máta loyal.— Eg vona þið látið sjá, að þið kunnið að fara laglega með mál ykkar, að andæfa svona þángaðtil tímarnir breytast.

Forláttu þessar hriplínur.

Þinn einlægur elskandi vin

Jón Sigurðsson.

## 88.

### Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 26. Mai 1852.

Elskulegi bróðir.

Eg skrifaði þér nýlega um embættisvok það sem á mér var, en nú er það líklega afstaðið, því þegar til kom og að átti að herða, vildu þeir eg lofaði að fara ekki til þíngs framar hvorki hér né þar, en því vil eg einsog þú getur nærri ekki lofa, ef mér kynni kannske þykja það á nokkru standa, eða landar mínir þættist hafa mín þar einhver not. Nú gjöri eg ráð fyrir sú höndlan sé á enda í þetta sinn, en eg lifi nú á handbjörg minni, og vona eg geti slegið mér í gegnum, ef

guð gefur líf og heilsu. — Nú er Plakat komið út sem er svar til okkar, einsog eg trúi eg gæti um, það er hlægilegt bull, og er eiginlega helzt, að við séum ekki frelsi vaxnir og skulum því vera ómyndugir undir vernd Dana; hið fyrra kann nú kannske að vera satt, en eg er líka hræddur um, að hið síðara verði ekki meðalið til að gjöra okkur góða. Bang ætti skilið níðvísu fyrir nef hvert og Mistillidsvotum hvers barns fyrir frammistöðuna.

Lifðu ætíð blessaður með öllum þínum.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

89.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn 20. Juni 1852.

Kjære Herr Pastor Gudmundsen.

. . . Nu tales her kun om den engelske Telegraph og om Svenskerne. — Den kjönne Plakat til os er alt glemt, skjöndt jeg troer den nok bliver husket i Island. . . . — Nu er vi begyndt at trykke Egilssons Oversættelse af Odysseen i Eddadigtenes Metrum (Fornyrðalag). Den bliver nydelig.

Kan De ikke sige mig noget om den islandske kvæðabók, som Scheving, B. Thorarensen og sr. Árni havde redigeret og Selskabet agtede engang at give ud. Vi har Fortalen og Fortegnelse over Indholdet, men selve Haandskriftet finder vi ikke, og jeg har aldrig seet det i Selskabets Samlinger. Mange Tak for Invitationen. De skal slet ikke forsværge at vi en god Dag komme over til Dem. Forresten har jeg travlt i denne Tid, thi jeg arbeider paa Kraft, og er nödt til det, da Regjeringen — som De nok kan gjette — har

unddraget mig den Lön jeg forhen havde. Jeg kan nok, inter nos, faae Embede i Geheimearchivet, men det gjöres til Betingelse, at jeg ikke skal reise over eller modtage Valg til Althinget, men det vil jeg ikke *forpligte* mig til. Nu underhandler jeg saa smaat, men jeg har ondt ved, som De nok kan troe, at slaae mig igjennem, og uden at gjöre Gjeld kan jeg det vist ikke. Men hvor faaer man Credit? Det er ogsaa et Spörgsmaal. — Nu, det hjelper ikke at gjöre Vrövl derom; vi slaaer os nok igjennem med Guds Hjelp. . . .

Jón Sigurðsson.

90.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Kaupm.h. 29. Juni 1852.

Elskulegi bróðir.

Nei, nú ertu farinn að verða nokkuð þúngur, að skrifa mér ekki með póstskipinu, en það mun hafa verið af því þú hefir lítið haft að skrifa, og svo er nú reyndar með mig líka. Eg hefi nú ekki núna nema hvað eg get unnið mér inn, en eg get fengið embætti með því að lofa að fara ekki til þíngs, en því vil eg ekki lofa, fyr en eg heyri hvernig fer, og kannske alls ekki, því frelsi mínu vil eg halda sem lengst. — Nú trúi eg Trampe sé skrifað, að hann skuli ekki leyfa þeim embættismönnum að fara til þíngs sem voru í meira hlutanum í fyrra. Þar ertú líklega einn á meðal, en það er þá ekki svo þúngbært. Þú gætir eins látið kjósa þig samt, og annaðhvort látið Tr(ampe) neita þér um leyfið, ellegar látið varaþíngmanninn fara þegar aðfram kæmi. — Ætli nokkurstaðar mætti fá lán ef manni lægi á? Eg vona, að þegar 1 ár eða 2 eru liðin ef guð lofar, þá sjatni þetta, og maður komist að, en konstin er að

slá sér í gegnum um þann tíma. Eg hefi hugsað um að fara til Noregs, en eg vil þó sjá til svona fyrst um sinn, einkum hvort Íslendíngar bogna eða ekki. Er Bjarni að hugsa um að fara frá rektoratinu? — Ætli hann gæti ekki fengið stofnað annað yfirkennarapláz, og eg gæti fengið það? — Ef verzlunarfrelsi kæmist á, þá vildi eg helzt komast heim og verða þar, því þá veit eg pólitiskt frelsi kemur á eptir. — Eg hefi boðizt til þíngmanns handa Ísfirðíngum ef þeir vilja, því ekki fær nú sr. Laurus að koma til þíngs, þeir ráða nú hvað þeir gjöra, vilji þeir ekki, þá þykist eg laus allra mála, og vona þá eg geti fengið embætti eða eitthvað hér. Nú verður annars farið að taka fyrir alþíngismálin, og eg þykist viss um, að ef við höldum áfram öldúngis ógeneraðir eins og ekkert hafi í skorizt, þá fáum við nú engu síður en áður eitthvað fram. Eg er ánægður ef verzlanin verður laus, þá kemur eitthvað meira. Þú fréttir nú um að Englendíngar vilja leggja elektriskan telegraph yfir Færeyjar, Ísland og Grænland til Ameríku. Það væri ágætt ef það gæti komizt á, en því er ver að það mun enn ekki mega heita nema loptkastali.

Forláttu nú risp þetta. Kysstu konu og börn og vertu ætíð blessaður.

Eg bið kærlega að heilsa Sigurði Melsteð, Hannesi, Jóni Péturss(yni), Halldóri, Gísla Magnúss(yni), Jónassen etc. etc.

Þinn elsk(andi) bróðir

Jón Sigurðsson.

Eg skrifaði b(isku)pnum um að fá afskriptir af gjafabréfum til pios usus etc. Eg bið þig að nefna það við skrifara hans, og róa undir að eg fái það sem fyrst og borga ef þarf; einnig láta Magnús Grímsson skrifa það ef það fengist heldur. — Þórður ýngri Jónassen fékk hjá mér blöð í fyrra, sem stóð á nokkuð er mig

vantaði. Gakktu eptir þeim blöðum hjá honum, og láttu Magnús Grímsson skrifa það sem þar er beðið um, sendu mér svo bæði blöðin mín og það. — Mig vantar líka Instruktion Skúla Magnúss(onar) landfógeta af *1. Mai 1751*. Hún er í landfóeta archivinu. Láttu Magnús Grímsson skrifa hana. Þessu liggur mér öllu á, en þú getur látið mig borga það hér, sem þú leggur út, einúngis að eg geti fengið þetta sem fyrst gjört og verður það að vera lesið saman og nákvæmt, og svo sagt hvaðan það sé tekið. Gjafabréf til pios usus vildi eg fá uppskrifuð. Ætli Jón Árnason viti ekki af þeim í handritasafni Steingríms b(isku)ps, eða Sveinbjörnss(en) í sínum söfnum. Blessaður garvaðu í þessu fyrir mig og vertu fljótur. — Þórarinn á Eyvindarstöðum biður mig enn um almanök, en eg þarf þá að fá dáltið hjá honum meira, og skal hann þá fá þau með póstskipi; eg þyrfti 1. hefti af »Gamni og alvöru« — »acta yfirréttarins« öll — Gizurar rímur etc. — kannske hann geti sent mér enn meira.

91.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn. 29. Sept. 1852.

Elskulegi bróðir minn góði.

Þakka þér ástsamlega fyrir bréf þitt í sumar og sendínguna. Ullin var uppá það bezta og þú átt að kyssa konu þína fyrir hana. Peníngana ekki að nefna, því þó eg geti slarkað í gegnum með handafla mínum, meðan eg hefi heilsu, þá má eg þó ekki gjöra neitt nema það sem beint borgar sig, einsog þú skilur, þegar af þessu einu á að taka. Annars píni eg þá nú hér smásaman, svona hægt, og sízt hlífi eg Fornfræða-félaginu og Árna Magnússonar nefndinni, því bæði þau eru

rétt til þess að hafa útúr þeim hvað maður getur. — Þið hafið, einsog von var, orðið hálfýrðir við konúngsauglýsínguna, en ekki er nú vert að vera lángrækinn með það. Eg vil eins vel alþíng og stjórnarfrumvarpið það í fyrra, en þetta farbann fyrir embættismenn ætti ekki að þýða mikið, því það lendir ekki á mörgum sem annars eru kjörgengir, og nógir eru í staðinn sem hafa sömu meiníngar. Við þurfum nú ekki heldur að fara neitt geyst, þegar stjórnin dregur inn klærnar aptur, því þá förum við bara eitt fet fram, og biðjum mikið auðmjúklega bara um verzlunarfrelsi, og um undirskript konúngs og um að alþíng fái »medbesluttende Myndighed« í öllum eiginlegum íslenzkum málum; — þessu reiðist enginn. Að öðru leyti ætti menn að ólmast sem mest í búnaðarfélögum, bændaskólum og þesskonar, því þó allt landið léki á þræði af ósköpum um það, þá mundi varla stjórnin taka hart á því, og þar með fengizt bezti undirbúníngur undir almennt frelsi, enda þótt maður hefði það pólitiska í hjáverkum, eða léti svo; en ef maður lætur mikið yfir sér í því, þá getur kannske orðið ýmislegur misskilníngur útaf því. Í þessu sjáið þið annars sjálfir hvað bezt fer, því eg vona, hvað sem setur, að þið látið ekki neitt hugfallast, við ekki meiri raun en enn er komið.

Þú finnur að 2 dala tollinum sem stúngið var uppá í fyrra. Eg er samþykkur í því, að lestarúmstollur er ófullkominn, en þegar hann er ekki hærri en þetta — og eg vil ekki hafa hann hærri — þá munar ekkert um hann, og skaðar ekkert verzlan vora; enda verður þú að gá að, að Pasgebyr sem nú er, 36 sk. af lest, fellur burt á móti, og 14 marka afgjaldið af útfluttum vörum til útlanda sömuleiðis. — Annað mál er hitt, að þetta væri ekki nóg, ef við ættum að annast fjárhag vorn sjálfir, og við hugsuðum að setja nokkuð í stand — því til að halda öllu í sama horfi og nú þarf ekkert meira en nú er — en þá má vel leggja dálítið á t. d.

spirituosa, caffe, tóbak, sykur (og ekki fleira), annaðhvort með því að taka það eptir vöruskrám, eða með því að selja leyfisbréf til að verzla með þessa vöru. En þessu öllu er svo lafhægt að haga í hendi sér, þegar verzlanin er komin á, að þar í er engin hætta, og þó defraudation verði, þá er enginn stór missir í því í sjálfu sér.

Heyrt hefi eg eitt og annað um skólann, en af því sem eg hefi heyrt *enn* er eg ekki hræddur. Piltar þurftu þess með, að tekið væri ofaní þá, og nú sjá þeir bezt, að annaðhvort er um að kjósa. Þeir flæmdu þann í burtu, sem var meinlaus við þá, og lét þá ráða sér sjálfa, nú verða þeir að smakka sóflinn um stund, og láta aðra ráða. Það þykir mér að Bjarna, að hann er ekki nógu íslenzkur, en maður getur ekki á allt kosið, og í það er mikið varið, að þeir læri að hlýða, og læri að lesa, svo þeir verði ekki einsog asnar og múlar, sem ekki vita orð í sinn háls, nema að gánga á kjallara og billardkneipur. Eitt er þó verst, og það er ef Bjarni fer að drekka meira en áður, því það drepur bæði hann og skólann, og sorglegt er að heyra, að síðan bindindisfélögin hurfu, þá er farinn að fréttast miklu meiri drykkjuskapur en áður. Annars er gaman að heyra hvað Bjarni kveinar, og þykist ætla burt, en eg þarf nú að skrifa honum dálitla hugvekju um það, því ekki er mér mikið um að heyra Íslendínga vera að tala um sig sem einhverskonar endurlausnara, sem komi af himnum til landsins og vilji hjálpa þessum fortapaða lýð, en þykjast svo vera lausir allra mála, ef á móti blæs, þó einhver mótspyrna verði, og láta þá einsog hvergi sé við neitt illt að bíta nema á Íslandi. Mér þykir nú annars Bjarni hafa gjört ekki illa, að reka út 4 höfðíngja-frænda í einu, og neyða stiptsyfirvöldin til að samþykkja sína eigin »Umyndigheds-Erklæring«.

Forláttu nú klórið, kysstu þínar elskulegu frá okkur hér og vertu ætíð blessaður.

Þinn elskandi ávallt

Jón Sigurðsson.

92.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Khöfn 29. Sept. 1852.

Elsku bróðir.

Kærar þakkir fyrir bréf þín seinustu. Mér líður vel og eg læt nú svona já og sjá, þángaðtil eg veit hvort eg er kosinn eða ekki. Ef guð lofar fer eg til þíngs og vestur ef eg get. Eg er nú að brjótast í, ef mögulegt væri, að geta látið eitthvað á Íslandi njóta samskotanna handa mér, því eg vil vera eins lítið háður þeim og stjórninni, og eg þori ekki að vísa því tilbaka, bæði vegna ástands míns og svo til að spilla ekki kannske fyrir J(óni) Guðm(undssyni), heldur vil eg róa að því þeir skjóti sem mestu saman. Það skaðar aldrei og þeir munu hafa vaðið fyrir neðan sig. Það sé eg ekki stoðar mér að hugsa uppá skólann, því ekki get eg farið að þræla í dönskum skóla, þartil hefi eg hvorki skaplyndi né efni. Eg sé ekki betur en Halldór Guðmundsson geti verið efni í mathemat(íkur)kennara, hann er Polytechniker. Jón Þorkelsson verður víst góður Philolog, þó hann sé varla praktiskur. Gísli Brynjólfsson er vel að sér í nýju málunum, en hann tekur varla við 400r. Kannske Jón Sveinsson verði þar brúkandi. Að taka danska lízt mér ekki sérlega á, og eg held B(jarni) gjörði réttara í að vera nokkuð national, því margir tala um hann sé það ekki nærri nóg. Maður á aldrei að leggja óvirðíng á þjóð sína, það er sama og að óvirða sjálfan sig.

Þú talar um gratification eða pension til föður okkar. Eptir mínu skapi, þá virði eg ekki stjórnina svo mikils, eða réttara sagt eg mundi virða sjálfan mig of mikils til þess að sækja, en fyrst kallskepnan vill það, þá er líklegasti vegur að tala við biskup. Þú getur sótt fyrir hann ef biskup vill mæla kröptuglega með því, eða stipsyfirvöldin, og þú fær að sjá hjá b(isku)pi og fóveta hverir hafa fengið slíkt áður. Það citerar maður. Eg tel nú kannske óvíst að neitt fáist, og það gengur ár til að ná því, en þessvegna væri líklega bezt að láta ekki hann sjálfan vita það, ef ekkert kynni að fást. Fengist nokkuð, þá er nógur tími þegar hann fær það. Annað get eg ekki ráðlagt þér.

Eg flyt nú til Östervold 486 2. Sal, þar sem Schram tóbaksmaður býr, heilsaðu Hannesi og segðu honum það, Árnasyni. Heilsaðu líka öðrum kunníngjum, Jóni Pét(urssyni), Sigurði Melsteð, Jóni Árnasyni etc. því eg nenni ekki að skrifa þeim núna. Rektu eptir Þórði Þórðarsyni.

Lifðu ætíð með þínum öllum sannfarsæll.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

93.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Khöfn. 29. Sept. 1852.

Elskulegi bróðir minn.

Þakkir fyrir litla seðilinn þinn, nýlega meðtekinn. Fallegt er í Bjarnarhöfn, það þótti Birni hinum austræna, og ekki trúi eg því, að svo fari sem þú óttast, að allt fari landið á hausinn, það er þá mönnunum að kenna. Eg vildi þið færið nú að arga í jarðyrkjunni vestra, einsog þeir annarstaðar t. d. nyrðra. Mart akur-

stæði er vestra líka, og ekki er vandi að bylta um jörðinni. Þið ættið að fá plóga nokkra og tygi með og herfi, og fá einhvern til að sýna aðferðina. Búnaðarsjóðurinn eða jafnaðarsjóðurinn gæti víst keypt nokkuð, og selt þá aptur þeim sem vildu. Fáðu föður þinn til að skerast í þetta og agitera í því, eg kæri mig nú meira um það en allt annað. Pólitíkin kemur af sjálfu sér, en líkamleg framför er nú það sem okkur ríður mest á. Gæti eg stutt nokkuð að því, væri mér það ánægja hin mesta. Ef þetta dafnaði þá mundi fjandinn fælast, bróðir minn, og skilja við þjóðina. Þeir eru núna einna daufastir fyrir vestan, sem voru svo fjörugir fyrir nokkrum árum, og þó sé eg ekki þeim fari betur fram en öðrum, þó þeir leggist í pólitiskt dá og sæki ekki Þíngvallafund. Þér þótti í fyrra eg fara nokkuð djúpt í um Þíngvöll, eg er nú samt að fara fram á það enn við miðnefndina, að láta gjöra þar við, og eg vona það gángi með tímanum.

Af mér er það að segja, að eg hefi nóg að gera, og eg slarka í gegnum það svona, að það veður með súðum. Sleppi eg íslenzku pólitíkinni hefi eg nóg að gera sem borgar sig nokkurnveginn, og eg sleppi henni með ánægju, þegar nokkuð vinnst á að gagni, en þángaðtil er eg nokkuð þrár.

Heilsaðu kærlega föður þínum og öllum þínum ástfólgnu og Thorlacius.

Þinn einlægur vin og bróðir
Jón Sigurðsson.

94.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn. 8. April. 1853

Bedste Herr Pastor Gudmundsen.

. . . Postskibet kommer ind i Dag, men har ligget Par Dage ude ved Helsingör. Det bringer 30,000 Ryper

og Efterretning om streng Vinter naturligviis med, men det gik ogsaa fra Island 22. Februar og har været 8 Dage i Norge for Is. Alle Bekjendte leve ved det Gamle. Her ligeledes, dog er Oddg(eir) Stephensen ikke ganske rask; det er ogsaa ærgerlig, at de som vi trænge mest til, de kunne ikke holde rigtig ud; jeg vil dog haabe han kommer sig, og han arbeider ogsaa hele Tiden, men han trænger til at röre sig. Jeg haaber han bliver nu Commissarius i Sommer. I næste Maaned komme vi vist afsted, thi jeg er valgt i Isafjords Syssel, endogsaa to Gange, da Amtmand Melsted havde haft den Samvittighedsfuldhed — Gud veed af hvilken lovlig Grund — at bede dem vælge paa ny. Jeg havde nu ikke egentlig Lyst til at gaae nu, og har meget at bestille her, men paa Grund af Omstændighederne, især det moralske Indtryk som det maaskee vilde gjöre, hvis jeg blev, tildeels ogsaa da mine Venner troe at jeg kan udrette noget, saa gaaer jeg. . . .

Jón Sigurðsson.

95.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 30. Sept. 1853.

Elskulegi bróðir.

Nú er þá aptur híngað komið, og hefir allt gengið vel, hvað sem nú árángurinn verður af þingi voru. Eg vona að verzlanin fáist þó laus í vetur, ef ekkert nýtt kemur til hindrunar. Spánverjar heimta nú sömu kjör á Íslandi og Danir, og er komið bréf um það, og hálfvegis vonum við sama frá Englandi. Örsted er seigur og latur, nú fann hann uppá að setja nefnd í málið, þar er Bardenfleth í og Clausen agent og Andr(eas) Hansen, svo Oddgeir á við raman reip að draga, þó er

Garlieb einn og vona eg góðs af honum. Oddgeir heldur líka að bænarskrá alþíngis í sumar gagni þar nokkuð. Um annað er ekki að gjöra sér miklar vonir, en það þykir mér mest á ríða nú, að styrkja Þjóðólf, og reyna að halda Jóni Guðm(undssyni) þar við sem redakteur, því eg sé ekki betur en blaðið sé farið að verka nokkuð, jafnvel á höfðíngjana, síðan hann tók við, og hvert 100 áskrifenda er á við margar ritgjörðir, því þess meira sem heyrist að blaðið gángi út, þess hræddari verða herrarnir og meta það meira, þeir eru ekki hátignarlegri en svo. . . . Ekki lízt þeim hér á þessa pólitisku bliku, sem þeim þykir draga upp með »Heelstaten«, það gildir líka einu, ef við bara gætum losazt svo, að við gætum sem mest verið sjálfráðir um okkar mál og gilt einu hvað Danir gjörðu.

Kysstu konu þína elskulega og dóttur frá okkur, heilsaðu líka kærlega frá mér sýslumönnunum og öðrum góðum vinum og kunníngjum, helzt tengdaföður þínum, sr. Sigurði og sr. Hallgrími.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

## 96.

### Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn 26. Marts 1854.

Kjære Hr. Pastor Gudmundsen.

Nu er jeg reent ud sagt bleven bange for mig selv, at jeg ikke har ladet Dem höre fra mig saa længe, men siden jeg kom tilbage i forrige Efteraar, har jeg haft fuldt op at bestille med den islandske Lovsamling — det er dröjt at faae 100 Ark trykte om Aaret — og saa flere andre Ting, og for en doven Brevskriver til-

lige er det en stor, skjönt ingenlunde tilstrækkelig Undskyldning. . . .

Fra Island er alt ganske godt at höre, med Undtagelse af Klage over Varemangel som sædvanlig. Handelsfriheds Sagen er nu kommen det længst[e] den hidtil har været, og vi haabe nu, at den vil komme ud i April Maaned, men först næste Aar skal den træde i Kraft. Efter utallige smaa Machinationer have vi dog faaet den omtrent som Forsamlingen i Island önskede den i 1851, men det er haardt at maatte kjæmpe i saa mange Aar for saa lidt. Iövrigt troer jeg, at man gaaer meget fremad i Island og især anseer jeg det for et godt Tegn, at man nu anseer alle Forbedringer for mulige, istedenfor man forhen ansaae næsten alt for umuligt. Ploven har viist sig meget nyttig, og Plove anskaffes nu i Mængde aarlig. De islandske Heste er stærke nok, naar de styres med godt Haandelag.

Har De ikke en Mængde Blade, f. Ex. Subscriptionsblade, Viser etc. paa Islandsk eller vedrörende Islændere o. s. v. som De ikke sætter Priis paa; jeg har samlet en hel Mængde af Sligt, og Gjerrigheden voxer som De veed med hvert Blad. Har De ikke f. Ex. Oddsens Subscriptionsblad paa »Freyja«? eller lign(ende). Hvis De ikke satte Priis paa selv at eie saadanne Blade, vilde jeg være Dem meget taknemmelig for det. Ligeledes trykte Breve eller Annoncer, Sange o. s. v, dog kun som sagt ang(aaende) Island eller Islændere, og forfattet af dem. . . .

Jón Sigurðsson.

## 97.

Til Þórðar Jónassens, síðar háyfirdómara.

Khöfn 14. April 1854.

Elskulegi herra jústizráð.

Mig lángar til, þó latur sé, að þakka þér fyrir svo mart gott og skemmtilegt viðtal, einkum í fyrra sumar,

og til þess að sýna þér lit á hvað eg sé minnugur og tryggur, þá sendi eg þér afskriptir af bréfum um Seiluna í Skagafirði, sem eg hefi fundið, en hvort þú getur haft gagn af þeim, er því miður kannske ekki eins víst. En svo sem þú veizt, að eigingirnin ríður ekki við einteymíng, heldur að hverjum einum gengur nokkuð til þess sem hann gjörir, og það eins þó það sé girnd hans, þá er eg nú líka að vona að fá dálítið af því sem séra Þórður okkar á Lundi lofaði mér áður fyrri, og fá þig til að gefa honum um það föðurlega áminníng.

Fréttirnar eru mestar í vændum, svo enginn vill virða sig til að kalla það fréttir sem nú ber við, samt er vert að geta þess, að verzlunarmálið okkar hefir komizt þetta lengst, að nú vantar það ekki nema samþykki konúngsins, en margur drukknar nærri landi, og svo kann enn að fara, að það nái ekki blessuninni, samt er eg að vona það heppnist. Ekki kemur neitt ennþá frá Melsteð um alþíngismálin, nema þetta gamla, svo stjórnin er hreint í vandræðum, eg er líka að vona að sjá reikníngana frá stiptamtmanni, sem hann var beðinn um í fyrra, svo þar sér þú, að ekki veitti af, þó það væri nefnt. Hvað segir þú nú um það, að nú hefi eg fengið erindi prentsmiðjunnar, og var eg ekki seinn að grípa nokkuð djúpt í vasann hennar, því eg hugsaði þar mundi ekki tómt fyrir. Mér hefir verið að detta í hug, að taka af henni ómakslaun, og borga þau til að styrkja viðgjörð á Skólavörðunni og veginum þángað upp eptir, en ef þú vilt það, þá áttu að hreifa því máli og fá það í gáng, og þá skaltu fá þetta í sumar með næsta póstskipi, og kannske bréf með ef vel liggur á mér, en nú í þetta sinn kveð eg þig og alla þína ástfólgnu kærri kveðju og konan mín á sama hátt.

Þinn einlægur elskandi vin

Jón Sigurðsson.

98.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 3. Juni 1854.

Elskulegi bróðir.

Kærar þakkir fyrir bréf þín ástúðleg og allt annað. Eg vildi eg væri kominn til þín stundarkorn þegar eg les bréfin þín, til að steypa dálitlu af köldu vatni yfir kollinn á þér, og friðþægja þig þarmeð við veröldina. Það er satt, að hún er mikið fjandans ótæti, einsog allir klerkar hafa sagt og sr. Hallgrímur Pétursson ort, og líklega hefðum við skapað hana í mörgu öðruvísi, en af því við höfum ekki skapað skrattann á henni, svo látum hana eiga sig, og berum okkur að fara með hana einsog hún er. Ef við förum að skamma hana mjög mikið út, þá er einsog við þykjumst vitrari eða meiri eða betri en allir aðrir, og ekkert verður ágengt. Ef menn samlaga sig, þá fer allt betur. Eg vildi nú hafa, að þú sæktir fundi og værir með, og legðir á ráð, og þó þér þætti þeir smáskytlegir hinir, þá að spenna þá upp smásaman. Það er konstin að gjöra mikið með litlu. Þú sér það sjálfur, að ef allir forsmá sjálfa sig og aðra, og segjast ekkert vilja gjöra, af því þeir geta ekki gjört allt, þá verður ekkert úr neinu. Það er einmitt okkar gamla pólitík, sem hefir drepið bæði land og þjóð. Hefðum við með samlyndi og lítillæti neytt okkar, þá hefðum við verið betur á vegi staddir nú, og enn getum við átt gott í vændum, ef við lærum að vera vinhollir hverir öðrum. Þú hefir nú sízt orsök til að undrast yfir, að menn sé ekki eins góðir og þú, því þú hefir ætíð verið ofgóður, einsog eg hefi sagt þér svo opt, og hefðir þú gætt meira hófs í gæzku þinni, þá hefðir þú verið ánægðari með heiminn.

. . . Eg spurði Th(omsen) uppá æru og samvizku um cholera-lækníngar þeirra og sór hann sig um að hann hefði misst 16 af 5—600 sjúkum úr cholera, og eg hefi enga orsök að rengja hann. Veratrum sagði hann væri

sitt aðalmeðal. — Thomsen hefir um nokkurn tíma verið að fást við stúlku sem hjá okkur er, sem liggur í hnémeini, og þeir Schleisner og Hassing ekki gátu gert neitt við. Það er satt að hann hefir lítið áunnið líka, en svei mér ef eg held þó ekki hann hafi komizt lengst, því nú um tíma sýnist einsog henni fari stöðugt fram, og *hann* segir henni batni. Eg er orðinn hálf Mystiker stundum í aðra röndina, og mér þykir gaman að því að hitta sjálfan mig í slíkri trú, sem er sjaldgæf í Ísrael, en mikið vel man eg eptir því, að þú varst líka nokkuð dynamiskur í trú þinni. Ætli það sé ekki rétt að brúka þesskonar methode stundum, þegar hann á við? en sérhvað til sinnar tíðar, ef maður getur. . . .

Það held eg sé fjandans vitleysa, minn elskulegi, að þú segir af þér, nema svo væri, að þú gætir ekki setið á þér og gengir fram af þér, en það gjörðir þú eins þó þú værir embættislaus, nema þú gætir verið hér, og praktiserað og fengið kannske embætti, en þú yrðir »gnaven« hér líka, ef mennirnir væri ekki betri en þeir voru hér áður, og það mun vera áhöld um. Eg vil nú að þú reyndir að vera hér vetrartíma, og hvíla þig, og svo vil eg þú reynir, að fá distrikt þitt minkað, ɔ: tvo lækna aðra setta, svo þú hafir ekki annað eins dráp, en það kann að vera, að Finantser þínir hafi betra af, þegar á allt er litið, að hafa distriktið svona stórt. Þar er eg nú ekki nógu kunnugur. Þú ert víst annars heldur að komast úr skuldum, og kæmist betur ef þú ætlaðir þér af, en það er ekki að fást við þig um það, vænti eg, heldur nú en fyrri.

Nú kom þá verzlunarfrelsið á pappírinn, og vildi eg nú við hefðum vit á að brúka það, því viss er eg um það, hvað sem þú segir, eins og fyrri, að *höfuðafleiðingar* þess verða góðar. Þú gerir minna úr okkur en við erum, okkur vantar helzt að vera vorkunlátir hver við annan, og fagna yfir ef einhver gerir eitthvað gagn, þó lítið sé. Farðu nú að sækja fundi og

fleygðu þessum gorgeir, því hann á ekki við nema hjá herra amtmanni okkar Havstein og þesskonar höfðíngjum, sem ætla að gjöra allt einir, og vilja ekki láta gjöra neitt nema það sem þeir skipa. Nú þarf að fara að fá stjórnarmálið í gáng smásaman, en þó fyrst vegalög og vegabætur, póstgaungur, og framar öllu[1] búnaðarfélög. Stjórnarmálið hlýtur að vinnast með tímanum. Það gleður mig að Þjóðólfs kaupendur hafa fjölgað, og þeir ætti að fjölga sem mest, því þarmeð fær sú meiníng mesta stoð, sem þjóð vor fram fylgir og þarf að fram fylgja, ef ekki á að fara einsog 1264 og 1662, þegar við vorum teknir sofandi, því víst er það, að tilraunin frá 1851 verður ítrekuð, og á embættismenn vora getum við ekki stólað, sízt þá sem eru í æðri röðinni; þeir álíta sig selda og eru það, og mega líka gjarnan vera það þegar þeir passa embætti sín, og enginn ætlast til að hafa þá til annars. Þeir eru góðir til að vaka yfir ancienniteti sjálfra sín, en ekki yfir réttindum þjóðar sinnar.

Hér er nú allt tvísýnt sem stendur. Stjórnin vill auðsjáanlega steypa grundvallarlögunum, en konúngur vill ekki beint ganga ofan í sig, og segja menn því, að þeir vilji fá hann eða pynta hann til að segja af sér, og láta Ferdin(and) koma, því hann respekterar ekki grundvallarlögin. Gamla þjóðernispartíið og bændavinirnir flokkast nú til varnar. Rosenörn dró sig aptur úr og er nú orðinn amtmaður í Randers. Monrad lét þó setja sig af, og lángbeztur er hann, en hann er líka ríkur og getur dálítið. —

Forláttu nú, elsku bróðir, rugl þetta, og heilsaðu kærlega konu þinni elskulegri og dóttur frá okkur (konan mín sendir dálitla öskju að gamni sínu, í þakklætisskyni fyrir ullina).

Þinn elskandi bróðir ætíð
Jón Sigurðsson.

---

[1]) í handritinu: öllum.

99.

Til Guttorms prests Guttormssonar, Stöð í Stöðvarfirði.

Khöfn 3. Juni 1854.

Elskulegi vinur.

Það er von þú blótir mér fyrir að eg hefi ekki skrifað þér svo lengi, en það er af því eg hefi verið að voka yfir, að einhver kynni kaupa bókasafnið góða, en það hefir óheppnazt, og ekki vænti eg þú munir enn geta látið tilleiðast að skenkja það. Þá er ekki annað en selja, en eg vildi helzt vera frí við að gjöra það, og væri bezt að fá Hemmert til að sjá um það, en eg skal gjöra skil fyrir því sem eg hefi tekið við, og svara honum því, eða þeim sem þú felur það á hendur, því það lítið sem eg hefi haft ómak fyrir tel eg ekki, sökum gamals og nýs kunníngsskapar okkar á milli. Eg skal segja þér einsog er, að mig lángar til, ef safnið væri selt, að kaupa sumt sjálfur, einkum vilda eg eiga privat bréfasafn Finns, eða hvað mundi það kosta? Það vildi eg helzt kaupa undir hendinni fyrir það sem okkur kæmi saman. Öðrum er það ónýtt hvort sem er. Eg skal annars styrkja til hvað eg get, og fyrir geymsluna þurfi þið ekkert að borga, því geymslulopt hefi eg útvegað gratis. —

Héðan er ekkert enn að frétta, en heldur þykir þeim ísjárvert hvað til stendur. — Það er satt, eg segi þig velkominn í Bókmentafélagið, og borgaði eg tillag fyrir þig fyrir 1853, svo þú fengir þær bækur, og svo eru þér sendar bækur fyrir 1854, uppá væntanlegt 3 dala tillag í sumar, eg vona þú látir hvert mannsbarn, sem læst er, gánga í Bókmentafélagið, fáum við 1000 meðlimi, skulu þið fá allt að 100 örkum á ári, og þá væri c. 3 skild(ínga) örkin.

Forláttu þetta risp.

Þinn einlægur elskandi vin

Jón Sigurðsson.

100.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Khöfn 30. Juni 1854.

Elskulegi bróðir.

Kærar þakkir fyrir bréf þín. . . . Biskup vill láta vígja Sigurð Melsteð, en ekki held eg það gángi. Hann má annars vera tæpur í kirkjurétti, að hann skuli ekki vita, að það er móti prótestantiskum sið að vígja menn úti loptið til presta, en svona er það, af því þetta var ekki sýnt á sr. Arngrími . . ., þegar hann var vígður sem constitueraður prestur, móti lögum, þá gengur allt þetta einsog ekkert væri móti því.

Eg vísa þér um fréttir til blaðanna, en myndirnar sendi eg þér í römmum (kosta 6 r) og nokkrar fleiri að gamni mínu, svo sem þessa matadóra sem eru með Frökkum, Englum, Rússum og Tyrkjum. Eg vona þér þyki þeir merkilegir »Karl Nepja« og »Arnoddur marskálkur«, sem setti nefið á »Naflajón« 2. Decbr. hér um árið.

Eg bið að heilsa Jónassen og þakka honum elskulegt bréf, en eg er ekki svo fyndinn að eg geti svarað því, nema eg siti inni í hálfan mánuð og sé að skrúfa mig. Biddu hann samt ekki reiðast mér, og ekki svipta af mér sinni hendi, eða neita mér um gjafir þær sem hann ætlar mér, af skruddum etc. Gætir þú náð nokkru frá sr. Þórði á Lundi og Pétri Guðjónssyni, væri það gott.

Forláttu rugl þetta og vertu með öllum þínum blessaður og sæll æfinlega.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

Ef rektor kemur híngað til að losast við rektoratið þá þætti mér vænt að heyra þína meiníngu um hvort eg ætti að leggja í það, — NB. ef það fengist.

101.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 18. August 1854.

Elskulegi bróðir.

Kærar þakkir fyrir bréf þitt að vanda elskulegt; ekki trúi eg því við þekktum ekki hvor annan enn, þó lángt sé síðan, en samt er von þú segir það, því eg man að eg var býsna egóistiskur í anda þegar eg skrifaði þér seinast, enda hefi eg nú alténd verið það, en hvað stoðar annað? maður verður jetinn upp, reyndar hvort sem er, en einkum ef maður ekki gætir dálítið að sér, og það vildi eg hafa brýnt fyrir þér, einsog fyrri. Þú ert reiður við þá þarna hjá þér, og eg trúi því þeir sé kannske hvikulir, en hvað um gildir: þeir verða þó beztir, Íslendíngar, af því fólki sem maður á við. Ekki eru þeir betri hérna: fullir af hroka þegar þeir geta komið sér við, en hérar þegar nokkuð bjátar á. Þú verður líka að gá að því, að hjá oss eru þeir óvanir að vinna saman, og eiga bágt að sækja fundi, þessvegna fer sumt í ólestri, en það held eg færi betur, ef nokkrir beztu mennirnir tæki sig til, og byggi til grundvöllinn og fengi svo hina til að samþykkja. Guttormur Vigfússon og sr. Sigurður eru þó víst ágætismenn og vel viljaðir, og vel finnst mér þeir taka ástæðum, en það kann vel að vera þeir sé deigir að ráðast í svo stórt sem þér er við skap. Eg get ekki heldur neitað því, að það sem mér hefir þótt verst er það, að koma ekki fram uppástúngum um annað en bölvað kákið og hjakkið ofan í sama farið. En hvað skal segja? aut est, aut non est. Taki maður ekki þessu fyrst um sinn, og reyni þannig smásaman að liðka til hvað sem verður, þá liggur allt í sama og áður. Eg sé það vel, að síðan linaðist þessi agitation um fundi, Adresser o. s. frv. svo hefir heldur dofnað allt, og stjórnin, þó hún þykist ætla að gjöra allt af sjálfri sér, gjörir ekkert

nema menn argi, lengi lengi forgefins, en þó um síðir til gagns. Eg vildi eg gæti fengið Íslendínga til að gánga í félag til að reyna að ná rétti sínum. . . . En þetta er ekki gott viðureignar, og hugsa eg nú fyrst til að vita, hvort við getum ekki náð í kollektuna gömlu. Hún er nú c. 12000 dala, en að réttu lagi er hún eitthvað 150,000 til 200,000, ef svo væri reiknað sem eg held rétt væri að reikna. Við fáum nú að sjá. . . .

Eg er hálfvegis að hlakka til ef þú yrðir landfysikus og eg rektor við skólann (en það er á milli okkar og kemur kannske aldrei til, því þú vilt það kannske ekki og átt bágt með að rífa þig upp), því eg er að hugsa hálfvegis að landfysikus segi nú af sér, og kannske rektor líka. Yrði nú svo, að þetta yrði ekki, þá gæti verið þeir vildu hafa þig til að búa á Eskifirði, en það sé eg mundi vera þér mesti skaði. Það sýnist mér þú ættir að reyna privatim að leiða Oddgeiri fyrir sjónir, og stínga uppá, að læknir yrði settur þar annar, sem hefir þar aðsetur. Er það vitlaust? eða er þér það svo mikill skaði sem þér er það léttir? Þú hefir Héraðið og þar norður um, en hann Fjörðu að sunnan. Kæmi uppástunga frá þér, væri helzt von það gengi, enda eru þeir nú að bræða læknamálið, hvort sem er. Hugsaðu um þetta, en vertu koldblodig og kærðu þig ekki. Kannske þú sleppir að öllu leyti og megir sitja kyr, og viss er eg um, að Oddgeir vill gera fyrir þig hvað hann getur. Þú gætir falið honum uppástúnguna til meðferðar eptir geðþekkni. . . .

Danir eru nú í mesta fýtúngi, og nærri eins ólmir og 1848, hvað sem nú verður úr öllu saman. Nú á að taka grundvallarlögin af þeim, og setja á þá, líkt og hertogadæmin, þíng sem ekkert hefir að segja. Þetta þíng á að heita Rigsraad og á að koma saman 1. Sept. — Ekki erum við þar með Íslendíngar, og skaðar það reyndar ekki, sízt að svo komnu. Þó eru það rángindi

eptir því sem stjórnin tekur þetta, en því erum við nú svo vanir.

Eg nenni nú ekki að rugla þetta lengur fram í loptið. Með ástkærri heilsan frá okkur til þín og þinna elskuðu er eg ætíð

þinn einlægur elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

102.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 30. Sept. 1854.

Elskulegi bróðir.

Svo eg rétt heilsi uppá þig með póstskipinu, þá sendi eg þér línur þessar, þó efnislausar séu einsog vant er. Hér er ekki mjög mikið nýtt að frétta, því allt það stóra stendur til, nú á ríkisþíngið að koma saman, og nú er búizt til orustu, ministrarnir öðrumegin og þjóðin hinumegin. Núna fyrir viku komu 70 sendimenn frá Jótum með ávarp til konúngs frá 20000 Jótum, en fengu ekki að tala við jöfur. Þeim var haldin stór veizla til hugnunar. Danir berjast nú fyrir grundvallarlögum sínum, en þeir eru samt gengnir úr skaptinu Clausen, Madvig, Larsen og fleiri embættismenn, er þó búið að skjóta saman miklu fé handa embættismönnum, sem kynni verða settir af. Lehmann greyið lætur nú kjósa sig, og nú verður hann líklega settur af, ef ministeríið sigrar. Hann er þó ætíð einlægur við kolann. . . .

Havstein er nú búinn að segja sig úr alþíngi og hefir fengið lausn; honum var þörf á hvíldinni frá því starfi, því honum lét það ekki. Melsteð verður þá líklega konúngsfulltrúi aptur, og hann er líklega einhver sá skársti, þegar Oddgeir ekki fæst, jafnvel þó hann svíki allt á eptir, sem hann lofar þar á þíngi; ef við

værum orðnir svo hertir og þjálir, að við tækjum okkur fram sjálfir um öll okkar efni, utan þíngs, þá mætti okkur standa á sama, við hefðum þá þíngið til að spjalla við stjórnina, og stínga uppá hverju sem vera skyldi, en það skaðaði okkur ekkert þó ekkert fengist. Svo lángt ættum við að komast, og það fljótt.

Forláttu þessar hriplínur og vertu með öllum þínum kært kvaddur og síblessaður.

Þinn einlægur vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

103.

Til R. M. Ólsens, umboðsmanns á Þingeyrum.

Khöfn 30. Sept. 1854.

Elskulegi vinur.

Kærar þakkir fyrir bréfið þitt og allt annað vinfengi frá fyrstu. Sárt ertu nú leikinn Sámur fóstri! að á að taka af þér eign þína með brögðum og ofríki, en mjög er ykkur Húnvetníngum þá aptur farið, að þið skulið þola þessar aðferðir, og aðrar verri, því svo þekki eg kunníngja okkar, að þegar hann finnur látið undan sér, þá batnar hann ekki, heldur þarf hann þess með að honum sé sýnt í tvo heimana. Hvað eg get látið í té þér til liðs í réttu máli, það máttu eiga víst, en það er nú svo lítið. Um Oddgeir máttu vera óhræddur, að hann gjörir ekki rángt, en það er við ramman reip að draga þar sem amtið er, því þar skal mikið til að fá það brotið á bak aptur sem það hefir gjört svo hátíðlega. Þó er verst, ef amtmaður skrifar nú ekkert híngað, því eg held þeir sé að bíða eptir hvað hann segir. Mér þykir samt allvíst, eptir því sem eg veit til núna, og hefi komizt eptir, að amtmaður skerði ekki hár í höfði þínu, heldur hafi,

einsog þar stendur, hina mestu óvirðíng af málinu. En svo getur þú líka hefnt á honum með því að koma Jósep á þíng, þó hann sé nú búinn að segja af sér þíngmennsku sjálfur, amtmaðurinn, svo hann getur ekki haft þá ánægju að heyra í tálknunum á honum, og eg ekki að hríngja herra amtmanninn niður.

Alltaf í hverju bréfi skrifar amtm(aður) híngað skammir um okkur Jón Guðmundsson, og líklega um þig og Jósep líka, en það er nú einmitt gott fyrir okkur, því á þessu verður auðséð að maðurinn er í þeim kapítula eitthvað of fastur, og hefir svo mikið við okkur, að eg held stjórnina ofhasi uppá því, því hún á ekki von á að við séum slíkir dólpúngar.

Forláttu mér línur þessar, og láttu ekki á þig gánga, heldur láttu koma krók á móti bragði.

Þinn einlægur vin og kunníngi

Jón Sigurðsson.

## 104.

### Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 1. Juni 1855.

Elskulegi vin.

Ekki er það nú nema grobb að byrja bréf þetta á kvartista, því það sé eg fyrir, að það kæmist á oktavista ef vel væri á haldið, því nú er svo varið, að allt ætlar út úr höndunum á mér, og þó þarf eg bæði að sjá um að Bókmentafélagsbækur komist, og líka Félagsritin. Kassinn þinn er kominn til Römers, en hvernig þér nú líkar veit eg ekki. Thomsen . . . hefir verið að reyna við stúlku sem hjá okkur er, og hefir haft hnémein, sem Schleisner og Hassing eru uppgefnir við, en nú held eg hún ætli að deyja samt hjá Thomsen, og hefir hann þó verið held eg beztur, eða ekk-

ert lakari en hinir. Eg get nú ekki farið til alþingis í sumar, bæði þessvegna og svo umsvifa við félagið, því ef nokkuð á að gánga, þá verð eg — inter nos — að vera við, og gera nokkuð sjálfur. Það er nú heldur ekki áríðandi eg fari, því í sumar kemur varla fyrir annað en jarðamat og sveitastjórn. Lagasafnið þarf eg líka að passa, því ekki eru tekjurnar, og kemst eg þó vel af, meðan eg hefi heilsu, ef eg hugsa ekki um pólitík; eg verð líka neyddur til að hætta því er eg hræddur um, því ekki hughreystir þú mig, og margir gera hvað þeir geta til að spilla. Havstein hefir nú síðan í hitt ið fyrra reynt til að smána bæði Jón Guðmunds-s(on) og mig það hann hefir getað, jafnvel í bréfum til stjórnarinnar þar sem það átti ekkert við. Mér skílst líka svo á bréfinu þínu, sem hann hafi komið með eitthvað líkt, og er það ekki von að þú eða aðrir ærlegir menn munduð vara ykkur á slíku. . . . En honum verður hálast á þessu sjálfum. — Ekki lítur nú út fyrir annað en almennt stríð. Gufuskip á að fara til R(eykja)víkur, og með því Trampe svo búinn, en rektor er að búa sig á stað með konu og dóttur og danska vinnukonu, — bara nú ekki hin síðari villan verði argari hinni fyrri? — Nú, ertu frá fysikatinu? — eg ætla að lúra uppá rektorat, ef þú sækir um það. . . .

Forláttu mér, elskan mín, þennan miða, og vertu með öllum þínum ávallt blessaður.

Þinn elskandi vin og bróðir
Jón Sigurðsson.

105.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Khöfn 8. Juli 1855.

Elskulegi bróðir.

Kærar þakkir fyrir bréf þín með póstskipi. Nú vona eg þú hafir heimt rektor okkar, og hann sé seztur

á laggirnar. Eg er þér samdóma um Jón Þorkelsson, og það mundi víst varla verða að svo stöddu að hann fengi rektorat, þó hann sækti. Trampe hældi þér mikið, og var að eg held einlægur í því. Það sem þeir finna hér helzt að skólanum núna er þessi danska dressur, sem dregur úr manni allt frelsi, kjark, Selvstændighed, en gjörir mann þvælinn examensmann og hlýðinn og þjálan embættismann. Það er gott þetta, en hins þarf með líka, segjum við, að Íslendingar lifi og safni fjöri, því deyfðin öll fer í hlýðni við Dani og kúgun undir útlent vald og útlendan anda. Hér er líka mikið satt í finnst mér, en vandinn er að þræða meðalveginn. Þessir nýju hér fá þann vitnisburð, að þeir sé hreinar Læsedukker, hugsi um ekkert, viti ekkert og skynji ekkert nema Cursus — öldúngis eins og Danir, nema það verri, að þeir hafa séð minna í uppeldinu og heyrt minna. Það voru menn nú annars fyrri; man eg eptir, að skipti svo sem í tvö horn, sumir litu aldrei í bók, en voru á sífelldu slarki, aðrir litu ekki uppúr, og svona mun lengi gánga að »sitt er að hverju barnanna minna«.

Ekkert skil eg í upptökusemi ykkar við Bókmentafélagsdeildargreyið hérna. Við viljum ekkert leggja til Ilionsdrápu? — nei, því okkur sýnist ekki liggja á henni meira en svo, að hún yrði prentuð heima. Við höfum ekki í fyrstu óskað hennar, en það er satt, að *eg* réði Grönd(al) til að fara að deild(inni) á Ísl(andi) fyrst, og reyna að fá hana til að taka kvæðið. — Það ráðlagði eg Grönd(al) í *hans* Interesse og til þess að hjálpa honum — þegar það nú gekk, þá var það borið upp hér, en menn voru móti því, og eg komst ekki lengra en svo, að ekki var prótesterað, sem annars hefði verið gjört, og þá hefðu þið kannske hætt við og Bensi líka. — Það er ekki af því, einsog þú sér, að neinn bekkist við deildina, en það er af því, að hjá ykkur eru margir sem vilja gera nokkuð fyrir Gröndal, en hér eru þesskáttar menn færri. En ef það er satt

sem þú segir, að sú bók verði til lítils heiðurs, þá sé eg nú ekki betur en ályktanin sé rétt í sjálfu sér, því þá er ekki periculum in mora, og þó þið létið Gröndal) snúa allri Ilias og premeruðuð hana in decimum annum, kalla eg engu spillt, eg veit ekki hví félagið ætti að þræla henni út í snatri, ónýtri bók. Nei, setið þið nú nefnd yfir Gröndal): Jón Þorkelss(on), rektor, Sveinbjörnss(on) og látið þið svo sjá hvað setur. — Þú minnist á skuldalista. Já, það væri gott hann fylgdi hverjum reikníngi og bókareikníngur líka, en hann fengum við nú heldur ekki frá ykkur seinast. Það væri nauðsyn þið héldið embættismannafund, ef nokkuð ætti að gera, en hitt er satt, að ef ekkert er gert, þá er nógur og góður friður, að minnsta kosti um tíma. . . .

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

106.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 21. August 1855.

Elskulegi bróðir.

Kærar þakkir fyrir bréfin þín öll, þú ert óþreytandi, einsog vant er, en eg er einsog »Þóra«, sem aldrei vaknar. Eg hafði annars skrifað þér miða í vor og sent þér apóthek, en það lítur út sem þú hafir ekkert af því fengið. Eg trúi það færi með Römer, og skil eg ekkert í, hvaða skratti þar er í spilinu. Meilby sendi mér 30r í fyrra, einsog eg trúi eg skrifaði þér þar í, en kjöt ekki og kom það af tómu »galanterii«, einsog þú skalt nú heyra. Hann skrifaði mér þú hefðir beðið

sig að [útvega][1] kjöt, en kvaðst ekki þora að senda það, því hann væri hræddur um það smakkaðist mér ekki. — Það er líklega einhver gömul Reminiscents frá Félagsritunum, að mannskepnan er reiður, en bæði af því að eg vænti ekki annars »af en Oxe end et Bröl«, og líka af því eg vil ekki leggja mig niður við að skrifast á skensbréf við búðarlokur, þá hefi eg ekki anzað honum. Eg segi einsog séra Benedikt á Mosfelli sagði við Stephán Gunnlaugsson, þegar hann skammaði hann fyrir öreigagiptínguna: »No, no, láttu ekki svona Gunnlögsen, þau eru hjón!« — Verzlunarfrelsið er nú komið á samt, og eg er viss um það verður lykillinn til Íslands framfarar einhverntíma, þegar tímar líða, hvað aumir og ragir sem við erum nú. Það er annars ekki á góðu von, þegar þeir sem bezt vitið hafa, og eiga að hvetja menn og sýna þeim í öllu gott eptirdæmi, eru bæði hræddastir og ragastir ef nokkuð á að gera, og ef ekki er allt eptir þeirra höfði, þá draga þeir sig aptur úr. Hvenær sér nokkur alþýðu taka sig fram úr, nema hún sé leidd með gætni og greind og góðmennsku og vorkunnsemi. Það væri bezt sönnun á móti allri hinni fyrri kúgun, ef alþýða þyrfti nú ekki bæði handleiðslu og vorkunnsemi, og eg segi fyrir mig, mér finnst alþýða á Íslandi fara lángt fram úr því, sem von væri að henni.

Nú, eg hefi sótt fyrir þig um fysikatið, elskan mín, og hrækt á aungulinn, einsog þeir galdramennirnir fyrir vestan, eg hefi líka talað við Fenger, Trier, Bang og Eschricht, en ekki hefi eg neina sérlega von það gángi. Mér heyrist þeir halda að sönnu uppá þig, en þó muni þeir ætla að meta Hjaltalín meira. Eg sendi þér uppkastið, og hitt aptur. Eg er að vísu ekki vonarlaus, en hálfvonardaufur. Það kemur uppá okkar góða vin Oddgeir, hvað hann getur, ef Sundhedscoll(egium) verð-

---

[1]) útgef.

ur á móti þér. Eg skrifa þér hreint og beint, því eg vona þú sért enginn krakki, og látir ekki á þér festa, *þó* þetta ekki heppnist, heldur þumbist við, og látir ekki neitt á bera. Það sem á móti þér er haft, er það, að Hjaltalín sé eldri candidat, að hann hafi sýnt Interesse fyrir íslenzkri Hygiæne o. s. frv. og skrifað bækur, og sé í það heila activ, en þú hafir lítið látið til þín heyra í voru landi til Sundhedscollegii, og verst að þú hefir ekki sent Eschricht sulli til að raga í. — Eg bestilli hérmeð handa honum heilt kvartil, eða hvað þú getur, af góðum sullum vel syltuðum í spiritus. Eg hefi nú, einsog þú getur nærri, svarað þessu sem eg hefi getað, að þó Hjaltalín sé eldri, sé hann ekki stúdent, að þú getir ekki hvorttveggja, skrifað bækur og verið læknir í örðugustu sveit etc. — En þeir þykjast halda fast við anciennitet. Svo þykjast þeir hafa heyrt þú drekkir. Þartil svaraði eg, að þeir mundu verða að sjá sönnun fyrir því og ekki fara eptir Skipperefterretninger. Eg sagðist ekki vilja eða geta sannað, að þú drykkir ekki, né nokkurt »non factum«, en mér þætti það undarlegt, að amtmaður skyldi hæla þér og vilja gjöra þér sóma — þó skitinn væri — og geta ekkert um slíkt ef það væri nokkuð. — Þeir hættu því þá, en hanga í ancienniteti og activiteti. — Nú kemur sem sagt uppá, hvað Oddgeir getur gert, því hann vill víst gera hvað hann getur, og mér þykir það fjandi hart, að einhverskonar examens-anciennitet skuli gánga fyrir lángri þjónustu í örðugasta embætti. Eg hitti Sick um daginn og hann *lofaði* mér að tala við Simony (justitsminister sem veitir embættið). — Það hefir og Vanscher lofað að tala við Ballin og Mansa. Það var annars helvítis klúður, að þú settir ekki nóg af sullum í hann Eschricht, því hann er bæði uppblásinn og hégómagjarn, og eg er viss um hann hefði verið með þér, ef þú hefðir sýnt honum nokkurn sóma. — Jæja, það er nú að sjá

hvað setur, en blessaður vertu gerðu þig rólegan, hvað sem verður og láttu sem ekkert sé, en gjörðu hvað þú getur til að vita hvort læknaskipanin getur ekki orðið betri í landinu; eg vildi nú að þú skrifaðir uppástúngur eða fengir þá með þér til þess, og yrðir þú landfys(ikus) (eða þá Hjalt(alín) ef hann yrði það) þá væri hægt, *ef þið gætið sameinað ykkur um eitthvað*, að koma því fram nú. Nú eru spítalasjóðirnir c. 30000$^{r}$, eg vil taka sveitasjóði og kristfjárjarðir líka og fátækrameðölin — og þá er nóg til. Svo ætti þið að setja spítala í Reykjavík og kennslu þar, og þar ættir þú að koma til. Ef þið gerið nú ekkert við þetta, þá kenni eg ykkur um að þið séuð slóðar. Þú getur vel kennt og ágætlega, eg skal ábyrgjast það, og þá hefðir þú kannske betra en landfysikatið, því satt að segja, þó eg gjarnan gjöri hvað eg get til þess þú gætir fengið það, þá sé eg bæði bölvað jagið og mart og mart, sem þér væri ógeðfelt, en hitt held eg væri þér miklu viðfeldnara og hægara.

Aldrei geti þið útrýmt skottulæknum, og eigið heldur ekki að geta fyr en þið setið aðra í staðinn betri.

Oddgeir hefir legið í Typhus, en er nú betri, hann er einsog fyrri greyið. — Annars er ekkert að frétta nema þetta gamla skítt. Danir eru að rembast, en lenda þó í Heelstaten á endanum, og það er gaman, að nú segja sumir, að við höfum gjört rétt, að setja okkur útúr vrövlinu 1851, en nú á næsta alþingi kemur ný tilraun, það skaltu sjá, og þá þurfum við að sjá okkur farborða. Ekkert fréttist frá alþingi enn, nema það sem varð fyrstu dagana.

Forláttu það sem fylgir adressebréfi til þín handa konunni í búið frá konunni minni. Eg bið að heilsa öllum kunníngjum. — Ekki held eg hafi sagt þér hvað vænt mér þykir um, að þú heldur í hönd með Bókmentafélaginu; hvað þú hefir móti statistíkinni, sé eg

ekki ástæðu fyrir, og víst er það, að eigi slíkar skýrslur að komast í lag, þá verður að prenta þær og kritisera.

Með kærri kveðju frá okkur til þín og þinna.

Þinn elskandi vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

Þú skalt ekki vera *afhuga* fysikatinu, en ekki heldur *treysta* að þú fáir það.

107.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 30. Sept. 1855.

Elsku bróðir.

Nú nú, þetta fór þá einsog við var að búast, að Hjaltalín fékk landfysikatið, en eg vona þú látir það ekki á þér festa og spýtir mórauðu. Sundhedscollegium og Ministerium til samans eru þess ekki verð, að ærlegur maður ergi sig yfir þeim, en það vildi eg óska þið gerðið nú gángskör að því, að fá læknaskóla og spítala í Reykjavík, því það er það eina sem nokkuð gagn er í, og er dálítill vegur til að koma lagi á læknaskipunina, hvað sem Schleisner vill prédika. Þegar nú Hjaltalín er orðinn landlæknir, þá ætti þið hinir, Jósep og þú og Skúli, að geta fengið hann til að gjöra, hvað þið vildið og þörf er á. Nú á Jósep að verða læknir verulegur, með 400 rd. laun, en Jón Finsen fá Eggerts stað. Jósep kemst nú officielt undir commando amtmannsins, svo nú þarf ekki að bestilla lengur sóttir til að halda honum heima. . . .

Þið hafið líklega frétt af alþíngi. Eg heyri sagt Melsteð hafi verið gleiður mjög, og drjúgur við stjórnina, einsog vant er, en eg held þeim þyki samt ekkert sérlegt til koma, því eg held þeim þyki hann hafa neytt sín ofmikið til að kúga þíngið, þar sem ekki hefði þurft. Fals slær sinn eigin herra um háls.

Forláttu mér nú, elsku bróðir, þennan flýtismiða og vertu með öllum þínum ætíð blessaður.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

108.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn 13. Okt. 1855.

Kjære Herr Pastor Gudmundsen.

. . . Althinget gik meget fredsommelig, og jeg troer i det Hele godt, kun syntes jeg Melsted havde haft godt af at see lidt mere af Braadden, thi man kan see han har fölt sig saa ugeneert, at det er formelig stödende. Sr Hannes Stephensen var syg, og Bönderne ere godmodige uden Been i Næsen, Jón Gudm(undsson) kan ikke være allevegne. Den isl(andske) Handel staaer nu brillant i Aar, men Fremmede har der kun været lidt af. Dog have Englænderne kjöbt Heste for omtrent 3000 Rd. paa Nordlandet og noget paa Sönderlandet og et Par Nordmænd have været der, med smaae Skibe. Næste Aar vente vi flere. . . .

Jón Sigurðsson.

109.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Khöfn 13. Novbr. 1855.

Elskulegi bróðir.

Ekki er nú nema að heilsa og kveðja, en eg ætla samt rétt að rispa þér eina línu. Héðan er ekki að segja nema öllum líður sæmilega. . . . Útvegaðu mér

hjá Einari prentara reglurnar um eldvarnir í Rvík, og hvað fleira hann getur látið mig fá. Eg sendi Jóni Guðmundssyni Prógram Larsens og muntu vilja lesa það. Eg er búinn að skrifa móti því (inter nos, en það mun fréttast) og fer að láta prenta, hans rit trúi eg stjórnin ætli að láta setja á íslenzku, mitt mun verða að setja sig sjálft. »Dagblad(et)« og sögubrot þar í bið eg þig koma til Boga sýslumanns Thorarensens. Eg bið að heilsa rektor og segðu honum að enn sé ekki kominn arfur konu hans. Eg rak nýlega í það augun, að rektor er farinn að incorporera okkur, hann talar um skólann á Íslandi eins og einn af »Kongerigets Skoler«, eins og Ísland væri þegar innlífað Danmörku, það sýnist mér ekki rétt, en hann veit stundum ekki af öðru en hann sé danskur.

Kysstu konu og krakka frá okkur.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

110.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Khöfn 22. Dec. 1855.

Elskulegi bróðir.

Kærar þakkir fyrir sendíngarnar og bréfin. Allt uppá það bezta. Eg skrifa þér nú ekki lángt í þetta sinn því eg vona að Sveinbjörn sendi skip bráðum, og þá get eg sent þér blöðin og bækling minn móti prófessor Larsen. Þar er við ramman reip að draga, en mér finnst það þó skylda mín að segja hvað eg get, hvort sem þeir reiðast mér eða ekki. Þú ert því víst ekki samdóma, því eg sé þú mænir sárt eptir að incorporerast í Danmörk, og eg veit vel hver þá kenníng prédikar, en þú ert þó svo skynsamur maður, að þú sér

bæði hvað unnizt hefir með því híngaðtil að við værum endakleppur aptan í Dönum, og eins hvort líkindi væri til að nokkur competent stjórn fengist á Íslandi, ef það væri einsog hvert amt í Danmörk. Nei, það eina sem gæti dugað, væri að fá Ísland sér, með stjórn þar, sem hefði competence, og til þess ætti hver Íslendíngur að stuðla. Þó þið mænið aldrei svo mikið til kjötkatlanna í ríkisdeginum þá fái þið aldrei annað uppúr þeim en þetta sama, að mega bíða og snópa, biðja og ákalla, og þykja þó fá allt of mikið. Eg vorkenni þér annars, elskan mín, með þinn stóra hóp, og eg vildi eg gæti létt undir með þér og skyldi gera það ef eg hefði nokkuð fast og þú vildir trúa mér fyrir krakka, en maður má samt ekki bregða útaf sannfæríng sinni. Mér sýndist þú ættir nú að vinda að, að kaupa Landakotseignina fyrir c. 4000 rd. einsog eg var að eggja þig á um árið. Þú fær aldrei betra kaup í Reykjavík. Þú sér að eignin stendur fyrir peníngunum, og ef þú leggur niður hvað þú borgar nú í húsaleigu o. s. frv. og hvað þú mundir borga þar, þá sé eg ekki betur en að þú standir þig eins vel og hafir eignina að auki fyrir hvað þú getur leyst til þín. Blessaður hugsaðu um þetta nákvæmlega og vertu ekki ragur, því eignin stendur fyrir sér sjálf. Að fara uppí sveit verður þér ekki betra, hitt er sjálfsagt að þú berir þig að verða rektor ef Bjarni færi, eða að öðrum kosti yfirkennari. Um mig yrði líklega ekki að tala, og eg er heldur ekki til þess fallinn, og mart fleira, enda er nú nógur tíminn að tala um þetta, en hitt er fyrst að ná í eignina. Eg sé ekki að þú þurfir neitt sérlegt umstáng að hafa meira en nú. Þar er tún fyrir 4 kýr; þó þú vildir hafa tvær, þá fær þú þær fyrir að leigja út tvö kýrfóðrin, og þau tvö kýrfóður mundu kosta þig nú 120 dali. Eg vildi heldur kaupa Landakot fyrir 4000$^{r}$ en hvert hús í Reykjavík fyrir 2000$^{r}$, og hver fær það fyrir það verð?

Heilsaðu rektor og segðu honum að peníngarnir sé komnir frá Spärck, og eg þakka honum annars fyrir bréfið og bið hann forláta að eg ekki skrifa núna. Þú ert að tala um að hann haldi eg hafi eitthvað móti sér; eg hefi orðið var við þessháttar grun hjá honum fyrri, en eg get ekki að því gert að eg sé enga ástæðu til hans. Eg þykist vera honum svo vinveittur sem eg get, en meira er mér ekki lagið, því þú veizt hvað þurlegur eg er, og öðruvísi á eg bágt með að vera. Það eina sem eg ekki sympathisera í, það er þessi danska veneration, danskar skriptir og dönsk dressur (sit venia verbo — en eg mæli það sem aðrir mæla) og það veit hann mikið vel, en hann hefir svo opt sagt að hann haldi ekki af þessu sjálfur, að eg má halda það sé satt. — Annars er ekki til neins að orðlengja um þessháttar, því það mun réttast að hver haldi sinni sannfæríng um það sem hann álítur rétt, og það vil eg gefa hverjum manni einsog eg áskil mér það. Eg veit að þú ert líka mikið betur inni í þessháttar en eg, svo eg gef mig undir ykkar dressur meðan eg get ekki sýnt hvernig dressur *eg* meina, og það get eg líklega aldrei — enginn skaði!

Forláttu nú þennan miða, og láttu þessháttar fara okkar á milli sem eg skrifa ekki öðrum en þér og ætla ekki öðrum.

Konan og Mad$^{\underline{m}}$ Thorgr(imsen) og eg biðjum öll að heilsa og kyssum ykkur ástarkossi.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

Eg bið að heilsa prófessornum og sjáðu til blessaður eg fái til Félagsins 100—130 Landafræðir, sem við biðjum um — á okkar kostnað ef ekki vill betur — og það með póstskipi.

Heilsaðu líka Jónassen og þakkaðu honum mín vegna fyrir ágætan seðil seinast, sem eg skal rækilega launa þegar eg get.

111.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 1. April 1856.

Elskulegi bróðir.

Kærar þakkir fyrir bréf þín og sendíngar o. s. frv. — Eg er nú í illu skapi, því eg er hræddur um þú verðir óánægður með mig, en eg get ekki að því gjört, eg hefi farið eins að og eg hélt réttast fyrir sjálfan mig. Þú skrifaðir mér í haust, að eg skyldi bræða það, hvort þú ættir ekki að sækja um læknisdæmið fyrir norðan, en bölvanin var, að eg fékk ekki bréf þitt fyr en póstskip var farið, Hemmert fór með það í vasanum, svo eg gat ekki spurt þig, og nú skrifar þú mér ekkert um það. Eg gat því [ekki] annað gert en ráðfæra mig við Oddg(eir) og hann hefir látið allt standa til nú, ef þú kynnir að segja eitthvað með póstskipi. Eg vildi nefnilega sækja, ef þú *skipar* mér það, en þegar eg skal fara eptir minni hyggju, þykir mér það vitleysa. Hefðir þú verið rekinn á Eskifjörð, mundi eg hafa sótt, en nú lítur svo út sem þú megir vera kyr, og það er líka ómögulegt nema með rángindum að skipa þér að flytja. En þegar þetta sleppur, þá sé eg ekkert nema skaða við flutnínginn. Þú getur haldið laununum, en þú fær ekki meira, þú missir allt hvað þú hefir búið um þig þarna, þú missir meðalasöluna, og þú fær grófan kostnað til flutníngs og búreisnar nyrðra, en allt hæpið í aðra hönd. Þú lifir ekki af 600 dölum á Eyjaf(irði), sem ekki er von, og þó þar sé ódýrara um tíma, þá er ekki sagt hvað lengi það verður. Það er kannske hægra, ef maður fer að einsog Eggert, en það getur þú ekki, þín verður leitað, þó aldrei væri nema af forvitni fyrst í stað, og þá fær þú nóg arg. Aðdrætti verður þú að hafa, en þartil þarf fólk og kostnað. Eg veit nú ekki heldur hvað amtmannsins atmosphære þarna nyrðra er holl. — Þarna

er nú mitt ræsonnem(ent), það er kannske vitlaust, en það er eptir beztu vitund, og eptir því sem við Odd-g(eir) höfum ítrast getað séð. Eg heyri nú af Svendsen, að honum þykir þú standa þig ágætlega vel, og það gleður mig makalaust, enda þekki eg nú kallinn annarsvegar, að þú lætur nokkuð undan þér gánga, en eg vildi þú værir eins ánægður með sjálfan þig, einsog við hinir hérna, og heimtaðir ekki meira af sjálfum þér en af mennskum manni, þá yrðir þú rólegur og ekki eins ömrulegur með sjálfum þér. Maður verður að fela forsjóninni og eptirtímanum allt saman hvort sem er, og þessvegna er ekki vert að taka of nærri sér. Eg vil heldur hafa þig sem mesta letíngja, hvað þú aldrei verður, í tuttugu ár, en eg vil láta þig fara hreint með þig á fimm. — Slæmt þykir mér það, að þú vilt ekki styrkja að læknaskóla heima, því þar hefði að minni hyggju verið auðið að ná hægra plázi handa þér, og þó mjög nytsömu, en einsog nú er. En svona er það; Hjaltalín verður nú eins. Íslendíngar fást aldrei til að sannfærast um að betra sé að veifa röngu tré en engu. Þeir vilja annaðhvort allt eða ekkert, allt geta þeir ekki fengið, og því hafa þeir ekkert. Eg get skilið þetta princip þegar um uppástúngur er að tala sem stundum koma fram frá stjórninni og eru theoretiskar. En þar sem þarf að koma einhverju á fót með fátækum efnum, þá er það rángt.

Eg sendi þér að gamni mínu 2 ex(emplör) af pésa mínum móti Larsen. Eg sendi hann með Svendsen til sölu í sumar, og þá vona eg þú mælir með slúðrinu, að það gángi út, því eg mátti sjálfur kosta bæklínginn, af því eg nennti ekki að láta bókakaupmennina hér vera að brýna á honum nefin. Heldur held eg mönnum hafi líkað hann vel en illa, við mig sjálfan hafa þeir nú hælt honum. Eg bið þig fá tengdaföður þínum annað exemplarið, með kærri kveðju og þakklæti fyrir allar hans bendíngar að undanförnu, sem hann sér að

eg hefi þó fært mér í nyt að nokkru. — Ef eg get sent þér Lars(ens) rit, skal eg gjöra það. Sveinn Skúlas(on) er að snúa því á íslenzku, og nú á að prenta það og líklega þínglesa til að sannfæra lýðinn. Vegna þess höfum við tekið okkur til að íslenzka minn bæklíng líka, og verður það prentað í Félagsritunum. Nú er friðurinn saminn í fyrra dag, svo út lítur fyrir að allt jafni sig.

Kysstu konu þína elskul(ega) og dóttur og vertu frá konunni og mér kærlega kvaddur.

Þinn einlægur elskandi vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

Eg sendi þér 3 ex(emplör), eitt handa Guttormi, ef guð gefur hann réttir við.

## 112.

Til Sigurðar Gunnarssonar, síðar prófasts á Hallormsstað.

Khöfn 1. April 1856.

Elskulegi vin.

Eg get ekki látið þennan hjálagðan bæklíng fara svo, að heilsa ekki uppá þig, og þakka þér innilega samvinnu seinast og svo bréf þín elskuleg. Þú sér, að ekki er öll nótt úti enn, og að Danir liggja á meltunni við okkur, ef þeir gæti komið nokkru fram. Larsen hefir nú verið að koma þessu fyrir í 4 ár, og þetta les hann fyrir íslenzkum lögfræðíngum við háskólann, svo von er þó þeir verði hollir þjóð vorri og landi, þegar þeir eru búnir að melta þennan kost. En eg vona þó samt sem áður, að þessir hnykkir verði smásaman að engu, og það yrði þeir vissulega, ef okkur ekki brysti að þora að treysta guði og góðu máli, og tortryggnislaust verja kröptum okkar til þess rétt svona með hægð

að ýta sannleikanum. — Nú er verið að snúa Larsens bækl(íngi) á íslenzku, það gerir Sveinn Skúlason og á nú að pínglesa hann fyrir lýðnum í sumar. Við þorðum ekki annað en snúa mínum pjesa líka, og hann kemur í Félagsritin. Eg hefi beðið Svendsen að taka danska pjesann minn til sölu, og hann hefir lofað því, svo eg vil biðja þig vísa á hann í sumar. Pjesinn kostar 3 mörk, en einsog þú getur nærri er eg mikið fyrir að hann gángi út, svo eg fái aptur nokkuð til að gera það með. Þegar háskólinn kostar hans bækur og stjórnin, þá máttu nærri geta, að mér fer eins og Gunnari á Hlíðarenda, að eg verð feginn að ná skeyti með einhverju móti, svo eg geti einhverstaðar fleimrað hann. Gæti eitt kverið borið hitt, sem næst kemur, þá mætti það heita gott, því það geri eg ráð fyrir að L(arsen) þegi ekki við svo búið. Til þess annars að sýna þér hvernig andinn er meðal vor, þá eru til einstöku Íslendíngar sem ekki vildu láta svara Larsen, — til þess allt gángi í sömu súpunni eilíflega. Nei, látum oss senda honum alltaf aptur og aptur sama skeytið!

Forláttu bullið — þínum einlægum elskandi vin

Jóni Sigurðssyni.

Friður er saminn, og »dýrastríðið er á enda«. —

Harður ert þú við Bókmentafèlagið — en hvað er þar við að gera, nema láta undan þér, þó þú ekki einusinni hafir lög að mæla. — Það eru lög eptir mínum skilníngi, að þú greiðir þína 6 dali, og þar frá dragist verð þeirra bóka sem þú hefir keypt, en áttir að fá sem félagi um þau ár — en það er gentilt, að þú greiðir þína 6 dali og heimtir ekkert fyrir. — Við höfum nú í vetur fengið c. 80 nýja félagsmenn — í fyrra sumar 70 — árið þar á undan viðlíkt — í 2 ár alltsvo c. 300. — Er það ekki gott? — Eg er nú farinn fyrir alvöru að halda, að það sé mögulegt, sem eg hefi sagt í gamni áður, að félagið ætti að hafa 1000 manna á Íslandi. —

Væri það, þá hefði félagið 3—4000 dali árlega í tekjur, þá má gera nokkuð gagn, Íslendíngar geta fengið beztar og billegastar bækur sem auðið er, og þeirra forna literatur getur orðið aptur þeirra eign, svo hvorki Norðmenn né Danir, né neinir aðrir þjófar eða ræníngjar geti náð í hana. Amen.

113.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 19. Maí 1856.

Elskulegi minn!

Nú koma sendíngarnar kannske! Það er dálítill stokkur með renniloki, þarí áttu djevils montinn trefil, konan þín hatt og dóttirin kjólefni. Svo er með laukaskjóða. Konan mín biður hjartanlega að heilsa og þakkar makalaust fyrir ullina, rjúpurnar, ketið etc. etc. . . . Þeir eru nú að ferðast til Íslands í gríð. Napoleon keisarafrændi (sonur Jeronymus gamla) fer á tveimur dampskipum, og Sigurður Jónasson er nýkominn til Englands til að fylgja einhverjum lávarði Dufferin, frænda Palmerstons, Jón Sveinsson ætlar til Parísar. — Danskir stúdentar og norskir eru að fara til Uppsala senn, Íslendíngur enginn verður með, því þeir vilja nú láta bjóða sér sérílagi. Þykir þèr þeir ekki orðnir á buxum? — Þú segir, einsog gamall, reyndur busi: láti þeir mig sjá þeir geri nokkuð verulegt? — En »montið er þó til alls fyrst,» það verður þú að játa! — Frater okkar gamli Páll Melsteð er að sveitast við dönsku lögin, en fjórir eru uppi, biskupssonurinn, Hannes Finsen, Hermann og Jón Snæbjarnarson. Magnús Eiríksson er að búa sig til að verða prestur á Stokkseyri og í Kaldaðarnesi. — Heyrðu, hefir þú hvergi komizt á snoðir um kvæðasafn eptir síra Stephán í Vallanesi, síra Bjarna

Gizurarson á Þíngmúla, og aðra af þessum austfirzka humoristiska skóla? — Komstu eptir því og útvegaðu Bókmentafélaginu eða mér eitthvað af því, eða hverju sem er af þesshátttar. Það fer ekki ver um það hjá okkur.

Vertu nú blessaður.

Þinn elskandi vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

## 114.

### Til Jóns Þorkelssonar, síðar rektors.

Khöfn 30. Juni 1856.

Elskulegi vin.

Nú hefi eg þá náð þessum 30 rd. hjá Konráði, og megi þér ávísa þeim upp á mig, þegar yður þóknast. Mér væri kært að fá frá yður reikníng um viðskipti okkar, eptir yðar skrám. Gleymi þér þá ekki skinnbréfunum.

Vænt væri að fá kvæðabækurnar og þesskonar og það vildi eg biðja yður að liggja út fyrir við tækifæri handa mér. Sveinb(jörn) átti syrpu í 8vo, sem hann hafði léð Pétri Guðjónssyni, þar var mart á. Nú er farið að prenta Diplomatar(ium), og verður það nokkuð mikið í vögunum, því eg hefi c. 25 arkir til 1300. Mér þykir það mikils vert, að eg hefi fundið páfabréf, sem eg get ekki rengt, og eru eldri en 900 og þarumbil, sem nefna Ísland og *Grænland*. Þar eru með þessi gömlu, sem menn hafa viljað hrekja, en nú eru komin fleiri til. Þá verður mín skoðun sú, að Ísland hafi verið þekkt fyr og nefnt, en vér höfum sögur af, þó menntun sú sem frá Noregi kom og saga hafi síðan yfirgnæft. — Það þykir mér og merkilegt, að eg get sannað að textar norskra bréfa, t. d. Eysteins erkib(isku)ps, hafa

verið á *latínu* og sú *íslenzka* (norræna) af þeim, sem vér nú þekkjum — því latínan er töpuð — er ekki annað en *útlegging*, gjörð á Íslandi. Þar með verða mörg þessi bréf, sem Norðmenn eigna sér, t. d. erkibiskupa statutur, að öllum líkindum íslenzk, en *ekki norsk*, og ergo tek eg þau frá þeim bræðrum vorum í Noregi. — Hér kennir þannig margra grasa, sem þér sjáið.

Möbius biður að heilsa, og þér fáið frá honum sending. Þýzkir eru nú ólmir í íslenzkuna, þeir eru Munchianar að hálfu, en Danir fá ekkert, svo Rafn er hálffyrtinn t. d. við Möbius, að hann hefir ekki »Danicorum« með. Maurer hefir skrifað 2 stór bindi um kristniboðið á Norðurlöndum, sem hann kallar *Bekehrung des norwegischen Stammes*, Weinhold í Grätz stóra bók »Altnordisches Leben«. Í Noregi er Keyser kominn út með Noregs kirkjusögu í katólskri öld, 1. h., og Lange með nýja útgáfu af Klaustrasögunni. — Þetta ætti þið að kaupa. En hvað þið reynið nú ekki að ná í bókasafn Finns heit(ins) Magnúss(onar) sem hér er alltaf óselt. Þegar þið farið að vakna, þá er þó þetta nauðsyn, og ætíð verður þó sæmst hjá okkur það sem snertir norræn fornfræði, ef ekki vantaði subsidia, en þar er mart ágætt.

Forlátið risp þetta

yðar einlægum vin
Jóni Sigurðssyni.

115.

Til prófessors K. Maurer's

Kaupmannahöfn 8. Juli 1856.

Háttvirti herra prófessor Maurer!

Það mun nú að vísu vera djarft, að rita yður bréf á íslenzku, en eg ræðst þó í það vegna þess, að eg

treysti mér, því miður, ekki til að rita yður á þjóðversku nema með meiri fyrirhöfn, en á dönsku er mér ekki geðfelt að rita meira en eg þarf. Það var mér harla gleðilegt, að þér höfðuð lesið ritlíng minn móti Larsen, og dómur yðar um hann gat ekki orðið betri um hríð, og eg vona að hann haldist þegar þér hafið lesið rit hans; þá er eg ánægður ef svo verður. Íslendíngar eiga í þessum efnum örðugra en hertogadæmin, því þau hafa Þýzkaland sér til aðstoðar, en Ísland hefir ekkert, nema fjarlægð sína og fátækt, til forsvars réttindum sínum, svo það er von að þau verði ekki í miklum heiðri höfð, sízt á þeim tímum, þar sem mart gengur í busli.

Með bréfi þessu leyfum vér oss, fáeinir landar, að senda yður nokkrar af hinum seinustu íslenzku bókum, sem prentaðar eru og útgefnar af Bókmentafélaginu, sömuleiðis Ný Félagsrit XVI. ár.

Guðbrandur Vigfússon sendir yður nokkur skólaboðsrit og munu þér sjá af þeim og af »Tíðindum um stjórnarmálefni Íslands« nokkurn veginn, hvernig skólanum er varið nú á tímum.

Bréf þetta og bækur sendir Andr. Fred. Höst, bóksali til Cotta í München, og segir hann mér að það muni komast yður í hendur með skilum. Væri svo, að við skiptumst bókasendíngum við, þætti mér vænt að vita hvernig senda skyldi öðruvísi, ef þetta nú ekki heppnast.

Yðar skuldbundinn heiðrari
Jón Sigurðsson.
(Östervold 486 B. 2. Sal).

116.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn. 6. Sept. 1856.

Elskulegi bróðir.

Hér fylgir Bangs Therapie og signet handa þér. Fyrir bréf þitt, að vana ástúðlegt, þakka eg þér kærlega, en það er bágt að eg get engu tauti komið við geðið í þér. Það er svo örðugt að skrifa það sem manni dettur í hug, en það sé eg, og þú sér það án efa sjálfur, að þú dæmir menn of vægðarlaust, einkum þá, sem ekki er von að sé fyrirmynd eða leiðtogar annara, en eg held þú sért aptur of vægur við hina, sem eiginlega eiga að gánga á undan, og víst er það, að þegar svo virðist sem þú gefir Larsen rétt, og þeim júristum þínum, sem hafa legið á hans brjóstamjólk hér við háskólann, þá ferðu ekki í skarpa hornið á krítíkinni, eða á jure. Mér finnst nú allt benda til þess, að alþýðan á Íslandi sé það eina sem megi fá vit úr, og kenna vit, en þessir hálfstúderuðu dönsku embættismenn, sem liggja andfætíng hvor um annan í drabbi og sukki, sýnist mér vera lakari. Þeir þykjast vita meira og vera menntaðir, en vita of lítið til þess að geta verið í samvinnu með öðrum, eða dramb þeirra er of mikið til þess, því þegar þeir eru í embætti vilja þeir láta virða sig orðalaust, hvort þeir gjöra nokkuð eða ekkert. Dómar þeirra um mig liggja mér í léttu rúmi. Eg skil í það heila tekið ekki hugsunina þeirra. Ef eg er egoist, þá líkist eg þeim, og þá ætti þeir sízt að dæma mig hart. Ef eg vil hafa lofið, nú þá er að sjá hvort eg hefi unnið til þess eða ekki. Ef eg vinn fyrir peninga-ábatann, þá er það eins. Það er allt undir því, hvort eg á nokkuð skilið eða ekki. Mér sýnist, að ef eg eða hver annar er egoist, þá geti menn brúkað hann aptur egoistisk, þ. e. farið svo með hann að hann *geti* gert gagn, og teygt úr honum sem mest.

Að vísu hefi eg heyrt mig fyrir um þrælana, en þeir verða dýrir. Eg gjöri ráð fyrir 50—100 rd. árlega, fría ferð og svo allt frítt. Þetta svona hérumbil á að gizka. En vandast er að fá dóna sem eru góðir. Hann Jens þarna nyrðra var víst góður. Þú ættir eiginlega að stelast híngað í haust með seinustu skipum, og vera hér í vetur; það kynni að mýkja geð þitt dálítið, og friða það, því eg get skilið að mart amar að, og smákroppið getur ekki síður ergt mann og þreytt heldur en stórstíngirnir. En þú munt eiga bágt með að fara einn, og ekki heldur eða því síður mega missa umsjón konu þinnar frá heimilinu. Annars getur læknir ætíð fundið uppá einhverju embættisins vegna og heilsunnar, því enginn veit eða getur controllerað hann, og þú ert líklega þar að auki á góðri hyllu hjá Havstein og júristunum, því meir sem þú fyrirlítur lýðinn.

Nú, mér þykir Hjaltalín ætla »að bregða busanum«, að skera eyrun af homöopöthunum, einsog hinir fornu (ekki einusinni þeir núverandi) Tyrkjar. Nú fer homöopathian víst að útbreiðast á Íslandi fyrir alvöru.

Forláttu nú risp þetta, og kysstu frá okkur konu þína og dóttur.

Þinn einlægur elskandi vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

117.

Til prófessors K. Maurer's.

Kaupmannahöfn 26. Sept. 1856.

Háttvirti herra prófessor Maurer.

Mjög ástsamlega þakka eg yðar vinsamlega bréf 6. þ. m. og það gleður mig, að eg sé þar af að þér hafið fullkomlega skilið mitt hið fyrra bréf til yðar, svo eg er nú því djarfari að rita yður á íslenzku, en hitt er

mér og kært, að lesa bréf yðar á þýzku, því það skil eg vel þó mér sé ekki orðið enn tamt að tala það[1] eða rita.

Mjög gleður það mig að heyra dóm yðar um okkur Larsen og á hverri stundu er eg að vænta að sjá rit yðar í »Augsb(urger) allg(emeine) Zeitung«, og ef mögulegt væri að fá þau blöðin, sem það væri prentað í, væri mér það harla kært, helzt 2 ex(emplör) ef mögulegt væri, svo eg gæti sent annað til Íslands, til blaða þeirra sem þar koma út og eg hefi viðskipti við.

Eg veit að yður hlýtur að falla örðugra að lesa bækur þær sem ritaðar eru á máli voru einsog það er nú, en þó er það varla nema fyrst í stað, og munu þér fljótt venjast því. Til þess að sýna yður nokkuð meira af þvi sendi eg yður nú með seðli þessum, til Lorcks í Leipzig:

1) Alþingistíðindi 1845. 47. 49 og 53 og 55, það er allt sem prentað er af þeim.
2) Þjóðfundartíðindi 1851.
3) Ný Félagsrit 1—3, 5—15. ár. 4ða ár get eg að sinni ekki sent, því það er uppselt, en eg mun reyna að útvega það. —

Það er mér kært ef þér fyndið tækifæri til að sjá af þessu, hvernig ásigkomulag hinna íslenzku mála er nú sem stendur, og hvert þeirra álit er á málunum, einkum að því leyti, er viðvíkur sambandinu við Danmörku. Væri einhverjar aðrar bækur, sem eg gæti smásaman útvegað yður, skyldi mér vera ánægja að heyra hvað þér helzt óskuðuð í því efni.

Forlátið mér þennan skyndimiða.

Yður einlægur heiðrari

Jón Sigurðsson.

---

[1]) svo.

118.

Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 20. Jan. 1857.

Háttvirti herra prófessor Maurer.

Það var mér hin kærasta nýársgjöf, að fá yðar ágætu bók um kristniboðið á Norðurlöndum, og svo nú nýlega frá okkar góða vin Guðbrandi Vigfússyni að fá yðar encyclopædisku grein um Íslands kirkjusögu, að ógleymdri ritgjörð yðar í Augsb(urger) allg(emeine) Zeit(ung) um okkur Larsen. — Um þetta allt er meira að rita, en eg nú get í fáum línum, nema að þakka yður svo ástsamlega sem innilega fyrir yðar góðvild, og einkum fyrir hversu vel þér hafið gengið frá öllu þessu, og með hvílíkri þekkingu og nærgætni mart er sagt, einkum í bók yðar, og í ritinu um Larsen. Þá er og bréf yðar ástsamlegt sem eg á að þakka, og með mestu ánægju höfum við kosið yður í hið íslenzka Bókmentafélag. Diplom yðar er tilbúið og verður sent hið fyrsta við sjáum færi á, ásamt bókum félagsins, er þér sem félagi eigið að fá. Á seinasta fundi félagsins voru 66 nýir félagar kosnir, flestir á Íslandi, 6 úr Noregi, og nú eru alls nær 600 komnir í félagið í stað þess að fyrir 3 árum síðan voru ekki nema rúm 200 í því.

Ritgjörð yðar um stjórnarmál Íslands líkar okkur Íslendíngum harla vel, en Dönum miður, einsog vænta má, og kemur það af því, að þeir vita ekki annað en hvað hugmyndir þeirra sjálfra og hugþótti segir þeim í því máli. Þeir vilja taka einir arf eptir einvaldsdæmið, en ekki unna hvorki hinum þýðverzku né íslenzku samþegnum sínum að erfa með sér, og því er miður, að þér hafið of satt að mæla í því, að afl vort Íslendínga er of lítið til þess, að vér getum sýnt þeim greinilega að við oss sé ekki að etja nema góðu. Larsen er nú andaður, en hann hefir eptirlátið eitthvert

rit sem svar til mín, og á nú að prenta það, og líklega á einhver annar prófessor að taka að sér það mál. Eg hlakka hálfvegis til að sjá, hvað nú verður sagt, og einkum þykir mér það gaman, að þeir segjast nú ekkert gjöra úr þessu gamla, það er: að fyrst þeir sjá þeir geta ekki hrakið það, þá sé bezt að sleppa því, og mun þá eiga að taka hið nýja nl. 28. Maí[1] 1831 og þaðanaf, — en eg spái það fari eins. — Ekki tek eg það til greina, þó þér í þessari ritgjörð yðar talið eins og nokkuð kaldlega, þó eg hefði óneitanlega heldur óskað alls yðar kröptuga hita, því mér skilst það vel, að lesendur þeir, sem þér eigið helzt málstað við, sé lítt kunnugir, og taki því helzt sem þeim sýnist vera tómar laga-ástæður og ekki annað. Þegar þér kynnist betur, og hafið lesið Ný Félagsrit, vona eg þér sjáið mart það, sem muni afsaka oss Íslendínga í yðar augum, og allra sanngjarnra manna og góðra, þó vér þykjumst í mörgu eiga um sárt að binda, því enginn getur undrazt, þó það þyki þúngt, að vera útibyrgður frá allri veröld nauðugur um 600 ára, og settur svo lángt aptur á bak í öllu því sem jarðneskri framför heyrir, að sanna má að land vort er nú í þeirri grein ekki eins vel á vegi einsog á Sturlúngaöld. —

Það sem oss Íslendíngum þykir svo merkilega gott í ritgjörðum yðrum er það, að oss finnst þér skilja oss og hugsunarhátt vorn allra útlendra manna bezt, og því fremur mundu þér skilja hann, þegar þér fengið að sjá fleira af því sem nú er fyrst að koma fram, og vér vonum með tímanum muni eyða þeim villum, í sögu lands vors, sem Danir og Norðmenn í mörgum efnum útbreiða, og hafa jafnvel fengið Íslendínga sjálfa til að fallast á, einkum meðan einvaldsdæmið skyggði á allt, og síðan Norðmenn fóru að reyna að ná til sín allri bókmennt vorri, sem eg ætla þó á engum rökum

[1]) í handritinu: Jan.

byggt; því í þeirri grein finnst mér einskonar sótt hafa gengið um Norðurlönd. Fyrst hét öll vor Literatur Götiska eða Gammal-Svenska, síðan Danska, og nú Norræna. En vér viljum Íslendíngar aðgreina í því efni túnguna og bókmálið. Túngan er almenn, eða hefir verið, en bókmálið og bókagjörðin er íslenzk. Er það ekki rétt aðgreiníng? — Látum þá kalla málið (túnguna): Danska, Svenska, Norræna. Bókagjörðin er öll íslenzk, og sem bókmál heitir túnga vor allra að réttu lagi Íslenzka. Á Íslenzku eru öll Norðurlanda klassisku rit. Þau rit, sem kunna að vera samin í Noregi, eru í stíl, og öllu bóklegu, hinum á baki. Að eigna Norðmönnum bækur þær, sem eru samdar á Íslandi, þó þær sé eptir frásögnum manna í Noregi, væri eins og að eigna Íslendíngum ferðabók Hendersons á Íslandi, af því hún er mest samin eptir frásögnum þeim og skýrslum, sem hann hefir safnað á Íslandi.

Eg vona þér misvirðið ekki mína íslenzku keppni í þessu efni. Eg veit vel og viðkannast hversu mjög oss er ábótavant í mörgu, en eg álít rángt að sleppa því sem vér eigum og höfum lengi átt með sóma. Þjóðverjar eru manna vísastir til, með öllum sínum bókmenta krapti, að taka málstað vorn í þessu efni, og eg ætla hann muni vera allgóður í góðum höndum.

Forlátið mér þessar fáorðu línur.

Yðar skuldbundinn heiðrari

Jón Sigurðsson

(Östervold 486 B. 2. Sal).

119.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 14. Maí 1857.

Elskulegi bróðir.

Kærar þakkir fyrir bréfin þín, sendíngarnar allar, nema ullarskjóðuna, hún kom aldrei fram, og alla elsku-

semi þína og tryggð. . . . Eg er nú að búa mig heim að taka á móti Skattebevill(ings)-réttinum handa okkur, — ef hann nú kemur, því nú er allt hér í rugli. Það væri líklegt að alþíng hefði nú upp kröfur sínar í sumar til þess menn vissi hvað við vildum ef Danmörk færi bráðum á hausinn, annars verður okkur skipt upp til Frakka eða Belgja, eða einhvers fjandans. Þá megi þið koma til að segja eitthvað.

Þú bölvar kynslóðinni, bróðir, en það er ekki nóg. Þú átt að vera hennar leiðtogi, og láta embættismennina styrkja þig, og venja sig af þessu þuradrambi, að vera að hæða alþýðugarminn, en segja henni ekki til siðanna.

Þið eruð nú líklega að sjá Ólaf Gunnlaugss(on) og Frakka. Djunkowsky fór héðan í dag til Noregs. Segðu mér ef þú getur eða nennir sem nákvæmast frá ferðum þeirra og athöfnum, eða fáðu til þess einhvern réttorðan og kunnugan. Þeim er alvara að prédika páfatrúna, og kannske ýmislegt annað að gera, en hér er undir því komið, að við séum með forsjálni vakandi og kunnugir því er fram fer. Þá getur enginn gert okkur neitt. Annars er eg hræddur um við höfum lítið gagn af þessu fyr en seint og síðarmeir, en við gætum haft það strax.

Forláttu mér bullið og vertu kærlega kvaddur með elskul(egri) konu þinni og dóttur frá okkur.

Þinn einlægur vin og bróðir
Jón Sigurðsson.

120.

Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 24. Mai 1857.

Hæstvirti herra prófessor Maurer.

Nú er eg ferðbúinn til Íslands, og verð eg þó að kveðja yður með mesta þakklæti fyrir yðar ástúðlega

bréf 16. Marts þ. á. — Eg þarf ekki að segja yður með hvílíkri ánægju við kusum yður í félag vort, og munu þér von bráðara fá þær bækur sem félagið hefir nú gefið út. Ritgjörð yðar um Landsréttindi Íslands hefir Guðbr(andur) Vigfússon nú íslenzkað og ritað lítinn formála fyrir, og er hún nú prentuð í tímariti voru Nýjum Félagsritum. Eg vona það verði yður sent.

Það er oss mikil gleði, Íslendíngum, að eiga von á að sjá yður hér í haust, og það eina sem vér getum óttast er það, að vér kunnum í reyndinni ekki að verða samsvarandi þeim hugmyndum, sem þér áður hafið um oss eða um land vort, en það veit eg, að forn tryggð og einlægni muni verða fundin meðal vor, og innileg virðíng fyrir þeim manni, sem oss finnst hafi skilið svo vel í marga staði anda vorrar litlu þjóðar. Eg óska aðeins að eg gæti verið kominn aptur um það leyti þér verðið hér; eg vona að fara frá Íslandi 15. August, og koma híngað í byrjun Septembers. Næsta ár verður eptir líkindum heppilegt til að ferðast út til Íslands, því nú er von á að næsta vor komist á ferð gufuskip þángað. Það er ætlazt á verði uppá 4—500 tons, og er það ekki lítið skip. Heyrt hefi eg þar muni verða teknir 30 rd. (danskir) fyrir ferðina, og væri svo, mundi ferðin alls mega verða héðan og híngað fyrir c. 400r danska.

Enginn efi er á því, að þér með yðar kunnáttu munið geta á 2—2½ mánuði náð góðri þekkíngu á íslenzku og dönsku, og það veit eg, að engin skemmtan væri Guðbrandi Vigfússyni kærari, en að lesa með yður móðurmál vort, eg þarf ekki að segja um mig, hversu kært mér væri að tala við yður, og ef eg hefði þá færi á að æfa mig í þjóðverskri tungu. Það er víst, að hér geti þér fengið að vita allt það, sem nauðsynlegt er til þess að taka ráð yðar eptir.

Eg gleð mig því við það nú þegar, að okkur kunni að auðnast að sjást í haust og tala greinilegar um þetta.

Eg hefi einnig þá von, að alþíng í sumar verði eigi með öllu árángurslaust, en lítil von er að vér fáum enn fram það sem vér viljum, og mun þarum þurfa að verða enn stríð um nokkur ár. Fjárráð þau, sem alþíngi verða veitt munu verða ekki mikil frá stjórnarinnar hendi, en vér höfum þó það, að svona einsog nú er má sýna að vér njótum einkis réttar, og vér munum geta haldið svo í, að vér gaungum ekki að neinu nema því, sem oss finnst vér getum haft not af. Vér látum stjórnina bjóða, en gaungum ekki að neinu, heldur setjum kosti á móti. Þér hafið rétt að mæla í því, að fjárráðin eru minna verð í svo fátæku landi, en bæði er það, að eptir vorri ætlan getur Ísland borið miklu meiri skatta en eru, og þar hjá höfum vér miklar kröfur til Danmerkur, sem vér komum með þegar oss virðist tími til, en ekki fyrri. Nú getum vér um hríð látið stjórnina bjóða boð, því hún verður að halda því við sem er, meðan þannig stendur, en vili hún sjálf hafa breytíngu, sem hún neyðist til, þá verður það vort að gjöra kostina. Vér höfum nú þau hlynnindi, að vér höfum frjálsa verzlan, frjálsa atvinnuvegi, og frjáls umráð að gjöra hvað vér getum til að efla framför vora og landsins. Þá er mest formlegt og pólitiskt það sem oss vantar, og það er áríðanda, en vér megum geta áunnið oss það eptir því sem oss fer fram, ef vér sjálfir förum rétt að, og játum engu á oss sem oss er í skaða. Þetta vona eg oss takist.

Þér verðið að fyrirgefa mér af ljúfmennsku yðvarri þessa mína pólitisku trúarjátníng, sem eg segi yður, af því þér hafið með stakri vinsemd og nærgætni tekið þátt í vorum málum. Eg fel mig nú yðar vinsamlegri endurminníng á hendur og óska yður gleðilegs sumars og allrar ánægju og gleði.

Yðar skuldbundinn heiðrari

Jón Sigurðsson.

## 121.

### Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn d. 26. Septbr. 1857.

Kjære Hr. Pastor Gudmundsen.

. . . . Nu vente vi Dampskibsfart til næste Aar paa Island, hvilken Althinget har stærkt anbefalet. Priserne i Island i Sommer vare meget gunstige: 40 til 48 Sk. for et Pund Uld, 30—36 Rd. for en Tönde Tran, o. s. v. og Cargavarer ikke dyre. Nordmænd og Engelskmænd komme flere og flere. De Franske fik en fin Næse, i det Althinget erklærede, at det ikke kunde gaae ind paa det kejserlige Projekt som det forelaae, men antydede, at hvis Frankrig afskaffede sine Præmielove og Differentialtold paa fremmed Fisk, kunde man tales ved. De gamle Petitioner om Reformer i Bestyrelsen og Islands constitutionelle Stilling gjentoges. Faareskabet er temmelig udbredt paa Sönderlandet og maaskee flere Steder og man strides om Nedslagtning eller Ikke-Nedslagtning. Curen har viist sig mulig, men det gjælder at overvinde Fordomme og Dvaskhed i at passe sin egen Interesse, jeg haaber dog at det vil lykkes at tilvejebringe en Forbedring heri. . . .

Jón Sigurðsson.

## 122.

### Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 30. Septbr. 1857.

Elskulegi minn.

Ekki veit eg hvað mörg bréf eg á að þakka þér, og nú seinast ullarpoka stóran, en skömm er að hvað eg stend illa í skilum við þig. Allt hefir gengið vel með ferðina, en hvað árángurinn verður er ekki gott

að segja. Það lítur svo út sem okkur ætli ekki að vanta tímann til að hugsa okkur um hvernig stjórnarbótin eigi að vera, en okkur vantar liðsmenn góða til þess nokkuð verði ágengt, því þeir sem helzt gæti nokkuð áunnið draga sig undan, þegar að á að herða. Mér líkaði nú allvel alþíng í sumar, nema kláðamálið og jarðamatið. Það var óþarfi fyrir alþíng og handvömm, að láta Trampe vinna sigur í kláðamálinu, einsog nú er orðið, og eg vildi hafa óskað þeir hefði þar betur fylgt mínum ráðum. Það dugir ekki að láta gamalt slendrían vera sér reglu í öllu. Um jarðamatið veit eg nú ekki hvernig fer; eptir minni meiníngu hafa stjórnin og þíngið verið samhent í að gjöra það sem ósamkvæmast almennum reglum, og nú vildu þeir láta demba því á menn óséðu. Eg veit nú ekki hvað Múlaþíngs menn segja, en væri eg í þeirra sporum, mundi eg demonstrera og declamera einsog skrattinn til stjórnarinnar, til að vita hvort ekki hrifi.

Cholera er hér á næstu grösum, og í Svíþjóð er hún slæm sumstaðar, en hér er nú gert mikið til að bæta þrifnað og pössun, og auglýst í blöðum nöfn þeirra, sem óþrifnir eru og ekki vilja hlýðnast skipunum læknanna. Það hrífur trúi eg skratti vel.

Englendíngar eru nú í grófustu vandræðum í Austindíum, svo ekki er að sjá hvar lendir, þó halda menn þeir muni buga Indverja um sinn. . . .

Konan biður ástsamlega að heilsa og eg kveð ykkur öll ástsamlega.

Þinn elskandi vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

123.

Til prófessors K. Maurer's

Khöfn 28. Jan. 1858.

Háttvirti kæri herra prófessor Maurer.

Yðar ágæta bréf og bókasendingar þakka eg yður innilega, eins og alla yðar aðra vinsemd. Mér þykir það einúngis, að yður hefir dottið í hug að fara að afsaka að þér eignuðuð mér ekki Gullþóris sögu, heldur vinum okkar Gísla og Guðbrandi, en eg segi yður satt, að mér hefði aldrei dottið það í hug, hefði þér ekki minnzt á það, ekki einúngis af því, að eg átti einsog þér munið ekkert við hana með yður, heldur einnig af því, að eg er sárlega leiður á opinberu þakklæti og bóka-eignunum og þesskonar. Mér þykir mest varið í vinsemd þeirra manna sem mér þykir nokkuð til koma, og eg hefi mætur á, og það vil eg ekki láta koma publico við. En eg veit þetta er sérvizka, því allir þakka nú fyrir þó ekki sé nema ‚og' eða ‚að', sem þá minnir þeir hafi heyrt af einhverjum kunníngja sínum. Annars hefi eg heldur ekki haft neinn skaða á, þó eg fengi ekki »dedication« hjá yður, því þér hafið margfaldað fyrir það sama það sem þér í yðar vinsemd mér til handa vilduð segja mér til sæmdar. En sleppum þessu. Eg veit þér hafið viljað gjöra allt sem bezt mér til handa, og það er mest vert.

Gullþóris saga held eg sé vel af hendi leyst, þó eg hafi nú ekki borið neitt saman við handritin. Útgáfan lýsir bæði nákvæmni og þekkíngu, og hún er mjög vel og laglega samin, það gengur yfir mig helzt, að þér skiptið ekki samstöfum svo sem vér gjörum, heldur svo sem viðtekið er í latínu og sumum nýju málunum. Þér segið Þóra-rinn, mjögsig-landa, þar sem vér skiptum svo: Þór-ar-inn mjögsigl-anda, og það virðist mér réttara en hitt. Eg veit að Danir skipta svona einsog

þér gjörið hér, en mér finnst það rángt í mörgum greinum. Það slítur í sundur rætur orðanna, og villir mjög fyrir þeim sem hugsar um etymologiam.

Kærar þakkir fyrir yðar »Überschau«. Það er lagleg ritgjörð sem von var af yður, og mér finnst aðalstefnan í henni rétt vera. Ekki hefi eg getað mikið afrekað yður til handa, nema útvegað hefi eg $4^{da}$ ár Félagsritanna.

Þér minnist í yðar fyrra góða bréfi á Bókmentafélagið. Við höfum ekki fengið enn neina skýrslu frá Lorck um að ‚Münch. Staatsbibl(iothek)' vili gánga í félagið, en það er sjálfsagt velkomið þegar það vill. Grimm er *heiðursfélagi* fyrir laungu, og það skal vera mér ánægja að senda honum bækur, þegar eg veit hann óskar þeirra, en það hefir ekki verið venja að senda heiðursfélögum bækur, nema þeim sem hafa óskað þeirra eða sent félaginu eitthvað að gjöf. Af þessu sjáið þér, að ekki verður hann kosinn reglulegur félagi eptir að hann er heiðursfélagi, en *vili* hann senda félaginu eitthvað í stað bókanna, tökum við þakklátir móti. Eg vona þér takið ekki þetta sem ágengni, því ekki vil eg ávinna félaginu neitt nema með þeim hætti sem sómasamlegur er; en eg segi yður, sem eg veit hreinan og beinan vin vorn, allt einsog mér dettur í hug, og vona þér misvirðið það ekki. Eg er, eins og þér vitið, mjög sólginn í félaga og skiptavini á Þýzkalandi, en eg vil ekki leggja neinar vélar fyrir þá, á þann hátt að þeir mætti hugsa að manni væri aðeins um fè þeirra að gjöra. Að vísu ætti hið íslenzka Bókmentafélag að geta framar öllum öðrum verið foríngi að útgáfum íslenzkra bóka, og það því heldur, sem Íslendíngar hafa optast verið með í því sem hin dönsku félög hafa gefið út, en þartil þarf mikinn fjárstyrk, sem ekki er gripinn upp í hasti.

Eg fer nú senn að hlakka til að sjá yður hér aptur hjá oss, og ekki er annað að heyra enn, en að

gufuskip fari út til Íslands í April. Við fengum nú illar fréttir, að póstskip vort hefir ekki komið fram enn til Englands, og eitt skip sem fór frá Íslandi 14. Decbr. segir að það og annað skip hafi lagt út frá R(eykja)-vík 26. Novbr., en þann dag og nóttina eptir kom stormur mikill, og hefir rekið upp af hinu skipinu kista formannsins, svo það mun farizt hafa, en af póstskip-inu var enn ekkert frétt, og mun það einnig vera tapað með öllu. Það er því ekki nóg að skipið *heiti* ‚Sölöven‘ til þess það geti farið allra sinna ferða á sjó. Með skipum þessum voru 4 kaupmenn úr Reykjavík, þar af einn ‚consul‘ Svía og Norðmanna með konu og tveimur börnum.

Með kærri kveðju frá okkur hér til yðar og allra yðar ástkæru, er eg jafnan

yðar einlægur vin og heiðrari

Jón Sigurðsson.

## 124.

### Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 5. Marts 1858.

Háttvirti herra prófessor Maurer.

Yðar ágæta vinsamlega bréf 25. f. m. fékk eg í gær, og það stóðst vel á, því eg ætlaði að fara að skrifa yður línu og segja yður um Íslandsferðina. Eg legg hér í tilboðið um það, svo þér sjáið það eins og það er. Það er gaman að fá að sjá yður nú um páskana, við Guðbrandur vorum nýlega saman á okkar gamla stað á konúngs nýja torgi, og minntumst yðar þar, eins og vant er. Við sáum í ‚Illustr(ierte) Zeit(ung) að þér og Winckler hefðuð fengið styrk af stjórninni að ferðast til Íslands, en nú sé eg það hefir verið W(inckler) einn, sem hefir fengið styrkinn. Ef það

yrði ekki til að dvelja ferð yðar híngað, þá vilda eg nú fyrir mitt leyti ráða yður til að fara *ekki* með fyrstu ferð, heldur vera hér þann tíma sem yður litist og tækifæri yðar leyfði, þángaðtil gufuskipið færi í næsta sinn (í Mai). Þér fáið þar með tækifæri til að sjá föður yðar áður þér farið, þér hafið von um þægilegri ferð, og þér komið mátulega snemma heim til Íslands, því þér getið þó ekki ferðast þar til neins gagns eða ánægju fyr en í miðjum Juni. Eg skil það mjög vel, að ymsar hugsanir koma fram hjá yður því heldur sem nær ferðinni líður, en ekki er samt, með guðs hjálp, neitt að óttast, þegar maður fer svo gætilega, sem eg vel treysti yður til. Skip þau sem týndust nú í Novembr. fóru framar af því að slysalega tókst til, heldur en af hvað hættan sé mjög mikil, — og slys geta allstaðar til viljað — skipin fóru út frá Reykjavík undir illt veður, lágu heilan dag í logni og komust ekki, fengu síðan rokstorm og gátu þá án efa ekki siglt sig frí frá landi. Gufuskip hefði líklega sloppið betur, því það hefði komizt í rúmsjó undan storminum. Verið þér þá, ef þér vilið mínum ráðum fylgja, rétt rólegur og farið eptir yðar högum og munum, *þó* þér kynnið ekki ná í fyrstu ferð skipsins, því í Maíferðina nái þér, og hún er að minni hyggju fulltímanleg. Feginn verð eg því að þér hugsið til Bókmentafélagsins að svo miklu leyti sem verða má án þess að félagið fái á sig síkju-orð, eða yfirhöfuð orð fyrir þesskonar aðferð, sem eg, og eg veit þér líka, álítið miður sæmandi. Það er víst, að fé getum við brúkað, en ekki vil eg samt safna fé með *öllu* móti handa félaginu, og hvað Grimm einkum viðvíkur, þá geti þér nærri að við sendum honum bækurnar með ánægju, ef hann aðeins vill þær, en það er stundum, að menn láta sem ekki sè neitt í *nýjar* íslenzkar bækur varið, og þá vill félagið ekki heldur auka mönnum byrðar með að slengja uppá þá bókum sem það veit ekki hvort þeir hafa nokkrar mætur á

eða ekki. Þegar þér talið við Grimm treysti eg því, að þér látið ekki hjá líða að fá að vita, hverjar félagsbækur hann hafi og hverra hann muni helzt óska, og er þar um enga peninga að tala sem Grimm er, svo sem þér vitið.

Eg hefi nú lesið Gullþórissögu greinilega, og sé eg ekkert nema allt gott. Skipting samstafanna væri að vísu viðkunnanlegri Íslendingum hinsegin, en þér hafið nóg yður til forsvars, því ekki er heldur í fornum íslenzkum handritum skipt samstöfum eptir neinni reglu, svo ekki höfum við þau fyrir að bera. Svo eg tíni allt til sem eg finn, þá skal eg þó segja yður, að i registrinu hefi eg fundið tvennt sem ekki er rétt, þ. e. *Hjallir* (Steinólfshjall*ir*, Stokkshjall*ir*), sem á að vera Hjall*ar*, og *Völl*, sem á að vera *Vellir* (plur. af völlr: vellir, valla, völlum etc.). Nesgranatré er málleysa, sem ekki er yður að kenna, heldur Konráði Gíslasyni, og gengur yfir mig að hann skyldi ekki hafa þorað að breyta svo þreifanlegri villu. Eg verð þar með að segja yður sögu, fyrst eg tala um Gullþórissögu, og það var, að eg kom upp á Turn nokkru eptir að sagan var komin og hitti okkar góða vin Thorsen, spurði hann mig hvort saga þessi væri út komin, og kvað eg já við. Hann segir sér þyki það undarlegt, að þér hefðið ekki getið þess við sig að þér munduð ætla að láta prenta sögu þessa. Eg svaraði, að ekki gæti eg öðru trúað en þér hefðið talað um það á þá leið, að honum hefði mátt vera það augljóst, að það væri ætlan yðar. Nei, hann hafði þó ekki heyrt það beinlega sagt, og hélt að í München mundi það ekki vel tekið upp, að útlendur maður (danskur) skrifaði upp fornþýzkt handrit og gæfi út síðan. Eg svaraði þar til, að mér væri reyndar ekki slíkt mjög kunnugt, en eg héldi þar mundi ekkert standa í vegi, og yfir höfuð virtist mér, að um slík efni væri hverjum heimilt að gjöra hvað hann gæti, og mætti menn þakka fyrir hvað vel væri gjört. Féll

svo það mál niður, en eg segi yður þetta inter nos, svo þér sjáið hvað smásmuglegir vísindamenn vorir hér geta verið, stundum.

Eg geymi pólitíkina þar til við finnumst, ef guð lofar, en óska yður allra heilla, jafnframt og eg ber yður kveðju og heillaóskir frá kvennfólkinu.

Yðar einlægur vin

Jón Sigurðsson.

## 125.

### Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 7. April 1858.

Elskulegi vin.

. . . Þú talar um að lögin, sem ykkur varðar mest, pensionslög og ekknalög, sé ekki birt, en það eru þau víst, þó þú hafir án efa rétt í því, að þið læknar ættið að fá beinlínis ex(em)pl(ör) af þeim. Það er nú svona þetta gamla hugsunarleysi, og svo heimti þið ekkert, heldur eptir gömlum vana bölvið í hljóði eða heima á palli. Lög þessi eru annars prentuð aptanvið alþingistíðindin 1855, og í »Tíðindum um stjórnarmálefni« 2. hepti, en samt sendi eg þér original-exemplar af þeim og af Livsforsikkr(ings)-planinu frá 1842, þó eg sé ekki viss um það, hvort eg get sent það fyr en síðar . . .

Skelfing er bágt með augun þín, en þú mátt til að hlífa þeim, getur ekki neitt stoðað þunn gríma, sem tekur fyrir augun, annaðhvort með gleri í eða án glers? Þú sem mechanikus mátt geta búið þetta til, og þú mátt ekki forsóma sjálfan þig svo ófyrirgefanlega. Þeim ertu ekki betri, sem þú vilt gagna, dauðdrepinn, heldur en svona mátulega þreyttur af gargi og armæðu. En það er hægra um að tala en í raun að komast, því þó eg sé í fjarlægð, þá hefi eg nóg að heyra þruskið

í Havstein, þegar hann er að skera Norðlendíngana á háls og láta Svein halda fótunum. Svona eru okkar höfðingjar optast þegar á reynir, þá gánga þeir á undan ónytjúngunum til að spilla öllu, og hafa svo slóðaskap sinn og annara fyrir ástæðu. Þeir gefa 6000 dali fyrir verði á reginfjöllum, en til að fá lækna og meðöl er enginn skildíngur. Þeir þykjast trúa dónsum fyrir að skera, en að hvetja þá til að bjarga sér og sínu það bragðar enginn . . . Stjórnin má standa og horfa á, því volenti non fit injuria. Svo á það að vera landinu að kenna á eptir, ef harðindi koma og þeir eru sjálfir búnir að gjöra sig bjargarlausa. Mér þykir ekkert verra í seinni tíð, en að heyra og sjá það sem eg hefi heyrt og séð í kláðamálinu, af lýgi, hégiljum, slóðaskap, vitleysum og drambi. Ekki er það samt þarfyrir, að líklegt er að mart hafi komið verra fyrir, og hefir verið klofið fram úr, en eg hefði viljað að það hefði strax verið sýnilegt, að menn vildi hafa þetta sér til framfara, en ekki vera einsog blindar skepnur, sem ana útí ófæruna, en fara ekki neina mannavegu. — En það er nú líklega ekki til neins að prédika þér þetta, því þú hlýtur að hafa heyrt svo mikið af hinu öðru, að þér dettur ekki annað í hug en að þetta sé Utopie úr mér.

Héðan er lítið að frétta, nema kreppu þá sem Danir eru í, og er fremur að herðast að þeim. Eiríkur Jónsson fótbrotnaði í vetur og er búinn að liggja á þriðja mánuð, og er tvísýnt hver endir verður. Þú fær nú Theodor Thorstensen heim, líklega að Hofteigi, og sagt er Stephán bróðir hans fari líka, norður til Kristjáns? — Frater Magnús Eiríksson lifir svona þetta, hann vill ekki sverja prestaeiðinn, til þess að skuldbinda sig ekki til að lesa biblíuna á hverjum degi. Hver skyldi hugsa að það þyrfti að drepa einn guðfræðing? — Annars er hann einsog vant er spakur sem ljós, en fátækur einsog rotta, og alltaf finnst honum samt sem hann sé að verða ýngri, hvað sem við hinir ertum hann með því,

að hann sé kallalegur. Oddgeir er nú aptur viss í búskapnum, einsog þú þekkir, en heilsa hans er ekki sem bezt, þó er það víst ekki annað en Hæmorr(hoider) og Nervösitet sem að honum gengur, og hann er líklega, einsog við fleiri, tilfinníngarsamari um lífsins armæðu en vera skyldi, þ. e. með öðrum orðum ónýtur til að lifa í veröldinni, einsog við hinir Íslendíngarnir. Við höfum gott þrek til að baða í rósum og vera miklir menn án fyrirhafnar, en við höfum ekki rétt vel hug eða þrek til að virða sjálfa okkur sem fátæka menn og þó duglega, sem geta orðið efnaðir og erum fullríkir í þeim skilníngi, að sá hefir nóg sér nægja lætur.

Nei heyrðu, hvaða bölvað slúður ætlar þetta að verða. — Nú sérðu jarðamatið nýja, hvernig það mundi taka sig út, í Landshagsskýrslum Bókmentafélagsins, en nú kemur uppá hvort þeir sem hlut eiga að gera sig ánægða eða hafa þrek til að mótmæla meðan tíð er til, sem er í sumar. Þegi allir mun það líklega verða samþykkt.

Með ástarkveðju til ykkar allra frá okkur.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

126.

Til Sigurðar Gunnarssonar, síðar próf. á Hallormsstað.

Khöfn 31. August 1858.

Elskulegi vin.

Hafðu kærar þakkir fyrir seðilinn þinn þann í haust og allt annað gott. Héðan er ekkert sérlegt að frétta, nema að Danir eru svona fremur í beyglum, en halda þó að úr öllu muni ráðast. Eg er að lesa kláðalögin ykkar frá Akureyri. Hvernig getur þú nú, elskan mín góð, svo skynsamur maður, fallizt á annað eins, eða hvernig getur þú ímyndað þér, að stjórnin, sem neitaði

frumvarpi alþíngis í fyrra, sem með öllum sínum mörgu og miklu vitleysum var þó nær lagi en þessi ósköp, muni samþykkja þetta? Heldur þú, að nokkur stjórn muni banna manni að lækna læknanlegan sjúkdóm? eða heldur þú að nokkur stjórn seti á mann þrenn 27 vandarhögg, þó hann verji eign sína? eða heldur þú að nokkur stjórn samþykki að gefa öðrum eins heimskíngja, einsog amtmanni Havstein, eignarráð yfir öllu fé í Norðurlandi og í Austurlandi? Þið eruð enn einfaldari en forfeður vorir í Kópavogi 1662, en stjórnin verður nú að hafa vit fyrir ykkur, og eg er blóðrauður út undir eyru af að sjá til ykkar, og hugsa um, að maður geti varla fyrir guði og samvizku sinni beðið um löggjafarvald handa slíkum mönnum. Hefði þið gefið despotiskt vald til að lækna, það hefði eg skilið, en að gefa slíkt vald til að eyða eignum manna, það er mér óskiljanlegt. Eg veit reyndar, að ykkur er vorkunn, ef þið hafið ekki séð annað en Norðra; en eg veit ekki hvað slíkir menn eiga skilið, sem þykjast ætla að fræða publicum og eru þá bæði fullir af heimsku og hleypidómum.

En eg gizka á það veitti ekki af hálfu ári til að rífast við þig um þetta, og því enda eg, og fel þig forsjóninni og bið hana upplýsa þig betur, samt með sem minnstu tjóni.

Þinn elskandi vin
Jón Sigurðsson.

127.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Khöfn 11. Novbr. 1858.

Elskulegi bróðir minn.

Þú hefir rétt til að halda að eg sé búinn að gleyma þér, elskulegi bróðir, og allri þinni tryggð við mig, en

það er þó ekki. Eg var að hugsa að skrifa þér með fyrri ferðinni, þó ekki gæti eg sagt þér neitt til hugfróa, en það fórst fyrir. Nokkrum dögum síðar fékk eg bréf þitt elskulegt, því Hanstein var veikur, og þá sá eg að eg hafði gjört rángt að ávarpa þig ekki, því eg veit það vel, að vinsamlegt orð í tíma talað á sér góðan stað. Eg minnist ætíð með gleði þeirra ánægjustunda margra, sem við vorum saman, bæði fyr og síðar, og hvað þitt ástríka hjarta hefir liðið nú, við missi þeirrar elskulegu konu sem þú áttir, það get eg fundið, þó eg geti ekki metið það einsog þú veslíngur. En svona gengur það, þetta sem þýngir mann niður til jarðarinnar losnar smásaman, og þá er góð heimvonin, að finnast hreinn með hreinum og sæll með sælum. Eg vona, góði bróðir, að þú fyrirgefir mér tómlæti mitt um daginn, og lofir mér samt sem áður að njóta sömu tryggðar af þinni hendi og áður, eg skal aldrei gleyma þinni elskusemi mér til handa, þó eg geti í litlu sýnt tilfinníngar mínar.

Maurer karl er nú farinn heim, og eg held með góðu þeli til okkar, en um Dani er honum ekki, því hann er svo rótgróinn Þjóðveri. Winckler hélt allt minna uppá okkur. Danir eru nú búnir að taka úr lögum alríkisskrána fyrir Holstein og Lauenborg, og á nú að fara að taka upp allt aptur. Það var nokkuð lint prjónað, bróðir!

Forláttu mér þenna ónýta miða, við kveðjum þig og þína ástar kveðju.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

Konan mín biður mig að segja þér, að hún geti ómögulega með hríngina hennar tengdamóður þinnar núna.

Þinn ætíð

J. S.

128.

Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 22. Novbr. 1858.

Háttvirti góði herra prófessor Maurer.

Með mestu gleði fékk eg að sjá á yðar vinsamlega bréfi 16. þ. m. að þér voruð farsællega kominn heim og höfðuð séð alla yðar ástkæru heila á hófi, en einkum gleður það mig og okkur hér, að geta af hjarta óskað yður og yðar elskulegu brúði til allrar beztu farsældar og blessunar. Verið sannfærðir um, að við gleðjumst yfir yðar gleði, og með yður æfinlega, og svo gjöra margir með okkur, því margir Íslendíngar unna yður fölskvalaust. Þér megið vera viss um, að eg gjöri hvað í mínu valdi stendur til að geta heimsótt yður og gleðja mig hjá ykkur um tíma, en hamíngjan má vita hvenær það verður. Annars man eg vel til þess eyrindis þar að auki, að fá yður með mér uppí dali og sjá kembdar kýr og fágað fé. Nú er annars að vandast málið, því nú er í ráði að senda í vor til Íslands lækna og meðöl, og taka ráðin af amtmönnunum í kláðamálinu, en setja annan mann yfir það, og viti þér hver sá er, sem uppá er stúngið? Það er nú því miður, að það er eg, og málsins vegna þykir mér illt að neita, en eg sé vel að það er forsendíng. Nú er undir því komið, hvort maður getur búið svo um hnútana, að þeir geti ekki gjört manni sérlegt mein, því þá gæti ýmislegt verið í aðra hönd að vinna í Íslands þarfir í þessu máli og útúr því, ef vel gengi. En ekki yrði það ferðalegt til Bæjaralands framan af sumrinu, ef þetta gengi fram. Þér sjáið annars, hverjar beyglur nú er komið í, þegar farið er að stínga uppá þesskonar körlum, sem eg er; því vissulega getur það verið klókindalegt, til að hleypa þeim á foræðið, en sé þeir líka nokkuð séðir, þá geta þeir kannske fundið vaðið.

Nú, eg get sagt yður það í fréttum, að Gísli okkar Brynjólfsson er kosinn alþingismaður Skagfirðinga, þeir segja samt það sé í þeirri von, að hann sé niðurskurðarmaður, því ella mundi hann ekkert atkvæði hafa fengið. Nú verður reyndin ólýgnust um það, hverja játning Gísli gjörir á þingi um það mál.

Með kærri kveðju frá konunni minni og frú Thorgr(imsen) bið eg yður og yðar elskuðu ætíð að lifa svo farsæl sem bezt má verða.

Yðar einlægur vin og heiðrari

Jón Sigurðsson.

NB. Eg hefi Ármann 4. árg. handa yður, sem eg skal fara með til Lind, um leið og eg sendi nokkur af handritum þeim er þér léðuð mér.

## 129.

### Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn d. 22. Novbr. 1858.

Kjære Hr. Pastor Gudmundsen.

. . . Efterretningerne fra Island ere iövrigt ikke gode. En frygtelig Sneestorm har raset der paa Nord- og Österlandet i Begyndelsen af Oktober, saa heftig, at endog Heste have været tilsneede i Vopnafjorden. Nu har Regjeringen da endelig desavoueret Havsteins Nedslagtning, og givet ham alvorlig paa Hovedet. Man siger dog, at han heller vil lade sig afsætte end at fravige sin Slagterfærd. Nu faae vi at see. Vist er det, at Regjeringen ved sin Slövhed har som sædvanlig ladet Folk fanatisere hverandre nu i 2 Aar, saaledes at det er en meget vanskelig Sag at gribe ind i. Men bedre seent end aldrig. Saavidt jeg kan skjönne vil det eensidige Nedslagtningsprincip kunne anrette ubodelig

Skade, hvis Lykken ikke bliver bedre end Forstanden. Det værste er, at Trampe, som först vilde slagte, men siden curere, har ikke haft Kraft til at gjennemföre dette Princip uden at compromittere det, saa at den hele Foranstaltning har givet Modstanderne nogle Vaaben ihænde. . . .

Jón Sigurðsson.

130.

Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 8. Jan. 1859.

Hæstvirti elskulegi herra prófessor Maurer.

Yðar ástríka bréf nýlega meðtekið þakka eg yður innilega, og ekki minna allt undanfarið. Nú get eg þá loksins sent yður bréf yðar frá gufuskipinu, sem kom eptir lánga mæðu núna í gær. Fréttir með því eru í sumu betri en eg vænti, í sumu slæmar.

Fyrir sunnan hefir verið gott veður og fiskafli góður, en fyrir norðan og austan hefir hretið í Septbr. eyðilagt mjög fé manna og hross og jarðargróða. Í Húnavatnssýslu er kláðinn ekki góður, og nú átti að skera á 14 bæjum í Miðfirði, og á Vatnsnesi öllu, en þó eru þeir amtmaður Havstein og Sveinn Skúlason öruggir, og eru að telja í þúsundum skaðabæturnar — á pappírnum. Fé það sem Árnesíngar keyptu er farið að drepast í bráðasótt, kláða (þó ekki mart) og »ríf«, einskonar munnsýki. Í þeim sveitum sem læknazt hefir nokkuð, og menn hafa alúð við, er féð ágætlega gott og heilbrigt. Það játar nú Jón Guðmundsson. Rángvellíngar gjördrepa nú hjá sér. Stjórnin er nú að búa sig undir að taka til óspilltra málanna, hvað sem úr því verður. Hún hefir beðið um 30,000 dala, og það er veitt. Nú er að finna manninn til að ráða yfir þessu veitta fé, en

það er nú ekki enn fastráðið. Eg heyri sagt, að ekki sé enn um annan talað en mig, en eg hefi ekki hreift á mér og bíð átekta. Oddgeir hefir nefnt það við mig, og eg hefi svarað, að væri þeim það alvara, þá vildi eg gjöra það að umtalsmáli, en ekki lofa neinu fyr en eg sæi, að þeir vildi gánga að því sem eg héldi eg gæti gengið að til þess að framkvæma nokkuð með. Eg fagnaði því mjög, að yðar hugsun um þetta mál er mjög lík minni, því eg álít að vísu málið hið versta mál við að fást, en þó ekki ókljúfanda, ef rétt er að farið. Nú er það að vísu allt annað, að hugsa slíkt, en annað að framkvæma, en þar er þó nokkur bót í máli, að allir eru í klípu, bæði stjórnin og Íslendíngar mínir. Eg hefi því hugsað mér að mála sem menn kalla djöfulinn á vegginn fyrir stjórninni, og það er ekki alls vonlaust um að hún taki því. Þar að auki er hún komin nú svo lángt í málið, að hún getur illa hopað á hæli. Nú var skrifað amtmönnum í Novbr., að stjórnin vili *ekki þola*, að embættismenn gjörist oddvitar að niðurskurði, heldur *skuli þeir, hversu sem þeirra álit sé sjálfra*, fylgja lækníngum. Þar að auki neitar stjórnin að samþykkja allar skaðabætur, og eins að samþykkja uppástúngur fundarins á Akureyri. Þegar nú svo stendur, þá er fyrir mig tvennt að gjöra, fyrst að fá leyfi og fullt vald til að brúka öll þau meðöl sem þarf til að sannfæra og ef nauðsyn gjörist að þvínga embættismenn og alþýðu til að hafa *eina og sömu* meðferð allstaðar; þagga embættismenn, sannfæra og laða og ef þarf að kúga alþýðumenn, annaðhvort að lækna eða *skera þegar* (eins og þér segið, og mig minnir eg stíngi uppá í samræðu okkar hér). Til þessa þarf nú líka að ná í blöðin og blaðamennina, og umfram allt að koma á fastri og reglulegri *organisation*. En af því, að nú er gjört ráð fyrir að senda 6 dýralækna, sem mundu kosta 12000 dali um árið, og þetta mundi fljótt gleypa mikið af peníngunum, en þaraf leiddi, að ef mistækist eða

tíminn yrði tæpur, þá þryti fé: þá vil eg einnig mega ráða fjárráðum og fyrirkomulagi, og er það þá mitt ráð, að hafa ekki svo marga lækna héðan, en reyna að koma upp kláðalæknum úti á Íslandi, sem eg ætla muni verða ódýrara, notabetra og þokkasælla. Þar að auki vil eg þó vera viss um, að ef þetta stæði í fleiri ár, og meira fé þyrfti, að eg yrði ekki á hjarni með allt hálfgjört, og vil því fá skýlaust loforð um meira fé, ef þarf, svo ekki lenti öll skömmin á mér. Enn fremur vil eg álíta mér nauðsyn, að taka fram yms þau mál sem við Íslendíngar viljum hafa fram, og fá þeim áheyrn, til þess að geta þar með sýnt, að eg sé ekki keyptur til þessa, heldur að það sé landsnauðsyn ein sem mér gengur til, og til þess að geta sannfært heldur mína pólitisku vini og kannske lokkað þá til að slást í hópinn. Fyrir sjálfan mig og mína verð eg líka að gæta þess, að eg sleppi ekki því sem eg hefi til atvinnu fyrir þetta, án þess að hafa neina vissu í aðra hönd, og hefi eg því í hyggju að slá uppá, að þeir verði að láta mig hafa eitthvert embætti fast, og gefa mér síðan permission. Þar með yrði eg léttari á kláðafénu, en vissari ef illa gengi. En umfram allt verð eg að vera ótakmarkaður kláðakóngur (því það yrði eg líklega kallaður) og geta skipað og skikkað býsna frjálslega. Gaman þætti mér að heyra hvað þér segið um þetta. Eg þykist viss um þér segið: Þetta er allt gott, *ef það gengur fram*, en það er hnúturinn. — Eg er nú orðinn riddari af Dannebroge samt, til að byrja með.

Af íslenzku málunum er það helzt fjárhagsmálið, og um undirskript konúngs undir lögin, sem eg vil ota fram; svo um læknamál, póstgaungur og vegabætur. Þar að auki vil eg gjöra hvað eg get um atvinnuvegina til lands og sjávar, því að kenna þesskonar er mest nauðsyn. Pecunia est nervus rerum gerendarum. Dettur yður fleira í hug? Væri ekki gott að senda únga menn til Alpafjalla að sjá fjárrækt og kúa-

rækt, sem við töluðum um? og er þar við nokkuð aðgætanda?

Geti þér ekki útvegað mér *bæklinga um fjárrækt* og kúarækt þar, sem oss gæti verið hentugir og *íslenzka mætti?*

Þyrfti nokkurn undirbúníng t. d. að biðja yðar stjórn um leyfi eða því um líkt?

Á hverjum tíma væri hentugast að koma, að hausti, vori eða sumri, eða þyrfti að vera þar heilt ár? . . .

Voruð þér á móti stjórninni í kosníngunum, eða eru þér orðinn þíngmaður?

Berið kæra kveðju yðar elskulegu frú, föður yðar og systur og öllum ástkærum.

Við kveðjum yður og ykkur öll ástkærum heillaóskum.

Yðar hreinskilinn vin og heiðrari

Jón Sigurðsson.

## 131.

### Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 2. Marts 1859.

Háttvirti kæri herra prófessor Maurer.

Yðar ástúðlega bréf 20. f. m. þakka eg yður kærlega. Eg er búinn að skrifa Ásgeiri í Kollafjarðarnesi um að láta son sinn fara að læra búskap í Svavafjöllum, og mér sýnist þaraf mætti geta komið stórlegt gagn. Eg hlakka mikið til að fá frá yður fjárbækur og kýreldisbækur. Nýlega hefi eg fengið fjandans mikið af kláðatilskipunum frá Noregi. Þar hefir hann verið síðan 1851, og eru þeir ekki betri en við, — sýnist mér á öllum lotum — nema þeir eru ekki eins hræddir. Eg tek eptir því að þar er skipað *annaðhvort* að lækna *eða* drepa. Á Jótlandi er nú kláði í vetur, og hann er

með þumlúngsþykkum hrúðrum. Víða er nú pottur brotinn. Þið megið líklega til að hafa kláða líka og kláðalög. Ekkert er hreift við mig síðan um nýár, og geri eg heldur ekkert til að trana mér fram. Eg geng með minn kláðakóng í maganum og er að útgrunda svona smátt og smátt hvað eg sé og heyri. . . .

Nú er gufuskipið að fara í dag héðan til Íslands. Fyrst átti það að fara frá Liverpool 1. Marts, þarnæst átti það að fara frá Liv(erpool) *einhverntíma* í Marts. Nú fer annað skip *héðan*. Svona er Koch's áreiðanlegleiki, og varð þó þetta fyrst eptir að gengið var að honum, svo hann þorði ekki annað en senda nú strax, annars hefði verið klórað í hann í blöðunum. Héðan af sé eg að eg muni ekki fara til Íslands í vor fyr en í Mai, líklega svosem í Mai miðjum. Það skal vera mér ánægja að koma til skila því sem þér vilið, bréfum eða bókum eða hverju sem er. Þér getið, sem þeir segja, »riðið mér með skrápskóm« hvert sem þér vilið. Eg hefi nú tilbúið Ríkisþíngstíðindin frá 1848 og bækling Baldvins o. s. frv. sem eg sendi í dag til Linds, og kveðst hann munu nú senda. Handrit yðar sendi eg um leið. Eg hefi notað sum af þeim, en eg vil ekki halda þeim lengur fyrir yður, og kýs þá heldur að fá aptur eitt eða annað af þeim þegar færi gefst. Mig lángaði til að senda yður Víborgartíðindi frá 1848, því þar er nokkuð um kosníngar fyrir Íslands hönd, sem Jón Finsen kærði á þínginu. Það er í sjálfu sér ekki mikils vert, en það sýnir þó hversu lengi þessi íslenzki neisti felst í öskunni. — Um hin síðari viðskipti í Íslandsmálum hér á þíngum finni þér flest í Nýjum Félagsritum, svo eg skil ekki þér fáið beinlínis annað merkilegt þar útaf þó þér fengið Tíðindin sjálf. Víst má annars fá þau fyrir gott verð, en þau eru svo umfangsmikil að þeim er varla ljáanda húsrúm, nema þeir sem verða að hafa þau fyrir sinna synda sakir. Eg er viss um, að

ferðarverk yðar verður ágætt, því hræsnislaust að segja held eg fáir útlendir, eða varla neinn, hafi verið eins kunnugur i raun og veru. Þér vitið, að eg hefi ætíð sagt það væri í yður svo íslenzkt eðli, eptir mínum skilníngi, að þér skildið okkur betur en flestir aðrir. Rask jafnvel, sem að málsþekkíngu til var kannske betri en við, hann hafði ekki, og gat ekki haft á sinni tíð, neitt pólitiskt vit. Einsog líka satt að segja forfeður vorir á Íslandi hafa lengi gengið einsog pólitiskar ráfur. Eg tala nú ekki um hvað mér þætti vænt um að geta talað við yður, og væri einhver hlutur sem þér vildið virða mig þess að spyrja mig um, væri mér ánægja.

Kvennfólkið og eg biðja ástsamlega að heilsa. Berið kæra kveðju frú yðar elskulegri, föður yðar og systur.

Yðar trúfastur vin og heiðrari

Jón Sigurðsson.

Eg held Guðbrandur ætli að reyna að manna upp þá Skarðs-úngana, ef hann getur, til að fara til ykkar að læra.

## 132.

### Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 13. Apr. 1859.

Hæstvirti elskulegi dr. Maurer.

Einmitt þegar eg ætlaði að fara að setjast við að skrifa yður línu og þakka yður fyrir sendínguna og bréfin og allt, þá fæ eg yðar kærkomna bréf frá 10. þ. m. Eg þakka yður því allt í einu sem bezt eg get. Bækurnar eru víst ágætlega vel valdar til þess sem mér helzt datt í hug, en ekki geti þér að því gert, þó

mart af því sem þar er kennt, geti ekki beint heimfærzt hjá oss. Fyrirskipanir dr. Hofers þyki mér ágætar og greinilegar, og eg vil feginn biðja yður færa þeim vinum yðar mínar beztu þakkir. Frá Möbius hefi eg fengið brot úr saxnesku lögbókinni, fyrir yðar tilstilli, svo ekki verður það yður að kenna, þó kláðaríkið falli um koll, enda hafa og fallið stærri einvaldsdæmi í fornöld. Menn eru nú annars að bíða póstskips og frétta frá Íslandi, því aldrei má gera neitt fyr en ný og ný frétt kemur. Ekkert er nefnt við mig enn, og eg þegi eins og fiskur, þykir mér þó illt, ef eg hefði nokkuð við málið að sýsla, að vorið fer til ónýtis, en eg ímynda mér eg geti verið harðari í horn að taka, ef nú þyrfti á mér að halda, og í öllu falli fæ eg hendur í bagga með á ymsan hátt, ef eg færi heim og gæti ferðazt þar um að nokkru leyti ex officio, en ekki læt eg samt þetta aptra mér frá að krefjast þess sem þarf, ef nokkuð á að verða ágengt.

Mig hefir lengi órað fyrir því sem þér segið mér um ritgjörð yðar. Eg þykist vita að þér hlynnið að okkar máli, og eg held þér getið gjört það ekki aðeins sem okkar tryggðavin, heldur og sem réttvís maður og sanngjarn. Það er ætíð eitthvað ónotalegt fyrir tilfinning manns, að sjá dæmi til að réttindi sé einkis metin, þegar þau eru ekki í sverðseggjum eða spjótaoddum, og eg sé ekki ljótara en að sjá hvern troða þann undir sem hann finnur minni sér. Þó er verst þegar hann þykist þá á eptir vera lífsbjargarmaður þess sem hann hefir sogið úr blóð og merg. Mig lángaði nú til að vita, hvort þér værið því mótfallinn, að rit yðar yrði íslenzkað, því ef þér væruð ekki móti því, þá mundum við án efa taka það í Félagsritin núna, og væri þá bezt þér sendið mér það sem búið er svo fljótt sem verður, og svo smásaman framhaldið, og skyldum við Guðbrandur hjálpast að að snúa því. Ef þér værið ekki móti því, þá kæmi það sér nú allra bezt, og þá kæmi það út á

þýzku og íslenzku jafnframt, og færi ekkert í bága. En kannske þér séuð hræddur það yrði þá tekið svo sem það væri undirtalað bragð okkar á milli? — Eg fyrir mitt leyti set það nú ekkert fyrir mig, því hjá slíkum dómum kemst maður aldrei, en eg virði yðar álit í því efni, ef það skyldi vera hinsegin, af því eg veit líka að þér eruð varkár maður.

Eg vildi óska, þegar þér ritið um Ísland, og líklega takið fjárhag vorn fyrir, að eg væri kominn til yðar. Einkanlega liggur mér ríkt í geði að hrinda því sem oss er ávallt núið um nasir, að vér liggjum uppá Danmörku. Eg sé ekki betur en eg hafi sannað, að með réttum reikníngi ættum vér miklar kröfur. Stjórnin hefir tekið klaustrajarðir á Íslandi og rænt og ruplað landsins og kirknanna eignum. Stjórnin hefir tekið skólanna góz (eða biskupsstólanna) sem gaf í núverandi peníngum 20,000 rd. í leigur árlega þegar það var selt. Stjórnin hefir samt nú ekki einn skildíng tekjumegin, en öll útgjöld til skólans gjaldamegin. Þá er collectan gamla, sem er reyndar frá þeim, en og til þeirra aptur runnin.

Þér hafið rétt að mæla, að eg er viss um það er vandi, og ekki sízt fyrir yður, að skrifa um Ísland, skrifa hreinskilið og satt, og þó svo, að okkur Íslendíngum finnist okkur ekki nærri höggvið, því við erum vissulega irritabile genus þegar komið er við kaunin á okkur, og þó við segjum eitthvað misjafnt um okkur sjálfir, þá er okkur ekki um, að aðrir kannske segi það sama. En eg vona þér farið öllu sem næst. Þér vitið að þegar landinu í sjálfu sér er hælt, forfeðrunum hælt og nokkur von gefin um framfarir nú og síðan, þá er nú mesta reglan haldin. Eg er viss um það, að góður vitnisburður frá yðar hendi mun gleðja margan meðal okkar, og álas frá yður eða mótbárur móti því sem (þeim eða) oss er kært einnig hryggja margan. Til dæmis skal eg segja yður, að þeir sem hafa helzt verið með lagaskólann á samvizkunni hafa verið að inna mig

eptir, hvað þér hafið sagt um hann, og kváðust hafa tekið svo eptir sem þér værið honum mótfallinn nú síðan þér komuð aptur. Eg svaraði eins og satt var, að við hefðum ekki neitt farið út í það mál, en þér sjáið á þessu, að þeir leggja hlustirnar við hvert orð frá yður, og sé það meðmælt, þá verða þeir hróðugir. Þetta gæti eg nú helzt unnt okkur hér, sem heyrum til ecclesia militans, en ekki er það samt nein mín ósk, að beygja sannleikann, og veit einnig að þér eruð ekki slíkur sem það vill gjöra. Fari þér því að svo sem drottinn kennir yður, eg vona hann kenni yður allt það sem er gott og gagnlegt.

Áttunda bindi af lagasafninu kom út í vetur fyrir laungu síðan. Níunda er þegar hálfnað, en kemst þó varla út í vor. Það fer frá 1826—31. —

Berið kæra kveðju frá okkur yðar elskulegu frú, föður, systur og öllum ástkærum.

Yðar trúfastur vin
Jón Sigurðsson.

P. S.

Þá man eg það, að Richthofen skrifaði okkur í fyrra, en við höfum aldrei svarað. Hann fékk bækur félagsins, og síðan veit eg ekki neitt um hann meir. Nú þykir mér hálfleitt að fara að skrifa honum og mánga á honum um tillag, veit ekki heldur með vissu hvort hann sé sá sem kominn er til Hamborgar, sem sendiboði Prússa. Þessvegna lángar mig að nauða á yður, *ef* þér skrifið honum, annars ekki, að benda honum til hvort ekki væri réttast að vísa okkur á bóksala, sem tæki við bókum hans vegna og greiddi tillag. Væri það einhver sem stæði í sambandi við Gyldendals verzlun, væri það hagkvæmt.

Þá var eitt enn. Muni þér eptir steinunum frá Vestmannaeyjum, sem við héldum vera handsteina til að mala með korn? Nú hefir mér dottið annað í hug. Á myndum Ólafs helga frá 16. öld eru einsog þrír hleif-

ar, hver ofan á öðrum, sem hann heldur í hendinni. Menn segja það sé þrír steinar, sem falla hver í annan, og sé til minníngar um jartein þá sem varð í Danmörk, að Ólafur gerði brauð að steinum. Í sögu hans stendur, að þessir steinar sé víða. Nú var Ólafs kirkja í Vestmannaeyjum, og því held eg nú að steinar þessir sé hið danska brauð Ólafs konúngs. Þetta þykir yður nú kannske nokkuð »tyrfið«, sem þeir segja, og því er mál að kveðja svo ekki verði úr verra.

yðar

J. S.

Eg er að skrifa »Fiskibók« með uppdráttum, á íslenzku, og er verið að prenta hana. Þér skuluð fá hana bráðum, og væri vænt eg gæti sent yður Fjárbók bráðum, Nautabók og Ostabók, Hestabók og Haukabók etc. etc.

## 133.

### Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn d. 4. Mai 1859.

Höistærede Hr. Pastor Gudmundsen.

. . . Jeg maa ogsaa takke Dem for Deres venlige Deeltagelse for mig, thi uagtet Ridderkorset er blevet en temmelig intetsigende Udmærkelse i vore Dage, er det dog altid et Kors som hörer til de lette at bære. Det slaaer ikke sin Mand ihjel. . . .

For de 10 Rd. takker jeg Dem ret indstændig, men i Hensyn til min Uværdighed beder jeg Dem om Tilladelse til at anföre dem som Deres Gave til det Isl. Liter(ære) Selskab. Jeg er saa uduelig Commissionair for Dem som vel kan være, saa jeg skulde ikke tillige

tage Penge, uagtet jeg ikke er bedre Commissionair for mig selv. . . .

Jeg haaber at reise til Island i næste Maaned (Juni), med mindre det skulde trække ud over den 20[de] Mai med dette Skib, da jeg saa maa gaae med det. Portoen paa Breve fra Island löb saaledes op, at jeg maatte betale 91 Rd. for mine egne og Selskabets Breve. Man havde ladet det engelske Postvæsen bemægtige sig Postsækken, og da det kom til Stykket var Koch ikke juridisk forpligtet til at betale. Det er vort islandske Ministeriums Skyld sige vi, det siger derimod det er Syndebukken Trampes Skyld. Vi have holdt Möder og andraget paa Godtgjörelse, men om vi nu faae noget veed jeg ikke. I alt Fald kunne vi vel sagtens gaae til Bladene og vise det uheldige i det hele Arrangement, og det troer jeg vil blive Tilfældet. De skulde holde paa Deres Convoluter. . . .

Jón Sigurðsson.

134.

Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 30. Mai 1859.

Hæstvirti kæri herra prófessor Maurer.

Vissulega hefði eg átt að vera búinn að skrifa yður fyrir laungu, en eg hefi einsog letíngjarnir dregið það, til þess að geta sagt yður nokkuð endilegt um mál vor.

Eg þakka yður nú fyrst og fremst fyrir sendínguna, og mun hún koma í Félagsritin. Þá er um kláðann. Eptir miklar rekistefnur hefir svo farið, að við Tschernіng dýralæknir förum heim, með tveim dýralæknum, og með konúnglegu umboði, til að reyna hvað tekst að útrýma kláðanum. Um leið er það að segja, að

undirskriptarmálið er unnið, svo nú er prentaður ís-l(enzki) textinn undan hinum danska og konúngur setur nafn sitt undir. Fjárhagsvald held eg fáist, ef ekki versnar aptur, en nú var verið að þvæla kláðamálið svo lengi, að hitt var búið fyrri. Hálfvegis hefi eg von um meira, ef kláðamálið gengur vel, eða ef eg prostituera mig ekki of mikið, en eg læt mér mjög hægt, og fer rétt svona bítandi. Vili landar mínir ekki taka góðum ráðum, þá verður ekki við því gjört. Dicam, et liberabo animam meam; en eg er hálft um hálft að vona, að þeir verði smásaman vægari og sanngjarnari í dómum sínum, einsog eg gjarnan óska sjálfur að vera.

Á morgun kl. 8 f. m. eigum við að fara af stað, með gamla Viktor nýdubbuðum upp, og nú kölluðum Arcturus. Gísli og Arnljótur eru með, og margir aðrir. Konan mín fer með mér. Ef þér skrifið mér, geti þér samt sent bréf heim til mín, eða og til Guðbr(ands), eptir því sem yður þóknast. Eg vona að segja yður hvernig fer að stöfnum þegar þar kemur, og hversu gengur erindið.

Með ástkærri kveðju okkar hér til yðar og yðar ástkæru, konu, föður og systur.

Yðar einlægur vin og heiðrari

Jón Sigurðsson.

135.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Reykjavík 21. Juni 1859.

Elskulegi bróðir minn.

Ekki er eg viljugur að skrifa, það hefir þú reynt og getur borið um, en samt ætla eg að rispa þér línu, svo eg hafi við gufuskipið, fyrsta sinn það heimsækir

ykkur. Okkur hér líður vel, guði sé lof, við fórum frá Höfn 31. Mai og slöguðum til Edínaborgar og Færeyja. Lá við, að við færum á Seyðisfjörð, en varð ekki af, hvort sem nú verður af því. Eg var einsog þú getur nærri að búa mig undir að geta kannske brugðið mér upp til ykkar minna elskulegu fornvina, Þorsteins og þín, og konan mín hlakkaði ekki minna til að sjá ykkur. Þú hefir nú kannske frétt, að eg hefi tekizt á hendur að arga í kláðanum. Þar var mart til ástæðu, bæði það, að eg hefi nú einusinni tekið í þann streng, og þótti mér ómannlegt að hopa, því það leit út sem eg annaðhvort væri vonlaus um að lækníngar gæti tekizt, eða eg væri svo hræddur, að eg þyrði ekki að standa við orð mitt, eða vera í minna hluta, en hvorugt er hér tilfellið. Eg veit nú að vísu ekki mikið enn hvernig gengur, en eg hefi fundið flest betra en eg hugsaði. Menn eru nú miklu rólegri hér en í hitt eð fyrra, nú eru margir búnir að sjá af reynslunni, að kláðinn er bæði læknandi, og læknandi *hér*. Allir játa að læknaða fé[ð] sé afbragð. Fleiri og fleiri hér í nærsveitunum eru að verða lækníngamenn, og þeir sem skorið hafa iðrast sumir eptir. Eg fer nú hægt og bítandi, og er ekki einusinni eins berorður einsog í Félagsritunum í fyrra, svo eg er að vona, að allt jafni sig. Það mýkti mig nú nokkuð, að stjórnin lét undan mér loksins í undirskriptarmálinu, svo nú stendur nafn konúngs undir lögum vorum héðanaf. Meira má vinna nú, ef við erum klókir, og nú held eg landar mínir ætti að fylgja mér öfluglega um stund. . . .

Með kærri kveðju þvínæst til konu þ(innar) og dóttur.

Þinn elskandi vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

136.

Til prófessors K. Maurer's.

Reykjavík 21. Juni 1859.

Hæstvirti herra prófessor Maurer.

Svo eg gjöri vart við mig og þér vitið hvar eg er, þá leyfi eg mér að senda yður línur þessar að gamni mínu. Við fórum frá Khöfn 31. Mai og eptir tilheyrilega slagi til Leith og Færeyja komum við hér 14. Juni.

Hér hefir verið harður vetur og ísalög nyrðra, og illa er sagt af fjármissi margra fyrir sakir heyleysis og kannske með af því þeir hafi sumir ætlað að selja fé í sumar, en nú er batnað og eg vona, að réttist úr þessu aptur. Um kláðann er það að segja, að enn sem stendur gengur allt vel. Hér er allt miklu rólegra nú en í hitt eð fyrra. Sumir eru nú búnir að sannfærast um, að lækníngar sé mögulegar, aðrir iðrast eptir að þeir hafi skorið, og enn aðrir vilja ekki skera í annað sinn. Þó eru enn margir, sem ekki vilja gjöra neitt, og þá vona eg að við getum klemmt. Fyrir norðan þykjast þeir nú engan kláða hafa, því þeir þykjast hafa skorið svo sem þurfti, en eg er hræddur um þeim fari eins og Rángvellíngum, að þeir fagni of snemma þeim friði sem skurðurinn gefur. Eg er nú að búa mig til að ferðast uppí Borgarfjörð nokkra daga, til að koma þeim þar í gáng, ef eg get, og eg vona það gángi, því eg hefi þegar nokkurn flokk með mér, sem eg hefi talað við hér og hafa lofað mér fylgi sínu. Ef eg lifi mun eg síðar segja yður hvernig fer. Verst á eg með að sætta þá Hirði og Þjóðólf, og varla veit eg hvort það tekst, en Jón Guðmundsson er þó nokkuð með mér, og eg má verða öllu feginn.

Þér getið ekki vænt mikilla frétta héðan, sem merkilegar eru, menn segja hér venjulega ‚ósjúkt og mannheilt‘, og það eru mestu fréttirnar, og beztu reyndar, meðan þessu náir.

Forlátið mér, hæstvirti vin, þessar línur, og berið kæra kveðju okkar til föður yðar, systur og frúar.

Yðar skuldbundinn vin

Jón Sigurðsson.

137.

Til prófessors K. Maurer's.

Reykjavík 3. August 1859.

Hæstvirti góði herra prófessor Maurer.

Mig lángar til að þessar fáu línur beri yður litla kveðju og vott þess að bæði eg og margir aðrir hér minnast yðar, þó lángt sé orðið milli okkar. Opt er hér minnzt á yður, og frá mörgum get eg borið yður vinsemdar kveðju.

Eg veit að það muni vera yður hugleiknast að heyra um kláðann og um alþíng. Laung væri sagan um það, ef allt skyldi segja, en það verður innibundið í fám orðum. Kláðinn er ekki farinn, en hann er linaður og útbreiðist ekki nú sem stendur. Eg hefi því von um að hann verði mestmegnis útrýmdur í haust. Þó hefir veðrið ekki verið svo gott sem skyldi, og margir eru linir, en við gerum hvað við getum. Ekki er örgrannt um, að sumir segi eg svíki Ísland í tryggðum, en ekki hjálpar að sjá í slíkt, ef nokkru góðu á framgengt að verða. Eg verð líka að játa að margir hafa glaðzt af því eg fékk málið í hendur, og þótt það góðs viti, enda hafa þeir líka fengið þau hlynnindi, að allir fá meðöl gefins, og beztu lækníngamenn af bændum sjálfum eru teknir til að sjá um baðanirnar fyrir borgun. Læknaða féð er ágætt. Þér getið nærri að alþíngismenn að norðan eru stækir niðurskurðarmenn, og hafa þeir sett nefnd á alþíngi móti vilja mínum og ekki valið mig í þá nefnd. Þó hefi eg linað þá svo,

að þeir eru farnir að detta í sundur og molna, og hefir þó Arnljótur snúizt með þeim og móti mér. Vona eg þeir falli nú frá niðurskurði og heimti verði og þesskonar, sem eg læt svona vera. Eg varna samgaungum hvað eg get, en fjallaverðir þykir mér óþarfir þegar almennt er baðað. Annars gjörir þetta ekkert í öðrum málum, því við höldum fram stjórnarmáli, collektu, lagaskóla etc. eins fyrir þessu. — Eg er ekki forseti nú, heldur Jón Guðmundsson, og fellur okkur vel um það. Líklegt er það hafi meðfram átt að vera straff fyrir mig vegna kláðans, en eg ann því vel, og á miklu náðugra og ræð eins miklu og annars samt, því eg þagna enn síður þar fyrir. Eg fór norður í Húnavatnssýslu, og var mér þar vel tekið. Þeir eru þar gramir út af niðurskurði, en kenna sýslunefndinni. Skaðabætur voru lofaðar, en eru ekki goldnar nema lítið eitt. Þeir vinir mínir hér vöruðu mig við að fara norður, og Hjaltalín okkar ætlaði grimmlega að hefna mín, en mér hefir hvergi verið tekið betur en hjá Húnvetníngum. Kláða fundum við ekki beinlínis í ferðinni, en allstaðar er fé nærri takmörkum kláða, af lús og óþrifum, og eg sé ekki betur, en að aðalmálið sé að fá fjárrækt vora bætta, hvort sem mér nú heppnast að fá nefndina inn á þann veg. Fé er hér harðskinna og þolir sterkari meðöl en annars tíðkast, þar af leiði eg, að það muni vera ósóttnæmara og þessvegna sé hér lækníngar rétt hafðar, ef þær eigi við nokkurstaðar. Slóðar mega til að vera með, og eg vona að leggja þá undir okið að minnsta kosti nú meðan verið er að útrýma kláðanum. Eg skipti nú niður læknum á bæina, svo þeir megi ekki undan komast, og hafa þeir svona sveit eða tvær hver, eða svo sem 10—12 kláðabæi.

Eg sleppi þessari kláðarollu og bið yður forláta og bera kæra kveðju okkar til föður yðar, frúar og systur.

Yðar ætíð einlægur elskandi vinur

Jón Sigurðsson.

## 138.

### Til prófessors K. Maurer's.

Reykjavík 19. Sept. 1859.

Hæstvirti herra prófessor Maurer.

Ástkærar þakkir fyrir bréf yðar hið góða frá 16. August. Nú fer gufuskipið aptur í dag með þenna seðil, og með því fer Collega minn Tscherning, en eg verð eptir og fer ekki fyr en með næsta skipi ef guð lofar.

Allt baslar annars framar vonum enn sem komið er. Kláði hefir ekki útbreiðzt í sumar og hann er nú að okkar ætlan læknaður hér allur svo að segja, nema í Reykholtsdal á nokkrum bæjum og í Ölfusi og Selvogi, og er það af ódugnaði, sem eg þó vona bætt verði úr. Mál vor á alþingi hafa gengið líkt og vant er, kláðamálið eins, nema þeir voru linari og 9 atkvæði voru okkar megin, en þar við er aðgætanda, að Arnljótur og Gísli snerust báðir móti mér þegar á hólminn kom, líklega til að vera sem réttir þjóðkjörnir þíngmenn. Aptur á móti verð eg líka að játa að 6 af þeim 9 voru hinir konúngkjörnu, því nú sáu þeir að var alvara. An tillits til niðurskurðar hefir alþíng að minni hyggju farið rángt í þetta mál, og meðal annars vildi það nú láta »lóga« í Borgarfirði og í Rángárvallasýslu (þar sem þó nú er alheilbrigt) svo miklu fé, að það urðu 10,000 þegar talið er, og þó getur enginn sýnt hvaðan 3000 verði keypt, því síður meira, því fellir var í vor nyrðra og eystra, þó sumir láti nú svo sem þeir vili ekki selja nema hinir slátri. Þar sem læknað hefir verið, er annars meira fé en menn hugsuðu, og það sýndi sig þegar baðað var í sumar og meðölin veitt gefins. Í Borgarf(jarðar)s(ýslu) voru talin 1500—2000, en þar eru nærri 8000. I Gullbr(ingu)s(ýslu) og Kjósar eru hérumbil 7000, í Árness(ýslu) frá 25—30,000, í Rángárv(alla)sýslu í þeim tveim hreppum sem læknuðu 4300, þar á móti eru fjórir hreppar sauðlausir alls, og það eru beztu fjársveitirnar,

en þeir skáru í æði í fyrra og verða nú að lifa á úldnu saltketi líklega, og er það mátulegt, ef ekki yrði aðrir fyrir því en höfðíngjar þeirra, séra Ásmundur og Skúli læknir sem hafa stutt þetta og skorið sjálfir, en því er ver að hér fer sem optar, að: »quicquid delirant reges plectuntur Achivi«. Eg sé nú samt ekki betur, en að lækníngarnar sýni sig hér í alla [staði] mögulegar, og vinni traust smásaman, en heimskan er rík og vilinn er tregur, en vitið aldrei meira en guð gaf.

Eg hefi von að geta útvegað yður Norðra hjá Jóni Guðmundssyni, sem yður vantar. Hann er kláðakind og ritstjórinn eins, eg held ólæknandi og ætti að lóga. Húnvetníngur, rit Suðuramts(ins) húss- og búst(jórnar)-fél(ags) og »Gestur« er allt heilt hjá yður. $15^{da}$ bindi Félagsritanna gömlu er verst að fá.

Eg verð að kveðja yður í þetta sinn, næsta sinn vona eg að skrifa yður frá Höfn. Með beztu kveðjum frá konunni minni og mér til yðar, frúar yðar, föður og systur.

Yðar einlægur vin og heiðrari

Jón Sigurðsson.

Það er satt! — Ritgjörð yðar smakkaðist honum Ásgeiri og Páli í Árkvörn, en hinir konungkjörnu láta minna yfir. Það er nú skrítið með mig, að það er eins og kláðamálið hafi annaðhvort sett mig uppyfir flokkana, eða komið mér til að bera kápuna á báðum öxlum, því nú koma báðir flokkarnir til mín, til að segja mér raunir sínar og gleðiefni, nema þeir einúngis sem eitthvað eru óánægðir með persónuna sjálfa. Eg held að allri alþýðu líki ritgjörð yðar uppá bezta máta, og eg vona hún sýni þeim að hér er nokkuð að gjöra, ef þeir nennti því.

139.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Reykjavík 12. Novbr. 1859.

Elskulegi bróðir.

Nú fer póstur og get eg ekki varizt að hripa þér línu, þó lítið sé fréttnæmt að segja. Eg er nú að búa mig á stað í næstu viku með dampskipinu, og segi eg nú allan kláða sigraðan hér, hvað sem Þjóðólfur segir, því sögur hans um ískyggilegan kláða í Rángárv(alla)-s(ýslu) segi eg lygi. Hér eru nú í þremur sýslum (Borgarf., Gullbr. og Árness) hérumbil 50,000 fjár, og kalla eg það góðan stofn og margra peninga virði. Ef menn hefði frá fyrstu farið rétt að, mundi reyndar fjárstofninn hafa verið meiri, en hvað um það, betra er nokkuð en ekki neitt. Samt eru sumir svo vitlausir, að þeir skera niður læknað fé gott og alheilbrigt, til að fá aptur ryttufé lúsugt að vestan eða norðan. . . .

Með hjartkærri kveðju frá konunni minni og mér til ykkar allra er eg ætíð

þinn einlægur elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

140.

Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 22. Decbr. 1859.

Háttvirti ástkæri herra prófessor Maurer.

Kærar þakkir fyrir yðar alúðlega bréf hið seinasta. Guðbr(andur) segist hafa skrifað yður nýlega og sagt yður að eg væri kominn aptur, og svo er, og gekk ferðin vel. Eg þykist einnig hafa lokið erindi mínu jafnvel betur en eg vænti í fyrstu, því satt að segja hafði eg ekki harla mikið traust til að vel gengi. Eg

segi nú kláðann sigraðan fyrir sunnan, hvort sem hann nú kemur upp nyrðra og vestra eða ekki. Þegar eg fór var ekki eptir af kláða nema lítið í Selvogi og fáeinar kindur á tveim bæjum í Kjós og á tveim bæjum á Hvalfjarðarströnd. Þetta er svo lítið, að mér þætti óþarfi að skipta sér af því, ef það væri ekki eptirleifar sjúkdómsins, og hann gæti þessvegna tekið sig upp aptur, en nú er nauðsyn að haldið verði fram pössun og aðgæzlu í vetur og að vori, eða jafnvel næsta ár, þó ekki bryddi sérlega á veikinni, til þess menn sé vissir um, að hún rísi ekki upp á ný. Annars hefi eg nú nógar sannanir fyrir, að kláði er enginn nýr gestur, heldur kemur hann fram og hefir komið opt og einatt, en hann hefir ekki orðið lengi eins almennur og nú. Nokkuð finnst mér menn rólegri en áður, en mikið vantar til þeir sé fullkomlega greindir í þessu máli, og er það því miður þeim að kenna, sem ekki leita sannleikans, heldur hafa eitthvað annað fyrir augum. Þessir menn búa til sögur og láta útbreiðast, og þær gera þá hrædda sem búa í fjarska, en það verkar aptur á hina sem nær eru.

Eg er nú eigi að síður fullkomlega á því, að kláði sé læknandi á Íslandi, ef hann er það nokkurstaðar, og sömuleiðis að það sé réttara að lækna hann þar en að drepa féð niður, því ef veikin er tekin í tíma, mundi lítið eða ekkert þurfa að missast, en eg er á því, að þegar sýkin fer að brydda á sér alvarlega, þá þurfi strax að taka í taumana, setja fyrir kaup vissa menn í hverjum hrepp yfir lækníngarnar og tilsjónarmann einn eða fleiri í hverri sýslu, einnig láta alþýðu hafa meðöl kauplaust uppá alþýðlegan kostnað. Með því móti má vel koma lækníngum fram með þolanlegum kostnaði. Eg geri ráð fyrir að nú eyðist svo sem 18000 dalir, þar til í vor að kemur, í allan kostnað til þessa máls, en þar sem alþíng vildi láta eyða 10,000 fjár, og eg tel við höfum frelsað þar af 9000, þá kalla eg það

borga peníngana. Nú er líka, að þegar á að kaupa frá Danmörk dýralækna, og kláðakónga, þá verður allt helmíngi dýrara en ella; færi Íslendíngar rétt að, gæti embættismenn þeirra vel stjórnað öðru eins máli og bændur sjálfir læknað, og þá yrði kostnaður miklu minni. — En ef jafnað er saman við niðurskurðinn, þá hafa Húnvetníngar skorið á einum mánuði fyrir 67000 dala skaðabætur, fengið þaraf 8—9000 rd. og ekki meira, og enga vissu fyrir að kláði komi ekki þar upp í vetur. En eg er ennfremur viss um, að ef ekki hefði verið gert neitt af hálfu stjórnarinnar, þá hefði engin regla orðið á lækníngum í sumar, hefði svo flestir skorið í haust fé sitt ólæknað, keypt aptur nýtt og fengið í það kláða á ný, og svo kannske annaðhvort orðið að skera aptur eða þá farið að lækna reglulaust. Nú er í Borgarf(jarðar-), Gullbr(íngu-), Árn(ess-) og Rángárv(alla)s(ýslu) víst 50,000 fjár, og er það ekki svo lítið, því mart af þessu fé er úrval að gæðum, af því það hefir verið þrifið og er heilbrigt, þar sem allvíða má segja um hið svokallaða heilbrigða fé, að það skríði kvikt í lús.

Mikið þótti mér til koma að fara í Skaptafellssýslu. Samt fór eg ekki yfir vötnin, heldur fór eg Fjallabaksveg fram og aptur. Eg komst að Kirkjubæ og austast að Hörgsdal. Á Kirkjubæ er fallegast. Síðan er eitt hið grösugasta hérað, og víðlendasta að högum til, sem er á Íslandi. Eg reyndi í sumar, að eg get ferðazt eins vel og þeir landar mínir, og aldrei kenndi eg mér neins meins hvernig sem við létum, svo ekki geta landar mínir kvartað yfir að eg sé meiri pappírsbúkur en þeir sjálfir. Fjallabaksvegur er einn hinn skemmtilegasti fjallvegur að mér þykir, hann liggur norðanfram með Tindafjallajökli og Eyjafjallajökli og Mýrdalsjökli, en sunnan fram undan Torfajökli. Hann er sæmileg dagleið frá Rauðnefsstöðum og að Búlandi; en ekki náðum við samt því í austurferðinni, en á leiðinni aptur komumst við frá Búlandi að Vatnsdal.

Nú erum við lagsmaður minn að skila af okkur kláðamálinu, er það þó í sumu lakara, að eiga nú við aðra menn, sem nú eru ráðgjafar, heldur en þá er áður voru, því ekkert er víst hvað þessir vilja, og hætt við þeir vili ekki neitt. Hér er yfir höfuð að tala fremur »amorligt« á að líta í þessari tíð, og liggur rétt við óeyrðum.

Eg óska yður og konu yðar elskulegri af hjarta til allrar lukku og blessunar með soninn, og bið hjartanlega að heilsa bæði þeim föður yðar og systur. Konan og frú Thorgr(imsen) biðja sömuleiðis að heilsa.

Yðar skuldbundinn trúfastur vin og heiðrari

Jón Sigurðsson.

141.

Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 1. Januar 1860.

Háttvirti ástkæri herra prófessor Maurer.

Það verður ekki betur byrjað árið en að heilsa yður fyrstum manna, og þakka yður fyrir gamla árið og allt gamalt og gott, og óska yður og öllum yðar ástkærum góðs og gleðilegs nýárs.

Eg skrifaði yður nokkuð um daginn um kláðamálið, og mart væri um það að segja, en eg vil vona að smásaman dragi samt úr ákefð manna og ótta um það. Eg má nú segja eins og stendur í Tímarímu, að:

,Þá er eptir þyngst hvað er
það er að standa reikninginn'.

Við erum nú að skila af okkur og semja skýrslu um okkar starf og reikninga. Mér þykir líklegt að stjórninni þyki í aðra röndina að við höfum eytt miklu fé, en ekkert segja þeir samt. Mig gildir nú þetta einu, því eg vil ekki sjá í fé þegar eitthvað þarf að gjöra,

eg vil hafa það gjört, hvað sem það kostar, ef eg annars get borgað það. Eg vil líka unna Íslendíngum mínum borgunar fyrir starfa sinn, eins og mér sjálfum. Þeir hafa líka fengið margan skildíng í sumar þarna syðra, og hefði fengið meira, hefði þeir verið duglegri. Ekki skulu þér hugsa, að eg hafi liðið neitt mótlæti, eða sé í neinu hnuggnari en eg var. Eg hefi sannfærzt um, að eg hefi haft rétt fyrir mér og mótstaðan var frá hlið alþýðu ekki til neinna riða, — trassaskapar má maður vænta sér, meira eða minna — *þar sem* kláðinn var, en meiri þar sem hann var ekki, og það er þá mest í orði. Eg játa, að það eina sem mér hefir brugðizt er það, að Arnljótur skyldi ástæðulaust snúast móti mér, jafnvel eins og sínum mesta fjandmanni, þar sem eg hefi þó aldrei stigið fæti nema honum til góðs. En guði sé lof, hvort sem hann heldur áfram því sama eða ekki, og hvort sem honum tekst nokkuð að spilla eða ekki, þá get eg rólegur látið hann sigla sinn sjó. Mér vill það til, að eg hefi aldrei sótt eptir neinu alþýðulofi, og því er eg ekkert ginkeyptur fyrir því; það hefir fremur hitzt svo á, að eg hefi verið á sama máli og fleiri aðrir og hefi talað fyrir málinu á þann hátt, að þeir hafa ekki þótzt geta það betur, en þegar eg eða hver annar Íslendíngur er á öðru máli en þeir, þá verða þeir móti manni, og kannske þó enda ekki síður öðrum en mér. Þessu mega allir búast við, og það er mér alls ekki óvænt, en eg þykist í rauninni halda virðíngu minni enda hjá löndum mínum eins eptir sem áður, og víst er það, að ekkert misjafnt orð sagði neinn við mig, nema það sem þér sjáið í Alþíngistíðindunum og Þjóðólfi, og er þó í Tíðindunum piprað meira hjá þeim en í ræðum þeirra munnlega, og er það til að sýna, að þeir hafa *viljað* sýna sig. Helzt voru það samt Arnljótur og Sveinn.

En látum oss sleppa þessu, því eg vona samt að menn geti haldið saman í hinum eiginlegu pólitisku málum, og eg er ekki hefnigjarn, ef eg fæ mitt fram, sem eg er vongóður um að verði fyr eða síðar.

Hvað viðvíkur sögunum, þá gleður það mig að heyra að það gengur vel. Guðbr(andur) hefir sagt mér um þær. Um sögur Jóns Árnasonar dettur mér í hug, að maður gæti reynt að stínga uppá við Bókmentafélagið að taka svo mörg ex(em)pl(ör) sem það þyrfti til að senda félagsmönnum, og borga eptir samkomulagi við bóksölumanninn. Eg set til dæm(is) að félagið vill fá 1000 ex(emplör), og bókin kostar 1 rd., þá fengi félagið bókina að minnsta kosti fyrir 4 mörk, og kannske minna, ef það tæki svo mikið ($33^{1}/_{3}$% rabat eða meira). Þetta væri félaginu billegra en að prenta sjálft og borga honorar, ef það annars vildi eiga bókina, og það ímynda eg mér að félagsmenn hér vildi — því þá fengi þeir hana gefins! — Það sem gjörandi væri er þá það, að fá að vita hjá bóksölumanni (Hinrichsche Buchh(andlung)) með hverjum kjörum hann vildi láta félagið hafa 1000 ex(emplör) og það væri bezt að hann þá annaðhvort skrifaði félaginu beint tilboð, eða eg fengi að vita skilmálana fyrst, til þess að kanna meiníngar manna. Hið einasta sem í vegi er til fyrirstöðu er það, að þegar kostnaður verður meiri en 500 rd. (árlega? eða einu sinni fyrir öll?), þá verður að leita samþykkis deild(arinnar) á Íslandi og það dregur tímann. Enfin — með sæmilegum kjörum held eg félagið yrði fengið til að taka 1000 ex(emplör).

Eg er nú annars að speculera uppá að fá Hinr. Buchhandl(ung) fyrir umboðsmann félagsins, því Lorck er nú hættur.

Með beztu óskum og kærri kveðju til frúar yðar elskulegrar, sonar, föður, systur og allra ástfólginna.

Yðar hreinskilinn elskandi vinur

Jón Sigurðsson.

142.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn d. 24. Jan. 1860.

Höjstærede kjære Hr. Pastor Gudmundsen.

. . . Med Hensyn til Faareskabet i Island, da troer jeg at det nu er overvundet, hvis det ikke skulde bryde ud andre Steder i Vinter, hvilket jeg dog haaber ikke vil blive Tilfældet. I Slutningen af November vare vist næppe 20 Faar angrebne af Sygdommen i Sönderamtet, og disse vare især i Selvog, Kjós og Hvalfjarðarströnd, altsaa som De seer, kun Gjenstand for Agtsomhed, men ingen Fare. I afvigte Sommer har Sygdommen slet ikke grebet om sig, men det sörgelige er, at de som engang have faaet Nedslagtningsprincipet i Hovedet, de ærgre dem formelig, naar de troe at Helbredelse er ventendes, og söger paa alle Maader at udbrede Rygter om Udbrud paa ny, om at Skabet aldrig tilfulde helbredes o. s. v.

De vil see endeel af slige Historier og har maaskee hört det allerede. Iövrigt maa jeg tilstaae, at Almuen har i det Hele svaret til eller endog overgaaet hvad jeg ventede mig. Man har overalt vist mig megen Artighed og Venlighed, og jeg har stadfæstet hos mig den Overbevisning, at Cur er meget let praktikabel, n(ota)bene naar man har Penge til at bevilge fri Medicin og organisere Bönderne selv under Dyrlægernes Overtilsyn til at curere. Dette have vi gjort i Sommer, og fra Landets Standpunkt anseer jeg det for en Oeconomie, thi Bekostningen bliver ikke stor forholdsviis. Jeg antager at den vilde blive omtrent 3 Mark pr. Stykke Faar, naar det regnes höjt, og man skal have Dyrlæger herfra, thi dette gjör en stor Forskjel. Det mærkeligste var at Althingsmændene vare de mest hidsige Modstandere, og navnlig de der kom herfra, men derimod ere de fleste herværende Studenter med

mig, og selv de to Althingsmænd drejede deres Hane efter at de kom til Island. Hvis nu Island havde det Held at slippe hermed, da vil det jo vel snart komme sig igjen, thi i Sönderamtet er der i det Hele 40000 Faar nu i de tre Sysseler, Arnæs, Gullbr(ingu) og Borgarf(jarðar), og det vil snart formere sig. Enkelte Repper, som Grimsnæs der har cureret bedst, ville til Foraaret have ligesaa mange Faar som ved Sygdommens Udbrud. Guðm(undur) i Mydal, den Bonde som först fik Sygdom(men) i sin Flok, havde dengang c. 800 Faar, nu havde han i Sommer 400 Stykker, de nydeligste Faar man kunde see. De seer altsaa, at det er ikke i og for sig saa daarligt. — Det værste er, at den sidstafvigte haarde Vinter, og hele den oprörte Tilstand i Anledning af dette Skabvæsen har fört med sig, at de övrige Sysseler ere meget satte tilbage, og ere efter mit Skjön slet ikke bedre farne, end de som have haft Faareskabet. . . .

Jón Sigurðsson.

143.

Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 8. Febr. 1860.

Háttvirti herra prófessor Maurer.

Nei, þetta ætlar að verða ófært! — eg hefi nú dregið í heilan mánuð að skrifa yður, og hefi eg þó mart að skrafa. Eg þakka yður fyrst kærlega fyrir bók yðar, og get eg ekki sagt yður annað en eg gleypti hana strax, og síðan mátti eg til að ljá hana, því nú eru fyrst komin híngað exemplör. Öllum líkar hún vel, því allt sem er rángt í henni er þesskonar, að Íslendíngi getur orðið sama á, þ. e. að segja, þér getið ekki sagt sögurnar öðruvísi en þér heyrið þær. Eg hefi

hvatt menn til, af því eg ímynda mér að þér búið til fleiri útgáfur, að skrifa upp sögur og variationir.

Þá er nú um safn Jóns Árnasonar. Eg sé mjög vel hvernig Hinr. Buchh(andlung) reiknar, og það er mikið satt, að eptir því sem félagar fá að samtöldu, þá má reikna svo. En Hinr. B(uchhandlung) sér víst vel, að við getum ekki reiknað svo þegar við eigum að kaupa bók. Við verðum auðsjáanlega að reikna hvað bókin kostar félagið hérumbil að prenta hana og hvad hún kostar að kaupa hana. . . .

Menn segja mér hér, að í Leipzig sé prent og pappír ódýrara en hér, mér skilst því, að þegar seldar eru hér opt bækur á 2 sk. örk, þá mega þeir geta staðið sig við að selja svo, þegar þeir fá seld sjálfsagt 950 ex(emplör) meira (það er mér óhætt að segja) en þeir annars seldi, og fá nærri borgaðan allan prentkostnað og honorar einúngis frá félaginu, en hafa alla verzlun bókarinnar þar að auki.

Þá er hitt, sem þér báðuð mig um, viðvíkjandi Kiel. Eg er nú einsog þér getið nærri, ekki sem bezt grunaður, og þeir sem þykjast vera kunnugir álíta einsog þér vitið Íslendínga sem næsta Slesv(ík-) Holstein(um) etc. — En eg skal segja yður hreinlega hvernig eg fór að. Svo stendur á, að í vor er var stíngur Thorsen uppá við mig að verða próf(essor) í Kiel í stað Müllenhoffs. Eg tók vel á öllu, til að reyna hvað nú yrði úr, og tala við Regenburg, sem er Factotum fyrir Slesvík. Hann sagði þá, að þeir í Kiel vildu hafa Groth. Nú leið og beið, eg fór heim til Íslands í sumar og hafði nú ekki um þetta heyrt síðan. Þótti mér nú færi að fá að vita um yður jafnframt og eg heilsaði uppá Regenburg og spurði um mig. Hann sagði mér nú, að um kennslu þar í Slesv(íkur) rétti væri ekki talað, (en eg nefndi yður ekki, heldur talaði á víð og dreif og spurði meðal annars hvort þar væri kennt Slesv(íkur) réttur og hvernig, og hvort þar væri ekki talað um

að setja fleiri kennara þar í). Af þessu leiði eg, að annaðhvort veit hann ekkert, og það er þó ekki líklegt, nema svo væri að fyrirspurnin til yðar væri enn þá leyndarmál þar í Kiel — eða hann er á móti yður með öllu afli, og það þætti mér ekki ólíklegt að vera mundi, því eg heyri sagt, að þeir Thorsen o. fl. af þeim flokki hafi reiðzt mjög af ritgjörð yðar um okkar »Verfassungskampf«. — Thorsen hafði barið bæxlunum í vor, en ekki hefir hann látið neitt í ljósi við mig. Enda mun þeim smásaman renna reiðin. Eg mun nú smásaman reyna að dubla við þá, þó hægt fari, en eg skal ekki segja neinum frá nema yður og Guðbr(andi) hvað gjörist. Að því leyti ferð minni til Kielar viðkemur, þá geti þér nærri, að það er ekki nema uppsláttur í fyrstu, en eg neita því ekki, að kæmi þér þángað, þá mundu renna á mig tvær grímur, ef kleift væri, og eg held nærri því það liði þá ekki mörg ár þángað til að dálítil íslenzk nýlenda kæmi í Kiel.

Þér takið víst eptir því, að í okkar íslenzku pólitík sýnist nú að vera einskonar veila, sem eg held samt varla hafi mikið að segja, nema ef svo eða svo færi. Arnljótur hefir nú, einsog þér vitið, verið áður svona Antiskæníngi einsog flestir. Nú lítur út sem hann vili vera Bændavin og Blixenianer, líklega til að geta fengið athvarf hjá Grími, því flestir aðrir landar gjöra lítinn hans sóma. Mér er þetta rétt nýtt núna, því eg er að lesa handrit Arnljóts af Skírni, um Danmörk, og er eg nú að krukka í það, en einsog eg hefi ekki áður tekið mér nema ráðgjafaratkvæði við höfundinn, eins gjöri eg ekki enn annað, nema minni hann á antecedentia. Það er ekki af því mér sé neitt sárt um fyrra ministeríið, en eg kann ekki við að hrækja eptir þeim sem úr völdum fara, eptir að þeir eru farnir, og eg vil fyrst sjá hvað þessir gjöra áður en maður hælir þeim. Mín meiníng er og verður jafnan sú, að Íslend-

(íngar) geti alls vonazt af sjálfum sér, en minna eða einkis frá hverju dönsku ministerio sem er.

Nú þá kæra kveðju frá okkur til allra yðar elskuðu.

Yðar einlægur vin

Jón Sigurðsson.

144.

Til Þórðar háyfirdómara Jónassens.

Khöfn 19. April 1860.

Háttvirti herra etazráð minn góður.

Von var þó þú svona hálfskensaðir mig fyrir að eg ekki skrifaði þér seinast, en af því þú þekkir þína menn og þeirra breiskleika, þá vona eg þú erfir það ekki við mig en takir nú á móti minni beztu þökk fyrir alla þína góðvild við mig í sumar er var einsog opt áður.

Satt er það, að Sveinn er nokkuð gallsprengdur í kláðamálinu, en það er hans von og vísa, og það er slæmt, því eg get ekki svarað slíkum þorparaskap. Bótin er, að enginn getur annað en séð hvað ósanngjarnt og ósatt það er sem hann ásakar mig og okkur fyrir, og sumt áður hrakið. Hvernig getur hann t. d. skammað mig sem leiguþjón, sem fylgi minni sannfæríng, en hinn ótrúa leiguliða Havstein, sem fær eða tekur laun fyrir að gjöra það sem honum er bannað, nefnir hann ekki. Þegar hann er að kenna okkur um slys Rángvellínga, þá finnst mér hann vera líkur úlfinum sem kenndi lambinu um að það gruggaði upp vatnið fyrir sér, þó það stæði neðar, því við gátum þó ekki gert við því að Havst(ein) fór á laun við okkur í August og að við gátum ekki breytt því fyr en í September, en Rángvellíngar slæpíngar og fylgislausir og komu sér ekki af stað fyr en í October. Það er þá einsog ef

verzlunarfrelsinu væri kennt um, eða þeim sem hefði gengizt fyrir að reyna að útvega það, ef næsta skip forgengi á eptir.

Mér skilst sem kláðamálið sé á góðri stefnu, og Jón Guðmundsson játar sjálfur í bréfi til mín, að kláðinn muni vera á förum, sem eg og veit að satt muni vera. En til hvers er þá að vera að blása sig upp einsog naðra um það sem ekkert er, í stað þess að slá nú í botn um að disputera, en framfylgja lækníngunum þartil kláðinn er eyddur og jafnframt taka fyrir fjárræktina sjálfa og umbætur hennar, og bera sig að koma þar nokkru til leiðar. Þar ætti Jón Guðm(undsson) eins að geta verið með einsog hver annar, hvort sem hann theoretice væri lækníngamaður eða skurðgoð. Nefndin er mikið þakklát við þig, og þú fær að halda hinu góða verkinu fram þángaðtil í Juni í öllu falli.

Nei, elskulegur, þú dæmdir of fljótt um meira hlutann í launamálinu. Hans meiníng var sú rétta og hefði sigrað ef minni hlutinn hefði ekki gert hana apoplektiska. Melsteð hafði ekki varað sig á, að hann skrifaði ekki einúngis fyrir ministeríið eða departementið. Hann fékk *það* náttúrlega á sitt mál, því það vildi píra í ykkur dálitlu en ekki of miklu. En Melsteð lét þá ráða í, að við værum að þessu af brögðum, til að fá komið fjárráðum undir alþíng. — Þessi brögð gat nú Melsteð ekki liðið, því þú veizt hann hatar allt slíkt, og einkum vizku þá er slægð heitir! — Þegar nú embættismenn eru móti og láta einsog þeir vili ekki eins mikið og meiri hlutinn vill láta þá hafa, og meiri hlutinn fær orð fyrir þessa undirhyggju um fjárráð, þá leiddu sumir þar út af, að meiri hlutinn hefði verið móti launabót. Hefði nú alþíng eindregið fylgt meira hlutanum, segi eg, þá varð þessu ekki barið við, og þá hefði kannske allt gengið greiðara, og þar af súpi þið, ef svo ber undir, en þið eigið okkur að þakka að málið komst þó svo lángt, að það má til að taka það fyrir í haust.

Væri eg nú í ykkar sporum, þá tæki eg mig til og snerpti nú upp á suðunni, til þess að apoplektiska hliðin af meira hlutans uppástúngum gæti gengið fram, og lifnað við, og skrifaði bænarskrá harða og lánga.

Eg er búinn að segja Rafni til peninganna. Fötin eru ekki tilbúin, en eg vona að senda þau með Smith. Berðu kæra kveðju okkar til konu þinnar elskulegrar og barna.

Þinn skuldbundinn einlægur vin

Jón Sigurðsson.

145.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Khöfn 20. April 1860.

Elskulegi bróðir.

Kærar þakkir fyrir bréf þitt seinasta, og gladdi það mig, að þú hefir sloppið og þitt hús hjálpsamlega frá veikindunum. Við höfum lifað vel, og Siggi frændi, hann ritaði nú sjálfur bréf Þorleifi bróður sínum. Það er skrítið að honum dettur víst ekki mart merkilegt í hug sjálfkrafa, en hann getur lært hvað hann heyrir. Uppdrætti þykir honum gaman að og reikníngi helzt, en lítið mun karl vera fyrir bókina, hann hefir ekki heldur vanizt því greyið. Eg get ekki fengið kvæði frá Gísla eptir Jón á Vatni, annars væri laungu prentuð minníng hans. Segðu þeim það, að eg bíði Gísla einsog mér var skipað.

Norðri hefir víst Havstein, en Þjóðólfur Jósep fyrir íspýtu. — Það kann að vera að maður gæti fengið Norðra dæmdan, en þó er það undir hælinn lagt, og eg hefi ekki hugsað til annars en að forakta slíkan þorparaskap og vitleysu. Hann ætti að geta þess, að Havstein er þó það verri að hann er *ótrúr* leiguþjón, hann

veit vilja húsbónda síns og gjörir ekki, og mun því straffast hart. Heldurðu það jafni sig ekki? — Eg held það, en samt eru víða stórbokkar sem að málum standa, og þeir gefa ekki grið. Þú sér á Föðurland(inu) ofaná (65, 69) svar okkar Tschern(ings) til Arnljóts. Þar er nú ekki stórmennskan, og þú getur líka getið nærri, að það hefir ekki gengið mikið úr Arnljóti af skítnum með svo linu sápuvatni. Samt hefir hann ekki komið enn á skjáinn síðan. Það er illt með Jón Guðmundss(on) að hann skuli ekki geta komið sér betur fyrir. Eg sé nú út um brekánið að maðurinn gerir þetta til að hugnast kaupendum sínum nyrðra og vestra, en hefir ekki einurð að segja þeim sannleikann.

Þorlákur fékk 3 rd. fyrir úrið. Hann skrifar þér líklega og segir þér hvað gengur. Hann er hjá Jakobsen og er hann góður við hann, en hann er á nösunum.

Það er nú ekki meira um sinn sem eg man.

Vertu þá blessaður og sæll með öllum þínum.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

146.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Khöfn 10. Juli 1860.

Elskulegi bróðir.

Þú hefir, sé eg, ekki getað fallizt á mína skoðun um launamálið, sem varla var heldur til að ætlast. Annars er nú, eptir því sem eg get komizt næst, engin orsök fyrir þig að sjá svo mikið eptir því máli, því þú vannst ekkert hvort sem var eptir frumvarpinu. Eg held nú alls ekki heldur, að þú hafir haft neitt sérlegt af þér, því þótt þú hefðir verið uppi í sveit, þá mundi þér þó hafa þótt eitthvað að samt, og ekki ómögulegt,

að þú hefðir þá séð eptir að þú fórst úr Reykjavík, þar sem þú hefir mikið næði, og ekki jag, og þín vissu laun, sem þú veizt þó hvað eru.

Fari rektor frá, þá hefir þú mestu líkindi til að fá hans pláz, og vildir þú það þá ekki, og fengi eg það væri líklega okkar eitt sem beggja. Ekkert skil eg í þínum veraldarsögureikníngi, því eg sé ekki að 36 arkir tæki þér 10—12 ár, þó þú ættir að semja þær, og þær gefa þér hérumbil 600 rd. — Annaðhvort getur þú haft annað með, sem þú getur fengið nokkuð fyrir, eða þú getur samið miklu meira.

Það er gott þú borgar Hannesi, en eg vildi líka gjarnan biðja þig að tala við Teit Finnbogason, og klára við hann það sem eg skulda honum fyrir álnamálsstein-inn á Þíngvöllum og fyrir það sem annars kynni vera. Eg borga aptur fyrir þig hér t. d. ekkjusjóðs-police og getur það jafnazt þar í. Ekki sendi eg þér núna Bræðrasjóðsobligationina, en nú skal hún koma uppáteiknuð með næstu ferð.

En hvernig þú talar, að segja eg verði að halda meir uppá embættismennina en eg gjöri! — Þeir ætti þá ekki að vera sjálfir svo, að þeim væri eins og sýnt í smjöröskju þegar þeir ætti að eiga bezt. Þeir geta nú sýnt sig reglulega, með því að skrifa bænarskrá til danska ríkisþíngsins, kvarta yfir alþíngi og slá ríkis-þínginu gullhamra og »móðurlandinu«. Þá vissu menn hvað þeir meinti, en rektor er enn þá einn um hituna þar í. Hér er sannarlega frá alþíngis síðu sýnt em-bættismönnum allt það fylgi sem þíngið gat sýnt, en það eru einmitt embættismenn sjálfir sem bæði hafa aptrað því með öllu að alþíng fengi fjárráð, hafa alltaf leitazt við að lítillægja þíngið og upphefja stjórn og þíng Dana, og seinast þá setja þeir sig í þá óeðlilegu stöðu, að mæla á móti því sem þeim er mest í vil, en fylgja fram því sem einúngis kákar principlaust í laun-um einstakra manna, því þú munt þó finna, ef þú gætir

að, uppástúngur Arnljóts, og þar sé eg ekkert nema prestaskólann og pro forma landsyfirréttinn. Síðan komu ymsar uppástúngur, og þær tók þá aptur minni hlutinn í sína uppástúngu til konúngs, án þess þartil væri nokkur parlamentariskur réttur, en við lofuðum þeim það þegjandi. Við höfum þannig sýnt embættismönnum meira fylgi en þeir sjálfir, og enn í vetur, þá samdi eg fyrir Trampe nokkur meðmæli með þessu máli, og þá þóttist hann ekki tala um það við Oddgeir, af því Oddgeir væri ekkert fylgjandi því máli. Eg er nú ekki heldur svo ókunnugur, að eg ekki viti, að ef ministeriið hefði farið rétt að, þá hefði allt farið öðruvísi, því allt það ólögulega og fyrir embættismenn meinlega í málinu á það ministerio að þakka, en íslenzku embættismennirnir eru einsog vant er, þeir ríða á garðinn þar sem hann er lægstur. Þeir þora ekki að ministerio því það hefir valdið, ekki að ríkisþínginu því það hefir peníngaráðin, heldur að alþíngi sem hvorugt hefir. Getur nokkur virt slíka blindni og rángsleitni? —

Þið þurfið að styrkja »Íslending«, því enginn getur allt einn. Eg held að Þjóðólfur hafi gott af concurrence, og mér sýnist jafnvel maður geti merkt það þegar.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

## 147.

### Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 11. Juli. 1860.

Háttvirti elskulegi herra prófessor Maurer.

Ástkærar þakkir fyrir yðar seinasta góða bréf, sem eg átti reyndar ekki skilið af því eg hefi svo lengi forsómað að láta yður sjá línu frá mér. Eg hafði þegar

í vetur tilbúið bréfsefnið handa yður, en svo drógst það úr hömlu fyrir mér að skrifa, svo aldrei varð af.

Ekki veit eg hvað segja skal um sögur Jóns Árnasonar. Mér hefði þótt vænt að geta styrkt nokkuð til útgáfu þeirra og jafnframt að útvega þeim meiri útbreiðslu á Íslandi, jafnframt og félagsmönnum bók sem þeim líklega þætti vænt um, en eptir þeim kostum sem Hinr. Buchhandl(ung) setur upp, og þér hélduð væri hennar ýtrasta, þá sé eg alls ekki að nokkur von sé til að félagið geti gengið að þeim kostum, þó eg vildi bera uppá fundi slíkt tilboð. Það gjörir ekki heldur neitt til, þó við skiptum bókinni á fleiri ár, því aðalatriðið verður þetta, að hún yrði okkur dýrari en þó við létum prenta hana sjálfir, gyldum ritlaun o. s. frv. Og þegar svo er, þá eru svörin auðfengin, sem eru þau: Bókin þarf ekki félagsins styrks við, til að geta komið á prent, og þyrfti hún styrks, því hefir þá ekki félagið fengið handritið sjálft, og gefið það út, heldur en að kaupa bókina dýrara en það gæti látið prenta hana. Látum oss þá heldur hafa þá peninga til að gefa út fyrir aðrar bækur, því þessi kemur út hvort sem er. . . .

Jú vissulega er kláðinn á förum, og síðan eg veit til í fyrra vor hefir hann ekki breiðzt út, og ekki drepið eina kind. Það gjöra böðin, og hvað gæti þá ekki fljótt batnað ef góð hirðíng væri? — En þetta getur samt ekki fyrirbyggt, að margir gjöri sér far um að útbreiða sögur um að kláði sé að gjósa upp þar og þar aptur, og aldrei verði hann læknaður o. s. frv. — Það er allt undir því komið að stjórnin ekki svíki, og embættismennirnir syðra, en hvorugt er, eins og þér vitið, neitt hellubjarg. Trampe er nú á förum og þá kemur líklega Þórður Jónasson um stund. Nú er að vísu þetta mál hans bezta, en hann er aldrei fastur á svellinu, og hræddur er eg um hann sjái gegnum fíngur við vini sína ef þeir hafa kláða, en hér dugir ekki nein hlífð — aut est aut non est — ef lækníngar skulu duga.

Frá Kötlu lítur út fyrir við höfum sloppið heppilega. Mýrdalssandur hefir nógu vítt kokið, svo eg held skaðinn hafi alls enginn orðið, en fyrir harðindi og klaufadóm höfum við án efa misst mikið fé, einkum nyrðra. Þér sjáið á Landshagsskýrslunum hversu fé hefir fækkað 1853—58, og þó hefir enn fækkað síðan. Þetta sýnir, að kláðinn og niðurskurðurinn hefir ekki að eins verkun sína þar sem hann er, heldur allt um kríng, og um allt land. Þar sjáum við handvömmina, að stjórnin hefði átt að taka strax í taumana 1857, og senda þá duglega erindsreka með meðöl etc. Okkar völd voru nú stutt, og líklega hefir kannske engum líkað við okkur til fullnustu, en það finnst mér menn verði að játa, að við höfum á stuttum tíma komið á organisation og þeirri reglu sem hægt er að halda við. Eg sé ekki betur, en að við höfum kennt þeim þá aðferð sem ein dugir ef á þarf að halda, og annað ekki, því sú aðferð, að ætla með tómum amtsbréfum og skriflegum upphvatníngum að koma þeim til að lækna fé sitt, það dugir ekki fyrst um sinn. Þeir verða að finna til þess sem þeim er sagt.

Þér hafið mikið annríkt, sem von er, en þér eruð líka hamhleypa til vinnu, eg vildi óska að eg væri eins léttur á mér, en þar vantar nokkuð á, og einkum þegar þarf að semja eitthvað. Eg á að þakka yður einkanlega seinustu ritgjörð yðar, sem Guðbrandur færði mér.

Um goðorðaskipun og þíngskipun höfum við opt talað hér, einkum Gísli, Guðbrandur og eg. Hjá mér hefir aldrei það efni komizt neitt á veg. Gísli hafði einusinni lofað mér að koma með það, en það varð ekki nema stubbur í Félagsritunum (Um goðorð). Guðbrandur hefir snert nokkuð í Tímatali sínu. Í handritum hefi eg alls ekkert fundið um það eptir eldri Íslendínga hér, þér vitið líka að [þeir][1] voru flestir meiri málfræðíngar heldur en pólitisk dýr.

[1]) útgef.

Níunda bindi af ,Lovsaml(ing) for Isl(and)' er nú að losna. Þá skal eg sjá til að yður verði sent yðar exemplar.

Með kærri kveðju okkar hér til konu yðar elskulegrar og allra yðar ástfólginna.

Yðar einlægur vin og heiðrari

Jón Sigurðsson.

148.

Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 3. Sept. 1860.

Hæstvirti herra próf(essor) Maurer.

Beztu þakkir fyrir yðar seinustu bréf. Orsökin til að dregizt hefir meira en eg ætlaði að svara Hinr. B(uchhandlung) var sú, að eg vænti híngað Péturs prófessors, eptir því sem í almæli var, og þar eð hann er forseti í íslenzku deildinni gat það verið til gagns að vinna hann; en nú er tvísýnt hvort hann kemur og því skrifa eg nú Hinr. Buchh. til að fá nokkrar skýríngar frá henni, áður en málið væri lagt fyrir félagið. . . . Eg fylgi þessu fram sem eg get, og eg vona að Hinr. Buchh. verði nokkurnveginn rímileg, því þeir geta það, og þá held eg allt gángi fram. Eg neita því ekki heldur, að mér fyrir mitt leyti þykir vænt um sögurnar og vildi gjarnan að félagið gæti styrkt að útbreiðslu þeirra á Íslandi, því eg vona að ef svo yrði þá mundi maður fá ógrynnis fjölda fleiri af þesskonar sögum.

Nú er Trampe kominn og Jónass(en) seztur að »fyrir ofan lækinn.« Þér getið því nærri, að hefði það ekki verið þér, sem nefnið um stiptamtmannsdæmi við mig, þá hefði eg þótzt vera viss um, að hann væri að gabba mig, en yðar vinsemd til mín hefir verið og er of mikil til þess eg geti leitt mér það í hug, og þessvegna skal

eg svara yður alvarlega. Eg held eg geti sagt með sanni, að viðskipti mín við fjárkláðamálið hafi haft jafnvel betri afdrif en eg vænti, en þegar nú að það er af liðið, að minnsta kosti svo, að öll hætta lítur út til að vera um garð gengin, þá þekki þér illa stjórnina hér, ef þér haldið hún komist ekki í sitt gamla far. Eg vissi nú það strax, eins og við og gjörðum ráð fyrir, að það var útúr ráðaleysi þeir fengu mig til að gánga í kláðamálið, og þér vissuð hversvegna eg gat ekki og vildi ekki neita því, en eg fann það líka jafnskjótt og eg hafði tekið það að mér, að meiníngin var að láta mig slíta mér á því. En það tókst nú ekki, og eg er nokkurnveginn að eg held óskemmdur eptir, enda geta þeir ekki annað en játað, að málið komst þá fyrst á réttan rekspöl, og gat hæglega haldizt á honum. Nú ímynda eg mér, að þeim þyki allt gánga hérumbil sem það geti bezt, og seti nú annaðhvort Jónassen, eða eptir því sem sumir halda With nokkurn, sem er næstur Oddgeiri í íslenzku stjórnardeildinni, fyrir stiptamtmann.

Eptir því sem eg held, þá verður ekki gagn í þeirra stiptamtmannsdæmi lengur, því embættið er svo blandað ymsu, að það getur varla haldizt við nema um tíma. Það er orðið og verður meir og meir einskonar blendíngur af landstjóra, konúngsfulltrúa og administrator eða héraðastjóra, og þessu getur enginn gegnt vel, sízt þegar hann á við stjórn hér, sem brýtur hann á bak aptur þegar minnst varir. Að minni ætlan þyrfti að setja landstjórn á fót á Íslandi, sem hefði fullt vald til framkvæmdarstjórnarinnar og ábyrgð fyrir alþíngi, að svo miklu leyti sem ekki snerti forseta þessarar stjórnar, sem eg held yrði að vera einúngis sem landstjóri konúngs, til þess hann gæti verið frjáls og valið sér ráðgjafa, er annars yrði annaðhvort að vera fastir, eða þá að öll umskipti á þeim yrði að koma frá K(aupmanna)-höfn. Hvorttveggja væri slæmt, og eg vildi ekki hafa umskipti á neinum frá Kaupmannahöfn nema landstjóranum sjálfum. Þá ímynda eg mér að amtmennina

þyrfti ekki, en póstgaungur og vegir væri því nauðsynlegri. Líklega verður ekkert af þessu fyrst um sinn, heldur verður allt látið dúmma, og Jónassen eða With verður stiptamtmaður, hvað sem svo verður þegar Melsteð deyr. Um mig getur alls ekki orðið spursmál, nema ef vera skyldi í öldúngis ófyrirsjáanlegri ýtrustu nauðsyn, en eg get heldur ekki brúkað annað, því eg þarf fríar hendur og peninga, og þá kosti fæ eg ekki nema mikið liggi á. Að vera háður stjórninni hér, og hafa engin peníngaráð, það er ófært, nema maður sé neyddur til annaðhvort til að hafa launin til að lifa við fyrir sjálfan sig eða til að hafa tignarnafnið án þess að kæra sig um hvað gjöra skal.

Víst höfum við sloppið vel frá Kötlu, ef ekki verður meira úr, en eg er hræddur um við ætlum að eiga bágara með að rétta við fjárræktina, sem er ein af aðalatriðum til framfararinnar. Þér sjáið á töflunum, að fé hefir fækkað síðan 1853 *í öllum sýslum* nema einni (Norðurmúlas(ýslu)), en nú hafa þeir misst í vor, úr harðindum sem þeir kalla, og mun vera satt að nokkru leyti, en að nokkru leyti er orsökin sú, að breytt er á móti mörgum skynsamlegum reglum í meðferð fjárins. Menn stunda á höfðatöluna, en ræktina síður, koma svo upp fé, sem ekki er fullhraust eða heilbrigt, og þolir því ekkert ef á bjátar. Það gleður mig að þér hafið lesið skýrslu okkar Tschernings, því þó það sé óefað, að þér fáið annarskonar álit hjá öðrum, þá er þar þó sagt svo hreint og beint álit okkar, og gjörð grein fyrir því sem við byggjum á, að enginn getur verið í vafa um hvað við höfum sannað eða ekki sannað.

Þér hafið haft mannraunir miklar að bera í sumar, en eg vona með guðs hjálp að nú sé allt batnað. Eg bið yður að bera kærustu kveðju til föður yðar og systur og yðar elskulegu frúar og veri þér kærlega kvaddur frá okkur hér.

Yðar einlægur heiðrari

Jón Sigurðsson.

149.

Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 6. Oktbr. 1860.

Háttvirti ástkæri herra prófessor Maurer.

Það var mér sönn ánægja að heyra, að heldur er meiri von að létti þeim sjúkdómi, [sem hefir þjáð ástvini yðar svo lengi. Það veitti ekki af, að þér eruð þreksamur og ekki hugfallinn, þó lítið blási móti, en það er þúngt að sjá þá lengi þjást sem maður elskar. Nú vona eg í næsta sinn að heyra, að allt sé komið í betra lag, og öll hætta afstaðin.

Það var mér kært að heyra, að þér gerið yður eptir kríngumstæðunum ánægðan með þáttinn um sögurnar yðar. Að vísu hafði eg mikla laungun að skrifa um þær, en eg hafði ætlað að hafa það lengra, og taka nokkrar af sögunum, og þegar ekki var rúm til þess, ætlaði eg að hætta við, en Guðbrandur var að ámálga það samt, og svo hefndi eg mín aptur á honum og hratt úr greinum eptir hann, því ferðasaga hans var svo laung.

Við erum alltaf að þrefa við Hinr. Buchh(andlung), og nú slógu þeir af til 550 rd. pr. 20 arkir, en vilja svo hafa allt borgað á ári, en við viljum gánga að þessu með því að borga að eins 300 rd. á ári, en svo, að allt sé borgað 4 árum eptir að verkið sé endað. Nú held eg þeir gángi að þessu, og þá ímynda eg mér allt gángi fram í félaginu. Verst er, að við fáum enga nú til að gánga í félagið, en missum marga, sem deyja, og sumir gánga úr. Önnur ógæfa er sú, að þeir eru einsog ramflugu-úngar Konráð og Gísli og Guðbrandur, svo sem þér sjáið í blöðunum, og þegar svo er komið þá geta þeir ekki unnið saman, og þegar eg nú held meira uppá Guðbrand, þá kemur líklega smásaman flokkur í félaginu sem annaðhvort reynir til að breyta

því sem nú er komið í gáng, eða eyðileggur framkvæmd okkar svo, að lítið verður ágengt. Eg læt nú þetta land og leið, og vona jafnvel að það verði ekki til skaða, en þó er ætíð hægt, þar sem svo er fámennt einsog hjá oss, að draga úr og eyðileggja, en örðugra að sameina og koma nokkru afli í það sem gjöra þarf.

Ekki er neitt enn meira gjört um stiptamtmannsdæmið, nema nú eru nefndir menn til sögunnar, sem sæki um það: Melsteð gamli og einn sem heitir Hvass, contoirchef í justitsministerio. Um Melsteðs stjórn getið þér fyrirfram gjört yður hugmynd, og Hvass veit nú ekkert um Ísland, svo ekki batnar sú tilhugsan. Það er reyndar betra en ekki að fá Íslendíng, en samt er ekki gott, þegar maður getur óttazt að þaraf leiði, að hann færi sönnur á hina gömlu kreddu, að Íslendíngur geti ekki eða eigi ekki að vera stiptamtmaður. Það var nú reyndar nokkuð í því sem þér segið, að commissorium okkar í fyrra var einsog einskonar deditio, en þér munið hvernig á stóð, að þeir föluðu mig, og þér munið líka hverjar mínar ástæður voru, svo að eg þóttist ekki geta skorazt undan. Eg þykist nú reyndar viss um, að þeir hefði ekki verið eins fljótt lausir við kláðann, ef ekki hefði farið sem fór, en menn eru opt á eptir ekki eins minnisgóðir einsog meðan hæst stendur, og svo er hér, því stjórnin hugsar aldrei um neitt nema þegar neyðin er fyrir dyrum.

Eg þakka yður ástsamlega fyrir hin prentuðu blöð sem þér senduð mér. Það er líklegt, sem þér segið, að smásaman vakni eptirtekt manna á Íslandi, þegar um það koma greinir hér og hvar, en það er slæmt að sumar eru svo, að þær brjóta niður hvað aðrar byggja upp. Greinir Winklers kunníngja okkar »spázera« hér í dönskum blöðum, því Danir hafa ætíð lag á því, að taka þær sem fremur niðra okkur en hitt. Eg heyri annars alla Dani nú um þessar mundir tala mart um, að Þjóðverjar sé svo vinalegir við okkur nú,

og að því skapi þykjast þeir sjálfir verða útundan. Það væri gaman, ef menn gæti fengið Þjóðverja til að kvelja Dani dálítið með okkar pólitisku málum, en því mun ekki vera svo hægt að koma í kríng. Þeir í hertogadæmunum hafa aldrei verið með okkur og er það þó merkilegt, því eiginlega er sami málstaður beggja að nokkru leyti. Eg verð þó að segja yður, að um ferð mína til Kielar þagnaði niður, og síðan hefi eg heyrt eptir Regenburg, að hann hafi ætlazt til eg yrði lector með 1000 rd. launum, en eg hafi ekki viljað. Það er nú að sönnu satt, að eg hefði líklega varla gengið að því, en samt hefir þetta aldrei komið í samníng okkar á milli, svo líklegt er að þetta sé sagt svona til þess að slá í botninn.

Berið þér kæra kveðju frá okkur til föður yðar, systur og ástkærrar frúar.

Yðar einlægur heiðrari

Jón Sigurðsson.

150.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Khöfn 12. Oktbr. 1860.

Kæri góði bróðir minn.

Fallega var það gert af þér, að minnast mín með seðli, þó eg ætti það reyndar manna minnst skilið, því eg má segja eins og þú segir í sögu Axlar-Björns: Enginn er verri en Ormur á Hnerri — enginn er latari en eg að skrifa kunníngjum, og eg svæfi samvizkuna í því efni svosem eg get.

Auðséð er það, að Þjóðólfi er ekki vel við ykkur, en það var nú líka auðfundið, að orsökin til þess að Íslendíngur var stofnaður var þó óvild við Jón Guðmundsson, ekki kannske svo mikið hjá þér, því þú ert

hæglyndur maður og sígur á, en hjá Halldóri og Pétrí Guðjónssyni og Einari prentara held eg að sinnislagið hafi ekki verið sem allra bróðurlegast. En þessi grein um Guðmund kíkir og þig var svo sjofel, að hún hefir vakið margra indignation, rétt einsog um árið þegar Norðri jafnaði saman Jóni Guðmundssyni og Sölva. En hvað um gildir, þið eigið þó að muna til þess, að hin almennu mál eru það sem um er að ræða, og minnist þess sem Úlfur hinn rauði sagði á Orminum: Skjótið heldur þángað sem meiri er þörfin.

Það var mér kært, að þér líkaði vel ritgjörðin um lögsögumenn og lögmenn. Eg hugsaði að fá aðra eins um hirðstjóra ef guð lofar og þriðja bindi Safnsins kæmi út, en nú eru ekki minni bágindin hèr, því Guðbrandur og Konráð eru nú reiðir, og geta nú ekki komið saman, og eins er Guðbrandur og Gísli.

Að skrifa Íslands sögu væri reyndar hægt, sem væri betri en ekkert, en ætti hún að vera stór og fróðleg væri það ekki gaman enn, af því undirbúníng mikinn vantar. En á hverju á eg að lifa á meðan eg er að semja? Á almanakinu get eg ekki lifað, einsog Norðri hélt.

Vænt væri ef þú vildir nú skrifa laglega ritgjörð um Bókmentafélagið í »Íslendíngi«. Það ætlar nú að visna upp aptur, af því svo fáir gánga í það en margir úr. Margir deyja þaraðauki. Eg vildi gjarnan halda áfram ef kostur væri, og þykir mér það ekki lítil framför, að við höfum nú árstekjur á fjórðu þúsund dala, sem áður voru svosem 7—800. Ef félagsmenn bara vildu borga og við fengjum smásaman fleiri eða jafnmarga og úr færi, þá væri eg ánægður, og þá gæti smásaman orðið gefið út það sem okkur vanhagar, sem er veraldarsaga og góð landafræði. Þá gæti kannske Íslands saga og Íslands lýsing komizt á fót með tímanum. En nú sem stendur þykir mér bráðust nauðsyn að fá undirbúníngsrit og söfn og þesskonar, til þess

grundvöllur verði lagður. Þessvegna er svo áríðandi að hafa landshagsskýrslur, stjórnartíðindi o. s. frv. því annars fengi enginn neitt að vita hvernig liði.

Þetta verður þú nú, bróðir, að láta þér nægja um sinn.

Með kærri kveðju okkar allra til þín og þinna ástkæru.

Þinn einlægur vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

## 151.

### Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 1. November 1860.

Háttvirti kæri herra prófessor Maurer.

Af því sem okkur hefir farið á milli um sögusafn Jóns Árnasonar, þá ætla eg að segja yður sem fyrst fréttirnar um, hvernig því reiddi af í Bókmentafélaginu. Við héldum fund í gær, og var fjölmennur (29 á fundi). Eptir töluvert kapp, helzt frá Gísla Brynjúlfssyni, sem vildi eyða uppástúngu okkar, var samþykkt að við skyldum mega semja við Hinr. Buchh(andlung) uppá þá skilmála sem við vorum orðnir ásáttir um:

a) 550 rd. fyrir hverjar 20 arkir heptar, frítt sendar.
b) Þar af borga 300r. þrem mánuðum eptir móttöku hvers heptis.
c) 250 rd. liqviderast í bókum og millireikníngi,
d) þó svo, að borgaðar verði eptirstöðvarnar ekki seinna en 4—5 árum eptir að seinasta hepti er út komið.

Þetta er hérumbil aðalefni »traktatsins«, og var uppástúngan samþykkt með c. 24 móti 5. Það var, einsog þér sjáið, heiðarlegur sigur, enda finnst mér líka samningurinn vera sanngjarn fyrir félagið. Eg hafði

nú áður haft embættismenn deildarinnar í ráðum með mér, og smásaman undirbúið hvað eg gat. Það var líka heppilegt að Arnljótur er enn í sinni Grænlands ferð, því annars hefði hann styrkt mótstöðuflokkinn. Eg skrifa nú Hinr. Buchh(andlung) um þetta prívat ávísun í dag.

Hér er annars ekkert að frétta, nema þetta sama gamla.

Eitt annað mál er enn sem eg vildi nefna við yður. Á fundi félagsins í vor urðu menn ekki ásáttir um, hvern velja skyldi til að semja Skírni, því mönnum líkaði ekki við Arnljót, og enginn annar hafði meira traust. Þá varð út úr, að mér sem forseta var falið á hendur að fá til mann. Nú hefir þar að rekið, að Guðbrandur ætlar að taka að sér verkið, en eg á að styrkja hann hvað eg get. Þá datt okkur í hug, hvort þér mundið ekki vera fús til að hjálpa okkur með Þýzkaland, og semja fyrir okkur um það stutta skýrslu sem yður líkaði, en við gætum svo snúið henni. Þér eruð svo kunnugur, að þér getið hérumbil séð hversu laung skýrslan skyldi vera, en ekki þyrfti hún að koma frá yður fyr en svo sem seinast í Januar eða þar um bil. Mér þætti ofur vænt um, ef þér gætið hugsað um þetta, því Guðbrandur er eiginlega ekki pólitiskur, eins og þér vitið, og hefir reyndar tekið þetta að sér nokkurn part af góðsemd við mig. Ekki þarfyrir, að hann er eins góður í þesskonar efnum eins og flestir aðrir, og mér þykir hann skrifa liðlega. Eg byrla mér nú inn, eins og þér getið nærri, að eg sé pólitiskur maður, en eg á örðugt með að fá tækifæri til að setja mig svo inn í málin, að eg geti samið nokkuð áreiðanlegt.

Eg man ekki hvort eg sagði yður frá, að Benedikt assessor Sveinsson og eg höfðum skrifað stjórninni og beðið um 1000r styrk árlega í þrjú ár, til að semja kritiskan texta af Jónsbók eptir handritum, eða undirbúa útgáfu hennar. Eptir eitthvað tveggja ára send-

ingar fram og aptur milli yfirvaldanna á Íslandi og stjórnarinnar fengum við nú *nei* um daginn. Ástæðan til þess er sú, að stjórnin er hrædd um að ný útgáfa tefi fyrir aftekníng lögbókarinnar. Þetta sýnist mér nú í sjálfu sér vitleysa, því ekkert er ljósara en það, að alþíng mundi með ástæðum geta neitað að samþykkja aftekníng þeirrar bókar, sem það vissi ekki authentisk hvernig væri. En aðalatriðið er það, að eigi íslenzkir lagamenn að vita nokkurn fót fyrir því sem þeir fara með úr Jónsbók, þá þurfa þeir reglulegan texta og kritiskt apparat við bókina, og hverjum skyldi liggja nær en justitsministerio að gjöra þetta og koma því til leiðar? En svona er þessi danska smámunasemi. Eg fyrir mitt leyti varð að hálfu leyti feginn, því það er hundaþrælkun að fást við Jónsbók, en þegar eg sé aðferðina, þá vaknar kapp hjá mér til að koma því fram og kvelja hlutaðeigendur. Mér hefir dottið í hug, ef maður gæti fengið tilboð annarstaðar að, rétt pro forma í rauninni, því maður gæti varla að minni meiníngu tekið móti því í verunni, hvort þeir mundu þá ekki skammast sín. Hvernig lízt yður á það? Annars er það einfaldasta, að fara í alþíng með málið og skýra frá því þar.

Forlátið mér þessar línur. Heilsið ástsamlega frú yðar elskulegri, föður og systur, frá okkur hér.

Yðar einlægur vin og heiðrari

Jón Sigurðsson.

152.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Khöfn 28. Febr. 1861.

Elskulegi bróðir.

. . . Rektor skrifar þér um sig betur en eg get. Hann er alltaf hálfórólegur, og er það slæmt, því hann skapar

sér með því mart andstreymi sjálfur. Þessi morositas er líklega skólakennara skap, og rigiditas. Það mun líka vera vorkunn, því það er víst enginn hægðarleikur að gera ok skólans sætt og hans byrði létta. Hér er í þessari tíð mikið jagazt um skólakennslu og álögur á piltum, það lítur út sem rektor vili hafa minni þembíng og meira frelsi í kennslunni, t. d. í latínu og grísku, en hvað nú verður þegar heim kemur veit eg ekki.

Harður ertu við þá blaðamennina, og okkur alla. Þú verður þó fyrst að gá að því, að ekki geta allir *gjört* mikið. Sumir verða að skrifa og kjapta, t. a. m. einsog eg og mínir líkar, til að gjöra eitthvað, og eg þykist með því hafa gjört mikið, og einmitt það sem er conditio sine qua non. Þó við séum enn echo af Danmörk, það er satt, þá getur þú ekki annars vænt um sinn, en Danmörk er líka að sínu leyti ekki original, og svo mun mega segja um fleiri. Enda er ekki einhlítt þó maður sé original, því það er ekki allt gott, og eg þekki menn, sem eru auðsjáanlega að bögglast við að koma alltaf með eitthvað nýtt, en verða með því sérvitrir og »tyrfnir«. Það finnst mér hjá sumum frá seinustu tíð á Bessastöðum og fyrstu tíð í Rvík, þegar þeir voru að leggja sig eptir »lífinu«.

Mér kemur ekki til hugar, að biðja stjórninni vægðar hjá ykkur, en einúngis að þið gáið að því, að þið látið koma höggin á hana, en ekki á ykkur sjálfa. Þið megið heldur ekki ætlast til að allt falli jafnskjótt í ljúfa löð og þið kvakið, en þið verðið að hafa þolinmæði og nudda alltaf á ýmsa bóga, eins og við í pólitíkinni, og undireins *með* okkur, en þið megið ekki setja upp fýlusnúð á ykkur við hvað eina.

Það er nú eitt, að þú þarft að gjöra allt til að útvega okkur menn í Bókmentafélagið og styrk til að halda áfram Félagsritum o. s. frv. — þá gjörðir þú þarft verk. Þú sendir okkur ritgjörð fyrst, en síðan aldrei til sögunnar meir! —

Ef þú skrifar vestur, þá getur þú heilsað og sagt að okkur líði vel. Siggi litli er frískur og efnilegur drengur og gengur nógu vel að læra, hann er sinnugur allvel, en verður líklega ekki skarpur eða næmur í sérlegu móti.

Vertu ætíð blessaður með þínum öllum.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

153.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Khöfn 28. Febr. 1861.

Elskulegi vin og bróðir.

Til þess að heilsa uppá þig og láta þig vita hvernig gengur, dettur mér í hug að slá utan um Statscalender til þín, og biðja þig vel að virða. En um Eyvind útilegumann þekki eg alls ekkert, nema »Eyvindarkofaver« á kortinu, og þætti þó víst mörgum gaman að fá eins góða sögu um hann einsog um Axlarbjörn. Ef þú skrifar æfisögu mína, þá geng eg líklega aptur til að lesa hana.

Mér sýnist Íslendíngur vera enda að batna, en þó sé eg enga ástæðu til að taka þá stefnu sem Grímur bendir til. Illt er og ómögulegt að fara fram á Grágásar öld, en illara og ómannlegt er að fara aptur á aldamóta-árin; það er með öðrum orðum að leggja niður alþíng og sofna allir nema Grímur, einsog Jón Eiríksson og Magnús Stephensen. Mér þykir Íslendíngur svo linur í svarinu, að hann sé einsog sleginn af þeim sannleika, sem G. Þ. kemur með.

Vænt er að eiga von á að þú talir vel fyrir Bókmentafélaginu. Eg vona nú að fari að batna í ári, og menn lifni við, en þá þyrfti þess, að þið kröptuglega

og með alvöru fylgdið framför Íslands, en létið það ekki vera samtakalausa theori, einsog í kláðamálinu.

Mikið árans mótlæti er nú, að alþíng skyldi svíkja mig og sjálft sig í fyrra, og gjöra ekkert til að bæta fjárrækt o. s. frv. Hefði það fengizt til þess, þá hefði mátt fá nú svosem 5000 rd. á ári til þess, og gjöra mart gagn, nú gat eg ekkert áunnið, hvað sem eg hefi reynt. Það eina sem kemur lífi í, er það, að nú verður líklega nefnd sett í fjárhagsmálinu, og er það líklega til einhvers gott. Það var þó launamálið sem reið baggamuninn, þó þeir væri óánægðir sumir.

Það sem mest ríður á er, að við gætum verið samheldnir, og veizt samhuga að þeim málunum, sem mest ríður á. Þarhjá held eg nú reyndar, að aldrei hefðist mál okkar eins vel fram, einsog ef við hefðum samtök okkar á milli, og árlegt peníngagjald, til að koma fram því sem þyrfti, og væri kosnir foríngjar til stjórnar á því gjaldi.

Forláttu þetta risp og vertu með öllum þínum kærlega kvaddur.

Þinn einlægur vin og bróðir
Jón Sigurðsson.

## 154.

### Til Þórðar Jónassens háyfirdómara.

Khöfn 28. Febr. 1861.

Háttvirti góði etazráð.

Kærar þakkir fyrir þitt góða bréf seinasta, og mart fyrirfaranda. Um Stephán hefi eg ekkert að segja nema eg hefi sagt honum að hann megi vera búinn undir með attesti, og hann þykist vera stæltur.

Commissar(ius) Arnljótur slapp þó úr dauðans kverkum, því þú veizt að »den drukner ikke som hænges

skal«, en eitthvað hefir hann orðið hart úti, því hann var mikill Angloman áður, en er nú allt annað, og fái þið líklega snefil af því á alþíngi.

Eg má þakka þér fyrir uppástúngur þínar í haust, því söm var þín gerð, þó Casse svikist um allt á eptir. Eg hefi gjört allskonar tilraunir en ekkert hjálpað, meðfram eigna eg það því, að mér þykir Oddg(eir) linur í því máli, þar sem hann þyrfti einmitt alls fylgis með. Nokkuð kemur líka af stífni og ólagi nefndarmanna, en nú fáum við að sjá. Tíð á sér tíma, og ef þú verður stiptamtmaður þá vona eg þú hugsir betur eptir því máli, því það er áríðanda, og nú eru Sunnlendíngar án efa meðtækilegir fyrir, ef eitthvað yrði gjört. Eg vona þú takir ekki aptur Ansögning þína og þolir heldur mátið, ef svo skyldi verða.

Nú er sagt að standi til að setja nefnd um Íslands málefni, einkum fjárhaginn, en hvað verður veit maður ekki. Sagt er að Finsen sé nú farinn að kvarta um, að þraungt sé í búi, en það hefði hann getað sagt sér fyr. Grímur Thomsen er nú hans alter ego. . . .

Forláttu miða þenna, og skilaðu kveðju okkar kærlegri til allra þinna.

Þinn einlægur vin og heiðrari

Jón Sigurðsson.

155.

Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 3. Marts 1861.

Háttvirti kæri herra prófessor Maurer.

Eptir að eg fékk yðar seinasta góða bréf, er eg þakka yður ástsamlega, heyrði eg þér væri𝑑 sjúkur, en nú segir Guðbrandur mér þér séuð orðinn betri, og gleður það mig að heyra. Eg tek því að gala til yðar,

þó eg hafi reyndar efni ekki sérlegt, nema að segja yður að okkur hér líður allvel, einsog fyrri.

Guðbrandur hefir sagt mér frá nokkrum atriðum, sem þér æskið upplýsínga um í verzlunarsögu Íslands, en mér þyki þér spyrja nokkuð þúngt. Eg hefi opt hugsað um, á hvern hátt helzt eg gæti unnið yður til hagræðis í því máli, en eg skil ekki það verði með greiðara móti en því, annaðhvort ef þér kæmið híngað, svo við gætum borið okkur saman, eða og að eg safnaði pjönkum mínum svo vel sem eg gæti, og sendi yður, svo þér gætið notað þær eptir yðar vild. Ef yður væri nokkur þægð í því, þá gætum við Guðbrandur safnað saman þessu og sent yður þegar vorar og ferðir falla. En ef þess er von að þér getið komið, þá bíður það yðar. Þér hafið gott af að koma híngað og vera hér um stund, því bæði er að þér getið orðið varir við hermennsku Dana, og svo get eg æft mig í þýzku og þér í íslenzku. Harður fiskur er til í búinu, og »Mjóni« er í góðu gengi.

Eg verð helzt að segja yður um málefni Íslands, og er þá það að segja, að nú segja menn sé í húfi að setja nefnd um málefni Íslands, einkum um fjárhagsefnin. Hverir í þeirri nefnd verða, veit eg eigi enn, en líklegt er þar í verði Danir og Íslendíngar hvorutveggju, mun svo til ætlazt, að lagt verði það mál fyrir alþíng í sumar. Ekki hefi eg neina fregn um, hvort eg verði í þeirri nefnd, eða ekki, en eg læt mér jafnkært hvað sem gjörist, þó eg kynni ef til vill að eiga auðveldara ef eg væri í nefndinni. Eg gjöri nú samt ráð fyrir, að eg yrði þar einn á bandi, því þér vitið, að þeir af löndum vorum sem næst standa eru deigir fyrir Dönum, og vilja ekki leggja í sölurnar vináttu þeirra. Eg á nú í því tilliti betra, því eg hefi aldrei átt mikið af þeirri vináttu. Verði eg ekki í nefndinni hugsa eg að geta komið fram hinu sama, þó nokkru örðugra verði. Með sjálfum mér ollir það mér mestum vafa, hversu

lángt maður þurfi að fara, eða eigi að fara í málið nú sem stendur. Eg hefi nefnilega litla von um, með þeim veiku kröptum sem eru á okkar hlið, að hafa fram kröfur okkar í einu, en þá kemur uppá, hvort maður á að vinna allt til að Ísland fái fjárhag sinn, eða að maður á heldur að bíða og jagast enn um tíma. Eg er nú reyndar viss um, að Íslandi fer aldrei fram að gagni meðan Danir skammta því úr hnefa, en hitt er og einnig víst, að okkur vantar mikið til að geta verið *vissir* um, að við séum færir um að stjórna okkur sjálfir. Ótti minn í því efni hefir heldur vaxið við fjárkláðamálið, heldur en hitt. Því er ver, að geðþótti einstakra manna gengur fyrir, svo þeir gæta hans meira en almennra mála, og þar sem lítið afl er, þar er hægt að sundra. Eg vil samt vona að þetta jafni sig, og menn geti þá komið sér saman um að minnsta kosti reservationir, þar sem ekki næst meira, og síðan fært sig betur uppá skaptið. Það er nú annars ekki skemmtilegt fyrir okkur að eiga að vega sigur við okkur yfirsterkara með orðum einum og með hjálp embættismanna og stúdenta mestpart, sem hafa hundrað hvatir til að aptra sér, og eiga engan að út í frá, einsog hertogadæmin, því Norðmenn eru fúsari til að snúast móti okkur en með, og þér hafið án efa tekið eptir — að minnsta kosti finnst mér svo — að þó Norðmenn ætíð gángi við frændsemi að oss, þá eru þeir ekki óráðríkari en Danir í viðskiptum, og hafa ekki verið. . . .

Guðbrandur hefir kannske sagt yður frá Jóni, syni Ásgeirs í Kollafjarðarnesi, að hann er hér, og er að hugsa um laxveiðar. Hann ætlar til Noregs að skoða Mandalslax.

Með kærum kveðjum frá okkur til yðar og allra yðar ástkæru.

Yðar einlægur vin og heiðrari

Jón Sigurðsson.

156.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Khöfn 18. April 1861.

Elskulegi bróðir.

Eg sendi þér nú blöðin gömlu, og ýmsa pjesa að auki, svo læt eg fylgja með Bókmentafélags dóti blöð með uppdráttum, sem þú mátt gefa eða eiga eptir því sem þér lízt.

Ekki veit eg, elskan mín, hvað þú ert að tala um launamálið við mig, og drótta að mér, að eg sé á móti ykkur. Ertu þá að halda, að eg segi það af falsi, þegar eg heimta, að þið fáið einsog embættismenn í ykkar stétt í Danmörku? Eða get eg að því gert, að hinir, embættismennirnir sjálfir, mæla móti þessu, og vilja hafa eitthvað? — Nú fái þið eina 6000 dali rúma til skiptanna, og án þess eg teli eptir ykkur, þá verð eg þó að segja þér, að eg þykist hafa ástæðu til að vænta þess að embættismenn fylgdi að fleiru en launabótum. Hefir þú tekið eptir því, að nú gengur hérumbil þriðjúngi meira í laun embættismanna á Íslandi, en fyrir 10 árum síðan, og kostnaður til allra annara hluta stendur í stað. Það sýnir, að þó seigt gángi, þá eru embættismennirnir fremstir við brunninn, og fá ætíð eitthvað, en »dónarnir« (við) fáum ekkert af því sem við biðjum um nema þetta, fyr en svona seint og síðar meir, því þessi »Intelligents« er svo skrítin, að hún getur ekki einusinni komið sér að að vera með dónunum í að biðja um jafnrétti, heldur vill hún þá hafa skammtað, þegar þeir vilja taka sem dýpst í árinni. Þetta kalla eg nú eitthvað mislyndi hjá Intelligentsen, og eg er hræddur um þú í þessu efni gángir eptir einhverjum dómum frá þeirri rángsnúnu Intelligents, sem þú ættir að vera of góður og of skynsamur til að fylgja.

Rektor er hálfhnugginn út af missi konu sinnar, það er bágt, að hann skyldi missa hana nú, þegar hann var fyrst farinn að skilja hvað hann átti.

Verið þið öll blessuð.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

157.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn 20. April 61.

Höistærede kjære Hr. Pastor Gudmundsen.

. . . Det er uvist om jeg reiser til Island iaar. Uagtet jeg gjerne önskede det, er Reisen bleven saa kostbar med Dampskibet, at jeg kan ikke slippe med mine Diæter, og da jeg tillige næppe har kunnet arbeide mig op siden sidste Reise i det jeg her har at bestille og jeg lever af, saa er jeg nödt til at være lidt forsigtig. Den mellemste Session er desuden den, hvorfra Althingsmanden helst kan blive borte. Nu er der forövrigt en vigtig Sag igjære, da der skal nedsættes en Commission for at tage Islands finantsielle Forhold i Betragtning, og sandsynligviis forberede Adskillelse af Islands Finantsvæsen fra Danmarks. Hvis denne Sag kommer for paa Althinget, havde jeg gjerne önsket at være der. . . .

Jón Sigurðsson.

158.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Khöfn 1. Juni 1861.

Elskulegi bróðir.

Kærar þakkir fyrir bréf þitt seinasta, því eg kippi mér ekki upp við þó eg geti ekki sannfært þig um að

alþíng sé saklaust af blóði ykkar, hinna réttlátu, en það er eitt sem heyrir til ykkar aðferðar, að þið eruð ybbnir við allt og alla, en þykist of góðir til að vera með að styrkja þá sem gjarnan vildu koma Íslandi úr þessari súpu. Hvernig getur þú ætlazt til, að alþíng sem engin skildíngsráð hefir, veiti peninga? Er það ekki von það segi: eg segi ekkert um það, fyr en eg fæ peníngaráð, eg segi einúngis það, að íslenzkir embættismenn eiga sama rétt og hinir dönsku. Það var tilgángur stjórnarinnar að skammta einsog vant er úr hnefa, og láta alþíng samþykkja, en þið eruð ætíð fúsir að áfellast alþíng, hver sem í hlut á, ef það gjörir ekki allt, en að hjálpa því sem er í ykkar eigið gagn, þar til er ekki að hugsa að fá ykkur. Þessvegna fer eins og fer. Hvað áttir þú að fá eptir frumvarpi stjórnarinnar? ekki neitt! — Þú segir að embættismanna launin hafi stigið, af því nauðsynjar hafi stigið. — En einsog þú svarar þér sjálfur, þá hafa þær stigið jafnt fyrir alla, því fá þá sumir launaviðbót en sumir ekki? — En hafa þá ekki líka almennar landsins nauðsynjar vaxið? — þurfum við ekki margs með til umbóta og fáum ekkert af? Æðstu yfirmennirnir gánga fyrir, ekki fyrir tillögur alþíngis, heldur af því stjórnin dregur þá fram, og allir hinir lægri eru svo klókir, að þeir kenna alþíngi um og skamma það og gera allt til að verka móti því. Það gæti gjarnan verið, að gjörandi væri að stofna einskonar landssjóð, en það er hæpið fyrst og fremst að ná samskotum, þar sem ekki einúngis stjórnin og embættismenn ekki eru með heldur móti, og ef alþíng ætti þá privat að standa fyrir, þ. e. meiri hlutinn eptir því sem hann verður, þá þarf meiri moderation en nú tíðkast á voru landi ef vel ætti að fara. — Verkin eru margvísleg, og þau liggja fyrir handa *öllum*, hverjum á sinn hátt, en það er ekki gott að hver horfi á hina og segi með fariseisku drambi: »mikið fjandi eru þeir vitlausir allir saman!« — Ekki hefi eg vaðið í launa-

bótunum, en hvað stoðar um það að tala, maður verður að taka þann veg sem fyrir liggur. Eg fyrir mitt leyti gjöri hvað eg get, eptir minni beztu sannfæríngu, en þegar menn hvorki vilja fylgja með, né vera á undan, svo eg geti fylgt þeim, þá verð eg að fara með veggjum.

Mart mætti hérum tala ef tíminn leyfði, en eg held nú nóg komið, og vildi óska þú létir undan í því, að vera meira activ með okkur, og ekki vera óánægður með allt og alla. Þá er eg viss um að allt kæmi í bjartara ljós fyrir þér, og þessar dimmu hugsanir flýi. Eg kasta þeim burt, því þær eru ekki nema til að kvelja sjálfan sig.

Kysstu konu og krakka.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

159.

Til Þórðar Jónassens háyfirdómara.

Khöfn 1. Juni 1861.

Háttvirti kæri vin.

Þó eg geti ekki svarað þér einu orði til þúsund í bréfaskriptunum, þá má ekki minna vera en eg þakki þér fyrir þitt ágæta bréf seinasta og eins hin fyrri. Eg er líka reiður við þig, að þú hefir nú sagt frá þér stiptamtmannsdæminu og beðið um danskan kammerjúnk. Þú hefðir átt að biðja um uppástúngur alþíngis, ef þú vildir ekki halda stiptamtmannsdæminu. Þú ættir, ef þú værir conseqvent, að gleðjast yfir að eg kæmi ekki á þíng, ef eg framfylgdi sama og áður og þú á móti; en meiníngin er, að þó þú hafir verið móti mér ofaná, þá hefir þú líklega verið með mér niðrí. Láttu það þá koma uppúr!

Það kann vera, að Finsen verði stiptamtmaður, en eg efast samt um það hann takist það á hendur. Eg er hræddur um, að það embætti geti ekki staðizt, því það er politisk Absurditet í rauninni: embættismaður sem er einskonar gouverneur í aðra röndina, subal tern í aðra, commissarius í hina þriðju, klerkur í fjórðu og skólamaður í fimmtu. Landstjórn er það eina praktiska, með jarli og ráðaneyti sem hafi ábyrgð fyrir alþingi. Látum svo vera að Arnljótur yrði minister, þá sæist hvað hann gæti afrekað. Hann hefir víst átt um kúlur að kemba hjá Englendíngum því hann er enginn Angloman nú, sem áður var. Það er gaman að þessum »trimmers«, sem eru sitt árið á hverjum endanum. Grímur setti hann nú til að skrifa Skírni að ári, en eg er eins og þessir ministrar, sem gjarnan vilja halda í »sálirnar«, að eg segi ekki af mér samt, í þeirri von, að Arnl(jótur) verði nú slesvigholsteinskur næst, Grími til dýrðar og sér til sæmdar. — Nú má þá Jón Guðm(undsson) herða á að sýngja Melsteð niður, því ekki hreif ræðan sú í hitt eð fyrra á »þeim höfðíngja«. Geti þið ekki fengið kláðaspursmálið inn í fjárræktarspursmálið eptir uppástúngu þinni í fyrra. Að fara nú að setja verði upp eptir fjöllum væri nú að minni meiníngu hreint til að kasta út peníngum. Væri hætta, þá dygði það ekki, en sé engin hætta er það hlægilegt. Böðin ein eru einhlít og verðir eru ekki til annars en að gjöra menn óhulta án þess að þeir viti neitt hvað líður fyr en kláðinn kannske dynur yfir þá, eins og Húnvetninga forðum.

Eg sendi þér Statskalender, en forláttu að það er krukkað í hann. Hæstaréttartíðindi fara til alþingis.

Berðu kæra kveðju frú þinni elskulegri og öllum þínum ástkæru.

Þinn einlægur vin

Jón Sigurðsson.

160.

Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 4. August 1861.

Háttvirti kæri herra prófessor Maurer.

Guðbrandur færir yður nú þetta litla bréf, og segir yður um leið allar fréttir héðan og af Íslandi, sem yður fýsir að vita; hann er enda útbúinn með prófarkir af ókomnum bókum, svo þér verðið nú á undan tímanum í íslenzkum bókfræðum. Þér sjáið á öllum lotum, að allt stendur í vorum málum hérumbil við það sama og fyr, þó líður tíminn og með honum færist nær því sem óumflýjanlegt verður, að eitthvað verði að gjöra, hversu treg sem stjórnin er til þess. Nú herti að, þar sem Melsteð gamli féll frá, en Þórður Jónasson tekur við öllum óskilunum, og er nú Factotum hjá oss; þér getið þar af ráðið, að allt gengur sjálfala úti, öldúngis eins og á landnámstíðum. Þessi nefnd, sem einusinni átti að verða um fjárhagsmálin, er á sama stigi og fyr, að hún er ekki tilbúin enn, og óvíst hvenær það verður; þó er líklegt það verði annaðhvort í haust, svona undir það að ríkisþíngið á að koma saman, nema svo sé, að eitthvað komi uppá, sem menn vita nú ekki, svosem ráðgjafaskipti eða þvílíkt.

Berið þér kæra kveðju föður yðar, systur og elskulegri frú.

Yðar einlægur heiðrari
Jón Sigurðsson

161.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 9. Septbr. 1861.

Elskulegi vin og bróðir.

Það hefir allt orðið í skömm fyrir mér að skrifa þér til í sumar, nema fáar línur í vor. . . .

Okkur hér líður allvel, þó er eg stundum að hugsa um, hvort eg hafi ekki gjört vitlaust í að reyna ekki betur að fá embætti þegar mér hefir gefizt kostur á. Svona er það — þú óskaðir kannske þú hefðir aldrei tekið við embætti, og það er líka bezt ef það getur gengið, en það er svo resikerlegt fyrir fátæka menn. Fyrir mig er það nú ekki sízt, því eg hefi nokkuð þúngan skatt að borga, að brúka tíma minn til margs sem ekkert gefur af sér, og vera þar að auki, einsog þú veizt, enginn búmaður. Einkum eru það Félagsritin, sem pína mig, því á annan veginn þykist eg sannfærður um þau sé ómissandi, en à hinn bóginn bera þau sig ekki og þó er ekki mögulegt að kvarta mikið yfir því, af því að þá spillir það enn meira. Ekki vænti eg þú getir áunnið þeim styrk manna þar eystra? Eg skrifa um það hinum og þessum, til að reyna hvað reynt verður, dugi það ekki, svo fara þau til feðra sinna, og eg þvæ mínar hendur. Nú sem stendur erum við í skuld um árið í fyrra og núna, það er svosem 400 rd., en það er ekkert ef nokkuð almennur styrkur fengist — þá gætum við líka því betur tekið okkur til, því alltaf fáum við hér nokkra með okkur, þó þeir fari þegar þeir eldast eða fá embætti og verði þá stundum móti okkur. Það er reglulega gaman að sjá, hvað þeir breytast sumir allt í einu þegar embættið kemur.

Eg hefi frétt frá alþíngi, og þykir mér það ekkert slæmt sem eg hefi heyrt yfir höfuð að tala, en mig lángaði til ef guð lofar að skrifa kritik um þíngið í vetur og prenta í Félagsritum, og lesa þar yfir þeim um tímaeyðsluna einkum, því það lítur út meir og meir sem sumir sé að treina þíngið sem mest. Eg er nú orðinn svo gamall að eg get sagt þeim allt, einsog afi þeirra, og þó þeir bölvi mér, þá tek eg mér það ekki nærri. Það eru nú komin einkum tvö mál, sem þeir hafa bölvað mér fyrir, verzlanin og kláðinn, og mun

eg hafa rétt í hvorutveggja. Ætli þeir taki nú eptir því, að Havstein er búinn að borga hérumbil 20,000 dali á fjórum árum úr jafnaðarsjóðinum, auk skaðabótanna handa Húnvetníngum, og þó hefir fjárrækt eystra og nyrðra ekkert farið fram, og féð fækkað, en fyrir sunnan hafa þeir betra fé en áður, hvað lengi sem það helzt — en eg vona þó það haldist — og hafa haldið meiri stofni en á horfðist. En hefði þeir fylgt mínum ráðum frá upphafi, þá hefði þeir enga skepnu þurft að missa sjúkdómsins vegna, og getað haft betra fé en áður, og það á Dana kostnað.

Það hefir staðið til, að sett yrði nefnd um fjárhagsmál Íslands, en ekki er það enn orðið, þó segja menn það sé nú þegar komið í kríng. Það er ekki líklegt, að mikið verði þarvið að ávinna, en það liggur samt bersýnilega fyrir fyr eða síðar. Mest væri varið í það, ef menn fengi Íslendínga til að vera samtaka til þess sem til þeirra framfara horfir, og til þess að þora að treysta sér og sínum, en það þora þeir ekki. Eg er viss um, að landið gæti vel borið sig sjálft, ef vel væri á haldið, en hvort það getur það með því að halda öllu í gamla juridiska slendrianinu, það er eg ekki viss í.

Danir eru alltaf að höggva smátt og smátt í steininn við Þjóðverja, en gengur lítið og eg held minna en lítið. Þeir þykjast miklir og hraustir, en eg óttast fyrir að annaðhvort megi þeir sættast við Þjóðverja sína, eða sprengja sig.

Forláttu mér mas þetta. Kysstu ástsamlega frá okkur konu og dóttur og vertu alla tíma blessaður.

Þinn einlægur vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

162.

Til Sigurðar Gunnarssonar, síðar próf. á Hallormsstað.

Khöfn 9. Septbr. 1861.

Elskulegi vin.

Þó lángt sé síðan eg fór að hugsa til þín með bréf, þá hefir ætíð orðið eitthvað í vegi, svo nú hugsar þú sjálfsagt að eg sé með einhverjum andlegum pestarkláða, en það er þó ekki, því eg segi þér satt, að mér er svo varið, að eg er ekkert vílsamur, þegar eg hefi mína fullu og föstu sannfæríngu. Þó þið bölvið og ragnið, ásakið mig fyrir vitleysu, þverhöfðaskap, ókunnugleik á landsins hag, mútuþágur eða hvað sem er, þá tek eg mér það létt, því eg veit og hefi lengi vitað, að eg hafði rétt fyrir mér í þessu máli. Þú mátt nærri geta, að eg er ekki sá fauti, að leggja útí þetta mál án þess að hugsa um það áður, og hefði eg haft vald til að grípa inn í það 1857, þá skyldir þú hafa séð, að farið hefði öðruvísi, en eptir þann usla sem gjörður var um tvö ár, eptir allar lygafregnirnar til ykkar, eptir að búið var að koma ykkur á trúna fasta, þá var ekki gaman við að eiga, og þó eg eða við, sem þú segir, hefðum hopað á hæli, yfirunnir, þá hefði það ekkert undur verið. Þið hrópuðuð, hvort sem var, að hver kind skyldi drepast, og þið skylduð borga. En nú eru þau endalok, að ef satt skal segja, þá sýndum við að lækníngarnar eru bæði mögulegar og gagnlegar. Við frelsuðum hérumbil 50,000 fjár — meira var ekki til — sem annars hefði verið allt dautt nú, og engin kind drapst af sjúkdóminum. Þegar við fórum (eða eg, í Novbr. 1859) var með sanni að segja enginn háski lengur, nema af kláða*sögum*, sem voru annaðhvort lognar hreint, eða með lítilli tilhæfu. Hefði mínum ráðum verið fylgt frá upphafi, þá hefði *allt* orðið læknað. Og kostnaðurinn við okkar ferð varð þó ekki fullar 20,000$^{\text{r}}$, þar sem ætlaðar voru 30 þúsundir. En hvað miklu

dýrara varð það þó ekki hjá því sem hefði þurft, ef eg hefði mátt ráða frá upphafi. Og hvað hafi þið nú ekki borgað? Jafnaðarsjóður ykkar hefir í 4 ár borgað nærri 20,000 rd. *auk* skaðabóta. Sunnlendíngar hafa fengið fé sitt læknað og penínga að auki. Svo hafi þið ekkert unnið nema fellir; Sunnlendíngar eiga betra fé en fyr, og ef þeir halda áfram, þá verða þeir eins góðir eða betri en Norðlíngarnir.

Þetta er nú sannleikurinn, og eg álít mig eiga skilið fyrir frammistöðuna að þið allir saman opinberlega þökkuðuð mér einkanlega og viðurkenndið sannleikann að eg hefði fylgt réttu máli og góðu og ykkar velferðarmáli, og skyldi þið nú ætíð hér eptir hlýða mínum ráðum og fylgja mér fúslega. — Þetta ætti eg nú skilið, en eg vænti samt ekki eptir því. Mér er nóg hér, einsog í verzlunarmálinu, að hrákar og spott heimskíngjanna og óvina minna, og þeirra sem þeim fylgja viljandi eða óviljandi, festir ekki á mér, og að það fer svo á endanum, sem eg hefi spáð, að seinast verður niðurskurðurinn álitinn eins mikil heimska, einsog lækníngarnar nú.

Þú hefir víst ekki séð mikið af kláða, fyrst þú getur undrazt yfir skýrslum »kláðakónganna«, að þeir skyldi meðal annars tala um kláða fyrir austan. Við sögðum ekki annað en það sem beint stendur í embættisskýrslum sýslumanna, því bæði segja þeir frá kláða, og frá að kláðakindur hafi verið drepnar kláða vegna. Hvort þér eða ykkur, eða öðrum »kláðameisturum« þóknast að kalla það drepkláða eða ekki, það get eg ekki að gjört, eg veit það einúngis, að einsog börn ykkar geta fengið kláða og geitur, eins getur fé ykkar fengið það, og þarf ekki að flytja frá Englandi; enda er líka eins hægt að lækna hvorttveggja með réttri aðferð, og að gjöra það að drepkláða með rángri aðferð. Ábyrgðin er þeirra, sem þykjast hafa nóga skynsemina, og hafa hana líka, en láta eitthvað villa

sér sjónir — kannske þeir sé *of* kunnugir, svo að þeirra of mikli kunnugleiki gjöri þá ærða. Þeir sjá ekki skóginn fyrir tómum trjám.

Nei, en að þessu slepptu og öllum skömmum við þig, sem eg ekki meina neitt með, sízt þar eg þykist hafa gjört gagn samkvæmt tilgángi mínum, og þér satt að segja okkar á milli, með meiri heppni en eg vonaði eptir, — þá þykir mér mestu varða um Félagsritin, því eg þykist viss um, að þau hafi gjört gagn og að þurfi á þeim að halda, ef við viljum vinna þjóðfrelsi okkar. Þessvegna bið eg þig fyrir þau, og vil feginn eiga þig að, svo þau geti haldizt við. Mér þykir nú, satt að segja, ekki vorkunn fyrir allt landið, að borga til ritanna svo sem 200 rd. á ári fyrir prentun og pappír, þegar við ritum fyrir ekkert, og eg fyrir mitt leyti get með sanni sagt, að hverja stund sem eg hefi afgángs og hvern skildíng sem eg ekki þarfnast gef eg út til þess, sem eg held geti orðið Íslandi að gagni, og það hefi eg ætíð gjört. Eigi að síður erum við í skuld fyrir prentun og pappír nú og í fyrra, sem er hérumbil 400 rd. — Þú sér þess vegna, að við þurfum á góðum presti að halda, til að tala okkar mál. Nú verð eg að vísu að játa það, að eg segi sannleikann hver sem í hlut á, en þú verður líka að hafa það traust á mér, að eg hugsi um allar kríngumstæður, og því ætti enginn að kasta óheyrt þúngum steini á mig. Stundum má eg þola, að vera svikinn í miðjum klíðum, svosem af Arnljóti og Gísla í hitt eð fyrra, og enda Jóni Guðmundssyni, rétt af tómri hræðslu eða lítilmennsku. Allt þetta gjörir, að eg þarf mikils fylgis með, sem ekki bregzt við hvern þytinn. Ef það tekst að halda hóp, þá er eg viss um með guðs hjálp, að við náum réttindum okkar, þó lángt sé að bíða þess, en það verður því skemmra sem menn styrkja mig betur, og þann litla hóp sem með mér er. Framyfir allt þá megi þið ekki

láta hvern þyt blaðanna eða lausar fregnir og getgátur trufla ykkur.

Eg hefi nú aldrei þurft að biðja þig eins forláts eins og fyrir þennan seðil, en þín einlægni hvetur mig til að svara í sama tón.

Eg er ætíð þinn einlægur elskandi vin

Jón Sigurðsson.

## 163.

### Til dr. Guðbrands Vigfússonar.

Khöfn 21. Septbr. 1861.

Kæri vin.

Núna í þessu fékk eg bréf frá yður, sem eg þakka yður ástsamlega, og svo eg dragi yður ekki lengi þá skrifa eg yður um hæl aptur. Gufuskipið er komið og farið aptur. Fréttir með því voru ekki miklar, en allgóðar. Tíðin hin bezta til lands, en fiskur lítill, og ergo hallæri. Bænarskrár kvað vera á ferðinni um nóga peninga úr ríkissjóði, og Gísli Br(ynjólfsson) var þar framsögumaður. Skagfirðingar segja þeir vili hafa 50,000 dali úr »styrktarsjóðnum«, sem þér vitið að Danir reikna 14000 alls. Faxaflóúngar gera sig ánægða með 7000. Það fréttum við um alþing, að Jón Guðm(undsson) var forseti, og að þing átti að standa til $16^{\underline{da}}$ eða $18^{\underline{da}}$ Aug(ust), héldu þeir þó að mál yrði órædd eptir, svo þér sjáið að þeim hefir orðið skrafdrjúgt. Allt gekk með friði og spekt. Eptir því sem mér skilst mun Bened(ikt) Sveinsson hafa ráðið mestu; hefir þá tónninn líklega verið moderat-bureaukratiskur. Fjárkláðinn hefir verið á fjölunum, einsog þér getið nærri, en nú leit út sem lækníngar eigi að vera í fyrirrúmi, og á að lækna með svo miklum ákafa, að það sem ekki er læknað á 6 vikum á að vera drepið.

Annars er nú þetta mest við ókomnum þorsta, því enginn kláði hefir verið að kalla mátti nú né í fyrra. Eg hefi séð, að ein bænarskrá, og það úr Eyjafirði, biður um að fylgt sé reglum okkar Tschernings. Þér getið nærri, að eg tek mér þetta til inntektar, og sem merki til þess að lækningar verði teknar í lög og sýni sig bæði mögulegar og gagnlegar.

Þeir segja að Arnljótur hafi haft það erindi frá Grími, að eyða stjórnarmálinu, en hafi brugðizt út undan merkjunum og orðið með hinum, og nú lítur út sem þíngið sé stíft í þessu máli, því eg heyri sagt þeir vili nú nýjan þjóðfund og haldi því einu fram. Um fiskiveiðar Frakka eru þeir líka harðir, en negativ — heimta vernd og burtrekstur uppá gamla móðinn. Grímur hefir verið á Íslandi með Dasent, eptir því sem hann kvað hafa sagt: til þess, að sjá um hann kæmist ekki í hendur á þýzkum (Siemsen?) eða íslenzkum(!) Slesvig-Holsteinurum. Hann hefir ekki komið til mín síðan hann kom aptur, svo eg hefi ekki ennþá talað við hann.

Jón Ásgeirsson er hér enn, í góðu gengi (þó hann fái ekki súrt smér og rengi) — Ebbi er helzt hjá honum, og hann hefir fengið sinn skerf af 60r þeim sem Unger sendi yður. Jón fer víst heim með næstu ferð, en hann hefði án efa lyst til að koma suður og hjálpa yður til að koma kálfunum á spenann. Hann er skrambi spælinn síðan hann kom frá Noregi, og þarf eg ekki að færa sönnur á það, því þér getið sjálfur fundið það þegar þér komið. Milbanke ætlar að setjast að í vetur hjá nafna mínum í Gautlöndum; hann hefir hoppað uppá hæstu tinda, þar sem enginn hefir komið fyr nema ernir og hræfuglar, þó veit eg ekki hvort hann hafi hoppað á einum fæti þar upp. Dasent kvað koma með ferðasögu í Oktbr. og margar myndir með, einkanlega verður þar Havstein amtmaður. Grímur kvað ætla að sækja um stiptamtmannsdæmið fyrir hann, svo sæki eg fyrir Jón Pétursson, og menn segja að Jónass(en) sé

nú aptur að hressast, því honum hefir fundizt allt linara fyrir fyrir á alþíngi og mýkra en hann hugsaði. Þér sjáið þessvegna að nógir eru biðlarnir, þó ekkjan sé nokkuð fornfáleg.

Nú man eg ekki meira í þetta sinn, og kveð yður því kærlega.

Yðar einlægur vin

Jón Sigurðsson.

Eg bið að heilsa Möbius þegar þið finnist.

Ferðabók Winklers gengur hér ljósum logum, og við hlæjum þegar við hugsum til W's á hestbaki, og allir að kyssast kríngum hann — liggjandi hjá hjónarúminu og hjónin að taka ráð saman að »snuða« hann — borgandi séra Sigurði á Stað tvenn tvö mörk framyfir sanngirni og réttsýni etc. etc. Það er tragicomiskt að sjá myndina hans, en svona eru þessi grey, sem ekki skynja neitt nema um koppa og kyrnur.

164.

Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 21. Septbr. 1861.

Hæstvirti herra prófessor Maurer.

Þér getið skilið, hvort eg muni renna fyrir yður í ‚fýlunni', að eg var nú sem vaknaði af draumi, þegar eg fékk *annað* bréfið yðar. Eg þakka yður það ástsamlega, og bæði þó, og það gleður mig, að mér skilst þér nú vera allshendis frískur og hress. Eg er það líka, og við hér, en samt lít eg hornauga til yðar þegar þið Guðbrandur eruð við alla búsældina, og smér drýpur af hverju strái hjá ykkur, en þið hafið rjóma og bjór fyrir þorstadrykk. Þið farið líklega aldrei til Óðins, heldur sitið kyrrir í Bayharding.

Mér þykir það ekki undarlegt, þó yður þyki ekki jarðabókin okkar neitt sérlegt dásemdarverk. Eg þykist nú líka viss um, hún verði varla lánglíf, og það er ekki gott, að þurfa að vera að grauta upp aptur í þesskonar verkum. En hvað skal segja, þegar þeir sem eiga hlut að máli hafa hvorki yfirlit eða gáníng á því sem mest á ríður. Hólmapresturinn getur nú um sinn verið ánægður, því clericus clericum non decimat, hann þarf ekkert að gjalda; en það er þó merki til, að bændurnir okkar hafa vit fyrir sér í vissu tilliti, að stjórnin — sem ætlaði að vinna á þessari nýju jarðabók — tapar þó hérumbil 2°/₀ eða rúmlega það, á því sem bændaeignirnar hafa fallið, því tíundarfríu jarðirnar hafa einar stigið mest að tiltölu. — En verst er, þegar á allt er litið, að landið sjálft hefir ekkert unnið, nema ef vera skyldi, að los hefir komizt á gamla dýrleikann, en eigi að gánga jafnt yfir alla, þá þarf enn nýja jarðabók, jafnari en þessa, og byggða á skynsamlegu og sanngjörnu mati, og þar hjá einfaldari, því það er ekki okkar meðfæri, og enda hlægilegt í öðru eins mati og þessu, að reikna með decimalbrotum.

Það hefir verið í bruggi, að setja hér nefnd um fjárhagsmál Íslands, en ekki er það enn orðið.

. . . . Eptir því sem heyrzt hefir frá alþíngi, lítur svo út, sem aðalstefnan sé hin sama sem fyr, og það ímynda eg mér sé Íslendínga sanna meiníng. Mér skilst, að þeir hafi verið mjög óánægðir með auglýsing konúngs um málalok frá alþíngi 1859, og það ekki án orsaka.

Eg hefi fengið ferðabók Winklers okkar, en hún er ekki í miklu gengi meðal vor Íslendínga. Okkur þykir hann ekki hafa skilið neitt, nema dálítið af því smásmuglegasta sem til er, og hætt við hann hafi þá enda flaskað á því.

Okkur líður hér öllum vel, og eg á að bera yður kæra kveðju. Eg bið yður líka ástsamlega að heilsa

konu yðar og systur og föður yðar. Verið svo alla tíma kærlega kvaddur.

Yðar elskandi vin og heiðrari

Jón Sigurðsson.

165.

Til Ásgeirs alþingismanns Einarssonar.

Khöfn 1. Novbr. 1861.

Háttvirti kæri vin.

Þú átt nú hjá mér heilan búnka af bréfum, og þakka eg þér þau öll ástsamlega, en þegar Jón sonur þinn fer nú heim, þá held eg sé komið mál að heilsa uppá þig. Eg vil nú óska og vona, að þið báðir hafið bæði ánægju og gagn af ferð hans, og eg trúi varla öðru, en þú finnir að augu hans hafi opnazt fyrir mörgu, sem gagn gæti að orðið, en það er ekki að vænta, að maður læri allt til fullnustu, eða kunni að skilja frá fullkomlega hvað gjört verði, eða fyrst skuli gjöra, fyr en reynslan bætist við. Þegar þú gáir að ferðalagi hans, sem ætíð er dýrt en ekki sízt í Noregi, þá undrast þú víst ekki yfir hvað mikla peninga hann hafi brúkað. Eg hefi nú að vísu gjarnan sýnt honum alla þá vinsemd sem eg hefi getað, en hún hefir því miður ekki getað gagnað honum nema svona daginn og veginn, samt vona eg að bæði þú og hann takið viljann fyrir verkið, og eg vona nú að þú með forsjá þinni styrkir hann enn betur til framkvæmdanna þegar heim kemur.

Ekki get eg nú sagt þér neitt sérlegt í fréttum, nema nú er fjárhagsnefndin sett, og við höfum haldið tvo fundi. Mér gjörðist að koma fram með kröfurnar af okkar hendi, og það hefi eg gjört, en hvernig þeim reiðir af, er nú óvíst. Við getum aldrei haft uppúr því

minna en ekkert, og ef eg get fengið þá til að samþykkja nokkuð töluvert meira en nú er, þá þykist eg eiga haunk uppí bakið á ykkur. Eg set kröfur mínar svo lágar sem eg get, en þó svo, að eg geti snúið mér á ýmsa vegu eptir því sem þeir fara fram. Eg vil engu sleppa, en eg vil ekki heldur spana mig meir en eg þarf. En nú riði á að þið vildið og hefðið lag á að hjálpa mér, og mínum kröfum, og svo ykkar sjálfra máli um leið. Þetta held eg vissast gæti orðið fyrst og fremst með því, að styrkja Félagsritin, svo eg gæti þar ritað um kröfur þessar með ástæðum, til að skýra þær fyrir mönnum og festa þær í huga þeirra, og svo stjórnarmálið um leið. Þarnæst ætti þið nú að taka ykkur almennt til að rita bænarskrár um stjórnarmálið sjálft, til að herða á því, og koma í veg fyrir að allt standi í sömu súpunni, öllu sé stjórnað héðan og allt gángi á tréfótum. Mér sýnist nú alþíng í sumar ekki hafa haft neina hugmynd um þetta, það hefir gjört mál þetta öldúngis persónulegt, og með því skemmt í stað þess að bæta; en þetta mætti allt leiðrétta með bænarskrám úr héruðum, það er að segja ef þær væri laglegar og kröptuglega samdar og settar í gáng. En lakast er, að það er einsog landar vorir sé í þoku, og hafi ekki lag heldur í þessu máli en í kláðamálinu að greina gott frá illu. Þeir eru víst í sakleysisstandi aumíngjarnir, og vantar ekki nema laufblaðið á magann til að komast í Paradís. Nú riði þó á að þeir kynni að »hlýða réttu«, því enginn veit hvernig öllu reiðir af hér innan skamms tíma.

Forláttu þetta hrips og vertu ætíð sæll og mundu

þinn einlægan vin

Jón Sigurðsson.

166.

Til Sigurðar málara Guðmundssonar.

Khöfn 1. Novbr. 1861.

Kæri vin.

Ástar þakkir fyrir yðar góða bréf 28. Septbr. og skýríngar um Þíngvallaferðina. Eg sendi yður nú ávísan uppá Bókmentafélagið og vona prófessorinn láti honorera hana, því eg vil engum unna uppdrátta eða lýsínga á Þíngvelli nema Bókmentafélaginu. — Mér líkar vel skoðun yðar á öllu málinu, en miklu meira sakna eg — okkar á milli að segja — í framkvæmdinni, og þarf að bæta úr því smásaman. Það er rétt sem þér segið, að allt fjalla á milli þarf að vera á kortinu, og einkum allir *vegir* á Þíngvöll. Þarnæst annað kort yfir söguöldina og þriðja yfir seinni tíð. Þó spursmál, hvort þessi tvö ekki geta sameinazt. — Eg er og á því, að taka *allt* sem bygging eða tópt eða hleðsla heitir, að því leyti það er eptirtektar vert. — Eg hefi skrifað Gunnl(ögsen) um dálítið sem eg saknaði. —

Mér þætti vænt, ef þér nú gerðuð kort, sem þér segið, eptir yðar höfði, og skriflega lýsíng með stöðunum úr sögunum til styrkíngar. Þessi ritgjörð ætti að vera laung nokkuð og ítarleg, og hugsa eg þér fengið honorar fyrir hana og hún kæmi í Safn til sögu Íslands, með korti.

Ekki þykir mér álnarsteinninn svo nákvæmur sem eg vildi, og einkum vantar lýsíng um hann, en þó ennfremur bæði uppdrátt og lýsíng á bollasteininum. — Þegar vel væri gengið frá Þíngvöllum, þá væri tíð að fara að Þíngskálum og víðar, en þetta er enginn léttaleikur, meðan félagið hefir ekki fjörugra styrktarlið en nú, því allt gengur í áhugalausu dundi hjá flestum, og við fáum ekki tillögin. Þeir hugsa víst, að nöfn sín á pappírnum sé nóg.

Forlátið mér þessar línur, og verið kærlega kvaddur.

Yðar einlægur vin

Jón Sigurðsson.

## 167.

### Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn 7. April 1862.

Kjære Hr. Pastor Gudmundsen.

. . . De Efterretninger vi have fra Island ere overhovedet gode, da Vinteren har været god og mild og Fiskeriet godt. Det övrige indeholde Bladene. Nu kommer formodentlig Bortgivelsen af Embederne paa Tapetet, og det er ikke andet synligt end at Jonassen faaer Stiftamtmands-Embedet. — Engang i Tiden havde man vist ikke valgt ham efter islandske Stemmer! Kristjan Kristjansson söger ikke Amtmandsembede, men jeg hörer at Bened(ikt) Sveinsson Assessor, Jón Pétursson (subsidiært) og Bogi Thorarensen söge Vester-Amtet. Hvem der faaer Sysselerne, er uvist.

Af Commissionen om de finantsielle Forhold kan jeg kun fortælle Dem lidt. Som etslags Aktor i Sagen som Althingsmand har jeg udarbeidet en Fremstilling af de Krav som Island formentlig havde paa Finantserne. Dette fremlagde jeg i et Möde i Oktbr. f. A. — Resultatet deraf vilde være at Island erholdt vel en 3 Millioners Capital, hvilket De vel synes overdrevet, men jeg finder saa billigt, at havde vi halv saa megen Magt, som vi have Ret, vilde Kravet have været mange Gange större og kunnet sættes igjennem. Bjerring Professor (Fransk) har som det synes paataget sig den Rolle, at forsvare den modsatte Side, og kom med sine Modbemærkninger i Januar. Derpaa har jeg nu igjen svaret under 31. Marts, og det gaae nu mine Colleger og tygge paa. Rimeligviis komme vi saa til et Möde engang. Jeg tager Sagen meget rolig, thi jeg veed naturligviis, at paa den ene Side kunne vi ikke faae værre end Status quo, paa den anden Side kunne vi jo ikke tage mere end hvad der godvillig tilstaaes os. Da nu Oddg(eir) Stephensen repræsenterer Regjeringen

paa en Maade, kan han jo ikke önske Andet bedre end at jeg spiller saa gode Trumfer ud som jeg kan, for at faae de Andre til at komme ud med deres, og han kan da komme som en Mægler, og enda maaskee vinde Noget. Jeg har aldeles ingen Grund til at give efter mere end hvad jeg finder retfærdigt, især da de Andre betragte mig som etslags Repræsentant for Althinget; hvad Althinget muligen senere kunde ville gaae ind paa, er en anden Sag. Jeg er derfor fattet paa at blive i Minoriteten, hvis man ikke kan enes om det som jeg finder rimeligt, og jeg maa da referere til de senere Forhandlinger og reservere vor Ret, hvilket jo vistnok ikke har meget at sige. Iövrigt haaber jeg vi ville alle blive enige om, at Althinget faaer Skattebevillingsret. . . .

Jón Sigurðsson.

## 168.

### Til Þórðar háyfirdómara Jónassens.

Khöfn 11. Juli 1862.

Háttvirti elskulegi vin.

Þeir hafa sagt mér eg fengi ekki bréf frá þér núna nema eg skrifaði, og eg get því nærri. Nú er fjárhagsnefndin búin, eg geri mér engar gyllíngar um hvað fást muni, en þú verður að játa mér því, að aldrei getum við orðið að manni nema svo að eins við ráðum fé okkar sjálfir. Kann vera það sé of snemmt, þá er að gjöra hæstu kröfur að conditio sine qua non, og halda málinu opnu. Eg er ekki svo fjarri því, *ef* menn þá fengist til jafnframt að hugsa fram í veginn og taka sér fram. En sjálfur viðvæníngskapurinn á að kenna okkur.

Nú lítur út sem syrti að kláðajeli hjá þér, og það undrar mig, ef Þjóðólfur segir satt, að þú skulir nú

fara fram i Trampes gömlu Taktik, en halda ekki fram reglum okkur Tschernings, með böðum og góðri umsjón. Þú mátt vera viss um, að þessar yfirlýsingar um, að fé sé dræpt og þesskonar, hefir litið að þýða. Það æsir, og það verður ekki haldið, en er i niðurskurðaranda það sem það er. Til hvers er líka að drepa kind úr grunuðu héraði. Það er ekki einhlitt. Annaðhvort hefir kindin veikt aðrar eða ekki. Hafi hún ekkert mein gert, þá er hún saklaus drepin i skaða. Hafi hún mein gert, þá er engu nær þó hún sé drepin, því þá þarf að baða samt og hafa vaktanir, og þar getur hún eins verið með í. Ætli Havstein rakni nú ekki úr rotinu, ef hann heyrir að eigi að fara að skera syðra? — Getur þú ekki unnið Jón Guðmundsson til þess að vera með lækníngum núna? Það sýnist sem alþing í fyrra sé tilleiðanlegt, og miklu nær en áður. Sunnlendingar geta víst varla heldur verið æfir niðurskurðarmenn nú, einúngis að fáist reglubundin tilsjón móti borgun, og meðöl gratis. . . .

Með kærri kveðju til þín og þinna

þinn einlægur vin og heiðrari

Jón Sigurðsson.

Þakka þér fyrir Félagsritin — gerðu aptur! segja börnin.

169.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 13. Sept. 1862.

Elskulegi bróðir.

Nú heyri eg sagt þú sért kominn suður, og sért séður af Kepha, svo nú ætla eg svona að gamni mínu að heilsa uppá minn elskulega »Gísla bróður« og óska

þú mættir nú jafna þig vel og hressast svo sem bezt má verða.

Það sem héðan er helzt að frétta fær þú nú fyr en áður, og satt að segja er það svo sem það er tekið. Ef þér þykir gaman að heyra um giptíngar stúlkna, þá er það að segja, að hún Alexandra litla er að lofast konúngsefninu á Englandi, svo nú er fjandi mikill vindur í þjóðinni, og hugsar sér til skófna. Rektor gamli er nú að fara suður til baðanna, og lætur nú fyrst í veðri vaka að hann muni fara til Íslands aptur með seinustu ferð. Mér þótti þó vænt um að Jens varð yfirkennari, hvort sem hann nú verður rektor eða ekki; hann stendur víst einna næstur því ef hann vill, en eg get vel skilið honum muni vera það um og ó. — Kanntu nú betur við þig en eystra? — Þegar þú ert nú búinn að búa um þig, þá er fallegt þar sem þú býr, og stutt til kunníngjanna, en hvort þú hefir nú ekki nógan aðsúg, það er nú annað spursmál. Eg ímynda mér þú fáir nóga gesti, og ekki verð eg lengi að lesa ferðamannsbæn þángað til eg kem til þín ef guð lofar og eg skyldi koma að sumri. Eg hefi það sterkt í hyggju, en eg veit ekki hver skrattinn til þess kemur, að mér finnst fjárhagurinn vera örðugri en fyr, og hefi eg þó nóg að gera og er iðinn líka og fæ vel borguð verk mín, en verð samt að vinna að sumu fyrir ekkert. Það er líka ári dýrt að fara með gufuskipinu, svo ef eg fer einn, þá fara öll alþíngislaunin, en meira til ef konan er með. Nú veit eg ekki hvernig ræðst, en gaman þætti mér að komast þángað sem þú ert, þó ekki væri nema um stund.

Með kærri kveðju til ykkar allra

þinn elskandi vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

170.

Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 6. Okt. 1862.

Háttvirti kæri herra prófessor Maurer.

Nú fyrir fám dögum fékk eg frá yður kærkomna sendingu, sem eg þakka yður innilega. Þó eg viti, að yðar gamla og margreynda vinátta sé mest ástæða fyrir yðar dómi, þá gleð eg mig þó við að þér hafið lesið Fornbréfasafnið. Dálítill munur finnst mér vera á skilníngi okkar á gamla sáttmála, einkum á greininni um siglínguna, en þó held eg það sé meira í formi en í efni. Eg var hálfvegis að vona að geta talað við yður í haust munnlega um þessi atriði, en það varð ekki úr. —

Þér vitið, að eg var í þessari fjárhagsnefnd, og við lukum störfum okkar í Juli. Uppástúngur mínar eru hérumbil í heilu líki í Félagsritunum, en eg þorði ekki að auglýsa uppástúngur hinna. Samt hugsaði eg að senda yður afskript af aðalskjalinu, og vona að geta það bráðum, en þar er sá galli á, að það er litlu betra en ekkert, því það vantar þann commentarius perpetuus, sem er í sjálfum ritgjörðum herranna. Mér finnst nú, að uppástúngur mínar sé sanngjarnar, og þó hefi eg enn sem stendur enga von um að þær fái samþykki stjórnarinnar, því menn eru enn allfastir í þessum gömlu skoðunum sínum. Eigi að síður þykir mér mikið áunnið, fyrst í því, að allir voru samdóma um mörg aðalatriði í hinum pólitisku viðskiptum, og þar næst í því, að það lítur út sem við getum fengið Dani til að fara lengra fram í tímann en til 1787 í sjálfum fjárhagsmálunum. Eg vona þeir mjakist smásaman svo, að maður geti byrjað fjárhagsmálið frá 1540. og það er nokkurs vert, að minnsta kosti í hinni

theoretisku deilu. Verði það viðurkennt, þá getum við aukið okkar kröfur smásaman meira. En þá vantar hina hliðina, að við tökum okkur fram um leið, og förum einsog stendur í kvæðinu að »stiga fastara' á fjöl«, og »spara ekki skó«, svo við séum ekki í öllu að bíða eptir sjálfsforræði á pappírnum. En þar er nú vandara málið. Mikið ósköp þætti mér vænt um, ef þér fyndið eitthvað atriði, sem yður þætti mega taka betur fram, okkar máli til styrkíngar, eða einhverja agnúa, sem yður þætti þurfa að varast. — Eitt er það, sem eg er í miklum vafa um, og það er krafa okkar til Eyrarsunds-sjóðsins.

Hér er yfir höfuð að tala mikið stríð milli holdsins og andans um það, hvað lángt fara skal í samband mála við Dani. Að hafa ekkert samband getur leitt til nýlendulaga, og að játa sig sem nýlendu get eg ekki verið með í. Að eiga mál mörg sameiginleg við Dani er aptur vegur til kostnaðar og inkorporationar ef til vill, og það vil eg heldur ekki. Nú er þá vandinn: evitare Scyllam et non incidere in Charybdim. Mér finnst allt lúta að því, að hér sé laung rimma fyrir höndum, og að við séum einsog óvanir hermenn, sem þurfum að vera nokkra stund í jagi og smákriti til að fá þol og djörfúng og ráðdeild og ástæður og hreysti til að geta unnið okkar mál — því vinna má það, held eg, ef rétt er að farið.

Amtmaður Havstein er hér nú, og er í miklum kláða-dispútazíum, því nú eru komnar upp nýjar kláðasögur syðra og Jónass(en) er linur, sem vænta má. En hins er ekki getið, að fyrir norðan og austan fækkar fé vegna ýmsra veikinda, sem ekkert er gert við, því einsog eg hefi sagt yður áður, sveikst stjórnin um að gera eptir uppástúngum okkar og koma upp dýralæknum og svo reyna að útbreiða betri þekkíng á meðferð húsdýra. —

Rektor er nú farinn líka, og er nú við bað hér hjá Hamborg. Svona er þá einskonar sjálfsforræði hjá okkur, en ekki af bezta tagi.

Berið ástarkveðju frá okkur til allra yðar ástkæru

Yðar einlægur heiðrari og elskari

Jón Sigurðsson.

## 171.

### Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 27. Okt 1862.

Elskulegi bróðir.

Kærar þakkir fyrir bréf þitt núna með skipinu, og það gladdi mig að þú varst þó kominn klaklaust í sæti þitt, en það er slæmt, að þú hefir hitt á slæmt ár, og að þér líkar ekki jörðin. Þú verður að vera grimmur við þá Sunnlendíngana, einsog Ditlev heitinn Thomsen á Bústöðum, arrestera fyrir þeim kýr og ær þegar þær gánga á þér, og láta þá leysa út fé sitt með bótum, þú getur þá haft þær bætur til einhvers gagns, ef þú vilt ekki hafa þær sjálfur. Það var illt, að mágur þinn fékk ekki combinerað Mosfell með Kjalarnesi, því ekkert er það fyrir úngan mann að þjóna öllu saman og búa á Mosfelli. Þar er jörðin! — Ef þú yrðir nú eins og Kolli bóndi í Kollafirði, þá ættir þú að hafa endur og gæsir og hænsni þér til búbætis, kálgarða góða, Lundey til leigu, laxalóðir í sjó og allskonar veiðibrellur. Eg skal útvega þér laxalóð ef þú vilt. Á haustin má koma þar inn til þín upsi og smáseyði; og nógar eru rjúpurnar uppi í Esjunni. Ef nú þetta slær ekki til, bróðir, þá er að berjast við bóndann á Mógilsá til landa, og muntu sigur fá.

Alténd ertu eins í reikníngunum, elskan mín, að þú sér ekki nema það sem þér er á móti. Þú getur

því nærri að rokkurinn átti að vera skeinkur, en Félagsritin hafði eg reyndar ekki sett á reiknínginn, en þau hefir þú fengið á hann síðan. Það eru trúi eg 12 rd. Egill er okkar útsölumaður í Rvík, en vænt þætti mér, ef þú gætir séð svo um, að nokkur yrði seld fleiri á Kjalarnesi, því ætíð er fjárhagurinn bágur fyrir þeim, og eru þau þó opt »flot« með peninga, segja menn. . . .

Þinn elskandi bróðir og vin

Jón Sigurðsson.

## 172.

Til Þórðar Jónassens háyfirdómara.

Khöfn 19. Marts 1863.

Háttvirti kæri vin.

. . . Eg get annars sagt þér það í fréttum, að kláðamaur nógur fannst á kind, sem kom með Arkturus og Koch hafði præsenterað Blixen-Finecke sem sínum Mæcenas, en líf-dýralæknir Blesa réði til að leita lækninga. Hún liggur síðan á ‚spítala' á dýralæknaháskólanum.

Tscherning hefir skoðað norðanullina, en ekki fundið maur. Hann heldur að hann hafi komizt undan hættunni, því þeir herrar hefðu átt að senda — ekki svona lagð, heldur — gæruna eins og hún var. — . . .

Nú er farið að bræða alþíngismálin. Oddgeir getur bezt sagt þér frá því, hvað nú kemur upp að potteyranu. Menn segja fjárhagsmálið sé fremst, og lagaskólinn — hvað segirðu? nú máttu gratulera og lesa þessa ritníngargrein: »knýið á, og mun fyrir yður upp lokið verða«. Þarna sérðu nú, elskan mín góð, að það er satt, þó þú hafir ekki viljað trúa mér til þess, en færðu þér nú þetta til hugleiðíngar, og gakktu í broddi fylkíngar að heimta hvað við þurfum. Með því móti

ynnist fjárhagsmálið og við gætum staðið okkur ef við fylgdum allir í einu hljóði kröfum mínum, en ef við sundrumst, þá fáum við ekkert nema biðina.

Vissulega lángar mig til þings, en á aðra hliðina geri eg þar ekkert gagn, og það allrasízt sem vegur móti þeim skaða sem eg hefi af að rífa mig útúr því sem eg hefi að starfa. Eg get búizt við að missa atvinnu mína ef eg fer, og vinna ekkert gagn. Til hvers er það? — Það er hugulsamlega gert af þér, að lofa mér forsetadæminu, en eg skal ekkert segja nema eg væri fúsari að koma, ef eg væri viss um að verða laus við það. Mér fannst reyndar engin ástæða til að kjósa annan í minn stað, en nú finnst mér enn síður ástæða til að breyta til um það sem er, þó þú hafir reyndar meira þref nú en þegar eg var forseti, en þú þolir þaufið og ert orðinn vanur við.

Eg á að bera frú þinni elskulegri kæra kveðju og þínum ástkæru frá konunni minni og frú Thorgrimsen.

Þinn einlægur vin og heiðrari

Jón Sigurðsson.

## 173.

### Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 20. Marz 1863.

Elskulegi bróðir.

Kærar þakkir fyrir ketið að austan og kom það með beztu skilum. Frá þér fékk eg ekki bréf, en eg vona að þið hafið fengið lítinn kassa með lauk etc. með skipinu. Héðan er ekki neitt að frétta, nema hér hefir verið bezti vetur einhver sem komið getur. Þrefið við Þjóðverja helzt við einsog vant er, og gjörir hvorki að reka né gánga, öll Europa stendur á þambi til að koma Dönum fyrir, en samt stendur í stað. — Nú er sagt, að þeir sé farnir að studera alþíngismálin, og sé

fjandi upphryggjaðir, svo við getum fengið allt hvað við viljum, líklega með því að borga það sjálfir og gjöra ekki meiri kröfur til ríkisfjárins en þeir vilja skammta okkur. Eg hefi nú þá von, að þú hafir studerað rækilega mínar kröfur í Félagsritunum í fyrra, og að þú sért mér samdóma um, að Danir ætti ekki að geta sloppið betur en þar er farið fram á. En til þess að hafa það fram þarf bæði nokkurn tíma og þar að auki hörku og samheldi og seiglu, til þess að það tímabil drepi okkur ekki. Þori maður ekki að eiga undir þessu, þá er að slá til, og það verður nú alþing að passa. Eg vildi óska að það kæmi nú almennar bænarskrár um að alþíng fái fullt atkvæði í stjórnarmálinu, svo að maður væri þó viss um að fá ekki önnur lög en þau, sem menn samþykkti, og gæti þá heldur beðið, en tekið móti því sem menn vildi ekki hafa. . . .

Forláttu mér þetta hrip og kysstu frá okkur konu og dóttur.

Þinn elskandi vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

174.

Til Guðmundar búfræðíngs Olafssonar, síðar á Fitjum.

Khöfn 8. Mai 1863.

Háttvirti vin.

Kærar þakkir fyrir bréf yðar 12. Marts, þó eg hefði gjarnan óskað það hefði verið heil ritgjörð um búnaðarhagi og búnaðaraðferð og uppástúngur um breytíng búnaðarlaganna þar sem þarf. Geti þér ekki fengið sýslunefndina til að semja uppástúngur um það? Geti þér ekki gefið mér skýrslu nákvæma og greinilega um

aðgjörðir sýslunefndarinnar? — Eg þakka yður sérlega mikið fyrir skýrslu þá sem prentuð er í Islendíngi. Hamíngan gæfi við hefðum aðra eins úr hverjum hrepp, því í hverjum hrepp eru margar »grafir«. Til þess að gjöra hvað eg get, lagði eg strax krók á hala minn og gekk til Halds, og spurði hann hver djöfullinn kæmi til þess að þeir hefðu neitað yður um vagn. Þeir mundu þó ekki vita betur landslag en þér sjálfur, sem áttuð að brúka vagninn. Hann sýndi mér hvar orsökin lá, og eg sendi yður skýrslu félagsins, sem sýnir það. Það er nefnilega blessaður stiptamtmaðurinn, sem er slíkur spekíngur að hann ætlar að mæla niður vagnahéruðin á Íslandi á kortinu, og svo nær ekki Hvalfjarðarströndin inn í vagnatakmarkið. Það er efni í góða blaðagrein að snúa skýrslu stiptamtmanns, og lesa yfir honum alvarlega fyrir vísdóminn. En fyrst láti þér á engu bera, skrifi þér nú nýja Ansögning til félagsins, fái þér meðmæli bústjórnarfélagsins og stiptamtmannsins ef þér getið, en neiti hann, þá skrifi þér honum beiðni og fáið skriflega neitun, svo meðmæli sýslumanns og hverra sem þér getið, þó þetta þrennt væri nóg; sendið mér svo það heila og þér munuð fá vagninn sem fyrst. Verst er, að þetta dregst til hausts, af því þér náið nú ekki í skipið, en þér getið haft gagn af því einmitt í haust, ef það tekst. Það væri skömm ef þér fengið ekki vagninn, og það má til að gánga fram. Þér verðið að taka fram skýrt og skorinort *hvað* þér viljið hafa. Fái þér *enga* meðmælíng, sem þó varla líklegt er, — því eg geri ráð fyrir að sýslunefndin, sýslumaður og síra Ólafur Pálsson sem forseti búst(jórnar) félagsins gefi yður meðmæli þó Jónassen ekki vildi — þá sendi þér Ansögning samt. Komi eg heim skal eg skrifa Hald, komi eg ekki fer eg í hann.

Eg bið kærlega að heilsa Bjarna á Kjaranstöðum, og öllum góðum drengjum, sem af alvöru vilja gera nokkuð, en ekki hlaupa einsog svínin úti sjó eða skera nú

sig og kindur sínar á háls, þó þeir eigi að takast þann vanda á hendur að þrífa þær.

Yðar einlægur vin

Jón Sigurðsson.

P. S.

Eg er búinn að snúa skýrslunni í Íslendíngi á dönsku og senda Hald hana. Því skrúfi þið ekki meira bústjórnarfélagið, bæði til lands og sjávar, og gángið í það allir sem einn maður? — Það stoðar ekki að »*hýla*« útúr að ekki sé verndaðar fiskiveiðarnar, því það hvorki gera Danir né geta fyr en í öðru lífi. Hér er eina ráðið, meðan þetta líf stendur, að fiska sjálfir með góðum skipum. »Nóg er hafið að drífa í«! —

175.

Til Sigurðar málara Guðmundssonar.

Khöfn 8. Mai 1863.

Háttvirti góði vin.

Það er víst, að mér hefði þótt vænt um að fá bréf frá yður fyrir laungu síðan, en af því eg er sjálfur latur á bréfaskriptum þá er eg manna sanngjarnastur að meta kríngumstæður í þeim efnum, og þakka eg yður því innilega þetta seinasta bréfið.

Eg get ekki áfellzt yður neitt fyrir Þíngvallasöguna, því bæði er, að hér er um enga keppni að gjöra frá okkar hlið, og ef það væri, þá yrðum við að hafa meira kapp á okkur en nú er og meiri efni um leið. Við gerum hvað við getum svona með hægð. Eg sé ekki að Dasents kort geri okkur neinn skaða; verði það gott, svo er það vel farið, verði það vitlaust getum við bætt það síðar, en það sem við getum gjört, það væri að fá yðar hjálp til að semja ritgjörð eptir þessu sem þér hafið safnað bæði úr sögum og frásögnum, það er

ágætt, og fengist þar með kort yfir staðinn, tel eg það ekki síður nauðsynlegt. Þetta á öldúngis við að prenta í Safni til sögu Íslands, og þar fái þér honorar fyrir sjálfsagt. Kannske svo mætti haga því, að þér fengið deildina á Íslandi til að nefna til menn að dæma um ritgjörðina, og þegar þeir hefði tekið hana gæti þér fengið yðar honorar eptir hendinni, eptir því sem þér skiluðuð handriti. — Eg segi þetta í því skyni, að eg get ímyndað mér það sé örðugt fyrir yður að semja alla ritgjörðina og eiga borgun í sjó, þartil þér gætið sent allt híngað og fengið borgun fyrir. Prófessorinn er yður víst vel sinnandi, og gefur yður góð ráð eða kemur sér saman við yður um þau efni. — Það er víst sem þér segið, að það er ekkert áhlaupaverk að semja þessa ritgjörð til fullnustu, en eg vil helzt hún sé laung og greinileg með korti einu eða tveimur, eptir því sem yður finnst haga, því eg vil ætíð í því efni hreint láta höfundinn ráða, og styrkja hann til að koma fram tilgángi sínum það sem efni leyfa. — En efni félagsins ætti þér aptur að styrkja með því, að gjöra allt til þess að útvega okkur menn til að gánga í félagið, og stuðla til þess bæði við útlenda og innlenda, svo sem þér getið. Með því móti ef okkur bættist efni, gætum við gert margfalt meira en nú, því þá gætum við borgað hverjum fyrir sitt verk, og haft þó mart í veltunni, ef ekki vantaði forsjá þeirra sem fyrir félaginu standa, og fyrir mitt leyti treysti eg mér til að láta hana ekki vanta meðan eg er fyrir framan hér hjá okkur.

Um aðra þíngstaði væri mjög fróðlegt að fá skýrslur, eða þesskonar ritgjörðir, og einkum eru þíngstaða pláz merkileg á sumum stöðum, sem menn vita varla af. Þau eru merkileg meðfram vegna þess, að væri allt vel rannsakað, þá má sjá hversu gömul þau eru, hversu stór, hvort þau hafi vaxið eða mínkað og enda hvenær. Í Þorskafirði eru miklar sagnir um búðaskip-

an og svo er kannske víðar. En látum okkur nú taka alþing fyrst.

Eg fékk núna fornmenjauppdrætti frá Jóni á Gautlöndum, en ekki er það neitt sérlegt, samt er það betra að hafa en án að vera.

Forlátið mér línur þessar og skrifið sem mest og bezt.

Yðar einlægur vin
Jón Sigurðsson.

### 176.

Til Þórðar Jónassens háyfirdómara.

Khöfn 8. Mai 1863.

Háttvirti kæri vin.

Fyrir tvö þín ágætu bréf þakka eg þér ástsamlega. Þú ert regluleg hamhleypa að skrifa, og ekki síður ertu reyndar makalaust rólegur að synda innanum þetta síli, sem hjá þér er. Þú átt nú líka að verða konúngsfulltrúi, og nú er allt undir þér komið, líf kattarins og allra músanna, ef fjárhagsmálið kemur fyrir. — Okkar adamantinus heros liggur nú úti á spítala og hefir höfuðverk eins og Þór, þegar heinin stóð í höfði honum. Það eru ekki allir einsog gamli Zeifur, að hafa engan hausverk þó heil Minerva komi útúr honum. Oddgeir segir þér víst frá, að heros okkar hafi viljað fara til Skotlands, náttúrlega með ferðastyrk, til að kynna sér þar landbúnað, og ætlaði að hafa Sigurð Jónasson með sér, en nú verður líklega ekkert af því, fyrst hann varð veikur svona. Hann er annars í alvöru að tala virkilega aumkunarverður, og engu minna Norðlendíngar, að hafa traust á ekki merkilegri Þór. Það er óheppilegt, að þeir sem hafa fengið Norðlendínga bezt í »töjið« hafa verið hálfgeggjaðir, svosem Guðmund-

ur biskup góði og slíkir höfðingjar. Um Grím veit eg lítið eða hans sagnir, þær eru allt í þessum æðri heimum þar sem eg kem ekki, en eg skil þú munir finna stundum blæ þaðan. Það var rétt af þér að senda skýrslurnar, en annnars getur enginn farið í grafgötur um, hvernig á tortryggninni stendur. Þess eins gæti maður óskað, að sú gángskör yrði gerð að þessum drefjum sem eru hér og hvar, að enginn gæti sagt það væri *sami* kláðinn. Allir eru hér fullir með þá sögu, að collega þinn hafi loforð fyrir 100 fjár að norðan, ef hann geti komið á niðurskurði í Gullbr(íngu)sýslu, en þetta mun nú vera svona góðgjörn getgáta. Mér þykir þú annars of slæmur við okkur demokratana um alþíngismálin. Við erum þó ekki svo slæmir, ef því góða sem við viljum væri hjálpað við, en mér finnst þú vilja láta okkur hreint vera að berja í steininn. Þú viðurkennir þó víst, að stjórnin þarf að gánga á undan, ekki síður á Íslandi en annarstaðar, og því heldur sem við erum barnalegri, því kröptugra vit þarf stjórnin að hafa fyrir okkur. Að þú fáir gusur frá Jóni Guðm(undssyni) þarf ekki að undra þig, og satt að segja þykir mér þú komast furðanlega af. Manstu ekki hvernig hann fór með okkur, og það mig, sinn bezta vin og demokratiskan félaga? Það er hans eðli, að hann getur ekki á sér setið að skamma þá sem völd hafa, og ekki ætíð fyrir það sem rángt er, heldur stundum fyrir það sem enginn getur að gert. Mér finnst ekkert rángt í að stefna manni fyrir þau óhlutvendnis orð, sem segist á, en eg skil vel, að þú getur ekki verið að elta það, og það segði eg sama til, en ekki vildi eg þá heldur nota umráð yfir prentsmiðjunni til að neita prentun blaðsins, nema það væri ekki í skilum með borgun sína. Mér sýnist undarlegt, ef prentsmiðjan afsegði að prenta Þjóðólf, sem borgar, en prentaði Íslending sem ekki borgar og er í botnlausri skuld að sagt er. Hann er nú ekkert betri, nema enda verri, því collegar þínir

eru reiðir, að þeir eru ekki settir í stjaka og látnir hærra. Bara þeir missi nú ekki hnossið einmitt fyrir þetta sama. Satt að segja er eg mikið á að leggja niður ömtin, láta sýslumenn taka við sumum amtmanns störfum, og hafa menn til að ferðast á víxl til að controllera embættisfærslu. Þetta gæti farið eins vel og nú með góðum póstgaungum eða betur. Annars rífst eg ekkert útaf því, því eg álít það ekkert lífsspursmál, og eg held gjarnan amtmönnum þegar eg sannfærist um nauðsyn þeirra. En Skattebevillings-rétt fyrir alþing og landstjórn álít eg lífsspursmál, og þess muntu seint bætur bíða sem eg stríði þér, ef þú verður á móti okkur í því efni, en eg vona svo góðs til þín, að það komi ekki til þess.

Forláttu mér nú þetta mas, og vertu með elskulegri konu þinni og öllum þínum ástkæru hjartanlega kvaddur.

Þinn einlægur vin

Jón Sigurðsson.

177.

Til Einars prests Thorlaciusar.

Khöfn 29. Juli 1863.

Háttvirti herra vin.

Alltaf geymi eg bréf yðar frá því í fyrra, og þó seint sé þakka eg yður ástsamlega fyrir það. Mér þykir reyndar slæmt, að við skulum ekki geta komið okkur saman í kláðamálinu, en eg hugga mig samt við það, að þér munið hafa séð síðan að ýmislegt hefir verið skakkt hermt um hætturnar syðra. »Þjóðólf« er ekki að marka í því máli, því hann hefir nú gjört sér það að reglu að halda sem bezt í áskrifendur sína, og hefir líklega fundið það út, að fleiri mundu missast ef blaðið væri

með lækningum. — Eg skal aldrei mótmæla yður í því, að Hjaltalín er stundum nokkuð hvatorður og óvar, en eg vorkenni honum það mjög svo í þessu máli, því það er von að manni blæði í augum, að sjá menn almennt eyðileggja sjálfa sig, og heyra alla utanað hvetja til þess, í stað þess að gjöra svo lítið sem þarf til að bjarga sér, þar sem allt fæst lagt uppí hendurnar á manni, sem hér var. Eg hefi nú aldrei heyrt lakari logik hjá yður, en að jafna saman kúaveiki á Jótlandi við kláðann. Ef Tscherning vill skjóta kýrnar, þá er það af því hann treystir sér ekki til að lækna þær; ef hann vill *ekki* skera ærnar, þá er það af því hann er viss um að þær má lækna. Sé honum trúandi í einu, þá má trúa honum í hinu, þareð hvorttveggja er honum kunnugt sem dýralækni. — Þetta er einsog logikin í Norðanfara, þegar hann er að skrifa »nótur« undir grein okkar Tschernings, og þykist hafa rétt til að snúa öllu þversum fyrir góðfúsum lesendum.

Það er hörmulegt með bráðasóttina, hvað hún eyðileggur, en hver getur við því gjört, þegar fólk vill ekki annað en vera í sömu súpunni alltaf. Við Tscherning stúngum uppá, að stjórnin vildi styrkja fjárræktina á Íslandi með ýmsum ráðum, reyna að koma upp innlendum dýralæknum o. s. frv. — En enginn af löndum vorum vill styrkja þetta. Engin bænarskrá kemur til alþíngis um það. Uppástúnga Hjaltalíns og Halldórs Fr(iðrikssonar) var felld í hitt eð fyrra um að fá 5000 r. veitta til fjárræktar. — Hvernig á nú nokkuð að afrekast þegar svona er, að allur þorri manna vill vera í sömu súpunni? Það er sú beinasta leið til apturfarar, og það verður svo, að eigi menn að hafa nokkuð fram sem ekki er í anda einokunarinnar þá verða menn að hafa Dani til þess, og nú byrjar það, sem þér sjáið, með því að fara að setja þá í embættin. Þrír Íslendíngar, sem prófa þá, hafa ekki einurð á að segja þeir viti ekki neitt, heldur taka þá gilda, og stjórnin er ekki

sein að veita þeim embættin. — Nú finnst mér væri tími fyrir ykkur að taka betri stefnu, hætta að andvarpa yfir örverpinu og vegsama dýrð fornaldarinnar, en reyna að komast í manna röð og brúka ráð og krapta, sem eru nógir til ef menn kynni að hlýða réttu.

Forlátið mér þenna ómerka miða, og minnist jafnan í vinsemd þess

sem er yðar einlægur heiðrari.

Jón Sigurðsson.

178.

Til Jóns alþingismanns Sigurðssonar á Gautlöndum.

Khöfn 29. Juli 1863.

Háttvirti góði vin.

Eg þakka yður ástsamlega fyrir yðar góða bréf það í vetur, og nú held eg yður þyki við stórtækir, að senda yður 50 ex(emplör) Félagsrita, en sé það of mikið, þá sendi þér okkur aptur það sem yður sýnist. Það er ekki vegna mín eða reyndar ritanna, að eg bið yður kappsamlega fyrir þau, heldur vegna þess, að þið eigið ekki kost á betra nú sem stendur, og það er nauðsyn málum vorum, að ritin komi út, einsog hitt, að þið látið almennt til ykkar heyra í líka stefnu, en varist að fara út í smásálma, meðan svona stendur, og enn fremur varist að láta glepja ykkur með ýmsum frásögnum, getgátum eða bakmálum. Eg skal nú ekkert disputera við yður um skilmálann þann, að ritin komi snemma út, en þér sjáið sjálfur hvernig á því stendur að ekki er svo, þegar eg segi yður, að fyrir það að maður fær ekki borgun frá sumum fyr en einhverntíma, sumum aldrei, þá safnast skuldir við prentara. Hver árgángur kostar 200 rd. í prentun etc. Nú dregst aptur úr þartil skuld er tveir árgángar, það er 400 rd. — Þó sumir

borgi, t. d. að sé borgaðir 170 rd., þá eru eptir 30, annað ár 60, þriðja 90 o. s. frv. — Nú getur maður borgað 100 rd. að hausti til, verða eptir 300 rd., nú veit maður ekkert hvað fæst að vorinu eptir, og prentarinn segir, að fái hann ekki 100 rd. til geti hann ekki prentað næsta ár. Þar er þá beint fyrir, að bíða til þess maður veit hvað kemur að vori til. Nú getur maður borgað um vorið 100 rd. til og sér þarmeð að ritin næstu fást prentuð. Þá er nú að semja og þartil gengur tími. Þá eru fyrst málalok ýmsra mála íslenzkra og maður bíður eptir því. Það gengur yfir mig, að þið skulið ekki vera svo nærgætnir eða kunnugir, að sjá þetta. Nú kemur þartil fyrir mig, að eg hefi fyrst og fremst að vinna fyrir lífinu, því þetta embætti, sem Arnljótur vildi byrla ykkur inn að eg væri að kaupa hér um árið, er ekki komið enn það eg veit. Þá er þarnæst, að afgreiðsla Bókmentafélagsins tekur mér nærri tvo mánuði á vorin að miklu leyti. Þá þarf eg að semja Félagsrit og vera á ritfundum þar. Sá tími sem eg ver til alls þessa er mér peninga virði, og það er svo mikil útlát til almennra þarfa, að eg þoli ekki meiri skatt. Þessvegna verð eg nú líka að haga mér nokkuð eptir minni eigin hægð, og verja þeim tíma sem eg þarf að hafa til þessa, mér svo hentuglega sem eg get, og það er með því, að verja aukatímum mínum til Bókmentafélags fyrst og síðan til Félagsrita. Þetta verði þið að vorkenna, og þið hafið heldur ekki ástæðu til annars, þegar þið ekki borgið tíma manns og maður má sjá fyrir honum sjálfur, þá hefir maður rétt til að verja honum svo sem manni virðist bezt. En nú er eg líka þar að auki reyndar að byrla mér inn, að eg hafi hagað híngaðtil tíma mínum öldúngis eins og þið ættið hann allan, og útkomu ritanna hefir opt verið hagað svo, að þið gætið sem fyrst fengið skýrslu um merkileg mál, og fyr heldur en ef ritin kæmi út að vori til. Í fyrra t. d. fengu þið skýrslu um fjárhagsmálið rétt þegar það

var búið frá nefndinni, þar sem þið hefðið fyrst fengið það nú í vor ef ritin kæmi að vori til. Nú fengu þið annan artikula um sama mál, sem þið hefðið annars ekki fengið. — Er það virkilega mögulegt að þið hafið ekki tekið eptir þessu? eða er vorhugi ykkar eins fastur samt? — Nú, það getum við líka mikið vel, ef við fáum svo mikið fé að hausti til, að við getum borgað af svo mikið sem þarf til þess að geta fengið ritin prentuð. En þegar það tekst ekki, þá er okkur það ómögulegt, því þá er alltaf við að búast að ritin hætti, og margir segja, einsog von er, að maður eigi ekki að vera að gefa út rit, sem ekki gángi út öðruvísi en svona.

Eg vona þér takið mér ekki illa upp þó eg svari yður hreint og beint, einsog yðar bréf er, sem eg er mjög þakklátur fyrir.

Félagsritin hefir síra Vigfús á Svalbarði en Guðmundur á Lóni hefir aldrei haft þau. Það er Bókmentafélagið sem hafði nokkurn skaða við hann, og þó ekki eins mikinn og við suma aðra, bæði Svein Skúlason og ymsa fleiri.

Forngripina ætti þér sjálfsagt að láta Sigurð Guðmundsson fá heldur en að senda þá hingað. Það gæti verið að Sigurði takist að koma safni á.

11. og 12. bindi af Lagasafninu er ekki komið út. Þér eigið allt sem út er komið.

Forlátið mér miða þenna og minnist mín með vinsemd.

Yðar einlægur heiðrari
Jón Sigurðsson.

179.

Til Marteins gullsmiðs Jónssonar á Keldhólum.

Khöfn 28. August 1863.

Háttvirti góði vin.

Eg fékk núna yðar vinsamlega góða bréf 20. Oktbr. f. á. og þar með bókakistil, og þakka eg yður

ástsamlega fyrir alla yðar tryggð og dugnað að ná í skruddurnar, en fjári voru þær léttar á voginni þessar, þrjár af þeim þótti mér samt vænt um. . . .

Geti þér ekki með orðum og góðum tillögum styrkt Bókmentafélagið, og Ný Félagsrit. Hvorutveggja reyna eptir veikum mætti að halda fram réttindum lands vors og stuðla að allri framför í gagnlegum hlutum og því virðist mér að allir bændur og búandi menn og allir giptir menn ætti að vera í Bókmentafélaginu og kaupa Félagsritin. Því fleiri sem til þess verða, því meira gagn getum við gert, og allir þeir sem styrkja okkur hafa meiri not af því sem við gerum. Það má vera einhver klaufaskapur, að okkur gengur svo illa fyrir austan, þar sem þó er svo mart gott fólk. Við höfum nú þá fyrir umboðsmenn Tulinius og Gustav Iwersen, geti þér ekki komizt í tal við þá og styrkt þá í útréttíngum þeirra uppi um Héraðið, fengið fleiri til að gánga í Bókmentafélagið, og hjálpað okkur til að ná tillagaskuldum. Svo eins um Félagsritin, og hafa þau þar að auki góða styrktarmenn í síra Einari í Vallanesi og síra Sigurði á Hallormsstað. Vigfús á Arneiðarstöðum hefir líka tekið við þeim eptir föður sinn, en frá honum höfum við nú nýlega ekkert heyrt, og væri gaman að vita svona í kyrþey hvernig á því stæði.

Forlátið mér nú þennan fánýta seðil og verið með öllum yðar ástfólgnu kærlega kvaddur.

Yðar skuldbundinn vin

Jón Sigurðsson.

180.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn 14. Septbr. 1863.

Kjære Hr. Pastor Gudmundsen.

. . . Althinget stod til 17. August; derom seer De i Bladene. Sira Halldór á Hofi var Formand, Jón Guð-

mundsson Viceformand. Nogle sige at det har været Demonstration af et Parti, anfört af Arnljót, men udsendt af Jonassen, som ikke kunde döie at stikke Næse sammen med J. G(uðmundsson) som Præsident. Sessionen er i det Hele gaaet fredelig af, Slutningen var Adresse til Kongen om at skynde paa Forfatningssagen. Om Skabsagen seer De af Bladet, at Slagterpartiet dog forsöger at fremkalde det sidste Offer, som skal gaae ud over Kjosalingerne, formodentlig vil det dog ikke blive drevet igjennem undtagen maaskee hos Enkelte. Jeg frygter for, at der blander sig noget i, som lugter af Speculation paa at faae billige Slagtefaar i Reykjavík.

Amtmand Havstein er nu kommen hjem, noget bedre men dog næppe af Varighed. . . .

Jón Sigurðsson.

## 181.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn 30. Marts 1864.

Góði vin.

Ætíð þykir mér vænt um að heyra í tálknunum á þér og eg þakka þér því ástsamlega fyrir þitt seinasta bréf. Þú heldur að búinn sé niðurskurður fyrir fullt og allt, en annað hljóð heyrist mér í Benedikt. Eg vildi vona að þú spáðir réttara, og að Benedikt fengi óyggjandi sönnun fyrir vitleysunni úr sér. . . . Ja, hvað er að tala um stjórnina, hún er verri en dauð, en einkum kenni eg samt Clausen um, því hann átti að passa uppá, og frá honum er ekki komið eitt orð að gagni. Þér eru þar nú mislagðar hendur, því þú getur þolað Clausen og Baumann, en Pál Melsteð getur þú ekki brúkað, sem eg álít þó betur brúkandi. Concedo, að margir vorir menn sé slóðar, þeir verða ekki af sér

keyptir, en það er sjálfskaparvíti eða óþarfi að fá skussa úr öðrum löndum, þegar maður á nóg af þeim sjálfur. Betra væri að halda þeim til sem maður hefir og lofa hinum að standa úti fyrir.

Nú vona eg þið lifnið, þegar konúngaskiftin eru orðin. Eg veit með vissu, að þessi konúngur vill okkur gagn, en nú er undir komið að ná eyrum hans. Við hér gjörum ekkert að fyrra bragði, svo við tökum ekki af ykkur sæmdina, en flestir óska þess, að þið notuðuð tækifærið nú. Það er nú reyndar skrítið, að ekki einusinni erfðalögin eru birt á Íslandi á löglegan hátt, en það hindrar ekki að við tökum konúngi vel, og látum hann birta lögin ef okkur sýnist þess nauðsyn, en einkum að við fáum hann til að gjöra fyrir okkar mál það sem þörf er á. Þið haldið nú víst fund og talið málum vorum, stefnið kannske Þíngvallafund og sendið híngað deputation. Það væri að eg held allra réttast, en penínga þarf til þess og þegar féð er skorið þá verður tómt í buddunni.

Já, þú hefir rétt að mæla um skólaskýrsluna, og hefir þú þó spanað allt til að snúa henni — eða er ekki íslenzkan eptir þig? — Eg hefi nú aldrei séð pólitík fyrri, sem að gefur sjálfri sér uppá, enda held eg flestir hafi fengið nægju sína. Danir hrista höfuðið.

Geta verið nokkur vandræði með Edduna? Ef það er Snorra Edda, þá er útgáfa Egilsens runnin út að bragði, ef það er Sæmundar Edda, þá ættir þú líklega að hínkra eptir útgáfu Bugges, en varaðu þig samt á honum.

Hérna er sýnishorn, sem eg sendi þér, og getur þú þá gefið Jóni Þorkelssyni annað, með kærri kveðju minni.

Ef þú útvegar okkur hundrað nýja í Bókmentafélagið skal eg bera mig að hjálpa þér svo félagið prenti Edduna.

Berðu konu þinni og þínum okkar beztu kveðjur.

Þinn einlægur vin
Jón Sigurðsson.

182.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Khöfn 30. Marts 1864.

Elskulegi bróðir.

Kærar þakkir fyrir bréf þitt í haust. Það sem þú hefir beðið um hefir konan expederað. Frá mér fær þú blöð og pjesa.

Ekki get eg sagt mér lítist vel á skólaskýrsluna, því eg hefi aldrei séð ósamstæðara vísindapródúkt. Eptir því sem eg hefi þegar heyrt, er program þetta geymt intra parietes í íslenzku stjórnardeildinni og ekki látið sjá ljós þessarar veraldar. Að polemisera við Jón Guðmundsson, væri það indirekte, þætti mér vel mega vera, en að polemisera móti því, sem maður verður þó að játa sé satt, er ekki til neins. Að piltar hafi fækkað er satt, og annarstaðar er það ætíð kennt stjórn skólans að piltar fækki. Það er þá ekkert svar, að kennarar sé ekki skyldugir til að kenna svo eða svo mörgum, því nauðsyn er að sjá svo um, að nógir komi upp til embætta landsins, og til þess þarf skólinn að stuðla annaðhvort sjálfur, eða þá svo, að hann leggi ekki öðrum tálmanir í veg til að koma drengjum sínum fram sem þeir geta bezt. Eg er nú fyrir mitt leyti á því, að privat-dimissionir hafi í því efni verið góðar og hentugar, og á þeim tímum einkanlega, sem skólinn væri ópopulair.

Nú er orðin breytíng á hlutunum. Friðrik sjöundi fallinn frá. Nú kemur víst líf í ykkur með vorinu, og eg held líka það væri gott að eitthvað hríngladi í ykkur.

Eg er orðinn svo naumt fyrir, að eg kveð þig og ykkur öll ástsamlega.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

183.

Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 22. Mai 1864.

Háttvirti elskulegi prófessor Maurer.

I því trausti, að þér fyrirgefið mér allar mínar letisyndir, þakka eg yður ástsamlega fyrir bréf og sendingar, sem mér þótti mjög vænt um. Það var þó eitt sem mér var dálítið um og ó, og það var þau þúngu högg, sem þér lögðuð á Eirík Jónsson, haltan garminn, því eg hélt hann þyldi það ekki, en eg er ætíð hjartagóður, jafnvel við mína mótstöðumenn. Mig grunaði nú líka, sem var, að hann og hans vinir mundu kenna Guðbrandi, að hann hefði róið undir, sem eg reyndar vissi ekki var, og ekki heldur þurfti, af því satt að segja, að dómurinn gat varla orðið vægari, ef maður vildi ekki hlífast við.

En eg verð þá líka að segja yður hvernig eg huggaði Eirík, og það var með því, að þetta væri hegníng á honum fyrir Skírni, og fyrir hvað hann væri þar Dönum hlynnandi.

Eg er reyndar annars á því, að þér hafið kannske ekki verið of harður við Eirík í sjálfu sér, en þér hafið verið of harður við hann í samburði við Fritzner, því hans gallar eru eins miklir og Eiríks. Mér finnst að bækurnar beri skrítilega vitni um höfundana: Annar kann málið »praktice«, en hefir ekki nennt að studera, en hinn kann ekkert í málinu, en hefir allt sitt vit úr bókunum. Þarmeð vil eg ekki neita því, að það fer einhvernveginn betur á hjá Fritzner, að hann citerar ritin, sem hann hefir tekið úr.

Um Grágás er ekki hægt að tala svona í stuttu máli, því sumt gætum við disputerað um heila daga, en höfuðatriðið er það, að hvort sem maður verður yður

samdóma allstaðar eða ekki, þá getur maður ekki annað en glaðzt af því, hvílíka alúð þér hafið lagt við þetta efni, og komið með mart sem ekki hefir verið tekið eptir fyrri, eða sem þarf að gæta betur að. Á einstaka stað er eg ekki viss um hvað þér hafið haft fyrir yður, svosem þegar þér látið Þórodd rúnameistara vera Þórodd Gamlason — það er víst getgáta — og um framburðinn forna (p. 66), sem kemur líklega þaraf, að þér hafið ö fyrir ǫ (ó?). — Að því leyti sem mér viðvíkur nú sérílagi, þá veit eg ekki hvernig eg get fullþakkað yður þá velvild, sem lýsir sér í dómum yðar um það sem eg hefi gjört. Mér dettur í hug að um tvö atriði væri disputazía, annað er um Kristinrétt Árna, sem eg gjöri víst gildari að lögum en þér vilið gjöra, að mér skilst; annað er um elzta taxtann, sem eg hefi tekið í Diplomatar(ium), og sett til c. 1100, en mér skilst sem þér vilið halda yngri. — Um það er vissulega bágt að ákveða nokkuð víst, en mér fannst, að ef menn bæri saman þetta fjárlag við hin önnur, sem hér eru sett til c. 1200, þá gæti varla verið minna en 100 ára munur á milli. Í gömlu skránni eru *röggvarfeldir*, sem annars eru aldrei nefndir þegar kemur fram á þrettándu öld. Þar er *arðruxi*, sem bendir til þess tíma, þá akuryrkja var í meiri blóma en getið er um á þrettándu, eða jafnvel tólftu öld síðara hluta. Eg skal játa, að þetta tvennt spennti mig lengst fram, og í samburði við hin fjárlögin sýnist mér enn að þetta sé sett nær hæfi, en eg ímynda mér, að einhver annar staður kunni hafa vakið efasemdir hjá yður.

Nú held eg væri gaman, ef við Guðbrandur gætum fengið yður til þriðja manns hjá Mjóna. Svo þér sjáið hvernig eg tek mig út á þessum tímum, þá sendi eg yður myndir, sem eg bið yður eiga og ráðstafa sem yður þykir bezt, einúngis að þér með ástsamlegri kveðju færið föður yðar eina, með þakklæti fyrir mynd hans, sem eg fékk frá Guðbrandi og þykir harla vænt um.

Með ástsamlegri kveðju til konunnar yðar frá okkur hér, og til allra yðar ástfólgnu, er eg ætíð
yðar einlægur heiðrari og trúr vinur
Jón Sigurðsson.

184.

Til Hannesar kaupmanns Johnsens.

Khöfn 26. Mai 1864.

Háttvirti kæri vin.

Hafðu beztu þakkir fyrir bréf þín ástúðleg og sendingu. — Eg held allt sé farið að lagast með Kaupmannahafnarveruna Símonar litla, hann er að verzla við konuna mína og stendur sig vel, því eg trúi hann hafi einmitt hitt á mann sem hefir þesskonar til sölu sem menn kalla hér vera í sveitasmekk, og er selt mest til Svía.

Það er bágt að heyra um þenna úlbúðar tón, sem er í Reykjavík, og skaði, að rektor karlinn, sem er þó annars góðmenni, skuli vera í þessum óróa, en það er víst ekki frítt við hann liggi nærri delirio, að minnsta kosti ef á að dæma eptir hans vísindalegu logik. Íslenzka departementið geymir hans seinustu ritgjörð einsog malið gull, og sagt er, að Litli-Engelstoft hafi grett sig, einsog þegar maður kemur úti sandrok á Rángárvöllum, þegar hann sá hvernig karlinn hafði sem menn segja fléttað reip úr sandi. Nú er annað rit komið, sem fær menn til að gleyma rektor, og það er útlegging Gísla Magn(ússonar) á Hóraz. Það verður ekki ristulaust á Íslandi árlángt, þegar menn fá svoddan torfmýri. Hér hefir það þótt vel sagt, sem haft er eptir konferenzr(áðinu), að það vanti commentar við commentarinn, svo mesti gallinn á bókinni sé að hún sé of stutt.

Eg er að bræða með sjálfum mér uppástúngu þína, og það vona eg geti fengið framgáng svona með lagi, einkanlega ef fjárhagur félagsins yrði nokkurnveginn við veg, og til þess ættir þú að stuðla líka, og gánga í félagið sjálfur og neyða og lokka aðra til þar inn að gánga.

Berðu kærlega kveðju frændfólki þínu öllu og kysstu konu þína elskulega frá okkur.

Þinn einlægur skuldbund(inn) vin

Jón Sigurðsson.

185.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 20. Juli 1864.

Elskulegi bróðir.

Eg hugsaði þér mundi litast hraustlega á mig, og segja, að það væri furða eg væri ekki hrumari, en nú sé eg, að þér þykir eg vera furðu mikið eyðilagður af lífsins bágindum. Um það skal eg ekki þræta við þig, og það því síður, sem mér rétt stendur á sama hvernig útlitið breytist uppá það að gera. Eg vildi gjarnan gera hvað eg gæti, og hvað mér finnst rétt vera, hvernig sem aðrir dæma um það, en eg fer mér ekki heldur harðara, en mér sjálfum lízt. Þegar nú svona er, þá er ekki von að öllum líki, því þú þekkir menn svo, að þeir vilja hafa aðra ekki einsog þeim er lagið, og nota þá eptir því, heldur einsog þeim sjálfum finnst bezt þeir væri, og sumir eru að bera sig að því, að vera einsog aðrir vilja, en ekki einsog þeim er sjálfum áskapað. Þann galla held eg að eg sé nokkurnveginn laus við, en þar af leiðir, að það verður af hendíngu ef eg kem mér vel. Framaneptir manstu að eg kom mér makalaust vel, og var þó að mér fannst öldúngis

einsog þetta, en á seinni árum finnst fólki allt annað, og þó kenni eg það þeim en ekki mér, því eg fylgi sama fram og hefi sömu skoðun að mér finnst. Nokkuð kemur þetta af því, að sumir koma upp með einhver smámál, og þau eiga þá að vera allt hið ypparsta, svo til að koma þeim fram, þá verða þeir að gjöra lítið úr hinum málunum, sem meiri eru í sjálfu sér, og ef þeir geta haft háreysti, þá fá þeir fólk til að fallast á það. Eg er nú, einsog þú veizt, of flegmatiskur til þess að hafa mikla háreysti, og svo er því, sem eg gjöri mest úr, svo varið, að tíminn verður að vinna það. Eg er ekkert ákafur um að almenn mál gángi fram svo fljótt, látum þau ryðja sér til rúms. Eg kynni að vísu að geta átt þátt í að ýmislegt fengi betri framgáng, ef mig ekki vantaði bæði efni sjálfan og styrk landsmanna, en hvað er þar um að tala, því þú veizt að hér er ekki um að gera nema að berjast fyrir lífinu fyrst og fremst, og nota það sem af gengur til að taka þátt í almennum málum.

Nú eru Danir búnir að fá aðra ráðgjafa, enda var kominn tími til, því ekkert lá annað fyrir en að Þjóðverjar tæki Fjón. Þeir tóku Als með 16000 manns af 10 þúsundum Dana. Allir eru *hér*, enda og allstaðar annarstaðar, hlessa á hversu klaufalega Dönum ferst, eg held að þið á Íslandi sèuð þeir einu, sem hafið ykkar virðíngu fyrir þeim óskerta, en þið hafið líka ekki annað en frásagnir sjálfra þeirra að fara eptir. Ekki er sýnilegt annað, en þeir missi öll hertogadæmin bótalaust og fái svosem 50 milliónir í skuld á ofan. Það ætlar að verða svo, að við fáum jafnliðað á endanum.

Forláttu þetta bull, elskan mín, og vertu kærlegast kvaddur með öllum þínum elskuðu frá okkur.

Þinn elskandi vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

186.

Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors.

Khöfn 20. Juli 1864.

Elskulegi bróðir.

Nú sendi eg þér Lagasafn XI. b. og Flateyjarbókar tvö hepti, og svo orðabók Egilssens, ef þú kannske kynnir vilja eiga hana að gamni þínu, en sé það ekki, þá getur þú sent mér hana aptur, því skólabibliothekið á hana víst. Blöðin og nokkrir pjesar fylgja líka, en komdu fyrir mig »Dagbl(adet)« til Boga og Theol(ogisk) Tidsskr(ift) til síra Ólafs.

Nú er komið annað hljóð í strokkinn, svo nú getur rektor talað úr flokki, ef hann vill vera reaktionair. Hér var orðinn mesti úlfaþytur, og kvennfólkið var farið að búa um koffort sín, með kvennsilfrinu, til að koma sér undan þegar Kaupmannahöfn yrði tekin. — Enginn veit nú hvað útréttist, en líkindi eru til, ef þetta ministerium fær næði til að vera við, að það fái það beztan frið sem fæst.

Það er nú líklegt, að rektor kenni demokratii og þesskonar um að svona fer; en Rimestad hans gamli vin mun segja honum eitthvað annað, ef þú vilt sýna honum» Dagstelegrafen«. Látum demokratíið vera, ef það heldur sér við res domesticas, en danska demokratíið ætti ekki að taka sér vald yfir öðrum. Rektor þarf nú annars ekki að kvarta yfir demokratíinu, því hann hefir haft uppúr því meira en flestir aðrir, og eg man svo lángt, að honum var vel við demokratíið á Þíngvöllum, þegar það var að senda honum tóninn með complimentum. . . .

Þá man eg ekki meira í þetta sinn nema kveðja þig og ykkur sem bezt.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

187.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 27. August 1864.

Elskulegi bróðir.

Kærar þakkir fyrir þitt góða seinasta bréf. Eg gef mig, að þræta við þig útúr myndinni, því eg sé þú ert fastur á þínu máli, og átt líklega á réttu að standa með það, að eg sé orðinn ólíkari því sem eg var, heldur en mér sjálfum sýnist. Sá sem sér sig daglega á víst bágara með að sjá muninn heldur en hinn, sem sér sama mann að laungum tíma liðnum; en eg held nú líka, að hin fyrri myndin, eptir Wegener, hafi aldrei verið neitt lík; hún hefir líklega verið fallegri, en eg var þá, því Wegener hefir viljað, að ykkur skyldi lítast á mig þar heima.

Okkur líður við það gamla, og ástandið er gott hér yfir höfuð að tala, enn sem stendur, en eg er nú hræddur um að fari að slettast uppá, þegar friðarsamningarnir koma fyrir alvöru, ekki fyrir það, að Danir eru nógu vel standandi til að standa einir, í svo góðu landi og með þessum gamla merg, sem þeir hafa sogið úr öllum sínum lagsbræðrum. Þú þarft svei mér ekki að aumkast yfir Dani í því efni, því þeir hafa einmitt viljað hafa það svona. Þeim getur ekki lynt við neina aðra þjóð, nema annarhvor liggi þar. Nú þykjast þeir verða fyrir órétti, að fá ekki að fara með Þjóðverja í Slesvík og Holstein einsog þeir ætluðu sér. Eins vilja þeir ráða og regera yfir okkur.

Forláttu þenna miða, elskan mín, og vertu með öllum þínum kærast kvaddur.

Þinn einlægur vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

188.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn 27. Aug. 1864.

Góði vin.

Það kom þegar það kom! og eg þakka þér ástsamlega fyrir þitt vinsamlega góða bréf og vinsemd óbreytta einsog fyrri. Þú gerir vel, að synda framúr því svona eptir hætti, því víst er um það, að pólitíkin okkar er ekki skemmtileg, en nú fer að verða sætt sameiginlegt skipbrot, því nú eru »bræður vorir Danir« komnir í soðpott, sem er ekki betri. — Kannske þú komist nú híngað, ef nokkur kemst, og getum við þá snakkað um stundarkorn; eg held eg verði að spila uppá það.

Það er alla daga víst, að prófessorinn er sá eini af konúngsmönnum sem brúkandi er. Þeir eru líka alltaf að versna hinir, t. d. Hjaltalín, eptir því sem kæruleysið á þínginu er að fara í vöxt. Það er orðið einsog þegar dónar sitja í verbúð og eru að spjalla. Jón Pétursson þykir mér líka fullgóður. Bensi *var* efnilegur, en hann er strax grunnskemmdur, — og svo er fylliríið! — Nei, nú ætlarðu að fara að verða fínn, að taka Smith! manstu ekki þegar Trampe var kosinn í miðnefndina? — Eg get vel ímyndað mér, að Smith sé fulllaglegur danskur maður, en það er alkunnugt hér, að hann hrækir á Ísland og vill sem fyrst burt að hann getur. Eg held svosem, að Danir fari sér ekki harðara þó hann Smith hói á þá. Þeir segja hann haldi með okkur til að gera sig góðan hjá okkur, og það verður svo, gína menn svo á hann og slá honum gullhamra, og svo er búið. — Þetta er nú mitt álit, en annars geti þið séð til, því einu gildir mig þó einn Danskur sé á þíngi.

Nú, eg sé að Bensi er að spreyta sig á kláðaverzluninni, er þá ekki vegur til að Jón Guðmundsson hætti,

eða fari að blása á móti? — Það er þó hart fyrir hann, að Bensi skuli taka framhjá honum í þessu máli. — Hvaða projekt meinar þú? — Var það um fjársýníng — það þótti mér vænt um, en það var drepið fyrir þér. — Það er skaði að Hús- og bústjórnarfélagið gerir ekkert, nema að luntast með skuldabréf. Það ætti að taka allan sjóð sinn og setja á vöxtu hjá bændum sem vildi gjöra jarðabætur, mót veði og leigum.

Ef þú kemur, þá hefir þú með þér Snorra Eddu, og getur samið. Eg vil gjarnan styrkja þig hvað eg get, en eg er hræddur um að Bókmentafélagið geti varla tekið bókina, nema vera skyldi deildin í Reykjavík, vegna peninganna, en allir vilja fegnir eiga hana, ef þú verður nú ekki alltof tyrfinn með kritik og þesskonar.

Um grammatíkina ensku held eg nærri, að Rafn væri tilleiðanlegur, hann hefir að minnsta kosti talað svo. Eiríkur hefir kannske handritið. Eg skal leggja til við Rafn hvað eg get, ef handritið kemur og þú með.

Láttu sjá, klóin þín! og hjálpuðu Jens til að fá handa mér ýmislegt prentað dót sem mig vantar.

Forláttu miða þenna og berðu kæra kveðju þínum ástfólgnu.

Þinn einlægur trúr vinur

Jón Sigurðsson.

189.

Til Sigurðar málara Guðmundssonar.

Khöfn 4. Oktbr. 1864.

Kæri vin.

Eg þakka yður fyrir yðar seinasta góða bréf, og þykir vænt um, að þér studerið alltaf Þíngvallastaðinn, og eins hitt, að þér sjáið til að eitthvert lag

væri á því sem yrði byggt þar, ef það yrði nokkuð. Því er ver, að menn eru svoddan nápínur á Íslandi, að þeir tíma ekkert til að leggja, nema þar sem brennivínið er öðrumegin.

Um júbílhátíðina er eg nú hægur á förunum, en til er það, að þeir verði hér aðrir ákafir um það. Eg er nú líka hræddur um, að margir fari að líta kríngum sig, áður en þeir hafa safnað sjóði til myndar Ingólfs úr steyptum málmi. Mynd sem er sköpuð eptir ímyndan er í sjálfu sér líka ómynd, því hún verður ósönn. En þið eruð nú heldur ekki almennilega byrjaðir enn að ráðslaga, svo það kann allt að verða gott á endanum.

Eg sendi strax bréfið til Thomsens, og mér líkaði það sérlega vel, ef hann bara hefir ekki orðið hræddur við stóra brotið. Stíllinn var góður og vel saminn, og efnið vel og greinilega framsett. Eg trúi ekki öðru, en að þið hafið eitthvað gagn af karlinum, því hann hefir nóg til, ef hann tímir að láta það.

Ekki sé eg neina ástæðu til að gjöra svo mikið útúr Hauksbókarblöðunum, sem þér gjörið, því í sjálfu sér vildi eg, ef eg væri í ykkar sporum, heldur eiga eitthvað sem héti forngripur, heldur en þesskonar einstök blöð úr bók, með litlu efni. Af því þið vitið nú, að þau eru úr alkunnri bók, og eru komin þaðan án þess að þau hafi verið reglulega gefin eða seld, þá sýndist mér, þó þið hafið ekki tekið þau sjálfir, að fallegra væri að skila þeim aptur, og mætti það kannske gefa efni til að útvega ykkur ymsa aðra hluti, sem í raun og veru væri nytsamari. En þið ráðið nú því, þó þið velið hinn veginn, og aldrei skal eg sjá eptir því, þó þið haldið blöðunum, þér megið ekki taka það svo, því satt að segja álít eg þau ekki þess virði að berjast um þau.

Forlátið mér miða þenna og verið kærlega kvaddur.

Yðar einlægur vin.

Jón Sigurðsson.

190.

Til dr. Guðbrands Vigfússonar.

Khöfn 22. Oktbr. 1864.

Elskulegi vin.

Eg hefi verið að hinkra eptir bréfi, til að vita hvar þér eruð nú niðurkominn, en nú treysti eg á William & Norg(ate) og slátra bréfum yðar, tek haminn utanaf og brenni, en sendi yður sálirnar, því af seðli frá Þorláki álykta eg, að þér séuð maður fyrir þeim, ef þær hitta yður, sem eg vona. . . .

Það væri gaman að fá frá yður sem lengst og mest lýsingabréf um alla hluti — og ekki sízt er nú það, hvernig yður lízt á blikuna með störfin, hvernig Bille tekur við yður, hvernig handritalánið gengur, og — hvað þér getið afrekað fyrir Bókmentafélagið — það litið sem eg get vil eg vera þakklátur fyrir hvað yður tekst.

Við kveðjum yður öll ástsamlega

yðar trúr vinur

Jón Sigurðsson.

Rétt um það þér fóruð, kom stór skammargrein í »Föðurl(andinu)« um »et vist Parti« af Íslendíngum, útúr Correspondancen frá Rvík i Christiania Intelligentssedler. Greinin var svo gróf, að menn urðu fremur reiðir við Ploug en höfundinn í norska blaðinu, jafnvel þó þeir bölvuðu honum, að hann hefði gjört »öll Ísraelsbörn illa luktandi fyrir Faraó«. Menn kenndu yður fyrst um, einsog vant er, en nú er það komið uppá Ólaf Gunnlögsen. Menn héldu fund, og vildu þrír (Sig. Jónass(on), Magnús Steph(ensen) og Bergur) annaðhvort þegja eða fara í Disput við Ploug, en hinir vildu svara og slá úr og í. Þessir sigruðu, og Gísli Br(ynjólfsson), Eiríkur og Laur(us) Blöndal sömdu grein — Gísli trú' eg mest — svona lina og kvennlega, sem Ploug svo

tók. — Mál okkar komust samt á kreik útaf þessu, líkt einsog áður við fengum verzlunarfrelsið, svo að menn heyra nú almennt, að það sé vitlaust að lofa okkur ekki að leika lausum hala, og ráðgjafinn vill leggja málið fyrir alþíng í sumar. Hvað nú verður, er óvíst, en *líklegt* er að eitthvað gerist. Rimestad segist vilja fara liberalt með okkur, til að koma sér vel við okkur, því við séum farnir að cokettera við Noreg og við Frakkland. — Ekki nefnir hann England, sem þó væri sannast! . . .

Hugsi þér um okkar pólitisku Discurser þegar svo ber undir — en ekki er vert að fara neitt »hart« í sakirnar að svo komnu.

Yðar J. S.

191.

Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 20. Novbr. 1864.

Háttvirti herra prófessor Maurer.

Mikill óþreytandi maður eru þér, og von er þó yður þyki nóg um að sitja yfir lagamönnunum dögum saman, en fyrst nú er á milli fyrir yður, ætla eg að taka lagið, og þakka yður ástsamlega fyrir bréf yðar bæði í vor og nú nýlega. Eg fæ reyndar samvizkunögun þegar þér minnist á Diplomatarium, og er nú að vona að geta komið út hepti í vor, en úr Stjórnartíðindunum get eg bætt með því að senda yður nú registrið og svo bindið allt, til þess þér getið gengið sem liðlegast að öllu saman. Eg vona þér fáið bráðum þessa sendíng, og íslenzkt almanak með, þó þér hafið nú ekki saknað þess, sömuleiðis Félagsrit, sem eg held þér munið ekki hafa fengið enn, þareð þér nefnið þau ekki. — Mér skilst á bréfi yðar, sem þér munið ekki hafa fengið

12. bindi af Lagasafninu; það er þó laungu búið og nær til 1843 inclus., svo þér hafið þar alþíngistilskipunina og hennar ástæður. Rifan á milli Lagasafns og Stjórnartíð(inda) er því ekki svo mikil og bætist bráðum. — Geti eg eitthvað styrkt til að segja yður frá, þá er mér gleði að gjöra það, en eg veit reyndar, að sjálfs er höndin hollust, og þér eruð vanastir að grafa sjálfur.

Fyrir svosem viku fékk eg fyrst bréf frá Guðbrandi, svo nú veit eg þó hvar karlinn er niður kominn, en áður sendi eg honum bréf til William og Norgate, og held eg það hafi ekki fundið hann enn. Mitt bréf, sem eg fékk frá honum, lýsir einsog þér segið, að honum líði vel, en hálfvegis lízt mér torsóttlega á Cleasby's verk, þó eg viti reyndar að Guðbr(andur) sé fljótur að vinna. Eg hafði hugsað það væri miklu meira og betur búið en mér heyrist nú vera munu.

Dálitla fregn hafði eg um »isl. Volksballaden«, en enga um recension Möbiusar, en eg hlakka til að sjá hvorttveggja. Eg hefi dregið nokkuð saman til formála fyrir Fornkvæðunum, einkum til lýsínga á vikivökum, og vona að við Grundtvig getum einhverntíma barið það saman, en »Fornritafélagið« hefir ætíð verið magurt og þolað illa mikla bagga, en nú er það einkum á fallanda fæti, því þeir segja að Westergaard þori ekki að senda kvittanir fyrir tillögum eða heimta þau, svo félagsmenn fælist ekki og segi sig úr, en þegar svo er, þá sjái þér að félagið muni varla vera orðið »reisa«, sem við köllum, og þá segjum við að fé sé þegar hordauða ef svo er.

Þér hafið heyrt dauða Rafns. Eg er settur skrifari um tíma, en hefi þó ekki mikla von um að verða kosinn nema kannske að hálfu, og er mér það reyndar engin mótgjörð, en samt er það óheppilegt, að eg hefi ekki meiri ákafa en svo, að eg reyni rétt aðeins til að loða við, ef svo kynni vera, að sú hlutdeild sem Íslendíngar eiga í félaginu, sem reyndar er mikil ef að

er gáð, gæti haldizt við, en þartil stend eg næstur formaliter. Þar á móti get eg ekki unnið það fyrir, að sökkva mér niður í það félag einsog þarf, og því verð eg hálfvegis feginn að þurfa þess ekki, ef eg að eins get krækt þar í klónni, svo að hángið verði á. Konúngur er forseti, en eg er hræddur um þar fari ríki hans í mola, einsog annarstaðar, hvað sem úr því verður.

Um fólksflutníngana frá Íslandi hefi eg helzt byggt á því, sem Pontoppidan segir í Magazin for almeennyttige Bidrag I, 205—208 cfr. p. 188. —

Mér hefir skilizt á honum, að það hafi lauslega verið stúngið uppá að flytja mart burt, eða allt, og það hafi einúngis verið fyrsta áætlun um, hvað kostaði að flytja 500 manns. Eg hefi einhverstaðar séð, að þessar skepnur hefði átt að fara til Jótlands, á heiðarnar þar, þegar þær hefði komizt híngað.

Um publication lagaboða út í loptið hefi eg þúsund dæmi, sem er nærri ómögulegt að telja. Þessi dæmi finnast fyrst í Alþíngisbókum 1770 og þar eptir — þegar stjórnin í Danmörk fór að blanda sér í hvert mál, og stiptamtmaður að búa þar heima — síðan finnst það í Klausturpósti, en svo þar eptir hefi eg það í listum, sem eru til um auglýst lagaboð á seinni árum. — Við Oddgeir vorum einusinni búnir að safna fjarska miklu af slíku, og sendum það kansellíinu til að sanna lagaruglið á Íslandi, enda hugsuðum við líka að prenta þá skrá einhverstaðar, þegar Lagasafnið væri komið á enda, en nú hefir þetta mikið misst sína praktisku þýðíng, af því að þesskonar publication er nú meðal vor farin að verða álitin öldúngis þýðíngarlaus, nema hún sé samkvæm tilskipuninni frá 1831, nl. á íslenzku. — Þessvegna reserveraði líka alþíng 1857 erfðalögin konúngshússins þessi nýju, og taldi þau ekki gilda á Íslandi nema þau væri þar löglega birt á íslenzku. Þessu hefir samt ekki verið gaumur gefinn, svo ef í hart fer þá er Chr. IX

ekki löggildur hjá oss, en annað mál er það, hvort okkur standi ekki á sama hvort konúngur vor heiti Kristján eða Friðrik, eða Carolína kerlíng. — Þessar auglýsíngar hafa breytt nokkuð þýðíng sinni eptir því sem skoðan manna hefir breyzt, einkum lagamannanna. Framaneptir þá var eiginlega meiníng lagamannanna sú, að auglýsa einúngis það sem gilda skyldi. Það sér maður á Alþíngisbók í tíð Páls Vídalíns, því hann tekur úr tilskipunum greinir og auglýsir eða sleppir einsog hann ætlar sér (An. 20. Febr. 1717). Það gjörir hann líklega sem lögmaður, ef hann hefir hugsað um ástæðurnar, sem líklegt er. Eptir lögmennina má sjá, að landsyfirréttar justitiarius t. d. Magnús Stephensen, hefir álitið sér bera að skera úr hvað gilda skyldi, og kans.-bréfið frá 1800 (2. Aug.) styrkir það. Þá kemur landsyfirréttur í stað lögmanns. Enda sér maður og þetta í Klausturpósti, því þar er Magnús opt að reyna að velja úr og sanna hvað gildi eða ekki, og svo má líka sjá þar hvað lesið var við landsyfirrétt. En þar hjá má og finna þar ýmislegt, sem hefði átt að birta en er ekki birt, og aptur það birt sem er alls vitlaust, og sem við höfum ekki tekið í okkar safn. Svo eru frá 1817 birt 8 sem við höfum ekki, 1818 önnur 8 o. s. frv. (Klausturp.), og sum þeirra eru hreint villandi, svo sem Plak. 12. Jan. 1820 að ekki megi þínglesa afsalsbréf nema álögur til *bánkans* sé áður goldnar o. fl. — 31. Marts 1819 um bólusetníng í *Vestindíum* o. s. frv. En síðan í April 1833, að hætt var að publicera við landsyfirrétt, og farið að lesa við hvern undirrétt (Fr. 24. April 1833), þá hefir nú ruglið orðið enn meira, svo sem þér sjáið í Lagasafninu, að varla nein tilskipun er auglýst í *öllum* sýslum. En svo kemur önnur kredda sem lagamenn bera fyrir sig, og það er, að þeir gera mun á þínglestri »til Underretning« (til fróðleiks!) og »til Efterretning« (til hlýðni!), jafnvel þó þeir gjöri aldrei ljóst, hvorri þessara lagaboð sérhvert

tilheyri. — Enfin! — þér finnið margar publicationsvitleysur í Klausturpósti. Þjóðólfur getur haft sitt dæmi úr réttarprotokolnum í Rvík, því þar munu finnast ótal dæmi.

Með ástarkveðjum til yðar elskulegu frúar, föður yðar og systur frá okkur hér.

Yðar elskandi vin

Jón Sigurðsson.

192.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn 1. Januar 1865.

Kjære Hr. Pastor Gudmundsen.

Glædeligt Nytaar for Dem og alle Deres Elskede! — De fik fra mig de sidste Blade fra Island efter Dampskibets Ankomst, siden har vi haft Efterretninger over Spanien, fra Slutningen af Oktober, og da var alt i god Stand og uden mærkelige Nyheder. Man har snakket Adskilligt frem og tilbage om Islands Anliggender, men som jeg troer endnu uden noget paalideligt Grundlag. Nogle sige, at det er paa Tapetet at slöife det islandske Departement, lade de islandske Sager gaae ind under Colonial-Departementet, sende Oddg(eir) Steph(ensen) over som Gouverneur i Colonien(!) o. s. v. — Hvis det skulde være Alvor, hvilket jeg ikke troer er Tilfældet, vilde det vække den störste Uvillie. — Af »Fædrelandet« har De seet Artikel fra norske Blade, som ligefrem foreslaaer Islands Adskillelse. Om det er for Alvor at Fædr(elandet) ligesom giver os Skylden for Forfatterskabet, veed jeg ikke, men det er tydeligt, at Fædrel[s] Taktik mod os nærmer sig den som det brugte i Slesvig, saa at det er ikke ganske grebet ud af Luften at forudsige at Enden bliver den samme, saa

det næste Lem, som Danmark taber, bliver Island, alene ved det dansk-nationale Parties mærkværdige Mangel paa Liberalitet. — Hvad kan dog være dummere end, naar man seer en Artikel i et norsk Blad, som forresten Enhver med halvt Öie kan see, ikke er af nogen Islænder, saa at udraabe at det er fra Islændere, at de nu vil rive sig lös, at de kan gaae Pokker i Vold, at de see hen nu til Norge, nu til Frankrig o. s. v. — Naar vi saa paa den anden Side blive saa slet og kraftlöst regjerede som siden 1848 og för, saa kan man ikke undre sig over om Folk sige til sig selv: Slettere kan det ikke blive!

Jeg for min Deel er nu ikke saa ganske fortvivlet herover, forsaavidt, naar vi bare kunde gaae fremad og blive mere aktive hjemme hos os, thi saavidt jeg kan see er det i vor egen Magt at bruge vore Kræfter som vi bedst veed, vil og kan. Men der seer man hvad det lange Slaveri virker, naar vi ikke har den naturlige Anförer nemlig Regjeringen, saaledes som i de fleste andre Lande, at Folk kan ikke forene sig om at gjöre noget, men venter hele Tiden Anföreren ovenfra.

I Oldskriftselskabet er der en betydelig Krise, siden Rafn döde. Jeg besörger Sekretairforretningerne indtil videre, men der er et stort Parti, som vil adskille det lingvistisk-historiske Fag og det archæologiske og vælge *to* Sekretairer, forelöbig tales om at lönne dem begge, og at jeg skulde være den ene. Men jeg holder paa, at vi skulle beholde den Tradition vi have, og kun gaae nærmere ind paa Selskabets oprindelige Formaal. Der vil vist blive Disput, thi Kjærnen i Sagen er vist den, at gamle Thomsen og Antikvarerne ville have Klöer i Pengene til at give ud Antiqviteter og forsörge en eller anden Ven. — Naturligviis vil man sige omtrent det samme om mig, men Selskabets Formaal taler dog for mig, og jeg troer at Deling af Sekretariatet vil foraarsage Spaltning i Selskabet. Muligen

vil da min Opposition före til, at jeg *ikke* bliver Sekretair, og jeg vil ikke tage mig det nær.

De kjender saa vel Selskabets förste Historie. Kunde De ikke faae Leilighed til at skrive en noget udförlig Memoire derom, muligen med nye Bilage og Oplysninger, navnlig f. Ex. oplyse det Spörgsmaal om Rafn virkelig er Selskabets förste Stifter, om Idéen er fra ham, om han har foreslaaet Stiftelsen deraf, og i det Hele hvilken Andeel hver har haft deri. Jeg önskede gjerne, at Islænderne kunde hævde sig nogen Plads ved Stiftelsen af Selskabet, ligesom de have ved dets Virksomhed. Gid De kunde faae nogen Tid til dette for Eftertidens Skyld. Hvis jeg maatte haabe det, og tillige om De fandt, at De kunde sende mig det, skulde jeg naturligviis behandle det med al mulig Discretion, ifald De havde noget sligt Önske. Jeg er ogsaa vis paa at De lige saa lidt som jeg önsker at formindske Rafns virkelige Fortjenester. — Blot suum cuique.

Med hjærtelige Hilsener fra os til Dem og Deres.

Deres stedse hengivne

Jón Sigurðsson.

193.

Til dr. Guðbrands Vigfússonar.

Khöfn 2. Januar 1865.

Elskulegi vin.

Hafið kærar þakkir fyrir bréf yðar 20. f. m. . . .

Fornfræðafélagið er í alspennu: Fundur var haldinn 12. Decbr. og var Wegener í forsæti, því konúngur mætti ekki. Wegeners tími var úti, og átti að kjósa varaforseta og skrifara, en menn vildu geyma kosníngu því margir vildu fá lagabreytíng, og var svo kosinn til varaforseta ad interim gamli Thomsen c(onferenz)-

ráð, og eg beðinn að vera við sem skrifari ad interim. Síðan var sett nefnd til að gjöra uppástúngur um hvort breyta skyldi lögum og hvernig, og skyldu þeir vera í nefnd varaforseti, skrifari, féhirðir (Bang) og tveir tilkosnir ɔ: Worsaae og Herbst. Þar af ráðið þér andann, að hann er í leirbrúsastefnu. Nú er þeirra ósk sú, að fá settar tvær nefndir fastar: fornritanefnd og fornleifanefnd, með tveimur skrifurum, og skipta tekjunum jafnt. Eg vil aptur á mót halda sömu stefnu og fyr, nema leggja meira til fornrita og hafa *einn* skrifara. Nefndin er nú ekki enn komin til neinnar niðurstöðu, en verði svo, að þeir fái ekki lagabreytíng, þá kunna þeir að straffa mig með því, að kjósa mig ekki til skrifara, og er mér það reyndar lítil mótgerð, en það er helzt einskonar point d'honneur fyrir mig að afsaka mig ekki, svo þar geti verið einskonar íslenzk hönd í bagga. Þar er við raman reip að draga, því Westergaard og Krieger eru með þeim, og er ekki ólíklegt að eitthvað Slesvíkurpirr sé þar í með, því Engelhardt, sem var í Flensborg, er líklega ætlaður til að vera annar skrifarinn, og gott hvort ekki á að reyna að ná í Slesvík með fornfræðum og leirbrúsum. Það fer nú samt líklega eins og um leirkarl síra Hallgríms, því þar sannast að »byltur þolum ekki«. Það er annars nokkuð hart að taka helmíng félagsins eigna frá útgáfum fornrita, og mér finnst skylt okkar megin að malda móti því, þó Westergaard huggi mig með því að þá getum við mist allt. Eg hélt í þá meining rjúpumáltíð með löndum vorum sem í félaginu eru, Konráði, Oddgeiri, Gísla og Grími, og mundi yður hafa þótt gaman að hvílíkur veraldarmaður eg skyldi vera í því efni. Samt er eg ekki svo mikill veraldarmaður, að eg vænti mér stórs af því.

Eg hlakka til að fá frá yður fróðlegar lýsingar af ymsu og ekki síður að fá eitthvað gott handa Bókmentafélaginu. . . .

Nú man eg ekki meira að sinni. Allt gengur annars við sama.

Við biðjum öll ástsamlega að heilsa og óskum yður gleðilegs nýjárs og alls hins bezta.

Yðar trúr vinur

Jón Sigurðsson.

194.

Til dr. Guðbrands Vigfússonar.

Khöfn 5. April 1865.

Ástkæri vin.

Nú nú, þar get eg þá sagt yður hvernig fór í Fornfræðafélaginu. Við höfðum fund í gær, og þar voru eitthvað 29 alls samankomnir. Uppástúngur meiri hlutans í nefndinni um að hafa 2 skrifara, tvær ritnefndir, taka af Ant(ikvarisk) Tidskr(ift) o. s. frv. unnu flest atkvæði, og þar af leiddi sem von var að sigurvegararnir skiptu herfángi með sér. Worsaae varð varaforseti, Herbst annar skrifari og Konráð annar. Kasseri hélt sínu sæti. Þaraf sjáið þér að eg er seztur á oppositionsbekkinn, og þar á eg líka eiginlega bezt heima. Satt að segja er eg vel ánægður að sleppa, því eg get aldrei fellt mig við að vera í einlægu lagaþrefi og nefndarvési, og geta svo aldrei gert neitt sem verk er í. Breytíng þessi er nú eiginlega í því falin, að nú skal varaforseti ráða, og skrifarar vera hans hjú, þó þeir sé reyndar í félagsstjórninni. Þeir eiga að hafa laun, en þau eru óákveðin, og þykir mér það nú hjákátlegt, að ákveða tvo embættismenn með föstum launum, án þess að vita hvað þeir kosti. Með þessum kjörum sé eg ekkert eptir, þó að Konráð sé skrifari, en lakast þykir mér, að eg er hræddur um að félagið geti lítið gert að svo komnu.

Eg er viss um, að með þeirri aðferð sem eg vildi

hafa gat maður haldið öllu í horfinu, greitt smásaman úr flækjunum, og hreinsað um, án þess að kasta frá sér þessum nimbus, sem var yfir félaginu. En þegar félagið beinlínis færir saman kvíarnar í störfum sínum, og tekur stökk í aðra átt, þá finnst mér tvísýnt um að það komi öðru fram en litlu einu og þá er ekkert gaman að vera fyrir framan hjá þeim sem er að hnigna. — Gísli Brynjólfsson sýndi mér sína hollu vináttu með því að spilla hvað hann gat, því hefði hann bara þagað, þá hefði litið út sem Íslendíngar væri samdóma, en þegar hann lýsti sig ánægðan með uppástúngur hinna, þá veikti það okkar íslenzka málstað. Nú hafði hann þó áður verið á því, að við ættum að reyna að halda bróðurhluta tekjanna, samkvæmt lögunum, en það er svo undarlegt, að Gísli sér það ætíð tveim árum seinna hvað hann hefði átt að sjá í hitt eð fyrra. Grímur stóð með mér í orði og verki allt hvað hann gat. En það er einkennilegt um Dani, að munnlega segja þeir utanþíngs, að *í rauninni* muni eg hafa rétt fyrir mér, en »flestir« sé á hinna hlið, og muni bágt að sporna við því, greiða svo atkvæði þeim megin. Og ekki nóg með það, heldur eru þeir *nú* að stínga að Rafni og hans stjórn, og enginn lauk upp sínum kjapti honum til forsvars nema eg loksins, og hefir það nú sjálfsagt haft af mér atkvæði, því eg las nokkuð fyrir þeim.

Í stuttu máli: Eg þykist fallinn með æru, og er fyrir sjálfum mér betur ánægður með að vera laus að svo komnu.

Eg hefi verið að vona eptir ferðasögunni. Við héldum nýlega fund í Félagsritum og völdum nefnd, urðu þar í Sig(urður) Jónass(on), M. Steph(ensen), Júl(íus) Havstein, Þorvaldur og eg. Við hlökkuðum til að fá ferðasögu sem fyrst, og þér megið ekki láta það dragast.

Grímur er altaf að fara á fjörurnar um, hvort þér séuð ekki með orðabókina, hvort þér komið ekki, hve-

nær það verði o. s. frv. — Eg segi þér talið mest um íslenzk handrit í London og Oxford, en getið ekki um hitt. Hann stakk uppá, að þér ættuð að fá styrk til að skrifa upp það sem fágætt er, og einsog þér getið nærri mælti eg ekki móti því. — Veturinn gerir alla yðar burtuveru trúlega, því Arcturus er ekki kominn af stað enn í fyrstu ferðina, og liggur hér allt innbundið í klaka, svo ekki sér enn í auðan sjó hér ytra. Íslenzku kaupmennirnir eru að hlaða skip sín í vökunum á höfninni. Ef ekki breytist, þá kemst ekkert skip út fyrstu vikuna hér frá.

Eg hefi margar kveðjur til yðar og einkum frá frú Knirsch og frá okkur hér. Frú Thorgr(imsen) hefir verið lasin og er ekki komin til enn, samt get eg ekki sagt að nein sérleg hætta sé á ferðum nú sem stendur en falls er von að fornu tré. Sigurður er ætíð með frímerkjafýsn.

Eg bið yður sérílagi að láta Félagsritin fá hvað þér ætlið okkur sem allra fyrst.

Yðar elskandi vin

Jón Sigurðsson.

195.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 6. April 1865.

Elskulegi bróðir.

Ástar þakkir fyrir bréf þitt í haust er var. Okkur hér líður vel, og eg er hálfvegis að vona að sjá þig í sumar, en samt er það ekki fullvíst enn. Viljann vantar ekki, en það vantar nervus rerum gerendarum, einkanlega svo, að menn gæti séð veg til að nokkuð gengi. Það munar svo lítið um einn, en ef tíu eða tólf væri með sína sleggjuna hver, þá mundi kvarn-

ast eitthvað úr þessu Heiðnabergi. Og það er verst, að menn eiga svo örðugt að ná saman og vinna saman, af því að fari það og veri sem maður getur kostað 200 dölum misreitis nema manni svíði á eptir um lángan tíma. Það væri gaman ef við hefðum ráð til að halda tólf berserki gráhærða, og tólf svarthærða, væri svo hér og þar á víxl til að prédika og kenna fólki guðs götu í sannleika um landsins gagn og nauðsynjar. Þá er eg hræddur um bróðir, að við yrðum meðal hinna gráhærðu berserkjanna, og mundum vilja ferðast saman allt hvað af tæki. Nú hefðum við samt mátt taka af hestum okkar í vetur, því Danir hafa verið svo innibyrgðir sem otur í kelpu.

Police þín er í reglu, og allt hvað eg veit til er einsog það á að vera í þeim efnum.

Hér er eiginlega ekkert sérlegt að frétta, nema að Danir eru svipaðastir Grikkjum, þegar Tyrkjar sátu um þeirra síðasta bæ og þeir voru að disputera um guðs leyndardóma, einsog Magnús frater, og bölva hver öðrum. Aldrei hefi eg séð eins mikla heiptrækni og nú er hér í mönnum hverjum við annan. Það skyldi þá vera þar sem sagt er frá kerlingunum, sem rifu hver aðra til dauðs. Eg er hræddur um að þetta viti á, að Danmörk detti í tvennt, og taki Prússar Jótland en Svíar Sjáland og Eyjarnar, og þetta óttast reyndar margir.

Forláttu elskan mín þetta bull og vertu með öllum þínum kært kvaddur.

Þinn elsk(andi) bróðir

Jón Sigurðsson.

196.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn 6. April 1865.

Elskulegi vin.

Hafðu beztu þakkir fyrir bréf þitt, hreinskilið og gott einsog þín er von og vísa. Já, víst vona eg að geta komið í sumar, en samt er ýmislegt til tálma, sem eg er ekki viss um enn, hvernig úr greiðist. Jacobsen hefir verið að reyna að láta semja hér fyrir sig, en það hefir ekki tekizt, og sumir segja nú hann fari ekki heim. Það væri það eina rétta. — Eg hefi leitazt við, að þú yrðir konúngkjörinn, og væri til það takist. Þú varst nærri búinn að steypa úr kláfunum hjá Bensa og Thoroddsen, en það hefir líklega verið blessuð góðmennskan sem hefir komið málinu til Jónassens Erklæring, og það vitum við að þá muni búrið opnað og fuglarnir fljúga út.

Um íslenzku málin gengur reyndar ekkert, nema Bergur er búinn að prenta Vínarsamnínginn. Einusinni fengum við að sjá ríkjasamníng á íslenzku! — Um póstmálið er eitthvað í tilbúníngi en hvort sú mús fæðist veit enginn. — Ef þú vilt sjá þriggja ára gamalt fóstur í fjárhagsmálinu, þá líttu á! og muntu sjá hvað það dafnar vel. Það mun vera fjórar línur frumrit? — eptir þrjú ár! Þetta var nú sýnt ríkisþínginu og mun eiga að sýna það alþíngi í sumar, en ekki trúi eg stjórnarmálið eigi að koma. Alþíng vísar því frá! — Natyrlig!

Aldrei hefir hér verið meiri bobbi í öllum málum en nú. Það eru einsog hér sé tveir tígulkóngar í spilum, og skyldu menn halda að kölski væri þar í leik.

Hér eru nú tvöföld tvö þíng, tvö og tvö samnefnd, og koma saman í sama sal, með sömu mönnum sett að mestu, og mala hvort á móti öðru. Svo eru Þjóðvinir og Bændavinir, og mala hvorir móti öðrum. Svo eru

ministrarnir tvískiptir, og nú er Heltzen malaður útundan. Svo er allur sjór og jörðin tvöfalt í roðinu af snjó og krapi.

Eg hefi sent Jens blöð og þesskonar og vísa þér til hans, hann hefir nóga lecture.

Með kærustu kveðjum,

þinn einlægur elskandi vin

Jón Sigurðsson.

## 197.

## Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 13. Mai 1865.

Elskulegi Gísli bróðir.

Það er kannske of mikið að segja einsog strákurinn í Mókollshaugi að við munum eflaust sjást, hvernig sem fer, en það sýnist fremur horfa vænlega, að svo kunni að verða, ef ekkert kemur í veginn til tálmunar, sem eg er að vona ekki verði. Það er bágt, að þú ert alltaf að berjast við uppgánginn frá brjóstinu, eg man eptir því, að þú varst alltaf vangæfur með meltínguna, og er ekki von það batni með aldrinum. Eg þoli heldur ekki nú að sitja einsog áður, heldur verð eg að hreifa mig, og bezt hefði eg af nú að sitja sem minnst um kyrt, en vera á flökti og kjapta og drekka, en samt allt mátulega einsog þú skilur. Þessvegna getur þú því nærri, að eg á örðugra að vinna mér nóg inn en áður, þegar eg gat setið á mínum koparrassi hvað lengi sem vera skyldi, en samt þarf eg ekki að kvarta híngaðtil, því heilsan hefir verið góð.

Þú verður líka að gá að því, að eg vil ekki fara lengra útí skuldir en mér er fært, þó eg hafi krít, því hér er nýtt dæmið, þar sem Konráð er, að það er ekki

hollt og hefir hann þó verið heppnari en eg að fá fé til ymsra hluta, og hefir fast embætti þaraðauki.

Nú held eg ekki verði um annað að gera heldur en að Danir verði að spreyta sig á kosníngum í allt sumar, hvað sem svo tekur við. Það álít eg eitthvert hið versta þitt mótlæti, elskan mín, að þig er farið að taka svo sárt til þeirra núna, því það sýndist mér þó ekki eiginlega þjá þig svo mjög áður fyrri. Mikið mætti mér gánga í vil þángaðtil eg færi að aumkast yfir þá fyrir það þó þeir hafi tvisvar tvenn þíngin og þrefi um kosníngar. Mér finnst það sé einsog sem menn kalla hver silkihúfan upp af annari, og væri fallegast þær væri þrjár, líkt einsog á páfanum, en helzt svo margar, að Þjóðverjar yrði hræddir við. Fyrir manna sjónum er ekki annað líkara en að Danmörk losni í sundur, en þetta hefir reyndar fyr átt sér stað á líkan hátt, og getur enginn sagt annað, en að ástandið þá hafi verið í sumu verra en nú. Það væri því tími fyrir okkur í þessari tíð að manna okkur upp, en mér lízt tvísýnt hvernig gengur, því mér skilst að delirium tremens sé nú farið að verða conditio sine qua non til þess að geta heitið skynsamur maður á voru landi. Þetta getur þó ekki vel gengið. Mér lízt ekki heldur á, þegar þessar gömlu eptirhermur fornaldarinnar koma fram á ný, sem eg sé helzt í Íslendíngi hjá skáldi voru Thoroddsen og hans kompánum. Eg held mikið uppá fornöld vora, en eg vil ekki gjöra oss að apaköttum þeirrar aldar, sízt þegar menn hafa ekki ljósari hugmynd en svo, að menn vita ekkert hvað fram hefir farið nema eptir hugarburði. En að kotúngar fari að herma eptir konúngum í ytra formi, það sýnist mér vera Don-Ranudiskur máti.

Forláttu, elskan mín, þetta bull, kysstu konu og dóttur.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

198.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn 13. Mai 1865.

Elskulegi vin!

Kærar þakkir fyrir þitt góða bréf, sem eg játa var bæði lengra og betra en mitt, en þú verður að taka viljann fyrir verkið. Eg ætla að bera mig að komast til þín með næstu ferð, en nú sérðu sjálfur að eg get ekki komizt, því nú fengum við fyrst með skipinu reiknínga Bókmentafélagsins, Bergur fer frá varaforsetadæminu, og allt yrði óklárað fyrir mér. Þá er eitt, að forseti mundi varla ávísa mér kaup ef eg færi nú en gæti náð þíngi með næstu ferð.

Það gleður mig þó, að eg held eg geti með vissu heilsað þér sem konúngkjörnum þíngmanni. Við ættum að verða fjölmennari þá sem lækníngamenn, en nokkurntíma fyr á þíngi. Eg tel 10 atkvæði með lækníngum og ef síra Halldór verður forseti mætti víst takast að ná 12, eða heldur þú ekki? — Nú væri réttast að fá Jacobsen til að segja af sér, þá er Magnús í Bráðræði okkar megin. Um Jakobsen veit eg, að hann hefir verið að leitast við að semja hér við creditora sína, en hefir ekki gengið. Nú finnst mér, að maður geti ekki annað en heimtað af *honum* sönnun fyrir því, að bú hans sé extraderað, annars getur maður ekki tekið hann gildan. Það er rángt, að velta sönnuninni uppá hina, að sanna að bú hans sé ekki extraderað, en það mun vera taktik hans og þeirra að fara svo að. Mér sýnist rétt, að láta spyrjast, að sönnun sú sé til, en að menn vilji spara sér hana, ef mögulegt væri, og eg segi fyrir mig, eg vil ekkert bekkjast við Jacobsen, ef hjá því yrði komizt, en eg segi einsog þú, eg vil ekki vera með í að fara þvert ofaní lögin vísvitandi, sízt þar sem sjálf laga-ástæðan er rétt, og eg hefi líka nokkurn ótta af slarki Jacobsens, svo það er mjög tví-

sýnn fengur að fá hann á þing. Hann er góður utanþings. Hann má sjálfur vita þetta, og geta ímyndað sér, að maður vili nauðugur bekkjast við hann, en þó svo, að maður þykist neyddur til að taka fram sönnunina nema hann segi af sér. Hann getur afsakað sig fyrir þetta þing ef hann vill. Með þessu efast eg varla um, að hann láti sig, því annars er hann fallinn fyrir fullt og allt. Heldur þú annars ekki, að flestir yrðu á því, að heimta sönnun af *honum*, að hann sé bús síns ráðandi? Þá má sú nauðsyn vera honum enn ljósari, að segja af sér í tíma.

Hvað er um Jón Guðmundsson? — Stjórnin ímynda eg mér skeri úr engu því, sem getur komið til alþingis kasta, en hún gæti kannske instruerað Jónassen um, hvort hann t. d. ætti að kalla Jón til þings eða ekki, eða hvort hann ætti sem konúngsfulltrúi að hefja mótmæli, eða ekki.

Skelfíng er að vita til Benedikts, hann er að tryllast og þar stoða engin valzisk böð! en Jón Guðmundsson er ekki stórt betri núna. Þeir sem hafa notoriskt delirium eru nú orðnir landsins vitrustu menn. Að mæla fram með uppástúngum Norðlendínga það er þó hrokað ærs manns æði, þar sem nærri því hvert einasta atriði er ómögulegt, auk vitleysunnar sem í því liggur. Sá redaktör, sem ófullur mælir með öðru eins, má hafa eitthvað annað in mente, en að hafa fram laglega gott mál. Það mun vera blaðsins interesse, sem rekur eptir? — Þá er boðsbréfið til Þingvallaskýlisins. Það fellir sig nú líklega sjálft, og það er gott að þesskonar blöðrur springa, sem ekki eru nema einsog þegar börn eru að blása sápulög í þvottastampi. Eg er reyndar á því, að ef menn ætluðu að hafa alþing á Þingvelli, þá veitti ekki af hundrað þúsundum með öllu og öllu, ef við ættum að hafa sóma af fyrirtækinu, og þar á bættist kostnaður við alla óhægðina, en að hugsa sér að hafa hús þar fyrir þetta sem þeir

tiltaka, er svo barnalegt, að það nær engu tali. Mér finnst sjálfsagt að hér væri aðeins að tala um búðatóptir fallegar og stórhreinlegar, sem væri ætlað til að búa og tjalda nokkurn tíma úr sumrinu, þrífa svo til að ekki raskaðist fornar menjar, en búa til á öðrum stöðum gángvegi og einstigi, svo menn sæi að hér væri ekki skrælíngjar að troða rústir merkra manna. Það gæti orðið laglegt.

Eg gjöri hvað eg get í kláðamálinu, og við Tscherning báðir. Bræstrup vona eg verði góður, og hann kunníngi okkar Bensi má gá að sér, ef hann heldur þessu fram, en verði hann settur af, þá hefir hann líka frjálsar hendur, og þá getur hann reynt hvað hann geti boðið þjóðinni. Það er að vísu satt, að þjóð vor lifir að miklu leyti í þeim hugmyndum sem voru 1770, en þar með var *ekki* mikil rausn sameinuð, svo Benedikt tekst víst fljótt að eyða því í andlegum og líkamlegum kláða á mönnum og fé, sem hann fær með samskotum. — Hvað meinar þú með því, að ministeríið ætti að steypa Bensa úr þingi? — Eg sé ekki að min(isteríið) geti tekið kosníng af neinum, nema þú ætlist til, að það hafi ráð á öllu saman, en það gengur ekki minn kæri! — Eg fékk ekki svar það til Norðanfara sem þú talar um. En hvað segir þú um Havstein? — Er hann ekki öldúngis frá? Eptir því sem hér er sagt, hefir honum hnignað í vetur, og það eina sem heldur honum við er líklega þetta lífsbalsam Jóseps, sem liggur í agitation í kláðamálinu.

Málfræði þína hefi eg ekki fengið. Það kann að vera að Konráð yrði meðmæltur að gefa hana út, en Fornfræðafélagið er á rassinum til framkvæmdanna, og fer að eg held hnignandi, en kannske eg spái vitlaust, og það væri gott fyrir félagið.

Með kærum kveðjum

þinn trúr vinur

Jón Sigurðsson.

199.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn 13. Mai 1865.

Bedste Herr Pastor Gudmundsen.

. . . Oldskrift-Selskabets Historie er snart fortalt. Rafn havde i den senere Tid ikke completeret Oldskrift-afdelingen, saa jeg var ene tilbage. Paa den anden Side havde han optaget mest Antikvarer, og de lurede paa hans Död til at bemægtige sig hele Byttet. Jeg blev dog constitueret som Sekretair, men Viceformanden Geheimearchivar Wegener löb sin Vei og turde ikke give sig i Kast med C(on)f(erents)raad Thomsen, Worsaae og fl(ere). Vi kom da i Comité, og de andre (alle Antikvarer, undtagen den Mæhæ af Casserer, som altid fölger Conferentsraader eller Etatsraader) vilde have Selskabet deelt i to Sectioner, med to Sekretairer og to Comitéer, hver paa syv eller sex Medlemmer, indskrænke sig i Henseende til Selskabets Drift o. s. v. Jeg vilde derimod i alt væsentligt fortsætte ganske efter Lovene, og forelöbig ikke forandre dem, men drive Selskabet efterhaanden ind i en mere populair Retning. Jeg vilde have Organisationen saa simpel som mulig, kun en Skriftcomité af 5 Medlemmer efter Lovene o. s. v. — Da jeg nu gik Antikvarerne temmelig haardt paa Klingen, og ikke lod mig böie, men heller ikke hvervede Stemmer, blev jeg naturligviis den Overvundne, men det gjör mig egentlig slet ikke ondt, skjöndt jeg derved kommer ud af Selskabets Bestyrelse, thi den hele Retning er efter min Mening upraktisk, fuld af ufrugtbare Forhandlinger og förende Selskabet tilbage istedenfor fremad. Men i et Selskab der gaaer tilbage er det ingen Fornöielse at være Sekretair.

Den væsentlige Forskjel i Organisationen er den, at Selskabets Tyngdepunkt nu er lagt paa Viceformanden istedenfor för paa Sekretairen. Sekretairerne ere egentlig nu Viceformandens Skrivere. Viceformanden er Worsaae. Dette er en upraktisk Be-

styrelsesmaade forekommer mig, men Oppositionen mod Rafn var saa stærk, at alene hvad han havde gjort, var tilstrækkeligt til at faae det omgjort. Ingen uden jeg alene havde Mod til at forsvare ham, og jeg gjorde det mere fordi jeg syntes det var saa lumpent at laste den Döde efterat man havde priist den Levende. Som Islænder havde jeg mindre Grund end danske Mænd til at forsvare ham. . . . Forövrigt kan jeg personlig ikke klage over Angreb, thi jeg maa endogsaa tilstaae at jeg var mere den Angribende, men man havde ikke heller noget med Grund at bebreide mig. Jeg havde i Vinter faaet de *fem* Bind færdige, som vare begyndte af Rafn, men nu lader Bestyrelsen disse Bind komme ud med Maaneders Mellemrum, for at dække Spalten.

Nu ere Comitéerne dannede, og jeg har förelöbig Plads i den ene, som Konrad er Formand for. Man kan jo altid melde sig ud. Hvad jeg venter paa er egentlig dette, at i Slutningen af Aaret skal et Budget forelægges for næste Aar, og Midlerne deles mellem Comitéerne. Da vil jeg foreslaae, at vi maae beholde den störste Deel, saasom islandske Oldskrifters Udgivelse er Hovedformaal for Selskabet. Dets Fond var allerede 10000 Rd. förend Oldsag-Comité blev sat i Gang, og sidst i 1861 blev 1000 Rd. skjænkede til Selskabets faste Fond af en »Ven af Island«, som altsaa ikke kan være Antikvarernes Eie. — Jeg vil nu vist ikke trænge igjennem dermed, men efterhaanden haaber jeg i det mindste at faae Antikvarerne til at genere sig lidt mere, og jeg smigrer mig med, at hvis min Opposition ikke havde været, vilde de have ranet det Hele. De har nu formodentlig tænkt, at jeg vilde blive gyselig vred ved at falde igjennem, men jeg troer ikke at Nogen kunde i den Henseende opdage mindste Forandring hos mig ligesaa lidt som jeg selv följte nogensomhelst ubehagelig Fornemmelse derved. Selskabet fritog mig selv for Pligter, som vilde have generet mig meget mere.

Det kan gjerne være at Finsen er ikke noget uheldigt Valg. Jeg er kun bange for, at han som Eidernational Dansk vil begynde paa de samme Kunster paa Island som i Slesvig have haft saa slette Fölger. Lad os imidlertid haabe det Bedste, og at hans islandske Blod skal seire.

Vistnok troer jeg, at Cuurprincipet skal seire tilsidst i Skabsagen, men der staaer vistnok en Dyst endnu tilbage og Regjeringen ligesom Jonassen er meget Skyld deri. Vor Ven, Hjaltelin, som fortæller om »Landphysikus« i Berl(ingske) Tidende, er altid noget sangvinsk. Han har nylig polemiseret med Assessor Bened(ikt) Sveinsson i en Pjese, og Assessoren er nu den störste Forkjæmper for Nedslagtningen. Fra Nordlandet er kommen en Petition, hvis Indhold De finder i Þjóðólfur, med Jon Gudmundssons Anbefaling i de varmeste Udtryk. Der vil De finde en saa net Nedslagtnings-Plan, som De vil forlange. Det er naturligt, at den hele Sag er forekommet Dem uforstaaelig eller besynderlig, det samme har jeg ofte fölt. Men hvis De kjendte det System af Dumheder og Fordomme, som har frembragt den hele Agitation, i Forbindelse med al den Vaklen og Uduelighed som Trampe og Jonassen have kunnet opbyde, saa vilde De snarere forundre Dem over at der lever et eneste Faar i Sönder-Amtet. Da Tschern(ing) og jeg var derovre fik vi i 5 Maaneder saa megen Bugt med de 40000 Faar, at kun ringe Spor var tilbage af Sygdommen, da jeg gik derfra, men det er lykkedes Assessor Sveinsson og de andre Vrövlehoveder at vrövle dette op igjen indtil nu. . . .

Jón Sigurðsson.

## 200.

### Til Boga sýslumanns Thorarensens.

Rvík 4. Juli 1865.

Elskulegi frændi og kæri vin.

Ástar þakkir fyrir bréf þín og sendíngar, og alla þína vinsemd og tryggð við mig. Mart mætti nú um tala ef tíminn leyfði, segir gamli Jón Vídalín, en hér eru engin umsvif nú. Þú fær að heyra fréttir af alþíngi, og þar á meðal það, að þíngmenn kusu mig nú aptur til forseta eptir lánga hvíld, og hefi eg því lítið ráðrúm, því hér er einsog vant er, allir tímar jafnhelgir og umræður nógar. Þú getur nærri, að þegar eg er valinn til forseta, þá muni það þýða sættir í kláðamálinu, og eg vona að menn verði nú svo skynsamir að leggja niður kláðaþref og snúa sér að fjárrækt landsins yfirhöfuð að tala, svo að stjórnin leggist á eitt með að efla og bæta fjárræktina og þarmeð útrýma *bæði* kláða og öðrum fjársjúkdómum, bæði bráðasótt, lúngnasótt og öðru; þá er kláðamálið komið á réttan rekspöl ef þetta lukkast, en annars sperrist alþíng við enn á ný til einkis, og áorkar engu, þángað til lengra er frá liðið, að það verður að komast að þeirri niðurstöðu, að gjöra það sem praktiskt er, en ekki hitt, sem til einkis er nema til að auka illindi og kostnað. Þú ert svo praktiskur maður, að þú sér að ekki dugir í þeim efnum annað en framkvæmdin sjálf, og að henni þurfa allir að styðja.

Dagblaðið vona eg þú hafir fengið, og fáir með Clausens skipum, sömuleiðis á eg að skila frá konunni kveðju til móður þinnar, að hún eigi með Clausens skipum sendíngar þær, sem hún átti von á. Ef þú sendir mér af þínum nægtum og vinargæðum handrit eða bækur, þá þakka eg þér fyrir allt, smátt og stórt, og væri það nokkuð sem eg gæti látið í té aptur á móti, þá væri mér ánægja að vita hvað þér væri geðfelt.

Eg fékk, minnir mig, 20 dali í þinn reikníng í vor hjá Sandholt eða Clausen, og skal eg síðar gjöra þér reikníng fyrir því.

Félagsritin eru nú akkúrat skuldlaus, og vona eg þú gratúlerir; ekki er það nú samt neitt sérlegur uppsláttur, því ekki er fáanlegt að menn styrki ritin svo, að við getum borgað honorar, eða haldið áfram jafnt og þétt hvað sem fjárhag ritanna líður. . . .

Forláttu þetta risp og vertu ætíð blessaður.

Þinn einlægur frændi og vin

Jón Sigurðsson.

Konan biður ástsamlega að heilsa móður þinni og konu þinni. Þú mátt geta nærri, að henni þætti vænt um að kynnast konunni þinni, og eg er svo síðan eg var hjá ykkur seinast í Hjarðarholti, að eg man einna bezt eptir konunni þinni af öllum konum hér á landi, og þú getur nærri hvað það þýðir, og getur ályktað þaraf, hvort mér þætti ekki nógu vænt um að sjá bréf frá henni, þó ekki væri það til mín sjálfs.

## 201.

### Til dr. Guðbrands Vigfússonar.

Rvík 5. Juli 1865.

Elskulegi vin.

Þá er nú hér komið, og má eg ekki láta hjá líða að segja yður fréttirnar. Alþing var sett 1. Juli, en eg kom híngað daginn áður. Þíngið byrjaði með því, að við hrundum Sveinbirni Jacobsen úr þíngi, og urðu vinir hans og drykkjubræður okkur reiðir fyrir það. . . . Eg var nú kosinn forseti með 19 atkvæðum, og á eg það Benedikt Sveinssyni að þakka, að hann var ólmur móti mér á privat fundi.

Stefna málanna er allgóð einsog nú stendur, og eg vona hún haldist við. Um kláðamálið spáðu menn miklu þrefi, en eg held það verði minna, og er enda svo djarfur að vona, að eg geti áunnið það, að menn sleppi kláðamálinu sjálfu, og snúi sér að fjárrækt yfir höfuð, og aðhyllist uppástúngur okkar Tschernings frá 1859, og kalla eg gott ef svo yrði. Stjórnarfrumvörp um brennivínsálögu og hækkun á skipagjaldi held eg falli, ekki svo af því brennivín sé sparandi, sem af því, að stjórnarmálið kom ekki eins og við vildum.

Mér lízt ekki svo illa á skoðun manna nú sem stendur, hvað sem verður síðar, og það er bót í máli, að Bened(ikt) er hræddur um rassinn á sér, að hann verði settur af, og vill því helzt sættast ef kostur væri. Allt þetta gjörir, að eg hefi von um meira samheldi en á horfðist, en hitt er slæmt, að menn eru mjög lítilmagna í samskotum á fé, til að koma málum sínum fram. Sumir vilja kjósa sér menn til að vera um tíma í Höfn, til að vinna þar að vorum málum, en það er hætt við, að það þyki féskylft og verði lítið úr, enda er og ekki heppinn tími í Khöfn nú sem stendur í þessum efnum.

Eg hefi verið hjá Sigurði bróður yðar og séð hans dýrð, hann var að smíða belti handa Kristínu dóttur Jóns Guðmundssonar og kostar 60 dali, prýðilegt þíng. Eg skal borga föður yðar það sem þér nefnið, ef hann kemur hér.

Nú man eg ekki meira að segja yður að sinni og kveð yður því ástsamlega.

Yðar einlægur elskandi vin

Jón Sigurðsson.

## 202.

### Til dr. Guðbrands Vigfússonar.

Reykjavík 10. August 1865.

Elskulegi vin.

Kærar þakkir fyrir yðar góða bréf með skipinu. Það sem eg hefi að segja yður í fréttum er helzt það, að fyrst og fremst líður okkur vel. Siggi litli er confirmeraður hér, á íslenzku náttúrlega, og eg vona að við komumst héðan með næstu ferð, sem ætlazt er á að verði c. 20. September. Faðir yðar fékk 25r sem þér gjörðuð ráð fyrir.

Um alþíng get eg ekki sagt yður annað en það, að allt fer fram með sæmilegum friði og spekt. Eg held að flestum líki allvel við mig, að minnsta kosti ofaná. Þér fáið víst að heyra, að einhver hefir glepsað í mig í »Folkets Avis« í Khöfn, og heldur óþyrmilega. Arnljótur hefir haft þá grein hér til útbýtingar, og hugsa sumir að hann og Gísli Brynjúlfsson eigi produktið. Nú er sagt að Arnljótur sé að búa sig til að senda annað skot til Hafnar. Skammirnar til mín eru mest útúr fjárhagsmálinu, og útúr kröfum mínum, og á líklega að vera til þess, að fá auðveldara framgáng á því máli, að minnsta kosti kemur það saman við, að Arnljótur og Benedikt vilja nú hafa fjárhaginn à tout prix, eg held þó Danir léti ekkert. En eg vil halda kröfum vorum að svo stöddu, þó ekkert fáist, og heimta sífelt, en reyna að koma á samvinnu og félagsskap til að taka sér fram að öðru leyti, svo við getum slegið til með fjárhaginn þegar við sjáum okkur slag, en ekki fyrri. Fjárhagsmálið er ekki komið fram enn, því þíng verður varla búið fyr en þann 25ta August, en stefnan mun vera sú, að þíngið lini úr mínum kröfum, en heimti samt töluvert. Arnljótur er fallinn í rýrð, og Benedikt líka, nú sem stendur. . . . Um kláðamálið vona eg ráðist svo, að menn komi sér saman um að snúa sér

eindregið að fjárrækt og lækníngum, þó líklega með einhverjum smáfleygum, svosem vörðum eða þesskonar. Það er verst, að nú er ekkert uppúr málinu að hafa í samburði við það sem orðið gat hefði verið farið klóklega með í tíma. En betra er seint en aldrei samt sem áður. Yfir höfuð að tala þykir mér ekkert slæmur andi í alþíngi, en það er svo slæmt, að kjósendur skuli aptur og aptur taka þá skraffinna, sem ekkert hafa til síns ágætis nema málróf og svakk, en enga hugsun til að vanda sig í neinu, eða sýna þá fyrstu reglu, sem er að passa sjálfa sig. Á þíngi fer engin óregla fram, en utan þíngs fá þeir orð fyrir drykkjuskap sem þér þekkið. Nýi stiptamtmaðurinn er nú að heilsa. Hann er góður maður og gegn, og ef hann verður ekki skemmdur má hafa víst gagn af honum. Við fórum allir þíngmenn að heilsa honum, og eg hélt sjálfsforræðiskapítula fyrir honum, sem mönnum líkaði vel — eg veit samt ekki um *alla* — hann svaraði aptur á íslenzku svona sæmilega. Þetta eru nú helztu fréttirnar.

Með beztu kveðjum frá okkur öllum
er eg ætíð yðar einlægur trúr vinur
Jón Sigurðsson.

203.

Til dr. Guðbrands Vigfússonar.

Khöfn 23. Oktbr. 1865.

Háttvirti elskulegi vin.

Það er kominn tími til að heilsa uppá yður og segja yður dálítið um fréttirnar. Það er þá fyrst, að ferðin gekk æskilega vel híngað og við komum híngað laugard. 7. Oktbr. fyrir hádegi, rúma þrjá sólarhrínga á leiðinni, og getur það varla betra verið. . . .

Um okkar mál er það að segja, að þeir hafa þótzt neglast á fjárhagsmálinu á alþíngi, en þó kvað stjórnin ekki vera neitt sérlega reið útaf afdrifum þessa máls. Þar á móti sýnist sem national-flokkurinn sé reiður, og er það einkum Gísli og Grímur, sem blása að þeim kolum. Fyrir nokkru síðan tók »Fædrel(andet)« grein svosem bréf frá Rvík, sem beinist að mér persónulega, og skammaði alla þá sem móti frumvarpinu voru, og halda menn Gísla minn samið hafa þá grein. Þar er annars varla annaðhvort orð rétt skýrt frá. Eg fór með andsvar á móti, en ekki var Ploug svo réttsýnn að vilja taka það svar. Ef eg fæ það ekki í blöð þá þegi eg, því í rauninni er það nóg hald á málinu að alþíng hefir gefið atkvæðin, og málið bíður nýrrar uppástúngu. Ploug og eg töluðum lengi saman, og hann huggaði mig með því að eg væri hrínglandi vitlaus, að draga málið. Við fengim aldrei meira en þetta, við fengim nýlendustjórn, við áynnim það að Ísland yrði *selt*, og svo fram eptir götunum. Eg tók þetta mikið rólega, og lét hann suða. Eptir því sem mér skilst, þá munum við þó geta áunnið það, að við fáum 42000 fast, eða þar um bil. Nýlendustjórn ætla þeir okkur nú líklega. Þó eru farnir að koma menn, sem segja við ættim að hafa sérstakan minister fyrir Ísland, og konúngur sjálfur er á því. Eg var hjá honum um daginn strax og eg kom, með þeim fimm Íslendíngum, sem komu frá Björgyn, og tók hann vinsamlega við okkur. . . .

Yðar einlægur trúr vinur

Jón Sigurðsson.

204.

Til dr. Guðbrands Vigfússonar.

Khöfn 13. Novbr. 1865.

Elskulegi vin.

... Hafi þér ekki þann hemil á Dasent, að geta fengið von um embætti í Oxford? Stephens vill nú gjarnan þángað, ef kostur væri í pláz Bosworths, og kæmist hann þángað, þá mundi hann styrkja yður. Hvað segi þér um það? —

Eg er að vona eptir félögum í Bókmentafélagið frá yður, og eptir ritgjörð í Félagsritin. — Í »Föðurl(andinu)« stóð grein sem beindist að mér fyrir fjárhagsmálið á alþingi. Menn eigna hana Gísla. Eg bjó til svar, en fékk því ekki innkomið, og síðan veit eg að reynt hefir verið að fá greinir mér í vil inn í Folk(ets) Avis og Dagstelegr(afen), en hefir ekki tekizt. Nationalpartiet vill þegja okkur til dauða. En eg fer mér hægt, því atkvæði alþíngis heldur um stund. Ætli laglegur artikuli fengist í Times? sem segði frá því hversu Danir ólöglega halda pólitiskum rétti vorum síðan 1848 og setja oss afarkosti til þess að geta kennt okkur um ef við gaungum ekki að öllu. Hugsi þér um það, og ef yður sýnist þá leitið þér hófanna, en eg vænti að Times þyki við varla nefnandi og sízt til réttinda. Danir vilja nú bjóða okkur Colonialpolitik, þegar þeir ekki geta innlimað okkur. En dönsk nýlenda höfum við aldrei verið, og munum ekki vilja vera nema kannske Grímur einn.

Eg man ekki meira að sinni.

Við kveðjum yður öll ástsamlega.

Yðar trúr vinur

Jón Sigurðsson.

205.

Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 18. Novbr. 1865.

Hæstvirti elskulegi herra prófessor Maurer.

Fyrir nokkru síðan senda eg yður alþíngistíðindi og smábæklínga nokkra, sem eg vona hafi til skila komizt, en með þessum línum þarf eg að þakka yður fyrir yðar ástúðlega bréf til Reykjavíkur í sumar og sendínguna á upphafi ritgjörðar yðar um kirkjuréttinn. Öllum þótti vænt um hana, og endirinn varð, að Jón Árnason hafði út úr mér eitt exemplarið, og að endíngu Þórður Jónasson það seinasta, svo eg á nú ekkert eptir sjálfur. Jón Pétursson fékk sitt, það var nú sjálfsagt.

Af alþíngistíðindunum geti þér hérumbil þegar séð hvernig farið hefir. Stjórnin hafði búið til mörg frumvörp og merkileg, en ekki voru þau öll farsæl til enda. Í fjárhagsmálinu var lagt net fyrir okkur, sem var haglega tilbúið. Það var fyrst frumvarp, sem ætlað var til að leggja fyrir ríkisþíngið í Danmörk, og segir þar, að ríkisþíngið skuli nú afleggja fjárráð, en alþíng taka við, Danmörk greiða 42000 rd. o. s. frv. — allt þetta um 12 ár, en þá skuli koma til aptur að segja hversu þá skuli verða. Þarmeð fylgdi annað frumvarp um að leggja á brennivínsskatt, og þriðja um að hækka lestagjaldið. Nú var auðsætt, að með þessu mátti minka gjald það, sem nú er kallað reikníngshalli Íslands, og eptir 12 ár gat Danmörk álitið sig gjaldfría. Jafnvel þó hver einn verði að játa að brennivínið sé kjörið til að skatta það, þá var alþíng neytt til að fella bæði þessi frumvörp. En um sjálft fjárhagsfrumvarpið varð þrefið mest. Það er auðséð, að þetta hafa Danir boðið bezt (1851, 1857 og þetta), svo það runnu á marga tvær grímur, og sumir vildu einúngis hækka summurnar og gjöra þær fastar, en nefndin þíngsins var í það heila tekið dauf, því Bergur Thorberg, sem nú var

settur amtmaður, stakk henni svefnþorn, og einkum gáði hún ekkert að formi frumvarpsins. En þegar nefndarálitið kom út, þá snerust hinir öndverðir við, og var þá einkum það til hneyxlis, að okkur þótti það líta út, sem alþíng þægi skattgjaldarétt og fjárhagsráð af ríkisþínginu í Danmörku, ef það mælti með þessu frumvarpi í því formi sem það var. Þarhjá þótti okkur ísjárvert, að samþykkja nokkuð um fjárhagsmálið meðan stjórnarmálið er ókljáð, því heldur, sem auðsætt er á öllum lotum, að Danir vilja troða okkur niður til nýlendu sinnar, fyrst þeir gátu ekki incorporerað okkur. Við heimtum því málið lagt fyrir í heild sinni, og það ekki fyrir alþíng, heldur fyrir þjóðfund. En þegar það er gjört, þá gátum við heldur ekki stúngið uppá neinu vissu um fjártillögur Dana, heldur urðum að láta þjóðfundinn um það. Með þessu móti skapaðist álit þíngsins, að fallast á það princip í frumvarpinu, að alþíng fengi öll fjárhagsráð og skattgjafarvald, en ekki af ríkisþíngi Dana, heldur af konúngi, biðja um málið allt í heild sinni lagt fyrir þjóðfund, og einúngis benda til um upphæðir tillagsins frá Danmörku, sem við þykjumst eiga til góða. Þetta gekk í gegnum og nefndin var brotin á bak aptur, sjö manna nefnd, og þótti hreystiverk. En annað er nú hitt, hvort þetta hafi nú verið hyggilegt. Eg held það, og eg þykist sannfærður um það theoretice, en hver reyndin verður er nú ætíð óséð. Ef við hefðum verið sterkari en við erum, þá hefði eg ekki verið svo harður á móti að láta standa til, en meðan við erum veikir, þá held eg réttast sé að fara undan í flæmíngi og sjá einúngis við að gefa ekki færi á sér í neinu verulegu. Verst er að maður fær ekki fólk til að stofna sér samskot til að standa fyrir þeim kostnaði sem þyrfti til að hafa mál okkar fram, og það er mikil ástæða fyrir mig til að halda, að okkur liggi ekki á sjálfsforræði fremur en verkast vill, heldur þurfum við að flakka 40 ár í rétt-

leysisins eyðimörk, til að þvælast betur ef mögulegt væri. Væri nokkurt verulegt gagn í okkur, þá höfum við nóg frelsi til að taka okkur fram, og nóg efni til að leggja á okkur skatt sjálfir, sem hvorki Dönum né stjórninni kemur við, meðan við þurfum að liggja í þessu stjórnarþrefi.

Í sumar, meðan eg var á Íslandi, kom grein í danskt blað hér (»Folkets Avis« kallað), sem beindist að mér með hatursfullum anda, svosem foríngja fyrir óvinum Dana á Íslandi, og engu betri en »Slesvig-Holstenera«. Nú kom annar artikuli í »Fædrel(andet)«, sem kennir mér um afdrif fjárhagsmálsins og lýgur til. Menn segja almennt, að vinur okkar Gísli Brynjólfsson sé sá, sem skjóti þessum skeytum, og er það þá rétt af persónulegu hatri, eða ástæðum, sem mér ber ekki um að dæma.

Eg veit, að menn hafa skrifað á móti mín vegna, og eg sjálfur skrifaði svar í »Föðurl.«, en þessi blöð vilja ekki hafa greinir mér til varnar, og er þar af auðsætt, að þau ætlast til eg siti með skammirnar. Mér liggur nú það líka í léttu rúmi, því nú situr við atkvæði alþíngis að svo komnu máli. Þeir héldu mér veizlu, stúdentar og kaupmenn.

Kláðamálið fór nú á alþíngi, einsog eg hefði viljað það hefði farið 1857. Þar af sjái þér, að nú eru menn farnir að sefast, en enganveginn skilja menn samt almennt undirstöðuna í því máli enn í dag, og þyrfti þó nú á betri fjárrækt að halda.

Stjórnin lagði fram tvö frumvörp um póstmálin, og voru þau samþykkt. Þau eru þess efnis, að leggja póstmál Íslands saman við póstmál Danmerkur »þartil fjárhagsskilnaður verður« (segir alþíng). Mál þetta sýnist því stefna að nánara sambandi, en praktisk verður það til að spana Dani upp í að verja fé til vorra þarfa, eða til að draga sig aptur úr skaptinu, og sýna oss þarmeð, að þeir verði okkur aldrei að féþúfu. Eg blandaði mér ekkert í það mál, því eg álít reyndar samein-

inguna nokkuð ísjárverða, en engu síður ótækt ástand það sem er.

Óséð er enn um stiptamtmann vorn, nema það er víst að hann er svo danskur sem hann getur verið á Íslandi. Hann hefir víst góðar vonir, að hann geti farið með okkur sem hann vill, en ekki er nú það samt svo öldúngis víst, og því síður, sem eg held að í honum sé einhverjar íslenzkar taugar, sem kunna að koma fram þó síðar sé. Hann er ekki mikill ferðamaður, því hann er stuttur og digur einsog hnýðingur. Annars er hann velviljaður maður og góður viðmóts.

Ó, að þér gætið komið til Íslands aptur einhverntíma. Það væri víst, að hann Sighvatur yrði ekki óhýr undir brún ef hann vissi það. Við töluðum opt um yður, því nú á þessu þíngi voru bændur fastir í fylkíngu allir saman, og héldu með mér í líf og blóð, en þar á móti var ekki gróið um heilt með hinum menntuðu mönnum, og lakast var að Jón Guðmundsson var nú ekki sem fastastur á fótum, hvað sem til kom. En það er annars ekki gaman fyrir fátæka menn, sem eru að voka yfir — og *verða* að voka yfir — embættum eða hlynnindum, að fylgja eindregið minni skoðun, sem er stjórninni ógeðfeld. — Eg ímynda mér nú sjálfsagt, að stiptamtmaður segi þeim, að hann treysti sér við alþíng í næsta sinn, því það heyrðist mér á honum, sem konúngsfulltrúi þessi hefði verið of ónýtur. Þó vona eg hann mæli með betri boðum en þessi voru — við sjáum til! . . .

Okkur líður vel.

Kærustu kveðju til föður yðar, frúar, systur etc. etc.

Yðar elskandi vin

Jón Sigurðsson.

206.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn 30. Novbr. 1865.

Kjære Hr. Pastor Gudmundsen.

Det er en Skam, at jeg har saa længe forsömt at skrive til Dem, men jeg haaber da De har modtaget nogle Hefter af Althingstidenden, og deraf har nogenledes kunnet danne Dem en Oversigt over hvorledes Hovedforholdet har dannet sig. I Faareskabssagen fik jeg nu fuldkommen, eller næsten fuldkommen min Anskuelse sat igjennem, men desværre noget for seent, thi havde man 1857 baaret sig ad som nu, vilde Faareskabet kun have været os til Gavn, for at vække Folk til bedre Faarerögt. — Finantssagen var dennegang Knudepunktet. Regjeringen havde forelagt et Forslag, som virkelig var endeel bedre end de forrige. Men det var kun bestemt til at forelægges Rigsdagen, og til forelöbig Forberedelse, men uden at man kunde faae at vide hvorledes Regjeringen tænkte sig den politiske Ordning af Landets Anliggender eller dets Bestyrelse. Det finantsielle var saaledes, at Danmark skulde betale 42000 Rd. i 12 Aar, men samtidig foresloges, at Island skulde votere Skat paa Brændevin og en forhöiet Læsteafgift, med andre Ord, forögeSkattepaalæggene, og naar disse vare forögede i de 12 Aar saaledes, at der var maaskee bragt en Balance tilveie, saa kunde naturligviis Danmark sige Stop med de 42000, og smutte bort fra vore begrundede Krav til Erstatning for vort Lands Eiendomme. Dette kunde vi ikke forsvare at gaae ind paa. Dog var der kun en kneben Majoritet (14 mod 11) for at modsætte sig Formen af Regjeringens Forslag, derimod var der en overveiende Majoritet for at forlange hele Sagen lagt for den Forsamling (Þjóðfundur), der var lovet ved Reskr. 23. Sept. 1848 og mislykkedes 1851. Derhos erklærede Thinget, at det med Tak mod-

tog Principet i Forslaget, forsaavidt det gik ud paa at overdrage Islands finantsielle Anliggender til Islands egen Repræsentation, Althinget. — At man maa see sig for fra vor Side i denne Sag er indlysende, og det kan ikke hjælpe at krympe sig om der end vanke bistre Miner fra dansk Side, da de Folk naturligviis ville slippe saa godt som mulig, og nogle ere ligegyldige for hvorledes det gaaer med Island, snarere troer jeg de vilde ikke sörge, om vi först gik ind paa noget som vi siden fortröd, og siden kom bönfaldende om en Tilbagevenden til de gamle Forhold. Værre er det, at nogle af vore egne Landsmænd misforstaae Sagens Stilling, og troe at vi kunne vinde noget betydeligt uden Kamp, hvorfor de finde deres Regning ved at falde i Ryggen paa dem, der ærlig söge at kæmpe for vor Ret. De har vist læst saadanne Angreb paa mig, som særlig ere lagte an paa at fremstille mig som den personificerede Dänenfresser. Det er især Gísli Brynjúlfsson, som arbeider i denne Retning, og Grímur Thomsen hjælper ham med gode Raad og sin Autoritet paa visse Steder. Jeg har forsögt at svare, men kan ikke faae Svaret ind i de saakaldte »liberale« Blade, uagtet det var under Navn og i en anstændig Tone, samt gjendrev falske Fakta. Som Fölge heraf holder jeg mig stille og rolig og lader Althingets Votum holde hvad det kan. Det er tilfredsstillende for mig, at de allerfleste Landsmænd ere paa min Side, og at Islands Budget for næste Aar löber op til omtrent 80—100000 Rd[s] *Udgift* (altsaa *minus* omtrent 40 til 60,000 Rd., *uagtet* intet Althing holdes). Naar nu Regjeringen ikke vil gaae ind paa min Regnings-Opgjörelse, men vil lægge Status quo til Grund, og man seer at Status quo voxer aarlig, saa kan da Ingen fortænke os i, at vi ikke skynde os, men lade Status quo voxe hvad den kan, indtil vi see vort Snit at gjöre den Accord som er taalelig. At vi give noget efter, forsaavidt vi sætte Pris paa egen Raadighed over

egne Midler, finder jeg rimeligt og er beredt derpaa, men jeg seer ingen Grund til at kaste bort velbegrundede Krav, som der er nogen Grund til at vente at man kan faae tildeels anerkjendte med Tiden. . . .

Jón Sigurðsson.

207.

Til dr. Guðbrands Vigfússonar.

Khöfn 21. Januar 1866.

Góði vin.

Það er sjálfsagt, að eg hefi þegar sent bænarskrá yðar til Westergaards. Eg vildi óska hún hefði komið í Novbr. einsog eg þá stakk uppá, nú er eg hræddur um þér megið til að hafa meira fyrir, og alltaf er það mín meining, að þér eigið að koma sjálfur sem fyrst. Það getur verið að þessi bænarskrá yðar, og einkum ef þér skrifið W(estergaard) laglega, gjöri það að verkum að þér fáið svar frá nefndinni, en líklega verður það nei — búist þér við því — vegna þess að nefndin hefir tilkynnt yður, að þér ættið að *koma*, og þér hafið sjálfur sagt það fortakslaust. Nefndinni þykir líklega nokkuð mikið heimtað, að þér farið burt, eruð burtu leyfislaust, lofið að koma og svíkið, heimtið svo permission og vilið sjálfur veita stípendíið. — Haldið þér að þér gætið ekki sett saman svo, að þér gerðið úr þessu töluverða frekju ef það væri einhver annar sem kæmi upp með slíkt. — Eg held vissulega! — Það er ekki af því, að eg fyrir mitt leyti gæti vel gengið að þessu, því það er nokkuð samkvæmt því sem eg hafði hugsað mér og við talað um, en þér hafið látið allt dragast svo að nú er hæpið að það geti gengið, helzt þegar þér svikust um að koma, og þér megið búa yður undir hvernig þér ætlið að fara að ef þeir segja nei. — Þér verðið að gá að því,

að eg get ekki komið fram opinberlega *móti* nefndinni, og ekki heldur privat agiterað móti henni þegar eg á að heita skrifari, og sízt get eg það þegar þér gerið mér svo örðugt fyrir, sem þér hafið gert, að halda ekki orð og draga allt úr hömlu þar til allt er orðið um seinan. Hefði þér nú komið í Januar, bara til að jafna málið, þá held eg að vel hefði gengið, og enda betur en þér nú telið uppá. — Nú trúir enginn því sem þér segið, því permissionin uppá 2 ár getur eins orðið 20 ár, og hugsið þér yður *þá* consequents, ef nefndin veitti stipendia til þess að vera hér og hvar í vísindalegum tilgángi eða með vísindalegum störfum. Það var nú eitt, sem gjörði það nytsamt fyrir yðar mál að þér kæmið hér, að Werlauff er líklega að deyja, og þá kemur annar Ephor, sem yrði líklega kjörinn á þeim tíma sem þér gætið verið hér, og þá gætið þér svo vel haft klær úti til að stemma hann — consistorium — ministerium. — Það er ekki nema viðbára, að það væri neitt í því, þó þér »dandalist« híngað á hverju ári; eg álít það einmitt gott, einkum nú um sinn, bæði fyrir yður sjálfan og yðar verk, og einkum þegar þér með því móti getið haft nefndina góða, því þér vinnið ekkert með því að fara með hana einsog einvaldur herra, sem verður fyrst að hafa sinn vilja og síðan geta hinir séð til hvernig gengur. Þér getið ekki ætlazt til annars en að nefndin vili heita húsbóndinn.

Ekki veit eg hvernig þér farið að koma með það enn, að bjóða að »gera það *mér til geðs*«, að segja af yður stipendio. Þér megið þó vita svo mikið, að allt hvað eg hefi gert hefir miðað til þess að þér gætið haldið því, og það er einúngis þess vegna, að eg hefi komið mér í þá stöðu, að Westerg(aard) álítur mig svikara við nefndina, og þér álítið mig svikara við yður, ellegar ginníngarfífl annara. Þegar þér gáið að, þá eru þetta ómakleg laun, þar sem eg hefi hreinskilnislega sagt yður það sem eg vissi bezt, og híngað-

til hefir ræzt. Ef þér segið af yður, eða neyðist til þess, eða ef stipendiið verður nú veitt og yður svarað nei, þá er það yður sjálfum að kenna og yðar einþykkni. Þér hafið haldið henni svo lengi, að það hefir verið og er mér til mesta ógeðs, og [eg] get ekki fyrirgefið yður það nema þér gerið mikla bót.

Eg get nú ekki sagt hvernig fer, en eg er *hræddur um* að nefndin að svo stöddu annaðhvort svari *nei* eða skjóti til consistorium. Svari hún nú nei, þá virðist mér að yður þyrfti ekki að koma það á óvart. Það er bein consequents af ályktuninni frá December, að ef þér ekki *komið*, þá verði stúngið uppá við consistorium að taka af yður stipendium. Þér gætið þessvegna ekki kippt yður upp við þetta nei, heldur ættið þér þá sjálfur að appellera til consistorium eða til konúngs, og enn sem fyr væri þá að eg held bezt að þér fylgdið sjálfur því máli og kæmið híngað meðan á því stæði. Annað væri það, sem væri gott, og undir öllum kríngumstæðum vert að búa sig undir með, það væri að vita hvort Dasent og þeir vildi ekki annaðhvort sjálfir fara í dönsku legationina eða styrkja yður til þess, og hafa út permission með því móti gegnum konúng. Ef svo færi, að nefndin skyti málinu til consistoriums, þá væri þetta án efa til mikils gagns, og þér ættið að eg held að búa yður undir með það.

Eg held ekkert uppá Eirík Jónsson, en eg sé þó svo mikið, að með þeirri aðferð sem þér hafið, þá spilið þér honum öllu því í hendur, sem þér vilið *ekki* að hann fái. Það er ekki til neins að blása sig upp við einstöku menn, og álíta þá einsog eiturkvikindi, eða að blása sig upp við félög þó þau geri ekki hvað maður vill. Það væri nær fyrir yður að taka þá í þann strenginn sem Bókmentafélaginu væri til nokkurs gagns, og styrkja okkur þar á Englandi meðan þér eruð þar. — Eiríkur er engageraður við Njálu! — já, hvað er í því? — annaðhvort gerir hann það vel eða illa, eða þá

hvorugt og kemur því aldrei af. Geri hann það vel, þá er það gott, geri hann það illa, þá er það líka gott — fyrir recensentinn! — Geri hann ekkert, þá stendur allt við sama, því nú er enginn um tíma sem concurrerar við hann. — Það er eitthvað ónotalegt í því, að þeir sem þó hafa communia studia rífi hver annan niður, því enginn okkar er þó svo fullkominn að ekki megi að finna.

Eg skrifa yður þessar línur til þess ef vera kynni að þér hugsuðuð um þá aðferð, sem þér ætluðuð að hafa. Ef þér skrifið Westerg(aard) þá ætti þèr endilega að færa ástæður til að þér ekki hefðið getað komið í Januar, og þær verði þér að búa laglega til. Enn er eg á því líka að þér ættið að búa yður undir að koma hér og vera hér um tíma, ef á þyrfti að halda, og hafa þá aðgáng til stjórnarinnar til að fá leyfið, og til konúngsins.

Yðar einlægur vin
Jón Sigurðsson.

## 208.
### Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 28. Febr. 1866.

Elskulegi góði bróðir.

Beztu þakkir fyrir þitt góða bréf seinasta og allt annað ágæti. Okkur líður vel, eins og fyrri, og hér er líkt ástatt og vant er. Ekki eru harðindin, en heldur er jagsamt í héraði, því allir eru að nudda um ógæfu sína, en fara samt lítt upp úr netinu, heldur flækjast fremur, og varla sýnilegt hvern enda það fái, því það er örðugt að fá þá menn undir stýrið, sem viti eiginlega hvert stýra skal. Menn þykjast almennt sannfærðir um, að illt hafi gengið yfir landið, en menn eru alls ekki

samdóma um hvar lækníngu sé að finna, því þó sumir vili láta græða saman aptur stubbana, þá vilja hinir það ekki, heldur láta nú græða það sem eptir er saman við Svíþjóð.

Það er almennt mál, að þessir, sem voru að káfsast upp á mig, hafi verið Gísli Brynj(ólfsson) og Grímur. Það gerir mér nú ekki til, því það er engin skömm þó manni sé álasað fyrir að maður fylgi sínu landi eigingirnislaust, þó enda væri með hlutdrægni; en það skaðar nokkuð okkar mál, þegar þeir sem ætlast mætti til að fylgdu þeim, snúa útúr og stínga sína eigin menn aptan að. Hér hefir þetta fremur bætt fyrir mér meðal landa minna og svo vona eg verði á Íslandi líka, en það væri samt betra ef allir drægi sama taum, og mundi bæði flýta málum okkar og bæta þau heldur, en hér er allra krapta þörf þar sem við ramman er reip að draga. . . .

Með kærustu kveðjum frá okkur til ykkar allra.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

209.

Til Jóns ritstjóra Guðmundssonar.

Khöfn $^{28}/_{2}$ 66.

Elskulegi vin.

Ástar þakkir fyrir bréf þín seinustu, þarmeð bréfið frá 12. Decbr. Þú sér á öllu, að hérumbil allt stendur við sama, og það er ekki líkindi til að flasað verði að neinum endurbótum meðan Leuning er justitsminister. Póstmálið var lagt fyrir, en þó segja sumir, að það hafi ekki sízt verið til þess að sleppa við Pétur, án þess að desavouera Finsen. Þeir segja nú, að það verði lagt fyrir í haust, en það getur borið til beggja vona. Mein-

ingin er að Danir hugsa sér nú til að geta með illu eða góðu fengið okkur til að gánga að þeim kostum sem þeir bjóða fyrst, og vilja nauðugir hopa frá. Þeir treysta Finsen við okkur, og svo því, að Grímur segir þeim, að það hafi rétt verið af hendíngu, að stjórnarfrumvarpið hafi fallið í sumar, og muni það gánga í næsta sinn. Nú sértú unninn, Arnljótur viss, Benedikt eins, o. s. frv. Þetta getur nú verið um hið síðara tvennt, en eg veit þú munir ekki öldúngis undirskrifa hið fyrsta. — Nú gildir að fara svo að, að þeir skili að þeir verði að hækka sig nokkuð ef vel eigi að fara. Grímur segir sínum vinum að þeir leggi fyrir sama frumvarp óbreytt fyrir alþíng, og ef það felli það, þá octroyeri ríkisþíngið á okkur þá stjórnarskipun sem þeim lítist. — »Gerðu þa', dengu' minn«, sagði lektor, og svo megum við segja. — Þú gerir rétt í að gefa ekki mikið fyrir póstmeistaradæmið að svo stöddu, eg held að það eitt sé tilhæft, að þeir sé horfnir frá að setja danskan, sem þeir ætluðu fyrst, en lengra er ekki komið. Þinn staður er ekki heldur í póstmeistaradæmi, heldur í stjórn landsins, ef hún kæmist á, og hún getur komizt á ef við erum snarpir og samhentir. Séum við það ekki, þá vona eg þó, að svo mikið takist, að maður geti fengið málið dregið. —

Eg svaraði uppá grein Föðurlandsins í haust, og átti lángt samtal við Ploug, sem ekki vildi taka mína grein. Hann var reiður og brutal, en eg hægur og einfaldur sem dúfa. Hans fyrirheit er: nýlendustjórn — og ef við erum þráir, þá að *selja okkur!!* — þyki þér týra! — Eg vona samt að hvorttveggja dragist þartil Plógur fyrsti verður keisari á Norðurlöndum. — Eg sendi annaðhvort þér eða Halldóri svar mitt, til þess þið getið farið með það sem þið vilið, hvort þið vilið snúa því eða ekki. Mér stendur á sama því eiginlega er ekkert gagn í að vera að jagast um orðinn hlut, heldur að dángla fastara á Dönum og hækka kröfur

sínar bæði í þjóðlegum efnum og um peníngana. — Eg sendi þér korrektúru af Stjórnartíð(indunum), svo þú sjáir justitsministeríið í fjárhagsmálinu. Það gefur okkur gullvægar bendíngar sýnist mér, og því gleðst eg að sjá þessi bréf, en þegi einsog fiskur meðan þau eru að koma út. Finantsmin(isteríisins) bréf vildi eg fá í Tíðindin, en *fékk ekki*. — Hér eru menn allflestir á mínu máli, en því er miður að Oddgeir, Grímur, Gísli og Eiríkur eru þar á móti, og þeir tala við flesta. Nú er sagt að Grímur segi af sér, því það er farið andskotalega með hann í utanríkisstjórninni, og nú fer hann heim líklega með næstu ferð, svo þú fær þá tækifæri til að sundra hann betur. — Ekkert verður úr breytíng á bæjarfógetadæminu fyrst um sinn.

Eg sendi þér Statskalender, en Jens hefir blöðin og ymsa bæklínga, sem þú getur átt við hann um. . . .

Ástandið hér í pólitisku tilliti er svo, að ef við værum samheldnir menn og hefðum ráð yfir svosem 2—3000 dölum árlega, þá gætum við fengið á skömmum tíma hvað við vildum. Þú lofaðir mér í fyrra að drífa uppá þann sálm, og í þeirri von er eg að sitja dæmdur fyrir málara. Eg vona þú komir nú með það plan, og að við drífum það í gegn, en þá máttu ekki hugsa um að vera nýlendupóstmeistari, heldur að fylgja okkar prógrömmum frá 1849. Það er líka miklu skynsamlegra, því ef það fæst með bærilegum kjörum þá leggur póstmeistaradæmið sig sjálft. Annars getur þú eins vel haft Þjóðólf sem póstmeistari, einsog annars.

Kysstu minn elskulega góða vin, og konu þína elskulega.

Þinn einlægur vin
Jón Sigurðsson.

## 210.

### Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn 14. April 1866.

Kjære höistærede Hr. Pastor Gudmundsen.

Tak for Deres venskabelige Brev og tilsendte Penge. Paa Selskabets Vegne takker jeg Dem ogsaa for den tilsendte Gave og for det nye Bevis paa Deres usvækkede Interesse og Velvillie for Deres gamle Yndling. Vor Höitidsdag igaar gik meget godt af. Vi samledes Kl. 5 paa Borchs Collegium, henved 30 Stykker og jeg gav en kortfattet Udsigt over Selskabets Oprindelse og Virksomhed. Det er Planen, at denne Beretning, ligesom ogsaa den der gives af Formanden i den islandske Afdeling, som vi haabe ogsaa efter Aftale har holdt Möde igaar, kommer ud som en særskilt Pjese, eller Program fra Selskabet, ledsaget af Bilage, som vi nu kunne bringe tilveie. Jeg har Afskrift af Rasks förste Indbydelse i Island (Febr. 1815), af hans Indbydelse her Original, af hans engelske Opfordring Orginal-Concept. Det vil glæde Dem at höre, at det störste og berömmeligste Foretagende som Selskabet har sat i Gang og udfört hörer Dem til, nemlig Kortet over Island. — Kl. 7 samledes vi hos Vincent, 23 i Tallet og blev samlede til omtrent Kl. 1. — Gildet vár moderat, men holdt i en gemytlig Tone, uden nogen Spektakel. De officielle Skaaler vare som sædvanlig Kongen (Oddgeir Stephens(en)), Island (jeg), Selskabet (Gísli Brynjúlfsson). — Vi havde skrevet til Rask, ligesom til Dem, men han har vist ikke haft Leilighed til at komme, da Tiden ikke har været ham bekvem. Jeg seer ogsaa, at vi havde burdet bestemme en bekvemmere Tid, men nu kunde vi det ikke.

Efterretningerne fra Island ere en haard Vinter, men Tilstanden ellers ret god. Jeg sender Dem Bladene. De vil være opmærksom paa, at Jón Guðm(unds-

son) har begyndt en Artikel om Finantssagens Behandling, som lader til at blive ganske original, idet han lader forstaae som jeg enten selv har glemt eller misforstaaet min egen Opfatning eller og er bleven misforstaaet af dem som hörte til Majoriteten. Jón var nemlig i Minoriteten (af ubegribelige Grunde). — Det er nu efter min Mening en slet Politik, at vise Uenighed i Fordringer som man har stor Trang til at sætte igjennem, og som ikke alene kunne före til Nytte for Island, men ogsaa for Danmark indirekte. Det er ikke fordi det ikke igrunden kan være mig det samme om man fra Islands Side vil lade alle Pengefordringer falde, men jeg seer ikke at man derved vinder andet end Fortsættelse af den nuværende Stagnation, indtil man, efter at have præjudiceret al sin Ret, maa föie sig i Et eller Andet som Öieblikkets Ministre kunne falde paa. . . .

Jón Sigurðsson.

211.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 17. April 1866.

Elskulegi bróðir minn.

Þó það sé nú ekki nema til að heilsa uppá þig þá ætla eg samt að láta þenna miða hlaupa, til þess að þakka þér fyrir bréfið þitt seinasta.

Okkur hefir liðið vel, og líður svo, enn sem fyr; það sem þú minnist á, og einsog þín er von og vísa vorkennir, þá er nú ekki í rauninni sá skaði stór. Eg er einsog þú veizt, svo mikill sjálfgæðíngur, að þegar eg hefi fengið vissa sannfæríngu um einhvern hlut, og eg sé að aðrir, sem vilja hafa það öðruvísi, hafa ekki gáð að stærstu atriðum i málinu, þá kæri eg mig ekkert um það, og tek mér ekkert nærri, þó þeir dæmi hvernig

sem þeir ætla sér. Eptir mínu áliti þá er það vitlaust, að reyna að hlífast sem mest, og ímynda sér að Danir fyrir eðallyndi sitt afstandi allt hvað þeir sjái okkur fyrir beztu. Þeir eru að minni þekkíng fullt eins harðir og ósveigjanlegir einsog hverir aðrir og verri, þar sem þeir hafa maktina, og það er ekkert annað ráð, en að koma sér svo fyrir að þeir sjái það eina bezta fángaráð að sleppa okkur. Þetta getum við, og þetta ættum við að gera.

Vertu nú alla daga blessaður, góði bróðir, og kysstu elskurnar þínar.

Þinn trúr vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

212.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 28. Mai 1866.

Elskulegi bróðir.

Kærar þakkir fyrir bréfið þitt, ástúðlegt einsog vant er. . . .

Þú kannt að hafa nokkuð til þíns máls, að einveldið hafi verið í sumu skárra í viðskiptum okkar við Dani, en ekki held eg það samt þegar á allt er litið. Einveldið er gott til að svæfa en sá svefn er ekki hollur, og ekki geta menn sagt að líf okkar sem þjóðar hafi þá verið betra, þegar við sváfum fastast í pólitiskum efnum. Bezt höfum við af að jagast og strekkja, ef það gæti orðið með samheldi og krapti nokkrum. Eg er viss um, að við höfum í sjálfum okkur nóg afl til forsvars móti Dönum og nóga krapta til framfara ef við neytum þeirra, og eg eigna það mest einveldissvefninum að við höfum ekki lag á því enn. — Þú gerir rétt í því, kæri, að hóta þeim skröttum eilífum dómi, en

það er ekki nóg, eg vil líka hafa hann stundlegan og geta sýnt þeim að hann sé rétt að segja fallinn nema þeir taki sinnaskipti og snúist. . . .

Forláttu þetta fáorða mas, góði bróðir, og vertu með öllum þínum ástsamlega kvaddur.

Þinn trúfastur vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

## 213.

### Til Þórðar háyfirdómara Jónassens.

Khöfn 17. Juli 1866.

Háttvirti herra etazráð minn.

Nú má ekki svo búið standa, heldur verð eg að heilsa uppá þig og þakka þér fyrir þitt seinasta vinsamlega bréf, en hitt annað segir sonur þinn þér og herra biskupinn. Þar voru tveir Englendíngar við vígsluna, en notabene fram í kirkju, svo þar var mikið djúp staðfest á milli, en Marteinn var einsog skjákrummi, og svo ánægður með sitt andlega suprematí yfir Íslandi, að hann lék allur á hjólum, og ef að nokkur »keis« væri á honum, þá hefði menn með talanda og »smekk« sagt sama og Sveinn Skúlason sagði um Hjaltalín einusinni.

Eg vona þú hafir nú séð Grím, og sannfærzt um að hann sé allvel fær um að hafa embætti á hendi, og eg vona það líði ekki á laungu að hann taki á móti einhverju, þó hann hafi verið þurlegur í vor. Jón Guðmundsson er annars ennþá óheppinn með að segja frá högum hans, því þeir segja þar sé varla eitt orð rétt hermt í því sem Þjóðólfur segir, en hann mun þó hafa það úr Jóni.

Ekki veit eg hvað þú hugsar, að vera á móti þjóðfundi. Kallar þú það að ein höndin sé uppá móti ann-

ari, þegar ekki voru nema sex konúngkjörnar hræður (om Forl(adelse)!) öðrumegin, sem voru þó óánægðar með stjórnina og vildu fegnar hafa verið með, en treystu sér ekki til að þola reiði keisarans. Eg veit nú að vísu, að það muni ekki sannfæra þig, þó eg segi þú drepir málið, því þú segir líklega, að þér hefði verið það kærast, að það hefði aldrei lifnað. En nú verður ekki við því gert, og eg vildi halda að þú gerðir vel í að sannfæra stjórnina um, að það væri hagur einmitt mest fyrir hana og fyrir Danmörk að flýta málinu; en því verður ekki flýtt nema með því að bjóða okkur sameiginlega sæmilega kosti. Eptir því sem mér hefir heyrzt, — en það veiztu nú kannske betur — þá eru menn að sannfærast æ betur um það, að alþíng hafi gert öldúngis rétt í fyrra, og þú manst að 17 atkvæði voru með þjóðfundi, svo það atriði fellur varla.

Hefði alþíng tekið brennivínstollinn og lestagjaldið þá var það sama og að ofurselja sig að fullu og öllu. Tollar þessir hefði orðið svosem 20000 dala árlega. Veitíngarnar til landsins hefði ekki orðið meiri en nú, svo að eptir 12 ár hefði allt staðið í stað, nema undirbal(ansinn) hefði orðið minni. Þá var við að búast að dregið yrði af tillögunum, eða sett aptur 12 ár og ný skattauppástúnga, en aðalmál okkar í sömu súpunni, og það verri, að í stað þess að okkur er *nú* enginn vorkunn með biðina, því kostnaðurinn er enginn fyrir okkur, en lendir á Dönum það sem hann er, þá hefði með þessu móti biðin orðið okkur óþolandi og við neyddir til að ganga að verstu kostum.

Mér er nú óskiljanlegt, að nokkur íslenzkur maður skuli annaðhvort ekki sjá eða ekki þykjast sjá annan eins úlfalda.

Þeir segja að commissarius nr. 2 (Bergur) sé nú búinn að sannfærast um, að meiri hlutinn á alþíngi hafi haft rétt fyrir sér. Þarna sérðu! og vertu nú eins rýmilegur. Þar á móti heyri eg engan sannfærast af

hugvekjum Jóns Guðmundssonar, nema þá sem eru svo doctrinaire að þeir elska petitionem principii.

Mér lízt hálfilla á kláðamálið, og einkum þykir mér það illt merki að Þjóðólfur er hættur að segja kláðasögur. Það er eitthvað skrítið merki um að það sé gruggugt niðri, og ekki gott að hræra upp.

Nú bið eg þig forláta. Við biðjum öll að heilsa ástsamlega þínum og þér.

Þinn skuldbundinn vin

Jón Sigurðsson.

214.

Til Jóns alþíngismanns Sigurðssonar á Gautlöndum.

Khöfn 21. August 1866.

Háttvirti vin.

Kærar þakkir fyrir sendíngu 25 dala til Félagsrita, og svo fyrir allt gott áður að undanförnu. Eg vona að Félagsritin komi út með fyrstu ferðum að vori. Eg hugsaði ekki veitti af að fara dálítið úti fjárhagsmálið, en Jón Guðmundsson er ekki búinn enn, og eg vildi helzt sjá á honum dindilinn, svo eg geti séð hver endir þar á verði. Mér dettur nú ekki í hug að kjósa orð úr fólki, en eg hefði samt hugsað að Jón Guðm(undsson) mundi gæta sín við því, sem getur skemmt mál okkar töluvert. Það getur þó varla verið, að hann sjái eptir því þó við hefðum nokkuð til hlítar uppúr Dönum, en hvernig fer hann þá að gefa þeim svo undir fótinn, að þeir geta átt nokkra von á að við munum ganga að öðrum eins tilboðum og gerð voru í sumar. Að þyrla þeim það inn, það er að draga málið, því það er varla líklegt að slík tilboð yrði nokkru sinni samþykkt. Eg vona þér hafið lesið bréfin um fjárhagsmálið í Stjórnartíðindunum. Eg get varla ímyndað mér annað, en að

þér hafið þaraf dregið þá ályktun, að við höfum tekið málið alveg rétt í fyrra, og að oss sé þar einmitt sýndur vegurinn, sem við eigum að gánga, þ. e. að jagast og krefja og hleypa upp tillögum Dana meir og meir þartil ástandskrafan er orðin svo há sem okkur sýnist viðunandi. Þá sláum við til. — Erum við þeir aumíngjar, að við höfum ekki einurð, samheldi eða þol til þess? — Þá erum við ekki að svo komnu færir um sjálfsforræði!

Eg held rétt sé nú, að koma strax í haust með logandi og almennar bænarskrár um þjóðfund. Eg gjöri nú alls ekki ráð fyrir við fáum hann strax, en það er rétt að klifa á honum, þó ekki væri til annars en að sýna, að það er ekki satt sem konúngsfulltrúi segir, að enginn kæri sig um þjóðfund á Íslandi, nema stöku hræða. — Þér ættið að gángast fyrir þessu. Bænarskrárnar má vel senda mér ef vill, og stíla til konúngs. Ef þær ekki koma í haust, þá að vori, og svo jafnharðan bænarskrár til alþíngis um þjóðfund.

Forlátið mér þessar línur.

Yðar einlægur vin

Jón Sigurðsson.

215.

Til Sigurðar prófasts Gunnarssonar á Hallormsstað.

Khöfn 13. Septbr. 1866.

Háttvirti elskulegi vin.

Kærar þakkir fyrir bréf þitt 26. Juni 1866, og fyrir vinsemd þína. Eg vona nú, um það þú fær þetta bréf, að þá sé Þorlákur búinn að verzla við ykkur. Hann var hér nýlega að skipta peníngum, og tók með sér svosem 65000 dali í beinhörðum spesium, svo eg held einhver hefði signt sig. Ef allt gengur nú vel, þá má

það þó kallast töluvert, fyrir þá sem vilja fá silfur inn í landið, að fá þarna rúma hálfa tunnu gulls í einu handa fáeinum sveitum, einúngis, og víst máttu játa mér, að það er tilvinnandi að koma upp kind með þessu lagi. En það er ekki þarmeð búið, því ef ekki vantar lagið, þá gætum við haft fjárverzlun við England svo milljónum skipti á hverju ári, ekki að nefna hvað annað sem ætilegt er, því það er í augum uppi, að sá mannfjöldi sem þar er í borgum og lifir einúngis á handbjörg sinni og fer æ vaxandi, hann þarf mikils með. En þú hefir rétt í því, að þess sanngjarnari og áreiðanlegri við erum, því betra fyrir okkur. Verst er, að verða að sækja híngað penínga til Hafnar, það er skaði fyrir ykkur seljendur, og umstáng leiðinlegt, en við því er bágt að gera einsog nú stendur, nema þið gætið komið ykkur saman um að taka enska penínga. En nú er hitt, að þið þurfið endilega að ná hönd í bagga, koma duglegum drengjum í veg, og smásaman læra að þekkja verzlun og búskap. Okkur dugir ekki lengur að fylgja gömlu einokunarreglunni, að liggja einsog sníglar, heldur verðum við að taka okkur fram og styrkja hver annan til þess, svo að hver finni til sín sem félaga landsmanna sinna, þeirra sem nenna að hreyfa sig. Látum hina liggja og fljóta sofandi að feigðar ósi. Ef við ekki sýnum rögg og ráðdeild, þá verðum við etnir upp að ögnum, án þess við fáum einn bita með.

Það gleður mig ósegjanlega mikið, að þú ert samdóma í fjárhagsmálinu, og ert á því að engu sé hafnað ófyrirsynju í fyrra. Mér þykir því vænna um það, sem mér þótti fyrir hinu, að sjá Jón Guðmundsson falla nú frá á freistíngartímanum, og vilja láta menn gapa yfir þann tálbita sem okkur var réttur. Enda hefir það sýnt sig nú þegar, að það eina tángarhald á Dönum er að hleypa upp kostnaðinum, því þá verða þeir heldur frjálslegri í stjórnarmálinu ef maður á ekki eptirkaup.

Hefir þú tekið eptir því, að í ár er það hérumbil 50,000, sem reiknað er skotið til Íslands. — Við eigum að drífa það upp sem mest, þángaðtil fjárhagurinn skilst að.

En guð veit hvað þeir menn hugsa, sem hafa óbeit á alþingi þeğar svona stendur, þar sem hver maður með opnum augum hlýtur að sjá, að alþíng er okkar einasta forsvar. Þeir menn geta ekki fundið til hvorki ræktar til lands né þjóðar, og ekki til sjálfra sín. Því hvað yrði annars? Landinu væri orðalaust boðið það sem einhverjum dönskum minister dytti í hug, haft fyrir mjólkurgrip handa Dönum endalaust, einsog það hefir verið haft og er enn. Nú er sú eina viðreisnar von, að með fylgi manna og forsvari alþíngis geti þetta smásaman breyzt, og þá er þó munur að minnsta kosti að geta sagt tibi aras, tibi seris, tibi metis, heldur en að verða að segja Danis aras etc. — og skammir í kaupbæti, ef við ekki komum með nóg. Þegar maður gáir að, hversu bágt þeir eiga við alþíng enda nú, þegar allt er fremur sundrað, hvað gæti þá ekki orðið, ef alþýða sem flest slægist á eitt mál, veldi sér foríngja og ekki einúngis styrkti og hvetti alþíng til að fylgja þjóðmálum vorum, heldur einnig til þess að halda fastri og fullri framfarastefnu.

Eg vona þú haldir fram þínum góðu tillögum við Bókmentafélagið. Við beiddum nú Smith sýslumann að hjálpa uppá sakirnar, og að taka að sér umboð félagsins eða útvega okkur mann. Nú veit eg ekki hvernig fer. Þú ert nokkuð harður við okkur með Skírni. Eg gef þér rétt í því, að hann er harla strembinn og mér fellur aldrei stíll Eiríks, en hér er svo ástatt, að félagsmenn velja höfund Skírnis á fundi, og er það ætlað til þess, að forseti eða forstaða félagsins ráði ekki of miklu. En í úttektinni kemur þá svo til, að menn gefa atkvæði sitt þeim sem um það biður, og meta meira vináttu eða þörf hins einstaka heldur en gagn félagsins. Þannig er það til komið, að fleiri hlutinn velur Eirík og eng-

inn býður sig annar. En aðalmálið er það, að félagið nái efnum til að gera gagn þá í öðru, þángaðtil réttist úr fyrir Skírni, og það getur aðeins orðið með styrk alþýðu. Gáðu að því, að félagið á vanda stöðu, þar sem það á að vera einskonar repræsentant fyrir bókmenntum okkar, og undireins alþýðlegt. Það er því ómögulegt að fullnægja öllum, en það ætti að geta fullnægt einum í dag og öðrum á morgun, og þó ætíð haft fyrir augum að geta staðizt dóm menntaðra manna. Skírnir stendur nú kannske nokkuð tæpt í því, en þú verður þó að játa, að Eiríks Skírnirar hafa ekki verið allra verstir.

Félagsrit vona eg komi út í vor ef guð lofar. Eg er að bíða eptir að Jón Guðmundsson segi amen, til þess að blessa dálítið yfir hann. — Sumir eru að segja, að stjórnin hugsi sér að leggja alveg óbreytt sama frumvarp fyrir næsta þing, og ef svo verður þá eigum við það uppá Jón Guðmundsson, því hans slúður er svo útlagt, að hann hafi mikinn flokk bak við sig, og sá flokkur muni sigra á næsta þíngi, en ef svo fer, þá er peníngakrafa okkar töpuð að mestu leyti, og stjórnarmálið allt eptir óunnið, svo þá geta Danir hagað því einsog þeir vilja, nema við viljum ekkert hafa. Nú eru tilskot Danmerkur eina tromfið, sem við höfum á hendi, því það gerir að þeir vilja helzt losna við okkur og gera okkur nokkuð ánægða; annars kæra þeir sig fjandann. — Eg vona þú hafir allar klær úti við Austfirðínga, að sjá við þessu bragði, og þartil sýnist mér almennar bænarskrár um þjóðfund beztar og laglegastar, helzt sem fyrst, en einkum þarhjá til alþíngis. Þið getið sent mér bænarskrárnar ef þið viljið.

Allt bendir til þess að hér þurfi að vaka og biðja, ekki einúngis að varast siðlegar syndir, heldur pólitiskar syndir. Ef við eigum að fá frelsi, þá þarf »höndur og vit«, einsog karlinn sagði þyrfti til að taka móti steinbítnum.

Forláttu elskan mín, og vertu ætíð blessaður.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

216.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Khöfn 4. Oktbr. 1866.

Elskulegi bróðir.

Miklar þakkir fyrir bréfin þín, bæði mörg og góð, og fyrir stúdentaskrána, sem eg held sé svo góð sem hún gat orðið eptir því sem þú hafðir í höndum. Ef þú hefðir tíma, væri vænt að fá framhald til datum, og skal eg þá, eða hvenær sem þú vilt, borga þér fyrir ómakið einsog þú segir til, eða þá útvega þér eitthvað. Eg sendi þér almanak, bróðir, uppá hendina.

Sagan þín þykir öllum liðlega samin, einsog von var til af þér, en ef nokkuð skyldi að finna þá er það helzt að hún er of stutt og bindur sig við sama og skólakennslubækur. Þú þarft að lesa lángar sögur og segja svo frá frítt. Suma hefi eg heyrt segja, að þú hafir gleymt Íslandi í Miðaldasögunni og skilja ekki hvernig á því standi.

Nú hefir þá Jón Guðmundsson sagt »amen á Hólum«, og hefir mér heyrzt sem fáir muni hafa sannfærzt um kenníngar hans, nema kannske þeir sem eru vanir að saurga sitt eigið hreiður. Flestir þeir sem eg heyri tala um málið undrast yfir, að maðurinn sé allt í einu orðinn enn meir ministeriel en sjálft justitsministeríið, og vissulega má það sýnast undarlegt, að svo praktiskur maður skuli ekki hafa annað að segja en að jamla um málalok þau sem nú eru einusinni orðin og ekki verða aptur tekin. Hann ætti þá að segja hvað nú skyldi gjöra, eða kannske líka hann gjöri það. Málið er í sjálfu sér ofur einfalt, annaðhvort er að gefa allt eptir og lofa stjórninni að hríngla með sig einsog hún vill, ellegar að halda sinni stefnu, og ef henni er haldið þá er eg sannfærður um, að annaðhvort má stjórnin til að hækka tillag við okkur eða að slaka til í pólitisku tilliti. Taktu eptir, að nú í ár er tillagið *með* pensionum (J. G. telur

þær ekki) hérumbil 50000 rd. — óreiknað gufuskip, óreiknað póstmál, óreiknuð dómkirkja, óreiknaður skóli. Látum kröfurnar skella á þeim þartil status quo er hækkaður svo sem okkur má nokkurnveginn lynda. — Eg er í því tilliti ekki órýmilegur — þá getum við tekið að okkur spilið, ef nokkuð er rýmilegt boðið í pólitisku tilliti. Nú sem stendur þarf okkur ekki að vera í neinu brátt, því við höfum allt atvinnufrelsi og litla skatta, getum tekið oss fram í öllu sem við viljum og erum í raun og veru engum háðir nema hvað við gjörum okkur sjálfir. Dönum er ómögulegt að neita okkur um hvað við heimtum smásaman, og eg er illa svikinn ef þeir vilja þá ekki helzt kaupa okkur af sér ef þeir fá það, þegar í harðfjörur kæmi. En þegar svona stendur á, þá er það steinblindur eða ómannlegur Íslendíngur, sem ekki vill sanngjarnlega nota sér slíkt. Danir sér maður vilja helzt »snuða« okkur um allt. Það er eðlilegt.

Forláttu bróðir, þetta stutta hrips og vertu sjálfur með öllum þínum kærlega kvaddur frá okkur.

Þinn skuldbundinn vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

## 217.

Til Þórðar háyfirdómara Jónassens.

Khöfn 5. Oktbr. 1866.

Háttvirti herra etazráð minn.

Satt segir þú það, að þú ert viljugri að skrifa en eg, og eg þakka þér fyrir tvö bréf, hvort öðru skemmtilegra, því það lítur svo út, sem þú sért upplagður til að skrifa bréf, einsog Cicero gamli.

Eg þarf að politisera við þig um þjóðfund. Þú segir að alþing geti unnið sama gagn, eg segi nei, og

það af tveimur eða þremur ástæðum. Þjóðfundur hefir meira álit hjá þjóð vorri; þjóðfundur er fjölmennari og eo ipso skynsamari, því hundrað augu sjá betur en fimmtíu, einkum ef nú sumir eru eineygðir eða skakkeygðir; þjóðfundur hefir loksins meira álit hjá stjórninni, þar sem hún hrærir í alþíngi, þar er hún neydd til að gjöra annaðhvort við þjóðfund, segja já eða nei. Ekkert hríngl! — Þessu getur þú ekki mælt í móti eða hrakið, en hitt kann vera, að þú hafir meira gaman af alþíngi, einmitt af því að það er léttara í vögunum að dansa við það. Það er nú víst, að menn óska flestir þjóðfundar; en sumir eru sem ekkert vilja hvorki alþíng né annað, og ekki heldur vera þínglausir. Getur þú gert *þá* ánægða?

Það þykir mér allbúið sem þú segir, að stjórnin leggi fjárhagsmálið fyrir alþíng, en ekki þjóðfund. En »frem og tilbage er lige langt«! — eg spái þeir fái heimvísað aptur. Þú segir það sé einsog þíngið þá vili ekki að málinu verði framgengt. Eg segi þér aptur, að þá er auðséð að *stjórnin* vill láta málið dragast. Það getur enginn ætlazt til, að þíngið vili láta misbjóða sér í svo mörgum málum að raunalausu. Það getur heldur enginn ætlazt til, að þíngið vili ekki hafa fullt atkvæði í þessu máli, einsog jafnsnjallur málspartur við Dani.

Jón Guðmundsson mun hafa sagt »amen á Hólum«, þó ekki standi það í Þjóðólfi. Það kann að vera, að vinur okkar Oddgeir hafi fundið púður í þessum greinum Jóns Guðmundssonar, en ekki hefi eg orðið var við að neinn hafi sannfærzt sem áður var á nokkurri fastri meiníngu, og enda finnst mér sem Jón hafi ekki fylgt einusinni justitsministerio. Seinasta greinin skilst mér kenni sama og Arnljótur, að öllu væri óhætt, þó játað væri stjórnarfrumvarpinu, því kröfur okkar stæði sem áður. Þú varst sjálfur svo heiðarlegur að sýna, að þetta væri misskilníngur, en er þá ekki allt húsið(!)

fallið — ekki af of þraungum grundvelli, heldur af grundvallarleysi? — Eg meina jú! — Hitt er annað mál, að geti Jón Guðmundsson orðið póstmeistari fyrir þessar greinir, þá skal honum þess vel unnt; en eg vil ekki innistanda fyrir því, nema Grímur verði minister eða kóngur, en það lítur ekki út fyrir það árlángt, ef að satt er að hann hafi ekki getað fengið silfurkrossinn í sumar, þó stúngið væri uppá því.

Nú er [eg] ekki að masa þetta lengur. Forláttu og vertu með öllum þínum kærlega kvaddur.

Þinn skuldbundinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

## 218.

### Til Torfa Bjarnasonar, síðar skólastjóra.

Khöfn 18. Febr. 1867.

Elskulegi vin.

Það var mér mjög kært, að fá bréfið yðar og heyra hvar þér eruð nú niður kominn og hvar yðar er að leita. Það er líka gleðilegt að heyra, að yður hefir liðið vel, og að þér kunnið hag yðar sæmilega, og þó yður lítist nokkuð dauflegar á veðurlagið hjá okkur á voru landi heldur en þér hafið kannske hugsað yður áður, þá vona eg það lifni með tímanum, ef maður að eins sníður sér stakk eptir vexti og velur sér þá aðferð sem haganlegust er.

Það væri víst mjög gott, ef þér gætið komizt til að ferðast um Skotland víðar, og sjá þar búnað manna, og þarmeð ef til vill í Orkneyjum og á Suðureyjum og á Hjaltlandi. En það krefur tíð og penínga, ef maður á að hafa nokkuð gagn af ferðinni og sjá nokkuð til hlítar. Um fjárrækt væri líklega mart að sjá í fjöllunum eða hálöndunum á Skotlandi. Ferð til Noregs

væri víst líka fróðleg, þegar maður væri orðinn vel kunnugur þar vestra, en ef þér ættið að hafa verulegt gagn af þeirri ferð, þá þyrftu þér að vera þar ekki minna en hálft eða heilt ár, að eg held. Kostnað til þeirrar ferðar get eg ekki sagt með vissu, en eg held þér kæmist allvel af með svosem 400 speciur, reiknaðar fyrir árið, eða svosem 50—60 rd. um mánuðinn alls að telja. Væri þá heldur gott að hafa efnin heldur ríflegri, til þess þér gætið hreyft yður dálítið og kannske keypt model eða slíkt, sem yður fyndist þurfa. Ef þér þá þyrftið minna, þá gætið þér sparað það afgángs væri. Eg held eg vildi ráða yður til að fara til búnaðarskólans á Ási (*Aas* Landbrugsskole); þar var Tryggvi Gunnarsson um nokkurn tíma og lét vel yfir sér. Þar er forstöðumaður sem heitir *Dahl*, allra bezti maður, og mesti vinur Íslendínga, sem til hans koma. Til að komast þángað, getur maður hvort sem vill farið til Björgynjar fyrst, eða Kristjanssands eða til Kristjaníu, eptir sem á stendur. Ef þér kæmið til Kristjaníu, þá er þar ágætur maður, *Schübeler* að nafni, forstöðumaður fyrir jurtagarðinum háskólans og professor í botanik. Hann þekkir alla menn í Noregi, og enginn er betri en hann til að leggja ráð á um ferðalög yðar. Ekki efast eg um, að sú ferð yrði yður gagnleg, en að svo miklu leyti eg hefi vit á þá litist mér bezt á að þér værið hjá Dahl heilt ár, eða heldur lengur en skemur, og þá heldur ferðuðust ef yður svo sýndist á eptir til Þrándheims, eða eitthvað um kríng. Ef þér eigið að kenna frá yður, þá er það gott að hafa séð aðferð til þess eptir að þér hafið nú unnið hið verklega. Annars er líka bændaskóli norður í Þrándheimi. Eg má segja með vissu, að Grímur hefir getað fengið 100 rd. — heldur en 200 rd. — hjá Landbústjórnarfélaginu danska handa yður.

Engin ritgjörð hefir komið til okkar »um framför Íslands«, það lítur svo út, sem allir vili framförina, en

enginn hafi ljósa hugmynd um hvernig hún eigi að komast á. Við erum nú að hóa okkur saman til að gefa út Ný Félagsrit, sem nú hafa legið í aungviti í tvö ár. Það væri gaman ef þér værið nú upplagður til að skrifa mér lángt og fróðlegt búnaðarbréf frá Skotlandi, sem eg gæti fengið prentað í ritunum. Mér þykir ekkert eins vanta einsog búnaðarritgjörðir, því eg er á þeirri trú, að það sem okkur ríður mest á nú er framkvæmd og framför í allri þekkíngu á atvinnu til sjós og lands, í landbúnaðinum kvikfjárrækt og jarðyrkju í þeim einföldu greinum sem land vort hefir nægst til af, grasi, rófum, jarðeplum — í fiskiveiðum betri skip og útbúnaður og duglegir kunnandi sjómenn. Skólar handa bændaefnum og þeim sem vilja iðka praktiska athöfn, ekki eiginlega barnaskólar, heldur únglíngaskólar frá 16—18 vetra, væri okkar ein mesta nauðsyn.

Héðan er ekkert sérlegt að frétta, nema Arcturus á að fara heim *1. Mants.* — Þér vitið hvernig fjárhagsmálið fór á alþíngi í hitt eð fyrra. Nú hefir stjórnin sagt, að hún ætlaði að girða sig enn í brók, einsog strákurinn sem var hýddur sjö sinnum, og leggja nú tilboð fyrir alþíng í sumar. Mér skilst sem það muni verða betra en það í hitt eð fyrra, en hvort það verði *nógu gott*, það er annað mál. Eg er hræddur um því verði heimvísað. Þegar þér skrifið nú heim, þá heilsið Ásgeiri kærlega frá mér og Jósep og Kristjáni kammerráði, og hverjum sem þér haldið lífið sé mest í, og segið þeim þetta, og að þeir búi sig sem fjörugast undir alþíng í sumar, því ekki er hundrað í hættunni með það, að málið stansi, hvað sem við segjum. Danir eru samdóma um það, að þeir sé neyddir til að kaupa okkur af sér, en þeir vilja kaupa sem billegast þessi grey! — Eg vil líka vera á því, að við séum billegir, en — allir verða að lifa! sagði kerlíngin, og það er of mikið heimtað að við skulum drepa okkur eða taka ofmikinn halla þeirra vegna. — Húnvetníngar heimta vona eg þjóðfund

og stjórnarskrá í einu hljóði og það með eldlegu fjöri og jötunslegu afli í bænarskrám til alþingis.

Forlátið þenna magra miða og laumið nú að mér góðu búnaðarbréfi, einu eða fleirum, þángaðtil í miðjum næsta mánuði. Yður er liðugt um að semja skemmtilega.

Eg er ætíð

yðar einlægur og hreinskilinn vin

Jón Sigurðsson.

219.

Til Gísla læknis Hjálmarssonar.

Khöfn 28. Febr. 1867.

Elskulegi bróðir.

Kærar þakkir fyrir bréf þitt í haust og alla tryggð þína óslítanlega. Eg get sagt þér það í fréttum að okkur líður vel og eg er að smá-politisera einsog vant er. Mig vantar það eina að vera svo ríkur sem við töluðum um áður, að eg þyrfti ekkert að hugsa fyrir að vinna mér inn, en það er ómögulegt að koma því fyrir nema með því að stela úr gullhúsinu, og nú held eg þar sé varla orðið eptir svo mikið af Aldinborgarauði, að það sé handa einni hræðu, ef hún á að vera vel haldin.

Nú eru Danir að girða sig enn í brók og ætla að koma með boð sín á alþingi í sumar, og á það nú að vera »seinasta boð«, svo að ef við tökum því ekki, þá ætlar líklega íslenzka stjórnardeildin að segja okkur stríð á hendur, einsog kláðarollunum. Jón Guðmundsson verður líklega sá seinasti Lot í Sódóma, og verður fluttur á Jótlandsheiðar, til að yrkja þær og vakta. Nú ætla þær annars að verða góðar, því þær verða nú skógi græddar þegar minnst varir.

Eg skal muna eftir police þinni í næsta mánaðar byrjun, svo þú mátt vera óhræddur um hana.

Nú man eg ekki meira að þessu sinni nema kveðja ykkur öll ástsamlega.

Þinn elskandi vin og bróðir

Jón Sigurðsson.

220.

Til Jóns ritstjóra Guðmundssonar.

Khöfn 28. Febr. 1867.

Elskulegi vin.

Mèr þykir það reyndar nokkuð skrítið, þegar þú talar svo, einsog eg hafi rofið vináttu eða skilmála við þig, og tekið saman við aðra. Þú mátt þó viðurkenna, ef þú vilt satt tala, að eg hefi gjört allt til þess að reyna að halda samheldi í okkar flokki, og þó sundrúng hafi orðið í sumum greinum, þá hefi eg ætíð reynt til að jafna hana sem bezt privatim, eða þegja yfir henni, því eg veit með vissu, að það getur leitt af sundrúnginni, að eins fari eins og áður, að allir missi við það, og þeir siti með einskonar sigri sem sízt skyldi. Eg hefi reynt til að útlista málstað minn svo ljóslega sem mér var kostur á, en þegar því er ekki gegnt og farið í aðra króka, þá neyðist eg til meðan svo stendur að fara minna ferða, og það er eðlilegt að eg reyni þá að fylgja þeim, sem eru mér samdóma, hvort sem þeir þykja meiri eða minni. Þú ert nú kannske svo heppinn að hafa stórmennin með þér þennan dyntinn, en eg er með smámennunum, en hvað um gildir: eg vil heldur sitja á bekk með Einari gamla Þveræing, en með Gizuri jarli, sem þú átt félag við nú sem stendur. Þú svosem færir að því, að eg hafi átt þátt í að koma dýralæknaráðinu inn í íslenzku málin, svosem kláðamálið, en þú mátt þó víst vita að dýralæknaráðið var spurt um þetta mál þegar í upphafi, eptir fyrirspurnum

amtmannanna á Íslandi, og hefir verið spurt síðan inn til þessa dags, eins um þetta fróðlega »innlegg« sem þið bjugguð til í haust, og mun verða spurt meðan svo stendur allt sem er, og einkum þá, þegar þið farið sem önuglegast. Það hefði verið vís vegur til þess að generast ekki af þessu ráðaneyti, ef þú hefðir gjört þitt til að jafna mál þetta og gjöra okkur gagn með því, en það var nú ekki svo. Þú hefir gjört allt þitt til að gjöra það að sundrúngarmáli.

Það lítur þó svo út, sem stjórnin ætli að girða sig enn í brók með tilboð til alþingis í sumar. Það er nú reyndar ekki víst hvernig þau verða, en það hefir fremur útlit til þau verði rýmri en seinast. Ekki lízt mér samt svo á, sem þau muni verða aðgengileg, og eg er viss um, að betri boð fást ef við stæðum fastir og öruggir og samhentir, og eg trúi ekki öðru, en að þú sért á sama máli. Það er fullkomin vissa, að það [eru] einmitt fjárkröfurnar sem gjöra að Danir gjöra boðin. Væri þær ekki, þá léti þeir ekki undan í neinu. Það er því hrein nauðsyn að halda fjárkröfunum sem hæstum og sem hörðustum og sem eindregnustum meðan maður er að fá þá til að koma fram með stjórnarmálið, og segja hvernig þeir hugsi sér Íslands politisku stöðu. Annað er það, sem nauðsyn er á, að reyna til að fyrirbyggja að þeir hafi ekki sömu aðferð hér og í verzlunarmálinu, nl. heyri álit okkar að orði kveðnu og octroyeri svo á eptir. Ef maður sæi, að maður ynni nokkuð á í stjórnarmálinu þá væri fyrst tíð til að sjá hvort ekki mætti slá af í peníngakröfum ef á þyrfti að halda. Það er enn ein regla sem við verðum að hafa hugfasta, að við verðum að *eiga* hvað við fáum, en ekki gjöra oss ánægða með árlega veitíngu. Sú árlega veitíng verður til þess, að þegar eitthvað ber í milli þá geta Danir sett okkur stólinn fyrir dyrnar, og tekið aptur veitínguna þángaðtil við gaungum til hlýðni. Enn fremur þurfum við að heimta eptir þessu bæði stjórnarmálið

jafnframt og fjárhagsmálið, og hvorttveggja fyrir þjóðfund. Eg sé ekki að við getum sleppt neinu af þessu verulega, og er viss um við getum í öllu verulegu náð því ef við erum samhentir og óblauðir. Þú lætur á þér heyra, sem kröfur mínar séu svosem á raungu byggðar í sumu. Eg vil alls ekki fortaka, að það megi kritisera þær, því þú veizt allt of vel, að forfeður vorir hafa séð svo fyrir, að *engin* krafa verður sú hafin af vorri hendi, sem ekki má kritisera. Ef ekki er annað, þá með því, að við höfum verið réttlausir undir einveldinu, og að stjórnin (konúngar) hafi aldrei skuldbundið sig til að gjalda neitt etc. — En hér er á hitt að líta, hvort kröfur mínar verði ekki forsvaraðar eins vel og *hverjar* aðrar kröfur, sem fram settar kynni verða af okkar hendi. En ef svo er, sem eg ætla vera muni, þá er það sá eini skynsami máti, það er að veitast allir að að halda þessum kröfum fram. Það er ekki af því þær eru frá mér, að eg held þeim fram, en það er af því þær eru viðværilegar, og enda svo að slá mætti af þeim, og af því þær gefa okkur frjálsastar hendur. Eg hefi ekki heldur heyrt þig eða neina aðra formulera neitt, en ykkar almenna negative kritik gerir sama og stjórnin, að kreppa okkur inn í sjálfheldu, því það er einmitt sem hún vill, láta Dani sleppa sem bezt, í hæsta lagi með það sem er, en okkur taka alla ábyrgðina, standa svo undir íslenzka departem(entinu) einsog áður og láta það stjórna Íslandi héðan absolutistisk. Eg gæti vitað hvernig þú ætlaðir að koma Íslandi úr því ástandi, og vinna bæði politisk réttindi og peníngakröfur. Við fengjum aldrei einn skildíng framar meir, og sjálfsforræði að sama skapi. Þetta er nú í öllu verulegu mín vissa sannfæríng, þó hún sé kannske ekki nógu ítarlega framsett.

Þú spyr, hvar fyrir skyldum við einmitt þurfa 120000 rd. til [að] hafa sjálfsforræði? — Hver hefir sagt það? — Við *eigum* að minni meiníngu kröfu á 120000

rd. árlega, og við getum ekki framsett hana nema að formulera hana í tölum. Ef þú eða aðrir finna að krafan ætti að vera minni eða meiri, þá er að koma fram með það. Þar er ekkert hlægilegt í, nema hjá þeim sem láta imponera sér, eða sem vilja eyða kröfunni með því, að látast hlæja að henni. Vertú viss, »Jón minn«, að Danir hlæja alls ekki að henni niðrí. En ef við *eigum* nú þessa kröfu eða aðra meiri, þá sé eg ekki fyrir mitt leyti ástæðu til að sleppa henni. Hitt er annað mál: Ef maður fellur frá öllum kröfum, og kemur inn á status quo, *þá* getur maður svarað þessu sem þú ert að fara með, af því þá er maður kominn á breiða veginn, sem er réttleysið gamla og náð og miskunn Dana. En þar verða þau endalok, að við snöpum gams eptir öllu sjálfsforræði, eptir að við höfum sleppt rétti vorum. Láttu engan kjassa þig til þess! . . .

Eg bið kærlega að heilsa.

Þinn einlægur

Jón Sigurðsson.

## 221.

### Til Torfa Bjarnasonar, síðar skólastjóra.

Khöfn 25. Marts 1867.

Elskulegi vin.

I þessu augnabliki fæ eg yðar annan pistil og þakka yður ástsamlega fyrir hann, einsog hinn fyrra. Það er nú víst og satt, sem þér segið, að bezt er að geta sagt af eigin reynzlu það sem er verulegt og gjörlegt á Islandi; en maður getur ekki allt í einu, og þá er mesta gagn í því, að vekja hugsun manna og hvetja þá til að búa sig undir að gera nokkuð. Eg held nú í það hæsta að maður komi löndum vorum svo lángt en ekki lengra fyrst um sinn, því þeir eru einsog

skepna, sem hefir legið lengi í böndum, hún veit ekki af limum sjálfrar sín, og kann ekki að neita þeirra fyr en hún er búin að liggja lengi og hugsa sig um. Þegar við hefðum fengið 10—20—30 meira eða minna menntaða jarðyrkjumenn, sem væri samhentir og fjörugir, að minnsta kosti nokkrir þeirra, þá væri fyrst von á sýnilegum merkjum. Þessvegna skulu þér ekki hugsa, að þér vinnið fyrir gýg, því hitt er líkara, að alltaf færist líf í menn smásaman meir og meir, og eg vona þér lifið það, að þér getið séð í kríngum yður hóp lítinn af þeim sem eg vildi kalla bændur, þ. e. menntuðum mönnum til sinnar stéttar, sem ekki væru svo óheimtufrekir, að þeim þætti bændur ekkert þurfa að vita eða þekkja nema moka flór að fornum sið, eða réttara að að segja, illum sið síðari alda. Verið þér óhræddur um, að við skulum gánga svo vel frá ritgjörð yðar sem við getum, og í því trausti vona eg eptir grein um jarðabyggíngar, þeirri sem þér talið um, þegar þér getið. Eg get vel komið henni við að eg held, þó hún kæmi til okkar í fyrra hluta Apríls. — Það er einkum eitt atriði, sem eg held sé aðalhnúturinn, og það er að finna sanngjarnan jöfnuð milli landsdrottins og leiguliða, einkum að leiguliði fái að njóta jarðabóta sem hann gerir. Til þess held eg þurfi lagaboð, sem kemur til nota prestum einsog öðrum leiguliðum. Grundvallaratriði þar í finnst mér vera þessi:

1) Leiguliði þarf að láta meta jarðabætur sínar af óvilhöllum mönnum til peníngaverðs.

2) Peníngaverð jarðabótanna leggst sem eign leiguliða, og ber honum tiltekinn arð sem leigufé, annaðhvort í afgjaldi eða svo, þó verður þetta að vera svo lagað, að landsdrottinn hafi líka not af jarðabótunum.

3) Þetta leigufé fer þó af sjálfu sér mínkandi eptir því sem hann sjálfur býr lengur á jörðinni.

4) Hver ný jarðabót þarf að vera metin, ef hún

á að bera arð á þenna hátt — ómetin jarðabót gefur engan rétt.

5) Landsdrottinn má sjálfsagt heimta yfirmat, ef honum þykir of hátt metið.

Þér vitið kannske, að alþíng 1865 kaus nefnd til að hugsa um allt landbúnaðarmálið og búa til frumvarp um það, og þar á meðal þetta atriði. Hvernig það fer veit eg nú ekki, því eg hefi ekki séð nokkurt lífsmark með nefndinni.

Þér segið að það þurfi að fyrirbyggja margbýlið. Það er nú víst satt, en það þarf að skýra greinilega hvað maður meinar með margbýli, og gjöra grein á margbýli og þéttbýli. Þér hafið alla með yður þegar þér mælið móti þessu, því menn vilja helzt hafa mílna breiðar lendur til að vastra í. Þar um er eg ekki hreins hugar, því eg vil ekki víðlendi svo mikið handa einum að enginn komist yfir að rækta það til túns, engja eða haga. —

Sundurskipting jarðanna við erfðir; þar komi þér í ensku og skozku lögin, og það er gott og gaman að heyra hvað þér hafið þar um að segja; en vilið þér þá taka það sem þar af leiðir, höfðíngjavald og það sem því fylgir? — Eg skal fyrir mitt leyti ekki hafa neitt á móti að fá grein um þetta, en einkanlega fyrst um sinn um réttindi og viðskipti leiguliða og landsdrottna og um mat á jarðabótum, án þess að eg þó í nokkurn máta vili letja yður á hinu, ef þér getið komið því fyrir svo að það verði nokkuð ítarlega frá skýrt og ekki of stutt.

Hér hefir allt verið fullt með ís og snjó síðan Arcturus fór, en nú er fyrst hláka í dag.

Yðar skuldbundinn vin

Jón Sigurðsson.

222.

Til prófessors K. Maurer's.

Kaupmannah. 4. April 1867.

Háttvirti elskulegi herra prófessor Maurer.

Þó eg hafi verið óheyrilega forsómunarsamur að skrifa yður, þá hefi eg opt verið hjá yður í huganum, og stundum með mikilli áhyggju um það, hvernig yður mundi líða. Nú þakka eg yður nýjan vott yðar óbreyttu vinsemdar, og von mín hefir heldur glæðzt um að yður heldur líði betur en fyr, og að það mætti haldast við.

Héðan er heldur lítið að frétta, þó er það að segja, að okkur líður vel hér við Austurvegg. Eg veit yður



*Í þessu húsi (nú Østervoldgade nr. 8, áður Østervold nr. 486) á 2. sal bjó Jón Sigurðsson frá 1852 til dauðadags.*

muni fýsa að heyra um Íslands mál. Það er nú frétta fátt. Þó höfum við frétt frá Spáni, með skipi sem kom til Corunna í Januar, að vetur væri góður og bezta tíð. Nú er von á fyrsta gufuskipi híngað aptur, það fór

1. Marts en er ekki frétt til þess enn. Um okkar politisku mál er það að segja, að Danir eru reiðir við okkur og hálfvegis er sama stefnan einsog fyr, að þykjast hafa skaða á Íslandi, og bezt að losast við það og selja okkur. En eg ímynda mér það takist ekki. Sponneck réði þeim til í vetur, að gánga hart að Íslandi, og pressa alþíng til að »hylja granahárið«, þ. e. að gjalda svo mikið, að reikníngshallinn hyrfi; en það ráð gengur ekki fram að sinni. Nú heyri eg, að eigi að gera nýtt boð í sumar til alþíngis, og á það að vera ultimatum(!!). Það er 48000 á ári, fast og óbrigðult, og loforð um að kalla saman þjóðfund og leggja fyrir hann stjórnarmálið *sem fyrst*. Þetta er þó töluvert betra en tilboðið í hitt eð fyrra (42000r̲ í *12 ár* og ekkert loforð um stjórnarmálið); en samt held eg þeir fái enn heimvísað einu sinni. Eg er grobbinn, ef það rætist, að þetta tilboð verði gjört, því eg þakka mér það að miklum hluta. Hefði alþíng játað boðinu í hitt eð fyrra, þá hefði líklega allt verið linara frá Dönum. Nú mega þeir til. Eg fyrir mitt leyti vil heimta: 1) sæmilega skaðabót fyrir eignir landsins og verzlunarkúgun. — 2) að hvað við fáum verði *eign* landsins, en ekki árleg veitíng. — 3) stjórnarmálið allt í heild sinni lagt fram ásamt fjármálinu; því eg vil því að eins slá af peníngakröfum, að politiskar kröfur fáist. — 4) þjóðfund, eða með öðrum orðum frjálst og fullkomið atkvæði alþíngis eða íslenzkra fulltrúa, svo að við vitum víst, að ekkert verði ákveðið nema alþíng eða þjóðfundur samþykki, en engin oktroi af hendi Dana. — Nú kemur uppá, hvort þessu programmi verður haldið eða ekki, en eg vona það samt að svo fari, ef guð lofar eg lifi og kemst heim. Verst er, að eg á ekki von á góðu, ef eg fer ekki laglega að, af því eg hefi ekki efni til að standa fullkomlega fast, hvað sem Danir segja, og verð að fara á bil beggja.

Um Bókmentafélagið get eg ekki sagt yður annað en það, að nú kemur hepti af Biskupasögum, mest sögurnar um Ögmund og Jón Arason, og kvæði um þá frá 16. öld. — Eg hefi líka til nú öll kvæði og vísur Jóns Arasonar, sem til eru nú, að eg held, og ætla að hafa þau með, en ekki komast þau út nú. Diplomatarium er eg með, en get ekki heldur komið því út í vor. Þar á móti kemur mikið stáz-rit frá félaginu, sem eru ræður biskups Péturs og mín á afmælisdag félagsins í fyrra vor, þegar það var 50 ára. Þar hefi eg sett í æfi félagsins nokkurnveginn nákvæmlega, og yms skjöl frá þess fyrri tímum, sem eg vona yður kunni þykja gaman að sjá. Þar verða með myndir: Rask — Árni Helgas(on) — Finnur Magn(ússon) — Bjarni Þorsteinsson, allir á einu blaði. Ritið er nl. í 4^to^ uppá mont.

Nú man eg ekki meira í senn. Með ástarkveðjum okkar til yðar og allra yðar ástvina.

Yðar trúfastur vinur og elskari

Jón Sigurðsson.

## 223.

### Til Torfa Bjarnasonar, síðar skólastjóra.

Khöfn 21. April 1867.

Elskulegi vin.

. . . Að fá góð verkfæri og kunna að beita þeim er mikilsvert, og það ríður yður mikið á, eins hitt, að hafa vissa menn, sem geta útvegað yður það sem þarf af slíku. Það er svosem auðvitað, að maður getur séð og heyrt mart og tekið eptir, með því að vera lengur, en hið nýja er ótæmanlegt, og er því mest vert að stóla uppá áhuga sinn og verklægni. Eg gjöri ráð fyrir þér hafið lag á því, að hæna að yður drengi, sem

nenna að vinna, en láta ekki allt lenda í að gánga með höndur í vösum og vindil í kjaptinum, gera svo ekki annað en skrafa og skeggræða, og þykjast kunna allt nærri óséð. Því er miður, að við höfum of mikið af slíkum gorkúlum bændastéttarinnar. Hefðuð þér nú lag á að koma stefnu á, og fá góða 4 eða 5 nágranna í kríngum yður, þá væri von á að búnaður festi rót hjá oss. Eg vil hafa alla þá á nábýlisjörðum hvers annars, sem læra nokkuð vel. —

Ef þér komið til Reykjavíkur í sumar, þá hefir alþíng mikið af búnaðarritum, sem eg hefi útvegað því, og er hægt að útvega yður það til lesturs, svosem þér vilið. Þar væri líka góður tími fyrir okkur til að tala betur saman, því mart er í mörgu, sem yrði of lángt að skrifa.

Yðar einlægur vin

Jón Sigurðsson.

224.

Til Guðmundar búfræðings Ólafssonar.

Khöfn 24. April 1867.

Háttvirti kæri vin.

Eg fékk bænarskrá frá ykkur Þorvarði á Kalastöðum nú með póstskipinu, og vona að hún komist á framfæri. Eg get líka sagt yður það, að eg held enginn efi sé á að við höfum farið rétt að í hitt eð fyrra, einúngis að við höfum nú þol til að halda sömu stefnu, og það ætla eg líka að vona. Það lítur svo út sem við munum fá töluvert betra boð nú í sumar heldur en í hitt eð fyrra, en hvað sem um það verður, þá megum við ekki falla frá kröfunni um þjóðfund, til þess að geta haldið okkar frjálsu atkvæði, og jafnframt til þess að teygja úr Dönum svo mikið sem verður. Eg sendi

yður því hérmeð uppkast til bænarskrár til alþíngis, sem eg bið yður að fá sem flestar undirskriptir að kostur er á, ekki svo að þér séuð bundinn við orðin, eða við kröfurnar, nema að eg held ekki megi draga úr þeim að efninu til, en vel má bæta við og herða, ef yður svo sýnist. Mest ríður á, að þér sjáið um að koma bænarskrá um þetta efni til alþíngis með sem mestum styrk undirskripta. Eg hefi sent sýslumanni eitt exemplar og vona hann verði yður ekki á móti, ef á þarf að halda, en hitt kann vera, að hann kynoki sér við að safna undirskriptum, og verðið þér þá að sjá um það.

Berið kæra kveðju Þorvarði Ólafssyni og Bjarna á Kjaranstöðum, eg vona þeir verði yður innanhandar í öllu sem þeir geta.

Ætíð lángar mig til að heyra jarðyrkjufréttir og búnaðarprédikanir frá yður, þegar þér kæmist höndum undir.

Yðar einlægur vin
Jón Sigurðsson.

225.

Til Sigurðar L. Jónassonar, síðar skjalavarðar.

Rvík 30. Juli 1867.

Elskulegi vinur.

Ósköp þótti mér vænt um, að þér höfðuð ekki gleymt mér, og eg þakka yður því meira fyrir yðar rækilega og góða bréf sem eg veit, að þér eruð ekki mikið fyrir að skrifa privatbréf.

Eg sé á bréfinu yðar, að á yður hefir lent mest erviðið fyrir Bókmentafélaginu og Félagsritunum. . . .

Alþing er nú lengt til þess 21. August, en hvort

þá verður búið allt, það er annað mál, eg *vildi* það gjarnan, en er hálfhræddur um að það verði ekki.

Um málin er ekki útséð enn, þó er eg að vona, að menn geti komið sér niður á því, sem ekki gerir okkur réttlausa. Þér hafið hitt þau atriðin sömu, sem hér þykja ískyggilegust, en Benedikt Sveinsson er nú að leggja sig í bleyti með að finna upp juridik á móti. Það er verst, að hann er svo laus á kostunum, og þegar minnst varir, þá hleypur hann útundan og út í buskann.

Í ástæðunum fyrir grundvallarlög(unum) hefir stjórnin bakað sér verstu óvild, ef að ekki vantaði hörku til að halda henni fram. En eg held samt, að einhver þvælan verði, og það svo, að stjórnin megi hugsa sig um í ymsum atriðum. Það er nú ugglaust, að allir eru samdóma um, að grundvallarlögin gildi *ekki*, og Finsen sjálfur veit það líka. — Ekki held eg verði neinn vafi á, að menn heimti *sérstakan* ráðgjafa, og margt annað verður breytt, hvað sem Finsen segir; en það er varla svo lángt komið, að maður geti sagt *hvað*. Til orða hefir komið að fara í tvískipt þíng, líkt einsog í Noregi, og það getur verið að sú hugsun fái nokkurt fylgi. — Hegníngarlögin held eg verði látin hvíla sig. — Við stjórnarlögin held eg verði hnýttir skilmálar, svo framarlega sem alþíng fer inn í þau, nl. 1) að þessi lög verði samt álitin sem frumvarp, sem leggja skuli fyrir þjóðfund, og einkum ef stjórnin gángi ekki að breytíngum þíngsins óskorað. — 2) að sett verði landstjórn strax og hún látin gánga frá lögum þessum áður þau verði endilega viðtekin. — 3) að fáist 60000 rd. (eða 50000 rd.) fast tilgjald frá Danm(örku). — 4) að fyrir þessu gjaldi verði gefin Statsobligation. — Finsen er logandi hræddur um stjórnarfrumvarpið, en er þó að erta þíngmenn stundum og ögra þeim, með því að hæla frumvarpinu, hóta með alveldi og með því að allt verði gert að lögum ofaní þíngið o. s. frv. — en þetta gerir hann fremur óskaðlegan heldur en hitt, því

menn fara allra sinna ferða, hvað sem *hann* segir. Það verður ómennska þeirra sjálfra og ósamlyndi sem drepur þá, ef þeir drepast, en ekki málafylgi Finsens, en það er orðið svo, að þeir geta ekki sagt neitt orð að gagni, nema helzt þegar þeir eru hálffullir.

Eg sá greinirnar í Norðanfara, og svaraði þeim með nafni, en ekki veit eg hvort yður líkar það sem eg hefi sagt, kannske yður þyki eg of grimmur. Eg held það sé Einar prentari, sem hér ríður undir, en þar eru samt líklega fleiri með, sem vita ekki hvað þeir gera. . . .

Grímur . . . hælist mikið um við Finsen, og er nú mikið ánægður með Oddgeir. Hann á víst Magnúsi að þakka, að verzlanin gekk fram. Annars er bágt að segja hvað bezt er, þegar allt er látið fara í þeirri skömm og skötulíki, sem allar opinberar eignir fara hér. Það er betra að einhver njóti en enginn.

Forlátið mér nú þenna ónýta miða. Konan mín biður ástsamlega að heilsa yður, og eg kveð yður óskum beztu.

Yðar einlægur skuldbundinn vin

Jón Sigurðsson.

226.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn 15. Novbr. 1867.

Elskulegi vin.

Ástar þakkir fyrir allar viðgjörðirnar í sumar, og allt gott einsog fyrri, þó eg fengi ekki Iðrunarsaltarann. Ferðin gekk vel, en nokkuð stormasöm. Hér er allt með spekt, þó að þú takir eptir að okkar gamli Gísli sé að ygla sig við okkur, og mun það vera byggt á skýrslum Jóns Guðmundssonar. Eg hefi talað við Oddgeir, og heyri eg sagt hann láti vel yfir hvernig farið

hafi. Það má nú skilja á ymsan hátt, en þó heyrist mér helzt sem stjórnin muni fallast á allt saman og reyna að útvega 60000 dalina. Það er það ergilegasta við Gísla og Jón Guðm(undsson), að hvorugur hefir vit á að urgera samþykkisatkvæðið; eg hugsaði því að réttara væri að taka það fram, og svaraði því stuttlega í gær í Berlíngi. Þú sér á því sem Berlíngur hefir, að hann hefir ennþá meir afbakað, því hann hefir ekki skilið Föðurl(andsins) frásögn, og er það merki til þess, hversu lítt menn eru hér inni í þessu íslenzka.

Menn hafa haldið sumir, að Bændaflokkurinn yrði í móti peníngamálinu. Nú er að sjá hvað setur. En hitt er víst, að mesta nauðsyn ber til þess, að vér séum á okkar pósti, og reynum hvað við getum til þess að drífa okkur, hvernig sem fer. Þartil þurfum við organ, Félagsritin og blað með, ef vel væri, svo við gætum talað úr flokki, og það gæti vel komist að, þegar Þjóðólfur er orðinn svona ónýtur og hefur misst traust manna. Á þessu ríður þó stjórnin segði nei, og þó enn fremur ef landstjórn kæmist á, því þá má hver gera hvað hann getur, ekki mun af veita.

Þú verður að skrifa mér allt hvað þú getur, og segja mér hvað þú veizt og fær að vita direkte og indirekte. Berðu Jónassen okkar etazráði kæra kveðju og spyrðu hann spjörunum úr. Segðu mér hvort þú heldur að maður ætti að leggja útí blað eptir nýárið, svosem örk um mánuðinn, og sem einskonar fylgifisk Félagsritanna, og hvað viltu kalla það? . . .

Forláttu nú, kæri vin, línur þessar og berðu okkar beztu kveðjur.

Þinn einlægur elskandi vin

Jón Sigurðsson.

227.

Til etazráðs, prófessors Jap. Steenstrup.

Kh. 22. Novbr. 1867.

Höistærede Hr. Etatsraad.

I Anledning af Deres venlige Brev har jeg ufortövet seet efter i Sognebeskrivelserne angaaende Reykholt eller Húsafells gamle Sogn, om der skulde findes noget om Skovmusen og dens Færger, men jeg er vis paa at der ikke findes noget derom. I det Hele findes ingen saadanne Efterretninger i disse Beskrivelser, fordi Spörgsmaalene ikke gav Anledning dertil. Hvis De imidlertid har Lyst til at pröve om De finder noget, er Samlingen til Tjeneste, f. Ex. et Syssel eller Pakke ad Gangen.

Med Hensyn til Faktum om Musene kan jeg forövrigt sige, at det almindelig *fortælles* omtrent som Eggert og Henderson have det, men jeg har dog ikke talt med Nogen, som *selv* har seet det. Foruden paa Kokasser hedder det at de sætte over paa Hövlspaane og det berettes endog, at de engang have været paa Fart ud til Vigur (Öen i Isafjordsdybet) men ere blevne slaaede omkuld paa Veien. Saavidt jeg har kunnet forstaae er derfor denne Fortælling gjeldende for Musene i andre Egne end ved Húsafell.

Deres hengivne

Jón Sigurðsson.

228.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn 27. Marts 1868.

Höistærede kjære Herr Pastor Gudmundsen.

. . . For nogle Dage siden haaber jeg De har modtaget Þjóðólf fra mig, og jeg tillod mig med det samme

at sende Dem en Pjese fra vor Ven Dr. Hjaltelin, som De altsaa vil see at har endnu beholdt sin gamle Egenskab, ikke at lægge Fingrene imellem naar han polemiserer. Desværre er der mere Kraft end Smidighed, men i det Hele sympatiserer jeg med ham, thi jeg finder det i Almindelighed taktlöst og uforskammet af Tourister, at benytte den gjæstevenlige Modtagelse til at samle smaa Spotbemærkninger om hvad de muligen kunne opdage paa en eller anden Gaard, hvor de tilfældig komme hen. Der er dog ingen Gjæstgivergaarde, hvor man kan gjöre Fordringer paa en hotelmæssig Behandling, og jeg skulde troe, at man i hvilketsomhelst Land, hvor man er henvist til Familiernes tilfældige Leilighed, kunde risikere noget som ikke er bedre, hvis man ikke ligefrem blev viist Dören. Forövrigt maa jeg sige, at jeg finder ikke Paikulls Fortællinger værre end mange andre Touristers, og navnlig seer jeg ingen Anledning til at rose Zeilau eller andre danske Tourister fremfor Paikull. Jeg for min Deel bliver nu slet ikke altereret over saadanne Historier, men det kan gjerne være, at det ikke er af Veien, naar man er oplagt dertil, at give disse Fyre et Tugtens Riis at smage.

Det gaaer meget trægt med Dampskibet denne Gang. Ministeriet havde udbudt Entreprisen, og fik fra England et godt Bud, men bar sig efter min Mening forkjært ad, ved at komme med Betingelser bagefter. Derover trak Engelskmanden sig tilbage, og nu underhandles med Koch, som De kan tænke vil benytte sig af Omstændighederne, og navnlig vil have Contrakten paa 10 Aar. Hvad der nu bliver veed man ei saa sikkert, men jeg antager maaskee, at der bliver handlet paa 1 Aar, med 15000 Rd. foruden Læsteafgift fri. Men Farten kommer seent i Gang, og nu er det bestemt, at sende Posten med Fylla (Orlogsskonnert) den 1. April. Derpaa skal den gaae til Cromarty i Skotland (længst nordpaa) og der lægge op Posten fra Island, hvorpaa

Enhver maa betale engelsk Porto hertil. Det er en saa stor Udgift for dem der har mange Breve, at jeg har i Sinde at stoppe alle mine Breve i Reykjavík, indtil et Seilskib gaaer, hvis ikke [et] Dampskib kommer för. Det vilde ikke være overflödigt at bede om en Smule bedre Viisdom for den islandske Overregjering, hvis det var muligt, som Birkedal sagde. . . .

De islandske Sager gaae ellers deres jævne Gang, eller snarere hvile for Tiden. Regjeringsforslaget om Islands politiske Forfatning blev behandlet paa sidste Althing, og vedtaget med nogle Modifikationer, saaledes at Finsen som Commissarius accepterede det Hele. Men der er dog nogle Knuder, som Rosenörn-Teilmann ikke synes om, og derfor kan det gjerne være, at han endnu engang vil have Forslaget for Althinget. Jeg har ikke saa meget derimod, da jeg haaber, at vi derved faae det lidt strammere. Rosenörn vil kun unde os enten en Colonialforfatning, eller en Forfatning som Færöerne, men ingen af Delene ville vi tage imod — troer jeg. Vi vil have Ligeberettigelse og intet Andet, det vil sige afgjörende Stemme i vore locale Sager, uden nogen Hovmestereren af den danske Rigsdag forsaavidt. De har vist lagt Mærke til, at der har været lidt uvenligt til mig i Bladene her, i Anledning af mine politiske Meninger, og ligeledes at Jón Guðmundsson har i den senere Tid været lidt nærgaaende. Alt hvad der har staaet i Bladene her er fra Gísli Brynjulfsson, som under forskjellige Skikkelser anonymt har sögt at vække Uvillie mod mig, uden at jeg dog veed at have fortjent det af ham, maaskee med Undtagelse af, at jeg hörer til Cuurpartiet i Faareskabssagen, og har uforbeholdent læst ham Texten ved forskjellige private Leiligheder. I Island troer jeg nu ikke at dette har stort at betyde, snarere hjælper det mig i Opinionen, men her er det værre, fordi man ikke kjender mig, og lader sig derfor let dupere. Imidlertid tröster jeg

mig med, at den som vover sig ud paa Söen maa ofte vente at faa en vaad Tröie. Hovedsagen er at vi faae vor Krig frem, og det haaber jeg med Guds Hjælp vil skee. . . .

Jón Sigurðsson.

229.

Til Árna landfógeta Thorsteinsson.

Khöfn 30. Marts 1868.

Elskulegi vin.

. . . Ekki miðar okkar íslenzku politik mikið áfram, enda heldur liggur hún í dái, en alltaf er samt verið að gjöra ráð fyrir að mikið standi til. Eg held, að þó Rosenörn og Oddgeir vili vel, þá sé þeir ekki »á því hreina« hvað þeir vilja gjöra. Ætli menn geti ekki vænt þess, að Finsen setí nú á það nefið smásaman, því ekki er gott að vera lengi neflaus, og það kalla eg við séum allt að því nú. Ekki bætir heldur um tilhögunin með gufuskipið, og svona er allt. Eg eigna það því, að við höfum eiginlega engan verulega officiel talsmann, heldur er allt í þessum gamla coloniale svíma. Vissulega var einvaldssvíminn ekki betri, en þá gekk fremur jafnt yfir alla, í stað þess að nú kippa Danir til sín, og ef okkar málstaður fellur þá liggjum við þar, miklu kúgaðri en áður að eg held. Rosenörn skilst mér muni vilja skrúfa okkur lengra niður, svo sem í niveau með Færeyjum, og í því skyni mun honum vera nær skapi að láta alþing fjalla enn einusinni um stjórnarmálið. Látum nú sjá til hvernig fer.

Að öðru leyti lítur allt friðsamlega út fjær og nær að kalla.

Berðu ástarkveðju okkar konu þinni elskulegri og öllum ástvinum.

Þinn skuldbundinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

230.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn 30. Marts 1868.

Elskulegi vin.

Eg varð neflángur þegar Arcturus kom, því eg vonaði bréfs frá þér en fékk ekkert. Nú vona eg samt þú sért að safna í sarpinn, og hafir mart gott og fróðlegt með að fara þegar þú kemur.

Um okkar mál hér er lítið að frétta, því að mestu leyti held eg þau liggi í dái, eða í bræðslu hjá Rosenörn. Eg hefi talað við hann, og var auðheyrt að hann vildi ekki unna okkur mikils frelsis. Hann heldur við höfum bezt af að verða í sömu fordæmíng og Færeyjar ɔ: verða einsog innlimuð nýlenda. Eg nuddaði hægt á móti, en lét samt lítið yfir, af því sem þú manst að okkur kom saman um, að öllu gott væri þó mál þetta kæmi fyrir þíng vort einusinni enn. Rosenörn hugsar nú sjálfsagt að láta okkur gánga í taugið með því að láta líklega um peníngana ef við gefum okkur undir dönsku ministrana, því það kemur einmitt þar fram, að þetta var punctum saliens í frumvarpinu í fyrra. Það er sama regla og í Vestindíum var eða er, að guvernörinn fær instrux frá konúngi, eða með öðrum orðum frá ministernum, og þá er nú nýlendureglan nokkurnveginn í gángi.

Ef nú svo fer, að málið verður sett í okkur aptur, þá vona eg við verðum ódeigir til að halda fram máli voru, því þá getum við séð til hvers leiðir að vera að teygja sig eptir stjórninni. Við hefðum líklega ekki staðið verr að vígi, þó við hefðum afvísað málinu í fyrra þángaðtil stefnt væri til þjóðfundar og beint fjártilboð gjört. En eigi að síður iðrast eg ekki ennþá eptir hvernig við fórum að, því eg held okkur gagnist alstaðar vottar að því, að við höfum að voru leyti lagt til sætta hvað við gátum án þess að troða sjálfir allan

vorn rétt undir fótum. En ef nú málið aptur kemur fyrir, þá megum við hugsa okkur um, hvort það er einlægur ásetníngur og vili okkar að halda uppi hluta vorum, eða ekki, og sé það sem eg vona ætlun vor, þá er undir komið að gjöra nokkuð, og spara ekki hvað maður getur. Ef svo verður gjört, þá erum við vissir að vinna sigurinn, ef við höldum hóp, og það áður en lángt líður. En séum við sundurlyndir, þá eigum við reyndar lengur í beyglunum.

Allt það sem hér hefir [verið] skrifað móti okkar málstað er eptir Gísla Brynjólfsson. Hann hefir skrifað stundum sem bréf úr Rvík í Fædrel(andet), stundum sem bréf að norðan, stundum með merkinu xxx í Berlíngi. Ekki hefi eg orðið annars var en að hann hafi fremur gjört litla lukku meðal landa, en það kann vera að Danir áliti produkt hans sem merki uppá að vor flokkur sundrist, og hafi því vonir um að betur takist að kvía okkur.

Eg politisera ekki meira við þig fyr en eg heyri frá þér hvernig okkar mál standa.

Berðu kærar kveðjur þínum öllum og lifðu ætíð vel.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

## 231.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn 26. Juni 1868.

Elskulegi vin.

Nú var eg farinn að hugsa nokkuð ljótt, þegar eg eptir nokkra daga fékk þitt góða bréf úr fórum Melsteðs, en eg þakka þér ástsamlega fyrir það, þó í styttra lagi væri, af því eg veit að þú hefir bæði mikið að

gjöra og mikinn mannlegan breyskleika við að stríða þar sem um bréfaskriptir er að ræða.

Ekkert get eg sagt þér meira um stjórnarbótarmálið en fyrri. Það er sagt þeir muni vera að motivera 60000 rd. árgjald og máttu geta nærri að það kostar heilabrot. Annars heyri eg að gjört er fast ráð fyrir að málið skuli nú útkljást, og að hver sé seinastur fyrir íslenzku stjórnardeildinni. Oddgeir lætur svo, sem hann vænti sín á hverjum degi, en það er nú ekki að marka. Eptir því sem þeir skrifa mér að norðan og vestan, þá skilst mér sem sumum þyki alþíng seinast hafa verið of meinlaust, einkum í því, að gjöra ekki fjárkröfuna að skilyrði. Mér skilst líka, sem hinir mest diplomatisku af okkar mótstöðumönnum hafi viljað láta svo, sem við höfum tekið það 1867 sem við höfðum kastað 1865. Það er gott, að þú heldur að meiri hlutinn verði fastur fyrir, en þar með held eg sé nauðsynlegt að búa undir harðskeyttar bænarskrár í öllum greinum, til þess að snerpa á þeim sem linir eru, því ekki mun af veita samt, þegar nú pressan kemur á okkur þar að auki frá ríkisþínginu, því búast má við að þeir láti politisk réttindi vega salt móti peníngum og heimti af okkur general-kvittering. Bændavinir sumir vilja leiða okkur frá peníngunum með frelsisloforðum, og segja að frelsi sé miklu meira vert en þúsundir í dölum. Við þekkjum það og kunnum að meta!

Það var mér mjög kært að heyra, að þú vannst mál þín, og að mér sýnist allt benda til að kláðamenn verði spakari. Það er ágætt að heyra að Jón Guðm(undsson) er að hæla »láni« Finsens í kláðamálinu, mannsins sem *ekkert* hefir gert, varla eins mikið og Jónassen. Það mun vita á að Jón G. ætli nú að verða lækníngamaður. Bara að Nielsen ekki verði látinn fara, eða þá að annar komi í staðinn, því eg er viss um, að það er mesta gagn þó ekki sé annað en að menn *viti af* dýralækni, til að spekja menn. . . .

Ástar þakkir fyrir myndina, samt er hún ekki öldúngis góð, eptir minni sjón.

Eg vona þú gefir strángar »ordrur« um bænarskrár duglegar, einkum í stjórnarmálinu, til næsta þings.

Forláttu miðann og vertu með þínum ætíð blessaður og sæll.

Þinn elskandi vin
Jón Sigurðsson.

232.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn 4. August 1868.

Elskulegi vin.

Nú get eg skilið hvað í þér býr með alla pennaletina, að þú hefir gengið með bústjórnarfélagið fyrir bringspölunum. Eg vona þú látir nú líka til þín taka þegar þú byrjar, því mikils þarf við til að leiðrétta, og einkum til að koma skynsamlegri og góðri stefnu á félagsins aðgjörðir. Þú ættir nú að sameina þig Bókmentafélaginu, til þess að fá upp búskaparrit, útvega okkur nóga félagsmenn, NB. sem borga, og hjálpast svo að til að fá ritaðar og prentaðar búnaðarritgjörðir. Eg gæti kannske verið ykkur þar til gagns, en eg get nú ekki staðið mig við að rita fyrir ekkert, og þarf miklu framar að fá jafnvel meira en eg á skilið, ef eg á að standa mig rétt vel.

Það er lítið að frétta af stjórnarmálinu, en heldur lízt mér svo á, sem það muni ætla að fá einhvern gáng á sig, hvað sem úr því verður. Mér finnst alltaf sem Oddgeir sé að verða úfnari, og tek það sem merki uppá að depart(ementið) eigi vonir á einhverju. Stundum er því fleygt, að Rosenörn ætli frá, og þá muni verða tæpara um árgjaldið. Þú ert nú ad utrumque paratus,

svo þér verður ekki flökurt, en samt er nauðsyn að mál þetta fái einhvern enda. Menn demoraliserast svo mikið meðan svona stendur, að það fer úr þeim allur dugur og drengskapur.

Ekki hefi eg séð Nielsen síðan hann kom, en eg heyri nú að þeir segja skilið við kláðann. Það er gott, bara hann komi ekki upp á ný, og þeir fari að þrefa um hvort hann sé svo sami kláðinn eða annar nýr.

Þú átt mikla byrði á þinni samvizku, segir rektor, að þú hefir ekki sent mér Anabasis með skólaskýrslu. Það gildir, að þú mátt senda mér einhverja gamla bók með, til að bæta mér í skapi, og gættu þá að senda mér eitthvað sem eg á ekki áður. Eg gjöri mig ánægðan með Odds Gottskálkssonar Testament eða þesskonar.

Blessaður vertu, mundu eptir að búa sem bezt og fjöruglegast undir okkar politiska félagsskap. Mér finnst nauðsynlega þurfi greinilega discussion um stjórnarmálið í öllum héruðum, og svo öflugar bænarskrár til alþingis næsta, til að stæla menn upp. Ertu ekki því samdóma?

Með ástar kveðjum til þín og þinna og beztu óskum.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

Er það rétt, að láta Jón Guðmundsson gánga svona sjálfala, án þess að trutta á hann? — Eg held það væri réttara að taka hann dálítið í fótinn. Þjóðólfur er orðinn ónýtur í öllum málum, og á alþingi er Jón orðinn svo confus, að hann er sem í draumi. Eða sýnist þér ekki svo?

233.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Khöfn 4. August 1868.

Elskulegi bróðir.

Eg hefi mörg bréf að þakka þér auk annars, og gjöri það nú hérmeð. . . .

Er það Jón Ólafsson, sem stýrir Baldri hinum bjeaða? — Það er mikið óheppilegt, því eiginlega þyrfti nú collega þinn að fá dýfu, og að það væri sprengt á nokkrum blöðrum hjá honum, því hans mikli lærdómur ætlar nú hreint að fara með hann. Hann er einsog Sankti Páll, þó ólíku sé saman að jafna, að þegar hann kemst á einhvern rekspöl, þá heldur hann beint áfram, þángað til hann er á kolsvarta kafi. Hvað vill hann nú með því, að andæpta móti árgjaldinu? Heldur hann að meira fáist með því móti? eða er það captatio benevolentiæ við Dani, eða malevolentiæ við mig? — Aldrei hefi eg heyrt neinn Danskan lá okkur þó við viljum reyna að fá sem mest uppúr því, og þó Jón G(uðmundsson) ímyndi sér kannske þeir hlæi að mér, þá hlæja þeir meira að honum, þegar þeir sjá hann keppast við að skíta í sjálfs síns hreiður, og hreykja sér á haugnum.

Héðan er ekkert að frétta sérlegt, nema trúlofun krónprinzins, og eru allir Skandínavar glaðir yfir því, en hinir segja, dregst að því sem verða vill, að Danmörk brotni í sundur í miðju, milli Prússa og Svía.

Hvað segir þú mér af Grími Thomsen á Bessastöðum? mig lángar til að heyra svo ítarlega sem þú getur og nennir að segja mér frá tilraunum hans, og hvernig þær nú eiginlega heppnast.

Vertu nú ástsamlega kvaddur með öllum þínum.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

## 234.

### Til Sigurðar prófasts Gunnarssonar á Hallormsstað.

Khöfn 21. August 1868.

Háttvirti elskulegi vin.

Það er lángt síðan þú heyrðir bops frá mér, en samt gladdi það mig mikið, að heyra til þín í fjárhagsmálinu og geta þaraf ályktað, að við værum þar á sama máli. Eg vildi óska við hefðum verið það eins í kláðamálinu. Nú er líklega að koma nýr snúníngur á fjárhagsmálið, því nú er komin ný þvara í grautarpottinn, nefnilega nýr minister, það er Nutzhorn, sá sem var með okkur hér í fjárhagsnefndinni um árið. Eptir því sem hann var þá, er ekki mikils að vænta af honum, sízt í peníngaefnum, en nú er orðið nokkuð annað en þá, því dálítið erum við búnir að þvætta úr Dönum síðan. Eg vona þú hafir lesið nákvæmlega ritlíng minn í Félagsritunum í fyrra, og ekki einúngis framan af honum, einsog Jón Guðmundsson, og borið hann saman við bréfin í Stjórnartíðindunum, þá getur þú séð að það var heppilegt hvernig við gátum snúið okkur úr netinu 1865. Það er *nú* líka hægt að skilja, hversvegna Oddgeir og Bergur amtmaður urðu reiðir útaf því, hvernig alþíng fór þá að, því hefði það samþykkt frumvarpið, þá hefði líklega allt staðið við sama sem er, nema að Danir hefði ekki þurft að hækka tillag sitt úr því sem var, og þá voru um leið öll bönd leyst af þeim með stjórnarmálið, svo enginn var til að reka eptir þeim nema alþíng, og það hefir of lítinn krapt til að draga svoddan slóða.

Þér er nú líklega fremur beygur í hug útaf meðferð alþíngis á málinu 1867. Það er nú ekki hægt fyrir mig að segja beinlínis hvernig fari nú, eða hvernig farið hefði ef að málið hefði verið rekið aptur, en mín skoðun var þessi, og er enn: Frumvarpið 1867 er svo miklu betra en hitt fyrra, að það má virkilega heita

stjórnarmálsfrumvarp, þarmeð er líka af konúngs hendi tilboð um *fast* árgjald. Þetta þarf að vísu aðgerð, en ef það er tekið með skilyrði, þá er engu niður slökkt, en maður sýnir sig líklegan til sátta og samnínga með bærilegum kjörum og þetta getur í öllu falli haldið lífi í málinu. Þarnæst er að fá þann varnagla sleginn, að ekkert verði sett uppá okkur án alþíngis samþykkis. Nú fengum við því breytt svo í frumvarpinu, að ef það yrði að lögum höfum við mikið sjálfsforræði og 60000 rd. árgjald fast, en það er nær því helmíngi meira en nú er skotið til í raun og veru árlega eptir reikníngum Dana. Þetta fáum við til okkar innlendu mála, en svo höfum við frjálsar hendur um sameiginlegu málin, hvenær við viljum taka þátt í þeim. Danir vilja að það verði sem fyrst, alþíng vill kannske sem allra seinast. Þá kemur aptur tækifæri til að koma fram með nýjar kröfur, og það getum við svo vel gjört, vegna þess, að þá höfum við okkar innlendum málum borgið, og þurfum kannske ekkert að flýta okkur inn í almennu málin. Þá getum við vel heimtað á ný 60000 rd. til þeirra nauðsynja.

En þú getur nærri, að enginn nefndi þetta á nafn á alþíngi þó sumum dytti það í hug. Það verður að bíða síns tíma.

Það hefði mátt færa margar ástæður fyrir, að vísa málinu frá sér, og eg held víst það hefði orðið ef Jónassen hefði verið konúngsfulltrúi. En Finsen siðaðist svo vel, og lét sér svo annt um að koma sáttum á, að það var mikið áhorfsmál að hvekkja hann alveg frá sér, og koma honum í andskotaflokk okkar, sem nógu stór er samt. Annað mál er það, að *ef* nú ekki fæst það, sem hann og alþíng hafa komið sér saman um, þá má gefa honum gild svör og góð og minna hann á, hverjum þrætan sé að kenna. Því verði svo, þá erum við ekki einúngis lausir allra mála að okkar leyti, heldur og verður stjórnin hángandi í sínum eigin snörum að

mestu leyti, ef við kunnum að brúka tækifærið; en *þess* þarf með, því ef Íslendíngar sýna sig aðra eins klaufa í stjórnarmálinu eins og í kláðamálinu, þá verður þeim ekki viðhjálpandi fyrst um sinn, og þó eitthvað vinnist, þá láta þeir jafnótt draga það úr höndum sér. Þið prestarnir gætið gert mest að verkum, ef þið gætið lagzt á eitt, en það getið þið ekki heldur vænti eg; þó segja þeir Austfirðíngar, að síra Sigurður á Hallormsstað geti orkað mestu ef hann leggst á.

Frú Guðlaug, mágkona þín, var að tala um í fyrra, að þið hugsuðuð til að fá reist grafarmark yfir Gísla okkar Hjálmarssyni. Verður ekkert af því? — Það væri þó bezt að draga það ekki, ef þið hugsið til þess.

Eptir því sem nú stendur á stjórnarmálinu, þá ættið þið að halda fundi í vetur og discutera frumvarp alþíngis, svo þið sæið hvað hér væri að gjöra, koma svo með eldheitar bænarskrár til þíngs að sumri. Það er nauðsyn að bænarskrárnar sé öflugar, því lint er alþíng þegar bænarskrárnar eru hvassar, en linara er það, þegar þær eru linar. Eiginlega ætti deputationir úr sýslunum að liggja við á alþíngi meðan merkileg mál eru til meðferðar á þínginu. Með því móti fær þíngið miklu meira aðhald.

Eins vil eg biðja þig að gæta, og það er, að undirskriptir á bænarskránum verði reglulegar, fullkomið nafn mannanna en ekki skammstöfuð fornöfnin eða skírnarnöfnin, fullskýrt skrifað stétt og heimili, og nöfnin í reglulegum röðum.

Þegar bænarskráin er rituð, þá er svo hægt að regla niður í reiti svo stóra, að þar komist nafn í hvern reit.

Nú nenni eg ekki að mæða þig lengur og bið þig að forláta hriplínur þessar.

Þinn skuldbundinn elsk(andi) vin

Jón Sigurðsson.

Þú átt víst mynd af þér aflögu, hérna er ein af mér.

235.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Kaupmh. 16. Sept. 1868.

Elskulegi bróðir minn.

Kærar þakkir fyrir þitt seinasta bréf einsog mörg fyrri. Mikið áttú í stímabraki í þessari tíð, svo eg held þú megir segja, að þér leiðist nú þóf þetta, og fara heldur í handalögmál en í þessi dönsku lagaboðorð, sem þú hefir nú verið í um stundir. Þeir þora þá ekki að koma í fleiri mál, ef þeir sjá sitt óvænna. Það er hreint ófært, sýnist mér, að láta Jón Guðm(undsson) halda áfram lengur þessum skýrslum um dóma og mál landsyfirréttarins einsog nú. Það er hreint skandal. Ætli síra Einar í Grunnavík þoli þetta sem hann fær, eða biskup hans vegna? — Það er, að mér finnst, sjálfskaparvíti, að hafa slíka blaðamenn, því eiginlega eru nú allir á móti þessu, og einkum þegar aldrei er talað um nein almenn mál, nema til þess að eyða okkar þjóðlegum málstað, svo að ef ekki væri orðin rótföst önnur betri hugsun, þá væri verulega hætta búin. Er það nú, að þú heldur, ætlan J. G. að fá sér embætti uppúr þessu? — aldrei held eg nú það gángi, því nú er svo komið, að stjórnin sjálf þakkar honum ekkert fyrir þetta, svo þeir Gísli Br(ynjúlfsson) og hann vinna að eg held allshendis fyrir gýg. Þú spyr, hvort ekki muni samlagast við mig nokkrir menn til að gefa út tímarit? — Eg veit satt að segja ekki, en eg held þó, að mögulegt væri að fá menn til þess; en eg hefi ekki sem stendur ráð til að standa fyrir því, og eyða þeim tíma sem til þess þarf, þegar ekki stendur betur á en nú. Eg er líka ónýtur til að standa fyrir útsölu og innkröfum, og það er nervus rerum hjá okkur, þar sem verður að nauða hvern skildíng út úr mönnum. Þar held eg Jón Guðm(undsson) sé beztur allra manna til. Í fyrra var komið á fremsta hlunn, að hér yrði stofnað lítið

blað, en þá kom Baldur fram á völlinn, og hugsuðu menn að hann mundi geta bætt úr skák. Félagsrit vona eg geti komizt út í vor, því líklega verður þá eitthvað að segja um stjórnarmálið. Þeir eru að grugga í því.

. . . Eg er annars hlessa á, hvað deildin í Reykjavík býr illa, því þið gætið haft margfalt meiri tekjur ef þið værið ákafari að ná mönnum í félagið og krefja þá. Það þyrfti að fá góðar og skemmtilegar Anmeldelser af bókum þeim sem félagið gefur út, og meðmæli fyrir störfum þess, og þá kæmi smásaman fleiri. Þetta getur Rvíkur deildin bezt, svona indirecte, og þá getur hún faktisk orðið félagsins yfirdeild, því ekkert »Rang«-stríð þarf hún að óttast hjá okkur.

Með ástarkveðjum til þín og þinna ástkæru.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

236.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn 17. Septbr. 1868.

Elskulegi vin.

Ástar þakkir fyrir bréf þitt seinasta, og fyrir skýrslurnar um bústjórnarfélagið. Þar á móti stendur gróflega uppá þig með annað prentað dót, svo sem er skólaskýrslan með endanum á Anabasis, og mart annað, sem eg kann ekki að nefna. Gefðu mér líka Svoldar rímur og Tistrams rímur til uppbótar fyrir það sem þú hefir dregið af mér.

Um bústjórnarfélagið er nóg ræðuefni, og fyrst er það, að apa þig útúr skýrslunni. Þið heimtið skýrslur af fulltrúum félagsins út um amt, og segið: hversu megum vér segja fyrir störfum þegar vér þekkjum

ekkert og vitum ekkert. — En — minn kæri vin, datt þér þá ekki í hug, að þegar þið takist á hendur að ráða fyrir félaginu, þá eruð þið *skyldir* til að segja og vita eitthvað? — Þetta má því vera hreystyrði, en ekki vel valið, því þið eigið að segja fyrir, hvers þið biðið upplýsingar um. Annars fáið þið ekkert að gagni. Mínar uppástúngur væri nú helzt:

1. að opna ykkur veg til að fá félaginu styrk um allt land, reyna að fá félaga með áskorun, reyna að draga til ykkar búnaðarsjóðina, reyna að fá styrk úr jafnaðarsjóðunum árlega, reyna að fá hækkaðan styrk stjórnarinnar.

2. Ef efni ykist þá að stofna tvær sectionir, aðra til sjávarafla allskonar, aðra til sveitabúskapar, með tveimur duglegum en ekki fjölmennum forstöðunefndum.

3. Gefa út *endilega* búskaparpjesa stutta og vel valda, fyrst í stað svosem 2—3 arkir. Þessir pjesar ætti sumpart að vera historiskir, t. d. að upplýsa búskap á Íslandi í fornöld og miða til að sýna, að ekki sé landinu að kenna þó illa sé búið, sumpart theoretiskir, annaðhvort frumritaðir eða útlagðir. Ef félagið vill halda mig sem alikálf, þá er eg til þénustu að semja þesskonar eða leggja út, þó svo, að eg þurfi ekki að hafa joð fleiri en þarf í mínum ritum. — Bókmentafélagið ímynda eg mér kynni að kaupa t. d. 800 ex(emplör) af þesskonar pjesum fyrir gott verð. Þar með væri tvennt unnið: pjesarnir breiddust út, og búst(jórnar)fél(agið) fengi strax penínga. Setjum að prentaðir væri 2 pjesar á ári, hvor uppá 3 arkir. Upplag 2000 ex. Kostnaður c. 50 rd. örkin, og er vel í lagt. Það væri 300 rd.

Nú seldi félagið Bókmentafélaginu hverja örk á svosem 2 skild. altsvo 800 ex. á 12 skildinga, þar fengi þið aptur strax svosem 100 rd. uppí kostnaðinn, eða kannske meira. Þyki þér það ekki góð kjör þegar þið eruð í þeim vændum að gjöra gagn og hafa kostnað nokkurn? Johnstons catechismus lízt mér ekki neitt sérlega á, eg er hræddur um hann sé of theoretiskur

og óskiljanlegur okkar bændum. Þar ríður mest á, að þeir og þeirra ástand sé tekið sem grundvöllur, annars geta þeir ekki fylgt með. En kannske eg hafi of litla virðing fyrir Johnston. Varningsbókin mín þótti góð, og í líkum anda á að skrifa.

Stjórnarmálið er nú — *okkar á milli* — svo ástatt, að nú á að leggja fyrir ríkisþíng frumvarp til laga, sem setur árgjald til 50000 rd. *fast* og 10000 rd. í 12 ár, sem síðan minki um 500 rd. árlega. Frumvarpið segir hvað skuli vera Ísl(ands) fjárhag snertandi framvegis, og er yfir höfuð eingöngu financielt. Málið hitt allt á að fylgja sem Bilag. Þú getur sagt frá þessu, en *með conduite* svo það komi ekki frá *mér*, heldur frá öðrum, eða einhvernveginn í snúníngum. — Af þessu ræð eg, að þokað höfum við þeim nokkuð, en munum samt mega búast við málinu til alþíngis að sumri. Það mun því vera rétt, að bera sig að hafa bænarskrár á lopti í vor, og þær öflugar, svo að við getum notað þann sigur sem við nú höfum, því nú getum við leitt Finsen fyrir sjónir hverjum sé að kenna að ekki sé endir á málinu. Stjórnin á að fá málið aptur harðsóttara en í fyrra, fyrst hún tók ekki allt óskorað, og vita hvort hún svo ekki tekur *það* óskorað sem hún fær. Í öllu falli er það víst, að við getum teygt úr þeim 60 þús(und), og svo ýms realia þar að auki; en hér er eitt aðalatriði, sem nú ríður á framvegis, *sterkt samheldi* í flokki okkar, með vissum tilteknum greinum, og þarnæst *peníngar* til að verka með. Þið verðið að búa ykkur undir sem fallegast og þó leynilega með program, þar til við finnumst. Eg skal hafa uppkast, en svo þarf líka sniðugt plan til að fá fé til þess að gera það sem þarf. Það er allra nauðsynlegast, og þú ættir líka að hafa not af því.

 Eg held það líka, að Jón Guðm(undsson) geti gargað svo mikið sem hann vill að skaðlausu, en samt eldir eptir af því, að sumir taka eptir því sem hann segir,

og væri því ekki óþarfi að vekja nokkurn efa um hvort nokkurt orð hans væri að marka, eptir þeirri stefnu sem hann nú hefir tekið. Það væri kannske enda nógu gott, að sagt væri frá sögu Thoroddsens frá í fyrra, nl. að hann (J. G.) væri settur út móti mér til þess að eyða okkar þjóðlega flokki, og að það væri einkanlega tilgángur Finsens að vinna þetta. Ætli það þætti ekki fróðleg saga? En kannske þér sýnist ekki vert að koma með hana núna, annars manstu víst, að Thoroddsen sagði hana mörgum í fyrra.

Kærar kveðjur til þín og þinna frá okkur.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

## 237.

### Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Kaupmh. 24. Novbr. 1868.

Elskulegi vin.

Þú ert einsog Danir með það, að kannast aldrei við að neitt standi uppá þig, en við skulum ekki þrefa um það, sendu mér þá heilt exemplar af Anabasis, eða tvö, einsog náðargjöf, og svo þá í viðbót hvað annað þú getur. Eg frétti allstaðar að mér, að hvar sem eg kem að, þá hefir Halldór verið þar á undan, og þurkað það sem til var, bæði gamalt og nýtt.

Það var gott, að þér hafði dottið sama í hug og mér um bústjórnarfélagið, því þess heldur vona eg þú getir sett það á laggirnar áður lángt um líður, því ekki má það dragast. Annars held eg líka þú verðir litlu nær fyrir búskaparskýrslur úr sveitum, því satt að segja þá eru Íslendíngar hérumbil búnir að týna niður að búa. Það gæti verið að Gvendur á Fitjum gæti sagt eitthvað theoretiskt af viti, en frá öðrum vona eg

ekki annars en búfræði Magnúsar gamla Ketilssonar, og gott ef ekki verra. Eg skal gjarnan styrkja hvað eg get til þess, að Bókmentafélagið gæfi út búnaðarrit með ykkar styrk, en mér er illa við útleggíngar. Eg vil heldur stolinn original en frjálsa útleggíng.

Fjárhagsmálið var við fyrstu atkvæðagreiðslu í gær. Þú veizt að stjórnin stakk uppá subsidiairvoto Finsens — sem hann átti ekkert með að setja upp — 50 þ. + 10 þ. — Þar varð strax opposition, einkum frá nationalliberala flokknum, og vildu hafa 30000 föst + 20000 laus, mínk(andi) um 1000 rd. — Þetta forsvarar Ploug, sem Goliat, en litli Jón vogaði sér fram einsog Davíð, og setti stamp á Goliat, svo hann varð »fló« og sveigði heldur til. Eg sendi þér discussionina, en Ploug fékk í gær frá mér svar, sem þú skalt fá síðar. Það er dálítið snarpara en þó mjög blíðlegt. Nú varð þá útúr, að uppástúnga stjórnarinnar sigraði með 44 atkv. mót 41. Nærri lá! — og eg held að nokkrar smásálir hafi ánetjast hjá mér. Þar að auki borga Danir gufuskipið, það eru svosem 20 þús. árlega, en þó negldu þeir uppá okkur lestagjaldsfrelsi. Það er nú óþolandi. En eg held við ættum að fá sjálfir gufuskipið, með meðgjöf frá Dönum, t. d. með 20000 rd. árlega, og annast það þá sjálfir. Þetta verðum við allt að rétta smásaman, og síðan fá obligation fyrir árgjaldinu. Við höfum nógan tíma til þess, ef stefnt verður nýtt þíng. Þá máttu vera á vappi, og undirbúinn ef til vill að stjórnin ekki kjósi þig aptur, til að reyna að svipta okkur atkvæði. Þú átt að velja þér einn eða tvo eða þrjá þíngmenn af okkar flokki, en ekki fleiri, og skrifast á við þá, en láta þá aptur hafa svosem sína þrjá hvern, til að setja inn sannleikann hvern hjá sinni deild. Brýna fyrir þeim að skrifa opt! Það er andskoti að geta ekki fengið okkur flokkssjóð, til að gera nokkuð með. Þú gætir haft materielt gagn af því, og þú þarft þess með. Þú getur agiterað fyrir mig, og eg aptur styrkt þig.

Svona hafa það allir menn sem þurfa að koma nokkru fram. Uppástúnga Jóns Guðm(undssonar) við þig er auðsýnilega til þess, að isolera þig frá okkur, hafa not af nafni þínu á blaðinu, en setja í það hvað *honum* lízt. Svona fór hann með Pál Melsteð, og þú veizt að svo fór hann lengi með mig, að láta sem við værum saman en skemma allt kláðamálið og önnur sem hann gat, þar til blaðran sprakk, þegar Bergur kveikti í henni. Þessu máttu vara þig á. Annars eru ymsir kostir á því, að fá hann verulega í okkar flokk, en þú mátt þá passa uppá að hann enga commando hafi, heldur sé þjónandi vera. Þú hefir öldúngis séð það rétt, en hvort mögulegt er að koma þessu fram, það veit eg ekki, og líklega væri það óforsjálegt að fara djúpt í það fyrir það fyrsta. En hvað segir þú um hitt, að semja privatim svoleiðis, að þú gángir allt í gegn og ráðir redaktion að fullu með honum, og hafir þín laun fyrir, en geymir þér rétt til að setja nafn þitt með síðar, þegar það sýni sig að ykkur geti fallið. Ef það gæti gengið, þá vildi eg — svo framarlega sem þú vildir — styrkja ykkur eða blaðið með greinum. Jón er séður og góður ökonom og það er mikils vert í þessum efnum. Eg hefi áður lagt sárt að honum að sætta sig við þig, en það gekk *þá* ekki, kannske það gángi nú, svo að það verði að gagni.

Ekki heyri eg hér annað, en að Jens sé talinn næstur rektoratinu, það trúi eg samt sé satt, að síra Ólafur Pálsson hafi sótt. Nú sést hvað setur.

Heyrðu, kemur aldrei þessi »Barnaber« eða Barnavinur, sem Bókmentafélagið í Reykjavík var að hugsa uppá fyrir 20 árum síðan? — Um aðgjörðir deildarinnar í Reykjavík get eg varla verið hugsjúkur, að þær verði *minni* en híngaðtil. Eg vona einúngis að Jón Þorkelsson hætti þeirri politik, að vera að ybbast við deildina hér og taki hitt klókara ráðið, að vinna saman. Þar

á riður allt, og með því einu getur nokkuð áorkazt, en með sundurlyndi ekkert.

Getur þú ekki fengið Jón G(uðmundsson) til að roðna, þegar þú segir honum að fengin sé 60000 + 20000 árlega. Því það tel eg fengið, svo framarlega sem við kunnum með að fara, og hann setur ekki túnguna á ská í kjaptinn á sér einsog áður.

Forláttu almanakið og miðann og berðu ástarkveðjur.

Þinn einlægur trúr vinur

Jón Sigurðsson.

## 238.

### Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Khöfn 24. Novbr. 1868.

Elskulegi bróðir.

Kærar þakkir fyrir bréf þín hin góðu og allt fleira. Eg er nú í blaðaþrefi, bróðir, og sendi þér nokkur produktin. Mál okkar var fyrir fólksþínginu í gær, og vann uppástúnga stjórnarinnar sigur með 44 atkv. móti 41. Grein mín í Föðurl(andinu) hefir heldur bætt en spillt. Hún er svo góð og gegn. Það er mannraun, bróðir, að tala svona milt, þegar sýður niðri manni, og það ekki að orsakalausu, því verri meðferð hefir aldrei verið á neinni skepnu en á Íslendíngum, en þeir eru gerðir »af steini og tré«, því er ver. Væri í þeim harka og samheldi, þá væri slíkt aldrei komið fyrir. Svona er nú um kornekluna. Allir standa og mæna, að kaupmenn komi með korn, en hafa enga framkróka sjálfir. — Eg skal biðja þig hugsa til mín með hvað þú getur styrkt Bókmentafélagið.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

239.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn 26. Dec. 1868.

Elskulegi vin.

Af því nú verður ferð, þá hripa eg þér fáeinar línur, til þess að láta þig vita það helzta, sem síðan hefir gjörzt. Eptir að önnur meðferð málsins í Fólksþínginu var búin og uppástúnga stjórnarinnar hafði unnið sigur, þá sóttu þeir aptur í sig veðrið til 3. umræðu, svo þá var öllu breytt aptur með 50 mót 35 (15 ekki viðstaddir, 1 gaf ekki atkvæði). Nú var sett 60 þús. um 12 ár, síðan mínkandi um 1000 rd. árl(ega) í 48 ár, altsvo 12 þús. fast — Svo var bætt við politiskum greinum líkt og var í stjórnarfrumv. til alþíngis og lestagjaldsfrelsi fyrir gufuskipið. Svona fór það til landsþíngsins, en þar reis upp Lehmann og David og Fischer til að rífa okkur niður enn meira. Krieger var nokkuð betri, en þó vondur. Lehmann vildi 60000 í 12 ár og svo stop. Nú var sett nefnd, og hún hefir nú málið. Þarí eru Lehm(ann), Dav(id), Fischer, Krieger, Hasle, Zypthen-Adeler, Andersen (dónsi), og mun þaðan ekki góðs að vænta. — Ekki Ploug og ekki Rosenörn-Teilmann voru kosnir í nefndina, sjálfsagt þótt of linir! — Nú kemur uppá hvað Nutzhorn gerir, en hann er með þeim niðrundir. Eg heyri hann hafi boðað Finsen híngað í Marts og stefnt kosníngar til nýs alþíngis, sem þó er eiginlega ólög. Það er gott að Finsen komi híngað, því hann er líklegastur til að geta komið viti fyrir þá, og sýnt þeim að þessi »Rigslov« og »Islands Rige«, og 60 þús. árgjald og útborgun og engin oktroy er allt nauðsynleg conditio sine qua non. Finsen er eiginlega mest eyðilagður ef öll hans orð eru svikin, svo hann ætti nú sem ærlegur maður að standa á fremsta meið með okkur. Hvað okkur sjálfum og okkar mönnum viðvíkur, þá ímynda eg mér að við látum okkur hægt og sláum engu hinu minnsta af, heldur

fremur að við frekum okkur og lofum þeim að octroyera ef þeir geta, móti protesti alþingis. Ætli ekki fáist nóg atkvæði til þess? — Eg get varla öðru trúað, en að Jón Guðm(undsson) og Arnl(jótur) verði þar með, ef nokkur ærleg taug er í þeim. Ef nú Finsen kemur, þá er mikið í varið að vita hversu hann er sinnaður, og að sannfæra hann um, að hann hafi komizt það lengst með okkur sem mögulegt er, og það sé enda nauðsyn á nú að rýmka til, af því að stjórnin hefir sýnt sig í að svíkja og gjöra hans orð ónýt. 60 þús. full og útborgun eigum við að hafa, og engin yfirráð ríkisþíngs yfir okkar málum.

Utan þíngs hefir verið talað nokkuð um þetta mál, þú sást byrjun í »Fædrel(andet)«. — Ploug fékk svar frá mér, nokkuð stífara, og tók það með naumindum, en hótaði mér til þess að sleppa hjá því, svaraði mér svo ónýtum skömmum aptur, en þar uppá fékk eg ekki að svara. Svo kom »Flyvepost« og skammaði okkur út og mig sérílagi fyrir reikníngana. Eg svaraði því. Svo beindist hann að mér, en svar uppá það vildi hann ekki taka. Þetta eru nú mín afreksverk. Í þýzk blöð hafa komið greinir, sem hafa verið okkur í vil. — Í Nord(isk) Samfund, sem dr. Rosenberg stendur fyrir var fundur fyrir nokkru síðan, þar hélt Gísli Brynj(ólfsson) fyrirlestur um þetta mál, gullkorn, og átti að vera til að miðla málum, sýna þó reyndar að 12 þús. árl(ega) ættum við með guðsréttinum, en 60 þús. væri sanngirniskrafa. Þar voru einir 8 Íslendíngar, og tóku sumir þátt í umræðu, og svo nokkrir Danir. Rosenberg var ágætur okkur til handa og gerði þeim ljóst að við værum eiginlega fjórða ríkið á Norðurlöndum, en hann komst varla upp fyrir moðreyk. Gísli sagði: »góði! þeir eru þá ekki eins liberal og eg hélt« !! — Hann getur nú séð til! — Á fundi þessum var eg ekki, en nokkrir af mínum vinum voru þar, til að heyra hvað fram færi. Við leggjum út Ríkisþíngstíðindin, og prentum

í Félagsritum. Þessi meðferð Dana held eg hafi fremur gjört menn samhuga, þá sem nokkur von er um. Hinna þarf ekki að vænta.

Ef nú verður kosið á ný, þá vona eg þú hafir úti króka þína, og það duglega, því ekki mun af veita. Þú mátt hugsa um, hvort þú munir fá konúngskosníng aptur; því eg tel það tvísýnt. Mér heyrist eptir Oddgeiri, sem honum hafi ekki líkað við þig síðan 1865, því það lítur út sem stjórnarfrumvarp það hafi verið hans augasteinn (af því þá hefði departementið staðið?) þó það væri octroyerað uppá justitsmin(isteríið) frá gamla Davíð, einsog þú sér í Félagsr(itunum) í fyrra. Væri ekki gott að fá Odd Gíslason einhversstaðar? Hann er einarður og skynsamur drengur, og hefir gott praktiskt vit. Kannske Jens frændi vili vera með. Gætir þú fengið Jón Guðm(undsson) alveg á okkar mál, þá væri vert að hafa hann og álíta hann sem læknaðan af sínum politiska kláða, en þú mátt víst skoða vel á honum lagðinn, og það er víst heldur ekki vert að sleppa honum strax í hópinn, heldur hafa hann einan sér undir tilbærilegri umsjón og heimavöktun. Þú mátt sjálfur sitja í gluggatóptinni einsog Arinbjörn til þess að passa uppá, að engar illar svölur kvaki og gjöri okkur bölvun.

Forláttu miða þenna og berðu ástarkveðjur.

Þinn einlægur elskandi vin

Jón Sigurðsson.

## 240.

Til Þorgeirs prests Guðmundssonar.

Khavn 22. Januar 1869.

Kjære Herr Pastor Gudmundsen.

. . . Ja, jeg tænker vel at jeg kommer til Island til Sommer, skjönt Udsigterne ere noget tvivlsomme,

thi Holdningen baade hos Regjeringen og hos Rigsdagen er, jeg veed ikke, om vaklende eller meget usikker til det gode, saa at det eneste der kan siges med Vished er det, at fra vor Side kan der næppe være Tanke om at modtage hvad der for Tiden bydes os. Men det kan ogsaa falde saaledes ud, at Sagen ikke bliver færdig fra Rigsdagen i denne Session. Der vil da rimeligviis komme en Demonstration eller Remonstration fra Althinget, og saa til næste Vinter en ny Forhandling. Forövrigt kunne vi rimeligviis være belavede paa en 30 Aars Krig med Rigsdagen, ligesom vi have fört 20 Aars Krig med Regjeringen, indtil vi nu havde faaet den i det væsentlige ind paa vore Fordringer. Det er især det gamle nationalliberale Parti, der er imod os, f. Ex. Lehmann — comisk nok! han den förste som stöttede Baldvin Einarsson i Debatten om Althinget for Island.

Det vil maaskee interessere Dem at erfare, at Redakteuren af Þjóðólfur (Jón Guðmundsson) kom med sidste Skib, og bliver her i Vinter. Han lader nu, som han er ganske enig med mig i de islandske Spörgsmaal. Hans Artikler mod mig staae nu uden Bund, thi han fik en venskabelig Advarsel fra sine Abonnenter paa Nordlandet, at hvis han vilde vedblive at skrive hvad der stred imod deres Overbevisning, vilde de holde op med at kjöbe Bladet, og han, som forstaaer Spörgsmaalene meget godt, naar de stilles paa en saa klar Maade, dreier af og overlader Bladet for en Tid til Halldór Frederiksson (Adjunkt). Gísli Brynjúlfsson er den eneste, som for Öieblikket vrövler til Skade for os, men han har bidraget til at drive alle vore Landsmænd forövrigt til snarere at slutte sig sammen til en mere fast Mening mod ham. . . .

Jón Sigurðsson.

Stiftamtmand Finsen er nok kaldet hertil med förste Dampskibstour, men den Kaldelse var skreven lige efter

at Ministeren havde faaet sit Forslag anerkjendt til anden Behandling i Folkethinget. Hvis nu Resultatet bliver som det nu seer ud til, kan det gjærne være at Finsen faaer Contra-Ordre, og hvis han er en Mand af Ære, var det rimeligt at han undslog sig for at være Commissarius. Det kan Ingen være bekjendt, med mindre han vil spille samme Rolle som Melsted eller Jonassen, at lade sig bruge som en Lakai.

241.

Til Árna landfógeta Thorsteinsson.

Khöfn 9. Marts 1869.

Elskulegi vin.

Eg sendi þér hérmeð viðurkenníng fyrir því, sem eg hefi tekið við af peníngum frá þér til alþíngishússins. Satt segir þú það, að lítið verður ágengt með þau samskot, en það tjáir ekki að kæra sig um það, tökum hvað fæst, skrúfum þá svo fast sem við getum, og þegar til kemur þá verður það tekið vona eg undan þeirra blóðugum nöglum sem ekki fæst með góðu. Við megum vera vissir um, að við sleppum ekki betur með gjöldin, þó við fengjum sjálfsforræði, en þá ættum við að vita *til hvers* við gyldum, og geta séð um, að við nytum sjálfir góðs af því, og vissum hvað af því yrði, en bærum það ekki í sama sarpinn og híngað til, þar sem allt hverfur eilíflega. . . .

Alltaf eru kaupmennirnir hálfvegis að bræða það um gjafirnar. Þeir eru nú að hugsa til að leggja upp og setja á leigu, það á þá líklega að fara eins og um gömlu collektuna, að draga hana af þeim sem áttu, og stjórnin sjálf át svo allt upp á eptir. Eg uppástend, að fátækir eigi gjöfina, þeir fyrir sunnan og vestan, og væri nokkur bær að ráða að geyma hana, þá væri það

fátækrastjórnirnar. Kaupmannasamkundan í Reykjavík ætlar víst að grundvalla sjálfa sig á þessum sjóði, og fá honum varið í gjafakorn handa vinum sínum og verzlunarmönnum. Þeir R(eykja)víkur kaupmenn eru niðrí reiðir við stiptamtmann, af því hann hefir talað um gjafasafnið það sem satt var, en þarmeð hefir sést uppundir skepnurnar meira en þeir höfðu ætlazt til. Það er annars undarlegt, að skoðanir manna í þessu máli hafa skipzt öldúngis eptir því sem menn voru Danir eða Íslendíngar. Danir vildu safna í gríð, Íslendíngar ekki. Oddgeir fékkst ekki til að vera með að biðja um gjafir, og mér finnst Finsen st(ipt)amtm(aður) sverja sig í ættina með því, hann hefir haft líkt álit á málinu.

Þú fréttir nú hvernig fór um fjárhagsmálið. Það er nú hálfslæmt fyrir okkur alls, af því við erum veikliðaðir en leiðin torsótt. Embættismenn þora kannske ekki að vera með nema kannske í svo meinlausum andvörpum að þau heyrast ekki. En verst þykir mér farið með konúngsfulltrúa, því honum er ekki sýnt traust eða trúnaður í neinu, og við fáum þann lærdóm, að treysta aldrei einu orði af því sem slíkir menn segja. Það er skömm fyrir stjórnina og særandi fyrir konúngsfulltrúa. Eg er á milli vonar og ótta, hvort Finsen nú þori, eða geti rétt hluta sinn og okkar. Að fara frá, eða segja af sér er ekki til neins, að því hlæja þeir, en að standa á fremsta meiði með okkur, það væri drengskapur. Eg vona þú stappir í hann stálinu, því eiginlega er mest varið í að stíga þenna minister af stokki, því hann er okkur bölvaður, og svo að sýngja Lehmann dauðan, því hann er hér einsog annars til ógæfu skapaður og óheilla.

Forláttu nú þetta litla bréf og vertu kærlega kvaddur með þínum ástkæru.

Þinn elskandi vin
Jón Sigurðsson.

242.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn $^{9}/_{8}$ '69.

Elskulegi vin.

Þó eg fengi nokkuð að heyra með þessari »Austurför Kyrosar», sem þú rausnaðir frá þér, þá þakka eg þér samt fyrir sendínguna, og fyrir þitt vinsamlega bréf. Satt segir þú það, að eg hefi enn bón til þín, og það er að útvega mér Viðaukablað við Þjóðólf 1866, nr. 43—44 (18. ár). Það er um kláðafundinn í Reykjavík, og stendur ekkert um að það fylgi fyr en í registri blaðsins eða yfirliti árgángsins. Þar stendur það sé 7 blss. — Eg vil ekki biðja Jón Guðmundsson um það, af því allt hefir farið svo friðsamlega okkar í milli, en eg er hræddur um, ef eg nefni kláða, eða kláðafund, að það komi eitthvað af votti upp, og kannske hann yrði þá útsteyptur aptur, en það vil eg ekki. Annað, sem þú átt að útvega mér er prentaður prentsmiðjureikníngur fyrir 1857. Hvað þú útvegar mér meira skal vera yfirlátið þinni góðmennsku, örlæti og höfðíngsskap, og það vona eg hrífi.

Nú, ekki var sopið kálið hjá Dönum, þó í ausuna væri komið. En það er kannske svo mikið unnið, að nú freistast líklega enginn okkar til að segja já við því sem býðst, þó þeim hefði áður verið um og ó með það. Eptir því sem Jón G(uðmundsson) hefir látið í ljósi, þá sýnist sem hann sé ótrauður í politisku greinunum, en í peníngakröfunni mun hann vera allt linari. Það lítur út sem honum sé meira um að gera að vinna hina, Berg etc., heldur en að fylgja fast fram okkar flokki. Þó get eg ekki sagt annað, en honum hafi farizt allvel orð, og eg get varla trúað öðru, en að hann standi nærri okkur nú. Þú munt ekki láta þitt eptir liggja, að festa hann betur, fyrst þú hefir nú fengið tak í hann. — Eg sendi þér að gamni mínu exemplör af

nokkrum dönskum blöðum, þar sem um okkar mál er talað. Þú ljær Jens það ef hann vill, og svo að öðru leyti hverjum þér sýnist. Mér finnst sjálfsagt, að þið verðið nú að leggja plan þegar Jón G(uðmundsson) kemur og þið fáið að vita hvað gerist, og lofa mér að heyra hvað ykkur talast til. Eg vil helzt hafa snarpar — *mjög* snarpar— bænarskrár allstaðar að til þíngs, og protestera þar á móti öllum hripsunum Dana inn á okkar politiska rétt, sömuleiðis heimta respekteruð loforð konúngsfulltrúa stjórnarinnar vegna um penínga og sérhvað annað. Við getum þó ekki fellt kröfu okkar *eptir* að stjórnin hefur bitið á krókinn og fólksþingið einusinni. Við verðum fortakslaust að krefja 60 þús. eða $1^{1}/_{2}$ mill(jón) dala *borgaða út*.

En þú mátt stappa duglega stáli í J. G., því hann er farinn að gugna dálítið — finnst mér — og eigna eg það því, að hann hefir átt svo miklar samræður við þá gullhálsa stjórnarinnar, Oddg(eir) og Magnús Steph(ensen) og Gísla, og svo ministerinn sjálfan, Krieger etc.

Eptir því sem heyrist enn þá, þá gera menn ráð fyrir að Jens fái rektoratið. Sagt er að Oddgeir teli þá aptur Jón Þorkelsson vissan til yfirkennara, og eg neita því ekki, að mér finnst það líka fjandi hart fyrir þig, einkum þegar að er gætt, að þú ert eldri en tilskipanin 1849, og að það er látið í veðri vaka, að Jón sé ekki vel hæfur til skólastjórnar, en nú er það þó gefið, að yfirkennarinn getur komið til að vikariera fyrir rektor. Eg viðurkenni nú að vísu Jóns Þorkelssonar marga góða kosti, en eg held hér sé ekki um meira að gera en svo, að aldur ætti að ráða og mætti ráða, skólanum að skaðlausu. Ekki er eg viss um að þeir ætli Ólafi kennaraembættið, mér heyrist sem það muni nærri skapi Steingríms Thorst(einsson) að sækja, og geri eg þá ráð fyrir að gamli fatter styrki að því.

Það er gott, að Torfi Bjarnason kemur að Varmalæk, þar er jörðin, bara að hann hefði nokkuð í hönd-

um að gera það með. Nú kemur einn í vor, Olafur Björnsson frá Reynivöllum, bróðir síra Þorvaldar, og kannske Stephán frá Vatnsdal, og svo er nú gamli prófessor okkar Guðmundur Ólafsson. Þetta ætti nú að vera efni í colloquium oeconomicum, og grundvallar- eða hyrníngarsteinn undir bústjórnarfélaginu, en svo gætum við haft Bókmentafélagið og bústj(órnar)félagið eins og tvær hendur, sem hvor þvægi aðra, og skólinn ætti að geta stutt þar að.

Berðu ástarkveðjur frá okkur.

Þinn elskandi trúr vinur

Jón Sigurðsson.

243.

Til Páls sagnfræðings Melsteðs.

Khöfn $^{9}/_{8}$ '69.

Elskulegi bróðir minn.

Beztu þakkir fyrir bréf þitt með skipinu í vetur og allt annað gott. Ávísan þín er borguð; en mikil þörf er okkur á, að félagsins efni gæti heldur þróazt, því nú sem stendur er það heldur í kút, og getur ekki rétt sig upp, sýnist mér, af því að svo fáir koma í það, en ymsir týnast úr, og sumir borga ekki. Ef það batnaði, þá yrði mikið hægra um fyrir okkur. Mér finnst, að þegar öll félagsstjórnin er nú í skólanum, og getur haft alla pilta sem agitationscorps út um allt land, þá ætti hún að neyta þessara krapta, og það ætti að hrífa.

Nú fer collega þinn heim aptur, og getur þú nú líklega komizt að hvernig honum líkar. Eg ímynda mér hann hafi séð, að hér var ekki til mikils að slægjast. Hvað okkur sérílagi viðvíkur, þá hefir ekkert verið minnzt á þetta misjafna, sem okkar hefir farið á milli. Mér fyrir mitt leyti stendur að vissu leyti á sama, því

híngaðtil hefir þessháttar mylsna ekki skaðað mig meðal landa minna. Lakast er, að þeir menn sem ekki þekkja til hafa það eins og vopn móti okkar almennu málum, og eg vona hann hafi nú séð það, að menn mega vara sig að vega ekki í sinn eiginn flokk, meðan hann er ekki stærri en hann er nú.

Þú fréttir nú, hvernig okkar mál stendur eptir allt saman. Það lítur helzt út fyrir, að eptir 20 ára stríð við stjórnina fylgi nú 30 ára stríð við ríkisþíngið. Eigi að síður er hætt við, að margir meðal vor ímyndi sér enn, að ekki þurfi nema blíðasta bros, og sætan róm sannleikans til þess að sannfæra ríkisþíngið um rétt vorn, og fá það til að viðurkenna hann. Það er líklegt að landlæknir okkar sjái nú frjálslyndi ríkisþíngsins, sem hann hefir ætíð verið að hæla. Danir læra aldrei að skilja okkur, og við ekki þá.

Í þeirri von, að þér þyki gaman að Gotha Calender einsog fyrri, leyfi eg mér að senda þér hann.

Með ástar kveðjum okkar hér

þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

244.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn 15. April 1869.

Elskulegi vin.

Kærar þakkir fyrir bréfið þitt seinasta. Ekki þykir mér neitt fyrir því, að koma uppá von og óvon, en samt væri vænt ef þú gætir sagt mér nokkrar fréttir með skipinu, og einkum það, hvort þú heldur betra væri eg kæmi *þá* heldur en með ferðinni í Juli. Líklega þarf eg ekki að koma fyr en þá, nema eitthvað skerist í annað. Mér þætti réttara af þér að láta kjósa

þig, en að eiga undir stjórninni, enda þó eg hafi reyndar ekkert heyrt móti þér. Þeir Snæfellíngar hafa verið að leitast fyrir, og síra Eiríkur gæti víst fengið þér þar svo mörg atkvæði sem hann vildi. Hólmarar hugsuðu uppá Sigurð (eldra) Jónasson, en hann getur ekki þegið það, því hann er háður. Mýramenn hafa líka verið eitthvað að spekulera uppá þíngmann, er það Hjálmi að kenna?—Borgfirðíngar gæti staðið sig við að kjósa þig í stað klerks síns, og ef þú hefðir Jónassen með þér og Bjarna á Kjaranstöðum værir þú líklega viss. Í Gullbríngusýslu hefi eg verið að hugsa um Odd Gíslason. Hann hefir víst Hafnamenn til liðs, og kannske fleiri. Grímur fer þó aldrei að róa í þær leitir. — Blessaður taktu þar vel eptir, og einkanlega hvers þaðan væri von í vorum málum. Ef svo færi sem vona má, þá er hann mjög slæmur, og þar eptir undarlegur, svo að eg sé ekkert unnið við hann. Í Rángárvallasýslu verður þú að biðja Sighvat sjá um að halda sér. Pétur Guðjónsson getum við nú alls ekki haft, ef kostur væri að vera án hans. Bezt væri þú yrðir kosinn í Reykjavík, og það er eg nú hálfvegis að hugsa að verði, en Smith sagði mér, að kaupmannasamkundan vildi hafa bæjarfógetann. Það er nú reyndar vit sem von var að því félagi, en þó kynni það þýða svo mikið, að þeir vildi ekki vera með þér. Eg skrifa Jóni Guðm(undssyni) núna um að þeyta sinn þjóðlúður sem mest, sýna lögleysur og vitleysur stjórnarinnar, og fylgja því fram að protestera móti öllu illu og halda fast fram málum vorum og kröfum, en hafna öllum svikum og ójöfnuði. Uppkast til bænarskrár um þetta sendum við til ymsra, t. d. fyrir austan og norðan. Eg ímynda mér að Jón G(uðmundsson) megi verða með núna, ef nokkur dugur er í honum, en hann er eiginlega farinn að linast og hángir nú meira í specialibus. Þú getur þó víst leitt honum fyrir sjónir, að nú gildi að slá sér upp með blaðið. Ekki þarf hann að hugsa til að ná

neinu embætti nema með því hann sé í oppositioninni og sigri. Sé hann móti, þá vinnur hann hvorugt og sk.... þarhjá í sitt eigið hreiður.

Finsen hefir heilsað uppá Nautshyrninginn og gekk það allt friðsamlega til. Eg ímynda mér, að þeir vili láta allt fara sem kyrrast, því þeir eru víst hræddir um að komin sé styggð á selinn íslenzka, og megi nú fara hægt. Við erum í gríð að prenta Félagsritin, — svoddan dæla! — en eg vona þau sé góð til skilningsauka um málið. Þau verða 18 arkir. Gísli Br(ynjólfsson) er að útbreiða Lehmann, og snúa honum. Blessaður spenntu hvað þú getur, direkte og indirekte!

... Ekki sé eg neitt bóla á rektoratinu enn og mun nú Finsen ráða mestu um það. Ekki held eg það sé neitt persónulegt móti þér, þó þeir tæki Jón Þorkelsson, heldur beinlínis af respekti fyrir examina, og er það nú reyndar veik ástæða, þegar þú ert eldri kennari en sjálf tilskipanin. Ef þú fengir það ekki, þá væri það hvöt til að reyna að safna samskotum í politiskar agitationir og til blaðs, og væri þar nóg að gera fyrst um sinn. Eg vona við getum brætt það betur í sumar.

Beztu kveðjur til þín og þinna.

Þinn elskandi trúr vinur

Jón Sigurðsson.

Það væri rétt að gera Gísla áminning fyrir það hann hefir gjörzt Sancho Pansa hjá Lehmanni, því þó kannske megi segja einsog Jón Þorkelsson um Gizur jarl, að hefði hann ekki svikið land sitt þá hefði einhver annar gert það, þá er samt ætíð það skömm sem skömm er og skamma vert.

245.

Til Jóns ritstjóra Guðmundssonar.

Khöfn 15. April 1869.

Elskulegi vin.

Kærar þakkir fyrir bréf þitt seinasta og fyrir samveruna hér, einnig fyrir ávísunina, sem eg fékk með skilum.

Finsen er búinn að þreifa á Uxahorninu, og svo mikið er sannfrétt, að hann var ekki stángaður til dauðs í þeirri atreið. Eg geri nú ráð fyrir, að Finsen vili ekki spenna hærra en svo, að hann geti tekið móti að vera commissarius, enda er varla heldur neitt unnið við það, þó hann segði af sér, því þá væri Jónassen okkar til taks, einsog fyrri, og væri það sama og vant er. Hér kemur eiginlega allt undir okkur sjálfum, að við séum bæði snarpir og samheldnir einsog einn maður. Mér finnst ekki nema um eitt að gjöra, nefnilega beint að neyta þess, að hér verður ekkert uppfyllt af loforðum stjórnarinnar, og protestera móti allri þessari aðferð en halda fram réttindum vorum, frumvarpi og tillögum í prinsípinu, heimta svo þjóðfund og neita öllum octroy. Taka kröfurnar sem réttarkröfur, sem sé geymdar okkur ef þeir vilja ekki gæta sanngirni, og vilja gera okkur að betlurum af því við erum meinlausir. Ábyrgðarspursmálið er ekkert ísjárvert, því hér erum við nú lausir allra mála og höfum að engu að gæta nema að vera harðir og consequent, og afvísa og afneita öllu illu. Þó við heimtum sérstakan íslenzkan ráðgjafa, þá er ekkert í því. Vertu viss, við fáum jafnmikið fyrstu árin, því meiníngin er, að þeir vilja neyða okkur og níða okkur sem mest til þess að játa sjálfdæmi og incorporation, því þá geta þeir ráðið sem þeir vilja, sköttum og öðru. Eg vona þú stælir þá upp með bænarskrár til þíngs, og kannske theoretice sýnir þeim þau lagabrot, sem gerð eru. Allstaðar sem

fært er ætti að kjósa sömu menn, eða enn snarpari. Fyllisvínin er mér reyndar hálfgert lítið um. — Því snarpara því betra, allt hvað mest getur sameinað atkvæðin bærilega. Eg vil reyndar ekki spenna hærra bogann en þarf, en eg er núna sem stendur fastur á því, að vísa frumvarpinu frá og halda sér sem mest til þess sem gjört var og samið 1867 — það er að segja í principinu, því þar er engin þörf að fara útí neitt sem breyta skyldi nema til að skerpa á, og þar skal eg ugglaust fylgja með þér um landstjórana ef þú vilt, og ekki kemur annað snarpara fram, sem geti náð meira hluta atkvæða. Það er auðsætt, að þjóðstjórn án ábyrgðar — að minnsta kosti á pappírnum — er nonsens, þessvegna *megum við til* að urgera ábyrgð landstjórnarinnar, bæði á Íslandi og hér, fyrir alþingi.

. . . Það er þó merkilegt með þetta bölvað myndarþref sem í þér er, þar sem bæði þú og eg erum búnir að reyna, að það er það versta bréfsefni sem til er, og veit eg þó reyndar, að það er synd að skamma þig mikið fyrir það, vegna þess þú hefir haft þar margan kross að bera útaf þeirri mynd. En í stuttu máli. Þú varst hérna að mér skildist ánægður með að láta greyið hánga t. d. í skólabókasafninu eða í stiptsbókasafninu, og það kalla eg fullboðlegt. Þú varst sjálfur samdóma því, að það væri bæði »*flaut*« etc. etc., að fara að hengja hana upp í alþíngissal. Blessaður komdu myndinni fyrir hljóðalaust sem fyrst, og komdu mér ekki til að rífast um hana við þig fyrst það lítur út sem við getum orðið sáttir aptur.

Með ástarkveðjum til konunnar þinnar elskulegrar og míns elskulega góða vinar.

Þinn einlægur vin

Jón Sigurðsson.

Blessaður láttu nú Þjóðólf taka til sinnar politisku básúnu og blása einsog við Runzival. Við erum búnir

með 11 arkir af Félagsritum en verða c. 18. — Hvað segirðu um Gísla Br(ynjólfsson)? Hann er nú orðinn Sancho Pansa fyrir Lehmann. Þú fær víst bækling Lehmanns frá honum, í þeirri von að þú sért meðtækilegur fyrir snakkið.

### 246.

### Til Torfa Bjarnasonar, síðar skólastjóra.

Khöfn 15. Apr. 1869.

Elskulegi vin.

Kærar þakkir fyrir bréf yðar nú og fyrri. Eg spurði mig fyrir um einkaleyfi til ljáanna, og er það ekki tiltökumál, þar sem svo stendur á, að þér búið þá ekki til sjálfur, heldur kaupið og selið öðrum. Þar á móti ef þér sjálfur fyndið upp ljái, eða breyttið svo til, að einkennilegt væri, þá gætið þér sótt um slíkt einkaleyfi. Um svikna ljái þyrfti víst ekki annað, en að vara menn við í blöðunum.

Eg álít enga óheppni, þó þér yrðið ekki lengur við fyrirmyndarbúið. Það er betra fyrir yður að vera einn um hituna á góðri jörð, og Varmalækur er ágætur í marga staði. En nú ríður á, að þér takið saman við Guðmund á Fitjum og aðra sem nokkuð hafa vit og hug á þessu máli, svo við gætum smásaman fengið dálítinn flokksvísir, sem fylgdi því fram, taka drengi og kenna, og koma þeim síðan fyrir um tíma á Skotlandi, í Svíþjóð eða Noregi. Ólafur bróðir síra Þorvalds á Reynivöllum er í Noregi, og Stephán frá Vatnsdal, og einn drengur er kominn núna úr Austfjörðum, og ætlar að komast til Noregs. Þegar þeir koma frá útlöndum ætti þeir að komast til ykkar hinna eldri, og þið svo

leggja saman heilabrot ykkar og reynslu, áður þeir færi að búa.

Forlátið mér þessar fáu línur.

Yðar einlægur vin
Jón Sigurðsson.

247.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn $^{31}/_{5}$ '69.

Elskulegi vin.

Nú fer þá stiptamtmaður, og mun hann ekki hafa afrekað neitt, enda mun hann nú vera búinn undir að fara forsending.

Eg heyri sagt, að hér sé nú tvö frumvörp prjónuð, annað um sérstöku málin, en annað um hin almennu, svosem til að tákna það, að við eigum að hafa provindsiel Selvstændighed, en vera Dönum undirgefnir í ríkismálum. Mér finnst nú ljóst, að þegar engum kröfum alþíngis er fullnægt, og öll loforð svikin, ekki samþykktaratkvæði viðurkennt o. s. frv., þá sé ekkert að gera nema að vísa málinu frá, og nota tækifærið til að protestera og demonstrera, og heimta svo allt til þjóðfundar. En það mun verða kallað ultra, að fara svo að? — Eg sé ekki annan ærlegan veg.

Nú er búið að útvelja þá hina konúngkjörnu: Finsen k(onún)gsf(ulltrúi), Jónassen, Jón Péturss(on), Hjaltalín, Bergur, Pétur b(isku)p, sr. Ólafur; Sigurður Melsteð og Árni Thorsteins(son) suppleantar. — Þorvalds get eg að engu, — *þ. e.* þú ert ekki með, einsog við var að búast. Skaðinn er ekki stór, en það er fróðlegt til afspurnar.

Eg vona þú látir sira Eirík Kuld sjá vel fyrir Snæfellssýslu, svo þar verði ekki Sveinn nokkur. Er ekki

Jón Árnason góður? — Þá lízt mér heldur ekki á, að Grímur komi í stað Sighvats, það finnst mér ófært, af því líka, að Grímur er öldúngis óséður, og hefir komið svo fram híngað til, nú á seinni árum, að hann er líklegastur til að vera þar sem ekkert er, nema logn og ládeyða, en það er með öðrum orðum hreint einsog Danir vilja. — Um Odd Gíslason hugsa eg, að hann sé einarður drengur og harðsnúinn, og það er einmitt sem með þarf, því linka og loðmulla duga ekkert, að eg held, nema til þess að fá octroj á einhverju út í loptið, sem Nutzhorn og ríkisþíngið vilja. Eg held maður eigi að þruma af sér Nutzhorn og vita hvort ekki kemur Bændavina ministerium. Það verður bezt, því það vill enda á málinu og slaka heldur til, því það lætur sér svosem hægt um okkur. — Þú þekkir víst þennan Hallgrím í Guðrúnarkoti? — Eg geri nú ekki mikið úr þó Arnljótur fari, því hann má missa sig margra hluta vegna, en við þurfum þó að fá nokkra sem geti samið nefndarálit og þesskonar, en þú segir líklega, að slíkir sé engir til, nema fyllisvín. Mér finnst eiginlega hálfslæmt í aðra röndina að missa Bensa úr Árnessýslu, því eg man honum alltaf að hann setti svo laglega tappann í hjá okkur 1865, en eg játa reyndar að hann er í marga staði hreint ótækur.

Við höfum sent héðan helvíti stælt uppkast til bænarskrár í stjórnarmálinu, og eg ætlaði að senda þér afskr(ipt) af því, en þú fær hana líklega frá Jóni Hjaltalín, hann gjörði líka ráð fyrir að skrifa eitthvert »aðsent« clamamus í Þjóðólf, því hér eru allir á blístri um það, að Þjóðólfur þegi um þetta mál, og draga þar af, að Jón Guðm(undsson) sé ekki tryggur, en þá sömu skoðun hefi eg sem þú um það, að hann muni vera ugglaus í stjórnarmálinu, en fremur lintækur í fjármálinu, og þó sé eg, að hann vill ekki láta drótta að sér að fara niður úr 60 þ. — Þú tekur eptir, að það hefir orðið prentvilla hjá mér í Félagsritunum, sem reyndar

allir geta séð, þar sem talað er um hver yrði krafa Grænlendínga, þar standa 3 þús. í stað 30 þús. — Eg veit ekki hvort þér sýnist nauðsyn að leiðrétta hana. Annars sendum við þér nokkur ex(emplör), og annað meira, að við verðum að biðja þig að styrkja til, að Félagsrita pakkar, sem fylgja með í kössum til Bókm(enta)f(élagsins) geti komizt sem fyrst og greiðast til allra staða, sem unnt er, og segja mér, hvort ekki mætti senda eins Bmfél.bækur með næstu skipum (næstu póstskipsferð).

Í norskum blöðum hefir komið nokkuð um okkar mál, sem er okkur fremur í vil, eins í þýzkum blöðum, og vonanda í enskum. Þar á móti er hér anddrægt, og nú er einn S. T. byrjaður í tímariti þeirra Scharlings að skýra frá »Forfatnings-Mellemværendet«(!) — það er svona smákrit! — milli Dana og okkar. Menn halda höfundurinn sé Reinhardt, skrifstofustjóri í ísl. dep(artementinu), og að það sé fyrirlestur sem hann hélt í vetur. Þar er einkum beinzt að mér, sem hafi haft mikil áhrif, en verið skaðlegt kvikindi. Nú getur þetta reyndar alla hent, en eg held það sé reyndar ósatt upp á mig, því þó Danir hefði fengið öllu að ráða, og hvorki eg né aðrir sagt neitt, þá hefði aldrei orðið annað sem Ísland hefði hlotið heldur en forlög Færeyja eða Grænlands, og þar getur maður þó náð botni í velgengninni, hún er ekki svo mikil. Eg get því ekki játað sannindi þessarar ákæru.

Forláttu mér þetta þartil næst við hittumst ef guð lofar. Agiteraðu duglega! Berðu kærar kveðjur.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

248.

Til Jóns ritstjóra Guðmundssonar.

Khöfn 31/5 '69.

Elskulegi vin.

Kærar þakkir fyrir þitt seinasta bréf. Við höfum nú ekki önnur ráð með Félagsritin heldur en senda þau í kössum (innpökkuð) til Rvíkur, með dóti Bókmentafélagsins, og vil eg feginn biðja þig eiga góðan þátt í, að sjá um þau komist um kríng og svo að taka ekki upp að við sendum þér pakka. Þú sendir hann þá Egli, ef þú vilt ekki eða getur ekki haft með hann að sýsla. Gísli Br(ynjólfsson) er nú að þvo Lehmann upp, og setja á hann koppgjörð handa Íslendíngum. Lehmann borgar. Eg er nú samdóma þér um það, að kenníngar Lehmanns sé ekkert hættulegar í sjálfu sér, en þær draga *Dani* með sér, og því þurfum við *bæði* samheldi og energi, ef vel á að fara. Ríkisþíngið fær hér alltaf meiri og meiri ráð, og umræðurnar um fjárhagsmálið sanna bezt það sem þú sagðir í hitt eð fyrra, að ministrarnir hér eru reyndar ekki annað en þjónar ríkisþíngsins, sem skipt er um eptir því sem á því liggur. Eg fellst vel á það, sem þú segir, að maður þurfi ekki að urgera réttarkröfur in abstracto, þ. e. að segja *einúngis*, en það er full nauðsyn að standa fast á öllum rétti sem til er okkar megin, því sanngirni fæst ekki, það sannar þú, og loforð eru einkis metin. En þarfyrir er rétt að citera þau með mesta kappi og núa þeim um nasir. Núna í sumar sýnist mér málið hérumbil leggja sig sjálft, það er alveg óundirbúið, og engin skilyrði alþíngis uppfyllt. Játi nú stjórnin ekki samþykktaratkvæði alþíngis, þá er enn minna gjört, því þá hefir hún sínar octrojhugsanir in petto. Þeirra ránglæti þarf að mótmæla. Það þarf að urgera sterklega okkar ugglausa rétt til verulegs þjóðfrelsis samhliða

Dönum, og jafnframt, sem þú segir, loforðin, og sérhvað annað; þjóðfundi ekki að gleyma.

Nú er að koma út í tímariti sem heitir »Dansk Tidskrift« og þeir gefa út Clausen prófessor o. fl. fráskýrsla um stjórnarmálið. Menn halda það sé fyrirlestur Reinhardts í vetur, sem hann hélt í Dansk Folkeforening, því höf. hefir farið eptir officiel skýrslum, en er harla rángeygður og sljóskygn á það sem er eiginlega rót og kjarni málsins. Ætlanin er víst sú, að isolera mig, svo eg heiti sá eini óróaseggur, og landar verði hræddir þegar þeir sjá þessa mynd. Það er, einsog eg hefi sagt þér áður, þessi taktik, sem Gísli og fleiri hafa reynt, og sem er málum vorum mjög hættuleg ef hún tækist. Mér persónlig gjörir það lítið til, því eg hefi jafnt af í því tilliti hvort okkar mál sigra eða ekki, nema einúngis að gleðjast ef þau sigra, en landar vorir verða þeir sem gjalda, einsog fyr hefir verið þegar þeir hafa látið narra sig.

Eg álít það alveg rétt, að svara ekki Lehmanni fyr en í haust, en þá væri það án efa nauðsynlegt, og hafi nokkurn tíma verið þörf á föstum samtökum í okkar flokki, þá er það nú, og að við hefðum nefnd hér af alþingismönnum, til að draga okkar taum. Við erum hér nú bæði fáir, ónýtir og viljalitlir. Oddgeir þorir ekki að krymta, og vill líklega helzt incorporation. Konráð er fyrir utan mannlegt félag. Gísli er, einsog Adam sálugi, undir íleppnum, og er þar að auki svo confus, að hann fer í hvert net sem fyrir hann er lagt. Magnús Steph(ensen) þorði nú ekki að láta nafn sitt standa á Félagsritunum, þó hann *segðist* ekki hafa neitt á móti neinu í þeim, og hafði lesið hvern staf og hjálpað okkur til. Allir *vilja* en enginn þykist neitt *mega* né *geta.* Þetta vesældar líf geta engir hresst upp nema alþíngismenn, og Íslendíngar yfir höfuð, og þeir þurfa svei mér að snerpa á sér til þess. Ef þeir gera það ekki, þá verður ekkert ágengt, og þó eitthvað vinnist

á pappírnum verður það ónýtt aptur og dregið úr höndum okkur, einsog íslenzka departem(entið), undirskriptarmálið, verzlanin etc.

Ekki lízt mér neitt sérlega á það, að fá Grím fyrir Sighvat, en eg vona líka þú sjáir um að svo verði ekki. Eg veit vel, að Grímur *getur* verið góður ef hann vill, en hann er svo óviss í rásinni, og í íslenzkum málum hefir hann verið svo blaseraður á seinni tímum, að eg hefi ekkert skilið í honum. Menn geta nú sagt, að hann verði þá ekki nema 1 atkvæði, en hann verður 7, þegar hann þá slær sér til hinna konúngkjörnu útúr vandræðunum. Þá eru ill skipti fyrir Sighvat, sem er fastur og tryggur maður. — Um Eirík Magnússon veit eg ekki; eg held hann bjóði sig ekki, og er óviss um hvort hann líka yrði kosinn, en mér þætti vænt um, ef hann gæti komizt á þíng, því hann er viss með að vinna okkur mesta gagn, einsog nú stendur á. Danskur (eða íslenzkur) þegn er hann, það er víst, og það er þá einúngis bústaðurinn sem stendur [fyrir], en ef hann fer til Íslands í sumar, til að búsetja sig þar, væri þá ekki réttvísin uppfyllt? — Mér finnst nú annars sá galli ofur léttvægur, t. a. m. einsog ef mann vantaði dag eða viku eða ár uppá þrítugt.

En til þessa kemur líklega ekki; þar á móti sýnist mér ástæða til að hugsa sig vel um Grím, og það finnst mér enda ofboðið, að þú vilt bjóða honum Árnessýslu fyrirfram. —

Gerðu svo vel að borga Jóni Borgfjörð 25 rd., og ávísa þá uppá mig.

Með ástarkveðjum til konu þinnar elskulegrar og míns ástkæra »góða vinar«.

Þinn einlægur elskandi vin

Jón Sigurðsson.

249.

Til dr. Guðbrands Vigfússonar.

Reykjavík 29. Juli 1869.

Elskulegi vin.

Það gladdi mig mikið, að fá yðar vinsamlega og góða bréf til Granton, og þar með skemmtilegar sendíngar. Eg hefi líka haft mikið gaman af að sjá orðabókina hjá bróður yðar og hann hefir léð mér hana. Eg hefi afhent guðspjallagreinirnar þeim sem áttu að fá þær hér, og mun senda þær hinum. Biskup og Sigurður Melsteð eru líklega nokkuð reiðir niðrí en láta það lítt uppskátt. Dómur manna er í sjálfu sér að eg held fremur á yðar máli, en sumir segja sem svo, að þér hallið nokkuð ósanngjarnlega á biskup, því hér sé ekki einúngis á það að líta, hvort mönnum þyki þessi nýja útgáfa að íslenzkunni til samsvara hinni fyrstu betur eða ver, heldur hvort hún sé nær frumtextanum en hinar fyrri. Nú segir biskup, að sín revision fari nær textanum heldur en hin, sem var næst á undan, ɔ: frá 1827 og síðan, og þá telst hann hafa gjört nokkra bót. Þar næst, þó menn sé því samdóma, að betra væri að halda oratione directa, heldur en að snúa upp í orationem indirectam, þá sé þetta þó ekki nein synd móti heilögum anda, og í öllu falli, þá sé það ekki synd biskupsins heldur hinna fyrri rationalista sem sömdu Biblíufélags útleggínguna næstu á undan. Eg vil vona og óska, að polemik yðar gæti komið því til leiðar, að við fengjum texta sem gengi nær frumtextanum, og jafnframt héldi því hinu veglegara máli, sem er á eldri bókunum, í stað hins pallamálsins, sem menn hafa farið að skjóta inn á seinni tímum. En þetta er allmikið vandaverk.

Nú er alþíng sett, og sendi eg yður að gamni mínu þíngmanna röðina. Frumvörp um stjórnarmálið eru komin, en sýnast munu eiga fáa formælendur; eg held

enda engan, nema ef vera skyldi Thorberg amtmaður. Jón Guðmundsson stendur uppi einsog ekkjumaður kjósenda sinna. Það er nú sem menn kalla Svineri, en þó get eg ekki neitað, að hann hefir gert nokkuð til að verðskulda það, þar sem hann fór að káfsast uppá mig að ósekju, og dreifa með því okkar flokki og rjúfa samheldi okkar nafnanna sér í lagi. Þér sjáið hversu rángt það var á því, að hann hefir orðið neyddur til að hætta í miðju kafi. Þetta gjörir nú samt ekkert til hvað mér viðvíkur, því eg fyrirgef það undireins og hann tekur betri stefnu í málunum, en skaðinn er mikill þegar dreift er veikum kröptum, og tvísýnt hvenær bætt verður.

Ef eg get, mun eg skrifa yður síðar greinilegar hvernig mál fara. Þér þurfið aldrei að vænta mótmæla frá mér um það, að bókmenntir vorar séu okkar aðalprýði; en þessi politik, sem gengur öðrum þræði, er malum necessarium, sem við höfum ekki sjálfir skapað, heldur Danir borið á hendur oss. Við þurfum því að hjálpast að á víxl, og þá getur gengið klyfjabandið, að vonanda er.

Ástar kveðju frá öllum, og frá Sigurði litla frænda, sem nú er með okkur hér og ætlar nú vestur til móður sinnar; hann er nú stúdent en ekki þó með meira en góðu *haudi*. Hann segist munu bæta það upp seinna.

Yðar elskandi vin

Jón Sigurðsson.

### 250.

### Til Sighvats Grímssonar Borgfirðings.

Rvík 10. August 1869.

Háttvirti vin.

. . . Eg sé á yðar góða bréfi, að yður þykir vænt um frelsi og framför vora Íslendínga, og hafið áhuga á

alþíngi. Það er nú að vísu satt, að frelsisvon vor af hendi Dana er ekki mikil, en það mun svo lengstum verða, að þeir munu vilja hafa á oss tángarhald, sem mest þeir geta, en það erum vér sjálfir, sem verðum að sýna þeim, að þeir geti ekki haldið okkur öðruvísi en okkur semur til, og þetta vona eg að landar okkar læri smásaman, hvort sem eg lifi lengur eða skemur. Allt hvað við fáum hjá Dönum af þesskonar tægi, verðum við að herja út sjálfir. Það væri óskanda, að úngir menntaðir menn gæti gefið sig í þjónustu lands vors, til að fylgja málum þess, og að þeir færi um kríng og héldi fundi til þess að skýra frá þjóðmálum vorum, og halda þeim í réttri stefnu.

Finnið þér ekki mörg handrit eptir sr. Björn sáluga í Tröllatúngu? Hann átti mart. Rask talar um í formála Snorra Eddu, að drengur í Hrútafirði hafi átt Eddubók merkilega, sem Rask fékk ekki á ferð sinni. Hún mun nú ekki spyrjast upp, vænti eg.

Forlátið mér þenna flýtismiða, og verið ætíð sælir.

Yðar einlægur vin

Jón Sigurðsson.

## 251.

### Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn $^{18}/_{1}$ 70.

Háttvirti elskulegi herra prófessor Maurer.

Eg hafði vonað, að geta skrifað yður nokkuð endilegt um stjórnarmálið, en þó það sé ekki að sinni mögulegt, þá er þó komið meira en mál að þakka yður fyrir yðar ástúðlegu bréf, og fyrir það, að þér einsog fyr unnið málum vorum með sama áhuga og fyrri. Þér hafið án efa að nokkru leyti fengið skýrslu um hvernig farið hefir á alþíngi seinast, en þó líklega svo, að þér

hafið varla getað skilið fullkomlega hvað eiginlega málalokin urðu, því hér er líkt einsog fyr, að stjórnin er þángað til að grauta í máli þessu, að enginn skilur upp eða niður í því, og blöðin okkar á Íslandi eru því miður ekki mikið betri að sínu leyti. Frumvörpum stjórnarinnar til alþíngis í vor var haldið svo leyndum sem mögulegt var, og það var ekki sýnilegt annað, en að kosníngar væri settar svo seint, að eg skyldi ekki geta fengið fregn um, hvort eg væri kosinn eða ekki, því þá héldu þeir eg mundi ekki fara, og einsog vant er ímynduðu sér, að þá mundi öll opposition vera á enda. Það lítur út einsog Pétur biskup hafi eitthvað gruggað til þess að fá sem flesta presta kosna, en ekki fór samt orð af því, svo að á því bæri. Allt þetta misheppnaðist nú fyrir stjórnarskepnunni, svo að eg fékk fregn um kosníngu mína í tíma fyrir dugnað Ísfirðínga, og þegar þeir heyrðu að amtmaður vefengdi kosnínguna, þá gjörðu þeir ráð fyrir að borga mér ferðina til Íslands sjálfir, ef eg yrði rækur á þíngi. En það varð heldur ekki. Konúngsfulltrúi var óttalega harmþrúnginn af því, að bera fram vefengíngar móti mér, sem væri ómissandi maður(!), en samvizkan gat samt ekki borið af, að láta vefengínguna falla. Hún fékk þá þau afdrif, að *allir* álitu kosnínguna gilda, nema amtmaður okkar Vestfirðínga, Bergur Thorberg, sem greiddi hvorki atkvæði með né móti. Þegar við fórum að kanna okkar flokk, þá sýndi það sig, að við höfðum 15 fasta, og 4 voru ekki fjarlægir okkur, en 6 hinir konúngkjörnu voru í móti, og Grímur með þeim. Nú komu fram frumvörpin, og var skipt í tvennt, átti að vera í öðru það sem væri svosem allsherjar ríkismálefni, en í öðru það sem Íslands stjórnarskrá snerti sér í lagi. Nú var það þó enn skrítið, að sleppt var úr sumu almennu, sem stjórnin sjálf hafði stúngið uppá 1867, og var allt sýnilega gjört til þess að svipta okkur allri autonomi, og setja allt í hendur dönsku stjórnarinnar og ríkisþíngsins í Danmörk. Þegar

farið var að kjósa nefnd í málið var það ákveðið að kjósa einúngis af okkar föstu mönnum, en enga af hinum. Það sýndi sig og, að nefndin var eindregið með sitt mál. Á hina hliðina var biskup forsprakki, og kallaði til funda alla hina nýkosnu þíngmenn, en þeir voru flestir orðnir fastir okkar megin á undan; samt komu þeir á fundi til biskups, og hafðist þá heldur brún á karli, því hann hafði þar á fundi meira hluta þíngmanna, og taldi það til síns sauðahúss, en okkar menn voru þeir skikkanlegustu sauðir, því þeir mæltu ekki í móti neinu nema því að binda sig með ályktunum. Þeir einu sem vildu játa stjórnarfrumvarpinu hérumbil óbreyttu voru Bergur og Grímur. Þórður Jónasson reif það miskunarlaust niður, en sagði um leið, að hann ætlaði ekki að tala móti því á þíngi(!), og þar var hann *með* því í öllu. Eptir því sem á leið þíngið, þá sýndi það sig, að 15 atkvæðin voru föst, 7 á móti, en 4 veilir, og gengu með þeim 7 þegar harðna tók. Foríngi þeirra var Benedikt Sveinsson, og þrír klerkar með honum, sr. Þórarinn Böðvarsson, sr. Helgi Hálfdanarson og sr. Páll Pálsson. Þessir voru í rauninni samdóma okkur, en vildu ekki fara í hart, heldur læpast á bil beggja. Nú kom fyrst hið almenna frumvarp fyrir, og sýndi sig að 15 atkvæði voru föst á móti frumvarpinu, en 11 með því. Þeir konúngkjörnu boðuðu minoritetsvotum; nú *gátum* við eins haldið fast í hinu málinu 15 móti 11, en þá var að búast við 1) minoritetsvoto í *báðum* málunum frá 11, og þar með fylgjandi meira fylgi frá stjórnarflokknum; 2) eyðileggíng á ávarpi þíngsins, með því að líklega hefði þá þeir 11 gengið frá og þíngið ekki getað ályktað um frumvarpið til ávarpsins. Fyrir þessa orsök varð það samníngur, að stjórnarskrárfrumvarpið (hitt var fallið með því að heimta einúngis 60 þús(undir) árlega, og það sem *réttar*kröfu en ekki sanngirniskröfu),

skyldi *principaliter* falla og biðja um annað betra, en *subsidialiter* skyldi breyta því, verulega eptir frumvarpi þíngsins 1867 og heimta þetta subsid. frumvarp (með 60 þ.) *orðrétt* samþykkt (sjálfsagt *án* þess að leggja það fyrir ríkisþíngið). Með þessu unnum við það, að isolera þá konúngkjörnu og Grím alveg, verða lausir við minoritetsvotum þeirra $4^{n}$ í stöðumálinu og allra í stjórnarskrármálinu, og að geta haft fram ávarpið til konúngs, og látið þá konúngkjörnu gánga af þíngi til einkis nema sér til skammar sjálfum, því allir hlógu að þeim, og sögðu þeir hefði farið út einsog sankti Pétur til að gráta beisklega allar sínar þíngsyndir.

Svona gekk nú eiginlega, en Jón Guðm(undsson) vill nú láta allt vera í vitleysu og ráðleysu, allt það fellt sem við höfum barizt fyrir og öllu játað sem áður hefir verið neitað. Það skín út úr honum, að »svona fór þegar eg var ekki á þíngi«. Stiptamtmaður er eitthvað að grugga á sína hlið; hann hefir tekið einhvern frænda sinn, sem heitir Hoskjær, jurid(iskan) kandidat, og sá hefir skrifað í »Dagbladet« hér, sem tekur það allt með gleði. Þar er skýrt svo frá, að alþíng hafi fyrst fellt frumvarpið stjórnarinnar, og síðan etið allt ofan í sig og tekið allt saman. Nú hafi stjórnin fríar hendur, og geti sett á Íslendínga hvað hún vili, alþíng hafi játazt undir vald ríkisþíngsins o. s. frv. Um mig er sagt, að eg hafi átt að segja, að *ef* eg vissi að stjórnin stæði föst við orð sín, þá vildi eg alveg ráða til að láta undan, en stjórnin stæði aldrei föst. Þetta hefi eg nú aldrei talað, en það er logið til þess að láta stjórnina trúa því, og espa hana til gjörræðis. Eg hefi ekki svarað þessu neinu. Allir þeir, sem skilja nokkuð í málinu, eru samdóma því, að hér sé engum rétti sleppt af alþíngis hálfu, heldur yfir höfuð að tala harðara en 1867, og svo miklir agnúar á, að stjórnin getur varla fallizt á það sem það nú er. Fari hún nú að búa til sjálf octroj, þá erum við lausir allra

mála, við tökum hvað við getum brúkað, en gjörum allt til að fá hinu breytt. Láti stjórnin allt liggja, þá fær hún ekki heldur ró til þess, því þá verður heimtað sí og æ það sem þörf er á. Ýmislegt er, sem ekki er viðunandi í frumvarpi alþingis, en það verður nú að þolast, til þess að eyða ekki tíma í þesskonar umræður. Eg tek til dæmis tvískipting þíngsins með öllum konúngkjörnum í efri stofu, og það svo mörgum að þeir eru helmíngur þíngmanna í þeirri stofu. Annað er normalbudget. Þriðja er skortur á öllu tilsjónarvaldi eða control af þíngsins hálfu, og fleira er enn, sem eg nenni ekki að telja.

Hvað nú stjórnin gerir vita menn ekki alveg, en líklega lítur út fyrir, að hún láti málið leggjast fyrir um sinn til að bíða eptir þángað til við verðum skynsamari(!). Eg vona, það verði heldur bið eptir því, að við verðum sterkari og samheldnari. Við höfum byrjað samtök til samskota og flokksmyndunar til að halda fram þjóðfrelsi voru, og eg vona það lifni smásaman, þó nú sé óhappalega komið, af því að þetta umliðna ár hefir verið eitt hið versta sem menn muna, einkum norðanlands. Stjórnin hefir nú látið prenta umræðurnar um þetta mál á seinasta alþíngi, og leggur það nú fram á ríkisþínginu. Svo á nú líklega að verða privat ráðagerð um, hvað gjöra skuli, og þar eptir fer stjórnin án efa. Lehmann hefir boðað interpellation nýlega um málið, en henni er ekki svarað enn. Gísli Br(ynjólfsson), Lehmanns Sancho í þessu máli, segir, að hann búist við að min(isteríið) segist *ekki* munu leggja neitt fyrir í vetur. Spurning Lehmanns er einkennileg: »Agter Regjeringen i indeværende Samling at indbringe det Udkast til Lov om Islands forfatningsmæssige Stilling i Riget, over hvilket den har indhentet det sidst afholdte islandske Althings Betænkning?« —

Frumvarp stjórnarinnar til alþíngis var nú allt annað en það, sem hún hafði lagt fyrir ríkisþíngið í fyrra,

og allt annað en það hálfkaraða frumvarp sem ríkisþingið var að búa til í fyrra. Ekki er Gísli búinn með Lehmann á íslenzku, en hann er líklega að semja mikla ritgjörð um landsréttindi Íslands (dubia aut nulla).

Það er nú víst, að orð frá yður í þessu stjórnarmáli getur ekki annað en glatt okkur. En hitt er meira vafamál, hvernig það eigi að vera og hvenær það eigi að koma. Það er nú sjálfsagt, að bezt er það sé svo objectivt sem mögulegt er, en þér megið búast við, að hversu objectivt sem það er og satt, þá verður það sem oss er í vil dregið á hárinu, en hitt, sem mætti skilja oss á móti, tekið til inntektar einsog að þér hefðið þó orðið neyddur til að gefa sannleikanum *dálítið* rúm(!).

Það ironiska gerir helzt verkun að eg held, og hér er enginn skortur á efni í þá átt, því smásmuglegri glíma við staur hefir ekki fundizt, og það bezta er, að *þó* við játuðum öllu sem stjórnin stíngur uppá, öllu sem Danir vilja, þá væri hvorki þeir né við að bættari, því 10 ár væri ekki liðin fyr en þeir sæi sjálfir að allt væri ónýtt, öldúngis einsog áður, milli 1830—40, þegar öllu var játað sem stjórnin vildi. En enginn ráðvandur maður getur spilað slíkt spil, einsog þeir konúngkjörnu. Eg get það ekki, og hefði eg þó egoistiskar ástæður til þess, því eg hefði eins miklar ástæður til að vænta, að eg yrði kosinn til ríkisþíngs af Íslands hálfu, einsog hver annar, og mér er ekki grunlaust, að það sé ástæða sem ekki sé þýðíngarlaus fyrir suma. Hvað vinnur Grænland og Færeyjar, þó þau tali ekki orð?

Þér hafið líklega fengið það sem út er komið af Þíngtíðindum, þar eru í öll álitsskjöl og nefndarálit. Þér hafið Félagsrit og blöðin. En hafið þér grein í »Dansk Tidskrift« frá 1869, »Om Forfatningsmellemværendet(!) mellem Danm(ark) og Island«? Dagblaðsgreinirnar í haust frá Hoskjær (nafnlausar)? og er enn nokkuð fleira sem yður vantar? — Þetta sem nú er

lagt fram á ríkisþínginu skal eg reyna að útvega og senda.

Við höfum fundi í Félagsritum í þessari tíð.

Ástar kveðjur frá okkur til yðar og allra yðar ástkæru.

Yðar elskandi vin

Jón Sigurðsson.

Eg þarf ekki að segja yður, að það sem eg skrifa yður er ekki ætlað til þess, að koma fram öðruvísi en yður sýnist málinu hentugast. Það er ætlað til þess, að *þér* séuð kunnugur því.

252.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn 10. Marts 1870.

Elskulegi vin,

Að ógleymdu ástar þakklæti fyrir allt gott fyrrum og seinast, þá er ekkert að segja þér meira en það, að svo fór sem við spáðum, að ekkert varð af samþykki stjórnarinnar uppá frumvarp alþíngis, og ekki heldur af oktroj uppá okkur í þetta sinn. Svo mikið held eg maður geti sagt. Lehmann ætlaði að fá stöðufrumvarpið octrojerað, en »Nautshornið« var óvinnandi hart. Nú ætlar stjórnin að hafa hitt bragðið, að taka okkur »administrativt«, líkt einsog eptir þjóðfundinn. Stiptamtmaður á nú að fá meira vald, og fleiri mál til umráða, og svo meiri laun; póstgaungur og sveitastjórn að komast í veg; skattar direkte og indirekte að nást undan okkar blóðugum nöglum; tillagið að verða hér um bil sem nú. Mér finnst okkur ætti að vera innanhandar, að hafa uppúr þessu það sem við getum brúkað, og ekki meira né minna. Til að byrja með þá aukast

nú gjöldin strax, ef þetta verður samþykkt, með svosem 3—4 þús. dölum. Kröfuvegurinn er oss sýndur í gamla bréfinu frá Casse, sem er oss góð leiðbeining (Apr. 63). Skatta leggja þeir varla á fyr en alþíng er heyrt, og þíngið mun þá neita meðan fjárhagsráð eru ekki fengin, og protestera móti, eða »allraþegnsamlegast mótmæla« að vera gjört ómyndugt til fjárráða, en þrælskyldað til útláta. Þá fer okkur of mjög aptur, ef slíkt gæti gengið. — Um okkar mál er álit manna hér ekki vinveitt okkur, en það er sýnilegt að einskonar beigur er í mörgum, þó þeir, einsog vænta má, þykist eiga alls kosti. Í Noregi eru þeir nú að ögra með að Danir ætti að sleppa okkur við sig, og skín þar í gegn, að við mundum verða álitnir góðir bræður ef við legðum ríflega til, en hálfónýtir þjónar ef ekki yrði hagnaður að okkur. Í Le Nord hafa staðið greinir, sem eru okkur í vil, og hnyttilegar í að leiða Dönum heimsku þeirra fyrir sjónir. Nú á eg von á þremur greinum í Augsb. allgem. Zeitung eptir Maurer, og þær vona eg verði góðar og leggi einkum betri grundvöll undir umræður málsins framvegis. Eg sendi þér dönsku útlegg(ínguna) af málinu, »Aktstykker« etc., og svo jag okkar Plougs í »Fædrelandet«, sem sýnir þér, að ekki batnar honum í skapi til okkar, en þarmeð er hitt gefið, að lítil von er að vér höfum okkar mál fram, nema með því, að þeir *geti* ekki varnað okkur þess, og það er okkur engin vorkunn að sýna. Af samskotum okkar hefi eg ekki þurft að brúka neitt enn, því eg kæri mig ekki um, að gera neinar tilraunir þegar málið hefir sig fram sjálft, enda er þar ekki á miklu að taka; en eg vona við fáum skýrslu um málið allt saman í Félagsritunum, og að við getum safnað nokkru til næsta þíngs. Þessvegna bið eg þig hafa allar klær úti til að ná samskotum í sjóð okkar, svo við getum haft nokkur efni fyrir hendi þegar við á næsta þíngi förum að taka ráð okkar saman um fyrirkomulagið og um okkar operationsplan fyrst

um sinn. Þú hefir hagnað á, að skrifa til nokkrum og láta þá svo breiða út frá sér til hinna, og það sem allra fyrst, það sem þörf er á að vita. Ætli þér takist ekki að vinna Jón Guðmundsson að staðaldri, þegar hann sér nú, að ekki þurfti að óttast það sem hann var að fjargviðrast útaf í haust? . . .

Vertu nú ástsamlega kvaddur með öllum þínum ástfólgnu.

Þinn einlægur elskandi vin

Jón Sigurðsson.

253.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn $^{30}/_{4}$ '70.

Elskulegi vin.

Eg hefi lengi vænt bréfs frá þér, en ekkert fengið enn. Varstu defekt, þegar póstskipið fór? — Alþingistíðindin eru að nokkru leyti defekt, því [þar] vantar bókaskrána.

Um mál okkar er það helzt að segja, að nú erum við búnir að kveikja í Norðmönnum, og það vona eg slokkni ekki aptur svo fljótt. Þeir eru nú að studera þessi »Aktstykker«, sem dómsmálastjórnin var svo góð að láta prenta, og finna þar nóga næring sálum sínum. Þeir eru alveg með okkur, sem von er af mönnum, sem standa fyrir utan og geta vegið málstað hvorutveggju. Björnstjerne Björnson, kunningi Finsens, er forsprakki fyrir þessari atreið Norðmanna að miklu leyti, og vill um leið accordera við Dani um hólmann, þar eð þeir kunni ekki að fara með hann. Dönum finnst reyndar ekki til þessa, en hvað skal segja? Þeir láta einsog þeir ætli að humma þetta fram af sér og hunzkast við, en það dugir ekki, því alltaf verður

þýngra og þýngra jelið, sem dynur á þeim. Þú hefir fengið greinir Maurers frá mér, eg vona við snúum þeim og prentum í Nýjum Félagsritum og svo gefum um leið yfirlit yfir málið, og það sem um það er ritað. En hvað gerið þið nú, minn kæri? — Eg hefi ekki séð lakari ritgjörðir en þær, sem verið er að veifa í Norðanfara og Baldri. Arnljóts(?) Bauksræður eru eitt hið magrasta, og þó er efnið nær réttum vegi heldur en í Baldri, þar sem hann er renonce bæði í stjórnarmálinu og í fjárkröfum. — Þjóðólfur er hérumbil þagnaður. Jón G(uðmundsson) sýnist nú vilja sleppa öllum fjárkröfum og concentrera sinn krapt í politiskum kröfum; svo mun og Benedikt Sveinsson vilja. Einsog við stöndum hóti nær fyrir það? — Þeir sem við okkur eiga vilja einmitt að við sleppum kröfunum til þess að þeir geti farið með stjórnarmálið á eptir sem þeir vilja. Auk þess höfum við ekki búið til kröfumálið, heldur Danir sjálfir. Hvað sýnist þér um að fá bænarskrár úr öllum áttum í haust og biðja konúng um aðaluppástúngu þíngsins, þá í fyrra? En aðalatriðið er, að fá peningasamskot í sjóð vorn. Þar að eigum við að róa öllum árum til næsta þings, og ef það gengur þá höfum við þar færi á að setja okkur fastara ætlunarverk og haga störfum okkar eptir hentugleikum. Þú verður að róa að því öllum árum.

Forláttu þenna flýtismiða og berðu ástkærar kveðjur.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

Heilsaðu Hallgrími í Guðrúnarkoti, með þakklæti fyrir bréfið. Getið þið ekki hert á Finsen, að sjá til að gera eitthvað svo við fáum sæmileg kjör, því nú gengur ekki þetta þóf með góðu til lengdar.

254.

Til Sigfúsar bóksala Eymundssonar.

Kh. 18/5 '70.

Elskulegi vin.

Ástar þakkir fyrir yðar vinsamlega bréf, og það gleður mig að heldur leit líklega út með yðar fyrirtæki. Eg hefi séð dálitlar boðanir um það í Norsk Folkeblad og i Norsk Handelstidende, og er það heldur okkur í vil. Ef þér verðið varir við greinir í öðrum blöðum, sem þér haldið eg hafi ekki, og þar er nokkuð gagn í, þá stíngið þér þeim hjá yður. Eg sendi Berner strax Varníngsbók mína og fleira íslenzkt dót. Björnson heldur áfram, en þykist líklega verða heldur að fara skakkt sem Norðmaður með Norðmönnum, heldur en að fara rétt með Íslendíngum. Annars eru skekkjur hans ennþá ekki neitt til skaða okkar máli, svo eg geti séð, ef að einúngis Norðmenn yrði nokkuð öflugir í fylgi sínu, og þreyttist ekki svo fljótt, því það er sem Danir spila uppá, og þegja þessvegna alveg um þetta íslenzka mál, i þeirri von, að Norðmenn muni fljótt verða hásir af að hrópa einsamlir. . . .

Eg bið ástsamlega að heilsa Krohn og Herm. Baars, og svo Sveini landa okkar á Steini, með þakklæti fyrir bréf hans. Þér talið um hann og hans hagi við Krohn, veit eg, og hjálpið honum hvað þér getið. Bréf hans til bróður hans fór heim með gufuskipinu.

Forlátið mér seðil þennan og verið kærlega kvaddur.

Yðar einlægur skuldbundinn vin

Jón Sigurðsson.

255.

Til flokksbræðra á alþingi.

[Kaupmannahöfn 31. Mai 1870].

Eptir því, sem í ljós er komið, virðist það eiga að verða málalok alþingis 1869, að því er snertir stjórnarmál Íslands, að konúngur vor ætli, eptir ráði hinnar dönsku stjórnar sinnar, hvorki að veita oss stjórnarbót þá, er alþíng æskir, og heldur ekki að neyða uppá oss frumvarpi því, sem oss var hótað með í fyrra. Þetta má heita svo, sem alþíng og stjórnin muni skilja að slèttu í annað sinn, einsog eptir þjóðfundinn. En til þess að ekki heiti svo, sem allt standi í stað, þá er það í ráði, að auka vald stiptamtmannsins og leggja undir hann æðsta úrskurð í ymsum málagreinum, svo sem reikníngamálum, innanlands póstmálum, fátækra málum o. fl., einnig að koma upp sveitastjórnar lögum, og að endíngu nýjum og auknum skattalögum, líklega þó að fengnum tillögum alþíngis.

Sumar af þessum fyriræetlunum eru nú vissulega í þá stefnu, sem vèr höfum ávallt mælt fram með, sumar eru komnar undir því, hvernig þeim verður fyrirkomið í framkvæmdinni, og hin seinasta, um skattalögin, er alveg undir því komin, hvort alþíng fær fjárhagsráðin í hendur, eða ekki, því ef stjórnin ætlast svo til, að vèr gjöldum skatta, til þess að ríkisþíngið í Danmörk skammti úr þeim eptir sinni vild, eða danskir ráðgjafar undir nafni konúngs eptir þeirra vild, þá mun varla nokkrum þíngmanni geta blandazt hugur um að neita og bera fram hin sterkustu mótmæli móti þesskonar aðferð.

Meðan slíkt stendur til og er í ráði, hvernig sem það ræðst, þá er það skylda vor allra alþíngismanna, sem viljum fylgja fram þjóðrètti vorum Íslendínga og þjóðlögum, að halda hóp vorn, og láta eigi letjast að neyta allra löglegra ráða til að hafa þau mál vor fram, sem eiga að vera undirstaða þjóðfrelsis vors og þjóðsældar

á komandi tímum. Þessvegna leyfi eg mér að skora á yður, einsog eg hér með skora á þá þíngmenn, sem þér vitið af vorum flokki eru, að þér fylgið því fram í þessu máli:

1) að koma á fót sem flestum og almennustum bænarskrám til konúngs, sem verði sendar í sumar og í haust, annaðhvort beinlínis til stjórnarinnar eða til mín, og fari því fram, að biðja Hans Hátign konúnginn skipa svo fyrir, að höfuðuppástúngur alþíngis 1869 í stjórnarmálinu verði veittar, sem er: að nýtt, frjálslegt frumvarp til stjórnarskrár Íslands verði lagt fyrir þíng á Íslandi með fullu samþykktaratkvæði sumarið 1871, og þar með að árgjald handa Íslandi verði ákveðið til 60,000 rd. að minnsta kosti, með innstæðu í óuppsegjanlegum ríkisskuldabréfum.

2) að búa undir almennar og öflugar bænarskrár til næsta alþíngis, sem fari fram hinu sama, og fylgi því fram, að þíng það sem vér biðjum um verði þjóðfundur, kosinn samkvæmt lögunum frá 1849.

3) að hver yðar sérílagi leggi allt kapp á að afla samskota og koma þeim í penínga á hentugasta hátt, og senda mér sem fyrst, en eg skal halda fé því saman, og setja á leigu og gjöra grein fyrir á næsta þíngi, og búa svo undir, að vér getum þá bundið fastara ráðlag vort málum vorum til framkvæmdar.

4) að hver yðar haldi sambandi við annan, og við þá hina þíngmennina, sem í vorum flokki eru, einnig nái samtökum við líklegasta mann í hverri af hinum sýslunum, sem vorir menn eru ekki í, og sjái um að þar verði eins hagað til.

Verið vissir um, að eg mun gjöra hvað eg eptir minni beztu þekkíngu álít málum vorum hollast, og hinu sama

treysti eg hjá yður, að þér munið kappkosta að framfylgja málum vorum með sem beztu fylgi og forsjá. Heill og hamíngja fylgi yður og störfum yðar föðurlandi voru til heilla.

Kaupmannahöfn 31. Mai 1870.

Sra Halldór Jónsson.
Sra Sigurður Gunnarsson.
Stephán Eiríksson
fyrir báðar Skaptaf.sýslur.
(Sighvatur Árnason).
Halldór Friðriksson.
Hallgrímur Jónsson.
Hjálmur Pétursson.
Daniel Á. Thorlacius og
Egill Svb. Egilsen.
Sra Guðmundur Einarsson.
Sra Eiríkur Kuld
(Ásgeir Ásgeirsson).
Torfi Einarsson.
Páll Vídalín.
Sra Davíð Guðmundsson og
Ólafur Sigurðsson í Ási.
Stephán Jónsson.
Jón Sigurðsson á Gautl.
Tryggvi Gunnarsson.

## 256.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn 9/6 '70 1870.

Elskulegi vin.

Nú, það var þó gott að þú varst heill á hófi og hafðir ekki farið vitlaust með bréfið þitt. Eg var farinn að verða hræddur um, að póststjórnin hefði orðið hnýsin, og hugsað, að þar væri fángs von að frekum úlfi, sem væri bréf frá þér. Nú nú, þá er »Nautshornið« farið veg allrar veraldar, en hætt er við, að ekki hafi mikið batnað þó Krieger kæmi í staðinn. Eptir útliti þá verður líklega plan Fengers næst hendi, sem er að ætlast á undir hendinni hver útgjöld megi verða handa Íslandi nauðsynleg, þar næst leggja niður tekjurnar, hverjar þær verði, og sjá svo hvað til vantar, fara síðan í ríkisþíngið og leita veitíngar á þessu, t. d. tekjur 40

þús., útg(jöld) 90 þús., minus 50 þús., sem vér svo biðjum um etc. etc. Þetta er sama og við höfum einu sinni stúngið uppá í Félagsritunum. Það er alveg sjálfsagt að sporna móti ríkissjóðs sköttum, en um læknasjóðsskatta er eg ekki eins hræddur, því þá eigum við sjálfir og þeir koma ekki ríkissjóðnum við nema indirekte. Það er einasta spursmál, að láta ekki stjórnina sneiða svona af læknasjóðnum að alþíngi fornspurðu, og svo er mart fleira í viðskiptum stjórnarinnar og alþíngis. Um spítalatilskipunina er það kannske ástæða sem þú segir, að stjórnin vili láta okkur geipla á sköttunum, en þar verður henni hált á, spái eg, því finnist gjaldið of hátt, þá linnum við ekki látum fyr en það er lækkað, og þá væri líklegt við gætum sameinazt um að halda basis skattsins, ef gjaldið er lækkað. Annars væri kannske nógu gaman, ef þeir fengist allir til að neita spítalagjaldinu, svo það næðist ekki, rétt til að sýna, að þetta gæti átt sér stað, því mér þykir allbúið, að ef spítalatollurinn næst eptir F(o)r(ordning) 10. Aug. eptir allan þann vind sem Þjóðólfur lét út gánga, og eptir enga vörn, þá muni stjórnin álíta gefið að setja megi á okkur hvern skatt sem vera skal, hvað sem alþíng segir, og þá getur póstgjaldið staðfest þá í þeirri trú. Þeir láta nú »aðalskattastjórnina« hér vera einn höfuðfaktor í öllum skattamálum, eins að því Ísland snertir. Þetta er óþolandi, sýnist mér, án þess að gjöra Vrövl.

Eg sendi Jóni Guðmundssyni Dagbl(adet) það í dag, til að bæta honum í munni, svo hann sjái hversu mikilli vináttu hann er í hjá Hoskjær. Mér þætti líklegt að Jón heilsaði uppá hann aptur. — Þér sendi eg nú bréf til þíngmanna af okkar flokki, sem eg bið þig koma til þeirra sem fyrst. Eg sendi Bened. Sveinss(yni) nafnlausa afskr(ipt), með spurn um hvort hann vili vera með, og hans menn þrír; sé svo, þá er bezt að senda þeim annað eins. Grími sendi eg ekki, en Sig-

hvati, Jóni Guðm. sendi eg heldur ekki, en væri hann með, þá ættir þú að gánga á það lagið og reyna að hafa gagn af honum. Nú er meira veður í seglum, því Norðmenn eru að vakna með okkur, og þar er strax munur að. Það getur farið svo, að ef Ísland verður á floti, þá losni um dönsku eyjarnar líka, því þar er það nú sannmæli, að þær séu flotnar út frá Þýzkalandi eða plægðar út úr Svíþjóð.

Eg hefi fengið 20 pd. Sterl. til alþíngishúss frá Ola Bull, og hefi skrifað forstöðunefndinni það. Ætli Finsen þori að taka við því frá Norðmanni, og það einum þeim allra stífasta Islandoman og Dänenfresser. Eg hefi von um, að í frönskum blöðum komi stíf grein um viðskipti Dana við okkur. Ef eg sé hana eða næ henni, skal eg skýra þér betur frá. Þar á móti held eg að Ploug hafi einhverja von um Svía, því nýlega skýrði Fædrel(andet) frá, að Hedin redakteur hefði haldið fyrirlestur um Ísland í félagi þar í Stokkhólmi, og það mundi »Föðurl.« varla hafa getið um, ef það hefði verið móti Dönum, um Maurers greinir þegir það alveg og öll dönsk blöð. Krieger fékk þær í convoluti frá mér eptir undirlagi Maurers. Nú ætti maður að hafa ráð til að ferðast til Stokkhólms, til Þýzkalands, til Englands. Þið fáið nú einn í sumar til að kokettera við, það er Alexius Rússakeisara son. Alexius póliti verður nú á buxum, að taka móti nafna sínum. Allt hvað þú getur drifið upp af fé, er ofur vænt, því alltaf harðna hríðirnar, það sér þú á Dagblaðinu. Nýlega hafði Gísli Br(ynjólfsson) grein í Föðurl(andinu) til að segja Dönum til sín, hvað hann hefði skrifað í Baldri um »Jónslast« og þesskonar, en síðan hefir hann þagað, og fyrir grein sína hefir hann litlar þakkir fengið hjá Dönum, en rekinn út frá Íslendíngum með sneypu.

Nú man eg ekki meira. Vertu ástsamlega kvaddur með öllum þínum.

Þinn einlægur vin

Jón Sigurðsson.

257.

Til Sigfúsar bóksala Eymundssonar.

Khöfn 11. Juni 1870.

Háttvirti kæri vin.

. . . Eg sendi yður afskript af bréfi til þeirra alþíngismanna sem á fótinn eru skrifaðir.[1] Pétur þekkir það, því hann hefir skrifað fyrir mig nokkrar afskriptir. Þegar þér komið til Íslands, þá vil eg biðja yður og ykkur með lagi og vareygð, en þó nokkru fylgi eptir kringumstæðum, að mæla með erindum okkar allstaðar hvar þið sjáið kost á, og í Reykjavík að tala um það við Halldór Friðriksson, og sjá hvað þið getið gjört.

Að síðustu bið eg ykkur vel og rækilega fyrir Bókmentafélagið, og óska ykkur þar með allrar farsældar í sumar og heppni í bráð og lengd.

Yðar einlægur vin

Jón Sigurðsson.

258.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn $^{9}/_{7}$ '70.

Elskulegi vin.

Kærar þakkir fyrir bréf þitt seinasta. Nú væri gaman, að þú tækir upp þín Heimdallareyru, því nú mun Bille skrifa Hoskjær til um að safna skýrslum í málum sínum. Eg hefi nefnilega stefnt Bille að gamni mínu, af því menn halda hann geti varla sloppið frá sekt; málið kemur í rétt á mánudaginn, en líklega fær þá Bille frest til þess að skrifa til R(eykja)víkur eptir skýrteinum. Randrup bróðir apothekarans hefir málið

[1] Sjá nr. 255.

fyrir mig, svo líklega getur þú nú direkte og indirekte fengið að vita hvað um er, og frætt mig á því. Þú getur nærri að eg er gróflega »spenntur« til að frétta það. Jónassen mun vita allt og líklega Helgi Helgesen.

Það væri gaman ef Rangvellíngar þjöppuðu að Grími. En þú mátt vera viss um að hann gegnir því að engu, nema hann gæti skipt um setu og orðið konúngkjörinn, en það er einmitt samt eins gott, og einkum ef þeir, sem hafa kosið hann, kalla hann paa en Maade heim aptur úr sendiförinni. Greinirnar að norðan eru ekki svo óinteressant, en það er merkilegt að mennirnir skuli ekki lesa málið, sem þeir eru að rita um. Bæsárbaukur er, einsog von er til, mestpart fullur af fruggu og moði. Svo er nú sá sem svarar Dagbl(aðinu) í Norðanfara, hann slær þeim 11 saman í eitt, sem er bæði rangt og vitlaus taktik, að eg held, það er líklega norðlenzk opposition móti Sunnlendíngum. Þá er nú þessi óttalega naivitet í Gánglera að vilja láta konúng vera alvaldan og skipa Dönum hvernig þeir eigi að fara með okkur.

Eg er nú að spana Jón G(uðmundsson) upp til að taka Dagbl(aðið) reglulega fyrir, því það er eina ráðið, blaðið hefir hér ekkert respekt hjá neinum, nema litlum flokki embættismanna og kaupstaðarbúa, sem hafa einskonar virðíng á því af gömlum vana, því það var einusinni organ Halls. Nú er það í hvínandi minoriteti, þar á móti lítur út sem það sé í high respect í Rvík. Eg sendi Jens allt »Norsk Folkebl(ad)« frá nýári og getur þú víst fengið það frá honum ef þú vilt. Þú segist hafa það með Helga Einarssyni? En er hann ekki Hoskjærs maður? eða beggja vinur og báðum trúr? — Eg hefi heyrt hann hafi verið að skensa okkur í vor í konúngsgildinu, og einsog þú veizt þá hefir hann verið í félagi Hoskjærs. Þú átt hægt með að komast eptir þessu. Það er auðséð, að Hoskjær og Finsen eru rauðglóandi niðrí móti okkur og okkar flokki. Menn

eru að fleygja því hér, að nú eigi að setja Bensa af assessoratinu, þvert á móti því þó hann segi þeim nú að grundv(allarlög) Dana gildi á Íslandi(!), og sumir segja að Hoskjær sé ætlað plázið.

Það gleður mig að heyra, að þú gerir allt hvað þú getur, því þú hefir margar klær og góðar, ef þú brúkar þær.

Með ástar kveðju til þín og þinna.

Þinn einlægur elskandi vin

Jón Sigurðsson.

Ætli Finsen hafi ekki skrifað sínum vin Björnst. Björnssyni til að fá honum snúið? — Hann er orðinn svo undarlega linur í seinni tíð. Þú veizt að F(insen) og hann eru gestavinir áður.

Ceterum censeo: að Jón Guðmundsson má herða sig upp í Þjóðólfi, bæði specielt mót Dagbl(aðinu) og Hoskjær, og yfirhöfuð í stjórnarmálinu. Þar til legg þú yfir hann þína bæn og blessan!

## 259.

### Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn $^{19}/_{8}$ '70.

Elskulegi vin.

Kærar þakkir fyrir þitt stutta en þó góða bréf. Héðan er nú ekkert að frétta, því einsog þú getur nærri, þá er allt okkar mál í þagnargildi meðan hávaðinn er fyrir sunnan.

Við erum í óðakappi með Félagsrit, og verður það mest um stjórnarmálið. Við snúum þar Maurers grein. Framan af er um málið á alþingi 1869, og framsögumaður citeraður quam maxime. K(onun)gsfulltrúa líkar nú líklega ekki.

Ekkert hefi eg frétt um Hoskjærs aðferð með þessu skipi, en það getur nú komið. Pétur Guðjónsson getur víst gefið honum þær beztu skýrslur sem til eru að fá, því líklega er þó Pétur helzti pottur og panna, og hefir blásið upp belginn á Hoskjær, en Danir eru ætíð auðtrúa menn.

Það gengur mest yfir mig, að Finsen skuli láta Hosk(jær) skrifa slíkt, því hann veit það og *hlýtur* að vita það. En hann má líka vita, að á Íslandi er þetta mesta hvöt til þess að draga okkar málstað fram og opna augun á sem flestum. Þeir eru víst báðir svo naiv, að þeir hugsa þetta imponeri okkur, en — Pyt sa' Peer til Kongen! — Vilh. Finsen þóttist vita í haust, að Finsen hefði bannað honum þetta slúður, en það hefir annaðhvort verið misskilníngur, ellegar bannið hefir molnað úr, einsog skötulýsi.

Það er gott ef Rángvellíngar láta nokkuð til sín taka, en eg vænti það verði lítið úr þegar á ætti að herða. Jón söðlari þóttist drjúgur í fyrra, en þar varð lítið úr. Þeir ætti beint að senda Grími ávarp, með deputation, og Jón söðlara fyrir talmann. Sé tólf í för, og gángi sá fyrstur inn og seinastur út sem hefir orð fyrir þeim. Það væri klassiskt.

Mér hálfvegis þótti undarlegt, að þú spáir svo illa fyrir verzluninni við Norðmenn. Það er allíklegt, að kaupmenn heimti inn skuldir, en það skemmir ekki, heldur ætti það að koma bændum betur í hnappinn. Norðmenn munu, að eg held, halda áfram og það með krapti, þegar fyrsta ferðin aðeins ber sig, og það má hún víst gera þegar allt er upp þurkað sem þeir flytja með sér. Eg vona nú að hitta Sigfús bráðum, og kannske tala við hann um þetta.

Ástar kveðjur til allra þinna.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

260.

Til Sigurðar málara Guðmundssonar.

Khöfn 19. August 1870.

Háttvirti góði vin.

Nú hefi eg fengið handa yður uppdrættina, svo góða sem eg held að þér getið notað, því eg fékk mann frá Bærentzen til að kalquera myndirnar. Á höndinni sem er á nöfnunum utanvið Valhöll sjáið þér, að það handrit muni vera frá 1680 þarumbil, og sýnist vera orðið til norður í Hrútafirði. — Skinnbókin AM. 345 Fol. sýnist vera skrifuð um eða nálægt 1570, kannske heldur fyrir en eptir. Hún er komin til Árna Magn(ússonar) frá Einari Ísleifssyni á Reykjum í Ölfusi, og kynni vera þaðan ættuð eða þar úr nágrenninu. Þar bjuggu, sem þér vitið, ættmenn Ögmundar biskups. Þar eru kóngamyndir fremst, fallega dregnar, Sverrir — Hákon — Magnús — Eiríkur og Ólafur helgi. Hákon Sverrisson er ekki, og hefir maðurinn sem dró upp líklega ekki þekkt hann. Myndir með búníngum koma fyrir allvíða, sem þér víst hafið noterað. Hestar líka og söðlar og spángir á lend o. s. frv. — Myndina úr Bestiarius getið þér ekki fengið betri, en að eg sendi yður exemplar af öllum blöðunum, sem Fornfræðafélagið gefur safninu ykkar. Eg ímynda mér þér hafið það ekki áður. Hvar er annars þetta sem þér bendið til um húsmyndirnar? þar sem tortryggð er yðar mynd. — Um kvennmyndirnar í AM. 345 get eg ekki sagt annað, en hvað þér sjáið sjálfur á uppdrættinum, einúngis sýnist mér að aptasta myndin sé nokkuð ljósblárri en í skinnbókinni, en ekki sé eg betur en að búníngurinn sé *blár*, og á brúðinni *grænn*, uppslög á ermum eru *hvít*, höfuðböndin eru *hvít* með svörtum kringlum (á brúðinni) eða deplum, en á hinum með svörtum reitum eða tenníngum. Eins eru svosem kringlur dregnar með bleki framaná þeim. Eru þetta ekki drættir til að teikna

silfur? Það er víst ágætt ráð að búa til brúður í fullri stærð. Brúðuhöfuð getur maður útvegað í fullri stærð, og mundu kosta á að gizka 2—3 dali hvert, eða kannske ekki svo mikið. Almennt kosta brúðuhöfuð svosem 8 mörk, en hér verður að láta búa til öðruvísi lagað höfuð, eptir uppdrætti frá yður eða fyrirsögn, því hárið má ekki vera einsog vant er, sett upp í snyrla, heldur svo lagað sem þér vilið hafa það.

Það er gaman, að þér hafið getað komið dálitlu fylgi í kvennfólkið. Þær geta gjört óttalega mikið, þar sem þær leggjast á, því enginn er heitari í andanum, eða réttara að segja tilfinníngunum og enginn fylgnari sér eða jafnvel klókari, þar sem því er að skipta. Nú ættið þér að geta fengið eitthvað frá Worsaae, en ógæfan mun vera sú, að honum þykir þið ekki díngla nóg aptaní sér, heldur fara ykkar ferða. Það geta Danir aldrei fyrirgefið, þó það sé það eina sem getur gagnað málinu bezt, því þeir vilja ekki láta okkur fara harðara en þeim lízt, og ekki aðrar götur en þeir vísa oss. Getið þér ekki fengið verkmennina, meðalborgarana og handverksmennina og beztu tómthúsmennina í félag til framtaks og framkvæmda?

Það sem eg sendi yður, er í kassa, sem er sendur Bókmentafélaginu, og adressaður til Páls Melsteðs. Gángi þér eptir því þar og munuð þér finna.

Forlátið línur þessar.

Yðar einlægur vin
Jón Sigurðsson.

261.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn $^{28}/_{9}$ '70.

Elskulegi vin.

Mikið skelfíng getur þú verið vigtugur, elskan mín, útaf því þú getur fyllt oktavista, en nú vona eg þú

hafir meira næði næst. Jón Guðm(undsson) er bálreiður útaf því við höfum ekki farið í hann með bænarskrárnar og samskotin, en eg vona þið séuð nú orðnir sáttir um það aptur. Eg gef honum það ráð, að skamma þig út, og svo sættast alveg og styrkja svo okkar mál einsog maður. Hitt getur hann ekki ætlazt til, að við leitum hans neitt sérlega, þegar hann ber í brestina fyrir okkur, og hefir einsog allt á hornum sér. En eg vona hann verði nú skynsamur; ef hann verður það ekki, þá verður hann einn síns liðs, og það stendst ekki Þjóðólfur. Þú tekur hann nú, vona eg, til áminníngar.

Nú er sagt, að Krieger muni ætla að fitja upp aptur stjórnarmálið. Ef svo verður, þá verður það líklegast í anda Lehmanns sáluga (því hann er nú dauður nýlega, og Davíð er úr þíngi), að oktroyera stöðufrumvarpið, og láta hitt bíða. Til að reyna að sporna við þessu ættu að vera bænarskrár okkar, og einkanlega til að minna konúng á loforð sitt 1864 um jafnrétti og 1867 um ekki að oktroyera, og ættum vér þá að biðja konúng að neita um samþykki til allrar oktroy, og um að samþykkja það eina sem alþíng féllist á, en protestera móti öllu öðru. *Bezt* væri nú, ef deputation væri send með slíka bænarskrá, eg held hún hefði áhrif töluverð, því Danir hafa einhvernveginn hita í haldinu meiri en áður.

Annað bænarmál er um póstskipið. Þar munu vera nógar kvartanir í Reykjavík, og væri gott að fá þær í stílinn; eg held ætti að klaga yfir allri meðferð, yfir plázleysi í skipinu, yfir að publikum sé látið á hakanum, yfir hárri fragt o. s. frv. og heimta stærra skip að ári, betra pláz, lægri fragt. Þessi bænarskrá þyrfti endilega að koma með seinustu ferð.

Ekkert hefi eg séð til Hoskjærs hérna, en sagt er hann hafi slegið því fyrir, að hann ætlaði í stríð með Dönum, samt er nú sagt, að hitt sé erindið, að hann ætli að gefa út blað á Íslandi, til þess að »koma vit-

inu fyrir þjóðina« og eigi Páll Melsteð að vera ritstjóri, en Hoskjær safni áskrifendum eða styrktarmönnum hér, og eru tveir tilnefndir áskrifendur nl. Jón læknir Finsen og síra Benedikt Scheving(!!). Sumir segja, að Hosk(jær) fari nú heim með skipinu, og ef svo verður, þá verður eitthvað sögulegt, sem þú getur sagt mér. Ef Finsen heldur þessu fram, þá fer líklega að styttast í veru hans hjá okkur. Hann verður víst bálvondur útúr Félagsritunum núna! — Apropos, gerðu hvað þú getur til að útvega okkur fé til ritanna!

Mikið he . . eru Rángvellingar ónýtir og sljóir. Það þarf nú ekki annað til að imponera Grími, en þessa kerlíngarmeltu í tvö ár. En eg heyri á öllum lotum, að þó þeim sé ekki um Grím, þá eru þeir ekki heldur allskostar ánægðir með Sighvat, og eru að gera sig vigtuga með síra Skúla. Svo er Jón söðlari, eg heyrði það í fyrra, því þetta er ógnarlegur spekíngur, og síra Skúli okkar er eins, hann vill ætíð hafa það »einhvernveginn öðruvísi« en allir aðrir. Hann hefði orðið með Bened. Sveinssyni spái eg, og það var reyndar ekki það versta, en þó lakara en vera átti. Ætli Bensi komi nú ekki með sitt lið til okkar, nema kannske blessað lambið hann séra Helga.

Sigfús hefir staðið sig vel, svo þú þarft ekki að vera hræddur um hann. Ef ekkert er annað að honum, en að hann láni ekkert, eða sem minnst, þá tel eg það kost en engan ókost. Látum hina lána. Hafi hann góða vöru með góðu verði, og styrki Íslendínga til að taka þátt í verzlun sinni, þá er eg ánægður. Látum svo tíðina vinna það og koma viti í okkur og einhverri elju. Sumir halda mikið uppá verzlun Sigfúsar, einmitt Reykvíkíngar, og segja hans verzlun hafi frelsað frá verstu kúgun; en eg veit líka að sumir eru ekki betur en svo ánægðir að Sigfús hafi komið einsog hundur í keiluspil. Nú verður gaman að heyra, þegar Fischer kemur til Björgvinar, hvað hann getur prédikað

þeim, en eg held samt að lýsi og fiskur Sigfúsar vegi meira en prédikanir Fischers, og veit eg þó víst, að Fischer er ári slúnginn og laglegur að koma sér við.

Ástar kveðjur frá okkur til þín og þinna.

Þinn einlægur vin

Jón Sigurðsson.

262.

Til Sigfúsar bóksala Eymundssonar.

Khöfn $^{29}/_{9}$ '70.

Elskulegi vin.

Kærar þakkir fyrir telegrammið fyrst, og síðan yðar góða og fróðlega bréf, sem eg fékk í fyrra dag. Mér líkaði nú bezt, að þér fóruð með gufuskip, og eg vona guð gefi yður enn heppilega og góða ferð. En, minn kæri, er ekki öldúngis nauðsynlegt þér komið aptur til Björgynjar með skipinu í haust, og verðið ýmist þar eða hér í vetur? Það held eg öldúngis víst, og eg veit fyrir mitt leyti, að hér er ótal mart um að tala okkar á milli, og með þeim kunníngjum mínum að vestan, Ásgeiri og Hjálmari, og eins til að breiða yður út fyrir norðan og austan. Eg hefi sterka lyst til að þér næðið Tryggva og Gránufélaginu til yðar, eða undir yðar commando, einkum Tryggva, því hann er bezti maður, og lykill að Norðurlandi. Hann kemur híngað í vetur, og Grána liggur hér (á Lángalandi), og eg vildi sterklega mæla með, að þér styrktuð hann til að fá vörur í vor til Norðurlands, að minnsta kosti í Gránu, og þó enda meira, svo þér fengið fastan fót á Akureyri, ef ekki víðar fyrir norðan. Það var skaði, að þér náðuð ekki í Eyfirðinga í sumar með allt lýsið, en það getur bæzt upp, og fyrir austan ættið þér líka smásaman að setja upp króka handa þeim.

og er það vegna þess hann hefir ekki lag á að vera fátækur og sparsamur. . . .

Með beztu kveðjum og óskum til yðar sjálfs og allra yðar ástkæru er eg ætíð

yðar einlægur heiðrari og elskari

Jón Sigurðsson.

273.

Til dr. Guðbrands Vigfússonar.

Reykjavík $^{28}/_{7}$ '71.

Elskulegi vin.

Ástar þakkir fyrir tvö vinsamleg og góð bréf, og myndina yðar með því síðara. Eg samgleðst með yður, að sjá yður í meistarakápunni, og vona, að ekki verði lángt þángaðtil þér fáið heilar ermar og doktorshatt.

Héðan eru beztu fréttir að því er snertir árferði bæði til lands og sjávar. Fiskiafli hefir verið góður, grasvöxtur bezti og nýting, verzlan með bezta móti, og meðfram vegna þess, að nú eru menn farnir að taka sig saman til verzlunar og reyna fyrir sér á ymsa vegu. Nokkrir eru komnir í tæri við Björgynjar menn, og aðrir eiga skip í förum. Breiðfirðíngar sendu núna jagt til Björgynjar með fisk, dún og lýsi, fyrir svosem 5000 rd. virði. Fyrir jagtinni er Torfi Markússon skipherra í Flatey, og tómir Íslendíngar á. Það er lángt síðan að slík útgerð hefir komið til Björgynjar. Eyfirðíngar eiga skip í förum, sem Grána heitir, og er mest danskt fólk á henni en Tryggvi Gunnarsson alþingismaður og bezti drengur stendur fyrir og fer með skútunni.

Af alþíngi er nú ekki fullsögð sagan enn, nema það held eg víst, að allt standi hérumbil sem alþíng hefir áður farið fram á; en þér eruð kannske ekki neitt

ákafur að heyra um okkar politiska þref, nema þér séuð komnir aptur á hina fyrri braut, og þá skal eg með ánægju segja yður frá öllu því ítarlega.

Með mikilli andvarpan skilaði eg Sigurði Hansen bréfi yðar, þar sem þér sögðuð yður úr Bókm.fél(aginu). — Það er auðvitað, að þarna er ekkert að segja, nema að það »geri okkur illt« að geta ekki haldið styrk yðar, og eg má játa, að eg skil ekki ástæðurnar. Það sem þér skrifið mér finnst mér sannarlega ekki næg ástæða, og eg vona þér finnið það sjálfur og lofið okkur sem fyrst að fá þá ánægju að segja yður inn aptur í félagið. Vissulega erum við ónýtir þjónar, en ekki get eg haldið, að störf félagsins yrði öllu meiri eða betri með þeirri forstöðu annari, sem nú er kostur á að fá, og þá finnst mér við eigum vægan dóm skilið, ef svo væri.

Eg hlakka til að sjá annað hepti orðabókarinnar, og þá úr því, eða þegar hún er búin, þá kynni vera vegur til að við gætum tekið okkar gamla plan upp aptur, eða ætli það væri ekki mögulegt?

Við verðum nú hér næsta mánuð út, en eg vona, að geta kannske komizt með næstu ferð, sem fellur héðan fyrsta Septbr.

Eg á að bera yður beztu kveðjur frá konunni minni og Sigurði frænda.

Verið þér alla tíma blessaður og farsæll.

Yðar einlægur vin

Jón Sigurðsson.

274.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn $^{21}/_{9}$ '71.

Elskulegi vin.

Þá er hér komið, og gekk allt vel. Hoskjær var kominn á undan með meðmælíngar sínar einsog nærri

má geta, en eg held þær hafi ekki svo mjög mikið uppá sig nú, því þær eru ekki eins nýstárlegar einsog áður, og ekki heldur eins grófar. Þú sleppur t. d. með að vera gáfaður, en sérvitur reyndar í þinni politik. Þegar dómurinn er svo, að allt er rétt sem stjórnin segir, og konúngsfulltrúi, og *allt* vitleysa sem við segjum, þá fara flestir að finna á sér, að eitthvað sé bogið. Það getur gengið í einni grein en ekki til lengdar. »Það verður uppdagað í lengdinni« segir Ásbjörn gullsmiður.

Eg hefi sýnt þeim nefndarmönnum í Félagsritunum lög Þjóðvinafélagsins, og létu þeir mjög vel yfir. Þeir eru víst fúsir til að gánga í félagið og styrkja það. Helzt fannst mér á þeim, að þeir óski *blaðs* heima, sem héldi fram skoðunum vorum, og það væri víst gott, en það er vandi að fá forstöðumann ekki einúngis í bókmenntalegu tilliti heldur í fjárhagsefnunum. Nú vita menn ekki heldur, hvort nýja blaðið kemur út í haust, eða ekki, og hvernig það ræðst, en hálfsmeikur er eg um, að það verði ekki allskostar eptir óskum. Gætir þú fengið tíð til að gefa út blað?

. . . Eg ætla líka að senda þér »Heimdall«, svo þú sjáir sýnishorn af hvað Danir geta orðið beztir í okkar málum; má þó finna þar ýmislegt athugavert. Nú er eg at reyna að næla Rosenberg, þó hann megi sér ekki mikils. . . .

Eg er á báðum áttum, hvort og hvenær við eigum að auglýsa Þjóðvinafélagið. Mér hefir dottið í hug, að prenta í vor, ef guð lofar, skýrslu um það, nl. uppkast það sem eg las fyrir ykkur um stofnun félagsins, lög þess o. s. frv., (og stutta skýrslu um samskotin?) og sömuleiðis einhverja ritgjörð um búfræði eða verzlun, ef hún væri fyrir hendi; eða ætti maður að bíða til næsta alþingis?

Um þetta verður þú að segja mér, nú eða síðar, hvað þér opinberast, og annars gjöra hvað þér sýnist

heppilegast, til þess að vinna okkur góða styrktarmenn, sem útvega samskot og tillög.

Forláttu nú, minn kæri, þetta stutta bréf, og vertu með öllum þínum kærlega kvaddur.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

## 275.

### Umburðarbréf til flokksbræðra[1].

Kaupmannahöfn 3. Novbr. 1871.

Herra prófastur Sigurður Gunnarsson

á Hallormsstað.

Háttvirti vin.

Það er um mál vor að segja, einkum stjórnarmálið, að ekki fréttist enn, að neitt sé í því afráðið. Sumir gjöra þó ráð fyrir, að hinir dönsku ráðanautar konúngs muni ætla sér að stjórna Íslandi með alveldi í nafni konúngs, og láta alþíng standa einsog híngaðtil með ráðgjafaratkvæði. Tillögur konúngsfulltrúa eru enn ókunnar, en líkur eru til þær fari í þessa stefnu, og svo má ráða af bréfum til hins danska »Dagblaðs«, sem eignuð eru frænda stiptamtmannsins, sem hjá honum er, að uppástúngur alþíngis eigi þar ekki uppá háborðið; þær eru kallaðar ekki minna en helber vitleysa. Þó er þetta ekki allra dómur, og er enda vottur til að málum vorum og kröfum verði sinnt, heldur en áður.

Blaðið Heimdallur, sem dr. Rosenberg ræður fyrir, tekur mjög sanngjarnlega undir vorn málstað, og Björnstjerne Björnson í Noregi er nú byrjaður á ný að halda

[1]) Bréf þetta þekkjum við í 3 samhljóða eintökum stíluðum til H. Kr. Friðrikssonar, Hallgríms Jónssonar í Guðrúnarkoti og Sigurðar Gunnarssonar. Útg.

fram máli voru kappsamlega. Hins sama vona eg frá Þýzkalandi.

Vér megum því ekki sjálfir slá slöku við, heldur gjöra hvað í voru valdi stendur til að ýta málinu áfram. Þetta stendur oss næst, sem höfum stofnað Þjóðvinafélag vort til að efla þjóðlegt samheldi og ávinna þau réttindi, sem þjóð vorri og landi ber með réttu. Mér dettur ekki í hug í nokkurn máta að binda hendur yðar í að taka það fram, eða koma því til leiðar, sem yður og öðrum vinum vorum þykir vel fallið til að efla félag vort og koma fram tilgángi þess, en mér þykir það einkum næst fyrir hendi:

1) að koma því til leiðar, að fá sem almennast atkvæði allra landsmanna um, hvort þeir eru samdóma í þessu máli meira hluta alþíngismanna, eða þeir eru sinnandi minna hlutanum, til þess að það sjáist berlega, hvort minni hlutinn hefir rétt til að bera fyrir sig almenníngs álit einsog hann gjörði á alþíngi í sumar.

2) að kappkosta að útvega félagi voru sem mestan fjárstyrk, svo vér getum sem fyrst fengið færi á að byrja nokkur störf. Öll vor framkvæmd er undir því komin. Eg vil í því skyni skjóta til yðar, hvort ekki mundi vel til fallið eða tiltækilegt, að þér kæmið í samband við yður einum eða fleirum mönnum í hverri sókn í kjörþínginu, sem væri yður samdóma og sambentur, og að hann notaði þau tækifæri, sem gæfist á samkomum manna við kirkjur og endrar nær, til þess að skýra frá stjórnarmálinu og öðrum allsherjar málum vorum eptir tilsögn yðar og ráði, og til þess að safna fjársamskotum og senda yður síðan. Þessir menn hefði skrá þá sem gjört er ráð fyrir í lögum félagsins, til að rita í nöfn þeirra, sem í félagið gengi og tillög þeirra, en þarhjá virðist mér, að hverjum ætti að vera heimilt að gefa til samskotanna, hvort

heldur meira eða minna, og hvort sem gefandi gengi í félagið eða ekki, og væri bezt hann bókaði þesskonar gjafir á annari skrá og sendi yður.

3. að þér sendið mér allar skýrslur og vísbendíngar, ritgjörðir o. s. frv., sem yður er framast mögulegt, og þér sjáið að félagi voru og framkvæmdum þess má til gagns verða.

Yðar trúfastur vin

Jón Sigurðsson[1].

276.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn 5. Novbr. 1871.

Elskulegi vin.

Það er von þú getir lítið sagt um politik, þegar þú gleymir að senda mér framhald af Alþíngistíðindum, hvað heldur annað. Nú máttu ekki láta það bregðast, og skaðar ekki þó þú sendir mér 2—3 exemplör, sem þú getur fengið Jens, eða látið fá honum. Þú manst að eg fékk II. 1. hepti og lausar arkir 11—14 en af I. B. tvær arkir lausar. Þessar lausu arkir 1—2 og 11—14 sýnist mér megi vera extra, en þú ræður því hvernig þú reiknar. Þess bið eg aðeins, að eg fái *allt* sem þú getur losað og correktúruarkir heldur en ekkert. Það er ekki að vita hvað gagn kann verða að

---

[1]) Aptan við bréfið til H. Kr. Friðrikssonar stendur:

P. S. Ef þér sýnist ráð að senda til Vestmanneyja eitthvert skeyti, þá hefi eg ekki skrifað þángað, en falið það Sighvati.

Ef maður gæti átt von á miklum atkvæðamun með okkur, þá ætti að senda schema í hverja sókn með tveim dálkum, og láta alla búsetta menn skrifa sig með meira hluta, dálk *a*, eða minna hluta, dálk *b*.

Hugsaðu um það! Það væri ágætt atkvæði, ef vel félli.

því, af því nú er að byrja politiskt jel, sem þú sér á blöðum, sem eg læt í pakka til þín ásamt bréfum, sem eg bið þig koma áleiðis sem bezt og vissast, svosem þínum dugnaði er lagið. Allar demonstrationir fyrir meiníng meira hlutans eru æskilegar, og þær sem allra einarðastar og berastar. Þjóðólfur ætti nú að taka fyrir sameiníng sýslnanna, sem ekki er einusinni boðuð, heldur gefin í ofanálag. — Ekkert kemur í »Dagbl.« enn, hvað sem verða kann.

Um Sigfús get eg ekki sagt annað, en að mér finnst hann vera að mestu saklaus, nema hvað hann hefir ekki kláð Norðmönnum, sem þeir þurftu. Þessir menn þurfa að hafa »snuðara«. Sigfús gat ekki þolað slíka meðferð lengur, það var ekki von, en það getur verið hann hafi farið nokkuð fort, þarsem við svoddan »rætur« var að eiga. Ef Egill kemst að í Reykjavík, þá er vonandi hann kunni betur að fiðra við þá.

Það er gott, sem þú segir um félag vort, en nauðsyn er að erviða sem mest við getum til undirbúníngs. Guðmundi í Landakoti ritaði eg ekki, og engum nema þeim sem þú sér. Þú ættir að *tala* við Guðmund, því eg er ekki viss um hann sé einusinni með okkur. Hvernig er síra Stefán á Kálfatjörn? — Næst ekki síra Þórarinn, þegar hann fer nú að jafna sig, og hann fengi að vita að hann yrði ekki kosinn nema hann fylgdi meira hlutanum? — En hann verður (eða yrði) að játa sig opinberlega, svo maður hefði svart á hvítu fyrir því. Sr. Þorvaldur á Reynivöllum er víst til, og Kristján Eldjárn, en þeir mega ekki halda kyrru fyrir, heldur vera aktiv. Allir klerkarnir gætu safnað svo miklu í sóknum sínum, að það yrði svosem 4 skildíngar á mann að tiltölu árlega, það væri þó nær 3000 rd. og af því veitti ekki til þess að koma nokkru til leiðar.

Þú ættir að herða á að sameina Bústjórnarfélagið við hin ömtin — fá búfræðiskennslu. — Eg get útvegað

kennslu svosem 1 eða 2 í Stend við Björgvin ef þú vildir, laglegum drengjum sem ætti fyrir sig að leggja. Vatnsveitíngar eru sérstaklega nauðsynlegar. Johnstrup er ólmur með þær, og ég var að fala hann til að vera með að fá þær í gáng kröptuglega, og vinna próf(essor) Jörgensen líka.

Þú verður nú líka að muna eptir Bókmentafélaginu, því það getur gjört oss mesta gagn ef það getur orðið samtaka og hefir efni í höndum. Skólinn líka til að styrkja ritstörf. Hér þarf hver höndin að þvo aðra, og það getur verið beinlínis inntektarvegur fyrir þig, ef allt heppnast nokkurnveginn, því verður er verkamaður launanna, og hver er hvassari grjótpáll en þú! Heilsaðu ástsamlega og mundu nú eptir að senda mér Alþíngistíðindin, þó aldrei sé nema eitt ex(emplar) af því sem eg hefi ekki. Láttu svo slæðast með eitthvað sem eg á ekki til að gera mig glaðan.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

277.

Til Sigfúsar bóksala Eymundssonar.

Khöfn 6. Novbr. 1871.

Háttvirti kæri vin.

Eg þakka yður ástsamlega fyrir bréfið frá 14. Oktbr. — Mér kom það ekki óvænt, að þér þyldið ekki lengur þessa meðferð, en af því svo opt hafði hrikt í þessari norsku grind áður, þá hugsaði eg hún kynni þó að halda þángaðtil þér gætið komizt sjálfur til Noregs, því það sýnir sig að það var alveg nauðsynlegt. Eiginlega hefðið þér þurft að fara fram og aptur og vera alstaðar nálægur meðan þetta var að komast á fót. Það er nú víst án efa, að rógur manna, eða heimskulegt kjaptæði,

hefir gjört nokkuð til, en eg er hræddur um þér hafið farið eitthvað skakkt að Daniel Thorlacius, því hann hefðið þér ekki þurft að hafa móti yður. — En nú er að taka orðinn hlut, og er þá fyrst um skaðabæturnar, að þar verðið þér að hafa greinilegt í höndum til að geta heimtað þær. Hafið þér skriflegar fullmaktir, eða önnur góð skjöl? Munnleg loforð held eg tæp. Það ríður á að þér farið ekki fram á nema hvað gengur, því þó skaði sé skeður, þá er betra að þola hann og byrja betur á ný, en að lenda í málaflækjum sem eru ekki vissar.

Það er alveg rétt að þér komið hér, og ráðgist við Liebe, hann er bezti maður og viss; eg efast varla um, að yður muni takast að ná fótfestu aptur, en til þess ættið þér að vera hér í vetur og ferðast, en búa um leið sem bezt undir heima, að þér ættið vísa verzlunarmenn. Það er nú ómögulegt að segja, hvort þér getið fengið vörur héðan eða ekki, en ekki er það ólíklegt ef allt fer með feldi; en nú eruð þér þá kominn út af þeim vegi, sem þér ætluðuð fyrst að fara (eg vona þér takið eptir því!) — og eruð nú kominn inn á þjóðbraut kaupmannanna. En það er ekki þar fyrir, að eg vil eins fyrir það styrkja yðar mál hvað eg get.

Eg held það sé allskostar *nauðsynlegt* að þér komið og verðið hér í vetur, eða ferðist (til Hamborgar—Svíþjóðar—Noregs—Jótlands) sem þarf, ef þér hugsið að hafa klær í verzlun aptur. . . .

Lifið alla tíma farsæll með öllum yðar ástkæru.

Yðar einlægur vin

Jón Sigurðsson.

278.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn $^{27}/_{12}$ '71.

Elskulegi vin.

Manstu ekki, að þú útvegaðir mér í haust það sem búið var af Alþíngistíðindum? Er það þá ekki conseqvent að þú sendir mér framhaldið orðalaust? — Eg meina jú, og svo vona eg þú sendir mér hvenær sem færi gefst. Það er nú undarlegt af stiptamtmanni, að láta sér nægja ef tíðindin verða búin fyrir Marts, meiníngin er þó sú, að þetta sé seinustu forvöð og betra því fyr.

Héðan er lítið að frétta, nema allt stendur hérumbil við hið sama. Það heyrist svosem, að Finsen vili hafa heim til sín svo mikið af málum sem mögulegt er, en Krieger er víst að bræða, hvað mikið það skuli vera. Lítið hefi eg frétt um Þjóðvinafélag vort, en þó eru góðar undirtektir það eg veit, hitt er annað mál, hvort árángurinn verður nokkur. Því er miður, að svo er opt meðal vor einsog í gátunni um naglann: kínkar hann kollinum og svo liggur hann dauður; þeir samsinna, en gera ekkert nema horfa á, þegja þegar þeir finna ekki að, en styrkja lítið og kunna ekki aðferð á neinni agitation. Eg sendi þér nokkur númer af »Heimdalli« til »þóknanlegrar undirréttíngar«.

Þú hefir víst séð uppkast til ávarps til konúngs, sem Benedikt hefir samið að eg gizka á, og sendi mér. Eg ímynda mér hann hafi sýnt þér það, og þið hafið verið um það samdóma. Mest ríður á að fá sem mesta samstemmu, og það held eg nauðsynlegt með því fyrsta, að fá skýlausa yfirlýsing sem flestra um, að þeir sé með okkar skoðun. Hver kjaptur ætti að skrifa undir slíka yfirlýsing, og svo ætti að auglýsa hana í blöðum (aukablöðum með nöfnum?), svo hver segði til sín. Eða getið þið hugsað upp hagkvæmari máta?

Eg get því nærri, að Jón Guðm(undsson) þykist hafa rutt sig um Rvík og sýslusameiníngina, og eg sé

heldur ekki betur, en að sýslusameiníngin sé ótæk. Eg vildi óska, að Jón Guðm(undsson) væri heppnari í forminu, en það sleppur svo mart í gegnum neiparnar á honum, svo hann gjörir minni verkun en hann mundi annars gjöra. Mér finnst hann ætti nú að sjá, að betra væri að taka saman við okkur og sameina allan styrk sem við gætum; því þegar hann fer svona einförum, þá gera þeir ekki nema hlæja að honum. Finsen ætti nú að leggja sig allan til að gjöra okkur ánægða, og koma á frjálslegri stjórn, því hvernig sem fer, þá verður þó fyr eða síðar að reka að því, að við fáum fram vilja okkar að meira eða minna leyti, þareð eg get varla ímyndað mér, að allir þagni fyrir slétt.

Eg vona þú sigrir hreppstjórana í Mosfellssveit, og sama vona eg um mál mitt móti Bille, ekki er samt dómur fallinn í því enn, og verður líklega ekki fyr en einhverntíma í vor.

Vertu ástsamlega kvaddur frá okkur hér.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

279.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn 28/2 '72.

Elskulegi vin.

Fátt er þér í fréttum að segja, utan etc. og svo það, að brennivínstollurinn kemur til þín annaðhvort með þessu eða næsta skipi, og budgettið nýja. Benedikt hefir sína pension einsog ætlað var, eptir að »Vort trúa alþing« hefir sagt álit sitt í gagnstæða átt. Eg ímynda mér, að nú ætti ef kostur væri að hefja mótmæli, og eg held að fá mætti rúm handa þeim, varla samt hér, nema í Heimdalli. Eg vísa þér til Jens með blöðin en

þar er lítið á að græða. Nú muntú hafa búið undir í vetur, og hugsað um vor mál og hverjar stefnur nú skuli taka, en þó einkum að styrkja nervum rerum gerendarum. Hér er nú mest um það að ræða, hvort við getum hugsað til að ná nokkrum samskotum að gagni, og hvernig, hvort menn eiga að taka sig saman um bænarskrár, og hvernig, og hvernig menn eigi að búa sig undir næsta þíng. Eg vildi vita þínar hugsanir um þetta, og einkum hvort þér virðist rétt, að prenta boðsbréf til nýs *blaðs*, eða *tímarits* sem væri Ný Félagsrit aptur fædd og apturgengin. Eg held að *blað* geti aldrei gengið héðan, en tímarit gæti það, ef það fengi næga kaupendur. Svo vildi eg vita hvort þér sýndist ekki rétt að prenta lög Þjóðvinafélagsins »*sem frumvarp*«, svo mörg exemplör sem þyrfti til allra fulltrúa og í hverja sókn, með litlum formála sem taki hérumbil merginn úr bréfi Þingeyínga því í fyrra. Ásgeir kaupmaður heldur það rétt vera, og eg veit hann þekkir Ísfirðínga, en eg vil gjarnan heyra þitt álit. Það er enga stund prentað. Heilsaðu Hallgrími í Guðrúnarkoti kærlega, eg held eg hafi léð honum töfluskýrslu Þíngeyínga til eptirmyndar í fyrra, en aldrei fengið hana aptur. Hann þarf að muna að senda mér hana.

Eg hefi eitt mál sem eg vona þú vilir styrkja af alefli og leggja til með. Við getum fengið Glasgow keypt núna með *öllu* saman fyrir *ekki meira* en 6000 rd. (kannske 5000 — eða *5500* rd.) og borga á þrem árum, nl. 1500 dali strax og hitt á 2—4 árum. Þessu ættum við endilega að sæta til að ná Gl(asgow) fyrir alþíngishús, og bærinn í Rvík gæti líka haft þaraf mestu not til margra hluta, sem eg þarf ekki að rekja fyrir þér. Eg hefi skrifað nefndinni (stiptamtmanni) um það og beðið um svar með skipinu, því eg vildi slá til strax en vil ekkert gera upp á mitt eindæmi. Þú sér nákvæmlega ástæður mínar í bréfinu til nefndarinnar og eg held þær verði ekki hraktar. Blessaður

sjáðu um, að þeir verði nú dugandis, og að Egill styrki okkur í sinn eiginn hag, en ekki spilli. Fari hann í bága, þá er líklegt að kaupmenn komi og spani upp, en þeir þegja þegar þeir hugsa að þar verði ekki um annað að gera en alþíngishús, og svo getum við leigt Egli það á eptir svo lengi sem vill. Eg tel það mestu handvömm ef það sleppur úr greipum vorum. En verði það, þá verðum við að eiga undir kasti með auktion, og er ekki víst, að það heppnist betur, enda getur það verið hripsað frá okkur áður en varir, ef við ekki tökum tækfærið. Fengjum við Glasg(ow) með öllum húsunum, inventario, bryggju, skuldum öllum fyrir 5—6000 rd., kalla eg reifarakaup. Ef þú ert samdóma, sem eg vona, þá agiteraðu kröptuglega í nefndinni, í Egli, í Jóni Guðmundssyni og alstaðar, direkte og indirekte. — Mundu eptir að sjá um, að eg fái Alþingistíðindin, það sem eptir er, og hvað annað sem þú ætlar að gefa mér af íslenzkum bókum. . . .

Vertu nú ástsamlega kvaddur, með konu þinni elskulegri og öllum ástvinum.

Þinn elskandi trúr vinur

Jón Sigurðsson.

Ætlar stiptamtmaður alþíngi stað í nýja tugthúsinu? eða á »yfirhúsið« að vera þar (hinir konúngkjörnu)? Eg heyri því fleygt hér, og að íslenzka departementinu líki vel sú uppástúnga — þeir þar vildu líklega helzt að alþíngi sæti á Guðnasteini.

280.

Til Jóns ritstjóra Guðmundssonar.

Khöfn $^{28}/_{2}$ '72.

Elskulegi vin.

Þú hefir lengi haft með Glasgow að sýsla, og þú manst víst eptir að við höfum nokkrum sinnum talað

um, að hún væri eiginlega vel fallin til að gera úr henni alþingishús, ef hún fengist með góðu verði. Eg held hún sé nú föl við góðu verði, því það kalla eg, ef hún fengist fyrir 5 til 6 þúsund dali, eða hálft sjötta með inventario og öllum skuldum, og þurfi ekki að borga nema smásaman á svo sem þremur eða fjórum árum. Láttu nú sjá, kæri! og hjálpaðu til hvað þú getur, að við fáum þetta í gáng. Eg hefi skrifað nefndinni fyrir samskotum til þjóðhátíðarinnar greinilega um þetta, og eg vona þið haldið fund til að resolvera um málið, og þar bið eg þig að styðja það sem bezt, því þú ert málinu gagnkunnugur, en eg get varla trúað að þar sé þeir leyndir annmarkar á, sem ekki verði ruddir. Eg get ímyndað mér, að Egill vili kannske kaupa, en honum getur ekki verið neinn ábati í því, ef hann fær það til leigu með sanngjörnum kostum, og það áliti eg rétt að semja um við hann áður en hann fer, ef hann fer til Englands, svo að hvorir skili aðra, en líklega ætti það að fara leynt, og hann geti jafnvel styrkt að því, að kaupin gángi saman með sem beztum kostum fyrir okkur. Eg treysti því, að þú gerir allt hvað þú getur til þess að koma þessu í bezta lag. Eg skrifa stiptamtmanni og sendi honum bréfið til nefndarinnar, sem eg vona þú takir ekki illa upp, þó þú sért skrifari. Eg skrifa líka hinum nefndarmönnunum, því mér þætti það ill handvömm, ef við misstum af þessu, þar sem mér finnst við beinlínis gætum grætt fyrir samskotasjóð vorn hvernig sem færi. Eitt atriði hefi eg ekki getið um, og get ekki um nema við þig, það er hvort þér sýndist að við ættum að leggja Þíngvallaskýlissjóðinn okkar gamla til þessa, ef fjár þyrfti með. Eg gef þér fullt vald til að játa því fyrir mín hýti, ef þér þætti þar ástæða til; en ef þess þarf ekki, þá nær það ekki lengra. Eg treysti því, að þið verðið í þessu máli bæði séðir og samdóma. Eptir því sem

eg get séð vinnum við ekkert við að draga málið og láta koma til auktionar, eða hleypa málinu í drátt.

Norðmenn í Björgvin boða nú gufuskipsferð í kríngum land. Það held eg við eigum að styrkja hvernig sem fer. Þeir senda Þorsteini Egilss(yni) boðsbréf og mun hann koma til þín með það. Án þess að vilja fara í bága við hann, sendi eg þér afskript og væri það einkum til að flýta fyrir að koma því í Þjóðólf að eg sendi þér afskript, sem þú getur látið íslenzka og tekið í blað þitt.

Svo fór sem okkur varði í fyrra, að Krieger setur á okkur brennivínstollinn. Formelt er það kúgunarlögmál, en það gefur okkur kröfurétt, því ekki geta þeir svipt landssjóðinn þessum tolli. Eptir því sem sagt er þá kemur þetta lagaboð kannske nú með skipinu, og budget með. Það fær þú að vita, því hér er það leyndarmál, og muntu án efa skoða það í kjölinn.

Minn elskulegi góði vin var hjá okkur nýlega.

Með ástar kveðjum þinn einlægur vin

Jón Sigurðsson.

281.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn $^{14}/_{4}$ '72.

Elskulegi vin.

Þú hafðir rétt í því að eg fékk Cito-bréfið þitt seinna en Díönu-bréfið, en eg þakka þér kærlega hvorttveggja. . . .

Um Þjóðvinafélagið heyri eg góðar undirtektir alstaðar að, en sjóðurinn vex lítið. Benedikt hefir ekkert talað við mig um, að hann hafi safnað fé til félagsins, og meðan hann ekki skýrir frá því, þá þegi eg, og læt

það félaginu óviðkomandi. Eg er nú að láta prenta lögin og fulltrúaskrána, svosem handrit handa fulltrúum félagsins og forstöðumönnum, en annars get eg á, að blaðamenn verði ekki seinir að kraka í og prenta, einsog adresse og annað ófrjálst. Getur ekki Jón Guðmundsson staðizt þá freistni þángaðtil hann getur fengið það með frjálsu? Mér þykir skrítið að hann er að kvarta yfir að við förum bak við sig, og má þó muna, að við kvöddum hann til fulltrúa fyrstan manna en fengum hryggbrot. Eg sendi þér bréfið, ef þú vilt auglýsa úr því það sem nauðsynlegt er, en kannske þú álitir það óþarfa, og þá gildir mig einu. Ef hann meinar að Jón Guðm(undsson) hafi átt að verða fulltrúi, en ekki ritstjóri Þjóðólfs, þá held eg þó, að Jón Guðm(undsson) hafi einhverntíma sagt ritstjóranum frá öðru eins, og það er líklegt að ritstjórinn geti þagað yfir því þángaðtil félagið sjálft vill segja frá því. Eg sendi þér lögin strax og þau verða búin. . . .

Um erindagjörðir Finsens heyrist ekkert enn; menn segja hann vili verða landshöfðíngi, Bergur eigi að vera stiptamtmaður (amtm. yfir Suður- og Vestur-amti, skólastjóri og prestapati), Árni fjárhagsstjóri, og Hoskjær bæjarstjóri. Þetta eru bollaleggíngar, sem þeir hafa látið í ljósi á gufuskipinu. Þegar Finsen á að verða landshöfðíngi, þá verður hann líklega að fá stjórnarskrá lögleidda, annaðhvort per fas vel nefas, nl. breytta eða óbreytta. Þá eru nýjar kosníngar sjálfsagðar, og ef svo fer, þá líklega í haust. Hér er því nauðsyn að vera allshendis á sínum pósti, hvenær sem kallið kemur, og reyna að hreinsa kosníngar sem bezt að má, þartil þarf líklega góðan kandidatalista, að tölu einsog í uppástúngum alþíngis til vonar og vara, og jafnframt með lagi að láta þá detta úr sögunni sem eru ótækir. Eg geri ráð fyrir að enginn geti brúkað síra Helga skepnuna og enginn síra Þórarinn, líklega heldur ekki Grím.

Þú gerir að mér finnst rétt og forsjálega í að fara hægt og gætir þú fengið einhverja til að beita fram fyrir þig, þá held eg ekki væri neinn skaði að því. Finsen er nú sár við þig líklega vegna fyrri kunningsskapar, og á mig ætlar hann að leggjast með því að svipta mig vísindalegum styrk þeim sem eg hefi haft og líklega íslenzka lagasafninu. Hann er víst alveg í eigu Péturs Guðjónssonar og Hoskjærs, einsog Trampe fyrrum. Hér og í Noregi rignir nú niður greinum, og ein er stækust í Björgvinartíðindum frá Reykjavík um hina konúngkjörnu. Eg gæti séð framaní Hjaltalín, þegar hann les þann þátt. Endirinn má þó verða, að kaunið holgrafi og að útgángurinn byrji smásaman. Finsen hefir víst aldrei ímyndað sér að svo mikið heyrðist til okkar einsog nú fer að verða. Menn segja hann hóti að fara burt, ef hann ekki fái uppástúngur sínar allskostar samþykktar, en það hefir hann fyr sagt og ekki orðið úr. . . .

Eg held þó víst, að Hallgrímur hafi fengið skýrsluformið, en það stendur reyndar á litlu; hitt þykir mér verra, að þeir eru að segja mér, að hann sé orðinn svo skrambans linur, og að ekkert hafi orðið úr mótmælum Borgfirðínga móti sýslusameiníngunni. Er það ekki einfalt, að gegna ekki sýslumanni sem maður ekki vill hafa? hvað verður við það gert ef enginn kemur á þíng, enginn gegnir bréfum etc.

Þeir Jón Vídalín og Jón frá Melum koma nú heim til þín líklega alfarnir. Þér er víst óhætt að eiga undir þeim í pólitiskri agitation, því þeir eru víst vel undir það búnir og Jón Vídalín hefir víst mikið að segja hjá síra Friðrik.

Eg sendi þér að gamni mínu blaðadeilu mína við síra Schleppegrell, »er vér köllum grásleppu«. Hann hefir ekki svarað síðan, en er líklega að draga saman í köggul handa mér. Það er gott, ef þú gætir fengið Jón Guðmundsson til að koma inn í oppositionina. Það

er líka honum eins ómissandi og okkur, því lítið draga hann 7 eða 10 kaupendur móti nokkrum hundruðum sem hann fengi nú ef hann gengi alveg í okkar flokk. En hann má ekki berja í brestina, einsog hann gerir nú, og senda okkur skítköggla þegar minnst varir, vinum sínum, til að þóknast hinum, sem þakka honum með spotti og athlægi.

Um breytíng á Félagsritunum fer eg eptir því sem á stendur. Þú hefir víst alveg rétt, *ef* efnin væri eða yrði nóg, bæði ritlega og fjárhagslega, en það er ekki allskostar svo.

Ástar kveðjur frá okkur.

Þinn einlægur vin

Jón Sigurðsson.

## 282.

Til Sigurðar prófasts Gunnarssonar á Hallormsstað.

Khöfn 5. Mai 1872.

Elskulegi vin.

... Eg sendi þér nú nokkuð af lögum Þjóðvinafélagsins, sem þú brúkar eptir conduite og kríngumstæðum, einnig reikníng yfir það sem eg hefi tekið við síðan í fyrra. Síra Gunnar á Svalbarði skrifaði mér, að Eggert bróðir hans yrði sendur frá Gránufélaginu til að ferðast um hjá ykkur, og skoraði á mig um leið að fá honum einskonar erindisbréf til að vinna fyrir Þjóðvinafélagið um leið. Eg hefi nú beztu trú á Eggerti, einsog þeim bræðrum hans, og því hefi eg skrifað svona bréf, sem fyrst og fremst leggur honum fyrir að koma til ykkar fulltrúa félagsins í hverri sýslu sem hann kemur í, og fara allskostar eptir samráði við fulltrúana. Eg vona, að þér mislíki ekki þetta við mig, og treysti því, að þið komið ykkur saman, en þar sem svo yrði,

að honum og fulltrúa félagsins litist sitt hverjum, hefi eg gjört ráð fyrir, að þau atriði skyldi falla niður. Eg held að það væri gott, að svo gætinn maður og laglegur einsog Eggert ferðaðist um og héldi fundi og talaði við menn.

Finsen stiptamtmaður er nú hér að politisera við Krieger, þángaðtil Kr. fer til baða í Þýzkalandi til að þvo í sér augun, því þau eru orðin sljó eptir lagaboðin íslenzku. Það er sagt, að þeir sé nú að búa til konúnglega »tilskipun« um stjórnina á Íslandi, sem seti »landshöfðíngja« (Finsen), stiptamtmann og amtmann yfir Suður- og Vesturamti (Berg), og svo lofi amtmanni nyrðra og eystra að standa, en taki frá valdi amtmanna sumt, og leggi til landshöfðíngja, ennfremur segja þeir að Árni Thorst(einsson) eigi að verða landfógeti einúngis, en annar bæjarfógeti og sýslumaður. Sagt er og, að sérstakur »skrifari« eigi að vera hjá Pílatusi, og halda menn að Hoskjær sé kjörinn til þess. Það er og líklegast, nema Pétur Guðjónsson yrði fyrir því. Þetta allt saman segi eg þó ekki sem víst, heldur sem fregn. . . .

Bréfið til Þorkels Jónssonar komst strax, hver árángur sem þar af verður. Eg tel aldrei uppá ykkar spekulationir hvorki í verzlun né öðru meðan þið hafið ekki ykkar eigin menn til að fylgja málunum og sjá um ykkar vegna bæði hvað gjöra þarf og hvað gjört er. Þó það kosti meira að nafninu, eða í fljótu áliti, þá vinnur það sig upp í reyndinni, því hafið þið áreiðanlega menn fyrir málunum þá er þeim betur borgið, og þá getum við fengið vit á einhverju, þar sem við sjáum annars allt með útlendra augum.

Forláttu, minn elskulegi, þenna stutta miða og vertu með þínum öllum kærlega kvaddur.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

## 283.

### Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Kh. $^{25}/_{5}$ '72.

Elskulegi vin.

Kærar þakkir fyrir bréf þitt seinasta, og Alþíngistíðindin, sem komu með skilum. Eg veit ekki hvort liggur á borgun fyrir þau, en eg hefi ekki núna fé fyrir hendi til þess, og verð eg þá að biðja þig gott fyrir mig ef á þarf að halda.

Finsen er nú að politisera, og fer það mjög dult, en þó finnst mér maður geti sagt hérumbil stefnuna. Hún mun vera sú, að stjórna með absolutismus undir hjálmi laganna 2. Januar. Finsen verður þá »landshöfðíngi«, með erindisbréfi Kriegers, og honum verður fenginn til aðstoðar »sekreteri«, sem líklega verður Hoskjær. Þá verður sameinað Suður- og Vesturamt, og Bergur settur fyrir sem stiptamtmaður, og honum fengin umráð kirkju og skóla með biskupi. Af valdi amtmanna verður sleikt ýmislegt og fengið landstjóra, en annars mun lítið verða lagað, samt er sjálfsagt meiníngin, að landshöfðíngi skuli stjórna absolut, og einkanlega leggja sig eptir að koma administrativstjórninni í það horf, sem honum þykir henta. Þartil mun og heyra, að taka bæjarráðin frá Árna, og fá honum sjóðinn einúngis, en sameina bæjarfógetadæmið sýslunni. Þetta system mun nú bráðum koma í ljós, og þá getur maður bezt dæmt um það, en það getur maður líklega á næsta alþíngi, ef ekki verður breytíng á því. Þú hugsar víst um að áminna fólk, að vera búnir við nýjum kosníngum ef á þarf að halda, og þá ætti svo að vera fast hjá okkur, að enginn gæti orðið kosinn nema sá, sem lofaði að fylgja vorum flokki einkum í stjórnarmálinu. Eg er hræddur um, ef þessu fer fram, að beint mistraustsvotum verði að koma og alvarlegt ávarp til konúngs um allt þetta stjórnarathæfi og fjárstjórnina

einkanlega meðal annars, en þá ríður á, að *allir* þjóðkjörnir sé með, og mæti, svo að full og lögmæt sé talan þó allir hinir konúngkjörnu fari út.

Eg sendi þér nú lögfrumvarp Þjóðvinafélagsins og reikning, og af meðfylgjandi blaði sér þú hverjum sent er og hve mörg ex(em)plör.

Um slettur Jóns Guðm(undssonar) þurfum við ekki að kæra okkur svo mjög, þær eru reyndar mér óskiljanlegar, nema þær ætti að vera til þess að gefa óvinum okkar undir fótinn, en Jón er svo vanur að berja í brestina fyrir sér og öðrum, og slá sig á sinn munn, að maður má ekki taka honum það illa upp. Lakara er að eiga við Benedikt, því glennur hans eru ófyrirsjáanlegar. Hann hefir ekki sagt mér neitt frá um agitation sína fyrir Þjóðvinafélagið, en Páll Vídalín skrifar mér um, að hann fái styrk Húnvetnínga til prentsmiðju, og Jón Guðm(undsson) skrifar mér um samskot til Þjóðvinafélagsins úr Árnessýslu, sem honum hafi verið fengin. Þegar hann kom hér, segir hann mér ekki frá því með einu orði. Svo spurði eg hann heldur ekki. Nú þarnæst sendi eg honum reikníng minn og 20 ex(emplör) af lagafrumvarpinu, og þá segir hann að hann þurfi að skrifa mér til um þetta efni, — NB. þar varð ekkert af! — og á þá leið sem þar sé nokkuð óklárað, en biður mig um leið að skrifa undir meðmæli, sem hann hafði fengið Magnús Eiríksson til að gefa sér, um að fá styrk til prentsmiðju. Það gat eg nú ekki skrifað undir. Nú fór hann til Noregs, en úr miðju kafi fæ eg telegram um að mæla með honum til þessa prentsmiðjustyrks, og beðinn um telegrafsvar. Eg svara, að prentsmiðju á Íslandi álíti eg gagnlega, en það sé svo mikið komið undir hvernig hún skuli löguð, og um það viti eg ekkert hans plan. Nokkru síðar fæ eg bréf frá B(enedikt) að þetta hafi verið of óákveðið, og biður nú um meðmæli sent Björnst(jerne) Björnssyni, en nú get eg ekki svarað því

öðruvísi en fyr og þegi þessvegna. Eg heyri líka að prentsm(iðja) sé sett á Vatni. En aðalsökin er sú, að eg held ekkert vit í fyrir Ben(edikt) að stofna prentsmiðju, og held hann ekki mann fyrir henni, enda þó Jón Ólafsson væri með, en að Þjóðvinafélagið stofni prentsmiðju þykir mér hæpið, og víst mætti hún þá ekki standa undir Benedikts ráðum. Í öllu falli væri þetta undir félagsályktun komið. Eg læt mér hægt, nema undir hendinni, um félagið, og því tek eg ekki hart á þér, sízt meðan maður heyrir ekki meiri hreyfíngar úr sveitum, en margir liggja þér á hálsi fyrir deyfð í því efni, og eigna það því, að þú hafir beyg af valdinu, og þér hafi verið hótað afsetning, m. m. — Það er þó víst ekki satt nema þér hafi verið bent til þess í vinsemd af öðrum? . . .

Ástar kveðjur.

Þinn elskandi trúr vin

Jón Sigurðsson.

284.

Til Jens rektors Sigurðssonar.

Khöfn $^{25}/_{5}$ '72.

Elskulegi bróðir.

. . . Ekki hefi eg þorað að fara að stúdentum með tillag til legats Bjarna, en eg hefi útvegað 40 rd. til þess, og það vona eg þú sért ánægður með frá fátækum mönnum. Vilh. Finsen tók við því frá mér og mun senda það til ykkar. Eg held ætíð mikið uppá Bjarna karl og hann hefir líka áður fyrri verið þér góður. Eptir því sem mér heyrist núna, þá er Steingrímur Thorsteinsson farinn að verða fúsari til að fara heim, en áður, og víst held eg hann sé sá bezti sem þar er völ á. Eg sakna hans mjög, en eg þori ekkert að segja,

því eg sé hann á ekki kost á neinu betra hér, eptir því sem út litur fyrir. . . .

Jón Árnason er mikið áfram um að selja kvæðasafn sitt. Það er það fyrsta sem til er, það er nú víst, en hitt er annað spursmál, hvernig á að fara að ná í það og hver getur keypt það. Mér hefir dottið í hug, hvort skólinn og Bókmentafélagið gæti ekki hjálpazt að, svo að skólinn hlyti safnið, en félagið gæfi nokkuð til, og létti skólanum með því kaupið. Í rauninni er það félaginu eins gott, þó skólinn eigi safnið, einsog þó félagið ætti það sjálft, en eg get ímyndað mér að þetta yrði mikið í móti doctrinair skoðunum þeirra yfirvaldanna. Eg held, að það mætti fá félagið til að veita t. d. 300 rd. (100 rd. á ári) þegar skólinn léti 500 rd. (200 + 200 + 100 rd. á ári), eða einhvernveginn á þessa leið, en eg hefi reyndar ekki fulla hugmynd um, hvort safnið sé 800 rd. virði, eða hvort Jón Árnason væri fáanlegur til að slá af. Þú ættir að bræða þetta og Jón Þorkelsson, því vænt væri að fá safnið. Mér finnst spursmál hvort prestaskólinn gæti ekki girnzt sálmasöfnin þar í, til þess að hressa við sálmabókina með, og stiptsbibliothekið ætti að geta lagt til svosem 50 rd. — En eg geri ráð fyrir að matníngur og smánirfilskapur komi hér einsog vant er í bága, því Finsen hefir erft það eptir frænda vorn Finn hinn nauma.

Vertu ætíð blessaður með öllum þínum.

Þinn elskandi bróðir

Jón Sigurðsson.

285.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn $^{6}/_{7}$ '72.

Elskulegi vin.

Nú sendi eg þér að gamni mínu númer af Ministerialtíðindum, þar sem þú sér fífilhnappinn á þessari

politisku hrafnablöku þeirra Kriegers og Finsens. Þar við á nú að standa, hugsa þeir. Við snúum því og tökum það í Félagsritin, einsog annan títupjón, í þesskonar safn sem við erum að búa til og köllum prjónakodda stjórnarinnar. Þú ert í standi til að finna títuprjón, til að stinga í koddann. Ritin koma með næstu ferð. Vel kann það vera satt, að við getum ekki fyr en á næsta alþíngi gert neitt verulegt, en nú höfum við þó spilið opið, og mér sýnist nú væri tími til að skrifa krítík í blöðunum, fá að vita hreina Erklæring Finsens, hvort hann vill útvega alþíngi löggjafarvald og fjárráð og fylgja okkar kröfum í öllu verulegu, eða despotisera. Vili hann despotisera, þá almennt ótrúarvotum og pereat. — Svo er að búa enn sterkara undir til næsta alþíngis. Eg hefi fengið ávörp úr 3 eða 4 sýslum, en það tel eg ekki, og læt það ekki fara að svo komnu. Landar vorir eru svoddan »Dovendyr« og Sigmundar seintíverar, að þar er ekki hóf á. Þar að auki eru þeir svoddan tyrones í agitation, að þeir hafa bæði augun aptur. Þeir Rángvellíngar með Sighvat í stafni eru nú góðir! ætla að brúa Þjórsá og Ölfusá með 114 dölum, en treysta sér ekki til við Þjóðvinafélagið, til að hafa ekki ofmart undir í einu! — Og veslíngarnir! ætli þeim farist ekki bezt að hafa ekki annað undir í einu en að skera niður hjá sér; það eina fyrirtæki er nóg til þess að fría þá bæði við brýrnar yfir ár sínar og við öll félög, nema til að brúa veginn til Heljar. Þetta er þó merkilegt, að mennirnir skuli vera á fundum og sjá það ekki, að því að eins gengur nokkuð fram að það sé styrkt af þeim sem vilja fylgja því, án tillits til annara; ef maður fer ekki svo að, þá drepa menn það sem menn vilja að lifi, og iðrast svo eptir. Þú verður að taka ofaní Sighvat, og láta hann bæta sig, og sýna það í því, að hann fái góðan mann valinn í Vestmannaeyjum næst, sig eða annan ekki lakari.

Mér finnst nú meira ríða á að fá stemning fyrir Þjóðvinafélaginu, heldur en á opinberum fundum. Eg held þeir sé fúsir að styrkja þig til þess margir. Það er nú Egill Egilsson, Sigfús Eymundarson, Jón Borgfjörð, síra Matthías og víst fleiri. En okkar »kontribuerandi« meðlimur Jón Guðmundsson? — Við skulum aldrei tala um neina negativ kritik, því þú skalt aldrei heyra af mér þessháttar. Þú gerir hvað þú getur og þér þykir ráðlegt, og þar er ekki meira um að gera. Þessi heimuglegu félög í Rvík væri víst góð til að undirbúa og stemma menn. . . .

Með kærustu kveðjum.

Þinn trúr vinur

Jón Sigurðsson.

286.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn $^{15}/_{8}$ '72.

Elskulegi vin.

Kærar þakkir fyrir bréf þitt síðasta. Það virðist mér vel, sem þú segir, að fá nokkra helztu menn á fund til að tala sig niður í stjórnarmálinu, og búa undir til alþingis, en láttu þá vera þagmælska. Hér er spursmál um að vísa frá öllum konúngsmálum og taka einúngis þegnlegu málin (nefndir má setja pro forma í konúngsmál eins fyrir því). Svo er spursmál um að kjósa permanent nefnd til að gángast fyrir málum vorum innanlands og utan, og á landsins kostnað. Svo er spursmál um ótraustsvotum á öllu saman sem nú er, og kröfu til sjálfsforræðis og fjárráða. Það er mikið unnið, ef allt þetta er undirbúið til alþíngis og þarmeð skrifað í blöð og safnað fé til muna. . . .

Finsen gerir enga lukku hér með sínu landshöfðingjadæmi, þeir taka það flestir svo, að það sé einúngis persónuleg ágirnd, til að fá hærri laun. Hann kvað annars hafa heitið fyrir sér, að sýna okkur í tvo heimana ef hann fengi nóg völdin, en ætli það verði ekki svona líkt og vant er.

Það sem mér virðist mega gera, og vera til mikilla nota, það er að taka sig sem bezt saman, festa Þjóðvinafélagið, skrifa í blöðin, búa undir alþíng, safna fé, og þetta er mjög mikils vert, því án fjárstyrks gerum við ekkert, með fjestyrk megnum vér mikils. Verzlunarfélögin ætti að geta verið okkur að mesta gagni. Við þurfum að hugsa um að sjá út menn til að ferðast um og halda fundi og safna fé, til að fara utan og læra eitthvað, einnig til að fylgja málum vorum, einnig að skrifa í blöðin í vora interesse. Mart má gera, ef efni væri nóg til að borga með, og nógir duglegir menn. Það er örðugt að skrifa um þetta efni nema eitthvað almennt, og kemur það til þín. Þú hefir þarna við hönd þér Egil, og ekki einúngis hann, heldur og Hallgrím, kannske Hjálm, Sighvat (sem væri betri í hóp) og hina aðra vestanmenn og Norðlínga. Skapti Jósepsson er ótvílugur, Tryggvi ekki síður, nafna minn þekkir þú. Þá held eg sé nú fullvel liðað.

Þú segir, að engin heimugleg félög sé í Reykjavík. Annað segir Valdemar Briem í Fréttum sínum af Íslandi 1871. Hann segir þar ekki einúngis frá Þjóðvinafélaginu heldur og frá öðrum heimuglegum félögum. Þú ættir að vita hvernig þeim hagar til. Svo er líka blaðið »Tíminn«, það er sýnilega organ biskupsins og síra Þórarins etc. Þessi Páll Eyjólfsson hefir ekki vit á hverja leið hann er að fara. Húss- og bússtjórnarfélagið gæti haft mikið gagn af Þjóðvinafélaginu sýnist mér, nema svo sé, að Finsen geti á engan hlut fallizt sem við komum með. Þá eru blöðin hinn fastasti grjótpáll til að eyðileggja þetta nýja landstjórnarplan og fá upp alþíng með forræði að nokkrum mun.

Þú mátt annars passa uppá Bókmentafélagsdeildina, að hún prjóni ekki svo hátt að hún detti apturábak. Þú munt ekki hafa verið við, vænti eg, á fundi, af því þú slær slöku við félagið í þessari tíð. Það er þó ekki rétt, því þar má gera mart gagn og mart ógagn. Taktu þig á með þetta.

Þá man eg nú ekki meira í senn. Vertu ástsamlega kvaddur með öllum þínum.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

287.

Til Torfa Bjarnasonar, síðar skólastjóra.

Khöfn $^{25}/_{9}$ '72.

Elskulegi vin.

Það er nú lángt síðan eg sá bréf frá yður, og er það að vísu mér að kenna, því eg hefi líklega ekki einusinni sent yður viðurkenníngu fyrir það sem þér hafið sent til mín fyrir Félagsrit, fyrst 12 rd. og svo aptur í vetur er var 4 rd. Þessar sendíngar þakka eg yður hérmeð, og vona þér hafið enn fengið Félagsrit í haust. En það sem mig langar einkum til að tala við yður um, það er að vita hvort þér gætið ekki fengið tíma til að semja ritgjörðir um búskap og einkum jarðabætur og fénaðarhald, sem væri lagað eptir þörfum og efnum okkar á Íslandi. Eg hugsa mér að stuttir ritlíngar um það efni, eða rit sem væri í köflum, svo lögudum að hver gæti komið út sérílagi, mundu geta gjört mikið gagn, ef þeir kæmi út og gengi um allt land, og hugsaði eg það væri eitt af því nytsamasta sem Þjóðvinafélagið gæti gjört, að koma út þessháttar bæklíngum meðal alþýðu, sem gæti verið með lægra verði

fyrir félagsmenn heldur en fyrir aðra. Félagið gæti borgað og ætti að borga ritlaun, því við eigum von á töluverðu fé og höfum þegar fengið allmikið til að byrja með. Ef þér settist nú við, þá gætum við átt von á frá yður dálitlu hepti bráðum, sem við svo gætum prentað í vetur og sent að vori. Það held eg væri ósköp vænt, að fá reikníngsleg dæmi um jarðabætur, sléttanir, vatnsveitíngar o. fl. eptir dæmum sem fyrir hefði komið, eins líka dæmi, sem sýndi hversu spillt hefði verið með klaufaskap og hætt í miðju kafi (en þar væri líklega þörf á að velja úr, til að hafa ekki of mart). Þekki þér ekki til um teigarækt Torfa á Kleifum?

Hèðan er fátt að frétta nema nóga storma um kosníngar til fólksþíngsins til þriggja ára. Bændaflokkurinn hefir sigrað, eða sá flokkurinn sem kallar sig »vinstri«, og hefir hérumbil tvo hluta atkvæða. Sumir halda að þaraf leiði ráðgjafaskipti. En þó svo yrði, þá mundi ekki vera svo sérlega mikil von um, að okkar mál kæmist áfram, eg er líka á þeirri trú, að við fáum það hollast, sem við spennum út smásaman, með því að reyna að ná framför og velmegun og samtökum hjá okkur sjálfum, þángað til við sprengjum af okkur smokkinn, og þá getum við farið úr því sem við viljum sleppa, einsog úr reiðsokkum eða skitnum reiðbuxum. En til þessa þarf töluverðan snerpumun, og það verðum við að hafa hugfast, að héðan af er ekki til neins að halda við trúna á konúnginn sem landsföður og okkur alla sem hans vinnumenn; hann er flosnaður upp í þeim skilníngi, og við getum snúið greininni við og sagt, að þjóðin er húsbóndinn, ekki að höfðatölu, heldur að því sem lýtur til andlegra og líkamlegra framfara, og þar til finnst mér bæði land og þjóð hafa mikla hæfilegleika.

Eg hlakka til að fá frá yður stöðuglega rit um landbúnað allan, eptir tíð og hentugleikum, en eg skal sjá um þér fáið vinnu yðar borgaða eptir samkomulagi.

Þér munið eptir Þjóðvinafélaginu og öllum félögum og samtökum.

Yðar skuldbundinn vin

Jón Sigurðsson.

### 288.

### Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn 26. Septbr. 1872.

Elskulegi vin.

Kærar þakkir fyrir seinasta bréf þitt. Það er von, að þú getir ekki komið norður 20. Septbr. og það er ótækt að þeir setja fund svo seint, en það fer víst eitthvað í handaskolum með fundarstefnuna, því eg heyri nú, að fundur sé eða hafi verið á Þíngeyrum 7. Septbr. og að þar muni hafa verið vestan og norðan menn. Þíngvallafundur getur verið góður, ef þar væri nokkur reglulegur undirbúníngur og stjórn á, en þegar enginn er undirbúníngur og enginn viðbúnaður, hver kemur og fer einsog seppi, þá er svo lítið á þesskonar fundum að græða. Það er samt kannske rétt að fallast á þann fund, en þá ætti að vera nokkur viðbúnaður á staðnum, eða getur það ekki gengið? — Eg fæ núna ávísun til Þjóðvinafélagsins 67 rd. frá Siglufirði, þaraf gefur Thaae 50 rd. og lofar árlega eins miklu. Það er ekki ónýtt ef slíkir væri margir. Nú vona eg eptir Asgeiri frá Isafirði með fulla skjóðu, og þá ættum við að geta gert eitthvað í vetur, þó aldrei væri nema gefa út bæklíng. Um Eggert Gunnarsson hefi eg fregn, að hann hafi fengið c. 2000 rd. í loforðum, en þarmeð er einhver kvittur um, að þeir vili hafa fé því varið í sendiför til annara landa, til að vinna oss lið. Það er nú kannske takanda í mál einhverntíma, en nú held eg það ofsnemmt og féskýlft, en árángur óviss og lítt meiri en

annars fengist án mikils kostnaðar. Þessvegna álít eg hyggilegra að ná þessu fé inn og hafa það til, og svo hefi eg mælt fyrir við Tryggva. Loforð met eg að engu og ekkert nema fyrirliggjanda fé, og annars er eg líka fastur á því, að öll aðalviðleitni vor nú eigi að vera framför í praktiskum hlutum, verzlunarsamtökum, jarðrækt, sjómennsku, vegabótum, og þar jafnframt »eindregið nudd« um stjórnarbótina. — Þú fær nú að heyra um norska félagið, að það sé fallít, og norska verzlanin á hausinn, eða réttara að segja af hausnum, Jón Sigurðsson seldur mansali o. s. frv. Samt skaltu ekki verða hræddur, því allt stendur á fótunum, og það eitt breytt, að félagið hefir aukið aktíusjóð sinn um 30,000 spec(íur). Hvort þeir selja gufuskipið og kaupa annað stærra og sterkara, veit eg ekki, eða þeir setja sterkari maskínu í þetta og betur kolsparandi. Það er víst annars mikið satt, að Norðmenn eru ekki lægnir verzlunarmenn við okkur, þeir ímynda sér held eg, að við höfum verið svo dauðdrepnir undan Dönum, að við þolum og þökkum allt; en gott væri held eg, að hafa lag við og lempni, og mun þá allt jafna sig. Það væri nauðsyn fyrir félögin, að hafa erindsreka í Björgvin, til að tala máli þeirra og einkum sjá um að vörusendíngin færi í lagi. Við ættum smásaman að leggja í aktíur í verzlunarfélagi þeirra og styrkja þá þannig, og svo smásaman ná hönd í bagga með, því allt er lausara við fyrir okkur þar en hér, þarsem allt situr járnfast, og menn segja nú, að kaupmenn (íslenzkir) hafi nú stofnað heimuglegt félag til þess að eyðileggja norsku verzlunina, víst er það að þeir klappa núna viktoría! og búa til fallítsögur, sem smjúga innanum Börsina.

Ef þú hefðir annaðhvort grein skrifaða, eða púnkta til greinar, um norsku verzlunina, lagaða til að komast í norsk blöð, þá væri gott að fá það, því eg treysti mér til að koma því á framfæri, en annars eru Norðmenn einþykkir einsog við, og láta helzt sannfærast

um tortryggni. Þeir skilja líka Dani betur en okkur, og Danir spara ekki að rægja okkur fyrir svik, pretti, sérvizku og þrjózku, en við okkur rægja þeir Norðmenn fyrir heimsku og hrekki, fátækt og ágengni. Landar vorir eru heldur ekki góðir, því þeir rægja hver annan, og alla lángar í fleskið. Hér þarf lempni og þolinmæði og ekki litla forsjálni.

Nú kemur Steingrímur Thorsteinsson til ykkar, og vona eg hann reynist þér góður og hollur félagi. Hann er kannske ekki svo ör eða uppvöðslusamur, en eg held hann sé áreiðanlega fastur okkar megin með sannfæríng sinni. Eg vona þú hafir ánægju og aðstoð af honum, og þarmeð líka til Þjóðvinafélags og Bókmentafélags. Jón Þorkelsson hefir verið skrambi duglegur að skrifa öllum umboðsmönnum og heimta peninga, en eg vil vona að hann þurfi meira til að láta hænsnin verpa, bæði þá og okkur, heldur en að kalla. Segðu mér hvað þú fær að vita, og búðu í kyrþey undir með eitthvað skynsamlegra en þetta. Eg er ekki fús á neinn ríg við deildina á Íslandi, en eg vil ekki heldur vera varphæna fyrir hana, þegar hún ætlar ekkert að gjöra nema heimta. Heldur þú, að deildin á Íslandi geti framkvæmt þau *lög*, að láta semja og *prenta* tvo Skírna á ári, a) almennan og b) íslenzkan. Eg efast um það ad interim, og vildi gjarnan heyra huggunargrein, ef þú hefir hana til. Nú eru kosníngar hér nýafstaðnar og »vinstri« er nú í meira hluta, en hvort þaðan er nokkurs að vænta er óvíst. Líklega er það þó ekki lakara.

Ástar kveðjur.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

289.

Til Jens rektors Sigurðssonar.

Khöfn 26. Septbr. 1872.

Elskulegi bróðir.

Ástar þakkir fyrir þínar útréttíngar. . . . Hvað snertir handritasafnið, þá getur það verið mikið satt, að það sé nælt saman með ymsu móti, en eg tel það heppilegt, ef það gæti með því móti geymzt til nota, þar sem það vissulega annars yrði ónýtt og engum til gagns. En eg geri ráð fyrir, að Jóni Þorkelssyni þyki það of úngt, og Finsen of íslenzkt til þess að þeir vili leggja til kaupanna. Þú ert að mæla út í þumlúngum milli deildanna, hvað hvor skuli leggja til að jöfnuði eptir efnahag og ástæðum, og þetta er rétt eptir matníngsreglum Jóns Þorkelssonar. En þetta er mér satt að segja viðbjóðslegt. Ef eg vil eiga eitthvað, og eg get keypt það, þá skipti eg mér ekki af, hvort annar græðir á því eða ekki, eða hvort annar ætti að leggja til meira eða minna, ef vegið væri á gullvigt. Því ef svo skyldi vega, og ef þið héldið safninu, þá ætti ykkar deild að borga það allt, því þá hafið þið þess öll not, en ef eptir peníngum ætti að fara, þá gerðist ykkur líklega að borga nokkuð lítið. Nú hugsaði eg mér hinsegin, að félagið ætti að styrkja skólann til að ná safninu og láta hann eiga það og ráða því, en þó svo, að hann legði nokkuð til, vegna þess, að eg álít enda vafasamt, hvort félagið á rétt á að lögum sínum að verja töluverðu fé til handritakaupa. Eg vildi einúngis leggja til með því þegar eg sæi að það væri metið að nokkru, en ekki haft til matníngs og þrefs. Jón Þorkelsson er orðinn ótækur með þetta, eg vil ekki einusinni svara seinasta bréfi deildarinnar, því eg finn þar ekki heila brú í. Hann sneiðir svosem að okkar deild, að við kvörtum undan vinnunni, og þykist þá ætla að létta á okkur, en hann gáir ekki að því, að sá léttir er enginn, nema til að auka vafnínga.

Hann talar um einsog tillagaskuldir sé mestar hjá okkar deild, og sneiðir svosem að því, að við tökum kretí og pletí, en eg sé ekki betur en að í ykkar deild sé mestar tillagaskuldir, og það þó þið gefið upp mest af þeim smásaman, jafnvel háum embættismönnum. . . . Deild ykkar vill láta prenta og binda bækur á Íslandi. — Jú, gott, en *fáið* þið þær prentaðar þar í tíma og eins ódýrt og hér? — Hafið þið von um, að geta fengið samda Skírnira tvo á hverju ári og prentaða í tíma? — Eg efast um það. Það væri mér ekkert á móti, að sleppa Skírni við ykkur, ef eg héldi ekki það væri hefndargjöf bæði fyrir félagið og fyrir ykkar deild. Eg skil það mjög vel, að Grímur gæti ritað einhvern abstrakt politiskan Skírni í »minna hlutans« anda, en það yrði á tveim árum félagsins eyðilegging. — Deild ykkar vill láta ávaxta sjóð félagsins á Íslandi, af því þar sé »svo örðugt að fá lán«. Eigum við þá að selja skuldabréf félagsins og tapa á þeim $10^0/_0$, gjalda undirgjöf undir peníngana til Íslands og leigja þá þar út fyrir $4^0/_0$ með ymsu veði sem fæst? eða hlutabréf okkar í bankanum, sem gefur núna $8^0/_0$, það skyldum við selja fyrir 160 rd. og borga undir þá til Íslands til að leigja út fyrir $4^0/_0$? Kannske það ætti að setja það í Bessastaðina? — Eg skil öldúngis ekki, að Jón Þorkelsson hafi vitað sjálfur praktice hvað hann var að bulla, og það lítur út sem skrifari deildarinnar hafi ekki getað leiðrétt hann, eða hugsað eptir því. Það er veruleg skapraun að fá slíkar uppástúngur, sem ekki ná neinni átt. Það sem við sendum ykkar deild af bókum, gætum við vel og hæglega sent óbundið, en við þykjumst gera það ykkur í hag að láta hepta þær, og ef menn skoða heptínguna á kvæðum Kristjáns heitins, þá er það varla misráðið, því þau flaka í sundur ef uppúr þeim er skorið. . . .

Ástar kveðjur!

Þinn elsk(andi) br(óðir)

Jón Sigurðsson.

290.

Til Jóns ritstjóra Guðmundssonar.

Khöfn 26. Septbr. 1872.

Elskulegi vin.

Eg á að þakka þér fyrir tvö bréf, 27. Juli og 5. Septbr. og þú veizt nú hvernig stendur á, að eg gat ekki svarað fyrra bréfinu, en það var líka gott, því það er að gegna gæsunum sem í gær flugu. *Þó* að við í meira hlutanum hefðum farið fíflslega að ráði okkar, þá er ekkert um það að sakast nú, en eg sé ekki heldur að við höfum gjört það; eg sé ekki betur en að við höfum alltaf haldið sömu stefnu sem 1849 og 51, sem þú sjálfur hefir fylgt og fylgir enn. En hvað sem um það er, þá er að taka málin sem þau *nú* eru, og það virðist mér þú nálgast, en þá reiðist eg ekki þínum prédikunum hinsegin. Hér líkar mönnum vel þínar tvær snörpu greinir, en menn vildu líka þú hefðir leitt þeim fyrir sjónir annað það, að þeir Finsen geta ekki talað um afleiðíngar af minni politik, þegar henni er ekki fylgt. Ef stjórnin fylgdi mínum ráðum, þá mætti kenna mér um afleiðíngarnar, annars er það rángt, og það sem nú er má heita miklu framar afleiðíng af Finsens politik, eða geitarskap hans 1867 og 69, að hann þá ekki setti stjórninni stólinn fyrir dyrnar. Nú gat hann gert það, þegar hann þurfti að ná í meira vald og meiri laun. Annað er það, að ef »mín« politik hefði ekki verið, þá veiztu sjálfur bezt, að þar af hefði leitt, að Ísland hefði verið incorporerað 1851, einsog Færeyjar 1849. Það held eg fæstir hafi viljað, eða vili enn, nema Finsen, og þar kemur þá aptur hans politik, en ekki mín, sem verið er að pota fram. . . .

Nú eru kosníngar nýbúnar til þriggja ára til fólksþíngsins. Vinstrimenn hafa sigrað, og mun svo mega telja, sem þar sé 60 móti 40, og að vinstrimenn hafi unnið eina 14 eða 16 alls. Hvernig sem nú fer, þá

litur helzt út fyrir að stjórn konúngs breytist, en hvort við eða okkar mál vinni við það, er óvíst; eg tel mest uppá hvað við getum tekið okkur fram heima fyrir, svo ekki sjáist annar kostur en að láta eitthvað eptir okkur, og þar til mun vinstri vera ljúfari en þeir sem nú eru. Margir af okkar fyrri kunníngjum hafa nú fallið í kosníngum, svosem Frölund, Monrad, Rosenberg, Rugaard, Barfod o. fl., en Winther gamli seiglast, og Bajer, sem hefir viljað gefa okkur 200,000 rd. árlega og gera Ísland að kóngsríki, hann er kosinn.

Alltaf er þó Grímur að reyna að viðra sig upp við þig, en það litur svo út sýnist mér sem þeir sé að einángrast meir og meir Arnljótur og Gísli Br(ynjólfsson). Arnl(jótur) er nú rekinn úr Gránufélaginu, og Gísli stendur víst heldur lakar en áður eptir fyrirlestra sína. Þeir urðu seinast að biðja hann að hætta, og varð hann þá að hlaupa yfir helmínginn af Landnámu og að hætta í Sturlúngu einhversstaðar með lykkju á lestrinum.

Ástar kveðjur!

Þinn einlægur vin

Jón Sigurðsson.

291.

Til Sigfúsar bóksala Eymundssonar.

Khöfn. $^{6}/_{11}$ '72.

Háttvirti kæri vin.

. . . Það er annars að minni ætlun öldúngis vitlaust, að senda vörur út í loptið og hafa umboðsmann, sem til vill verða, í stað þess að senda sjálfir mann með vörunum, sem fylgir þeim og annast um alla verzlunina. Ef menn tíma því ekki, og yfir höfuð að tala hafa ekki menníngu til annars en að sjá með annara augum og heyra með annara eyrum, þá er ekkert annað

líklegra, en að félögin brenni sig skemmilega, og landsmenn verði eins vitlausir eptir sem áður. Eg ímynda mér að Gránufélagið megi mjög iðrast eptir í þetta sinn, að Tryggvi var hér ekki í vor, það hefir sparað við það svo sem 500 rd. hæst, en það hefir tapað við það kannske 5000 eða meira. Húnvetnínga-félagið hefði líklega legið flatt, ef Pétur Eggerz hefði ekki verið með. Nú stendur það sig bezt af öllum. Hver gætinn maður fylgir sínu sjálfur.

Jú, Norska samlagið var í kröggum, en reisti sig strax aptur og hafði stjórnarskipti. Eg held víst, að það hefði getað lagazt allt, og til góðra nota, ef þér hefðuð verið við; en þér vilduð það ekki og köstuðuð sjálfur öllu í þá með stórmennskunni. Hvað dugir svo að telja sér tölur um þó ýmislegt gángi aflaga, þegar maður kastar strax út barninu með lauginni, ef manni mislíkar og ekki er allt í himnalagi. Eg held að telja mætti upp nokkur glappaskot í dönsku verzluninni líka, ef menn tæki sig til, og það tel eg mestu vitleysu nú sem stendur, að fylla flokk kaupmanna í því að skíta út Norðmenn. Það kemur okkur í koll, það sannast.

Ástar kveðjur.

Yðar einlægur vin

Jón Sigurðsson.

292.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn 7/11 '72.

Elskulegi vin.

Kærar þakkir fyrir bréf þitt. Eg held nú þú hafir rétt fyrir þér í því, að Þíngvallafundur gjöri lítið frá né til, en þó held eg hann þyrfti ekki að spilla neinu.

Um fyrirkomulagið á honum finnst mér réttast að haga líkt og fyr. Mig minnir það sé prentað hvernig þá var hagað; að sýslurnar borguðu þeim sem þær sendu væri í sjálfu sér sanngjarnt, en mér finnst ekki eiga að vísa þeim á það, heldur láta það vera fríviljugt. Að Þjóðvinafélagið borgaði finnst mér ekki vert að hugsa til, því félagið hefir nú sem stendur enga interesse í því. . . .

Eg hefi heyrt að Kristján amtmaður hafi höfðað mál móti Eggert Gunnarssyni fyrir agitationir, en það er gott til þess að spana menn upp betur. Það getur verið þú hafir rétt í, að deputation til konúngs væri ráðleg, einkum ef vinstri kæmist að í vetur, en ætti nokkuð gagn í slíku að verða, þá þyrfti hér að vera fastir menn, sem ekki hefði annað að gera en agitera, og það kostar nokkuð, en það getur verið, að þeir verði ekki ófúsir á útlátin eptir því sem hagur þeirra greiðist. Nú standa menn sig almennt vel, en það gildir að fá líf og fjör í þá og það fær maður því að eins að þeim sé hleypt dálítið upp, annars hánga þeir með höfuðin.

Það eru mest kaupmenn, sem eru að reyna að spilla fyrir Norðmönnum, og koma illu milli vor og þeirra, en við einsog vant er tortryggnir og auðtrúa, fullir af illusionum og jafnframt af kenjum. Þú skyldir hafa séð daginn sem fréttist að Samlagið væri í kröggum, þá var strax sagt að allt væri á hausnum, skipið selt, og allt um koll. Á þrem dögum voru safnaðar 30 þús. spesíur, en þá átti nú — sögðu menn — að selja skipið og hætta öllum dampskipsferðum. Nú fer skipið, og ef það sýnir sig ekki nóg, þá annað stærra og sterkara. Allt ber því að þeim brunni, að félagið haldi fram og geti orðið oss til mikillar stoðar, ef við kunnum að nota oss og styrkja það. Félagið mun, einsog aðrir, mega eiga von á að gera glappaskot, en úr þeim má bæta með lagi, og til þess eigum við að

styrkja, oss sjálfum í hag. Þér er óhætt að fara að prjóna saman púnkta þessvegna, að ekki er annað sýnilegt en að Norðmenn haldi fram næsta ár. Hluturinn er, að félagið hafði lángt of lítinn kapital eptir því sem Íslendíngar gleyptu við því. Sigfús ætlaði að vera flott, en þá bilaði félagssjóðurinn og Sigfús gat ekkert fengið á Íslandi. Félagið átti varla neitt annað en skipið, og hafði alla verzlun uppá krít, allt einsog félögin okkar. Þetta gengur ekki.

. . . Það eru nógu laglegar fréttir sem þú segir mér um Finsen, að hann vili leggja niður læknaskólann. Það verðum við þá að fyrirbyggja með afli og atorku.

Ástar kveðjur.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

293.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn $^{28}/_{2}$ '73.

Elskulegi vin.

Þín vinsamlegu bréf hin seinustu þakka eg þér nú innilega, en einkum alla þína tryggð og hjálpsemi við ekkju bróður míns og börn hennar. Það fæ eg þér aldrei launað sem vert væri. Mér hefði aldrei dottið í hug, að fjárhagur þeirra væri eins illa staddur og nú hefir sýnt sig, en hér er nú ekki annað að gjöra en taka því sem fellur, og eg ímynda mér þú hafir gjört það svo hyggilega sem orðið gat, að minnsta kosti get eg ekkert að því fundið, og hún er ánægð og þakklát við þig fyrir alla þína bróðurlegu aðstoð.

Ekki hefi eg heyrt um, að Grímur hafi sótt um rektorsdæmið, og enginn nema þið Jón Þorkelsson. Eg hefi sent Ansögning, svona til reynslu, og nú trúi eg

málið allt fari til álits stiptsyfirvaldanna, þarmeð trúi eg þau eigi að skýra frá, hvernig farist stjórn skólans í vetur. Ef nú ekkert verður að, þá gjöri eg sjálfsagt ráð fyrir að Jón Þorkelsson fái rektoratið. Sumir tala um, að sr. Halldór á Hofi muni sækja, aðrir um að sr. Ólafur á Melstað sæki, en það er líklega munnmæli hvorttveggja. Það yrði nú svo fyrir mér, að eg yrði að treysta á fornt spakmæli Dana, að þeim sem guð gefur embætti gefur hann og vit til þess, og það spakmæli á vel við í þessum Finsensku einveldistímum, en eg treysti líka uppá velvild kennaranna, að við gætum unnið saman og hjálpazt að til að koma skólanum áfram. Við Jón Þorkelsson höfum aldrei verið í neinni óvináttu, þvert á móti, nema við erum ekki allskostar samdóma í Bókmentafélaginu, en eg er heldur að taka eptir, að hann er að verða konúngkjörinn í seinni tíð, og það þykir mér líklegt honum þyki hart, ef aðskotadýr examenslaust yrði tekið fram yfir hann; eg vorkenni það. Nú fáum við að sjá hvað setur. Þína reyndu tryggð og dánumennsku treysti eg ætíð uppá, og vona að gera mig verðugan til að njóta hennar að.

Um politik okkar er nú lítið að segja, en einhver móður er niðri mönnum. Þeir eru helzt Norðlíngar að ota því, að hlaupa af þíngi; það er vitlaust, en hitt, að þrýsta að konúngsfulltrúa, svo að *hann* verði annaðhvort að þola það sem á hann er lagt, og játast, eða slíta þíngi, undir protesti okkar, það lízt mér betur á. Þeir sem eru eins skíttroðnir af despotii einsog við erum um margar aldir ættum þó ekki að vera svo taugaveikir, að smella í neista þó okkur sé misboðið — ekki *meira* en áður, heldur rétt eins. — Hér er eiginlega finnst mér um að gera, að fá landshöfðíngjann hækkaðan í jarl, eða þá einkum ábyrgðarmenn til stjórnar og löggjafarvald handa alþíngi. Með öðrum orðum: Við höfum administrativ hliðina í stjórnarbátnum en vantar að smíða þínglegu hliðina. Hérna lítur svo út,

sem vinstrimenn sé í snörpum bardaga við stjórnina, og er nú næst fyrir dyrum annaðhvort ráðgjafaskifti eða þíngrof, þarnæst þá sterkari vinstri-flokkur, þá enn sami kostur, og þá enn óvissar kosníngar ef stjórnin stenzt þetta allt, en þá þó samt stjórnarskipti. Um gagn fyrir okkar mál, þó vinstri komist að, hefi eg litla von, en hitt held eg, að ef við sjálfir erum samhentir og »einlægir við kolann«, og einkum ef við hefðum hér þrjá menn í politiskri nefnd um nokkur ár, þá mundi lagast smásaman. Hér er ekki von að gángi fljótt, því það má vera okkur ljóst, að við stríðum á móti föstum og inngrónum hugmyndum Dana, og komum á þann skjá, sem þeim er öldúngis óvænt að slíkur krummi komi á sem vér erum.

Nú er fallinn hæstaréttardómur í máli Benedikts útaf skömmunum um landsyfirréttinn. Það er hér mjög í umtali og þó misskilið, einsog hæstiréttur hafi beinlínis samþykkt skammirnar úr Bensa. En það er merkilegt, hvað Finsen hefir hlaupið á sig, og allir juristarnir syðra hlaupið eptir honum, einsog svínin hér um árið, þegar þau riðluðust út í sjóinn. Það er sagt, að Vilhjálmur hafi þó varað hann við í sumar, að þetta gengi ekki, bezt er þó, ef þeir fara nú að höfða privatmál, og hæstiréttur dæmir svo á eptir, að málið sé orðið úrelt. Þá er von þeir vili halda hæstarétti handa sér í Khöfn! — Það er skrítið, að Finsen tekur allt upp sem crimen læsæ; mig undrar að hann hefir ekki stefnt mér fyrir prjónakoddann.

Nú nú, Norska samlagið strandaði einsog þú hafðir spáð. Allar hrakspár rætast hjá oss. Annars er það án efa satt, að Samlagið hefir átt skilið að drepast, því það hefir byrjað allt of mikið með of litlum peníngum og það sem mest er vert haft ónýta og vitlausa stjórn. Frey er nýkominn híngað og er að garfa. Getur þú ekki fengið þessi smáfélög til að slá sér saman. —

Þinn elskandi vin
Jón Sigurðsson.

*NB.* Eg sendi Jóni Guðmundssyni áskorun til Sunnlendínga um saltfiskinn. Sjáðu um hún komist sem fyrst annaðhvort í Þjóðólf eða sem aukablað. Eg geri það mest fyrir tilmæli kaupmanna að semja þetta, okkar á milli að segja, en eg held eg segi ekki annað en það, sem vel má virðast.

## 294.

### Til Sigurðar prófasts Gunnarssonar á Hallormsstað.

Khöfn $^{12}/_{4}$ '73.

Elskulegi vin.

Ástar þakkir fyrir bréf þitt, sendíng og örnefnalýsíng í haust. Blessaður vertu drífðu upp Þjóðvinafélags tillög fyrir alla muni, og komdu með til alþíngis, því þú ert að minni meiníng ómissandi nú. Hér verður alls þörf ef vel á að fara. . . . Þú talar um að mönnum þyki óákveðinn tilgángur félagsins. Hvernig geta menn sagt annað eins og þetta? Hver getur ætlazt til að tilgángur félagsins sé nákvæmar tiltekinn þegar menn hafa tvær hendur tómar, eða svo gott. Þegar við höfum 10—20—30 þúsundir, og von um stöðuga vöxtu, þá má ákveða nokkuð, en hitt er gömul vitleysa og ráðleysa, að vera að byggja kastala í loptinu og hafa engan skildíng til að gjöra það með. Féð fyrst, og síðan ályktanir um hvað gjöra megi til framkvæmdar tilgángi félagsins, eptir því sem lögin benda. Frá Ísfirðíngum færði Ásgeir kaupmaður félaginu í haust er var 500 rd. Það var sæmilegt, ef slíkt kæmi árlega eða meira um allt land, þá mundu ekki mörg ár líða þángað til Danir mætti fara að spyrja frétta.

Eg ítreka það, að þú verður að koma til þíngs ef nokkur kostur er. Nú í sumar kemur okkur í meira hlutanum til að liggja mest á öllu voru liði, meira en

nokkurn tíma. Annars er til, að iðrið bresti í sundur. Komið þið á Þingvallafund endilega!

Ástar kveðjur.

Þinn elskandi vin
Jón Sigurðsson.

295.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn 16. April 1873.

Elskulegi vin.

. . . Ekki heyri eg neitt um rektoratið, og ekki er farið enn að kalla mig til eiða. Eg heyri sagt, að stiptsyfirvöldin hafi skorazt undan að segja álit sitt, og látið sem það þýddi ekkert, einsog við dómkirkjubrauðið. Það var brillant útúrdúr. Skyldi það ekki vera hugsan, að láta dragast veitínguna til þess að vita hvernig færi á alþíngi, og einkum hvað eg gerði nú. Það var líkt einsog á Þjóðfundinum, að þá var hengt upp agn handa mér, eg átti að fá 800 rd. embætti. Þú sér á þessu, að varla muni ætlazt til eg fari á Þingvallafund. Mér finnst annars, að þú ættir að sjá svo um að þar yrði búinn til skáli, með grind og þakinn vaðmáli eða boldángi o. s. frv. með dálitlum klefum í, og fenginn matur og drykkur o. s. frv. Mér dettur í hug að þeir ætti að fara í nefnd Sigurður Guðmundsson, Egill Egilsen, Sigfús, Sverrir (og þú) og sjá um þetta, og við ættum að fá Þjóðvinafélagið til að taka þátt í kostnaðinum, að meira eða minna hluta. Jón Guðmundsson hefir einsog þú veizt gamlan skýlissjóð. Kannske hann verði með. Passaðu uppá, að allar boðanir til fundarins verði loyal, til þess hann verði ekki fyrirboðinn, því það gjörir ætíð slæmt grugg. Eg vona þér takist að hafa

gagn af Jóni litla frá Álaborg, þó hann nú líklega ekki ráði miklu, og kannske hafi politiskan gatskrekk.

Um Svein get eg ekkert sagt þér að svo komnu, en eg held þið ættið að reyna að fá fleiri únga efnilega menn til að fara til Skotlands, Noregs, Svíþjóðar, Sveits o. s. frv. til að læra jarðyrkju, fjárrækt etc.

Ástar kveðjur.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

296.

Til Jóns ritstjóra Guðmundssonar.

Khöfn 16. April 1873.

Elskulegi vin.

Kærar þakkir fyrir bréf þitt seinasta einsog allt annað gott, nema það gerir mér illt, að þessi politiska meinloka er alltaf í höfði þér, einsog heinin í höfði Þór, og eg næ ekki í gömlu Gróu til að syngja yfir hausamótunum á þér. Um rektoratið frétti eg ekkert, nema að stiptsyfirvöldin kvað loksins hafa snúið uppá sig og sagzt ekki vilja segja neitt, því sér væri ekki gegnt einsog um dómkirkjubrauðið hérna um árið. Það var ansi góður hnykkur! einsog þinn, að vilja taka mig til inntektar fyrir alla incorporations- og usurpations-politik stjórnarinnar, og blessa mig fyrir það. Ertú þá kominn á hana líka? Svo eg seti mig á sama stól, þá segi eg að stjórninni megi vera það mikil ánægja. En alvarlega að tala, held eg það víst að *ennþá* sé engu spillt af okkar hendi, og eins hitt, að við vinnum *ekkert* með því, þó hvorir sé að ónotast við aðra. Eg held við getum sagt hvor við annan: skjóttu þángað, sem meiri er þörfin! — Það sýnist mér nú líka þú sért að reyna í Þjóðólfi, og eg þakka þér að mínu leyti fyrir það. Þó þeir konúngkjörnu kalli það rugl, þá kalla eg

það í mörgum greinum gott, í sumum ágætt, og eg sé ekki að maður skemmi málstað sinn í neinu með öðru eins, þó maður að vísu hafi ekkert fram með því að svo komnu, í því tilliti fer fyrir þér einsog mér. . . .

Ástar kveðjur!

Þinn einlægur vin

Jón Sigurðsson.

## 297.

### Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn $^{26}/_{9}$ '73.

Elskulegi vin.

Ástar þakkir fyrir samveruna seinast. Ferðin gekk vel og allt var hér í sínum gömlu skorðum. Blöðin voru að jagast hálfvegis útúr íslenzka málinu, og eru enn að því. Sumir, með Gísla í broddi fylkíngar, taka undir með Víkverja, að alþíng hafi gefið sig uppá sjálfdæmi, aðrir svosem Rosenberg sem sjá ekki annað, en að alþíng hafi krafizt sama og fyr. Landar vorir eru vokins um hvort réttara sé, en sumir eru komnir uppá að skilja þíngið og þykir það hafa farið mjög klóklega að. Þú fær að lesa Gísla í Berlíngi, og dást að hans mælsku og lærdómi, en eg held þar sé ekkert gagn í, því það sem er rétt er ekki nýtt, og það sem er nýtt er vitlaust. Eg hjó eptir, að hann vill sanna incorporation í Noreg á því, að í bréfi Íslendínga frá 1319 standi »*voru* og virðulegu« ríkisráði. Það væri ekki öldúngis þýðíngarlaust, ef það væri rétt, en þú og hver einn sér, að það hlýtur að vera bjagað, þó eg hafi nú sjálfur látið prenta það svona. Þar á að lesa »öllu *vitru* og virðulegu« etc. og svo er í afskript sem Jón Pétursson á í dómabók og í þrem handritum sem eg hefi. Það er auðsýnilega rétt. Ef eg nenni að svara Gísla nokkru, þá tek eg þetta fram, en annars skrifa eg þér það líka, til að vara þig við þessari flugu. Hitt

er flest auðhrakið hjá honum. Skrifaðu mér ef þú fréttir nokkuð merkilegt, eða kannske líka þú verðir hér í vetur, ef þú verður ekki settur fyrir skólann.

Julíus segir þér allt af létta, og því sting eg mínum penna í slíðrar, en vænti mér betra tækifæris síðar að snakka við þig.

Ástar kveðjur til þín og þinna.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

298.

Til prófessors K. Maurer's.

Khöfn 14. Oktbr. 1873.

Hæstvirti elskulegi herra prófessor Maurer.

Síðan eg kom frá Íslandi aptur hefi eg talað við Meidell, og hann hefir sagt mér að þér hafið fengið frá sér hið helzta af því, sem hefir gjörzt viðvíkjandi vorum íslenzku málum. Eg ímynda mér, að þó sumt af því sé nokkuð skrítilegt, og sýnist vera hvað mót öðru, þá munið þér vera svo kunnugur, að þér getið skilið frá það sem hefir nokkur líkindi fyrir sér. Það er hálfskrítinn snúníngur, sem nú er kominn á í sumar, og stendur svo af sér, að Jón frá Álaborg, sem er orðinn landsskrifari, tók fyrir sig, strax þegar hann kom, að stofna blað, sem heitir Víkverji, og þér munuð víst hafa fengið. Hann kemur samt ekki fram sem ritstjóri blaðsins, en það er Páll Melsteð, en Jón er líf og sál í því. Hann hefir þá marga fyrir styrktarmenn, svosem Gísla Magnússon, Steingrím og fleiri. Á botninum er stefna blaðsins án efa dönsk, en ofaná er hún íslenzk af þeirri tegund sem danskir Íslendíngar hafa. En eitt hið skrítnasta er það, að nú er eg og mínar meiníngar teknar sem fundinn fjársjóður, þar sem áður var reynt

til að slá mér niður við með hrokaskömmum, þegar Preben Hoskjær var hjá Finsen. Þetta kemur nú nokkuð af því, að Jón er persónulega velviljaður mér, en nokkuð er politiskt í því, til að gera mig grunaðan og reyna að koma dreifíng á okkar hóp. Jón skrifar líka híngað til »Dagblaðsins«, og þá kemur það svo undarlega við, að hann hælir mér sem mest um sama leyti og Gísli hefir sinn gamla tón, og Dagbl., sem man eptir Hoskjærs greinum og málinu við Bille, getur ekki þegjandi farið að taka mig til inntektar sem danskan erindsreka, einsog Jón vill gera. Samkvæmt þessu vill Jón láta alþíng í sumar hafa selt konúngi (og konúngsmönnum) sjálfdæmi, þar sem ein tvö atkvæði voru fyrir sjálfdæmis-uppástúngu Hjaltalíns, og við hinir segjum, að alþíngismenn hafi aldrei verið eins stæltir og fastir sem veggur, einsog í sumar, svo Finsen þorði ekki annað en fara með veggjum og láta þíngmenn segja hvað þeir vildu. Eg gat ekki komizt að öðru, heldur en að *allir* væri nú á því, að nú mætti ekki fresta lengur að alþíng fengi löggjafarvald og fjárforræði, og Finsen þóttist vilja fylgja því fram einsog hinir konúngkjörnu. Þá er nú mín skoðun sú, að þetta sé rétt að nota, og láta Finsen hafa ábyrgð fyrir það sem kemur út af því, en við eigum að lofa honum að starfa óhindruðum, og geyma oss rétt til að kritisera á eptir. Um ábyrgðina (fyrir alþíngi) er hann linastur, en eg sé ekki betur en að *þó* hún ekki fengist nú, þá sé þeim ómögulegt að neita um það atriði til lengdar, ef hitt fæst. Yfirhöfuð að tala er samkomulag og festa í okkar flokki fullt eins góð og áður, eptir því sem hún *getur* verið, því margar orsakir eru til þess, að ýmislegir útúrdúrar koma stundum, einkum vegna þess blöðin á Íslandi vantar allt ráðlag og fasta stefnu, en einkum menntun til að hafa yfirlit yfir hvað gerist. Þetta er ekki svo gott viðgerðar. Við hugsum nú til, að Þjóðvinafélagið byrji tímarit í vetur, en Ný Félagsrit hætti. Nú kemur uppá

hvernig við komumst út af þessu í vetur, því eg held að hægra sé að fá fyrsta hepti út hér og halda svo áfram heima, ef eg yrði í Reykjavík, heldur en að byrja þar. Eiginlega er ósk mín, einsog þér vitið, að reyna að styrkja til, að eitthvert vísindalegt og politiskt líf gæti viðhaldizt og eflzt á Íslandi sjálfu, og til þess þyrfti meðal annars tímarit, sem væri nokkuð fjölskrúðugra heldur en Ný Félagsrit hafa getað orðið. — Yðar höfðinglega tilboð um 10 rd. tillag til Þjóðvinafélagsins tökum við sjálfsagt með mestu þökkum. . . .

Meidell sagði mér, að Krieger hefði heimsótt yður í sumar. Það er gaman að vita hvað hann hefir sagt um íslenzka málið. Eg ímynda mér reyndar það muni hafa verið líkt og áður, að hann hugsar sér að hafa vit fyrir okkur, en það gengur ekki.

Þér lesið sjálfsagt greinir Gísla i Berl. Tíð. Eg býst ekki við að svara þeim, og ímynda mér þó að geta sagt og sýnt, að hvert eitt atriði í þeim sé rangt, en maður getur ekki komizt að blöðum hér í því máli til þess að tala frítt. Eitt atriði sýnist vera einskonar átylla, þar sem hann tekur fram í bréfinu 1319: »Öllu *voru* . . . ríkisráði«, en þegar að er gáð, þá er þetta auðsén málvilla og getur ekki staðizt. Þar á að lesa: »*vitru* og virðulegu ríkisráði«, svo hafa mörg handrit, sem eg hefi, öll nema þessi afskript í Geh-Archivet, sem prentað er eptir. Orðið »prudenti« hjá Torfæus og Arngrími sýnir að þeir hafa lesið svo (*vitru*).

Ástar kveðjur.

Yðar skuldb(undinn) heiðrari

Jón Sigurðsson.

299.

Til Sigurðar prófasts Gunnarssonar á Hallormsstað.

Khöfn $^{10}/_{11}$ '73.

Elskulegi vin.

Eg á að þakka þér ástúðlegt bréf í sumar og peníngagjöf, bæði til konunnar og mín, sem eg hirði með þakklæti. Eg vona þú hafir fengið skýrslu Þjóðvinafélagsins, og að þið Austfirðíngar gjörið ykkar bezta til að styrkja félagið, því ekki stoðar annað en að halda járninu heitu. Með því bragði, sem alþíng görði nú í sumar, þá hefi eg þá trú, að líklega kunni að ávinnast löggjafarvald og fjárforræði, að einhverju nafni til, en við megum vera eins vissir um, að hér verður leitað allra bragða til að draga sem mest úr því sem veitt verður, og til að draga það úr höndum okkar aptur, sem nú kynni að nást. Eg gjöri hvað eg get til að koma út tímariti Þjóðvinafélagsins í vor, en eg vona eptir fullum styrk til félagsins sem allra mestum, og bendíngum til þeirra óska sem menn hafa til félagsins um hver störf þeir vildi kjósa. Eg heyrði á Berufirði, að rannsóknir væri hafðar í frammi um Þjóðvinafélagið. Það vona eg að ekki hræði ykkur, heldur að þið hafið það sem bezta spora til að styrkja félagið í alla staði. Sendu mér nákvæma skýrslu um það!

Ef mönnum kynni að detta í hug, að nú væri óþarfi að skipta sér af félaginu, þareð sættir væri komnar á, þá er það sú mesta fávizka, einsog eg hefi getið um. Sama er það, ef menn hugsa að eg muni taka við skólanum og þarmeð sleppa öllum tökum. Ekkert getur verið fjarstæðara. Fyrst og fremst tek eg ekki að mér skólann nema eg sjái að eg fái bætt úr mestu þörfum hans. Þarnæst getur þú nærri að eg tek ekki við skólanum til þess að setjast í helgan stein, heldur til þess að ná betri fángastað á þeim málum sem eg fylgi fram. En undir öllum kríngumstæðum

þurfum við sem mest á að halda fjárafla, til þess að koma meira fjöri í athafnir vorar og til að ná meiri áhrifum um allt land. Þið Austfirðíngar þurfið nú að hugsa fyrir þíngmannaefnum til næstu kosnínga. Hverja tekur þú nú til? Það þarf maður að vita í tíma.

Forláttu mér þetta stutta bréf og mundu ætíð

þinn skuldbundinn vin og elskara

Jón Sigurðsson.

300.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn $^{15}/_{11}$ '73.

Elskulegi vin.

. . . Ætli landar vorir hugsi, að nú sé allt unnið og óþarfi að vaka lengur, heldur leggjast nú fyrir og sofna sér lángan dúr. Það væri fásinna, því við megum vera vissir um, að Danir byrla sér og öðrum inn að við höfum fallið þeim til fóta og nú geti þeir ráðið öllu og haft það sem þeir vili, en þá getum við getið nærri hvað við fáum; og þó við nú fáum löggjafarvald og fjárforræði, þá vertu viss það verður svo lagað, að það verði sem minnst vert, og takist betur til, þá svo að það verði dregið úr höndum okkar. Eina ráðið er að halda járninu heitu, draga allt saman sem við getum til félagsins, ákveða kandidata til næsta þíngs, kort sagt, gjöra allt til að styrkja okkur og okkar flokk, og einkum fá sem mestan peníngastyrk. Eg sé ekkert í því að ná agentum, og gefa þeim procentur, og þú sem ert kjörinn útvegakló, ættir að mér sýnist að nota þessháttar. . . .

Eg veit nú það, að þú lætur ekki ruglast af Gísla ritum, en annað mál er hitt, hvort ekki væri rétt að gefa þeim spark í íslenzkum blöðum, og sýna hvað það

rekur sig hvort á annað, þar sem hann gjörir mig að idíot stundum, en stundum er eg sá skæðasti tælari, sem hann hefir varla getað losað sig við. Hann lætur sem samband Íslands við Noreg hafi verið landssvik og kallar Rafn Oddsson landssvikara, en sjálfur fylgir hann því sama sambandi við Danmörk, sem hann kallar landssvik annars. Allt hið sögulega er bjagað, þýðing Gamla sáttmála bjöguð o. s. frv.

Þú skammar mig fyrir rektoratið, en það er ekki svo laust fyrir sem þú hyggur. Þú veizt, að eg vildi fá umbætur, og því get eg ekki sleppt, því þá yrði ekkert úr neinu. Eg hugsaði að nú mundi verða tekið uppá budgettið peningar til umbóta, en þar er ekkert og nú er látið í veðri vaka, að alþíng fái nú líklega fjárhagsráð og þá megi ekki præoccupera þess atkvæði. Eg get ekki, einsog þú sér líklega án efa, *fylgt því fram*, að octroyera kostnað uppá alþíng, annað er að taka því sem stjórnin gjörir í því. Hvernig þetta jafnast veit eg ekki, en þó Jón Þorkelsson fengi rektoratið, þá getur þú að mér sýnist betur staðið þig við að vera en að fara. Þú getur gjört okkur stórlega mikið gagn við skólann á allan hátt, og endirinn gæti orðið sá, að þú fengir rektoratið. Vertu þessvegna þolinmóður og liðlega forsjáll.

Með beztu kveðjum til þín og þinna.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

301.

Til Björns prófasts Halldórssonar í Laufási.

Khöfn $^{27}/_{2}$ '74.

Háttvirti elskulegi herra prófastur.

. . . Nú er þá komin stjórnarskrá vor, til að byrja með. Hún er nokkuð mögur, en eg held hún sé þó

reisa, því hún hefir þessa þrjá fætur að standa á, löggjafarvald, fjárforræði og ábyrgð. Allir eru samt fætur þessir heldur pervisalegir og harla vöðvalitlir. Nú liggur á í sumar að koma sér niður á fulltrúakosningum, og svo á þeim atriðum sem menn vilja hafa fram strax á næsta (fyrsta) þingi. Til þess vilja menn almennt hér að haldinn verði Þingvallafundur seinast í Juli, og hefi eg skrifað þeim um það í Rvík eptir ályktun hér á fundi. Hér ríður nú mest á, að við séum vel viðbúnir og höldum fast saman, svo við getum komið á laglegri stefnu, ef auðið verður. Það er flestra álit, að eg geti gjört nú sem stendur heldur meira gagn málum vorum með því að vera hér, en með því að taka við rektorsdæminu, eg hefi því sagt lausu við það, og held mér til þess sem ályktað var á Þingvallafundi í fyrra. Eg sendi yður hérmeð bréf til fulltrúa Þjóðvinafélagsins, og fel yður þess mál til hins bezta.

Yðar skuldbundinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

302.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn $^{27}/_{2}$ '74.

Elskulegi vin.

Nú vona eg þér birti fyrir augum í vorsólinni, þegar þú sér nýju stjórnarskrána. Víst má mart út á hana setja, og samir eru þeir við sig, að finna ætíð uppá einhverju nýju til að hafa brellur í frammi, en samt sem áður get eg ekki sagt annað, en að mér finnst hér vera fengin trappa til að standa á, sem við höfum fulla ástæðu til að álíta sem octroyeraða uppá okkur, og við megum því fara með einsog við viljum og þurfum. Hér er því ekki til setu boðið, heldur þarf

nú einmitt að taka sér fasta stefnu, fyrst um fulltrúaefni og þarnæst um þær umbætur, sem menn vilja strax á fyrsta þíngi bera fram um stjórnarskrána. Eptir áskorun Þjóðvinafélagsmanna hér skrifa eg þér og forstöðunefndinni um Þíngvallafund, og sendi þér Circulære til allra Þjóðvinafélagsfulltrúa um allt land, sem eg bið þig læsa og frankera uppá félagsins reikníng. Það er allt í einum pakka í kassa til Ólafar mágkonu. Jón Stefánsson og Matthías hafa lofað að leggja rækt við félagið, sama er eg að vona af Jóni Guðmundssyni sjálfsagt, og af Oddi Gíslasyni, Jóni frá Álaborg, Sigfúsi Eymundssyni, Sigurði Vigfússyni, ekki að tala um hina yngri, svosem Lárus Halldórsson, nafna minn Jensson o. fl. Eg verð einúngis að taka það fram, að allt hvað þú getur fengið inn af peníngum er gott og nauðsynlegt, en við verðum að varast, að taka ekki meiri kostnað, en við sjáum að við séum byrgir af fé. Eg tel það hagnað að fá öll activa Félagsritanna. Eg sendi þér Avertissement um þau, til að láta prenta, svo vil eg biðja þig annast um að fá skil hjá Egli Jónssyni og penínga, því hann hefir í litlum skilum staðið við okkur.

Af því að nú liggur þessi bein stefna fyrir höndum, eru flestir eða allir hér á því, sem af okkar flokki eru, að betra sé nú sem stendur að eg sé hér, og spili uppá loforð Þíngvallafundar í fyrra (þeir skrifuðu þar undir síra Matthías og síra Stefán á Kálfatjörn). Eg hefi því dregið mig aptur frá rektorsdæminu, en vil fylgja að því, að þú getir orðið það. Oddgeir er því ekki fráhverfur, en kveinkar yfir að það sé móti reglum (það var kannske ekki um mig!). — Eg held það verði ekki veitt nú, og sýnist mér því þú ættir að taka Finsen undir tvö vötn og heita á Vilhjálm; eg held það mætti til að gánga, og þá væri að eg ætla fullt eins vel fyrir séð einsog þó eg yrði rektor, og eg þykist þá grobbinn, að hafa spilað því þér í hendur, því í fyrra hefðir þú varla fengið það.

Allt hvað þú getur sent mér af peníngum þykir mér vænt um, því einsog þú getur nærri þá hefi eg nú ekkert úr að bíta nema hvað aflast af Íslandi, og kostnað til rita vorra verð eg að borga hér, en mart fellur fyrir einsog þú veizt til útgjaldanna. . . .

Mér hefir dottið í hug, að ef maður setti út duglega agenta fyrir Þjóðvinafélagið, þá mundi maður geta drifið upp töluvert fé, og gefa þeim procentur af því sem þeir skila félaginu, sem færi vaxandi, svosem t. d. $5^0/_0$ af 1—500, $10^0/_0$ af 500—1000 etc. Hvernig lízt þér á það? Jón Guðmundsson tekur ekki þessu fjarri. Það væri hvorumtveggja mikill hagur. Verzlunarfélögin ættu svo hægt með að innkassera og safna fyrir Þjóðvinafélagið, þegar það aptur á móti í tímariti sínu mælti fram með þeim og styrkti þau á ymsan hátt . . .

Ástar kveðjur til þín og þinna.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

303.

Til Jóns Jenssonar, síðar yfirdómara.

Kh. $^{27}/_2$ '74.

Elskulegi bróðir minn.

Kærar þakkir fyrir seinasta bréf þitt og útréttíngarnar. Smáritin höfðu þann galla, að þau voru úr raungu ári, líklega hefir það misritazt hjá mér, eða þú hefir ekki tekið rétt eptir hvaða nr. þú tókst. NB. Eg fékk 2. ár nr. 6, en vildi fá *3. ár* nr. 6. Þú gjörir svo vel að hugsa til mín með allskonar smádót sem þú nær í, eldra og ýngra, og núna þarf eg að biðja þig einkum að reyna að útvega mér skólaprógrömm frá 1850 til 1854 incl. og fyrir árið 1857—58, eins líka fyrir eldri árin frá 1828—1850, bæði prógrömm og skýrsl-

ur, eptir því sem þú fær tækifæri til, því eg er opt beðinn að útvega þetta. Eins er gott að ná í blöðin sem út hafa komið, ef þau fengist með góðu verði við tækifæri. Við þurfum þau í bókasafn alþingis.

Eg sendi þér í kassa hjá mömmu nokkrar bækur, sem eg hugsaði þú hefðir gaman af, að minnsta kosti með tímanum, eða í hjáverkum þínum. Það er Grundtvigs útgáfa af Sæmundareddu, Storms verðlaunarit um Snorra og Maurers rit um »Íslenzku« etc. Eg hefi fengið gott exemplar af Finns Histor. Eccles. Islandiæ, sem eg ætla þér, ef þú vilt, og segir mér hvenær þú vilt hafa það sent. Þú getur fengið það með næstu ferð ef þú vilt.

Mér finnst þú hafa mikið fyrir þér, um að betur mætti verja fé en að hafa það í mynd Íngólfs, en þeir sem gefa verða að ráða því, þó þeir sé ekki sem heppnastir að verja fénu. Ef myndin væri falleg, þá læt eg það allt vera, en þesskonar myndir eru dýrar, ef nokkuð á að vera í þær varið, annars eru þær til lítillar prýði.

Eg sendi þér umburðarbréf til fulltrúa Þjóðvinafélagsins að gamni mínu, svo þú fáir færi á að pota félaginu fram þar sem færi gefst. Pakki til Halldórs Friðrikssonar er í sama kassanum með sömu vöru, og bið eg þig sjá um hann fái þann pakka og ef þarf hjálpa honum að læsa bréfunum og frankera þau, eins líka ef þú getur að hvetja hann til að framfylgja gagni og störfum félagsins. Eins bið eg þig að koma sem fyrst bréfum þeim sem hér fylgja, í einum eða tveimur pökkum til móður þinnar.

Forláttu nú, elskan mín, miða þenna, og berðu kæra kveðju frændfólkinu öllu og húsbændum þínum.

Þinn elskandi bróðir.

Jón Sigurðsson.

304.

Til Jóns alþingismanns Sigurðssonar á Gautlöndum.

Khöfn 27/2 '74.

Elskulegi nafni minn.

Kærar þakkir fyrir samverutímann seinast einsog fyrri. Nú er þá komið dálítið annað hljóð í strokkinn í stjórnarmálinu. Mér finnst það sé hérumbil það sem við spiluðum uppá, nefnilega að fá oktroyeraðan graut, sem við ættum frjálst að hræra í. Löggjafarvald, fjárforræði, ráðgjafi með ábyrgð fyrir alþingi, það er fengið, að minnsta kosti að nafni til, og eg kalla okkur þar standa á fastari tröppu en fyr. En þar ríður á, að taka þetta nú glóðvolgt, koma sér nú strax niður á að fá fulltrúaefni til haustsins, og síðan á þeim atriðum, sem menn vilja hafa breytt og borin fram á fyrsta þingi. Hér er ekki til setu boðið nú, heldur miklu fremur til meiri starfa en verið hefir. Eg álít að Þjóðvinafélagið geti verið okkur þar til mikillar aðstoðar, og því sé það hin fyrsta þörf að styrkja það og efla, og þarmeð að ná festu í okkar stefnu. Það er allra eða flestra meiníng hér, að einsog nú stendur á geti eg gjört meira gagn *hér*, heldur en með því að taka við rektorsdæminu. Eg hefi því sagt mig úr því, og reiði mig uppá aftal okkar í fyrra, sem þér fyrstur og fremstur fylgduð fram á Þingvallafundinum. Sumum þykir það hættuspil fyrir mig, en eg held, að geti nokkur spilað það, einsog nú stendur, þá geti eg það, og ef það spilast, þá held eg það geti haft góða verkun á okkar politiska þroska, því traustið á þjóð vorri verður þá miklu betra, þarsem það er nú fremur lítið hjá mörgum, og því þora fáir að eiga undir öðru en embættum. Eg vona þér talið við Eggert Gunnarsson við tækifæri og við Tryggva síðar, og mun það verða til þess að festa stefnuna, en eg vil biðja yður að hafa það hugfast, að ákveða ekki kostnað annan en þann,

sem fé er fyrir hendi til, en byggja aldrei í því efni uppá tóm loforð. Við töldum samskotaloforðin til Eggerts í fyrra einsog penínga, en enginn skildíngur af þeim er enn kominn í félagssjóð, það eg veit, eptir meir en ár liðið. — Eg skrifa nú öllum fulltrúum félagsins um þess efni, og um hvað það hefir fyrir stafni. Þér munuð reka augun í almanakið, en þegar þér sjáið það, vona eg yður líki það ekki svo illa. Það má þá ætíð hætta því, ef það misheppnast. Eg hafði samþykki allra þeirra fulltrúa, sem hér eru. Um Þingvallafund í sumar, seinast í Juli, hefi eg skrifað bréf til varaforseta og forstöðunefndarinnar í Reykjavík, og þykir mér líklegt hann komist á, og verði þar talað um kosníngar og um nauðsynlegar breytíngar á stjórnarskránni og fleira. En vara megi þið ykkur á að ákveða gjöld uppá Þjóðvinafélagið, nema menn leggi því svo mikið gjald, *sem sé víst*, að það hafi efni fyrir hendi til þeirra útláta. Við gerum félaginu og öllum okkur sneypu, ef við úrskurðum fégjöld út í loptið, og svo verði engin skil á gjöldunum þegar til á að taka.

Kristján skrifar yður allt sem yður fýsir annars að vita, og því kveð eg yður með beztu óskum.

Yðar skuldbundinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

## 305.

### Til Sigfúsar bóksala Eymundssonar.

Khöfn $^{27}/_{2}$ '74.

Háttvirti kæri vin.

Kærar þakkir fyrir yðar skemmtilegu og góðu bréf með December-skútunni. Eg óska yður til lukku með tvo synina, annan þann ónefnda og annan sunnudagaskólann, bara hann yrði nú eins gamall og hinn. Það

er víst, að þörfin á kennslu hjá okkur er mikil, og eptir minni ætlun væri ekkert meira nauðsynjaverk en að stofna þessháttar.

Þér eruð mikill hátíðarmaður, og það er fagurt og gott. Eg ímynda mér nú, að þér fáið góðan styrk hjá Halldóri og Jóni Guðmundssyni, því þeir sem héðan koma vilja hafa politiskan Þíngvallafund seinast í Juli og fá Halldór og forstöðunefnd Þjóðvinafélagsins til þess að gángast helzt fyrir honum. En þá verðið þér líka að gángast fyrir að hlynna svo að Þjóðvinafélaginu, að það geti nokkuð, og sjá um að umbúnaðurinn á Þíngvöllum verði nokkur og fari smásaman batnandi. Bezt er, að allt sé sett laglega, en ekki farið í neinar gönur. Það sem nú mest ríður á, er að fá kosna góða þíngmenn til næsta þíngs og búa það vel undir. Þar næst að koma sér niður á því, sem við þurfum að fá breytt í þessari nýju stjórnarskrá og viljum hafa fram á fyrsta þíngi. Þér fáið nú stjórnarskrána, svo það er óþarfi að senda hana, en eg sendi yður bréf til fulltrúa Þjóðvinafélagsins, og vísa yður að öðru leyti til Halldórs. Mynd Ingólfs úr grásteini held eg ekki tæki sig neitt sérlega vel út, nema ef hún væri látin ríða klofvega á landshöfðíngjagarðinum. Þetta segi eg nú annars til að erta yður upp.

Forlátið mér þenna ónýta miða, og verið ástsamlega kvaddur með öllum yðar ástkæru.

Yðar skuldbundinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

306.

Til Sigurðar prófasts Gunnarssonar á Hallormsstað.

Kaupmh. 27/2 '74.

Elskulegi vin.

Kærar þakkir fyrir þitt góða bréf í haust er var og sendíng á 120 rd. o. s. frv. Nú færðu að hyera

hina nýju stjórnarskrá, og eg held að hún sýni, að við mundum ekki hafa komizt lengra á okkar fyrri götu, en að nú opnist ný gata, þó þraung sé, og hana megum við til að víðka. Eg vil vera með í því eptir megni, og því hefi eg sagt lausu við rektorsdæmið, en eg vænti samheldis og styrks hjá löndum vorum, svo að takast megi að bæta það sem enn vantar, og koma nokkurri verulegri politiskri og verklegri framkvæmd á stofn. Þessu getur Þjóðvinafélagið stutt að, og því liggur á, alls vegna, að sýna, að félagið hafi traust manna. Ef að mitt nafn getur stutt þar að, þá er sjálfsagt að brúka það svo sem ykkur sýnist hentast. Eg vona þú hafir skýrslu og lög félagsins frá því í fyrra, en nú sendi eg þér og öllum fulltrúum Þjóðvinafélagsins bréf og skýrslu um það sem síðan hefir gjörzt, sem eg vona þú fáir nú með þessu bréfi eða hérumbil, og sér þú þar af, að Þjóðvinafélagið getur orðið góður liðdrengur, ef ekki bregzt styrkur landsmanna sjálfra, en þeir eru félagið í rauninni. Það væri mikils vert, ef safnað yrði samskota-loforðum Eggerts Gunnarssonar, og mest þykir mér undir því komið vegna þess, að hann taldi þau viss, og kvaðst mundu geta náð þeim þegar vildi. Þessvegna setti eg þau í skýrsluna og vænti þeirra í haust er var. Það er nokkuð sneypulegt, ef næsta skýrsla segði, að engin af þessum samskotum hefði náðzt, og mér sýnist þar af mætti álykta, að ekki væri tilhæfulaus sú grunsemd, að félagið hefði haft þá fyrirætlun, sem til var getið, eða eitthvað sérstaklegt, en það er óheppilegt.

Eg bið þig innilega forláts, ef eg hefi gleymt að þakka þér fyrir örnefnaritgjörðina. Hún er ágæt, sem von var af þér, og þó hún sé ekki úttæmandi alla máldaga og munnmælaörnefni, þá er það ekki tiltökumál. Það rannsakar þú smásaman og bætir við. Það er verst, að okkur vantar kritiskan samanburð á máldögunum, því þeir eru víða afbakaðir og má leiðrétta mikið

þegar þeir eru bornir saman. Hvernig skilur þú þetta orðatiltæki í Vallanesmáldaga, sem þeir eru að rífast um: »hálfan reka við Sandbrekkumenn í tíu hundruðum«? — Það má vera austfirzkt orðatiltæki, sem þar er venjulegt eða hefir verið. Eru þessi tíu hundruð reka-*verð*, eða lengdarmál á söndum? . . .

Ástar kveðjur og þakklæti fyrir alla þína elskusemi við mig óþreytanlega.

Þinn skuldbundinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

## 307.

Til Þorvalds héraðslæknis Jónssonar á Ísafirði.

Khöfn $^{27}/_{2}$ '74.

Elskulegi vin.

. . . Nú fáið þér að sjá nýju stjórnarskrána, og get eg að yður muni þykja ymsir gallar á henni. En hvað um gildir, eg held þó, að við höfum gjört eptir kríngumstæðum rétt í fyrra. Við höfum prúttað upp svo mikið sem mögulegt var frumvörpum stjórnarinnar, og settum í aðaluppástúnguna það sem nú er mest krafizt, en til vara það, sem á aðra síðuna gaf okkur fótfestu en á hinn bóginn gat lokkað stjórnina til að setja eitthvað sem við getum svo byggt betur á. Það hefir nú tekizt, og eg tel nokkuð unnið á með því, að alþíng fær löggjafarvald og fjárforræði og minister með ábyrgð fyrir alþíngi á pappírnum að minnsta kosti. En nú gildir að stíga á þessa tröppu, sem þarna er komin og fara lengra. Í sumar þarf fyrst að koma sér niður á kosníngum, og þar næst á kröfum þeim, sem þurfa að koma fram strax á fyrsta þíngi, því við þurfum ekki að álíta okkur sem bundna við það, sem við höfum ekki samþykkt. Undirlagið fyrir öllum okk-

ar politisku athöfnum ætti að vera Þjóðvinafélagið, og landsmenn að veita því öflugan styrk. Það er líka flestra meining hér núna, og þeir vilja flestir eða allir að eg taki ekki við rektorsdæminu, heldur að eg haldi fram hinni stefnunni. Eg hefi þessvegna afsalað mér rektorsdæmið. Um hin fyrstu ætlunarverk Þjóðvinafélagsins fáið þér skýrslu í bréfi frá mér til allra fulltrúa félagsins, sem eg vona Halldór Friðriksson sendi yður einsog hinum öðrum. Þér vissuð, að á Þingvallafundinum í fyrra skrifuðu þeir mér bréf, og lofuðu mér 1000 rd. í 3 ár ef eg yrði rektor, en ef eg yrði það ekki skyldi eg fá rektors laun. Eg veit nú ekki hvort allskostar sé að reiða sig á slík fyrirheit, eptir því sem á stendur hjá oss, en eg ímynda mér, að geti nokkur spilað það spil nú sem stendur þá geti eg það, og ef það gengur þá held eg nokkuð sé unnið með því í framtíðinni. Eg veit, að þar sem þér eruð má byggja uppá allan styrk sem mögulegur er í okkar almennu málum, og sama er að segja um Ásgeir, eins Lárus faktor hans, og sömuleiðis um Hjálmar á Flateyri. En nú ríður líka á, að mál vor geti fengið bæði afl og festu og enginn geti haft ástæðu til að óttast allt illt.

Það er öldúngis víst, að laglega samin Hygieine væri þörf bók og líklega vinsæl yrði hún. — Fyrir nokkrum árum sendi Hjaltalín hingað slíkt rit, en það var svo óheppilega samið, að það varð ekki notað. Kannske þér vildið reyna yður á því. Mér finnst það eiga vel við, að Þjóðvinafélagið léti prenta það og borgaði ritlaun.

Með beztu kveðjum.

Yðar elskandi vin

Jón Sigurðsson.

308.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara.

Khöfn $^{15}/_{4}$ 1874.

Elskulegi vin.

. . . Eg sendi þér nú í kassa til Ólufar mágkonu nokkra pakka af Þjóðvinafélags almanökum, og bréfum til ymsra fulltrúa, þau sem ekki verða send direkte. Þú munt agitera hvað þú getur, og þú hefir meðal annara einn góðan þar sem þú hefir Jón Stephánsson, faktor Fischers, sem gjörðist félagsmaður í vetur. Eg hefi í vor fengið harla lítið í tekjur, og því var eg að mánga til við þig, og mánga enn. Það ætti ekki að þurfa að eyða félagsfé í Þíngvallafund, en hér mun fara einsog vant er, að ef nokkur skildíngur fæst, þá liggja þeir við sjálfir sem saman hafa skotið, til þess að féð er uppi. Það getur vel verið þú hafir rétt að mæla, að landar vorir bregðist með fjárstyrkinn handa mér, en eptir því sem á stóð, þá sýndist mér vert að reyna þá, einkum fyrst þeir þóttust svo öruggir. Bregðist þeir, þá er það þeirra sök; eg er vanur fátækt, og ef guð gefur mér heilsuna, er eg ekki kvíðandi fyrir að eg geti ekki haft ofan af fyrir mér. Eg gat ekki þolað, að Hall vildi svosem imponera mér með þessum 2000 rd. launum, og hélt eg mundi fyr krjúpa sér að fótum en sleppa þeim.

Ekki varð af, að þeir sendi málið heim til álits, heldur var nú Jón Þorkelsson útnefndur að fullu. Nú jæja, eg veit að þú munir ætíð setja málið upp yfir persónuna, og ekki láta skólann gjalda þó þér sé miður hlýtt til Jóns. Þér liggur nú í öllu falli ekkert á að stökkva í burt núna strax. En eg skal benda þér á eitt, að nú er stofnað embætti við háskólann með 800 rd. launum sem docent í Íslandssögu og literatur. Eg veit ekki hvort þú gætir staðið þig við það, en þú

ættir víst að hugsa um það. Gísli Brynjólfsson er að voka yfir því núna og þykist hafa stofnað það. . . .

Með beztu kveðjum.

Þinn einlægur vin
Jón Sigurðsson.

309.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara.

Khöfn 27. Mai 1874.

Elskulegi vin.

. . . Eg er þér fullkomlega samdóma um, að rétt sé að spara Þjóðvinafélaginu útgjöld, einkum fyrst í stað, en maður verður að halda líftóru við, og heldur glæða hana, ef kostur væri, þángaðtil rýmkaðist um. Eg er að hugsa, að maður kynni að fá á alþíngi eitthvað fast lagt til bóklegra þarfa. Hugsaðu um, hvernig það helzt gæti orðið formulerað? — Menn eru nú hér helzt spenntir um ferð konúngs, og um ávörpin til hans. Konúngsmenn eru mjög hreyknir, svo eg gat ekki annað en ofboð lítið kastað á þá kaldri ausu, en þá kom upp úr gufunni Gísli Brynj(ólfsson), sem mig grunaði, og fór að segja frá, en þar að auki eru sögur privat, sem gánga á milli. Landsh(öfðíngi) og skrifari hans vilja endilega gjöra þig að forgaungumanni ávarpsins, og Gísli láta þig gjöra það sem varaforseta Þjóðvinafélagsins. Aðrir segja, að landsh(öfðíngi) hafi sjálfur fengið þig til að skrifa Klein, og segja honum að þú værir að gángast fyrir ávarpi, og mundir hafa vænzt með því eptir að fá rektorsdæmið (því alténd er seyran undir!). Kóngur átti að hafa sagt, að »Sognefoged« einn hefði skrifað undir, sem áður hefði verið mikill oppositionsmaður, og það var skilið svo sem kóngur hefði meint

þig. Svona gengur slúðrið núna fjöllunum hærra. Það var einsog þegar þú varst grósseri um árið! —

Mér sýnist þú annars ekki þurfa að láta þér svo fúlslega eða skamma mig fyrir skólann, því eptir því sem eg heyri þá muntu standa næst að verða yfirkennari, og það hefðir þú varla fengið, hefði eg orðið rektor. Þeir mundu varla hafa farið að setja tvo yfirkennara. Eg er nú á því, að skólans mál standi í sjálfu sér engu lakar, en þó eg hefði komizt þar að, því eg held, að þessi viðureign við mig hafi heldur vakið þá til eptirþánka, og að takast megi að fá ýmislegt honum til bóta ef menn vilja, og það held eg væri rétt.

Embættið við háskólann fékk Gísli. Berg og vinstrimenn bjuggu það til handa honum, rétt út í vitleysu, því hann lofaði að vera einskonar gángandi greiði í íslenzkri og danskri literatur, lesa hér yfir ísl(enzka) literatur og á Íslandi yfir danska, svo nú færðu kannske að heyra hann yfir danska literatur í sumar, því menn tala um hann muni fara með konúngsferð.

Þú fær náttúrlega að sjá »Dagstelegr(aphen)«, en eg held eg sendi þér þó að gamni mínu þessar tvær fyrstu greinir. Gísli er að únga út að nýju, og svara eg líklega uppá það. Síðan hefi eg fengið heimsókn frá »vinstri«, sem lætur líklega að vilja fylgja okkar málum. Eg tók því vel, en hefi ekki fastráðið neitt enn, og bíð þess, ef nokkuð víst yrði aftalað, sem okkur drægi að nokkru. Eg sé ekki betur, en að við verðum að heimta lögin 2. Januar revideruð og svo stjórnarskrána, og svo hvorttveggja skeytt saman, einsog alþíng hefir gert, en þá er spurn, eigum við, og að hve miklu leyti eigum við að fiðra við ríkisþíngið? Það er að eg held óumflýjanlegt, að koma þar fyr eða síðar til að fá samþykki, en það er spurn, hvenær er tíðin til þess? og er ekki rétt að búa það undir við vinstri, ef hún kynni að koma til valda? Mér þætti vænt að heyra tillögur þínar, og svo hvernig virkilega hefir gengið til

með ávarpið til konúngs og undirskriptirnar, og um ávarp síra Sigurðar á Útskálum. Hefir ekki Jón frá Álaborg fengið það búið til fyrir vægð í netamálinu? — Afskriptir af ávörpunum og svörum vænti eg að fá.

Mart hefi eg fleira að spyrja þig um, og lángar að heyra, en ekki er það auðgert að muna það allt á þessu blaði. Eg vona þú finnir á sjálfum þér hvað mig lángi til að vita. Bezt sem mest!

Með ástar kveðjum.

Þinn einlægur vin
Jón Sigurðsson.

## 310.

### Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara.

Khöfn 6. Juli 1874.

Elskulegi vin.

Loksins eptir mikla mæðu fann eg Passiusálmana handa þér; þó þeir sé ekki eins góðir og þeir ættu að vera, þá er þó heilt titilblaðið og gott. Það er einsog þú veizt nærri ómögulegt að fá heilt kver á Íslandi, það verður ætíð að vera defekt einhversstaðar.

Eg sendi þér hérmeð reikning, sem þú getur séð af hvernig status Þjóðvinafélagsins er. Það er nauðsynlegt að eg gæti fengið nokkuð fé ef mögulegt væri, en eg veit þú átt í vök að verjast, og því bið eg þess sem þú hefir aflögu.

Mér þykir slæmt, að vita ekkert fullkomlega víst, hvað eg mætti ætla uppá, því eg vil ekki sýna neina tortryggni og ekki heldur ásækni. Þú getur kannske komið því laglega fyrir á Þingvallafundinum núna, að einhver ályktan verði gjörð, sem maður geti stólað uppá, eða þá á hinn veginn, að menn hörfi tilbaka. Mér er ómögulegt að koma til Þingvallafundar margra

hluta vegna, og eg gjöri ekki heldur neitt gagn, en eg held þú getir haft gott gagn af Birni Jónssyni, sem nú fer heim. Mér lízt vel á þetta sem þú segir, að taka á móti konúngi þegar hann kemur frá Geysi, og yfirhöfuð að tala þá lízt mér bezt á að hátíðarhöldin fari sem kyrrast og rólegast fram, svo menn sé ekkert smeykir um að sér mistakist, eða þvíumlíkt. En jafnframt því þarf að koma einhver alvarleg rödd frá landsmönnum til konúngs, sem sýnir honum hvað menn vilja, og það er vel fallið ef bændur væri þar í broddi fylkíngar. Eg held Björn Jónsson væri þar góður hjálparmaður og svo ímynda eg mér að Norðlíngar ætti að vera þar stólpagripir. Andvari er nú undir prentun, og getur kannske komið með næstu ferð. Við fengum engar ritgjörðir og því hefi eg samið fjandans lánga romsu um stjórnarskrána, sem eg held gjöri góða verkun þegar þið eruð nú búnir að ryðja ykkur með þakklætið og konúngsdekrið einsog tilheyrir. Eg vona ritgjörðin verði brúkanleg fyrir undirstöðu undir tilkomandi opposition, og hún held eg sé öldúngis nauðsynleg, því annars máttu byggja uppá, að við ekki einúngis vinnum ekkert á, heldur dregst úr höndum okkar smásaman það sem við höfum áunnið núna, sem mest er á pappírnum. Þessvegna má alls ekki slá slöku við með kosníngarnar í haust, heldur drífa þær sem ákafast, og búa sig undir að heimta stjórnarskrána bætta og stubbana setta saman. Við þurfum líka að taka alvarlega í fjárhagsmálið, og eg er að búa mig undir það með ritgjörð í Andvara í vetur. Við skulum ekki láta okkur detta í hug að doka þrjú þíng; ef við gerum það, þá verða allir sofnaðir á fyrsta ári, en þú mátt vera viss, að í bezta tilfelli getum við fengið eitthvað breytt smásaman kannske á þremur þíngum, en í versta tilfelli fáum við engu breytt, nema við getum unnið þá konúngkjörnu með okkur. — Þú fær nú að sjá, að eg hefi strýkt Gísla dálítið, og hann hefir þagað síðan. Vinstri

menn vilja vingast við okkur, og eg tek því vel. Dagstelegr(aphen) vildi ekki taka greinina af mér, en Vinstrablaðið bauð mér strax að taka hana. Ef við gætum eitthvað greitt fyrir vinstri, gætum við án efa fengið styrk þaðan, en þar eru líka ymsar meinlokur, sem ekki verður rutt úr vegi nema með einhverju sem þá munaði um. . . .

Úr ritgjörð Guðmundar hefi eg hugsað að taka kaflann um sléttunina núna strax, en hitt getur beðið nú um sinn. Eg mun skrifa þér um það seinna.

Núna með skipinu fara fjórir Norðmenn, og eru þrír af þeim deputation frá stúdentum í Kristjaníu, en einn er sendur frá Norska samlaginu. Þeir þrír eru Gustav Storm, sem þú víst þekkir, sögufræðíngur og hefir ritað um Snorra, annar er Nordahl Rolfsen, kominn af Björgvinar biskupi Nordal Brun, skáld og skólaforstöðumaður. Þriði er Birgir Kildal, foríngi Studentafélagsins í Kristjaníu og cand. juris. Hver þeirra er framsögumaður veit eg ekki, en það muntu fljótt fá að vita. Frá Samlaginu er Kristofer Janson, skáldið. Nú vil eg biðja þig, þó þess ekki þurfi, að leiðbeina þeim sem bezt, og sjá um að þeim verði sýndur allur bezti sómi, því þeir eru allir góðir drengir og Íslands beztu vinir. Það er einkum að útvega þeim húsrúm og annað hagræði og svo hesta. Eg hefi skrifað Egli Egilsen, Jóni Guðm(undssyni) og fleirum um þá og vona þið hjálpist allir að til að gjöra þeim veruna sem skemmtilegasta.

Vertu ástsamlega kvaddur með öllum þínum.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

311.

Til Sigfúsar bóksala Eymundssonar.

Khöfn 6. Juli 1874.

Háttvirti kæri vin.

... Ekki er eg neitt hræddur um, að ykkur mistakist með þjóðhátíðina. Einúngis að þið ekki skammist ykkar fyrir að vera einsog þið eruð. Það er mesta heimska, að skammast sín fyrir þó maður sé fátækur, og geti ekki spilað stórþjóð. Það eru Danir, sem hafa búið okkur í hendurnar, ef við hefðum verið okkar eigin menn um 600 ár, þá gæti verið að landið hefði nú hálfa million innbúa, og þá gæti Danir spurt frétta, en nú verður að búa sem á bæ er títt og tjalda því sem til er.

Konúngur hefir með sér málara, en engan fotograf, það heyrzt hafi. Farið þér strax í Karl Andersen og látið þér hann tala yðar máli, eða Trap, sem kvað verða hjá fógetanum Árna Thorst(einsson).

Eg leyfi mér að vísa til yðar fjórum Norðmönnum, sem eru sendiboðar studentanna í Kristjaníu og Norska samlagsins. Þeir heita Gustav Storm, sem er sögufræðíngur og hefir skrifað um Snorra — Kildal, formaður Studentafélagsins, ríks kaupmanns son, kunnugur á Hálogalandi og þar norður um. — Nordahl Rolfsen, skáld, forstöðumaður stúlknaskóla í Kristjaníu. — Kristofer Janson, skáldið, sem þér þekkið. — Hjálpið þér þeim hvað þér getið, ásamt Halldóri, Egli og Jóni Guðmundssyni, sem eg hefi gefið þeim bílæti til.

Mér þykir mikið vænt um það, ef þið getið drifið upp gufuskip, eða samskot til þess, en vænna hefði mér þótt um, ef þið hefðið strengt þess heit að skera fram og rækta allar mýrar á landinu og drífa upp nóg ket, smjör, osta etc. — Þá kæmi gufuskipin sjálfkrafa á eptir að sækja vörurnar til ykkar. En það liggur í landi hjá okkur, að ætla að hlaupa í hæsta hapt strax.

Það er einsog þegar gamli Skúli ætlaði að byrja á fabrikum fyrst og svo að rækta hveiti, áður en nokkur kvörnin var til og áður en nokkur kunni að mala.

Hugsið þið vel fyrir Norðmönnunum, að hafa góða hesta handa þeim. Hér verður nóg kraðak af öllum þjóðum.

Með beztu kveðjum.

Yðar ætíð skuldbundinn vin

Jón Sigurðsson.

312.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara.

Khöfn $^{15}/_{8}$ 74.

Elskulegi vin.

Það kemur víst allt til greina um skóflurnar og nú fær þú víst hjólbörurnar með Diönu. Það er því betra sem fleiri þess konar tól útbreiðast, og til þess ætti félagið að gjöra allt hvað það gæti. Vilt þú ekki styrkja til þess, að Sveinn Sveinsson gæti verið hér í vetur og komizt til að sjá búnaðarskóla, verkfæri etc.? Hann gæti fengið 100 rd. hjá Landbúst(jórnar)-félaginu. Gæti þitt félag lagt til 100 rd. og stjórnin svo sem 200 rd., þá gæti það gengið. Blessaður, gerðu hvað þú getur til þess.

Eg heyri að allt hafi gengið vel um hátíðina, og allir sé ánægðir, og þú mátt þá vera það líka. Þú ert sjálfsagt fyrsta spröjta, og Þjóðvinafélagið hefir haldið uppi heiðri landsins, en ætli síra Þórarinn játi það? — Mér þykir þú hafa verið hógvær og af hjarta lítillátur að fara að játast fyrir honum Þjóðvinafélagsins vegna. Eg held þú hefðir vel getað afvísað honum, þareð hvorki var þar Þjóðvinafélagsfundur né hann félagsmaður. En annars sýnist mér, að það sem eg hefi

skrifað þér og öllum fulltrúum og þær skýríngar sem eru í almanaki félagsins sé nógar fyrir alla sem *vilja* fylgja athöfnum félagsins. Kannske þú svarir skýrslunni í Víkverja.

Nú liggja fyrir kosníngarnar nýju, og þar finnst mér ríða á, að okkar flokkur sigri algjört. Það má geta vel gengið. Þú veizt svo vel, hvernig stendur á, og hefir marga þræði í höndum. Eg vona þú fáir einn góðan þar sem Björn Jónsson er. Þú mátt vera viss, að landshöfðíngi sparar ekki öll þau meðul, sem hann getur náð í, og kannske hann beiðist sjálfur kosníngar. Eg er hræddur við alla þá, sem hafa gefið atkvæði með hinum konúngkjörnu, og ekki get eg treyst Grími með neinu móti; mér sýnist hann ekki heldur vera neitt inni í málunum, svo að af honum sé verulegs liðs von, t. d. í fjárhagsmálinu sem svo mikið ríður á. Það sýnir okkar grænku að hafa Grím þar sem bezta mann, sem hefir þá einu kröfu að procedera um skipgjaldið af póstskipinu. . . .

Það er annars skrítið, að það skuli vera *verulegra* að hafa einhverja sögu í almanakinu, heldur en nytsamar reglur, sem fólk getur haft gagn af. Eg kalla slíkt barnaskap, en þar fyrir vil eg samt gjarnan hafa þar sögu, ef eg hitti nokkra góða. Ef almanakið á að vera stærra, verður það að vera dýrara. Andvari kemur nú með næstu ferð, en eg sendi Birni Jónssyni prófarkir af ritgjörðinni um stjórnarskrána fyrir ykkar eigin munn. Eg held það gott, að Andvari komi rétt eptir hátíðina, til þess þeir geti spekulerað uppá stjórnarskrána í vetur, og svo er um flest mál, að menn þurfa að melta þau með sér. Það er ekki svo, sem margir halda, að það sé eins að gefa út rit einsog að fara í búð og kaupa pott af brennivíni, og bera hann út samstundis.

Safnaðu saman með öllum ráðum lýsingum um hátíðarhöldin um allt land, úr öllum sýslum og sveitum!

— Það væri vert að eiga það, hvort sem maður gæti komið því saman eða geymt það í safni sér. Ef að forstöðunefndin skoraði á menn í blöðunum, mætti víst fá mikið. Eg safna blöðum og öllu því eg get. . . .

Vertu nú ástsamlega kvaddur með öllum þínum.

Þinn einlægur vin

Jón Sigurðsson.

313.

Til Björns Jónssonar, síðar ráðherra.

Khöfn 26. Septbr. 1874.

Háttvirti kæri vin.

Ástar þakkir fyrir myndina yðar. Hún er ágæt einsog von var.

Það varð þá útúr, að þér settust að, og senduð Skírni skilnaðarkveðju. Við munum nú bráðum halda fund, til að kjósa á ný, og eptir því sem mér heyrist þá verður líklega Eiríkur Jónsson fyrir kosníngu. Þeir þora ekki að concurrera við hann, en hætt er nú við að stíllinn verði ekki við alþýðu skap, heldur en fyrri, en þar við verður ekki neitt gjört, nema það sem kjósendur láta vera.

Ekki ber á öðru, en að stjórnin feti sinn sama feril einsog áður, og varla verður breytíng á því nema að komi skorpa frá okkur. Eg veit ekki hvort Matthías vill eða getur sýnt nokkra rögg á Þjóðólfi um þetta efni, en ef þið byrjið nýja blaðið ykkar, þá er líklegt þar komi fram einhver hugvekja um slíkt. En það óheppilega er, að menn vilja hafa allt undir í einu, hafa fjögur blöð eða fimm lítil og ómöguleg, í staðinn

fyrir eitt eða tvö stærri og kraptmeiri. Þarfirnar eru vissulega margar og margvíslegar, en af því ekki verður gert mart í einu með litlum kröptum, þá er nauðsyn að taka það sem hefir helzt í sér undirrót til annars meira, og styrkja það duglega. Eptir minni ætlan væri Þjóðvinafélagið næst til þessa, og væri það almennt styrkt duglega, þá mundi það, að eg held, vera líklegast til að geta stofnað blað og prentsmiðju. En á meðan það hefir ekki neinn stofn, og landsmenn eru heldur en ekki á báðum áttum með það, þá er varla voganda að leggja útí neitt, sem nokkru nemur. Það er nú svosem sjálfsagt, að eg get þegið allar góðgjörðir, en það er þó undarlegt, að verja mestu af árstekjum félagsins handa forseta einum, og það munu líklega þeir, sem hafa gott auga á mér, fljótt finna, en þetta jafnaðist hentuglega, ef efni félagsins væri meiri fyrir hendi, og eg get ekki álitið það Íslendíngum um megn, að leggja til Þjóðvinafélagsins svosem 5000 rd. á ári, þángaðtil sjóður væri fenginn sem nokkuð tölu-vert mætti gjöra með. Þér vitið, að gamli Tscherning hérna stakk uppá að Danir skyti saman 60000 dala sjóði, sem væri ætlaður til að styrkja »vinstri«, og einkum þá menn, sem ekki færi embættisveg, heldur gengi í þjónustu hinumegin. Þetta er okkur allskostar nauðsynlegt, og það gæti gengið með aðfylgi margra, en eg held að til þess þyrfti sem fyr er sagt 5000 dali á ári, svo að nokkru væri safnað í sjóð til tryggíngar, en mesta hlutanum mætti verja strax, og yrði næg efni til ýmislegs sem nytsamt væri. Með því gæti okkar flokkur fyrst fengið álit og orku til framkvæmda.

Eg held við ættum að róa öllum árum að því, að fá þetta smásaman í gáng, og það ættum við með hægasta móti að geta gjört með því að láta Þjóðvinafélagið vera fyrir, og safna til þess. Hvað segið þér um þetta? er það ómögulegt?

Kannske eitt af ráðunum til þessa væri að byrja svona hægt með blað, og vita hvernig það gengi fyrst um sinn.

Með beztu kveðjum.

Yðar einlægur trúr vinur

Jón Sigurðsson.

314.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara.

Khöfn 26/9 '74.

Elskulegi vin.

Hvernig getur þú talað, að ásaka mig fyrir heimtufrekju. Eg heimta ekkert, en Ísland heimtar einna fremst af öllu að allt sé gjört jarðyrkjunni til framfara, sem gjört verður. Það er ekki einúngis til að »þekkja« verkfæri, sem Sveinn þyrfti að vera hér, heldur til að taka sér fram, til að sjá ýmislegt og geta »fylgt með«, til að ljúka við ritgjörð sína og til að standa fyrir útbúnaði hennar, og svo fleira sem um væri að gjöra. Þú sér það sjálfur, minn kæri, að með öðru eins áhaldi og híngað til hefir verið í þeim efnum enda í Suðuramts húss- og (bústjórnar)félagi, sem þó hefir gert mest, þá gengur ekki neitt, og Öskjuhlíð verður með sama sandroki á næstu þúsund ára hátíð einsog nú. Þú verður því að skrúfa Finsen, annaðhvort direkte til að veita nokkuð, eða indirekte til að mæla með, því eg skal gera allt hvað *eg* get. Þó þið getið ekki drifið upp nema 300 rd. nú jæja! þá það.

Það gekk vel með þjóðhátíðina, svo þú þarft ekki að iðrast eptir, miklu framar ættir þú að segja við mig gratias ago propter, því eg hefi þó eiginlega útvegað þér þessa konúnglegu plentu. Þú mátt líka þakka

Eiríki Magnússyni, því hann hefir á aðra síðuna hækkað þessar konúnglegu nótur, og á hina hliðina þær hinar demokratisku. Það eina sem eg get að fundið það er, að þú hefir brúkað Grím heldur mikið, og þar með prostituerað okkar söguþekkíng, því að substituera Ploug fyrir Snorra, einsog hann hefir gjört, það þolist illa. Eg veit ekki fyrir hvað þú reiðist Eiríki, er það privat? en hitt sé eg, að þú hefðir ástæðu til að ásaka Grím, því hann hefir dregið bust úr nefi ykkur, og hleypt ykkur upp í dönsku og ymsa aðra smá-ósiði sem vænta mátti. Þar hefir þú líka notið af, því það er helzt fundið að þér, að þú hafir alltaf hlustað eptir hvað Grímur segði. Taktu annars þetta sem gaman, því allir eru samdóma um að hátíðin hafi farið vel fram, og allar hrakspár urðu til skammar, sem gott var. En það er von, að skuldin svíði, og mér finnst sjálfsagt, að við ættum sjálfir að basla við að borga hana, en ekki hlíta neinum til þess öðrum. Mér finnst að Þjóðvinafélagsmenn og aðrir ætti að hafa til þess almenn samskot. Setja summariskan reikníng í blöðin, og skora á alþýðu gegnum Þjóðvinafélagsfulltrúana að borga. Annað það, að heimta stóru samskotin, og borga af þeim, því móttaka konúngs er þó analog með þeirri sendiför til konúngs, sem þeir þóttust ætla að safna til. Það gat þó ekki spillt, að konúngur kom sjálfur, í stað þess, að sendimenn þyrfti að fara suður til Danmerkur, og svo verða nú með þessu móti peníngarnir í landinu! — Alvarlega að tala, þá finnst mér við verðum að hafa öll möguleg ráð til að borga Þíngvallafundarkostnaðinn með frjálsum samskotum og frá Þjóðvinafélaginu, en við eigum að geta notað mikið af því sem gert hefir verið til að hafa við Þíngvallafundi seinna, því að þá þurfum við að halda, að minnsta kosti að ári. Alþíngishúss-samskotin sýnist mér ekki við getum tekið; því þau eiga þar ekki við, og eg er hræddur um ef við tökum þau til láns þá getum við aldrei fengið þau borguð aptur.

En ef kæmi ríflega inn samskotin til mín, þá mætti taka nokkuð af þeim, allt það sem eg gæti misst — sem eg veit nú reyndar ekki hvað mikið yrði, fyr en eg vissi hvað inn kæmi — því það mundi án efa fást aptur. Og svona megum við leita allra bragða. Annars hefi eg ekki enn, mér vitanlega, fengið einn skildíng af stóru samskotunum. Ef þú hefir nokkurt typpi á Grími, sem þú nær á, þá láttu hann nú reyna sig á Þíngvallafundinum og á Þjóðvinafélaginu í Rangárvallasýslu. En ef eg þekki manninn rétt, þá mun hann gefa kaups á sér meðan kosníngar standa til, en á alþíngi mun hann draga úr allt hvað hann getur, og festa sig í eitthvert smáatriði, einsog í fjárhagsmálinu í fyrra, og eyða með því öllu sem nokkuð er í varið, en snapa gams í hinu. Þú hefir allskostar rétt í því, að mannval er lítið, en hitt er ekki betra að fá menn sem demoralisera þá sem dálítið bein er í ef þeir væri sjálfráðir, og gjöra þá öldúngis kraptlausa og ónýta. . . .

Það er ekki vegurinn til að bæta læknaskóla og prestaskóla eða stofna lagaskóla, að skamma þá alla út, heldur að fá þá bætta. Það þarf nú að koma fram, ef við ætlum ekki að leysa ofan og gefa okkur upp.

Ástar kveðjur. Þinn

Jón Sigurðsson.

315.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara.

Khöfn 7. Novbr. 1874.

Elskulegi vin.

Við skulum ekki vera að nudda um vandræði, þegar við erum samdóma um að þess eða þess þurfi með, þá er eina ráðið að hafa úti allar klær með það. Þú ert samdóma um, að einkis þurfi framar við en

jarðyrkjunnar. Við skulum þá gera allt hvað við getum fyrir hana, og nota Svein með krapti. Hann fær tækifæri í vetur til að sjá hér mart. Einn drengur hefi eg von um komi að norðan til skólans á Stend. Fáum við dregið nokkuð saman, þá eigum við að geta fengið fleiri, það gefur dálítið líf í mýrarnar, og tekur úr þeim sýruna, sem mér sýnist vera farin jafnvel að »smitta« þig, nafnfrægan vestfirzkan grjótpál og þolnustu þjóðhetju. Þú þarft ekki að segja mér frá peníngaleysi og vandræðum, en segðu mér heldur hitt, hvernig bætt verður, og drífðu þá andana i fjötrunum til þess að fara á kreik. —

Eg get ekki sagt þér annað um þjóðhátíðar-kostnaðinn, en eg sagði fyr, að mér finnst sjálfsagt að hann eigi að borgast með samskotum, og ef Þjóðvinafélagið gæti, þá væri það vel fallið að það borgaði. En mér finnst, að þegar hátíðin hefir verið oss til sóma, þá megi allir vera þakklátir fyrir það við félagið og þig sem forgöngumann, og Sigfús sem decorateur, og borga fúslega, og þarmeð fara nú að hugsa til Þíngvallafundar í vor er kemur, og bæta enn aðbúnað á Þíngvöllum, tjöld, vegu og annað, og hafa þar »Knald« í vor. Hver veit nema krónprinzinn komi, því nú lángar alla til að sjá framan í okkur.

Um skólana vil eg biðja þig lesa yfir það sem við báðir skrifuðum 1840 og hvítkál, og þú samdir sjálfur fyrst, þá muntu sjá hversu mjög þér hefir hrakað. Eg segi ekki meira, því eg veit þér hefir í rauninni *ekki* hrakað, en þú »ert illa þenkjandi«, einsog Guðmundur fjósarauður, þegar þér finnst þeir ónýtir landar vorir. En segðu mér: heldur þú þeir batni við það, að þú farir að berja barlómstrumbuna með þeim? Annaðhvort er, að þeir verða að gjöra nokkuð til þess að standa á sínum eigin fótum og vera ekki þegnar þegnanna, eða þrælar letinnar og ómennskunnar, eða þeir verða að

una þrældómi sínum og kvarta ekki yfir því, sem þeir nenna ekki að hrinda af sér. Þetta þarf að brýna fyrir þeim duglega. Þeir geta ekki fengið eggjaköku að jeta, nema þeir brjóti eggin. Að þú hafir privat agenta, hefi eg ekkert á móti ef þú treystir því betur, en öll brögð þarf að hafa og öll ráð til að koma því fram sem þarf að komast fram. Við skulum vera samdóma um það.

Þú tekur óstinnt upp það sem eg nefndi Grím, mér var það eins mikið gaman einsog alvara, en ekki get eg að því gjört, að bæta má Grímur úr því sem hann hefir sýnt híngað til ef eg á að treysta honum til að gánga á hólm við Dani, til að ávinna sjálfsforræði og fjárhagsskil. Og þessa þarf þó með, því vertu viss að Danir gjöra hvað þeir geta til að draga úr stjórnarskránni.

Mér fannst Andvari einmitt eiga að koma þegar hann kom. Eg vildi ekki að kritik hans kæmi á undan konúngi, heldur einmitt á eptir. En yfirhöfuð að tala, þá vil eg gjarnan gjöra allt til þess að bækurnar komi snemma, ef kostur væri, en það er ekki hægt, því hvað bindur annað. Við getum ekki fengið prentað svo mikið, vegna verkmannaleysis, og ekki hlaupið frá einum til annars vegna ráðvendninnar. Ef við hefðum nóg peníngaráð væri það hægra, en tillög koma dræmt og smásaman sígandi. —

Sjálfsagt að Sveinn geti fengið 25 rd. af Þjóðvinafélaginu ef hann þarf. Sýnist þér svo, þá máttu draga af mér til að borga upp í Þíngvallafundarkostnað, og getir þú snúið því svo, að þetta sé tekið af samskotunum handa mér, og verði að borgast aptur, þá máttu það. Gæti maður ekki búið til áætlun um kostnað til Þíngvallafundar, bæði þessa 1874 og þess sem ætti að verða í vor, og farið að safna fé til þess eða til Þjóðvinafélagsins í því skyni? Maður þyrfti eiginlega að hafa féð fyrirfram eða jafnframt. Farðu að hugsa um

program til okkar flokks á alþingi í sumar! Eg er að spekulera uppá það.

Ástar kveðjur.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

316.

Til Björns Jónssonar, síðar ráðherra.

Khöfn $^{11}/_{3}$ '75.

Háttvirti elskulegi vin.

Undireins og eg þakka yður fyrir allt ástríki fyr og síðar, og óska yður til gleði og ánægju með yðar elskulegu konu, leyfi eg mér að senda yður bréf til allra fulltrúa Þjóðvinafélagsins, sem á að vera einskonar bráðabirgða-skýrsla um félagsins hag sem stendur. Eg vona hinnar beztu styrktar hjá yður, og ef okkur tekst yfir höfuð að tala að fylgja sömu stefnu, hefi eg beztu vonir um, að samheldi og þróttur vaxi smásaman, en það er líka áríðandi, því mér finnst auðséð á öllu, að fyrirætlun stjórnarinnar er að reyna að halda öllu í gamla horfinu, svo ekkert verði nema nafnið stjórnarskrá og ministerium. Allt er t. d. óbreytt í íslenzku stjórninni, nema að Kofoed er nú sálaður og hans störf fengin öðrum Dönum, allt er skrifað á dönsku frá og til; þó get eg hrósað því happi, að bréf frá Bókmentafélaginu á íslenzku var ekki sent aptur. Annars sé eg að allir skrifa ministeríinu á dönsku, og *allir* fá svör á dönsku, enda er nauðugur einn kostur, því Julius Havstein er *einn* vinnandi (auk Oddgeirs), og hann getur ekki komizt yfir að gera allt.

Þér munuð nú vera farinn að kynnast svo, að þér sjáið hvað gjöra þarf, og gjöra má. Við erum víst samdóma um það, að vandinn er að skammta sér af, og

leggjast á það, sem hefir helztar framfaravonir í sér fólgnar. Við getum ekki gert allt í einu, og því verðum við að fara þar að sem bezt lyptir upp bæði andlega og líkamlega. Nauðsyn finnst mér, að fá einskonar fastráðna niðurstöðu eða program, ef fengizt gæti, til að festa stefnu vora og gjöra hana kunna. Hún er nú sjálfsagt kunnug mönnum, að það er þjóðréttindi vor og sjálfsforræði, en það er einsog menn gleymi henni stundum, og auðvitað er að Danir gánga á það lagið. Eg vona þið komið ykkur saman um, að discutera aðalatriðin stjórnarmáls og fjárhagsmáls, þó lítið beri á, og sjáið um, að Þíngvallafundur verði almennt haldinn seinast í Juni. Eg held þetta sé öldúngis nauðsynlegt, og rétt að haga sem fyr, að þar sé fastur kjarni valinna manna og að þar verði rædd aðalmál vor. Eg held það sé nauðsynlegt ekki einúngis málanna vegna, heldur og til að viðhalda og auka viðurbúnað á Þíngvöllum, svo hann geti smásaman orðið einsog hann þarf að vera. Við þurfum að fá borgaðan undirbalancen frá í fyrra, og fá fasta reglu um kostnaðarreiknínginn. Eg skrifa yður mest um þetta vegna þess, að Halldór Fr(iðriksson) segist ekki vilja standa framar fyrir Þíngvallafundum, né stefna til þeirra, og ef það er hans alvara, þá þarf að hugsa fyrir öðrum forgaungumanni. Mér skilst sem helzt væri að nefna til fyrir utan hann, eða ef hann brygðist, Sigfús Eymundsson, en það kostar að klára við hann eða hjálpa honum til að klára reikníngana þá í fyrra. Jón Guðmundsson væri víst til í að boða fund, en hann þarf hjálp og samtök til styrktar. Þá er Egill, kannske Matthías, kannske Steingrímur, kannske Jón landsskrifari. Þetta fel eg yður til beztu yfirvegunar og ötuls fylgis til þess, að fundur verði, því það held eg öldúngis nauðsynlegt.

Hafið þér lista yfir niðurjöfnun þá sem gerð var í fyrra um gjaldið til mín? — Eg hefi aldrei fengið hann, en eg ræð af ymsu að víst gjald hafi verið ákveðið fyrir

hverja sýslu. Eg fékk nokkuð af því í haust er var, en eg get ekki fullt séð enn, hvernig það fellur, og yfir höfuð hvernig reikníngur Þjóðvinafélagsins fellur. Meðan svo stendur get eg því ekkert sagt, nema mér sýnist allt líta heldur líklega út, og eg gjöri allt mögulegt til að koma út bæklingum þeim sem félagið á að láta prenta. Nú kemur uppá að við í sumar getum enn fært okkur uppá skaptið. Eg get nú vel ímyndað mér, að þessi samskot til mín verði álitin betl, en það verð eg að þola, því með því einu móti ætti landar vorir að venjast á að finna til þeirrar þarfar, að hafa sér foríngja og styrkja þá, því enginn getur gefið út tíma sinn og vinnu fyrir ekkert, þegar hann er fátækur, sem við allir erum.

Mart mætti hérum fleira tala, ef tíminn leyfði, en kannske við getum talazt betur við í sumar.

Eg sendi yður grein um fiskiverkun og bið yður gott fyrir hana til »Ísafoldar«; ef þér vilið helzt vera frí við hana, mætti eg kannske biðja yður koma henni í Þjóðólf eða í »Tímann«, en eg vildi helzt Ísafold ef kostur væri.

Með beztu kveðjum.

Yðar skuldbundinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

### 317.

### Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara.

Khöfn $^{12}/_{8}$ '75.

Elskulegi vin.

Eg varð feginn, að þú hafðir ekki tíma til að rífast við mig seinast, því eg veit það er ekki gaman að komast í hendurnar á þér í þeim efnum, svo eg þakka fyrir náðuga hegníngu og sendíngu með. Frá sumum sýsl-

um hefi eg fengið sendíngar og tillög, og sumir lofa í vor, en frá sumum hefi eg ekkert fengið enn. Mér sýnist þessvegna ekki meiri tregða á, en vænta mátti, og þó enda minni, ef heldur liðkast til, sem eg vona. Hér er hvorki að tala um mína eða annara privat-interesse, heldur um hitt, að fá landa vora til virkilegra samtaka, og telja ekki eptir sér að borga þann kostnað sem til þess þarf. Með því einu móti getum vér vænt smásaman að vinna vor þjóðlegu og politisku réttindi. En við verðum þar að auki að hafa fyrir þeim flokki foríngja, sem hver taki við af öðrum, og stýri samtökunum, og sjái um að fyllt verði í skörðin, þar sem þau verða. Eg hefi þá von, að slík organisation geti tekizt smásaman. Hér um daginn stefndi eg fund, og var þar valin ritnefnd til Andvara. Eg skrifaði umburðarbréf, sem eg sendi öllum fulltrúum, og eins hefi eg gefið það nokkrum einstökum og sent, t. d. Birni Jónss(yni) redaktör og Jóni landsskrifara og Sigfúsi og Jóni Stefánssyni, en ekki veit eg hvort vert sé að prenta það; eg held ekki, enda þótt mér megi standa á sama.

. . . Það sem mér liggur nú helzt á hjarta, er það, að klárazt gæti Þíngvallafundarkostnaðurinn sá í fyrra, okkur að skammlausu, þarnæst að komið yrði á Þíngvallafundi í vor, og svo eptirleiðis komið reglu á umbúning þar á staðnum og borgun á kostnaði til hans. Ef við getum ekki skammlaust klofið þetta, þá erum við naumast líklegir til mikilla afreksverka í sjálfsforræði voru fyrst í stað. Sveinn Sveinsson hefir gengið á fyrirlestra á landbúnaðarskólann og kynnzt við prófessor Jörgensen, og sýnt honum ritgjörðir sínar og skýrslur, sem Jörg(ensen) hefir líkað vel. Eg held honum finnist miklu meira til Sveins en hann vænti, og hann hefir fengið 100 rd. hjá landbúst(jórnar)-félaginu, en heldur er minna um undirtektir íslenzku stjórnarinnar. Þeir gefa Stefáni saltpækli eitthvað til að skoða salt, öldúngis til einkis, af því Rosenberg gat narrað

hann til að skrifa, að Íslendíngar mundu nú verða spakir í stjórnarmálum, og væri allflestir leiðir á þrefinu. Birni múrara gáfu þeir líka styrk, og þar læt eg nú vel yfir, en Önnu Melsteð, sem er að læra mjólkurstörf, vísuðu þeir til landshöfðíngja, svo sem þar væri um »localt mál« að gjöra. Sama mun verða um Svein, og skrifar hann líklega landshöfðíngja og þá væri nú vænt ef þú styrktir hann (og svo Önnu), svo hann gæti fengið svo sem 100 dali til, og svo nokkuð til verkfæra ef vel væri, því þess þurfum við nauðsynlega. Hann býr til uppdrætti af ymsum jarðyrkjuverkfærum, sem eiga að fylgja kveri hans, og eg ver til þess því sem eg get, þó það fari yfir þá 200 rd. sem til þesskonar voru ætlaðir af félaginu, því eg álít öllu því bezt varið, sem gengur til framfara landbúnaðar og sjávarútvegs. Þú mátt með engu móti telja eptir Sveini það sem hann fær, því það er sannarlega ekki of mikið, og gæti fleiri laðazt til að leggja fyrir sig jarðyrkju, væri það gott. Eg gæti komið fyrir á Stend einum 3 eða 4 Íslendíngum, með kostnaði fyrir þá svosem 200 à 300 rd. árlega í tvö ár. Það væri óskanda að það gengi, og vér kæmum upp — þó ekki væri nema svosem 10—20 fastir menn —, sem skiptist út og viðhéldi og yki þessa kunnáttu eptir því sem hagar á Íslandi. — Það sem Anna Melsteð leggur fyrir sig er ágætt, og mætti verða að mesta gagni ef það breiddist út smásaman. Eg vona að útvega Önnu pláz í vor hjá mad$^{m}$. Nielsen til að læra að búa til osta, aðra en Kjósarosta.

Eg get ekkert skrifað þér um þau sorgartíðindi, sem eg fékk, um fráfall mágkonu minnar. Eg veit ekki svo um heimilishag, að eg geti sagt neitt, nema eg veit eg má treysta því, eptir því sem Siggi skrifar mér, að þú og síra Hannes sýnið ykkar vanalegu tryggð og vinsemd á allar lundir, svo mér dettur ekki í hug að eg geti sagt neitt betra en þið hafið þegar sagt.

Allt gengur vel í skólanum, eptir því sem enn

heyrist, svo það fara að berast að þér böndin með það, að þú sér of mikill zelotes og malcontent. Þú kannt að hafa mikið fyrir þér í því, að forstöðumaður fyrir lagaskólanum sé ekki til rétt góður sem stendur, en þá verðum við að sjá til að fá einhvern af þessum ungu mönnum til að búa sig undir slíkt embætti, sem hann gæti tekið við eptir nokkur ár, því héðan af megum við búast við því, ef við viljum hafa sjálfsforræði oss til gagns, að búa efnilega menn út til menntunar í hverju efni sem þarf, líkt og Norðmenn gjöra. Þú segir það án efa satt, að þessir gömlu verða ekki lagaðir, en það meinti eg heldur ekki, eg meinti að koma upp mönnum í stað þeirra, sem smásaman gæti tekið við, og því getur þú ekki mælt á móti. Það kostar stipendia handa svo sem tveimur, þremur á ári, tvö ár eða svo, og þar væri byrjun nokkur. En þú mátt ekki svelta þessa stipendiarios, og það gerir þú víst heldur ekki ef þú hefir vonir um þá.

Ástar kveðjur. Þinn ætíð

Jón Sigurðsson.

318.

Til Torfa Bjarnasonar, síðar skólastjóra.

Khöfn $^{20}/_{8}$ '75.

Háttvirti kæri vin.

Það var mér mjög kært að fá yðar vinsamlega bréf 16. þ. m., og að heyra, að þér eruð að grafa heilann í okkar málum. Eg var orðinn hræddur um, að við mundum ætla að missa af yður, og þessvegna verð eg því glaðari í þeirri von, að þér hafið sannfært yður sjálfan um það, sem eg held rétt vera, að nóg sé að starfa á Íslandi sér og öðrum til gagns, og með ekki

lakari útsjón en annarstaðar, ef menn hafa lag á að vera samhentir. Það er líka sorglega hlægilegt, að vér hugsum nú að fara úr landi, þegar fyrst er von á framförum, sem eru á okkar valdi, eptir mörg hundruð ára kúgun, sem við höfum þó komizt frá með lífinu og nokkrum — enda furðanlega miklum — sálarkröptum og fjöri.

Það er þarfleg iðn, að finna uppá því sem getur létt vinnuna, og ekkert getur komið sér betur, en eg leyfi mér að vara yður við einu, og það er, að þér eigið að fara eptir því sem *næst* liggur. Það var mjög nytsamt, sem þér komuð með, þar sem ljáirnir voru, og það má sannfæra okkur um, að landar okkar eru ekki staðari en aðrir, að þeir hafa komizt uppá að taka þessu og nota það rétt á stuttum tíma. Það er víst enginn efi, að sláttu- og rakstrarvélar eru nytsamar, en mér er einúngis vafasamt, hvort menn sé undir þær búnir. Eg er hræddur um, að enn vanti mikið á sléttun, áburðar meðferð o. fl. En engjarnar kannske lægi nær einsog nú er. Þér megið ætla uppá það, að hvað eina sem eg get styrkt til að fá kennslu í allskonar jarðyrkju, efla þá iðn og fá hana á fastan grundvöll, það skal eg gjöra. Bæði á alþíngi og í Þjóðvinafélaginu gjöri eg allt hvað eg get í því efni, og mun gjöra. Núna verður prentuð ritgjörð eptir Svein með uppdráttum af helztu jarðyrkjuverkfærum, og vona eg hún verði til nokkurs gagns. Hér var nú sem stendur ekki kostur á öðru betra, en verður það kannske síðar, og þá er eg fús til að styrkja það eptir megni. Beztu verkfæri af þeim sem kunnug eru mega vera brúkanleg ef menn leggja sig til með það og fá tilsögn. En það versta er, að landar vorir kaupa heldur sykur og kaffi og brennivín heldur en slík verkfæri, og sama er eg hræddur um að verði um önnur ný, nema þér fáið þá til að reyna þau af forvitni. . . .

Forlátið mér línur þessar og verið ætíð kærlega kvaddur.

Yðar einlægur trúr vinur
Jón Sigurðsson.

319.

Til Þorvalds héraðslæknis Jónssonar.

Reykjavík $^{30}/_{8}$ '75.

Elskulegi vin.

Nú er þá alþíng á enda, og hefir gengið heldur laglega yfirhöfuð að tala, eptir því sem eg ætla, þó munu án efa verða ymsir dómar. Mönnum mun ekki þykja ver, þó alþíngistollurinn verði tekinn af, en þá verða aptur auknar tollálögur á brennivín og tóbak, sem sumum kann að þykja miður. Eg sendi yður að gamni mínu yfirlit yfir málin, því eg ímynda mér að Ásgeir sé nú að fara, og sé ekki til neins að senda honum. Þér sjáið af yfirlitinu, að þíngið hefir gefið mér heiðurslaun 1600 rd. árlega. Sumir vildu veita 2000 rd., en eg kaus heldur hið minna, af því það var veitt í einu hljóði, en hitt mætti nokkrum kur, þó það mundi hafa gengið í gegn. Móðir yðar fékk 1000 króna styrk eitt sinn; við vildum hún fengi 400 krónur árlega, og nokkrir styrktu það. Sighvatur bar það upp í efri deildinni og hélt það mundi vinnast þar betur, en þeir brugðust okkur, Hjaltalín og fleiri, meira af einhverjum misskilníngi heldur en af því þeir vildu vera á móti henni, því eg held allir hafi viljað styrkja hana, en þeir héldu fyrst að hagur hennar væri betri, en hann því miður mun vera í raun og veru. Hún verður nú samferða okkur til Khafnar og vildi eg nú óska að þér væruð þar nokkra daga til að talast við. . . .

Verið nú ástsamlega kvaddur með öllum yðar ástkæru.

Yðar elskandi vin
Jón Sigurðsson.

320.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara.

Khöfn 26/9 ’75.

Elskulegi vin.

Astar þakkir fyrir alla samvinnuna og samveruna í sumar, einsog áður fyrri, og alla þína tryggð og velvild við mig og mína fyr og síðar. Ferðin gekk vel og allt stórslysalaust. Um alþíngismál heyri eg ekki mikið, en það sem eg þykist ráma í mun vera það, að frágángur þyki nokkuð fljótfær, mest er það samt að formi til skilst mér, svosem það, að heimta löggildíng frá nýári etc., en það kom af því, einsog þú manst, að um löggildíngartímann stóð til að breytt yrði fyrst framanaf. Eptir því sem eg fæ skynjað held eg að kláðamálið falli við lítinn orðstír. Ávörpin til konúngs heyri eg hafi þann galla, að þau eru ekki frá hvorri deild um sig. Þann galla þekkjum við. Nú ætti það að minna oss á, að fara nú að setjast að stjórnarskránni og stínga uppá breytíngum við hana, og revision á henni og stöðulögunum. Það er nauðsynlegt að það komi fyrir á næsta þíngi, og þarf þá bráðum undirbúníng. Hvað segir þú um, að semja annaðhvort breytíngar eða frumvarp nýtt *með* breytíngunum, og prenta í Andvara? Þið hafið tíma nú í vetur og við líka hér, ef það þykir tímabært, sem eg álít vera.

Eg sendi þér nú með *Mávi* pakka af Þjóðvinafélagsbréfum, sem eg bið þig frankera uppá félagsins reiknı́ng. Þið haldið nú víst fund, í öllu falli í forstöðunefndinni, og eg vona ykkur heppnist að verða samtaka og hressa við félagið, svo það verði ekki afvelta strax aptur. Egill talar um að fara upp að Þíngvöllum, og það lízt mér vel á, ef hann verður nú heppinn að tala sig saman og byrja á því sem við þarf, án þess að spilla neinu fyrir í framtíðinni, því eg er logandi hræddur um fornleifar, að þær kunni að raskast, ef

ekki er mikil aðgætni höfð. Þingvalla-samskotin þykja mér mjög áríðandi.

Ef þú skrifar Jóni í Vík, þá reyndu að halda honum við trúna með Þjóðvinafélagið og Bókmentafélagið. Hann þóttist ekki vilja vera lengur fulltrúi; en eg held hann nauðsynlegan, því hann er viss og góður maður. Sama er um aðra fulltrúa félagsins að gjöra, því þar ríður á, að við getum haldið beztu mönnunum föstum í félaginu, og aukið okkar útveg. Þú getur haft mesta gagn af Þjóðvinafélaginu eins fyrir Búnaðarfélagið, ef þú tekur saman við okkur og við hjálpumst að. Jarðyrkjuverkfæri ættum við að geta útvegað og haft til sölu í kaupstöðum, og ritgjörðum ættum við að geta komið á fót.

Heilsaðu Sveini og biddu hann koma sem fyrst með hvað hann hefir að bjóða.

Eg hefi eiginlega mart fleira að skrifa, en eg brýt samt í blað, og kveð þig og þína ástsamlega.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

## 321.

Til Þórhalls Bjarnarsonar, síðar biskups.

Kaupmannah. 14. Novbr. 1875.

Kæri vin.

Jafnframt og eg þakka yður ástsamlega fyrir góða viðkynning áður, og seinast í sumar, sendi eg yður nú kvittun þá, sem þér óskið að fá. Mér þykir það trúlegt, sem þér segið, að örðugt muni veita að halda skólanum í Þjóðvinafélaginu; þó er mér nú reyndar óskiljanlegt hvers vegna, því svo mikla greind hafa þó piltar fengið, að þeir mega geta haft meðvitund um þjóðerni sitt og þjóðerniskröfur vorar Íslendinga. Ef vér kunnum ekki að meta þær, eða gjöra þær gildandi, þá föllum við aptur í hinn fyrra doða, og förum að grúfa sem

gyltur aptur á ný. Þeir sem vilja það, þeir vara menn við Þjóðvinafélaginu og reyna til að finna því eitthvað til. Allt hvað hreifir sig í þá stefnu að auka samheldi, félagsskap og framtak, meðal vor Íslendínga, er þessum mönnum banvænt, því þeir vita, að þegar það er út slokknað, þá er þjóð vor öll dreifð og duglaus, því sinn fer í hverja áttina. Okkar fyrsta regla á að vera sú, að kjósa oss forgaungumenn og reyna að velja þá vel. Ef þeir bregðast, þá velja aðra, en ekki af bráðræði, heldur með góðri gætni. Við eigum að reyna, að velja beztu menn í héruðum um allt land, og leiðbeina félagsstjórninni í þeim efnum, svo að forstöðumenn félagsins verði sannnefndir forstöðumenn þjóðarinnar. Við eigum að reyna að hjálpast að til að veita fram þeim lífsstraumi, sem rennur undir niðri, og vill fá framrás. Skólapiltar, sem ætti að vera fjörugastir, ætti fremstir í flokki að hvetja almennt til samtaka og til framkvæmdar í allri atvinnu til sjós og lands, en forðast þessa sérvizku og útúrdúra, sem því miður hafa sýnt sig stundum, og ekki sízt hjá embættismönnunum. Þeir sem taka bezt eptir göllunum ætti að geta bezt lýst þeim og varað við þeim. Það má líka vera mönnum til upphvatníngar, að ekkert félag hefir enn í dag á Íslandi haft eins fljótan viðgáng og Þjóðvinafélagið. Það er handvömm ef það fer, og það er hviklyndi landa vorra, og einurðarleysi, sem dregur það niður. Mér finnst að það megi vera hægt fyrir yður, og hvern gáfaðan pilt að sýna og sanna þetta, og að sameina ykkur við Magnús Andrésson, Lárus Halldórsson og aðra góða drengi til að halda góðu fjöri í félaginu; og þó forstöðumennirnir yrði daufir, þá er ykkur engin vorkunn að hafa fram það sem þarf, semja ritgjörðir og senda mér, hvetja únglinga til að læra það sem til atvinnu heyrir, lista og frægðar, og svo útvega fé, sem megi hafa til að styrkja slíka menntun. Eg vona að geta stutt nokkuð að þessum framkvæmdum, ef fé er fyrir

hendi, og því má safna um allt land. Ef þér hafið athugasemdir þessu til gagns, þá komið með þær. Takið þér þessar tvær konur og blásið í þær einurðinni, svo þær hveti okkur betur og vinni allt kvennfólkið.

Kærar kveðjur heim til yðar, og þakkið föður yðar fyrir það sem eg fékk frá Hólum. Sumt vantaði, því miður, en mart kom, sem mér þótti vænt um. Æfiminn(íng) Gísla b(isku)ps Þorlákssonar vantar mig. Samræðu biskupsstóls á Hólum (1781) sömuleiðis o. fl., en það kann að fást seinna.

Eg skal jafnan vera yðar einlægur trúr vinur

Jón Sigurðsson.

322.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara.

Khöfn 16. Novbr. 1875.

Elskulegi vin.

Já, eg sé það, þú hefir verið annars hugar þegar þú skrifaðir, því ekki fékk eg Alþingistíðindi eða neitt annað, ekki einusinni »Verðúngina«, og það merkilegasta er, að þú vilt nú kasta okkar útvalda keri Önnu Melsteð, þó þú hafir enga »praktiska« manneskju, og enga theoretiska heldur. Þetta þykir mér nú hrein sérvizka, því við eigum *bæði* að brúka þá sem skrifa og theoretisera, ef þeir gjöra það sæmilega, *og* eins hina sem geta ferðast um. Þú getur nú ekki ætlazt til þess, að þrælka kvennfólk einsog akneyti. Mér þótti ergilegt, að þú gjörðir enga ráðstöfun fyrir verkfærum handa Önnu, og því sendi eg henni nokkuð, nl. ostaform tvö og smjörvindu með borði (forláttu ef það skyldi vera rángt nefnt). Þú mátt til að framfylgja Þjóðvinafélaginu, því þú kannt sannarlega ekki að sjá þinn eigin hag og búnaðarins, ef þú ekki gjörir það. Eg met

mikils þínar praktisku spekulationir, en þær eru ekki einhlítar. Þú hefir komizt inn í þær núna í seinni tíð, og það hjá þeim helzt, sem ekki eru neitt inni í þesskonar háttar, að mér virðist, heldur dæma einsog vömbin veltist. Nei, látum oss taka allt sem notað verður, hvort það er eitt eða annað, því ekki veitir af.

Þú kvartar um að ekkert fénist, t. d. í Þjóðvinafélaginu, en hvernig getur þú vænt þess, kæri vin, þegar þú heldur aldrei fundi og aldrei agiterar neitt. Hvar sem þú fer í veröldinni þá gengur aldrei neitt með því móti. Það er Suðuramtsins húss- og bústjórnarfélag sem getur haft það svo, af því það er orðið gamalt og lifir af vana. Þú hefir nú líka þessa 600(?) dali, sem hjá þér voru í sumar, og getur haft dálítinn stuðníng af þeim, en einkum er undir komið að ná saman meira fé og pipra menn upp. Eg segi þér satt, að með þessari deyfð nær Þjóðvinafélagið aldrei neinum vexti, heldur dregst upp, og það verður kennt okkur. Því nær þú ekki í Magnús Stephensen? og aðra fleiri og lætur þá agitera? Því tekur þú ekki ríksort hjá hverri vinnukonu um allt land? Þær verða beztar? Eg get nú vel skilið, að þér hætti við að þreytast og gugna; en hvað stoðar það? — Og *þú* mátt allra sízt gera það, því það er einmitt þinn grjótpálsskapur sem vekur þér mótstöðumenn. Núna er annaðhvort að gjöra, að kúska ritarann, eða að gjöra úr honum svo mikinn niðurskurðarmann, að allir verði hlessa. Nú fara fyrst nokkur töluverð meðul með póstskipinu, hvort sem þau koma nú um seinan eða ekki. Eg þykist sjá á meðferð Jóns ritara, að hann er hérumbil á sama og Jón Guðmundsson framan af, en hans afrek mun og verða líkt. Þeir útrýma naumast kláðanum fyr en þeir læra að skilja, að hann er af illri hirðíngu og óþrifum. Hann hlýtur að koma upp jafnskjótt og féð fjölgar og hirðíngin verður lakari. Er annars engin manndáð eða einurð í Sunnlendíngum?

Því þetta er mest uppþot í Jóni til þess *eitthvað* gángi. Það sparar annars stjórninni eða konúngi að samþykkja kláðalögin, ef þá lángar ekki mjög mikið til að eiga þau.

Þú hefir verið of fljóthuga held eg, ef þú hugsar að eg vili eða ætli að fá núna strax ritgjörð í Andvara um breyting á stjórnarskránni. Það var ekki mín ætlan, en eg vil hafa blaðagreinir um það, og almenna agitation um allt land. Það veitir ekki af, því á næsta þíngi getur allt farið í hinn gamla Mólok, kláðann, einsog nú. Landar vorir þykjast allir hafa tekið svo nærri sér í stjórnarmálinu, að þeir megi til að sofa ein tíu ár, og svo skal lukka til þeir geti vaknað þegar á þarf að halda. Þessvegna þurfa gæsirnar á Kapitolio að láta alltaf til sín heyra.

Ceterum censeo: Það er nauðsyn að koma upp Þjóðvinafélaginu, og láta það styrkja búnaðarfélögin og sjómannafélögin. Þar má ekkert theoretiskt *hik* vera á. . . .

Ástar kveðjur til konu þinnar elskulegrar og dætra.

Þinn einlægur vin
Jón Sigurðsson.

Eg sendi Bergi sem varaforseta skýrslu um samtal mitt við konúng. Kærar þakkir ef þú vildir sjá og leiðrétta hvað miður kynni fara, eða ofaukið vera.

323.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara.

Khöfn 29. Febr. 1876.

Elskulegi vin.

Eptir því sem þú skrifaðir mér í vetur, þá hefi eg fengið skýrslu um hvað kosta mundu verkfærin, sem

Anna Melsteð óskaði eptir, og eg hefi sent Páli Melsteð föður hennar listann aptur, svo að þið getið jafnað með ykkur hvað gjöra skal. Ef hún finnur ekki náð fyrir þínu augliti, þá mun ekki vera þar mikils að vænta. Má eg annars ekki spyrja þig, hvernig þú meinar að eg sé rífur á peníngum til að fita vömb á fólki, einsog þú segir, hvar á það heima? Þú ert búinn að sletta þessu svo opt, að mig lángar til að vita það, því eg hefi ekki orðið sjálfur var við, að eg hefði fé til þesskonar, og hafi heldur ekki brúkað það til þess. Annars finn eg enga ástæðu til að disputera um theori eða praxis, því ef þú værir með jöfnu geði, þá mundum við vera hér um bil samdóma, en þú skeytir skapi þínu núna á mér, af því illa hefir staðið í bælið þitt, og eg er ekki svo praktiskur að geta gjört við því. Muus ímynda eg mér að gjarnan vildi taka það sem þú óskaðir, ef eg vissi hvað það væri, en eg gjöri ráð fyrir að Moritz viti það.

Getur þú nú ekki haldið fundi í Þjóðvinafélaginu? Eg þekki þó víst eina 10 eða 12, sem eru að óska að varaforseti vildi halda fundi, og eg get ekki neitað því, að mér finnst það ætti að geta tekizt, ekki síður þar en í Búnaðarfélaginu. Eg vildi nú gjarnan líka vita, hvort við öflum nokkru í vetur. Það sem eg hefi fengið, er frá sira Þorsteini í Berufirði (76 krón.), og frá Maurer (53 krón.). Eg hefi sent í haust bréf til allra fulltrúa félagsins og annað nú nýlega, og eg bið vægilegs dóms fyrir hvorttveggja. Eg vænti sjálfsagt nokkurs fjár í vor, bæði híngað og til þín, og þessvegna gjöri eg ráð fyrir eg geti látið prenta reikn-ínginn, almanakið, Andvara (III) og dálitla jarðyrkju-ritgjörð eptir Lock, með uppdráttum. Við höfðum nýlega fund í Þjóðvinafélaginu hér, og hélt eg dálítinn kapítula um það, að brýn nauðsyn væri að halda fram Þjóðvinafélaginu, sem væri fótur undir okkar politiska samheldi, og þyrfti svo að vera, ef við ættum ekki að renna ofan í gamla farið aptur. Eg held að mönnum hafi skilizt þetta, og að það beri góðan ávöxt.

Eg skil það, að Magnús Stephensen vili ekki gánga í Þjóðvinafélagið, því hann heldur ekki mikið upp [á] það orð »þjóð«, nema kannske þar sem talan er í millíónum. Það getum við nú ekki boðið. Í ritnefnd Andvara voru kosnir Edvald Johnsen og Guðmundur Þorláksson auk okkar þriggja hinna gömlu.

Þú ert óánægður með kláðastjórnina, og það er von, en eg hefi engin data í höndum nema þau sem blöðin segja frá. Mér skilst, sem þér og þínu fé sé óhætt fyrir gini úlfsins, en hvort þú stendur nú undir amtmannsins vernd eða ekki, get eg ekki fullkomlega séð. Vaknar annars engin reaktion móti ritaranum fyrir hans grimmd? — Getur hann nú »útrýmt« kláðanum í vor, að minnsta kosti um nokkra daga?

Eg sendi þér bækling um sauðfjárrækt eptir Schumann. Sveinn þekkir hann — og svo til að vera praktiskur um leið, þá hefi eg fengið Fischer og Knudtzon til að flytja baðlyf, glycerin-lög, sem lítur út til að vera betri en við höfum þekkt híngað til, mér þætti vænt um, ef þú reyndir það, þú fær það hjá Fischer, og maður fengi að heyra hvað þú segir um það. Schumann þessi lofar ekki karbolsýruna, og Valzlöginn skemma bændur sjálfir án efa, með því að gjöra hann of þykkan og setja í hann of mikla tjöru, annars sé eg ekki að Schumann lasti hann.

Þú ættir ekki að halda því fram, að hreifa ekki við stjórnarmálinu fyr en 1879. Það væri miklu betra, að hreifa því 1877, og búa það svo undir að það yrði ekki kannske alveg búið, en þó svo lángt komið, að ekki þyrfti nema að leggja á það síðustu hönd 1879. Þetta er hægt, ef laglega er að farið, og það vona eg við verðum allir samtaka um.

Forláttu mér þennan stutta miða og lifðu alla tíma vel og þínir allir.

Þinn einlægur skuldbundinn vinur

Jón Sigurðsson.

Ef það tekst,

að halda hóp, þá er eg viss um með guðs hjálp að við náum rèttindum vorrar, þó lángt sè að bíða þess, en það verður því tremmra sem menn styrkja mig betur og þann litla hóp sem með mèr er. Framyfir allt þá megi þið ekki láta hvern þyt blaðanna eða lausar fregnir og getgátur trufla ykkur.

Eg hefi nú aldrei þurft að biðja þig eins forláts eins og fyrir þennan seðil, en þín einlægni hvetur mig til að svara í sama tón. Eg er ætíð

þinn einlægur elskandi vin

Jón Sigurðsson.

324.

Til Jóns alþingismanns Sigurðssonar á Gautlöndum.

Khöfn $^{27}/_{5}$ '76.

Elskulegi nafni minn.

Eg sé þú ert búinn að halda þitt politiska hjónaband við síra Þórarinn. Það er nú reyndar í kláðakirkjunni, en eg vona þú dragir hann heldur yfir á meira hlutann í ymsum öðrum málum, sem eru heilnæmari en kláðinn. Mig lángar nú til að stínga uppá einu, og það er Þjóðvinafélagið. Þú veizt, að það eruð þið Þíngeyíngar, sem í fyrstu eruð frumkvöðlar, og eg meðal annara hefi leitazt við að styrkja ykkur í því. Eg vil því vona, að þú takir vel í taumana, einsog fyrri, með að styrkja til að efla félagið. Eg skrifaði ykkur öllum fulltrúum í haust er var, og sagði þá hvernig á stæði. Ef þú talar við Halldór Friðriksson um það, mun hann geta sagt þér sínar tillögur, og eg vona þú sért mér samdóma um, að við eigum að reyna að vinna sem bezt saman við forstöðunefndina og varaforseta. Síðan í haust, að eg skrifaði, hefi eg fengið gefið út almanak Þjóðvinafélagsins fyrir 1877, og sent bréf öllum fulltrúum, sem eg vona þú og hafir fengið. Við höfum hér kosið nefnd til ritstjórnar Andvara, og höfum tvo bæklínga um búnaðarefni og jarðrækt. Skýrslu þá í fyrra sumar um reikníng félagsins þekkir þú, svo eg vona þú getir hughreyst menn, að engu sé stolið af tekjunum, en efnahagur er fremur örðugur, því skuldin fyrir Þíngvallafund 1874 knýr okkur fast. Eg hefi í stuttu máli síðan í fyrra sumar tekið við hérumbil 500 krónum, en borgað út hérumbil 1400 krónur, náttúrlega í því trausti að félagar stæði vel í skilum, og að alþíngismenn mundi eptir loforði sínu efla mál félagsins.

Ef þú kemur nú á Þíngvallafund, og þú sér færi á, þá munt þú kröptuglega mæla félaginu til gagns,

því enginn veit betur en þú, hvert gagn félagið gæti gjört, ef því væri sómi sýndur. Mér finnst að fundarmenn á Þíngvöllum ætti að bindast í að álykta föst samskot handa félaginu, og jafna niður á allar sýslur, einsog gjört var ráð fyrir í fyrra, og til þess að koma þessu á gáng, þá þarft þú að vinna síra Þórarinn til meðmælis, og síðan aðra. Eg gjöri sjálfsagt ráð fyrir, að andinn sé félaginu góður, og að þið kunnið að beita þeim kröptum, sem fyrir hendi eru. Svo vona eg líka, að ef þið ákveðið eitthvað sem gott er félaginu til handa, þá munið þið láta mig vita. Eiginlegar lagabreytíngar getum við ekki gjört á þessum fundi, en þið getið komið upp með uppástúngur, sem svo geti komið fyrir alþíngismenn að sumri, og orðið þar lögleiddar ef þeim lízt. — Mér finnst að fundur þessi ætti að geta gjört áskoranir og kannske uppástúngur til breytínga á stjórnarskránni, sem kæmi til undirbúníngs 1877 og til endilegrar alþíngissamþykktar 1879. Einnig mál þau sem konúngsfulltrúi fékk undir tönnina seinustu dagana. Ef þú fær síra Þórarinn inn á reikníngskröfur og ráðgjafa, þá ertu góður.

Forláttu þenna miða og berðu syni þínum Kristjáni kærar kveðjur frá okkur hér.

Þinn skuldbundinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

Það er ákveðið, að (ritlíngur eða) grein um Þjóðvinafélagið skuli koma í Andvara. Ef þú heldur það skemmi ekki fyrir félaginu, máttu gjarnan segja frá því.

325.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara.

Khöfn $^{26}/_{9}$ '76.

Elskulegi vin.

... Það er vandlifað hjá þér fyrir Þjóðvinafélagið, það er einsog sagt er, að gjörir þú nokkuð, verður þú barinn, gjörir þú ekkert verður þú líka barinn. En þú ert sannarlega of vandlátur, því það sem þú setur útá er fullvel viðunandi, eg vil ekki segja ágætt, af því það er ekki til þess ætlandi í þessum efnum. Ritgjörðin um réttindi íslenzkunnar er konsekvent, því getur þú ekki neitað, og hún markar veginn til þess, sem maður þarf að miða til, en við eigum að nota tímann sem fyrst, til að færa okkur upp á skaptið. Nú er allt í sömu for einsog áður, af því við erum eins daufir einsog það hafi aldrei verið með okkur lífsmark. Það er vel gert að minna okkur á þetta, við munum naumast hlaupa þar af okkur hornin. — Á dómi þínum um »Gylfastrauminn« er eg nú hreint hlessa, og þykir merkilegt og furðanlegt að þú, Halldór sjálfur, skulir koma með slíkt. Látum nú orðið vera aldrei nema nýgjörvíng, það er fallega myndað orð og viðkunnanlegt verður það, og er það eitt merki, að þið spekíngar hneikslist á því. Þessvegna verður það minnisstætt og gleymist ekki. Ritgjörðin sjálf er vel samin eptir allra þeirra dómi sem í ritnefndinni voru, og eg óska að við fengjum slíka eða betri ritgjörð á hverju ári. Þú verður að forláta mér, að eg er nú ekki betur að mér en svo. Ritgjörð Sveins játar þú sé góð, og um það erum við samdóma, en þér þykir eyðsla að prenta hana sér í lagi auk þess sem hún er í Andvara. Þetta kemur af því, að Sveinn óskaði hennar gjarnan sér í lagi, og eg skildi þig svo líka, en með því að prenta hana svona er einmitt sparað. Það sem er prentað af henni sér í lagi eru 200 exemplör, og allur kostnaðurinn þarvið eru

200 × 3 arkir þ. e. 600 arkir af prentpappír og eitthvað lítilræði fyrir prentunina, því arkirnar eru settar í Andvara. Hitt er annað mál, að ekkert verði lesið, hvorki hún né annað, sem snertir búfræði, en þú veizt sjálfur að það er tilgángur okkar að reyna að vekja eptirtekt á því sem viðvíkur atvinnu til sjós og lands. Annaðhvort er það, að hreyfa ekki við þessum efnum, eða nudda á þeim aptur og aptur, til að reyna að vekja hinn sofanda. Ef ekkert er hreyft um önnur efni en þau, sem alþýða vill, þá er bezt að Þjóðvinafélagið fái Símon Dalaskáld til að yrkja.

Það er einsog þú, sem hefir híngaðtil haft kjark til að vaða andstreymið, sért nú farinn að fallast á ráð þessa heims barna, og leita undan straumnum nema með kindurnar, en það stoðar sízt með þetta, því þá er engrar framfarar að vænta nokkurntíma. Þetta hlýtur þú að sjá, og ef þú lítur á málið án hleypidóma, þá vona eg þú játir, að nokkuð hefir sargazt á seinustu 40 árum og líklegra til framfara nú en áður. Það gengur allt viljugra, og alþíngismenn geta mikið afrekað ef lagið er með. Þér er nú að vísu meiri vorkunn, því þú ert við eldinn, og þar kannast eg við að manni getur fremur orðið órótt, en þar er ekki um að tala, og eg hefi meiri mætur á þeim, sem þolir nokkuð, en þeim sem forðar sér við fyrsta högg. . . .

Ástar kveðjur.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

326.

Til Guðmundar búfræðings Ólafssonar á Fitjum.

Kh. 6/11 '76.

Háttvirti kæri vin.

Kærar þakkir fyrir yðar góða bréf 2. Oktbr. Það getur verið, þér hafið rétt í sjálfu sér um Johnst(ons)

Katekismus, en eptir því sem ástatt er hjá oss, sé eg ekki þar geti orðið fullt gagn að þessari bók. Væri jarðyrkjuskóli handa únglíngum væri kannske annað mál. En einsog þér víst munið þá var það umræða okkar, að fá greinilega og ljósa fyrirsögn um jarðrækt á Íslandi og meðferð á henni, eptir yðar reynslu. Þaraf vænti eg mér hins bezta, og eg vil feginn fá það rit sem fyrst, svo það gæti orðið prentað í vor, ef mögulegt væri. Þér hafið ekkert getað útrétt fyrir Þjóðvinafélagið vænti eg, og líkt er víðar að að heyra. Eg er því í kröggum, og er hálft og hálft að hugsa um að reyna til að halda félaginu á floti í vetur og skila svo af mér til alþíngismanna, fyrst þeir ekki treysta sér til að enda loforð sín. En kannske þetta ráðist betur en á horfist. Þó er ekki á góðu von, þegar allir bændur eru svoddan gúngur og ginníngarfífl, sem þér segið mér, og eg að nokkru leyti þekki um Borgfirðínga, því þegar eg vissi til drápu þeir sjálfir fríviljugir og nauðúngarlaust mörg hundruð fjár, sem var alheilbrigt og svo fallegt sem nokkur vildi sjá fyrir augum sér. Þér sem alþíngismaður, og skynsamur maður, ættuð ekki að láta slíkt þegjandi viðgángast heldur taka yður saman við lækníngamenn. Eg get vel skilið það, að Þjóðvinafélagið getur heitið að gjalda mín. En því segja menn það ekki hreinskilnislega, þá skal eg víkja undireins, því þó landar mínir ættu eptir minni meiníngu fremur að þakka mér en hitt, þar sem eg útvegaði þeim bæði meðul og læknahjálp fyrir ekkert, og sýndi þeim, að það sumar var kláðinn svo að segja eyddur og hefði bráðum eyðzt, hefði þeir sjálfir bændur ekki sparkað þar sem þeir hefði átt að vera kyrrir, þá samt tek eg ekki mér til, það sem yfir marga gengur. Landar vorir hafa skjaldan verið heppnir að nota sér það sem þeim gat orðið að gagni, en hvað sem þar til gæti orðið þeim til ráðs, væri nauðsynlegt og fyrir það skal eg vera mjög þakklátur. Nú er engin ritgjörð fyrir hendi

og væri mesta þörf á í alla staði. Eg hefi nú orðið að borga frá sjálfum mér það sem eg mest gat, til að halda í horfinu, svo hversu feginn sem eg vildi, get eg ekkert misst nú sem stendur. Eg sé ekkert annað ráð, en að þér reynið að safna til Þjóðvinafélagsins og haldið því sem inn kemur uppí ritlaun yðar, með því einu móti getið þér áunnið það sem þarf, og fengið það samþykkt.

Þér munið það, að með fyrstu ferð í vor eru seinustu forvöð með ritgjörðir, einkum þær sem ætti að koma í Andvara.

Ástar kveðjur.

Yðar skuldbundinn vin

Jón Sigurðsson.

327.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara.

Kaupmh $^{6}/_{11}$ '76.

Elskulegi vin.

Eg þarf strax að geta þess, að eg ímynda mér þú kunnir að vilja fá sem billegasta grænsápu í bað þitt með karbólsýrunni, og þá vil eg vísa þér á Önnu Melsteð, því hún kann að sjóða grænsápu, og líklega getur maður fengið nóga lambsk[r]oppa hjá þeim niðurskurðarmönnum fyrir sanngjarnt verð.

Sveinn búfræðíngur er nú kominn og eg efast ekki um hann geti fengið styrk hjá þér og svo hér líka. Það er gott að þér er annt um Svein, það er mér líka, og tekst þá tveir vilja. Eg held hann geti orðið að góðu gagni, og nauðsyn mesta er að fá fleiri, ef duglegir fengist, sem eg vona. Wilson lætur vel yfir þeim sem læra á Stend núna, og þar eru nú komnir einir þrír til, eða alls einir 10.

Þú ert víst hliðhallur Ólafi á Lundum, stjúpsyni Ásgeirs, eða er ekki svo? Eg er búinn að skrifa Wilson um hann og vona hann fái inntöku. Má eg spyrja annars, hvernig þú sér hvort þeir duga nokkuð, sem ekkert eru reyndir. Tekur þú á heilanum eða hryggnum? Ætli þú getir ekki farið eptir vitnisburðum einsog flestir byrja með.

Hefir þú nokkurn höggstað á commissorio Jóns ritara? Theoretisk hefir þú það, en eru ekki allflestir með honum, og hver hefir þá nokkuð upp úr því? Þú veizt að þó þeir sé drepnir sjálfir lækníngamenn og allt þeirra fé, þá er ekki gott að fá rétt á því. Því er eg á því, að fara varlega útí það. Ef maður fer að hefjast máls á því á þíngi, má fara varlega, því maður má búast við að alþíng staðfesti allt saman. Þar á móti er ekki ólíklegt að ritarinn hlaupi af sér hornin, og fái þá á móti sér sem eru niðurskurðarmenn, og þá greiðist gatan. Mál þetta þarf mikillar gætni við, ef það á ekki að spilla og spillast. Eg sé nú ekki heldur betur, en að óhætt sé að bíða hæstaréttar, en vel kynni vera rétt að ympra á því í blöðunum, svo að skýrt sjáist hvað eiginlega er í húfi. Í Morgunblaðinu var grein, en þar sást varla hvað um var að vera. Þú mátt ekki vera of bráðlátur. Eru þeir ekki búnir að hlaða fleiri málum á Skapta, eða þið? Bensi fékk nú tvo hæstaréttardóma uppá 200 króna múlkt hvorn. Eins fer fyrir Skapta, ef hann heldur svo lengi út. En hvað er að láta sér svo óðslega, að lofa ekki »kótunum« að fá sér dóm. Ekki getur það skemmt stjórnarskrána.

Vertu kærlega kvaddur með öllum þínum elskuðu.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

Þú getur víst stemmt Vilhjálm Finsen privatim.

## 328.

### Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara.

Khöfn 14/4 '77.

Elskulegi vin.

Eg hefi verið að braska í að senda verkfærin til ostagjörðar handa Önnu Melsteð. Eg sendi það nú með gufuskipinu í kassa og hjálagðan reikníng með, og óska eg helzt að geta fengið með skipinu aptur þær 44 krónur og 18 aura, sem reikníngurinn hljóðar uppá. Eg finn þar er fast fyrir, sem eg leita þín, en eg vil samt reyna til að mínu leyti að gegna bónum þínum, það sem eg get, því eg veit, að þú munir vera svo liðlegur, sem þú getur og átt kost á, enda þótt stirt sé snúníngunum. Þú getur nú mikið meira gjört, ef þú vilt, en eg veit ekki hvað til kemur, að mér finnst þú vera fúsastur til að gera Þjóðvinafélagið ómögulegt, og er það mér heldur en ekki óskiljanlegt, þegar það eru flestir alþíngismenn, sem í félaginu eru og eru í rauninni skyldugir sóma síns vegna að halda því fram, sem þeir og vel geta. Það lítur helzt svo út fyrir mínum augum, sem þú sért nú kominn öndverður móti þinni fyrri stefnu. Eg veit það harla vel, að hver sá á hægast með að ónýta mál vor og allt gott, eða alla viðleitni, sem tekur sig þversum móti öllu með hægð og þembíngi. Eg hefi opt orðið var við þesskonar, en eg hélt þú værir ekki farinn nú að fella þig við þesskonar, sem þér hefir verið áður á móti. Þú hefir híngaðtil ekki verið þángað hneigðastur, sem deyfðin hefir verið, heldur á hinn veginn, þar sem hafa verið framfaramenn, hversu fáir sem voru, og með því hefir sargazt eitthvað smásaman. Þegar þú fer á hina hliðina, þá má geta því nærri, að þar dettur í skarð. Þú veizt sjálfur, að það er ekki nauðsyn okkar, að slá úr þegar tregða er, heldur hitt, að koma þeim í hópinn og mjaka þeim sem tregir eru. Öll okkar þjóðleg framför er undir því komin, að vér

getum það og gerum það, en því fleiri sem falla í afskiptaleysis foraðið, því minni verður okkar hluti, og seinast liggjum við þar allir sem þú vilt sízt. Það væri skrítið, ef allstaðar í veröldu væri gagn að ritgjörðum nema á Íslandi ekkert. Og þó hefir þar allt af verið álitið gagn af þeim þar, hjá fróðleiksgjörnu fólki, þángað til þessi sérvizka er nú komin í ykkur spekíngana. En eg segi fyrir mig, mér þykir gott hvaðan gott kemur, getið þið gert gagn með skóflum og rekum, svo skal mér þykja vænt um, en geti ritgjörðir þar að auki gert gagn, þá vil eg ekki fúlsa við þeim, og það ættið þið heldur ekki að vilja.

Þó eg jagist við þig, þá vorkenndu mér.

Berðu kærar kveðjur til þinna ástkæru allra.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

329.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara.

Kaupmh. 10. Novbr. 1877.

Elskulegi vin.

Það er illa farið, að þú ert ásóttur með málasóknum, og er það mjög móti mínum vilja, og þeirra í forstöðunefndinni, eptir því sem eg heyri, en þetta kemur af því þú fórst svo þvert við mig í sumar, að þú vildir ekki halda áfram að vera varaforseti og laga það sem þurfti. En það er nú komið sem komið er, og eg hefi nú skrifað forstöðunefndinni að sleppa málasóknum, því mér finnst þær óþarfi þegar skuldin er afgreidd, og vona eg þá geti allt fallið niður. Það sem mest ríður á, það er að enginn skaði verði að fyrir félag vort, en því er miður, að eg er hræddur um það, nema þú setir þig sem friðsamlegast, og það vona eg þú gjörir. Þú

sér sjálfur, að hér þarf alla lempni að hafa, og þú mátt vera viss um, að verði það ekki, þá hleypist allt saman smátt og smátt í ósamlyndi og ríg, og þá stoðar ekki mikið, þó hver kenni öðrum um, því meinið sjálft stendur eins ríkt, hverjum sem það er að kenna. Eg vildi óska þið hefðuð smásaman þá lempni að geta komizt útaf því saman, þið Jón ritari, og þá gæti allt gengið betur. Eg vona að þú gerir hvað þú getur til að jafna þetta, því það er í sjálfu sér áríðandi.

Hvað mér viðvíkur, þá getur þú verið viss um, að eg fylgi þér það sem eg get, því við höfum verið of lengi saman til þess að eg bregði þeirri vináttu, en þú mátt heldur ekki málsins vegna spenna strengina allt of mikið, því þú getur kannske átt á hættu, að þú missir kjördæmi þitt, og það væri illa farið, og það vildi eg sízt af öllu.

Vertu með öllum þínum kærast kvaddur

af þínum vin og bróður

Jóni Sigurðssyni.

330.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara.

Khöfn $^{28}/_{2}$ '78.

Elskulegi vin.

Mér þykir það nú sjálfsagt, að ekki hefði orðið úr málaferlum Jóns ritara við þig, en þó var mér kærara, að hann sleppti því, og ef nú fer svo heppilega, að kláðinn þagnar alveg, þá er vonanda að allt grói um heilt á milli ykkar. Það má búast við þessu, að ýmislegt fari aflaga í hörðum aðsóknum, og þegar hleypidómar og rángar hugmyndir stríða á menn, en það finnst mér vera gleðiefni, hvort sem nú kláðinn er eydd-ur eða ekki, að mesta ákefðin er nú úr þeim, því nú

eru allflestir farnir að sansa sig. Mér finnst síra Þorvaldur á Reynivöllum vera kominn á bataveg, og þá mun von á umbótum hjá flestum. Það er annars gaman, og það lítur svo út sem Moritz og Sigurður frændi finnist í líkum stíl og við áður. En það er örðugra nú að koma samtökum á, heldur en forðum var. Það er undarlegt hvað stúdentar eru nú sundurlyndir meira en áður, og skyldu menn þó vænta annars. Eg held líka samheldið komi þegar á skal reyna, og strax leituðu menn saman, þegar reyndi á um embættisveitíngu í íslenzku stjórninni. Þú fær víst fregn um hana til bráðabirgða, en þó er það varla lyktað enn. Heldur þú ekki, að takast megi að vinna eitthvert hænufet í okkar stjórnarmálum? Það er verst, að eg er hræddur um að forráðendur sé okkur mótfallnir og vili halda öllu í sömu súpunni einsog lagt var fyrir með lögunum 1871, og það er sá hnútur sem stendur fyrir öllu, svo ekki verður hægt að fá bilbug á. Nú lítur svo út, sem staðfestíng fáist á kirkjuskattinn, eptir tillögum landshöfðíngjans, og verður það líklega mikið óánægjuefni hjá þeim bæjarmönnum, en nú er heldur seint að byrgja brunninn. Þú hefir öldúngis rétt í því, að þú getur án efa fengið kosníngar hvar sem vill, því þér verður líklega ekki gefið það svo mikið að sök, þó þú hafir verið lækníngamaður.

Jón ritari er nú á Englandi og hefir verið í vetur og hefir frí til vorsins. Nú verður þú að sættast við hann og vera með honum, þegar hann fer nú að fylgja fram kviðdómum, í anda frálslyndra Englendínga. Það verður nú líklega prófsteinn fyrir alþingismenn í næsta sinn, að segja já eða nei við kviðdómana, og innleiða þá allstaðar á voru landi. Eg er að skrifa landshöfðíngja til fyrir Boga Helgason frá Vogi, sem er að læra búnaðarfræði. Nú er tækifæri fyrir Búnaðarfélagið að fá duglega drengi til starfa, og vona eg að sjá, að þú takir móti þeim báðum höndum og setir þá til starfa,

því ef þeir fá ekkert að gjöra, þá visna þeir upp og verða að engu, og það má ekki svo til gánga.

Vertu nú með öllum þínum hjartanlega kvaddur.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.

331.

Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara.

Khöfn 14. April 1878.

Elskulegi vin.

Það gengur reyndar yfir mig, að þú getur borið þig upp undan sáttgirni og sáttgirnis ráðum, því mér finnst þú mega vera farinn að finna, að nú er ráð að sleppa ósamlyndinu fremur en áður, þegar mest er unnið af því, sem maður hefir ætlað sér að vinna og þurft að vinna. Eg vil nú ekki stóla uppá, að fjárkláðinn sé farinn í bráð og lengd, en hann hefir sýnt sig vinnanlegan, eins hér og annarstaðar og með sömu aðferð, og það finnst mér mest vert. Við megum ekki gjöra það þref að eilífðar þrefi, að eg held, því þar með fáum við og okkar málstaður nokkuð af þessum erfðakláða, sem Skapti játar um sig, að hann hafi erft af föður sínum. Eg vil helzt vera laus við það erfðafé. Eg óska þér til lukku, að þú hefir barizt sem hetja, og unnið sigur í verunni, og því geta þeir mótstöðumenn vorir ekki neitað.

Þú andar heldur en ekki móti kviðdómunum, og það er satt, að þeir eru nýir og kannske ekki alveg við vort hæfi, en samt halda allir þeim fram sem reynt hafa þá eptir enskum sið, og honum á maður víst að halda, því franskir kviðdómar hafa lakara álit. Það er annars ekki svo hætt við, að við fljúgum lángt fyrst um sinn með kviðdómana, nema stjórnin væri því

snarpari oddviti, sem hún varla mun verða, annars held eg allt fari með temprun góðri og í sæmilegri hægð. Með kviðdómunum fríumst við við hæstarétt.

Eg held það nú sjálfsagt, að ekki sé neitt afarkosta verk á skrifstofu landshöfðingja, en alþíng er líka búið að heita ritaranum því, þegar tími er til, að veita honum lausn, nema menn gángi í sig aptur, sem ekki er líklegt, nema ólaglega sé að farið, og það vonum við ekki verði.

Núna sem stendur er ekkert sérlegt að frétta, nema hætt er við að sverfi til stáls með Englendíngum og Rússum, hvað sem víðar fer. Frá Canada eða Nýja Íslandi er heldur ógeðfelt að frétta, skilst mér, og ekki fer samlyndið þar í vöxt nema miður sé. Það undarlegasta er, að nú er hótað að fá Canada undan Englandi, og þá mun koma ýmislegt fyrir, ef ófriður hefst, því efni eru nóg til stríðs.

Eg held Íslendíngar hefðu engan skaða af að sitja af sér um tíma, því för þeirra verður naumast til fjár nú fyrst um sinn. Sigurður frændi er nú rétt búinn að fá Snæfellssýslu. Ef þú getur búið vel undir fyrir hann við síra Guðmund og síra Eirík, þakka eg þér fyrir það mikillega. Eg vona hann verði liðlegur maður, og ekki er að efa, að hann er lækníngamaður af fyrstu skúffu. Þú kemur nú til að finna hann í Mai og tala við hann um landsins gagn og nauðsynjar, og eg vona hann verði gagnsmaður eptir því sem hann getur, en góð ráð þarf hann að fá.

Verði þér sumarið gleðilegt og öllum þínum.

Þinn elskandi vin

Jón Sigurðsson.



# Athugasemdir og skýringar.

---

**1.** Til dr. Sveinbjarnar Egilssonar 1836; Lbs. nr. 595, 4to. Eiginhandar uppkast Jóns Sigurðssonar. Jón Árnason bókavörður getur þess, að J. S. hafi sent sér uppkast þetta með póstskipi í maí 1856 ásamt brjefum Sveinbjarnar til Jóns. Mun það skrifað veturinn 1836.

**2.** Til dr. Sveinbjarnar Egilssonar 17. júní 1837; J.S. hs. nr. 144 fol. — 6[6] skólaboðsrit Bessastaðaskóla 1837 ásamt Forspjallsljóðum útg. af Hallgrími Scheving — 6[12] corporibus eddicis = handritum af eddukvæðunum. — 7[6] regius = codex regius, aðalhandrit eddukvæðanna í konungsbókhlöðunni í Khöfn. — 7[15] Leiðarvísan, Líknarbraut og Harmsól eru prentuð í skólaboðsriti Bessastaðaskóla 1844: Fjögur kvæði útg. af S. Egilssyni. — 8[12] útgáfur Árna Magnússonar nefndarinnar. — 10[1] Fjölnir III, 5.—18. bls. — 10[7] Skírni 1836—1837 (11. ár) sömdu þeir Jón Sigurðsson og Magnús Hákonarson.

**3.** Til Sigurðar Bjarnasonar frá Tjaldanesi 26. apríl 1839; J. S. hs. nr. 144 fol.

**4.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 29. júní 1840; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — 12[19] á Vöðlum = í bænum Vejle. — 13[1] grein í Kjöbenhavnsposten (9., 10., 21. júní 1840) auðkend 8+1 (= Jón Sigurðsson) (sbr. Þorleifur H. Bjarnason: Frá uppvexti Jóns Sigurðssonar, Skírnir 1911, 115.—121. bls.). — 13[12] konungsúrskurðurinn um alþing, 20. maí 1840 (sbr. 12[21]).

**5.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 23. júlí 1840; J.S. hs. nr. 519, 4to. — 14[25] Stiftamtmands Artiklen líklega = Island og dets Handel (Kjöbenhavnsposten nr. 128, 10. maí 1840).

**6.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 26. ágúst 1840; J.S. hs. nr. 519, 4to. — 16[5] Finnur Magnússon og Grímur Jónsson, fulltrúar Íslendinga á fulltrúaþingi í Hróarskeldu 1840 og 1842, — 16[7] = Frjettir frá fulltrúaþingi í Hróarskeldu 1840.

**7.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 8. sept. 1840; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — 17[14] = Richard Cleasby orðabókarhöfundurinn. — 17[21] sjá aths. 16[7]. — 18[17] sjá aths. 13[1]. — 20[32] Hákon mun vera ritvilla fyrir Magnús (Hákonarson), sbr. Bréf Tómásar Sæmundssonar 270.—271. bls. — 21[8] bezti vin sbr. 15[10]. — 21[9] Kristian

Ployen: Erindringer fra en Reise til Shetlandsöerne, Örkenöerne og Skotland, Kh. 1840 (sbr. Ný Félagsrit III 86.—87. bls.).

8. Til Páls sagnfræðings Melsteðs 29. sept. 1840; í eign Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — $22^{26}$ sem ekki megi snerta (óraskanlegt), — $23^{19}$ embættismennirnir í rentukammerinu. — $23^{27}$ embættismannanefndin í Reykjavík (sbr. vísu Jónasar Hallgrímssonar: »Nú eru líka níu menn, | sem nóttina eiga að stytta« o. s. frv.). — $23^{28}$ í grein auðkendri „Íslendingr" (= J. S.): Bör Islands Handel frigives. — $24^{3}$ in petto = í huga. — $24^{7}$ pakettunni = póstduggunni; þá höfðu nokkrir embættismenn í Reykjavík stofnað hlutafélag til þess að halda uppi póstskipsferðum milli Íslands og Danmerkur og falið Siemsen kaupmanni framkvæmdina (sbr. Lovsamling for Island XI, 374—375 og 397—398; XIII, 111. bls.).

9. Til Þorgeirs prests Guðmundss. 23. marz 1841; J.S. hs. 519 4to.

10. Til Páls sagnfræðings Melsteðs 29. marz 1841; í eign Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — $25^{18}$ Ný Félagsrit I. ár. — $25^{27}$ ῥητρα = = munnlegar lagasamþyktir. — $25^{33}$ sjá Þrjár ritgjörðir. Kh. 1841, 73.—106. bls. — $27^{22}$ Skýrsla um athafnir og ástand hins ísl. Bókmentafjelags Kh. 1841. — $27^{30}$ sjá Minningarrit hins ísl. Bókmentafjelags 43.—44. bls. og flskj. 13. — $28^{7-8}$ betur of en van. — $28^{15}$ sjá Minningarrit hins ísl. Bókmentafélags 42.—43. bls. og flskj. 9—11. — $28^{27}$ Tidskrift for Literatur og Kritik (sbr. bls. $12^{11}$).

11. Til Gísla læknis Hjálmarssonar 16. apríl 1841; í eign Eiríks prestaskólakennara Briems. — $29^{6}$ sbr. aths. $25^{18}$. — $31^{14}$ = alt þetta veður út af smámunum. — $31^{16}$ sbr. aths. $25^{33}$. — $32^{26}$ = fulltrúi á þinginu í Hróarskeldu. — $33^{3}$ af grein í Kjöbenhavnsposten 29. apríl 1841: Grosserer P. C. Knudtzons Beskyldning mod de islandske Embedsmænd for Falsk (auðk. 8 + 1 = J. S.), sést, að Knudtzon hafði í svari sínu til β í Kjöbenhavnsposten 20. maí 1840 beint aðdróttunum að íslenzkum embættismönnum í Borgarfjarðarsýslu fyrir afskipti þeirra af bænarskrám um rýmkun á verzlunarlögunum, sem voru 1838 sendar fulltrúaþinginu í Hróarskeldu. Aðdróttanir Knudtzons reyndust staðlausar og það sannaðist við próf, sem haldin voru í málinu, að hann eða verzlunarstjóri hans höfðu greitt tveimur mönnum, er gengu frá nöfnum sínum, 3 dali hvorum fyrir sig í ferðakostnað og eina flösku af extrakti. — $33^{19}$ einn í vetur = Sigurður Jónsson (?), síðar kaupmaður. — $35^{10}$ perversitate = óreglu. — $35^{12}$ = Jodureter (jodsölt). — $35^{25}$ sbr. einnig konungsúrskurð 7. júní 1841 (Lovsamling for Island XII, 110.—135. bls.). — $36^{9-11}$ mun eiga við Fjölnismenn.

12. Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 18. maí 1841; J.S. hs. nr. 519, 4to. — $36^{24}$ fór til Stokkhólms 2. júní 1841 ásamt Ólafi Pálssyni, síðar dómkirkjupresti.

**13.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 29. sept. 1841; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — 38[18.19] Gamli skrjóður = Karl Johan XIV.

**14.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 9. okt. 1841; J. S. hs. nr. 519, 4to.

**15.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 5. des. 1841; J. S. hs. nr. 519, 4to. — 42[23.24] sbr. Tíðindi frá Nefndarfundum 1841, 9.—41. bls. — 42[30.31] cum ignominia = með háðung. — 42[32] sjá Fréttir frá fulltrúaþingi í Hróarskeldu 1842, 243.—256. bls.

**16.** Til Páls Melsteðs, síðar amtmanns, 26. marz 1842; Lbs. nr. 147 fol.; bréfapakki þessi er samkvæmt fyrirmælum gefandans, Hallgríms bókavarðar Melsteðs, í vörslum Boga Th. Melsteðs, meðan hann þarf á bréfunum að halda. — 44[33] sjá Ný Félagsrit II, 36—66 í ritgerðinni: „Um alþing“. — 44[34] alþingisþáttur síra Tómasar, sjá „Þrjár ritgerðir“ 73.—106. bls. — 45[2.3] sjá Ný Félagsrit II, 67.—167. bls. — 45[14] = það er örðugt að sitja á sér að yrkja háðkvæði. — 45[16] amtm. sál. = Bjarni Thorarensen. — lektor = Jón Jónsson forstöðumaður skólans á Bessastöðum. — 45[22] son yðar = Sigurður Melsteð, síðar lektor.

**17.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 26. marz 1842; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — 46[11] sjá Ný Félagsrit II, 1.—66. bls. — 46[17] sjá aths. 45[2.3]. — 46 [19] = Fjölnisfélaginu. — 46[27] Páll Melsteð hélt uppi barnafræðslu á Brekku á Álptanesi nokkra mánuði veturinn 1841—1842, sjá æfisögu Jóns Þorkelssonar skólameistara eldra II., 205. og 272. bls.

**18.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 30. apríl 1842; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — 47[26.27] Baird R.: Afholdenhedsselskabernes Historie i Nordamerika. Þessi bók var gefin út á flestum Norðurálfutungum að tilhlutun bindindismanna í Vesturheimi og útbýtt gefins til útbreiðslu bindindis. Hingað til lands voru send 100 eintök (sjá Fjölni VII, 39. bls). — 47[28] í þínum connaissances = meðal kunningja þinna.

**19.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 12. júlí 1842; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — 48[14] Grímur Thomsen ritaði pésa á móti J. L. Heiberg: Folk, Publikum og offentlig Mening, Kh. 1842. — 49[8] sjá Ný Félagsrit I, 129. bls. nm. — 50[10] á Bókmenntafélagsfundi í Khöfn 23. apríl 1842 var samþykkt tillaga um að bjóða Jónasi Hallgrímssyni 200 rd. ársstyrk úr félagssjóði, til þess að hann kæmi þá um haustið til Hafnar og semdi lýsing Íslands (Minningarrit hins ísl. Bókmenntafélags 44. bls.).

**20.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 29. sept. 1842; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — 51[9] síra Tómas Sæmundsson skrifaði í Fjölni fréttir frá Íslandi (Eptirmæli áranna 1835, 1836, 1837, 1838). — 51[22] í ritgerðinni „Um hina íslenzku kaupverzlun“ (sjá Þrjár rit-

gerðir 1841). — 51[23] sjá aths. 13[1] og 14[25]. — 52[16] Augias konungur í Elis átti ógrynnin öll af búpeningi. Var það ein af þrautum Heraklesar að moka peningshús hans. — 52[34] sjá Ný Félagsrit III, 137. —139. bls. — 53[3] stjörnufræði Ursins þýdd af Jónasi Hallgrímssyni. — 53[9.10] skólaboðsrit Bessastaðaskóla 1842.

**21.** Bréf til Þorgeirs prests Guðmundssonar 6. nóv. 1842; J. S. hs. 519, 4to.

**22.** Bréf til Þorgeirs prests Guðmundssonar 30. des. 1842; J. S. hs. 519, 4to.

**23.** Bréf til Þorgeirs prests Guðmundssonar 28. febr. 1843; J. S. hs. 519, 4to. — 55[18] sbr. Þorleifur H. Bjarnason: Frá uppvexti Jóns Sigurðssonar (Skírnir 1911, 138.—139. bls.). — 55[26] = Finnur Magnússon og Grímur Jónsson.

**24.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 15. júní 1843; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — 56[1] „Um verzlun á Íslandi" (Ný Félagsrit III, 1.—127. bls.). — 56[6] Páll Melsteð, síðar amtm., varði í Berlingi aðgjörðir embættismannanefndarinnar í alþingismálinu (sjá nánara Skírni 1911, 140.—147. bls.). — 56[12] sjá Skírni 1911, 133. bls. nm. — 56[21] mun lúta að ymsum ummælum Örsteds á þingi í Hróarskeldu 1842. — 57[8] Arnardal í Eyrarhreppi. — 57[13] boðsbréf undir áskrifendur að Nýjum Félagsritum.

**25.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 28. ágúst 1843; J. S. hs. 519, 4to. — 58[25] = embættismannanefndin. — 59[3] í blaðagreinum „Íslendings" (= J. S.), sbr. Skírni 1911, 140.—147. bls.

**26.** Til Páls Melsteðs, síðar amtmanns, 12. sept. 1843; Lbs. nr. 147 fol. — 61[7] corpora delicti = sakargögnin þ. e. deilugreinar „Íslendings" gegn Melsteð út af alþingismálinu, aths. 59[3]. — 61[27] sbr. 59[23]. — 61[35] B = Bardenfleth (sbr. 59[6]). — 62[34] sjá "Fréttir frá fulltrúaþingi í Hróarskeldu 1842", 129.—132. bls. og 184.—186. bls. — 63[6] í bænarskrám um fulltrúaþing á Íslandi, er konungi voru sendar 1837 fyrir forgöngu Bjarna amtmanns Thorarensens og Páls sýslumanns Melsteðs.

**27.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 30. sept. 1843; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — 63[33] líkamlega kominn í þrot. — 64[2.3] sjá Skírni 1911, 142.—147. bls. — 64[32] Melsteð var skipaður aðstoðarmaður konungsfulltrúa (Bardenfleth's) á hinu væntanlega alþingi. — 65[8.9] þ. e. að alþingi verði háð í heyranda hljóði. — 65[13] Páll sagnfræðingur þýddi á íslenzku ágrip af mannkynssögu eptir danskan mann, Kofod; prentað í Viðeyjarklaustri 1844. (Ritdómur um það eptir Grím Thomsen; Ný Félagsrit V. 93.—120. bls.).

**28.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 6. febr. 1844; J. S. hs. 519, 4to. — 66[11] Benedict B. Benedictsen, rodemeistari í Kaupmannahöfn.

**29.** Til Páls Melsteðs, síðar amtmanns, 18. júní 1844; Lbs. nr. 147 fol.

**30.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 18. júní 1844; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — $70^{11}$ = Fjórir þættir um alþing, Kh. 1843. — $71^{5}$ sbr. aths. $65^{18}$ (ritdómur um ágrip Melsteðs). — $71^{30}$ Magnús Eiríksson: Om Baptister og Barnedaab, Kh. 1844.

**31.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 1. ág. 1844; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $74^{31}$ Kusi = landfysikus (þ. e. Jón Thorsteinsen). — $76^{8}$ í rauða húsinu = í kansellíhúsinu, þar sem stjórnarskjalasöfnin voru geymd.

**32.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 26. ág. 1844; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $81^{7}$ tengdaföður = Guttormi prófasti Pálssyni í Vallanesi. — $81^{15}$ Born (kapteinn) starfaði að strandmælingum hér á landi, og munu honum hafa verið greiddir í biðlaun 700 dalir á ári úr kollektusjóðnum frá 1818—1843.

**33.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 27. sept. 1844; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $82^{7}$ P. Arnesen var um það leyti að ljúka við latnesk-danska orðabók. — $82^{7-8}$ „Om Lord Byron" Kh. 1845. — $82^{14}$ sjá aths. $71^{30}$. — $82^{19-20}$ sennilega er hér átt við: „Epistola eller Sendebrev til Sr. Magnus Eiriksson fra en anden gammel Landsbypræst", Kh. 1844, og svar Gríms Thomsens: „En Privatskrivelse til den anden gamle Landsbypræst fra hans gamle Ven, den förste gamle Candidat, som Commentar over Hr. Pastors Epistola til Sr. Magnus Eiriksson", Kh. 1844. — $84^{7}$ amtmaður = Bjarni Thorsteinsson.

**34.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 1. okt. 1844; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — $86^{21}$ sbr. aths. $65^{18}$. — $87^{23}$ Registur yfir Íslands stiptsbókasafn, Viðeyjar klaustri 1842 (ritdæmt í Nýjum Félagsritum IV, 131.—142. bls.). — $88^{9}$ ignotum = ókunnan. — $88^{11}$ Njála Viðeyjarútgáfan 1844.

**35.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar ágúst [1845]; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems.

**36.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 2. des. 1845; J. S. hs. nr. 519 4to.

**37.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 7. marz 1846; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems.

**38.** Til Eggerts Ó. Briems sýslumanns 18. apríl 1846; J. S. hs. nr. 144 fol. — $93^{1}$ Árið 1845 var skipuð 5 manna nefnd „til að rannsaka, og síðan rita frumvörp um, hversu breyta skyldi skattgjaldslögunum á Íslandi, og svo þar að auki um landbúnaðarlög, rekalög og veiðilög". Nefndin klofnaði í meiri og minni hluta. Álitsskjöl hennar, dags. 25. og 26. sept. 1846, eru prentuð í ágripi í Nýjum Félagsritum VII, 1.—93. bls. (sbr. einnig Lovsamling for Island XIII, 223.,

233. og 318. bls.). — $93^{10}$ sbr. „Nokkur orð um jarðyrkju" (Ný Félagsrit VI, 134.—143 bls.).

**39.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 12. maí 1846; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $96^{10}$ sbr. Ný Félagsrit VI, 1.—104. bls.

**40.** Til Eggerts Ó. Briems sýslumanns 15. maí 1846; J. S. hs. nr. 144 fol. — $98^{16}$ mun hafa verið skýrsla til Ísfirðinga, kjósenda hans, um alþingismálin 1845, sbr. $95^{5}$. — $99^{6}$ skattamála-nefndarfundurinn, sbr. aths. $93^{1}$. — $99^{7}$ Skeifur = Chef = skrifstofustjóri. $99^{14}$ hér er átt við þá nefndarmenn Þórð Sveinbjörnsson, Pál Melsteð og Jón Johnsen, sem störfuðu í nefndinni veturinn 1845—1846 áður en hinir nefndarmennirnir E. Ó. Briem og P. Havstein komu suður (sbr. Reykjavíkurpóst I. 5. bls.). — $99^{25}$ engin hætta á ferðum, þótt málið dragist.

**41.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar, 26. maí 1846; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $102^{28}$ sbr. aths. $87^{28}$. — $103^{14 \cdot 15}$ sbr. Ný Félagsrit V, 121.—144. bls.; ritdómurinn mun vera eptir Jón Sigurðsson, síðar prest á Breiðabólstað í Vesturhópi.

**42.** Til Einars prests Thorlaciusar 30. maí 1846; J. S. hs. nr. 144 fol. — $105^{13 \cdot 14}$ = lausakaupmenn frá Bornholm. — $105^{25}$ = alþingistíðindin 1845. — $106^{6}$ dolus malus = óráðvendni. — $109^{5}$ = gjafsókn. — $109^{7 \cdot 8}$ = Jónasar skálds Hallgrímssonar.

**43.** Til Stefáns alþingismanns Jónssonar 30. maí 1846; J. S. hs. nr. 144 fol. — $110^{14}$ hinn fyrirhugaði flutningur skólans frá Bessastöðum til Reykjavíkur og hið nýja skólahús þar. — $110^{24}$ sjá hér um nánara Ný Félagsrit VI, 10.—25. bls. — $110^{31}$ sennilega Grímur amtmaður Jónsson (?).

**44.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 10. júní 1846; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — $111^{16}$ sjá Ný Félagsrit VI, 183.—210. bls. („Fréttir frá Heklu"). — $112^{19}$ = skattamálanefndin, sbr. aths. $93^{1}$.

**45.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 16. ágúst 1846; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $114^{1}$ sameiginleg örlög.

**46.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 7. sept. 1846; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $120^{3}$ Kennslubók handa yfirsetukonum eftir C. E. Levy; Kh. 1846.

**47.** Til Eggerts Ó. Briems sýslumanns 28. sept. 1846; J. S. hs. nr. 144 fol. — $121^{11}$ J. S. þykir Briem helzt til stuttorður í bréfum sínum, og jafnar honum því til Tacitusar.

**48.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 28. sept. 1846; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems.

**49.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 28. sept. 1846; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — $123^{24}$ hér er átt við Reykjavíkurpóstinn, sem byrjaði að koma út í október 1846; Páll Melsteð var einn af útgefendum hans. — $124^{15}$ Sigurður Melsteð var settur kennari við

latínuskólann 1846—1847. — 124$^{30-33}$ sjá Ný Félagsrit VI, einkum 95.—104. bls.

**50.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 15. jan. 1847; J. S. hs. nr. 519, 4to. — 125$^{33}$ æfiágrip og mynd Baldvins Einarssonar; Ný Félagsrit VIII, III.—XIV. bls. — 126$^{13}$ Magnús Eiríksson hafði ritað svæsinn ritling móti prófessor Martensen, þar sem hann réðst á siðfræði hans (sbr. Hafsteinn Pétursson: Magnús Eiríksson (æfiágrip) í Tímar. Bmf. VIII, 12. bls.).

**51.** Til Finns Magnússonar prófessors 3. júlí 1847; J. S. hs. 144 fol.

**52.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 9. ágúst 1848; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems.

**53.** Til Eggerts Ó. Briems sýslumanns 28. sept. 1847, J. S. hs. nr. 144 fol.

**54.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 28. sept. 1847; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — 129$^{29}$ J. S. vann að útgáfu Snorraeddu fyrir Árna Magnússonar nefndina og kom I. bindi af henni út 1848. — 129$^{30}$ Magnús Eiríksson hafði sumarið 1847 skrifað konungi bréf, er bar sakir á konung og stjórnina og ymsa embættismenn, einkum Mynster biskup og prófessor Martensen; fyrir það var höfðað mál á móti honum af hálfu stjórnarinnar (sjá Fædrelandet 21. júlí 1847); en er konungaskipti urðu, var málið látið falla niður (sbr. aths. 126$^{13}$). — 130$^{4-5}$ „Nokkrar athugasemdir um dóm þann, er herra J. S. hefir lagt á „Sjö föstuprédikanir, samdar af Ólafi Indriðasyni", ritaðar af Ó. Indriðasyni, með inngangsorðum, fáeinum skýringargreinum og stuttum viðbæti af *Magnúsi Eiríkssyni,* Kh. 1847. — 130$^{8-9}$ í óvissu.

**55.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 28. sept. 1847; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — 131$^{18}$ sjá aths. 126$^{13}$ og 129$^{30}$. — 131$^{19}$ hér er átt við: „Et Brev til H. C. Örsted og dennes Svar" 1847. — 121$^{27}$ Kallinn = Bjarni amtmaður Thorsteinsson.

**56.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 19. okt. 1847; J. S. hs. nr. 519, 4to. — 133$^{6-10}$ sbr. Minningarrit hins ísl. Bókmentafélags 47. bls. 133$^{17-18}$ = (sætt) sameiginlegt skipsbrot.

**57.** Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 18. marz 1848; í eigu Jóns assessors Jenssonar. — 134$^{14}$ = niður með Guizot. — 134$^{25-26}$ Lýðveldið Frakkland — frelsi — jafnræði — bræðraþel. — 135$^{16-20}$ sjá Skírni 1911: Finnur Jónsson: Vísindastörf Jóns Sigurðssonar 154. bls. Aptur á móti mun það ekki rétt sem sagt er í Skírni s. á. 292. bls., að Konráð Gíslason hafi gefið upp ritarastöðuna við Á. M. safnið til þess að Jón Sigurðsson gæti fengið hana. — 135$^{24}$ þetta var fyrsta fjárveitingin til undirbúnings Lovsamling for Island, er þeir J. S. og Oddgeir gáfu síðar út.

**58.** Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 16. maí 1848; í eigu

Jóns assessors Jenssonar. — 136[18] = Monrad. — 137[7] Ný Félagsrit VIII, 1.—24. bls. (Hugvekja til Íslendinga).

59. Til Páls sagnfræðings Melsteðs 16. maí 1848; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — 138[19] Hábakkamenn = Hannovermenn. — 139[8] samkoma er semja skyldi grundvallarlög handa Dönum. — 139[14] Í bréfi til Jóns Sigurðssonar dags. 3. marz 1848 farast Jóni Guðmundssyni, síðar ritstjóra Þjóðólfs, svo orð: „Það mun einhver rita þér um ráðabrugg þeirra norðanlands um að setja lærðan skóla á stofn á Hólum. Jósep Skaptason og síra Jón í Steinnesi ganga hvað fastast fram, að sagt er, í þessu; en mörgum nyrðra lízt illa á þetta, og öllum hér syðra. Stiptsyfirvöldin eru gröm af því“. (J. S. hs. nr. 142 fol.). — 139[27-28] sjá „Um frjálsa verzlun á Íslandi“ (Reykjavíkurpósturinn II, 17.—24. og 33.—39. bls.). Ritgerð þessa samdi Jensen agent í Flensborg. Birtist hún í þýzku blaði sem álitsskjal kaupmannafélagsins í Flensborg um frumvarp það um frjálsa verzlun á Íslandi, sem alþingi Íslendinga hafði samþykkt. — 139[31] hér er átt við aðsenda grein í Reykjavíkurpóstinum í janúar 1848 (II, 54.—57. bls.) um alþingiskostnaðinn, er sveigði að Jóni Sigurðssyni, að hann hefði árið 1845 „þurft“ 450 rd. í fæðispeninga, en 1847 að eins 321 rd.; J. S. sem mun hafa þótzt þekkja mark Þórðar háyfirdómara Sveinbjörnssonar á greininni svaraði henni í júnítölublaði Reykjavíkurpóstsins (II, 142.—143. bls.), og Þ. Svb. svaraði aptur grein Jóns í júlítölublaðinu s. á. (II, 158.—159. bls.). — 140[16] Páll Melsteð mun hafa sótt eða ráðgert að sækja um Strandasýslu.

60. Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 6. júní 1848; J. S. hs. nr. 519. 4to. — 140[29-30] sbr. aths. 125[28]. — 141[8] Hin íslenzka stjórnardeild var stofnuð með konungsúrskurði 10. nóvember 1848 (Lovs. for Isl. XIV, 204). — 141[19] Hugvekja til Íslendinga (Ný Félagsrit VIII. 1—24, einkum, 17. bls.).

61. Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 5. júlí 1848; í eigu Jóns assessors Jenssonar. — 142[24] Ársritið Gestur Vestfirðingur I. ár, Rv. 1847. — 143[9] Júníbyltingin í París 1848.

62. Til Eggerts Ó. Briems sýslumanns 24. sept. 1848; J. S. hs. nr. 144 fol. — 143[28] fékk veitingu fyrir Eyjafjarðarsýslu 1. júní 1848. — 143[30] þessir 3 menn tóku aldrei við stjórninni.

63. Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 9. jan. 1849; J. S. hs. 519, 4to.

64. Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 26. marz 1849; J. S. hs. 519, 4to. — 146[11-19] = kosningarlaga frumvarp til þjóðfundarins.

65. Til Friðriks prests Eggerz 26. sept. 1849; J. S. hs. nr. 144 fol. — 146[25-26] „Búatölur“, ritgerð eftir síra Fr., um alþingiskostnað og jarðamat; J. S. hs. nr. 5, 8vo.

66. Til Gísla læknis Hjálmarssonar 29. sept. 1849; í eigu Eiríks

prestaskólakennara Briems. — $149^{18}$ hið sama upp aptur og aptur. — $149^{20}$ landsmál. — $149^{22}$ = „dropinn holar steininn“. — $149^{28}$ sbr. aths. $146^{11.12}$. — $149^{31}$ frumvarp til stjórnlaga fyrir Ísland, er síðar var lagt fyrir þjóðfundinn. — $150^{24}$ staðgöngumann.

**67.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 22. apríl 1850; J. S. hs. 519, 4to. — $152^{30}$ Þingvallafundurinn 10. ág. 1850, sbr. Þjóðólf II, 44. tbl.

**68.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 10. maí 1850; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — $153^{14}$ Sveinbjörn rektor Egilsson fór utan veturinn 1850 sakir pereatsins. — $153^{17}$ stiptsyfirvöldin höfðu synjað ritstjóra Þjóðólfs, Sveinbirni Hallgrímssyni, um prentun á blaði hans; brá hann sér þá utan og lét prenta þar 30.—31. tbl. II. árgangs, er nefndust „Hljóðólfur“. — $153^{31.32}$ frumvarp til grundvallarlaga Íslands. Rvík 1850. Útgefendur: E. Þórðarson, Jón Jónsson. Ábyrgðarmaður: Magnús Grímsson. — $154^{3.4}$ ef hann hefði þagað, hefði hann framvegis verið talinn spekingur, sbr. íslenzka málsháttinn: sá er ekki heimskur er þegja kann. — $154^{13.14}$ þetta fari að eins okkar í milli. — $154^{16.19}$ einhverskonar böl. — $154^{22}$ hér mun vera átt við „Declaration of rights“ (réttindaskrá), er Vilhjálmur III. Englakonungur varð að gangast undir, er hann kom til ríkis 1688. — $154^{25.26}$ eptir því sem Dönum er farið. — $154^{35}$ sbr. $155^{13.18}$. — $155^{1.3}$ Páll Melsteð var þá (1849—1854) settur sýslumaður í Snæfellsnessýslu.

**69.** Til Páls amtmanns Melsteðs 13. maí 1850; Lbs. nr. 147 fol. — $155^{11}$ amtmaður Melsteð mun hafa mælt eitthvað með Jóni Sigurðssyni sem þjóðfundarfulltrúa Ísfirðinga, sbr. $176^{20}$. — $155^{15}$ Í Nesi bjó þá Þórður háyfirdómari Sveinbjörnsson. — $156^{1}$ Gísli Brynjólfsson skrifar Jóni Sigurðssyni 11. júní 1851, að Brynjólfur Pétursson hafi komist svo að orði um stjórnlagafrumvarp það, sem Rosenörn lét leggja fyrir þjóðfundinn, að „Rosenörn hafi sent heim sinn „hégóma“, haft reyndar nokkuð úr frumvarpi sínu (ɔ: Brynjólfs), en tekið burt alt andlitið á því“.

**70.** Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 15. maí 1850; í eigu Jóns assessors Jenssonar.

**71.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 27. maí 1850; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $160^{9.10}$ pereatið og samblásturinn móti dómkirkjuprestinum í Reykjavík, sbr. 151.—152. bls. hér að framan. — $160^{29.30}$ sbr. aths. $153^{31.32}$. — $161^{1.2}$ sjá Ný Félagsrit IX, 67.—68. bls. — $164^{25.27}$ sbr. konungsúrskurð 12. ág. 1848, birtan með op. br. 23. s. mán.

**72.** Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 26. júní 1850; í eigu Jóns assessors Jenssonar. — $165^{23.24}$ „Svar til Lanztíðindanna um Höfða-hvalinn“ (sbr. Ný Félagsrit IX, 136.—138. bls.).

**73.** Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 12. sept. 1850; í eigu Jóns assessors Jenssonar. — $167^{5.6}$ Jens var annar þjóðfundarfulltrúinn fyrir Gullbringu- og Kjósarsýslu.

**74.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 29. sept. 1850; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $169^{15}$ = ferðina á þjóðfundinn. Gísli læknir var kosinn þjóðfundarfulltrúi fyrir Suðurmúlasýslu, en afsalaði sér kosningu. — $171^{24}$ 5. ág. 1849 var Jóni Sigurðssyni veitt lausn í náð frá skjalavarðarstöðunni við hið sögulega fornskjalasafn (sbr. einnig Eiríkur Briem: Yfirlit yfir æfi Jóns Sigurðssonar, Andvari VI, 35. bls.). — $172^{13}$ kvartanir (krit?).

**75.** Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 29. sept. 1850; í eigu Jóns assessors Jenssonar. — $174^{26}$ in summa = í stuttu máli. — $175^{4.5}$ Undirbúningsblað undir þjóðfundinn að sumri, 1851, 1.—6. tbl. útg. í Rvík og Khöfn 1850. — $175^{24.25}$ sbr. $156^{14.15}$. — $175^{27}$ með einróma samþykki.

**76.** Til Páls amtmanns Melsteðs 29. sept. 1850; Lbs. nr. 147 fol. — $176^{10.11}$ Tilskipun um nokkrar breytingar á erfðalögunum á Íslandi 25. sept. 1850. — $176^{11.12}$ Opið bréf 28. ág. 1850. — $176^{13}$ kom loks sem opið bréf 2. apríl 1853.

**77.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 29. sept. 1850; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings — $178^{9}$ = Oddgeir eða Trampe greifi verði konungsfulltrúi. — $178^{22}$ svo kallar J. S. í spaugi skip Knudtzons stórkaupmanns, er Jón Guðmundsson fór utan með 1850, til þess að taka próf í dönskum lögum.

**78.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar, mun vera skrifað fyrir nýár 1851; J. S. hs. 519 4to. — $179^{6}$ sjá aths. $175^{4.5}$. — $179^{20}$ fékk lausn í náð 16. júní 1851.

**79.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 2. jan. 1851; J. S. hs. 519, 4to.

**80.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 8. apríl 1851; J. S. hs. 519 4to. — $181^{6.7}$ sbr. Copiebog stiptamtsins, bréf til kennslumálastjórnarinnar $^{19}/_{3}$ '51.

**81.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 2. júlí 1851; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $183^{1.2}$ Þingvallafundur var haldinn 28. júní 1851. — $183^{16}$ sjá Tíð. frá þjóðf. Íslendinga 7.—8., 171. og 196.—199. bls.

**82.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 22. sept. 1851; J. S. hs. 519, 4to. — $184^{10.11}$ Jón Sigurðsson mun eiga hér við greinar í dönskum blöðum, sem hann hefir skrifað og látið skrifa um þjóðfundinn og afdrif hans eptir komu sína til Hafnar haustið 1851, sbr. $185^{19}$. — $184^{16.17}$ sjá Tíð. frá þjóðf. Ísl. 427.—443. bls. — $184^{18}$ ávarp þetta er prentað í Nýjum Félagsritum XII, 114.—124. bls. — $185^{9}$ J. S. var kosinn forseti Bókmenntafélagsins 31. júlí 1851, sbr. Minningarrit hins ísl. Bmf. 96. bls.

**83.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 29. sept. 1851; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — 185[18] sbr. aths. 184[10.12]. Má einkum nefna greinar í Fædrelandet 21. sept. 1851 og í Kjöbenhavnsposten á tímabilinu 23. sept.—1. okt. 1851. Eru greinar þessar hin ítarlegasta skýrsla sem til er um það, sem gerðist á þjóðfundinum, og um aðdraganda hans. — 185[27]—186[5] sbr. Um þjóðfund Íslendinga 1851, eptir Hannes Hafstein, Andvari XXVII, 29.—30. bls. — 186[4.5] bréf frá Oddgeir Stephensen til J. S. sumarið 1851 sannar það. — 186[8] svarið kom loks í auglýsingu konungs 12. maí 1852.

**84.** Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 10. okt. 1851; í eigu Jóns assessors Jenssonar. — 188[12] = Jupiter láti gott á vita (= láti þá raun á verða). — 189[12] bréf þetta er prentað í Sunnanfara II, 103.—104. bls.

**85.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 15. nóv. 1851; J. S. hs. 519, 4to. — 190[11] Brynjólfur Pétursson lézt 18. okt. 1851.

**86.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 29. marz 1852; J. S. hs. 519, 4to.

**87.** Til Sigurðar Gunnarssonar, síðar próf. á Hallormsstað, 22. maí 1852; í eigu frú Elísabetar Sigurðardóttur á Hallormsstað. — 191[25] sbr. aths 186[8]. — 192[10.11] skýrsla þeirra Jónanna um sendiförina eptir þjóðfundinn á konungs fund rituð í Khöfn 15. apríl 1852 (sbr. Ingólf I, 18.—21. bls. og Þjóðólf V, 63.—66. bls.).

**88.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 26. maí 1852; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems.

**89.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 20. júní 1852; J. S. hs. 519, 4to.

**90.** Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 29. júní 1852; í eigu Jóns assessors Jenssonar. — 195[18.20] sjá konungsúrsk. 16. ág. 1854 (Lovs. f. Isl. XV. 693.—697. bls.). — 195[31] til guðsþakka.

**91.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 29. sept. 1852; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — 197[2.8] 12. maí 1852. — 197[25] sjá frv. til laga um siglingar og verzlun á Íslandi, 4. gr. (Tíð. frá þjóðf. Ísl. 410. bls.).

**92.** Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 29. sept. 1852; í eigu Jóns assessors Jenssonar. — 199[13.14] þjóðfundarmenn höfðu stofnað til samskota þeirra til nafnanna til þess að standa straum af kostnaði við för þeirra. — 199[20.21] sennilega hefir kennslumálastjórnin sett J. S. það skilyrði, ef hann hugsaði um að komast að lærða skólanum, að hann kynnti sér kennslu og kennslufyrirkomulag við danska skóla.

**93.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 29. sept. 1852; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings.

**94.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 8. apríl 1853, J. S. hs. 519, 4to.

**95.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 30. sept. 1853; í eigu Eiríks

prestaskólakennara Briems. — $203^{3}$ sjá alþingistíðindi 1853, 1054.—1060. bls. (bænarskrá í verzlunarmálinu).

**96.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 26. marz 1854; J. S. hs. 519, 4to. — $204^{23.24}$ Útgefið í Kh. 10. apríl 1821 af G. Oddsen og E. Sverrisen (Lbs. Boðsbréf).

**97.** Til Þórðar Jónassens, síðar háyfirdómara, 14. apríl 1854; Lbs. 202 fol. — $205^{11}$ hér mun átt við viðburði í Krímstríðinu. — $205^{14.15}$ Lög um siglingar og verzlun á Íslandi 15. apríl 1854. — $205^{27}$ um Skólavörðuna og endilega viðgjörð á henni sjá Jón Þorkelsson: Árni landfógeti Thorsteinsson (Andvari XXXIII, 9.—10. bls).

**98.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 3. júní 1854; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $206^{33}$ Gísli Hjálmarsson hefir um þessar mundir látið J. S. kaupa fyrir sig meðöl og bækur um smáskammtalækningar og beðið hann að bera ýmislegt, er laut að smáskammtalækningum, undir Thomsen þenna. — $207^{30}$ sbr. aths. $205^{14.15}$.

**99.** Til Guttorms prests Guttormssonar, Stöð í Stöðvarfirði, 3. júní 1854; J. S. hs. 144 fol. — $209^{7}$ hér er átt við bókasafn Finns prófessors Magnússonar, sem mun hafa verið veðsett síra Guttormi eða öllu heldur föður hans, síra Guttormi Þorsteinssyni.

**100.** Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 30. júní 1854; í eigu Jóns assessors Jenssonar. — $210^{18}$ studdi Napoleon III. til að brjótast til valda.

**101.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 18. ág. 1854; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $211^{30}$ annaðhvort er að hrökkva eða stökkva.

**102.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 30. sept. 1854; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $213^{29.30}$ Páll Melsteð var konungsfulltrúi á alþingi 1853.

**103.** Til R. M. Ólsens, umboðsmanns á Þingeyrum, 30. sept. 1854; í eigu Björns M. Ólsens prófessors. — $214^{17}$ þ. e. beitilandið í Víðidalsfjalli. Sjá frekar um mál þetta Ný Félagsrit XXX. 130.—142. bls. — $214^{20}$ kunningja okkar = Pétur amtmann Havstein.

**104.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 1. júní 1855; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $215^{28}$ sbr. aths. $206^{33}$. — $216^{3}$ milli okkar (sagt).

**105.** Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 8. júlí 1855; í eigu Jóns assessors Jenssonar. — $218^{3}$ stafar engin hætta af drættinum. — $218^{4}$ látið hana liggja í salti 10 ár (þ. e. um óákveðinn tíma).

**106.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 21. ág. 1855; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $220^{13.14}$ Hjaltalín var að vísu útskrifaður af Gunnlaugi dómkirkjupresti Oddssyni, en mun aldrei hafa gengið undir examen artium í Kaupmannahöfn, eins og þá var títt (sbr. J. Jónassen um læknaskipun á Íslandi. Tímarit Bmf. XI, 212.

bls. og H. Friðriksson: *Æfiágrip Jóns Hjaltalíns*, Andvari XI, 3. bls.). — 220[20] sem ekki hefir átt sér stað. — 221[27-28] sbr. Ný Félagsrit XVIII, $98,_{18}$—100. bls.

**107.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 30. sept. 1855; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — 222[18] 18. sept. 1855. — 222[25-27] lýtur að því, að Havstein amtmaður bannaði Jósef Skaptasyni að fara á þing 1853, vegna þess að innfluenza gengi í Danmörku og gæti því ef til vill borizt hingað. En út úr þessu banni, sem gerði Húnavatnssýslu þingmannslausa, varð rekistefna á alþingi (sbr. alþtíð. 1853, 7.—11. og 574.—591. bls.). — 222[31-32] hér mun einkum átt við tilraunir konungsfulltrúa og stjórnarinnar á alþingi 1855 að skerða bænarrétt alþýðu og alþingismanna (sbr. Ný Félagsrit XVIII, 1—112. bls.: Alþing og alþingismál).

**108.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 13. okt. 1855; J. S. hs. 519, 4to. — 223[11-12] sbr. aths. 222[31-32].

**109.** Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 13. nóv. 1855; í eigu Jóns assessors Jenssonar. — 224[4] „Om Islands statsretlige Forhold, Kh. 1855, ritað gegn riti J. E. Larsens: Om Islands hidtilværende statsretlige Stilling, Kh. 1855.

**110.** Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 22. des. 1855; í eigu Jóns assessors Jenssonar. — 224[26] sbr. aths. 224[4]. — 226[11-12] með leyfi að segja.

**111.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 1. apríl 1856; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — 227[10-11] læknisembættið í Eyjafjarðar- og Þingeyjarsýslu, sem varð laust við dauða Eggerts J. Johnsens 1855. — 227[19] vegna verzlunarlaganna $^{15}/_{4}$ '54 sem mæla svo fyrir í 2. gr., að utanríkisskip skuli til heilbrigðiseptirlits koma á einhverja af hinum 6 lögskipuðu höfnum landsins; ein þeirra var Eskifjörður. — 229[2] sbr. aths. 224[4]. — 229[7] Parísarfriðurinn 30. marz 1856.

**112.** Til Sigurðar Gunnarssonar, síðar prófasts á Hallormsstað, 1. apríl 1856; í eigu frú Elísabetar Sigurðardóttur á Hallormsstað. — 230[4-5] Ný Félagsrit XVI, 1.—110. bls. „Um landsréttindi Íslands“.

**113.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar, 19. maí 1856; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems.

**114.** Til Jóns Þorkelssonar, síðar rektors, 30. júní 1856; Lbs. nr. 1060, 4to. — 233[11] menn er fylgja norska sagnfræðingnum Peter Andreas Munch og skoðunum hans. — 233[18] hér er átt við Möbiusar Catalogus librorum islandicorum et norvegicorum aetatis mediae, Leipzig 1856.

**115.** Til prófessors K. Maurer's 8. júlí 1856; Lbs. nr. 1056, 4to. — 234[4-7] sjá aths. 224[4].

**116.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 6. sept. 1856; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — 236[1] J. S. mun eiga hér við útlenda

vinnumenn, sem Gísli hefir haft í hyggju að ráða til sín. — 236[17.18] hér mun átt við ritling J. H. „Til homöopathisku bændanna á Norðurlandi, og Bréf til ritstjóra „Norðra", Akureyri 1856, eða „Vísindin, reynslan og Homöopatharnir", Rvík 1856.

117. Til prófessors K. Maurer's 26. sept. 1856; Lbs. nr. 1056, 4to. — 237[6] ritgerð þessi birtist fyrri hluta október 1856 í fyrnefndu blaði undir nafninu: „Island und das dänische Grundgesetz"; þýdd í Nýjum Félagsr. 1857, 54.—78. bls. — 237[25] þeirra = Íslendinga.

118. Til prófessors K. Maurer's 20. jan. 1857; Lbs. nr. 1056, 4to. — 238[6] Die Bekehrung des norwegischen Stammes zum Christenthum (München 1855—56 I—II). — 238[8]. grein Maurers um ísl. kirkju í Herzog, Realencyclop. für prot. Theol. VII. — 238[24] sbr. aths. 237[6]. — 239[7] Tilskipun 28. maí 1831 viðvíkjandi umdæmastanda innleiðslu í Danmörku. — 240[16] E. Henderson: Iceland Vol. I—II. Edinburgh 1818.

119. Til Gísla læknis Hjálmarssonar 14. maí 1857; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — 241[3] ekkert frumvarp þess efnis var lagt fyrir þingið 1857, heldur að eins bréf frá ráðgjafanum um, hversu alþingi „geti gefizt kostur á að segja álit sitt um tekjur og útgjalda-áætlun Íslands" . . . og um útboð af Íslandi til herflota konungs. — 241[15] rússneskur maður, ætlaði að boða páfatrú á Norðurlöndum, komst í Höfn í kynni við Íslendinga (Ólaf Gunnlögsen, Ben. Gröndal o. fl.), og þóttist þá vilja koma á ymsum framfarafyrirtækjum á Íslandi.

120. Til prófessors K. Maurer's 24. maí 1857; Lbs. nr. 1056, 4to. — 242[4] sbr. aths. 237[6].

121. Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 26. sept. 1857; J. S. hs. 519, 4to. — 244[10] sbr. alþingistíðindi 1855, 494—495 og alþtíð. 1857, 78—79, 198—199, 265—283, 356—369, 391—394.

122. Til Gísla læknis Hjálmarssonar 30. sept. 1857; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — 245[10] Trampe fylgdi fram blendingi á niðurskurði og lækningum. — 245[18] fyrir reikningsaðferð þá, er þingið stakk uppá við mat jarða hér á landi, þótti matið hækka tiltölulega mest í Múlasýslum.

123. Til prófessors K. Maurer's 28. jan. 1858; Lbs. nr. 1056, 4to. — 246[8] útgáfa Maurers af Gullþórissögu. — 247[3] um uppruna orðstofnanna. — 247[4] grein eftir Maurer í Krit. Überschau der deutschen Gesetzgebung. — 248[1.10] „Frásögn um skipatjónið í nóv. 1857" sjá Ný Félagsrit XVIII. 187—193. bls.

124. Til prófessors K. Maurer's 5. marz 1858; Lbs. nr. 1056, 4to. — 250[21] Turn = Sívaliturn (Rundetaarn); á kirkjulofti sem var innangengt á úr turninum voru handrit og skjöl Árna Magnússonar safnsins geymd í þá daga. — 251[1] okkar í milli.

**125.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 7. apríl 1858; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $252^{1.3}$ beiskyrði um niðurskurð á sauðfé Norðlendinga, er Pétur Havstein hafði fyrirskipað. — $252^{10}$ enginn er borinn ofríki með vilja sínum (sá sem segir já og amen til alls, getur ekki talist verða fyrir órétti). — $253^{15}$ Jarðamat á Íslandi 1849—1850, (sjá Skýrslur um landshagi á Íslandi I, Kh. 1858; 620. —801. bls.).

**126.** Til Sigurðar Gunnarssonar síðar próf. á Hallormsstað, 31. ágúst 1858; í eigu frú Elísabetar Sigurðardóttur á Hallormsstað. — $253^{30.31}$ Á Akureyri var haldinn fundur út af kláðamálinu 12. júlí 1858; fundinn sóttu fulltrúar frá 6 sýslum í Norður- og Austuramtinu. Þar var samþykkt reglugjörð um niðurskurð (með valdi) og skaðabætur að nokkru leyti fyrir hið skorna fé; en engar lækningar máttu eiga sèr stað. Beiðst var staðfestingar stjórnarinnar á reglugjörð þessari, en stjórnin synjaði. Sbr. $259^{16.22}$. — $254^{16}$ Norðri, ritstjóri Sveinn Skúlason, síðar prestur, var aðal-málgagn niðurskurðarmanna.

**127.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 11. nóv. 1858; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — $255^{10}$ Páll missti fyrri konu sína, Jórunni Ísleifsdóttur háyfirdómara, 21. ág. 1858. — $255^{20}$ þ. e. suður til München. — $255^{24}$ alríkisskráin frá $^{2}/_{10}$ 55.

**128.** Til prófessors K. Maurer's 22. nóv. 1858; Lbs. nr. 1056, 4to.

**129.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 22. nóv. 1858; J. S. hs. 519 4to. — $257^{23}$ sbr. $259^{18.21}$.

**130.** Til prófessors K. Maurer's 8. jan. 1859; Lbs. nr. 1056, 4to. — $259^{18.22}$ sbr. $253^{30.31}$. —$260^{30}$ Alþingi hafði á hverju þingi síðan 1847 beðið um, að konungur undirskrifaði hinn íslenzka texta laganna (tilskipananna), en það fékkst fyrst fram með kgs.úrsk. 27. maí 1859. — $260^{34}$ peningar eru afl þeirra hluta sem gera skal.

**131.** Til prófessors K. Maurer's 2. marz 1859; Lbs. nr. 1056, 4to. — $262^{10}$ Koch stórkaupmaður hafði tekið að sér gufuskipsferðirnar til Íslands. — $262^{19}$ „Om de danske Provindsialstænder med specielt Hensyn til Island“, Kh. 1832. — $262^{25.27}$ sbr. „Um stjórnarhagi Íslands“ (Ný Félagsrit IX, 20—21. bls.). — $263^{30}$ hér er átt við sonu Kristjáns kammerráðs Magnusen's á Skarði.

**132.** Til prófessors K. Maurer's 13. apríl 1859; Lbs. nr. 1056, 4to. — $264^{16}$ í embættis nafni. — $264^{19.20}$ ritgjörð sú sem hér er átt við er: Islands Verfassungskampf gegen Dänemark (kom út í von Sybel's Historischer Zeitschrift 1859, I. og II., síðar í Konrad Maurer: Zur politischen Geschichte Islands, Leipzig 1880; þýðing í Nýjum Félagsritum XIX, 1.—91. bls. „Um stjórnardeilu Íslendinga við Dani“. — $265^{20}$ sjóður er stofnaður var af gjöfum þeim er safnað var í Danaveldi 1783 og 1784 til bjargar þeim er biðu tjón við jarðeldinn. — $265^{26}$ fyrtin kynslóð (þjóð). — $266^{8}$ „baráttukirkja“ (þ. e. við

sem í baráttunni eigum). — $267^{12}$ Jón Sigurðsson: Lítil fiskibók, Kh. 1859.

**133.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 4. maí 1859; J. S. hs. 519. 4to

**134** Til prófessors K. Maurer's 30. maí 1859; Lbs. nr. 1056, 4to. — $268^{27}$ sbr. aths. $264^{19\ 20}$. — $268^{29.30}$ Með kgl umboðsskrá, 27. maí 1859, var prófessor Tscherning og Jóni Sigurðssyni falið að gera ráðstafanir til útrýmingar fjárkláðanum og framfylgja þeim (Lovs. f. Isl. XVII, 562.—563. bls.). — $269^{1}$ sjá aths. $260^{30}$. — $269^{9.10}$ þ. e. eg mun segja (þeim, hvað gera skal) og friða með því sálu mína.

**135.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 21. júní 1859; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $270^{8.9}$ sbr. aths. $268^{29.30}$. — $270^{23}$ sjá Ný Félagsrit XVIII, 55.—62. bls. — $270^{25.26}$ sbr. aths. $260^{30}$.

**136.** Til prófessors K. Maurer's 21. júní 1859; Lbs. nr. 1056. 4to. — $271^{29}$ „Hirðir" (ritstjórar Jón Hjaltalín og Halldór Friðriksson) hélt fram fjárkláðalækningum, en reyndi að stemma stigu fyrir niðurskurði.

**137.** Til prófessors K. Maurer's 3. ág. 1859; Lbs. nr. 1056, 4to.

**138.** Til prófessors K. Maurer's 19. sept. 1859; Lbs. nr. 1056, 4to. — $275^{5.6}$ „öll afglöp konunganna koma niður á Acheum". — $275^{11.12}$ sjá aths. $254^{18}$. — $275^{12}$ sjá aths. $264^{19.20}$.

**139.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 12. nóv. 1859; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems.

**140.** Til prófessors K. Maurer's 22. des. 1859; Lbs. nr. 1056 4to. — $279^{3}$ Rotwitt-ráðaneytið tók við af Hall í desember 1859, en það hvarf úr sögunni í febrúar 1860, því þá dó Rotwitt.

**141.** Til prófessors K. Maurer's 1. jan. 1860; Lbs. nr. 1056, 4to. — $281^{1}$ Isländische Volkssagen der Gegenwart, Leipzig 1860. — $281^{3}$ = Þjóðsögur Jóns Árnasonar. — $281^{15}$ forlagsbókaverzlun í Leipzig, er gaf síðar út Þjóðsögur Jóns Árnasonar.

**142.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 24. jan. 1860. J. S. hs. 519, 4to. — $282^{34}$ Arnljótur Ólafsson og Gísli Brynjólfsson.

**143.** Til prófessors K. Maurer's 8. febr. 1860; Lbs. nr. 1056, 4to. — $283^{27}$ sjá aths. $281^{1}$. — $284^{3}$ sjá aths. $281^{3}$. — $285^{7.8}$ sjá aths. $264^{19.20}$. — $285^{23}$ móthverfur Skandinavismanum. — $285^{24}$ fylgjandi Blixen-Finecke, dönskum stjórnmálamanni. — $285^{30.31}$ það sem á undan er gengið.

**144.** Til Þórðar háyfirdómara Jónassens 19. apríl 1860; Lbs. 202 fol. Litra 16. — $286^{16}$ lýtur að árásum þeim, sem Jón Sigurðsson og lækningamenn urðu fyrir í „Norðra". — $286^{28.30}$ sjá Þjóðólf XI, 142—143 (grein eftir J. S. dags. 24. sept. 1859). — $287^{15}$ nefnd til umsjónar í fjárkláðamálinu var skipuð af stiptamtmanni haustið 1859 (sbr. Tíð. um stjórnarm. Ísl. I, 316.—317.bls.). — $287^{17}$ um launa-

málið, sjá alþingistíðindi II. 1859, einkum 1732—1774 og 1887—1902, um undirtektir ríkisþingsins undir það mál, sjá Ný Félagsrit XX, 156.—183. bls.

**145.** Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 20. apríl 1860; í eigu Jóns assessors Jenssonar. — $288^{32}$ ummælin lúta að því, að J. S. telur Pétur Havstein hafa óhlýðnazt fyrirmælum stjórnarinnar í kláðamálinu, sbr. $259^{18.21}$. — $289^{10}$ J. S. á hér við afskipti J. G. og blaðs hans af kláðamálinu.

**146.** Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 10. júlí 1860; í eigu Jóns assessors Jenssonar. — $289^{25.26}$ sbr. aths. $287^{17}$. — $291^{21}$ íslenzkt fréttablað, sem byrjaði að koma út í Rvík í lok marzmánaðar 1860, ábyrgðarmaður Benedikt Sveinsson.

**147.** Til prófessors K. Maurer's 11. júlí 1860; Lbs. nr. 1056. 4to. — $292^{7.9}$ sbr. aths. $261^{15}$ — $292^{31.32}$ = verður settur stiptamtmaður. — $292^{36}$ annaðhvort er (að gera) eða ekki. — $293^{1}$ Kötlugos 1860, sbr. Þorvaldur Thoroddsen: Landskjálftar á Íslandi 258.—259. bls. — $293^{32}$ sjá Ný Félagsrit XIII, 26.—156. bls. — $293^{33}$ sjá Safn til sögu Ísl. I, 185.—502.

**148.** Til prófessors K. Maurer's 3. sept. 1860; Lbs. 1056, 4to. — $294^{27}$ Þórður Jónassen var settur stiptamtmaður frá 2. ágúst 1860—1865, er Hilmar Finsen tók við. — $296^{26}$ Beretning om Faareskabssygdommen paa Island. Kh. 1860.

**149.** Til prófessors K. Maurer's 6. október 1860; Lbs. nr. 1056, 4to. — $297^{18}$ Ný Félagsrit XX, 190—200 (ritdómur um „Íslenzkar alþýðusögur á þýzku, eptir dr. K. Maurer"). — $297^{30.31}$ Guðbrandur ritaði í Þjóðólf XII. ár ritdóm um Réttritunarreglur H. Kr. Friðrikssonar og lenti út af ritdómi þessum í blaðadeilu við Konráð Gíslason sem ritaði í Íslending I. ár. — $298^{18}$ uppgjöf. — $298^{32.33}$ Winkler þýzkur jarðfræðingur, er var hér á ferð 1858, skrifaði ymsar miður góðgjarnar greinar um Ísland og Íslendinga, sem voru síðar teknar upp í dönsk blöð. — $299^{8}$ sbr. $284^{25}$.

**150.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 12. okt. 1860; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — $299^{25}$ sjá Íslending I, 12.—13. tbl. — $300^{4}$ sjá Þjóðólf XII, 147.—148. bls. — $300^{11.12}$ ritgjörð eptir Jón Sigurðsson „Lögsögumannatal og lögmanna" (Safn til sögu Íslands II, 1—250).

**151.** Til prófessors K. Maurer's 1. nóv. 1860; Lbs. 1056, 4to. — $301^{29}$ traktatsins = samningsins milli Henr. Buchh. og Bókmenntafélagsins. — $302^{3.4}$ árið 1860 fór Arnljótur Ólafsson með þeim Shaffner og Zeilau til Færeyja, Íslands og Grænlands til að rannsaka skilyrðin fyrir símalagningu þá leið til Ameríku (sbr. B. M. Ólsen: Frá Arnljóti Ólafssyni, Andvari XXXI, 12. bls.).

**152.** Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 28. febr. 1861; í eigu

Jóns assessors Jenssonar. — 304[1] nöldrunarsemi. — 304[3] stífni (óþjállyndi). — 304[35] „Um blaðleysi og póstleysi á Ísl." Ný Fél. VI. 105. bls.

**153.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 28. febr. 1861; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — 305[15-16] Páll hafði gert fyrirspurn til J. S. um Fjalla-Eyvind; frásagnir Páls um Fjalla-Eyvind sjá Íslending I, 20.—22. tbl. — 305[22-23] hér mun átt við bréf frá Grími Thomsen, birt í Íslendingi I, 14. tbl. (25. okt. 1860) með nokkrum athugasemdum ritstj. — 305[29] G. Þ. = Grímur Þorgrímsson (Thomsen).

**154.** Til Þórðar Jónassens háyfirdómara 28. febr. 1861; Lbs. nr. 202, Litra 16. — 306[28] Stephán (Thorsteinsen) hafði fengið fjárstyrk úr jarðabókarsjóðnum til að nema dýralækningar í Danmörku (sbr. bréf frá Þórði til J. S. 22. sept. 1860). — 306[31] Þórður Jónassen hafði í bréfi til J. S. 7. nóv. 1860 vikið að því, að menn væri orðnir hræddir um þá Shaffner (sbr. aths. 302[3-4]), en er J. S. ritar bréf þetta voru þeir komnir heilir heim úr leiðangrinum. — 307[4] Þórður Jónassen ritar J. S. 7. nóv. 1860 á þessa leið: „Um leið og eg skrifaði stjórninni um ástandið með kláðann og áranguriun af lækningunum, stakk eg uppá, að stjórnin legði nú allt að 5000 rd. til þess að bæta fjárræktina hér, og að hagtæring þessa fjár yrði falin nefnd manna" (sbr. og 306[5-8]). — 307[9] sbr. aths. 287[15]. — 307[16] Nefnd þessi var sett með konungl. umboðsskrá 20. sept. 1861 (sbr. Lovs. f. Isl. XVIII, 278.—280. bls). — 307[20] = hans önnur hönd.

**155.** Til prófessors K. Maurer's 3. marz 1861; Lbs. nr. 1056, 4to. — 308[16] Mjóni, svo nefndu Íslendingar í Kaupmannahöfn þá kaffisölu- og veitingastað einn, sem var kenndur við eigandann Mini. — 308[22] sbr. aths. 307[16].

**156.** Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 18. apríl 1861; í eigu Jóns assessors Jenssonar. — 311[1] Bjarni rektor Johnsen missti konu sína í apríl 1861.

**157.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 20. apríl 1861; J. S. hs. nr. 519, 4to. — 311[19-20] sjá aths. 307[16].

**158.** Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 1. júní 1861; í eigu Jóns assessors Jenssonar. — 312[1] lýtur að meðferð alþingis 1859 á launamálinu sbr. aths. 287[17].

**159.** Til Þórðar Jónassens háyfirdómara 1. júní 1861; Lbs. nr. 202 fol. Litra 16. — 313[24-25] Þórður Jónassen skrifar J. S. 6. maí 1861: „Eg er ennú í þessu embætti, sem constitueraður, og þori samt ekki að sækja um það, því eg mundi hvorki fullnægja sjálfum mér né öðrum, og veit líka sjálfur bezt hvað mig skortir til þess, auk þess sem árin fjölga". — 313[28] Þórður Jónassen skrifaði J. S. ennfremur, að hann teldi hann ómissandi á þingi, og (J. S.) hefði samvizkuskyldu til þess að halda því áfram á þinginu, sem hann hefði byrjað á og haldið fram þangað til; en hinsvegar láði hann

honum ekki, þó honum gremdist meðferðin á sér á alþingi síðast, en það sé gamalt vöggumein Íslendinga; þeir séu í smáum stíl líkir Aþeningum í því, að þeir fari lakast með beztu menn sína. — 314[18.19] lýtur að þessum orðum í bréfi Þórðar Jónassens: „Mér leizt það strax, þegar J. G. flutti líkræðuna yfir honum, að það mundi verða M. fyrir langlífi".

160. Til prófessors K. Maurer's 4. ágúst 1861; Lbs. nr. 1056, 4to.

161. Til Gísla læknis Hjálmarssonar 9. sept. 1861; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems.

162. Til Sigurðar Gunnarssonar, síðar próf. á Hallormsstað 9. sept. 1861; í eigu frú Elísabetar Sigurðardóttur á Hallormsstað. — 318[21.22] Þetta merkilega bréf er svar upp á bréf frá síra Sigurði Gunnarssyni, dags. 30. okt. 1860. Af því að bæði bréf þessi sýna ljóslega hinar tvískiptu skoðanir manna á kláðamálinu, skal hér tekinn upp orðrétt úr bréfi síra Sigurðar kafli sá, er snertir kláðamálið: „Eg skrifaði þér héðan í fyrra haust svo langa vitleysu út af kláðanum góða, að eg veit þig hefir offerjað, og skal því ekki bæta neinu við það, með því þetta vonda kláðamál er nú farið að nálgast endann, og þið verðið að hrökkva sigraðir, hversu vel sem þið vilduð — já, efalaust þú alt hið bezta. — Lesið hefi eg skýrslu ykkar kláðakonunganna, sem sumir kölluðu að gamni sínu, og furðaði mig þar sumt, að þú skyldir leiðast til að skrifa það, vegna ókunnugleikans, t. d. að svipaður kláði og drepkláðinn hefði komið upp á Austur- og Norðurlandi áður og nú, því það hefir aldrei og hvergi verið — á minni æfi — það veit eg betur en þú, allt norður í Skagafjörð. — Svo opt hefi eg farið um allar þessar sveitir og jafnan talað við bændur um búnað þeirra, fénaðarhöld og hirðingu, og aldrei séð eða heyrt kláða nefndan, nema krefðu í lömbum á haustum eptir hríðarsumur, sem ætíð hefir batnað, þegar inn kom að fóðri.

Í þessum óþurkaárum hefir og sést kláði á ám, sem ætíð hefir batnað af sjálfum sér, þegar leið á sumar, þegar skepnur fóru að hyldgast. En með öllu hefir sá kláði verið ólíkur hinum sunnlenzka — einsog honum er lýst. Því er miður, þú ert orðinn of ókunnugur á Íslandi í sveitum, og svo mun vera um flesta áköfustu lækningamenn. Almennt kenna menn einum manni mest um alla bölvun, sem hlotizt hefir og hlýzt af þessum drepkláða — þeim manni, sem of opt hefir litið kært sig um hvað hann segir. En margar gátur eru um það, hvað til þess hafi komið, að þú skyldir verða einn hinn mesti fylgdarmaður hans í kláðamálinu um lækningar; en þær eru flestar þessar getgátur rangar, og líklega allar nema ein".

163. Til dr. Guðbrands Vigfússonar 21. sept. 1861; mun innan skamms komast í eigu Bodleian Library í Oxford, — 321[17.19] sjá Alþingistíðindi 1861, „hallærismálið", einkum I, 395.—420. og 467.—484. bls.

og II, 822.—824. bls. — $321^{28}$ „Bænarskrá frá Þingvallafundi um bráðabirgðaráðstafanir í fjárkláðamálinu og önnur frá Húnavatnssýslu um að kláðasvæðinu verði þröngvað og að alþingi semji almennar reglur, er konungur samþykki“. $322^{3\cdot 4}$ „Bænarskrá frá Eyjafjarðarsýslu um að reglugjörð 14. sept. 1859 verði betur hlýtt“, (sbr. Alþingist. 1861, I, 19. bls.). — $322^{12\cdot 13}$ „Uppástúnga frá þingmanni Gullbringusýslu um fiskiveiðar Frakka og annara útlendra þjóða hér við land“ (sjá Alþingist. 1861 I, 132.—133. bls.).

**164.** Til prófessors K. Maurers 21. sept. 1861; Lbs. nr. 1056, 4to. — $324^{2}$ Ný jarðabók fyrir Ísland, staðfest með tilskipun 1. dag aprílmánaðar 1861. — $324^{7\cdot 8}$ Hólmar voru tíundfrjálsir sem kirkjustaður. — $324^{9}$ klerkur heimtar ekki tíund af klerki. — $324^{28}$ 1. júní 1861, sjá Tíð. um stjórnmálefni Íslands I. 478—485. — $324^{29}$ sbr. $323^{10}$ og aths. $298^{32\cdot 33}$.

**165.** Til Ásgeirs alþingismanns Einarssonar 1. nóv. 1861; í eigu Guðjóns bónda Jónssonar á Leysingjastöðum. — $325^{29}$ sjá aths. $307^{16}$.

**166.** Til Sigurðar málara Guðmundssonar 1. nóv. 1861; Lbs. ómerkt. — $327^{6}$ lýtur að ferðalagi Sigurðar í þarfir Bókmenntafélagsins til undirbúnings rits hans: „Alþingisstaður hinn forni við Öxará“. Kh. 1878. — $327^{7}$ Pétur Pétursson, síðar biskup.

**167.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 7. apríl 1862. J. S. hs. nr. 519, 4to. — $328^{16}$ sjá $307^{16}$.

**168.** Til Þórðar háyfirdómara Jónassens 11. júlí 1862. Lbs. nr. 202 fol. Litra 16. — $329^{26}$ óhjákvæmilegt skilyrði. — $330^{1\cdot 2}$ Þórður Jónassen svarar þessu í bréfi 21. ág. 1862 á þessa leið: „Ósatt er það, að eg hafi yfirgefið böð og eptirlit með fénu. Eg hefi þvert á móti hlynnt að þeim hvervetna. Það vita þeir sem satt vilja [segja]. .... Að sjúkt fé skyldi dræpt, ef það hittist hirðingarlaust, var nauðsyn eins og á stóð“. — $330^{23}$ Þ. Jónassen mun hafa sent Félagsritunum peninga að gjöf, sbr. bréf hans til J. S. $^{22}/_{11}$ '61.

**169.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 13. sept. 1862; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $330^{30}$ Kórinþubr. I, 15, 5. — $331^{1}$ Gísli læknir fékk lausn frá embætti $^{22}/_{3}$ '60; flutti 1862 að Kollafirði og bjó þar 1 ár; þaðan flutti hann til Bessastaða og bjó þar til æfiloka.

**170.** Til prófessors K. Maurer's 6. okt. 1862; Lbs. nr, 1056, 4to. — $332^{5\cdot 6}$ = Maurer, Zur deutschen Rechtsgeschichte í Krit. Vierteljahrschrift IV, 412—429. — $332^{16}$ sjá Ný Félagsrit XXII, 22.—99. bls. — $332^{21\cdot 22}$ óslitnar skýringar. — $333^{12}$ var afnumin gegn c. 70 mill. króna endurgjaldi til Dana frá helztu siglingaþjóðunum (samningur 14. marz 1857); það er hlutdeild í þessu fé, sem hér er átt við. — $333^{20}$ að komast fram hjá Scyllu og lenda ekki í Charybdis.

**171.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 27. okt. 1862; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $334^{14}$ sbr. aths. $331^{1}$.

**172.** Til Þórðar Jónassens háyfirdómara 19. marz 1863; Lbs. nr. 202 fol. Litra 16.

**173.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 20. marz 1863; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — 337[5] sjá Ný Félagsrit XXII, 1.—21. og 22.—99. bls. (Um stjórnarmál Íslands og „Um fjárhagsmálið“).

**174.** Til Guðmundar búfræðings Ólafssonar, síðar á Fitjum, 8. maí 1863; í eigu Stefáns óðalsbónda Guðmundssonar á Fitjum. — 338[9] sjá Íslending III, nr. 18 (9/2 '63).

**175.** Til Sigurðar málara Guðmundssonar 8. maí 1863; Lbs. ómerkt. — 339[28] kort (og uppdrættir) sem fylgja Njáluþýðingu G. W. Dasent's: The Story of Burnt Nial I—II. Edinburgh 1861.

**176.** Til Þórðar Jónassens háyfirdómara 8. maí 1863; Lbs. nr. 202 fol. Litra 16. — 341[17] Þórði Jónassen farast í svari sínu dags. 23. maí 1863 orð á þessa leið: „Já, eg hefi fengið commissorium sem K. F. Það gladdi mig ekki, því eg veit, að eg get ekki staðið í skilum, hvorki svo mér né öðrum líki, og kvíði því fyrir þinginu, einkum ef þú ekki kemur, því eg ætla þá að fara í smiðju til þín, og hún er ekki vön að vera kolalaus. Eg er nokkuð conservativ, og einkum hættir mér við að gera lítið úr Íslands dáð og dug; mér sýnist allt sé þar enn í einskonar barndómi. Eg er því hræddur við okkar sjálfstjórn, því eg held bæði að við fáum ekki svo duglega menn í hana sem skyldi, og svo yrði að líkindum hver hönd upp í móti annari. Eg segi ekki samt að þessi sjálfstjórn ekki sé hugsandi, né heldur að við ekki getum haft okkar fjárforráð, en — hér er samt allmikið á hættu, eptir því sem hér hagar til, nema danska stjórnin veiti okkur það, sem þú fer fram á, en það gerir hún ekki. Það þori eg að fullyrða. Það mælir margt [með] því að draga saman stjórnina, en þá þarf um leið að laga póstgöngurnar eða fjölga þeim. Eg geri ekki mikið úr þeim jure inspiciendi sem amtmenn hafa, það er meira í orði en á borði. Svo amtmenn gætu þess vegna vel misst sig. Það er líka víst að hver stjórn verður kröptugri við concentration, en því er miður, að ömtin eru nú og verða líklega aldrei nema disjecta membra, hvert öðru fráleit.“ — 341[20] stálkappinn = Pétur amtmaður Havstein. — 342[5] = skýrslur um kláðann. — 342[10] = Benedikt assessor Sveinsson.

**177.** Til Einars prests Thorlaciusar 29. júlí 1863; J. S. hs 144 fol. — 344[15-18] Norðanfari flutti 1863 í 17.—20. og 21.—24. og 25.—28. tbl. þýðingar á greinum þeim, er amtmaður Havstein, prófessor H. C. Tscherning og skjalavörður Jón Sigurðsson rituðu í „Fædrelandet“ í 217., 228. og 246. tbl. Við greinar þeirra Tscherninga og J. S. jók ritstjóri Norðanfara nokkrum „nótum“ eða athugasemdum. — 344[26-27] sjá Alþingistíðindi 1861 III. 1819. bls. — 344[33-34] Á þessu ári voru í sýslumannsembætti hér á landi skipaðir þrír danskir menn: í Suður-Múlasýslu V. K. B. Olivarius, Snæfellsnessýslu P. T. E. Böving og Norður-Múlasýslu O. W. Smith. Sbr. að öðru leyti Þjóðólf XV, 161. bls. og víðar.

**178.** Til Jóns alþingismanns Sigurðssonar á Gautlöndum 29. júlí 1863; J. S. hs. 144 fol. — $346^{35.36}$ sjá Ný Félagsrit XXII., 22.—99. bls. („Um fjárhagsmálið"). — $347^{3}$ sjá Ný Félagsrit XXIII. 1.—73. bls. („Stjórnarmál og fjárhagsmál Íslands").

**179.** Til Marteins gullsmiðs Jónssonar á Keldhólum 28. ág. 1863; í eigu Runólfs Marteinssonar Gimli, Man., Canada.

**180.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 14. sept. 1863; J. S. hs. nr. 519, 4to. — $349^{5}$ sjá Alþingistíðindi 1863 I. 517. bls.

**181.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 30. marz 1864; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $349^{30}$ Páll sagnfræðingur Melsteð þjónaði Gullbringu- og Kjósarsýslu frá 1858—1862 fyrst fyrir Baumann og síðar á eigin ábyrgð þar til Clausen tók við. — Hér er átt við afskifti Clausens af fjárkláðanum. — $349^{31}$ concedo = eg kannast við. — $350^{6}$ Kristján IX. kom til ríkis við dauða Friðriks VII. $^{15}/_{11}$ '63. — $350^{9.10}$ þ. e. til að tjá konungi óskir landsmanna í ávarpi til hans. — $350^{11}$ erfðalögin = ríkiserfðalögin 31. júlí 1853. — $350^{20}$ skólaskýrslan 1862—1863, nefnd „langa prógrammið"; í henni prentaði Bjarni rektor langa vörn fyrir skólastjórn sinni og ástandi skólans, er ritstjóri Þjóðólfs hafði ráðist á; Halldór Friðriksson mun hafa þýtt skýrsluna á íslenzku. — $350^{25}$ Halldór mun í bréfi til Jóns hafa ráðgert að gefa út aðra hvora Edduna.

**182.** Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 30. marz 1864; í eigu Jóns assessors Jenssonar. — $351^{8}$ sjá aths. $350^{20}$ — $351^{11}$ innan veggja þ. e. vandlega.

**183.** Til prófessors K. Maurers 22. maí 1864; Lbs. nr. 1056, 4to. — $352^{9}$ K. Maurer hafði í Anzeiger für Kunde der deutschen Vorzeit 1863 ritdæmt orðabækur þeirra Eiríks Jónssonar og Fritzner's. — $352^{31}$ á við ritg. Maurers „Graagaas" í Hall. Allg. Encykl. Sect. I. Band LXXVII. — $353^{15}$ sjá Ísl. Fornbréfas. I, 162. bls. — $353^{31}$ sjá aths. $308^{18}$.

**184.** Til Hannesar kaupmanns Johnsens 26. maí 1864; í eigu Ólafs Johnsens, fyrverandi yfirkennara í Odense. — $354^{16}$ hér mun sennilega átt við þras það og umtal sem leiddi af skólaskýrslunni 1862—1863, sbr. $350^{20}$. — $354^{30}$ Bjarni Thorsteinsson.

**185.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 20. júlí 1864; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $355^{18}$ J. S. hefir sent Gísla lækni mynd af sér, sem Gísla hefir ekki allskostar líkað, sbr. $358^{6}$.

**186.** Til Jens Sigurðssonar, síðar rektors, 20. júlí 1864; í eigu Jóns assessors Jenssonar. — $357^{24}$ innanlandsmál.

**187.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 27. ágúst 1864; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $358^{13}$ víst sama myndin, sem nú er í eigu sr. Eiríks Briems, máluð í Khöfn um 1844 og gefin Gísla lækni þá af J. S. — G. Th. Wegener var danskur málari (1817—1877).

**188.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 27. ágúst

1864; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 359[15] prófessorinn = Pétur Pétursson, síðar biskup. — 359[23] Halldór Friðriksson mun í bréfi til J. S. hafa stungið upp á Smith, sýslumanni í Norður-Múlasýslu, sem góðu þingmannsefni. — 359[34] Benedikt Sveinsson. — 360[9] sjá aths. 350[25]. — 360[16] Halldór Friðriksson hafði þá enska málfræði á prjónunum og leitaði ásjár J. S. til þess að hjálpa sér að koma henni út.

**189.** Til Sigurðar málara Guðmundssonar 4. okt. 1864; J. S. hs. 144 fol. — 361[5-9] í minningu 1000 ára byggingar Íslands var stungið upp á að stofna til ýmissa samskota, þar á meðal þeirra er hér ræðir um. — 361[20] sjá „Nokkur blöð úr Hauksbók og brot úr Guðmundarsögu“ gefin út af Jóni Þorkelssyni, Reykjavík 1865; formáli XX. bls. 10. l. að ofan.

**190.** Til dr. Guðbrands Vigfússonar 22. okt. 1864; mun innan skamms komast í eigu Bodleian Library í Oxford. — 362[23] fréttaritarinn til „Intelligentssedler“ var Jón Sigurðsson.

**191.** Til prófessors K. Maurer's 30. nóv. 1864; Lbs. nr. 1056, 4to. — 364[14] hin íslenzk-enska orðabók, sem kennd er við Cleasby; ýmsir Íslendingar (Konráð Gíslason, Brynjólfur Pétursson o. fl.) höfðu starfað að henni, og Guðbrandur fluttist einmitt til Englands til þess að starfa að útgáfu hennar. — 364[17] Maurer mun hafa ritað J. S., að Willatzen væri að þýða ísl. Fornkvæði á þýzku; sú þýðing („Altisl. Volksballaden“) kom út í Bremen 1865. — 364[20] hér er átt við „Íslenzk fornkvæði“, er þeir Svend Grundtvig og Jón Sigurðsson gáfu út að mestu leyti (Kh. 1854—85). Um útgáfu þessa sjá: Finnur Jónsson: Vísindastörf Jóns Sigurðssonar, Skírnir 1911, 165. bls. — 365[33] sbr. aths. 350[11]; á þingunum 1855 og 1857 (Alþingistíð. 1855, 777. bls. og Alþingistíð. 1857, 55. og 910.—912. bls.) varð töluvert þras um lög þessi (sbr. og kgl. augl. 27. maí 1857).

**192.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 1. janúar 1865; J. S. hs. 519, 4to. — 369[3-9] Þorgeir skýrir J. S. í bréfi dags. $^{11}/_{1}$ '65 frá að Rafn hafi átt upptökin að stofnun „Fornfræðafélagsins« en notið stuðnings mikils hjá Gísla Brynjólfssyni eldra, Svb. Egilssyni og sér. — 369[16] = hver fái það sem honum ber.

**193.** Til dr. Guðbrands Vigfússonar 2. janúar 1865; mun innan skamms komast í eigu Bodleian Library í Oxford. — 369[32] = C. J. Thomsen, danskur fornfræðingur. — 370[6] hneigist að því að styðja fornmenjarannsóknir.

**194.** Til dr. Guðbrands Vigfússonar 5. apríl 1865; mun innan skamms komast í eigu Bodleian Library í Oxford. — 372[29] mun aldrei hafa verið ritað.

**195.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 6. apríl 1865; í eigu Eiríks

prestaskólakennara Briems. — $373^{19}$ afl þeirra hluta er gera skal þ. e. fé.

196. Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 6. apríl 1865: í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $375^{8}$ sjá aths. $378^{20}$. — $375^{11-12}$ Halldór var konungkjörinn þingmaður á þingunum 1865 og 1867. — $375^{13-14}$ lýtur að kæru frá Halldóri til ráðgjafans yfir niðurskurðaræsingum og ofbeldishótunum af hálfu embættismannanna Bened. Sveinssonar og Jóns Thoroddsens. — $375^{19}$ um friðinn milli Dana og Þjóðverja (30. okt. 1864; prentaður í Tíð. um stjórnarm. Ísl. II., 94.—110. bls). — $375^{22}$ svo kallar J. S. tillögur stjórnarinnar í fjárhagsmálinu, sem lagðar voru fyrir alþingi 1865, en byggðar á álitsskjali dags. 15. júlí 1862 frá nefndinni er stjórnin skipaði í fjárhagsmálinu $^{20}/_{9}$ '61. — $375^{32}$ eptir allar tilraunirnar að bræða hertogadæmin saman við konungsríkið, sátu Danir eptir styrjöldina 1864 uppi með tvenn grundvallarlög: grvl. $^{18}/_{11}$ 1863 um sameiginl. mál konungsríkisins Danmerkur og hertogadæmisins Slesvíkur (þar hét þingið „ríkisráð“ og deildirnar: „landsþing“ og „þjóðþing“) og grvl. $^{5}/_{6}$ '49 um sérstakleg mál konungsríkisins Danmerkur, og hétu deildirnar eins og í hinu þinginu. Eptir missi Slesvíkur varð tvískiptingin í sameiginleg mál og sérstök mál óþörf.

197. Til Gísla læknis Hjálmarssonar 13. maí 1865; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. — $376^{13-14}$ Mókollshaugur sbr. Ísl. Þjóðs. II, 86. — $376^{31}$ varð gjaldþrota um það leyti. — $377^{10}$ sjá aths. $375^{32}$. — $377^{20}$ ofdrykkju-brjálsemi. — $377^{21}$ óhjákvæmilegt skilyrði. — $377^{31-32}$ eptir aðalpersónunni í leik Holbergs Don Ranudo Colibrados, eða „Fátækt og rembilæti“.

198. Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 13. maí 1865. — $378^{20}$ Sveinbirni Jakobsen var hrundið frá þingsetu 1865, af því hann væri ekki danskur þegn og auk þess gjaldþrota í Höfn, sbr. $385^{27}$. J. S. vildi, að hann segði góðfúslega af sér þingmennskunni og varaþingmaðurinn, Magnús Jónsson í Bráðræði, tæki sæti á þinginu, eins og líka varð. — $378^{25}$ fengið honum aptur til umráða. — $379^{13}$ einhver vafi hefir verið talinn leika á kosningu J. G., en úr mótmælum gegn henni á þingi varð ekkert. — $379^{19}$ kláðaböð, sem þá tíðkuðust. — $379^{22}$ Norðlendingar skrifuðu stjórninni áskorun um, að alþingi 1865 fengi heimild til að semja lög, er konungur samþykkti fyrir fram, um algjörða lógun á grunuðu og sjúku fé sunnanlands gegn því að látið yrði í skarðið jafnmargt af heilbrigðu fé úr næstu heilbrigðu sýslum við sanngjörnu verði. Skyldi kostnaðurinn við niðurskurðinn greiðast af jafnaðarsjóðum alls landsins. Þessum tillögum var Þjóðólfur fylgjandi. — $379^{26}$ = í huga. — $379^{26-28}$ Á Þingvallafundi 1864 voru þeir B. Sveinsson, Jón Thoroddsen og H. Kr. Friðriksson kosnir í nefnd til að gangast fyrir

samskotum til skýlis á Þingvöllum til fundarhalda; síðan skyldi verja samskotunum ásamt skýlissjóði þeim, er stofnað hafði verið til 1853 —1855, til að koma upp skýli á Þingvöllum. En er til kom, komu nefndarmenn sér ekki saman um áskorunina til landsmanna, og Halldór gekk úr nefndinni, af því að honum þótti farið fram á allt annað í boðsbréfinu en Þingvallafundur hafði ætlazt til. Hefir J. S. verið Halldóri samdóma, eins og sést á bréfinu. — $380^{14.16}$ þ. e. þegar fjárkláðinn kom í fyrra skiptið og stjórnin gekkst loks fyrir, að útrýma honum með niðurskurði (sbr. tilskipun $^{12}/_{5}$ 1772). — $380^{29}$ sbr. $360^{16}$.

**199.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 13. maí 1865; J. S. hs. nr. 519, 4to. — $381^{5}$ sbr. 194. bréf. — $383^{1}$ Hilmar Finsen var skipaður stiptamtmaður yfir Íslandi 8. maí 1865. — $383^{13}$ „Svar til herra yfirdómara Benedikts Sveinssonar“ út af grein hans í Íslendingi (IV, 6., 7. og 8. tbl.): „Fjárkláðinn, bændur og yfirvöldin“. Rvk. 1865. — $383^{14.15}$ sjá Þjóðólf XVII, 80.—82. bls., sbr. og aths. $379^{22}$.

**200.** Til Boga sýslumanns Thorarensens 4. júlí 1865; í eigu Jóns gagnfræðings Thorarensens. — $384^{13.14}$ sbr. álitsskjal til konungs í málinu: „Konunglegt frumvarp til tilskipunar um fjárkláða og önnur næm fjárveikindi á Íslandi“. (Alþt. 1865 II, 487—494. bls.). — $385^{13}$ Antonia Jósefina Árnadóttir umboðsmanns Thorlaciusar.

**201.** Til dr. Guðbrands Vigfússonar 5. júlí 1865; mun innan skamms komast í eigu Bodleian Library í Oxford. — $386^{4}$ sbr. aths. $384^{13.14}$. — $386^{7.8}$ sbr. $391^{29.30}$ og Alþingist. 1865 II, 357. bls. og II, 361. bls.

**202.** Til Guðbrands Vigfússonar 10. ágúst 1865; mun innan skamms komast í eigu Bodleian Library í Oxford. — $388^{13}$ Hilmar Finsen, sjá Þjóðólf XVII, 159.—160. bls.

**203.** Til dr. Guðbrands Vigfússonar 23. okt. 1865; mun innan skamms komast í eigu Bodleian Library í Oxford. — $389^{6}$ hér mun átt við „Brev fra Reykjavik, 28. August 1865“, sem var birt í „Fædrelandet“ 12. okt. 1865 og í ísl. þýðingu í Norðanfara $^{29}/_{7}$ 1866. — $389^{26}$ þessir fimm menn voru Geir Zoëga, síðar kaupmaður í Reykjavík, Kristinn Magnússon skipasmiður og bóndi í Engey, Guðmundur Guðmundsson, yngismaður, síðar bóndi í Landakoti á Vatnsleysuströnd, Hafliði óðalsbóndi Eyjólfsson frá Svefneyjum og Sumarliði Sumarliðason gullsmiður og óðalsbóndi í Vigur. Sjá Þjóðólf XVII. 159. bls. og XVIII. 1. bls.

**204.** Til dr. Guðbrands Vigfússonar 13. nóv. 1865; mun innan skamms komast í eigu Bodleian Library í Oxford. $390^{11.13}$ sbr. aths. $389^{6}$.

**205.** Til prófessors K. Maurer's 18. nóv. 1865; Lbs. nr. 1056, 4to. $391^{9}$ ritdómur um kirkjurétt Jóns Péturssonar í »Krit. Viertel-

jahrschrift“ VII. 7. og 15. h. — $393^{11}$ sbr. aths. $389^{6}$. — $393^{28}$ sbr. aths. $401^{29}$. — $394^{26}$ Þórður Jónassen.

**206.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 30. nóv. 1865; J. S. hs. nr. 519, 4to.

**207.** Til dr. Guðbrands Vigfússonar 21. janúar 1866; mun innan skamms komast í eigu Bodleian Library í Oxford. — $397^{10}$ Guðbrandur Vigfússon sótti sem styrkþegi Árna Magnússonar nefndarinnar um leyfi til að mega dvelja lengur í Englandi og fal J. S. að koma umsókn sinni á framfæri. J. S. hefir flutt mál Guðbrands fyrir nefndinni, en þykir Guðbrandur hafa staðið lítt við orð sín. — $400^{6}$ = iðka sömu vísindagreinir.

**208.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 28. febr. 1866; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems, — $401^{6.7}$ sbr. $396^{18.20}$.

**209.** Til Jóns ritstjóra Guðmundssonar 28. febr. 1866; í eigu dr. Bjarnar Bjarnasonar. — $401^{29}$ 1865 voru lögð fyrir alþing frumvörp til laga um laun handa íslenzkum póstembættismönnum. Eptir því átti skrifstofufulltrúi í aðalpóststjórninni dönsku að hafa á hendi þau störf, er snertu ísl. póstmál, og í Reykjavík skyldi skipaður póstmeistari. Þingið var samþykkt frumvörpunum, en aðeins sem bráðabirgðarfyrirkomulagi (sbr. $393^{30.31}$), þar til fjárskilnaður yrði. — $401^{31.32}$ þ. e. fyrir ríkisþingið. — $402^{2.3}$ þ. e. um fjártillag Danmerkur til Íslands. — $402^{7}$ þessir 3 menn voru í minni hlutanum á alþingi, er vildi ekki vísa fjárhagsfrumvarpinu frá; en Jón Sigurðsson og þeir sem honum fylgdu urðu yfirsterkari með 14 : 11. — $402^{25}$ sbr. $389^{6}$ og $393^{11.19}$. — $403^{5}$ sbr. Ný Félagsrit XXV, 126.—144. bls. („Fjárhagsmál og stjórnarmál Íslands“). — $403^{13}$ aðgreining á bæjarfógeta og landfógetaembættinu gekk fyrst fram nokkrum árum síðar. — $403^{21.22}$ hér er átt við mynd þá sem er í sal neðri deildar alþingis. — $403^{29}$ Frú Kristín Krabbe, dóttir Jóns Guðmundssonar.

**210.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 14. apríl 1866; J. S. hs. 519, 4to. — $404^{5}$ Þ. G. sendi Bókmenntafélaginu heillaósk og peningagjöf í tilefni af 50 ára afmæli félagsins. — $404^{15}$ hér er átt við ritið: „Hið íslenzka Bókmentafélag; stofnun félagsins og athafnir um fyrstu fimmtíu árin 1816—1866“, Kh. 1867. — $404^{22}$ þ. e. þegar Þorgeir var forseti Hafnardeildarinnar 1831—1839. — $405^{1.2}$ Fjárhagsaðskilnaðurinn milli Danmerkur og Íslands (sjá Þjóðólf XVIII, 33., 49., 66., 78., 99., 130., 151. bls.).

**211.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 17. apríl 1866; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems.

**212.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 28. maí 1866; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems.

**213.** Til Þórðar háyfirdómara Jónassens 17. júlí 1866; Lbs. nr. 202 fol. — $407^{15}$ lýtur að því, að Pétur Pétursson bisk-

upsefni og ýmsir aðrir Íslendingar munu hafa talið það réttara og meiri sæmd fyrir íslenzku kirkjuna, að íslenzkur biskup tæki biskupsvígslu á Englandi en í Danmörku, með því að „vígslukeðja biskupanna“ (successio apostolica) væri óslitin á Englandi (sjá Þorvaldur Thoroddsen: Æfisaga Dr. Péturs Péturssonar 158 bls.). — $407^{28-30}$ sjá Þjóðólf XVIII. 117. og 165. bls — $408^{1}$ hér er átt við atkvæðagreiðsluna í fjárhagsmálinu, að heimta málið alt lagt fyrir þjóðfund, sbr. $395^{31-32}$. — $409^{2}$ petitio princ. = sú rökvilla að taka það sem gefið, sem þarf sönnunar við.

**214.** Til Jóns alþingismanns Sigurðssonar á Gautlöndum 21. ágúst 1866; J. S. hs. 144 fol. — $409^{31}$ sbr. $405^{1-6}$.

**215.** Til Sigurðar prófasts Gunnarssonar á Hallormsstað 13. sept. 1866; í eigu frú Elísabetar Sigurðardóttur s. st. — $410^{29}$ þetta sumar hafði Þorlákur O. Johnsen samið um kaup á fé á Austur- og Norðurlandi til útflutnings til Bretlands, en fyrir óhöpp fórust fjárkaupin fyrir (sbr. Þjóðólf XVIII, 169 og XIX, 93. bls) — $411^{29-30}$ þ. e. með því að hrinda frumvarpi stjórnarinnar um fjárhagsskilnaðinn. — $412^{15}$ þú plægir, sáir, uppsker handa sjálfum þér, heldur en að verða að segja: þú plægir o. s. frv. handa Dönum. — $413^{13}$ sbr. aths. $405^{1-2}$.

**216.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 4. okt. 1866; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — $414^{6}$ J. S. hafði í bréfi dags. 28. febr. 1866 ámálgað við Pál Melsteð að semja fyrir sig stúdentaskrá og útvega sér afskriptir af ýmsum handritum í söfnunum í Rvík og í eigu einstakra manna. — $414^{12}$ Fornaldarsagan og Miðaldar- eftir P. Melsteð (útkomnar 1864 & 1866). — $414^{19}$ lýtur að gamalli eyfirzkri munnmælasögu um prest, er gleymdi að skýra frá heimilisfangi brúðhjóna, er hann var að lýsa með á stólnum, þangað til hann var búinn að segja Amen, þá bætti hann við: á Hólum (þar áttu brúðhjónin heima), sbr. Bjarni Thorarensen kvæði 172.—173. bls. og aths. 296. bls. Kh. 1884.

**217.** Til Þórðar háyfirdómara Jónassens 5. okt. 1866; Lbs. nr. 202 fol. — $416^{26}$ sbr. aths. $414^{19}$. — $416^{32}$ dómsmálastj.br. 18. jan. 1865, Tíð. um stjórnarm. Ísl. II, bls. 126.

**218.** Til Torfa Bjarnasonar, síðar skólastjóra, 18. febr. 1867; í eigu viðtakanda. — $419^{5}$ Torfi varð við tilmælum J. S. og ritaði í „Ný Félagsrit“ XXV, 1.—44. bls. „Bréf frá Íslendingi á Skotlandi til kunningja síns heima“.

**219.** Til Gísla læknis Hjálmarssonar 28. febr. 1867; í eigu Eiríks prestaskólakennara Briems. Gísli læknir († $^{13}/_{1}$ '67) var látinn, er bréf þetta barst til Íslands. — $420^{19}$ á við þjóðsögu, sem gekk hér á landi um, að fjórir íslenzkir höfðingjasynir, sem stunduðu nám við Kaupmannahafnarháskóla, hefðu farið í gullhús konungs og stolið þaðan fé. Átti að lífláta sveinana, en konungur lét tilleiðast að gefa þeim líf, gegn því að foreldrar þeirra troðfylltu með spesíum skyrtur með rauðum kraga, er konungur sendi þeim, sjá Sunnanfara

XI, 58. bls. o. s. frv., einkum 84. bls. (þar er sagan sögð á tvennan hátt).

**220**. Til Jóns ritstjóra Guðmundssonar 28. febr. 1867; í eigu dr. Bjarnar Bjarnasonar. — 422[3] hér mun vera átt við samþykkt fundar 29. sept. 1866, er haldinn var í Reykjavík, um niðurskurð á fé á kláðasvæðinu syðra, til algerðrar útrýmingar fjárkláðanum. Fund þenna sóttu menn úr Borgarfjarðar-, Árness-, Gullbringu- og Kjósarsýslum og Rvík (sjá Viðaukablað Þjóðólfs 6. oktober 1866).

**221**. Til Torfa Bjarnasonar, síðar skólastjóra, 25. marz 1867; í eigu viðtakanda. — 424[24] sbr. aths. 419[5]. — 426[6] sjá Alþingistíð. 1865, I. 1067. bls.

**222**. Til prófessors K. Maurer's 4. apríl 1867; Lbs. nr. 1056, 4to. — 429[6] sjá aths. 404[15].

**223**. Til Torfa Bjarnasonar, síðar skólastjóra, 21. apríl 1867; í eigu viðtakanda.

**224**. Til Guðmundar búfræðings Ólafssonar 24. apríl 1867; í eigu Stefáns óðalsbónda Guðmundssonar á Fitjum. — 430[25] þ. e. í því að ráða frá því að frv. um fjárhagsaðskilnaðinn yrði gert að lögum, en óska þess, að allt málið yrði lagt fyrir þjóðfund. — 431[6] Jón Thoroddsen.

**225**. Til Sigurðar L. Jónassonar, síðar skjalavarðar, 30. júlí 1867; Lbs. nr. 1484, 4to. — 432[10-11] þ. e. fyrir því að grundvallarlögin dönsku gildi hér á landi. — 433[6] Norðanfari VI, 17.—18. tbl.; Jón Sigurðsson svaraði greinum þessum í 28.—29. tbl. s. á. (23. júlí 1867) í grein: „Um bókmentafélagið". — 433[19] þ. e. kaupin eða makaskiptin á Bessastöðum.

**226**. Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 15. nóv. 1867; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 433[32]—434[1] þ. e. stjórnarmálið á alþingi 1867. — 434[5-10] í grein í Berlingi 14. nóv. 1867 leiðréttir Jón Sigurðsson frásögn blaðsins „Fædrelandet" 13. nóv. 1867 í grein, sem nefndist: „Brev fra Reykjavík 20. oktober 1867" um úrslit stjórnarmálsins á þingi 1867, og skírskotar til Alþingistíðindanna. En 15. nóv. flutti Berlingur aptur grein, auðkennda xxx, sem taldi frásögnina í „Fædrelandet" allskostar rétta, og segir að yfirlýsing H. Finsens stiptamtmanns um að alþingi hefði samþykktaratkvæði í stjórnarmálinu sé yfirvarp eða fyrirsláttur, er stjórnarandstæðingar hafi borið fyrir sig til þess að láta ekki bera á undanhaldi sínu, er hafi verið óumflýjanlegt; sbr. einnig 440[10-14]

**227**. Til etazráðs, prófessors Jap. Steenstrup 22. nóv. 1867; í eigu prófessors Jóhannesar Steenstrup.

**228**. Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 27. marz 1868; J. S. hs. nr. 519. 4to. — 436[1] Docent Paijkulls „En Sommer i Island", Rvk. 1867. — 436[10] Th. Zeilau: Fox-Expeditionen i Aaret 1860 etc. Kh.

1861. — 437[22-24] hér mun ef til vill átt við greinar þær sem getið er í aths. 434[5].

**229.** Til Árna landfógeta Thorsteinsson 30. marz 1868; í eigu frú Soffíu Thorsteinsson. — 438[18] sbr. 436[23].

**230.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 30. marz 1868; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 439[21] punctum saliens = aðalatriðið. — 439[26] málið = stjórnarmálið. — 440[10-14] sbr. 434[4].

**231.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 26. júní 1868; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 441[27-28] H. Kr. Friðriksson hafði átt í erjum við hreppstjórann í Seltjarnarnesshreppi út af nokkrum kindum, er hreppstjórinn hafði tekið fastar í landi hreppsins, og 3 ám Halldórs, er hreppstjórinn hafði látið taka og selt handa fátækrasjóð hreppsins. Var yfirréttardómur uppkveðinn í málum þessum 20. apríl 1868. — 441[29-30] Þjóðólfur XX. 115. bls.

**232.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 4. ág. 1868; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 442[32] viðbúinn hvorutveggju. — 443[10] = Austurför Kyrosar, sem þeir Gísli Magnússon og Halldór þýddu, og var gefin út í skýrslum lærða skólans.

**233.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 4. ágúst 1868; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — 444[7] Baldur mánaðar- og hálfsmánaðarblað. Útgefendur félag eitt í Reykjavík. — 444[9] = Jón Guðmundsson ritstjóri Þjóðólfs. (Þeir P. M. voru báðir málaflutningsmenn við yfirdóminn). — 444[16] viðleitni að koma sér í mjúkinn. — 444[17] illkvittni.

**234.** Til Sigurðar prófasts Gunnarssonar á Hallormsstað 21. ágúst 1868; í eigu frú Elísabetar Sigurðardóttur s. st. — 445[16] „Fjárhagsmál Íslands og stjórnmál, samband þeirra og saga“ (Ný Félagsrit XXV. 45.—152. bls.). — 445[19] dómsmstj.br. 18. jan. 1865 og 27. apr. 1863, sbr. Tíðindi um stjórnarmálefni Íslands II, 127. bls. aths. og II, 126.—143. bls. (sbr. einnig aths. 416[31]).

**235.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 16. sept. 1868; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — 448[14] sjá Þjóðólf XX. 147. bls.

**236.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 17. sept. 1868; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 450[35] Johnston, J. E. W., Catechismus i Agerdyrkningschemie, og Jordbundslære, Oversat af E. Thomsen. — 451[6-7] sbr. „Um fjárhagsmálið“ (Ný Félagsrit XXVI. 12.—25. bls.).

**237.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 24. nóv. 1868; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 453[6] sjá „Um fjárhagsmálið“ (Ný Félagsrit XXVI, 46.—85. bls.). — 453[11] „Fædrelandet“ 28. og 29. okt. 1868 flutti grein um fjárhagsskilnað Íslands og Danmerkur (stjórnarfrumvarp) og taldi stjórnina of heimtufreka fyrir Ís-

lands hönd. — 453[12] Jón Sigurðsson svaraði grein þessari með grein í „Fædrelandet“ 16. og 17. nóv. 1868: „Om Islands finansielle Forhold af Althingsmand Jón Sigurðsson“. Út af grein þeirri spannst síðan nokkur blaðadeila. — 454[5] Páll Melsteð var um tíma meðritstjóri Þjóðólfs með Jóni Guðmundssyni. — 455[4.5] úrslit málsins urðu þau, að eptir mikið vafstur dagaði málið loks uppi á ríkisþinginu, með því að því var slitið áður en málið næði að ganga fram, sbr. „Um fjárhagsmálið“ (Ný Félagsrit XXVI, 85.—354. bls.).

**238.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 24. nóv. 1868; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — 455[20] sbr. 453[12].

**239.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 26. des. 1868; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 456[9.10] sbr. 455[4.5]. — 456[29.30] Lehmann þótti stjórnin í frumvarpinu gera Íslandi og Íslendingum of hátt undir höfði með því að leggja undir samþykki þeirra ýmsar almennar greinar grundvallarlaganna og fara að Íslandi sem ríki. — 456[31] óhjákvæmilegt skilyrði. — 457[14.15] sjá 453[12]. — 457[36] sbr. Ný Félagsrit XXVI. — 458[10] íslenzka stjórnardeildin, sem O. var forstjóri fyrir.

**240.** Til Þorgeirs prests Guðmundssonar 22. jan. 1869; J. S. hs. 519, 4to. — 459[15.16] sennilega í einhverri blaðagrein.

**241.** Til Árna landfógeta Thorsteinsson 9. marz 1869; í eigu frú Soffíu Thorsteinsson. — 460[14.16] sbr. aths. 494[10]. — 460[27] eptir undirlagi verzlunarsamkundunnar í Reykjavík gekkst stórkaupmannafélagið í Kaupmannahöfn fyrir nefndarstofnun til að safna gjöfum í Danmörku til að afstýra bjargarskorti í Suðuramtinu og Vesturamtinu; safnaðist töluvert í peningum og matvöru og var korn og brauð síðan sent til Íslands til gefins úthlutunar haustið 1868 og um veturinn, sbr. að öðru leyti Þjóðólf XXI, bls. 21—22 og víðar. — 461[15] sbr. aths. 455[4.5].

**242.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 9. marz 1869; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 462[14] Jón Guðmundsson dvaldi í Kaupmannahöfn nokkra mánuði veturinn 1868—1869 (sbr. 459[19.20]) og hefir þá fundum þeirra nafnanna borið saman. — 463[24.25] tilsk. 2. febr. 1849, 15. gr., um einkarétt kandidata philol. til rektorsembætta við lærðu skólana og forgangsrétt til yfirkennaraembætta. — 463[34] gamli fatter = faðir hans, Bjarni amtmaður Thorsteinsson(?) 464[5] búnaðar-bollaleggingar. — 464[8.9] sbr. 464[24.26].

**243.** Til Páls sagnfræðings Melsteðs 9. marz 1869; í eigu Boga Th. Melsteðs sagnfræðings. — 464[27] = Jón Guðmundsson, sbr. aths. 444[9].

**244.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 15. apríl 1869; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 465[27] J. S. hafði ekki fengið neinar fregnir um kosningarúrslitin í Ísafjarðarsýslu, og kosn-

ing fór þar ekki fram fyr en 18. maí. J. S. var kosinn, en kosning hans var vefengd á alþingi af konungsfulltrúa og amtmanni sökum þess, að kjörskrárnar hefði eigi legið til sýnis almenningi lögskipaðan tíma á undan kjördegi, en kosningin var dæmd gild af þinginu með öllum greiddum atkvæðum. J. S. og hlutaðeigandi amtmaður Bergur Thorberg greiddu einir ekki atkvæði. — $466^{23}$ Árna Thorsteinsson. — $466^{34}$ = í einstökum atriðum. — $467^{4}$ Nautshyrninginn = Nutzhorn, dómsmálaráðgjafi sem hafði Íslandsmálin með hendi. — $467^{10.11}$ »Den islandske Forfatningssag i Landsthinget 1868—69“, udg. af Orla Lehmann, Kh. 1869.

**245.** Til Jóns ritstjóra Guðmundssonar 15. apríl 1869; í eigu dr. Bjarnar Bjarnasonar. — $468^{8}$ sjá aths. $467^{4}$. — $469^{16}$ Jón Guðmundsson mun hafa drepið á í bréfi sínu, hvar myndin af J. S. ætti að hanga, sbr. aths. $403^{21.22}$. — $469^{35}$ Runzival = Roncesvalles í Pyreneafjöllum, þar sem Rollant kappi féll. — $470^{2.3}$ skjaldsveinn DonQuijote riddara í skáldsögu Cervantes-Saavedra. — $470^{3.4}$ sbr. aths. $467^{10.11}$.

**246.** Til Torfa Bjarnasonar, síðar skólastjóra, 15. apríl 1869; í eigu viðtakanda. — $470^{18.19}$ Húnvetningar höfðu um þessar mundir ætlað að koma upp fyrirmyndarbúi; var í ráði að Torfi Bjarnason yrði forstöðumaður þess. Þegar til kom, fékkst ekki nægilegt fé til að koma upp búinu, sjá Þjóðólf XXI, 105. bls. o. s. frv. og Norðanfara VII, 33. bls. og VIII, 5. bls. o. s. frv.

**247.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 31. maí 1869; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $471^{13.14}$ bæði þessi frumvörp voru lögð fyrir alþingi 1869: Alþ.tíð. 1869 II, 10. og 21. bls. — $472^{29}$ clamamus = hugvekju. — $472^{36}$ prentvilla (Ný Félagsrit XXVI, 346. bls.). — $473^{14.15}$ Henrik Scharling: Dansk Tidskrift 1869 I, 401.—446. bls.: Forfatnings-Mellemværendet mellem Danmark og Island. En historisk Oversigt af S. T.

**248.** Til Jóns ritstjóra Guðmundssonar 31. maí 1869; í eigu dr. Bjarnar Bjarnasonar. — $474^{12.13}$. sbr. aths. $467^{10.11}$. — $474^{32}$ in petto = í huga. — $475^{3.4}$ sjá aths. $473^{13.14}$. — $476^{31}$ sbr. aths. $403^{29}$.

**249.** Til dr. Guðbrands Vigfússonar 29. júlí 1869; mun innan skamms komast í eigu Bodleian Library í Oxford. — $477^{7}$ R. Cleasby: An Icelandic-English Dictionary. Oxford, 1869—1874. — $477^{9}$ A few parallel specimens from the first three gospels. Oxford, May 17. 1869. — $477^{23.29}$ beinni ræðu — óbeina ræðu. — $478^{2}$ J. G. hafði verið þingmaður Vestur-Skaptfellinga alla tíð síðan 1845, en hafði nú ekki verið endurkosinn. — $478^{16.17}$ óumflýanlegt böl.

**250.** Til Sighvats Grímssonar Borgfirðings 10. ágúst 1869; í eigu viðtakanda.

**251.** Til prófessors K. Maurer's 18. jan. 1870; Lbs. nr. 1056, 4to. — $480^{24}$ sbr. aths. $465^{27}$. — $482^{13.14}$ sjá Þjóðólfsgreinar XXI. ár, sérstaklega 173. og 195. bls. — $482^{20}$ meðal annars bréf frá Reykjavík

dags. 27. sept. 1869 og 17. okt. 1869. — $483^{17.19}$ sbr. bréf 255: Til flokksbræðra á alþingi, 3. og 4. tölulið. — $483^{22.24}$ Aktstykker vedkommende den islandske Forfatnings- og Finantssag. Kh. 1870. — $483^{26}$ svarað miðvikud. 26. janúar 1870 (sjá Ný Félagsrit XXVII, 52. bls.). — $484^{1.2}$ sjá Ný Félagsrit XXVI bls. 12—336. — $484^{4}$ (vafasöm eða engin). — $484^{33.34}$ sbr. aths. $473^{14.15}$.

**252**. Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 10. marz 1870; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $486^{3}$ 27. apríl 1863; í bréfi þessu er sýnt, að verði ekki komið á fjárhagsskilnaði milli Danmerkur og Íslands, þá reki að því, að þarfir Íslands aukist jafnt og þétt, er ríkissjóður verði að standa straum af með vaxandi tillagi, þar sem það mundi örðugleikum bundið, að leggja nýjar álögur á Íslendinga til hinna nýju þarfa þeirra, meðan þeir hafi ekki sjálfir fjárráðin. — $486^{12}$ hér mun sérstaklega átt við greinar í „Norsk Folkeblad“ 5. febr. 1870 (eptir Jonas Lie) og 5. marz (eptir Björnstjerne Björnson). — $486^{16}$ greinarnar í „Le Nord“ mun Ólafur Gunnlögsson hafa ritað. — $486^{18.19}$ „Island und Dänemark“ útkomnar í marz og apríl 1870; endurprentaðar í riti Maurer's: „Zur politischen Geschichte Islands“ með titlinum „Zum isländischen Verfassungsstreite I“ (1870), þýddar á íslenzku í Nýj. Fél. XXVII, bls. 140—180. — $486^{22}$ sbr. $483^{22.24}$.

**253**. Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 30. apríl 1870; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $487^{20}$ í norskum blöðum birtist um þessar mundir mesti sægur af greinum um viðskipti Íslands og Danmerkur; mest kvað þó að greinarunu Björnstjerne Björnsons í Norsk Folkeblad: „Island og Norge“, sem vakti mikla eptirtekt bæði hér á landi og í Danmörku. — $488^{3}$ sjá aths. $486^{18.19}$. — $488^{6.7}$ sjá Norðanfara IX, 1. bls. o. s. frv. og (að líkindum) Baldur III, 9. bls. o. s. frv.

**254**. Til Sigfúsar bóksala Eymundssonar 13. maí 1870; í eigu viðtakanda. — $489^{6}$ Sigfús var þá í Björgvin að semja við félag eitt þar um að takast á hendur forstöðu fyrir verzlunarfélagi norsku, er ætlaði sér að reka verzlun hér á landi. — $489^{12.13}$ sbr. $487^{20}$.

**255**. Til flokksbræðra á alþingi 31. maí 1870; í eigu Sigfúsar bóksala Eymundssonar o. fl. Bréf þetta náði Jón Guðmundsson í og birti í Þjóðólfi XXIII. $^{24}/_{1}$ '71. Líka prentað í Norðanfara X, 20. bls.

**256**. Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 3. júní 1870; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $493^{10}$ tilsk. 10. ág. 1868 um breyting á ákvörðunum um gjald spítalahlutanna, sem svo eru nefndir, á Íslandi. — $493^{23}$ þ. e. burðargjaldið með póstskipi, sem ákveðið var af aðalpóststjórninni dönsku, sbr. Þjóðólf XXI, bls. 189. — $493^{28}$ í því tölublaði er bréf frá Reykjavík dags. 17. maí með ádeilu

við „Norsk Folkeblad“ og svæsnum skömmum um Jón Sigurðsson og íslenzku blöðin (Þjóðólf og Baldur), sem sé dauðhrædd við J. S. — $493^{32}$ sjá nr. 255· — $494^{10}$ á alþingi 1867 var sett á stofn nefnd til að safna samskotum til að halda þjóðhátíð fyrir 1874, og var tilætlunin jafnframt að gera steinhús handa alþingi með líkneski af Ingólfi upp á. Í þjóðhátíðarnefndina voru kosin stiptsyfirvöldin sem slík: Hilmar Finsen og Pétur Pétursson, landfógeti Árni Thorsteinsson og 2 alþingismenn: Jón Pétursson og Jón Guðmundsson. Alþingismenn 1871 urðu afhuga alþingishúsi úr steini, þegar það varð bert, að samskotin alls og alls náðu ekki nema rúmum 1500 rd., og þá var stungið upp á að verja fénu sem safnaðist til þess að fá samda Íslandssögu fram til 1874 (sjá Þjóðólf XXIV, 104. bls.), en málinu var að öðru leyti skotið til aðgerða alþingis 1873.

**257**. Til Sigfúsar bóksala Eymundssonar 11. júní 1870; í eigu viðtakanda.

**258**. Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 9. júlí 1870; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $495^{25}$ J. S. stefndi Bille, ritstjóra „Dagblaðsins“, fyrir grein þá sem nefnd er í aths. $493^{28}$ sbr. og Ný Félagsrit XXIX. 169.—175. bls. — $496^{9 \cdot 10}$ þ. e. skora á hann að leggja niður þingmennsku. — $496^{13}$ sbr. bls. $488^{7}$. — $496^{15}$ þ. e. þeim sem voru í minnihluta í stjórnarmálinu á alþingi 1869. — $497^{12}$ Björnstjerne Björnson hætti í miðjum klíðum sumarið 1870 við greinar sínar: „Island og Norge“. Síðari hluta árs 1871 hóf hann á nýjan leik máls á viðskiptum Íslendinga og Dana (sbr. Norsk Folkeblad 28. okt. 1871) sbr. einnig aths. $536^{27 \cdot 28}$ — $497^{15}$ annars legg eg til.

**259**. Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 19. ág. 1870; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $497^{25 \cdot 26}$ = styrjöldin milli Frakka og Þjóðverja sem hófst í júlí 1870. — $497^{29 \cdot 30}$ Halldór Kr. Friðriksson var framsögumaður í stjórnarmálinu 1869; quam maxime = sem mest má verða. — $498^{20}$ áskorun til Gríms að leggja niður þingmennsku. — $498^{21 \cdot 23}$ sbr. liðsbónina í Njálu.

**260**. Til Sigurðar málara Guðmundssonar 19. ágúst 1870; í skjalasafni Fornmenjasafnsins. — $499^{21 \cdot 22}$ safn af dýrasögum, sem á miðöldum hafa verið þýddar, sennilega eptir grísku frumriti, á flestar Norðurálfutungur. Um hinn ísl. Bestiarius sjá Aarböger for nordisk Oldkyndighed 1889.

**261**. Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 28. sept. 1870; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $501^{2 \cdot 3}$ hér mun átt við bréfið nr. 255, sbr. aths. við það. — $501^{18 \cdot 19}$ loforð konungs í ávarpi hans til Íslendinga (svari upp á ávarp, er þeir sendu honum er hann kom til ríkis) sbr. $507^{20}$ og $507^{32}$. — $501^{26}$ af ýmsum minnisgreinum J. S., sem til eru í safni hans, er það bert, að hann hefir

í mörg ár meðal annara mála borið póstmálið fyrir brjósti og skrifað upp ýmsa annmarka, sem hann taldi á póstsambandi Íslands við Danmörku og önnur lönd.

**262.** Til Sigfúsar bóksala Eymundssonar 29. sept. 1870; í eigu viðtakanda. — $503^{31-32}$ meining J. Sigurðssonar virðist hafa verið, að allt Ísland stofnaði eitt allsherjar verzlunarsamband undir stjórn íslenzkra manna. — $504^{30}$ sbr. aths. $501^{26}$.

**263.** Til ríkisþingsmanns dr. G. Winther's 4. nóv. 1870; í eigu fyrverandi ráðherra Hannesar Hafsteins. Þetta merkilega bréf, sem í raun réttri gæti fremur kallast ritgerð, ber að skoða sem síðustu viðleitni Jóns Sigurðssonar til þess að koma í veg fyrir að stöðulögin yrði valdboðin. Til samanburðar við bréf þetta skal vísað til ritgerðar J. S.: „Um stjórnarmálið“, Ný Félagsrit XXVIII, 1.—127. bls. Um afstöðu Winthers sjálfs til þessa máls, sbr. síðastnefnda ritgerð 32.—37. bls. — $515^{17}$ svona eins og gengur. — $516^{31-32}$ sbr. Hugvekja til Íslendinga (Ný Félagsrit VIII 17.—18. bls.) og grein í Berlingi 23. ágúst 1870, auðkennd, D-d, um fjármál og stjórnmál Íslands (sbr. Ný Félagsrit XXVII., 180.—186. bls.).

**264.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 7. nóv. 1870; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $519^{18}$ stöðulagafrumvarpið. — $519^{23}$ annaðhvort nú eða aldrei. — $520^{12}$ sbr. aths. $489^{6}$ og $503^{15}$. — $520^{15}$ Jón Ólafsson dvaldi þá í Björgvin og skrifaði blaðagreinar um íslenzk mál í norsk blöð; hér mun einkum átt við greinar hans: „IslanskeForhold“, I—IV í „Bergens Tidende“ í sept., okt. og nóvember 1870 sbr. einnig $522^{10-24}$. — $520^{19}$ tilsk. $^{10}/_{8}$ '68, sbr. aths. $493^{10}$. — $520^{21-22}$ Torfi alþingismaður Einarsson vildi á alþingi 1869 miða gjaldhæðina við aflann en ekki við skipsstærðina; en í stjórnarfrumvarpinu var gert ráð fyrir gjaldi á báta og skip (sbr. „Það var næst því sem Finsen vildi, að leggja á árarnar“).

**265.** Til Sigfúsar bóksala Eymundssonar 7. nóv. 1870; í eigu viðtakanda. — $522^{1-7}$ sbr. aths. $503^{31-32}$. — $522^{10-25}$ sbr. aths. $520^{15}$.

**266.** Til Hallgríms Sveinssonar, síðar biskups, 29. des. 1870; í eigu biskupsfrúar E. Sveinsson.

**267.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 4. marz 1871; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $524^{5}$ mun vera átt við Bemærkninger om islandske Forhold af Benedikt Gröndal, Kh. 1871. — $524^{11}$ opera, rit, ritsmíði.

**268.** Til Sigfúsar bóksala Eymundssonar 4. marz 1871; í eigu viðtakanda.

**269.** Til Jóns alþingismanns Sigurðssonar á Gautlöndum 14. marz 1871; J. S. hs. 144 fol.

**270.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 15. apríl 1871; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $527^{23-24}$ lýtur að 2

ritlingum, er B. Gröndal samdi um þessar mundir á íslenzku og dönsku: Frelsi — Mentun — Framför (Gefn 1871, 1.—51. bls.), sbr. aths. 524[5]. — 528[1] sbr. aths. 493[10] lýtur að mótspyrnu gegn tilsk. $^{10}/_{8}$ '68, er tók nú að grafa mjög um sig. — 528[14] hér er átt við bréfið nr. 255: Til flokksbræðra á alþingi, sbr. aths. við það. — 528[16-27] Sveinbjörn Hallgrímsson lét í blaði sínu „Ingólfi" prenta í heimildarleysi skýrslu þeirra Jóns Sigurðssonar um för þeirra á konungsfund eftir þjóðfundinn 1851. Skýrslan er dags. 15. apríl 1852 og Jón Guðmundsson reyndi jafnvel að hepta birtingu hennar með fógetabanni. — 529[1-4] J. S. er hér að skopast að greinum er þá komu út í Þjóðólfi: Stjórnarstöðufrumvarp Kriegers og stjórnarmál Íslendinga (Þjóðólfur XXIII, 10., 35. bls. o. v.). — 529[5] hér er átt við: „Frumvarp til laga um nýtt fyrirkomulag á fjárhagssambandinu millum Íslands og konungsríkisins".

**271.** Til Sighvats Grímssonar Borgfirðings 30. apríl 1871; í eigu viðtakanda. — 529[32] sbr. 520[21-22] og 528[1].

**272.** Til prófessors K. Maurer's 27. maí 1871; Lbs. 1056, 4to. — 531[24-25] „Danmark og Island. En statsretlig Betragtning af en Skandinav". Kh. 1871. — 532[18] óslitnar skýringar(greinir) sjá Ný Félagsrit XXVIII, 61.—127. bls. — 532[24] fræðinefni. — 532[25-26] lög eða lagaákvæði, er ekki má víkja frá, þótt báðir samningsaðilar séu á það sáttir.

**273.** Til dr. Guðbrands Vigfússonar 23. júlí 1871; mun innan skamms komast í eigu Bodleian Library í Oxford.

**274.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 21. sept. 1871; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 534[32-33] lýtur að fréttapistlum Hoskjærs til „Dagblaðsins", sennilega einkum að „Brev fra Island", Dagbladet 23. Aug. 1871. — 535[10-11] samin af þingmönnum á alþingi 1871. — 535[21] Heimdal, vikublað, ritstjóri Carl Rosenberg, mikill vinur Íslendinga.

**275.** Umburðarbréf til flokksbræðra 3. nóv. 1871; í eigu frú Elísabetar Sigurðardóttur á Hallormsstað. — 536[20-24] sbr. aths. 534[32-33]. — 536[27-28] sbr. aths. 497[12]; í sambandi við það sem þar er sagt, má geta þess, að „Bergens Tidende" 9. okt. 1871 kemst svo að orði: „Det er ikke kjönt af „Fædrelandet" at lade Björnson höre ilde fordi han sluttede med sine islandske Artikler, naar man tænker hvad Grunden dertil var. Det saa ud til at Danmark havde en Krig for Dören, en Krig for undertrykte Landsmænd".

**276.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 5. nóv. 1871; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 539[7] Mýrasýsla var með kgsúrsk. $^{4}/_{3}$ '71 skilin frá Hnappadalssýslu og veitt $^{22}/_{5}$ s. á. E. Th. Jónassen, en sama dag losnaði Borgarfjarðarsýsla, er hafði þangað til verið embætti fyrir sig; var hún þá ekki auglýst laus,

heldur tók stjórnin upp hjá sjálfri sér að sameina hana við Mýrasýslu og veitti E. Th. J. báðar sýslurnar. Þessar aðfarir stjórnarinnar vöktu töluvert umtal og óánægju (sbr. Þjóðólf XXIV, 4. bls. og Ný Félagsrit XXIX, 154.—155. bls.).

**277.** Til Sigfúsar bóksala Eymundssonar 6. nóv. 1871; í eigu viðtakanda. — $540^{25.26}$ sbr. $539^{10.16}$.

**278.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 27. des. 1871; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $542^{25}$ Þjóðólfur XXIV. 33. bls. getur um ávarp þetta sem pukursverk Þjóðvinafélagsins. — $542^{36}$ hér er átt við veitingu Reykjavíkurbrauðsins, sem Hallgrímur Sveinsson hlaut fyrir Jónasi Guðmundssyni (sbr. Þjóðólf XXIII. 189. bls.). — $543^{1}$ sbr. aths. $539^{7}$. — $543^{14}$ Halldór átti í máli við þá út af 2 kindum, er þeir höfðu selt til skurðar, af því þær hefðu verið kláðasjúkar eða kláðagrunaðar. Halldór vann loks málið í yfirrétti. — $543^{16}$ sbr. aths. $493^{28}$ og $495^{25}$.

**279.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 28. febr. 1872; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $543^{26}$ tilsk. um gjald á brennivíni og öðrum áfengum drykkjum $^{26}/_{2}$ '72. — $543^{27}$ áætlun um tekjur og gjöld Íslands á reikningsárinu $^{1}/_{4}$ 1872 til $^{31}/_{3}$ 1873 útg. $^{26}/_{2}$ 1872. — $543^{28}$ alþingi (1871) hafði ráðið frá að stjórnarfrv. um eptirlaun B. Sveinssonar yrði gert að lögum að svo stöddu, en réð til að úrskurður dómstólanna yrði fenginn um réttmæti frávikningarinnar. — $544^{3.4}$ afl þeirra hluta er gera skal þ. e. = fjárhaginn. — $544^{17}$ Þingeyingar urðu á sýslufundi $^{8}/_{6}$ 1870 frumkvöðlar að stofnun Þjóðvinafélagsins; síðan var þingmönnum skrifuð áskorun á alþing 1871 að gangast fyrir stofnun félagsins; urðu þeir við áskoruninni og sömdu lög fyrir félagið sbr. aths. $535^{10.11}$. — $544^{25}$ Glasgow hið mikla verzlunarhús þeirra Henderson & Anderson & Co. frá Glasgow átti nú að selja, því að verzlunin hætti. Halldór kveðst í bréfi til J. S. dags. $^{28}/_{2}$ 1872 hafa talað um tillögu J. S. við Finsen, biskup og Jón Guðmundsson. sem voru í samskotanefndinni, en það hafði ekkert uppá sig. — $545^{27}$ efst á Eyjafjallajökli sjá Þ. Th. Landfræðissaga III. 155. bls.

**280.** Til Jóns ritstjóra Guðmundssonar 28. febr. 1872; í eigu doktors Bjarnar Bjarnasonar. — $545^{32}$ sbr. $544^{25}$. — $547^{11.12}$ sbr. $543^{28}$.

**281.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara 14. apríl 1872; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $548^{5}$ hér er átt við ávarp til konungs, sem verið var að fá menn til að skrifa undir á bak við Jón Guðmundsson. Það var prentað heimildarlaust í Þjóðólfi XXIV, 66—68. bls. — $548^{26}$ með leyfilegu eða óleyfilegu móti. — $549^{6}$ líklega styrk þeim sem J. S. hafði mörg ár úr ríkissjóði, 400 rd. — $549^{10}$ hér mun átt við grein í Bergens Tidende 1872 tbl. 101. Um grein þá sjá Þorvaldur Thoroddsen: Æfisaga Péturs Pét-

urssonar 151.—152. bls. — 549[22.23] sbr. aths. 539[7]. — 549[32.33] við 3. umræðu fjárlaganna 1872 bar þingmaður einn, Schleppegrell prestur, þá sök á hendur Jóni Sigurðssyni, að hann hefði komið jafn fjandsamlega fram við Danmörku sem nokkur Slesvíkur-Holtseti á sinni tíð, og fyrirætlun hans væri að sundra (danska) ríkinu; J. S. væri, eins og forseti fólksþingsins hefði komizt að orði, „mótstöðumaður hinnar dönsku þjóðar“. Jón Sigurðsson bar þessa ásökun af sér í Heimdal (febrúar 1872) og árétti síðan andmæli sín í ítarlegri og merkilegri grein í Heimdal (19. mars 1872). — 550[9] Halldór hafði stungið upp á, ef Félagsritunum yrði breytt, að út væri gefið tímarit, er kæmi út 4 sinnum á ári, samtals 24—28 arkir.

**282.** Til Sigurðar prófasts Gunnarssonar á Hallormsstað 5. maí 1872; í eigu frú Elísabetar Sigurðardóttur s. st. — **551**[10] sbr kgsúrskurð 29. júní 1872 um laun landshöfðingja, skipun ritara við landshöfðingjaembættið, sameining suðuramtsins og vesturamtsins undir einum amtmanni o. fl.

**283.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 25. maí 1872; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 552[18.25] sbr. aths. 551[10].

**284.** Til Jens rektors Sigurðssonar 25. maí 1872; í eigu Jóns assessors Jenssonar. — 554[24] gullbrúðkaups-legat Bjarna amtmanns Thorsteinssonar.

**285.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 6. júlí 1872; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 556[1] hér er átt við ymsar stjórnarráðsstafanir þeirra H. Finsens landshöfðingja og Kriegers dómsmálaráðgjafa, er fór þá með íslenzku málin, sbr. Ný Félagsrit XXIX, 122—165 bls. (sjá sérstaklega 152.—163. bls.). — 556[19] tyrones = nýgræðingar. — 556[20] sjá Þjóðólf XXIV. 120. bls. þar sem skýrt er frá, að á héraðsfundi Rangvellinga hafi brúarmálið og Þjóðvinafélagið komið til umræðu á þann hátt sem nefnt er í bréfinu.

**286.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 15. ágúst 1872; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 558[30] Tíminn, mánaðarblað I—III, $^{6}/_{8}$ 71—$^{21}/_{12}$ 74, byrjaði að koma út á Akureyri, síðar í Reykjavík. Útgefendur: „Nokkrir Reykvíkingar“. — 559[1] sbr. B. M. Ólsen: Jón Sigurðsson og Bókmenntafélagið (Skírnir 1911, 253.—254. bls.); hér mun átt við fund Reykjavíkurdeildarinnar 6. júlí 1872.

**287.** Til Torfa Bjarnasonar, síðar skólastjóra, 25. sept. 1872; í eigu viðtakanda.

**288.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 26. sept. 1872; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 561[10] hér er átt við fund, sem Páll Vídalín, eptir sögn Halldórs, stefndi þingmönnum til að vestan og norðan. Hlutverk fundarins, sem haldinn skyldi að

Þingeyrum, var að ráða ráðum sínum um, hvað andstæðingar stjórnarinnar skyldi taka til bragðs út af gjörðum stjórnarinnar í stjórnarbótarmálinu. — 562[11] Jón Sigurðsson, norskt strandferðaskip, sem norska verzlunarfélagið „Samlaget“ hélt úti (mansali er orðaleikur vegna nafnsins). — 563[25] ad interim = fyrst um sinn.

**289.** Til Jens rektors Sigurðssonar 26. sept. 1872; í eigu Jóns assessors Jenssonar. — 564[32] bréfi Reykjavíkurdeildarinnar 26. júlí 1872; sjá nánar um þetta mál í Skírni 1911, 254.—255. bls. — 565[26] Sigurður Melsteð lektor.

**290.** Til Jóns ritstjóra Guðmundssonar 26. sept. 1872; í eigu dr. Bjarnar Bjarnasonar — 566[16-17] önnur greinin, sem hér er átt við, mun vera grein í Þjóðólfi XXIV, 163. bls. Hilmar Finsen kærði Jón Guðmundsson fyrir grein þessa hjá ráðgjafa og vildi láta höfða sakamál á hendur Jóni samkvæmt 91. gr. hegningarlaganna, en stjórnin sinnti því ekki; aptur á móti hótaði hún Jóni afsetningu frá málflutningsstarfanum, ef slíkt kæmi fyrir aptur. Jón birti bréf ráðgjafa dags. 12. sept. 1872 í Þjóðólfi.

**291.** Til Sigfúsar bóksala Eymundssonar 6. nóv. 1872; í eigu viðtakanda.

**292.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 7. nóv. 1872; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar.

**293.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 28. febr. 1873; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 570[22] Jens rektor Sigurðsson lézt 2. nóv. 1872. — 572[15] Benedikt Sveinsson gaf út snemma árs 1872 ritling einn („Fullnaðardómur hins íslenzka landsyfirréttar í málinu B. Sv. gegn H. Th. A. Thomsen“ o. s. frv.). Fór hann í ritlingnum hörðum orðum um yfirréttardóm 18. sept. 1871 í máli milli hans og H. Th. A. Thomsens kaupmanns í Reykjavík, um vatnsveitingar og þvergirðingar í Elliðaánum m. fl., og sveigði allmjög að háyfirdómara og 2. meðdómanda. Út af ritling þessum reis málaþras mikið, sem hér er vikið að (sjá nánar Hannes Þorsteinsson: Æfiágrip Benedikts sýslumanns Sveinssonar, Andvari XXV, 14.—16. bls.). Málin féllu á B. S. — 572[27] drottinsvik. — 572[28] sjá Ný Félagsrit XXIX, 122.—165. bls. — 572[29] varð gjaldþrota og seldi allt snemma á árinu 1873. — 573[2] Ávarp til Sunnlendinga um fiskverkun eptir J. S. er birt í Þjóðólfi XXV, 87.—88. og 96.—97. bls.

**294.** Til Sigurðar prófasts Gunnarssonar á Hallormsstað 12. apr. 1873; í eigu frú Elísabetar Sigurðardóttur s. st. — 573[11-12] „Örnefni frá Jökulsá í Axarfirði austan að Skeiðará, eptir síra Sigurð Gunnarsson á Hallormsstað“ (Safn til sögu Íslands II, 429.—497. bls.).

**295.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 16. apríl 1873; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 574[27-28] sjá aths. 379[28-29].

**296.** Til Jóns ritstjóra Guðmundssonar 16. apríl 1873; í eigu dr. Bjarnar Bjarnasonar. — $575^{31.32}$ J. S. á hér að líkindum við 2 greinar í Þjóðólfi XXV, 54. og 73. bls.

**297.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 26. sept. 1873; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $576^{13.15}$ vorið 1873 og allt sumarið langt fram á haust birtust fjölmargar greinar í dönskum og norskum blöðum um viðskipti Dana og Íslendinga, sem hér verða ekki taldar. Í norsku blöðunum anda flestar greinarnar hlýjum hug til Íslendinga, en sumár eru ærið svæsnar í garð Dana, og sumar þeirra eru auðsjáanlega samdar af íslenzkum námsmönnnum í Kaupmannahöfn, eins og meðal annars dulnefnin „Brandr" og „Grjótgarðr" benda á. Félag eitt er nefndist „Atgeirinn" gekkst einkum fyrir samningu slíkra greina, og var Sigurður Jónsson fósturson og systurson J. S. einna fremstur í því. Einstöku greinar í dönskum blöðum eru heldur vinveittar í garð Íslendinga (svo sem greinar nokkrar í „Dansk Ugeblad", ritstjóri dr. Rosenberg) og sama er að nokkru leyti að segja um fréttapistla Jóns Jónssonar frá Álaborg til „Dagblaðsins". — Við annan tón kveður í greinum Gísla Brynjólfssonar í Berlingi í ágúst og september „Om den islandske Forfatningssag og Udsigterne til dens endelige Afgjörelse" (endurprentaðar í: Gísli Brynjólfsson: „Om Islands statsretlige Forhold til Danmark", Kh. 1889 með formála Arnljóts Ólafssonar). Einna lúalegastar árásir á J. S. og aðdróttanir til hans flytur þó „Dags-Telegrafen" 10. ág. 1873 í grein: „Fra Island", sem J. S. og fleiri hafa eignað Gísla Brynjólfssyni.

**298.** Til prófessors K. Maurer's 14. okt. 1873; Lbs. 1056, 4to. — $578^{5.6}$ fréttapistill í „Dagbladet" 11. ág. 1873. — $578^{9}$ sbr. Ný Félagsrit XXIX, 166.—175. bls. — $578^{36}$ þ. e. Andvari. — $579^{16}$ sbr. aths. $576^{13.16}$ niðurlag. — $579^{21}$ sjá „Om Islands statsretlige Forhold til Danmark 85. bls. — $579^{26}$ Torfæus: Historia Norv. IV, 454 bls. — $579^{27}$ Crymogæa III, 127 bls.

**299.** Til Sigurðar prófasts Gunnarssonar á Hallormsstað 10. nóv. 1873; í eigu frú Elísabetar Sigurðardóttur s. st.

**300.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 15. nóv. 1873; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $581^{30}$ sbr. $579^{16}$ og aths. $576^{13.15}$.

**301.** Til Björns prófasts Halldórssonar í Laufási 27. febrúar 1874; í eigu Þórhalls biskups Bjarnarsonar. — $582^{32}$ Stjórnarskrá um hin sérstaklegu málefni Íslands 5. janúar 1874. — $583^{16}$ sbr. Andvara XXXVI, 1.—4.

**302.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 27. febr 1874; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $584^{6}$ sbr. $583^{16}$. — $584^{35}$ þ. e. fjárstyrk sem J. S. var heitið sbr. $592^{9.12}$.

**303.** Til Jóns Jenssonar, síðar yfirdómara, 27. febr. 1874; í

eigu viðtakanda. — $585^{24}$ = kristileg smárit. — $586^{20-21}$ sjá aths. $583^{16}$.

**304.** Til Jóns alþingismanns Sigurðssonar á Gautlöndum 27. febrúar 1874; J. S. hs. 144. fol. — $587^{25}$ sbr. $581^{26}$. — $588^{5-6}$ sbr. $583^{16}$. — $588^{7}$ „Almanak hins íslenzka Þjóðvinafélags um árið 1875«.

**305.** Til Sigfúsar bóksala Eymundssonar 27. febrúar 1874; í eigu viðtakanda. — $589^{19-20}$ sjá aths. $583^{16}$.

**306.** Til Sigurðar prófasts Gunnarssonar á Hallormsstað 27. febrúar 1874; í eigu frú Elísabetar Sigurðardóttur s. st. — $590^{14-15}$ sbr. aths. $583^{16}$. — $590^{31}$ sjá aths. $573^{11-12}$.

**307.** Til Þorvalds héraðslæknis Jónssonar á Ísafirði 27. febrúar 1874; í eigu viðtakanda. — $592^{6-8}$ sbr. aths. $583^{16}$.

**308.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, síðar yfirkennara, 15. apríl 1874; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $593^{22-25}$ Hall hefir sennilega látið J. S. skilja að embætti með 2000 rd. launum lægi ekki á hverju strái og ef til vill sett upp einhver skilyrði um afskipti J. S. af stjórnmálum. — $593^{26}$ um veitingu rektorsembættisins.

**309.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara 27. maí 1874; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $594^{17}$ hér er átt við þakkarávarp frá embættismönnum og nokkrum þingmönnum til konungs og ávarp sem síra Sigurður Sivertsen á Útskálum hafði að sögn komið af stað sbr. $596^{1-2}$. — $594^{19}$ J. S. mun hér eiga við grein um stjórnarskrána m. m. sem hann birti í „Dags-Telegrafen“ 20. maí 1874 sem svar upp á grein í sama blaði 16. maí s. á. „Fra Island“, er Gísli Brynjólfsson var talinn höfundur að. J. S. talar í grein þessari um þakkarávörp embættismanna og nokkurra þingmanna til konungs, starf og stefnu Þjóðvinafélagsins, telur stjórnarskrána spor í rétta átt, en óskar að hún verði síðasta valdboð Dana. — $595^{13}$ sbr. $593^{32-33}$. — $595^{22}$ hér mun átt við grein Gísla Brynjólfssonar í Dagstelegrafen 27. og 28. maí: „Hr. Jón Sigurðsson og den isl. Forfatningssags Afgjörelse“. — $595^{23-24}$ hér mun vera átt við C. Berg fólkþingmann; hefur verið nokkur pólitískur kunningsskapur með J. S. og honum sbr. bréf eitt frá J. S. til Bergs, dags. 12. des. 1876; en óvíst hvort það hefir nokkurn tíma verið sent (J. S. hs. 144 fol.) — $596^{2-3}$ Landshöfðingi hafði þá með augl. $^{2}/_{2}$ 1874 bannað netalagnir í Faxaflóa framundan Gullbringusýslu fyrir 14. marz ár hvert (sbr. síðar lögin $^{7}/_{11}$ 1875).

**310.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar, yfirkennara, 6. júlí 1874; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — $596^{32}$ Þjóðvinafélagið gekkst fyrir þjóðhátíðinni á Þingvöllum. — $597^{16}$ „Stjórnarskrá Íslands“. Andvari I, 1.—138. bls. — $597^{27-28}$ „Fjárhagur og reikningar Íslands“. Andvari II, 1.—118. bls. — $597^{35-36}$ J. S. mun hér eiga við merki-

lega grein sem hann birti í „Morgenbladet“ 4. júlí 1874 og nefndi: „Hr. Gisli Brynjulfssons Fremstillinger“. — 598[1-2] Vinstrablaðið = „Morgenbladet“. — 598[8-9] sjá Andvari I, 139.—164. bls.

**311.** Til Sigfúsar bóksala Eymundssonar 6. júlí 1874; í eigu viðtakanda. — 599[15] Sigfús lagði þá fyrir sig ljósmyndagjörð.

**312.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara 15. ágúst 1874; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar.

**313.** Til Björns Jónssonar, síðar ráðherra, 26. sept. 1874; í eigu viðtakanda. — 602[26] þ. e. „Ísafold“.

**314.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara 26. sept. 1874; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 604[17-18] hér er átt við ritgjörð Sveins búfræðings Sveinssonar: „Leiðarvísir til að þekkja og búa til hin almennustu landbúnaðarverkfæri“, sem Þjóðvinafélagið gaf út 1875. — 604[20] = jeg þakka fyrir. — 604[21] þ. e. riddarakrossinn. — 605[1-6] Mun lúta að ræðuhöldum þeirra E. M. og Gr. Th. á þjóðhátíðinni. — 605[16] skuld sú sem leiddi af hátíðahaldinu við konungskomuna og Þingvallafundinum 1874. — 605[22-24] sbr. 561[27-30]. — 606[18] sbr. 601[16-19].

**315.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara 7. nóv. 1874; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 607[25-27] hér mun átt við þáttinn: „Um skóla á Íslandi“ (Ný Félagsrit II, 67.—167. bls.).

**316.** Til Björns Jónssonar, síðar ráðherra, 11. marz 1875; í eigu viðtakanda. — 609[12-13] sjá Andvara XXXVI, 10.—14. bls. — 611[17] sjá Ísafold II, 41. bls.

**317.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara 12. marz 1875; í eigu Halldórs Daníelssonar. — 612[15-16] sjá 609[12-13]. — 613[10-12] sbr. aths. 604[17-18]. — 614[3] vandlætari. — 614[17] styrkþega.

**318.** Til Torfa Bjarnasonar, síðar skólastjóra, 20. marz 1875; í eigu viðtakanda. — 615[25-26] sbr. aths. 604[17-18].

**319.** Til Þorvalds héraðslæknis Jónssonar 30. ágúst 1875; í eigu viðtakanda.

**320.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara 26. sept. 1875; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 617[11-12] lög um löggildingu verzlunarstaðar við Blönduós, staðf. 15. okt. 1875, voru stíluð svo, að þau skyldi ná gildi 1. jan. 1876. Stjórninni þótti birtingarfresturinn of naumur, þar sem lögin myndu ekki geta orðið birt hlutaðeigendum fyrir nefndan dag; en samkvæmt gömlu birtingaraðferðinni voru lög þá birt á manntalsþingum. — 617[15] á alþingi 1875 var í kláðamálinu samþykkt þvingunarfrumvarp, sem heimtaði takmarkaðan niðurskurð, en því var synjað staðfestingar sbr. ráðg.bréf 4. nóv. 1875. — 617[15-17] ávörpin frá þinginu til konungs voru frá sameinuðu þingi, en samkv. stjórnarskránni 21. gr. hafa þingdeildirnar einar rétt til að senda konungi ávörp. — 617[26] Mávi = Morits sonur Halldórs Friðrikssonar, síðar læknir.

**321.** Til Þórhalls Bjarnarsonar, síðar biskups, 14. nóv. 1875; í eigu viðtakanda. — $620^{5.6}$ fyrir milligöngu Björns prófasts Halldórssonar eignaðist Jón Sigurðsson margar bækur úr búi síra Benedikts Vigfússonar á Hólum, og þar á meðal ýmsar fágætar.

**322.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara 16. nóv. 1875; í eigu Halldórs assessors Danielssonar. — $620^{19}$ Mun vera útfararminning Sig. biskups Stefánss. prentuð á Hólum 1799. — $621^{26}$ Jón Jónss. ritari var með landsh. br. $^{9}/_{9}$ og $^{13}/_{10}$ 1875 sbr. lh. br. $^{20}/_{1}$ 1876 skipaður af landshöfðingja lögreglustjóri með dómsvaldi til upprætingar fjárkláðanum. En þetta dómsvald hans var dæmt ónýtt af hæstarétti $^{30}/_{1}$ '77. Síðan fékk hann kgl. umboðsskrá til hins sama, og hún stóð. — $622^{16}$ Annars legg eg til. — $622^{23.24}$ Í lok alþingis 1875 fólu alþingismenn Jóni Sigurðssyni sem forseta að flytja konungi kveðju þingsins og beztu óskir.

**323.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara 29. febr. 1876; í eigu Halldórs assessors Danielssonar. — $623^{26}$ sjá Andvara XXXVI, 18.—22. og 22.—26. bls. (bréf VI og VII).

**324.** Til Jóns alþingismanns Sigurðssonar á Gautlöndum 27. maí 1876; J. S. hs. nr. 144 fol. — $625^{5.8}$ Þeir Þ. B. og J. S. höfðu verið saman um að boða til Þingvallafundar þá um vorið, til að ræða ráðstafanir til útrýmingar fjárkláðanum, sjá Ísafold III, bls. 24. — $625^{15}$ sjá aths. $623^{26}$ (bréf VI). — $625^{23}$ sjá aths. $623^{26}$ (bréf VII). — $625^{24}$ sbr. $615^{25}$ og $623^{30.31}$. — $625^{25}$ Skýrsla Þjóðvinafélagsins fyrir 1873—75. — $626^{18.19}$ hér mun átt við ýmsar fyrirspurnir til landshöfðingja, sem bornar voru upp á alþingi 1875, sjá Alþingistíð. 1875, II, 362.—379. bls. — $626^{26}$ hér er átt við ritgjörðina: „Hið íslenzka Þjóðvinafélag" í Andvara III, 1.—25. bls.

**325.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara 26. sept. 1876; í eigu Halldórs assessors Danielssonar. — $627^{10.11}$ „Um rétt íslenzkrar tungu", Andvari III, 26.—53. bls. — $627^{18}$ sjá ritgjörðin: „Gylfastraumurinn og lönd þau, er að honum liggja", Andvari III, 54.—90. bls. — $627^{20}$ „Um meðferð mjólkur og smjörs, og um osta tilbúning" eptir Svein Sveinsson, Andvari III, 91.—135. bls.

**326.** Til Guðmundar búfræðings Ólafssonar á Fitjum 6. nóv. 1876; í eigu Stefáns óðalsbónda Guðmundssonar s. st.

**327.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara 6. nóv. 1876; í eigu Halldórs assessors Danielssonar. — $631^{6}$ umboðsskrá konungs fyrir Jón ritara. dags. 26. sept. 1876 til þess að dæma mál, er lytu að fjárkláðanum var staðfest af hæstarétti með dómi í maí 1878, en vefengd og dæmd ónýt af yfirrétti í okt. 1877. — $631^{26}$ Skapti Jósefsson átti um þetta leyti í málum út af meiðyrðum um Berg Thorberg og einkum um Halldór Kr. Friðriksson, og lauk málum þessum með yfirréttardómum tveim haustið 1877 og var Skapti sektaður í

báðum. — 631$^{25.26}$ sbr. aths. 572$^{15}$ niðurlag. Haustið 1876 var Benedikt Sveinsson dæmdur í hæstarétti í tveim málum fyrir meiðyrði um Þórð Jónassen og Magnús Stephensen.

**328.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara 14. apríl 1877; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar.

**329.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara 10. nóv. 1877; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar. — 633$^{21.22}$ hér er átt við málaþras sem Halldór Kr. Friðriksson lenti í út af Þjóðvinafélaginu við Jón ritara (sbr. 634$^{24.26}$) og virðist J. S. hafa átt mestan þátt í því að málin féllu niður.

**330.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara 28. febr. 1878. — 635$^{10.11}$ skrifstofustjóraembættið í stjórnardeildinni íslenzku var veitt dönskum manni H. Stephensen en ekki Júlíusi Havsteen, sem þar hafði verið aðstoðarmaður um hríð. Íslendingar í Kaupmannahöfn sendu þá ráðgjafa áskorun um, að hlutast til um, að Íslendingar væru framvegis látnir sitja fyrir embættum á skrifstofunni. — 635$^{19}$ Hér er átt við lög 27. febr. 1878 um kirkjutíund í Reykjavíkur lögsagnarumdæmi. Þessi lög, sem miðuðu til þess að útvega dómkirkjunni auknar tekjur, þóttu ósanngjörn í garð Reykvíkinga, þar sem kaupstaðarhús annarsstaðar á landinu voru skattfrjáls. Þeim var einnig breytt á næsta þingi og látin ná til allra húsa á landinu, er eigi fylgdu jörð, er metin væri til dýrleika, og skatturinn jafnframt lækkaður um helming, sbr. lög 19. sept. 1879 um kirkjugjald af húsum.

**331.** Til Halldórs Kr. Friðrikssonar yfirkennara 14. apríl 1878; í eigu Halldórs assessors Daníelssonar.

---

# Mannanöfn[1]).



1) Nöfn þeirra manna, sem bréf eru til í safninu, eru hér prentuð með skáletri.

---